MC.LC
MG66

# MINNINGARRIT

# ÍSLENZKRA HERMANNA

1914—1918



288052
1. 6. 33

Útgefendur:
Felagið JÓN SIGURDSSON, I.O.D.E., 591 R. of C.
Winnipeg, Manitoba
1923

*Minningu hinna ungu og hugprúðu íslenzku manna, er fórnuðu lífi sínu fyrir hugsjónir friðar og mannréttinda, er bók þessi tileinkuð með hjartfólginni þökk.*

**Útgefendurnir.**

# Formáli.

Heimsstyrjöldin mikla, er hófst með friðslitunum í Norðurálfunni sumarið 1914, hefir orðið efni til margra rita og bóka er út hafa komið nú á síðari árum. Tilgangurinn með bókum þessum mun alloftast hafa verið sá, að greina frá þeim atburðum öllum er þá gerðust og mestum umræðum og álitaskiftum sættu, og skýra frá orsökum þeirra og tildrögum. En þær skýringar hafa viljað fara nokkuð eftir því, frá hvaða sjónarhæð hinna andstæðu hópa innan þjóðfélagsins höfundarnir hafa horft, eða hverri þjóðinni, er í höggi átti, þeir sjálfir heyrðu til. Enn virðist vera of skamt liðið frá því er þessir atburðir gerðust, til þess að saga þeirra verði rituð.

Það skal því strax fram tekið, að engan þvílíkan tilgang hafa útgefendurnir sett sér með riti þessu, þó hins vegar skipa megi því í flokk með hinum öðrum bókum, er að efni til má rekja til þessa ægilegasta og jafnframt hörmulegasta Hildarleiks, er háður hefir verið svo sögur fari af. Miklu fremur mun óhætt vera að fullyrða, þegar litið er til höfuðgreina bókarinnar — Annars og Þriðja kaflans — það eitt vakti fyrir útgefendunum að segja, á mjög svo takmarkaðan hátt frá orðnum atburðum, en að því eina leyti sem þeir, fyrir rás viðburðanna, hafa gripið inn í æfi einstakra manna og kvenna íslenzkra, er svo að segja stóðu mitt á orustuvellinum. Eigi má það þó svo skiljast, að rit þetta eigi að svara spurningunni: "Hvað höfðust Íslendingar — íslenzka þjóðin — að meðan heimur barðist?" Þá hefði orðið að haga efnisvali þess með alt öðru móti en gert er, og skýra frá ótal mörgu, er hér er alls eigi drepið á með einu orði. Út frá því er gengið sem sannsögulegum og sjálfsögðum hlut, að eigi fremur nú en endranær — nema síður til — hafi atburðir þeir, er voru að gerast út um heiminn, getað sneitt svo hjá þjóð vorri, að þeirra hafi hún eigi orðið vör, eins og högum hennar og bústöðum er komið, í álfunum tveimur, á þessum öðrum tug tuttugustu aldarinnar. Spurningunni er því eigi svarað nema í þeirri einu grein, hverjir fóru til herbúða, hverjir á orustuvöll, hverjir buðu sig fram og hverjir urðu fyrir útboði, er her var saman dreginn af öllum löndum. En þótt eigi sé ítarlegar út í þetta farið er þess samt vænst, að rit þetta eigi heima í Safni til sögu Íslands. Því svo má líta á, að hvar sem Íslendinga getur, þar sé þjóðarinnar getið. Hún er þar mitt á meðal þeirra og þar er saga hennar að gerast. Íslenzka þjóðin er að því leyti sérstök meðal þjóðanna, að afskifti hennar af alþjóðamálum eru, og hafa svo jafnan verið, afskifti hinna einstöku sona hennar og dætra. Efni bókarinnar tekur því eigi yfir annað né meira en nafnið bendir til, það er Minningarrit íslenzkra hermanna, er liðsþjónustu veittu á þessum tíma. Með öðrum orðum, ritið er helgað minningu þeirra manna, er komnir eru af íslenzkum ættum í annað eða bæði kyn, er liðu, stríddu og létu lífið í þessu veraldarbáli. Atburðunum, er óhamingjunni hrundu yfir heiminn, hirðir það eigi um að halda á lofti, nema að því leyt sem vitna verður til þeirra sem sögu.

Ritgerðirnar í I. flokki eru svo ljósar, að eigi þarf að skýra tilgang þeirra. Ber að skoða þær sem einskonar söguefsting megin-flokkanna, II. og III. Ætlast höfundarnir eigi til, að þær tæmi þau efni, sem þær fjalla um. Rúmsins vegna urðu þeir að hafa þær sem styztar, og gátu því á fátt eitt drepið, sem annars hefði til sögu komið. Bókarstærðin var þegar frá upphafi ákveðin 32 sextán síðu arkir, og var rúmi því, er afgangs var æfiminningunum, jafnað niður á milli ritgerðanna. Var ákvörðun þessari fylgt gagnvart öllum fyrsta flokki, en svo er kom að síðustu ritgerðinni, var út af þessu brugðið og henni eigi afskamtað fastákveðið rúm. Varð því eigi við komið, því ritgerðin er nokkru lengri en hinar allar til samans. Að vísu hefði mátt stytta hana, en hún var svo síðla búin, að eigi þótti tími til að endursenda hana og fá höfundinn til að draga hana saman. Hefði það haft all-langa töf í för með sér, en búið var þá að bíða um nokkurn tíma eftir niðurlagi hennar. Afréðu því útgefendurnir, að bæta heldur einni örk við bókarstærðina, svo ritgerðin fengi komist þar öll fyrir, en að draga útgáfu bókarinnar enn

*um óákveðinn tíma. Um efni þessarar ritgerðar þarf ekkert að segja, né um hinar ýmsu sögulegu staðhæfingar, sem þar eru gerðar. Þó er eigi óhugsandi, að tíminn eigi eftir að leiða í ljós ýmislegt, er breytt geti þeim staðhæfingum og jafnvel fært til orsakaröðina.*

*Með þessu fyrirkomulagi bókarinnar er þá fylgt mjög svo algengu fyrirdæmi íslenzkra minningarrita, er virðist vera búið að vinna sér til hefðar meðal þjóðarinnar, en sem því miður er hvorki ávalt sem heppilegast né bóklegast, þó að það eigi sæmilega vel við hér, og öðru yrði eigi við komið, eftir því sem komið var. Í fyrsta lagi var þessi tilhögun á ritinu ákveðin strax í byrjun, er fyrst kom tl greina að það yrði gefið út. Og út frá þeirri samþykt var svo gengið við alla efnissöfnunina. Hefði verk það alt orðið að mestu ónýtt, ef út af hefði verið brugðið, þegar að því kom, að fara átti að prenta. Þá var og hitt, að atburður sá, er verið var að minnast (innritun Íslendinga í Sambandsherinn) stóð í svo föstu sambandi við aðra enn víðtækari atburði (Heimsstyrjöldina og herútboð stórveldanna), að þess hlaut að vera getið á einhvern hátt. Að því athuguðu, má telja vafasamt, þó lengi megi um það deila, hvort annað fyrirkomulag hefði farið betur.*

*Sem ritið ber með sér, er það gefið út og kostað af félagi íslenzkra kvenna í Winnipeg, — félaginu "Jón Sigurðsson", er stendur í hinni svonefndu Alríkisreglu Dætra Ríkisins, og á Regluskránni í Canada tölusett hið 591. Hið lögfesta nafn félagsins, og þar með hið enska, er: "The Jón Sigurðsson Chapter, of the Imperial Order of the Daughters of the Empire and of the Registry of Canada number 591".*

*Um Reglu þessa hefir mjög lítið verið ritað á íslenzku og mun því mörgum vera ókunnugt um verkefni hennar og tilgang. Er það því eigi óviðeigandi, að skýrt sé frá uppruna hennar og höfuð einkennum í sem fæstum orðum. Regla þessi var stofnuð hinn 13. febrúar í borginni Montreal í Canada árið 1900, og hét stofnandinn frú Clark Murray. Er ætt hennar upprunnin frá Englandi. Um tildrögin að stofnun Reglunnar skal eigi rætt, en hins má geta, sem alkunna er, að í Montreal skiftast borgarbúar að mestu leyti í tvo þjóðflokka. Er annar af enskum, en hinn af frönskum ættum. Hafa þjóðflokkar þessir deilt sín á meðal um völdin í háa tíð og hvor um sig lagt hið mesta kapp á að ná sem öflugustum yfirráðum í iðnaðar- og uppeldismálum og yfir höfuð í félagslífi borgarinnar. Hefir þetta friðsamlega kapp orðið til þess að dýpka og rótfesta þjóðernismeðvitundina hjá báðum fram yfir það, sem annarsstaðar á sér stað í landinu. Skýrir þetta, ef til vill að sumu leyti, siði og hið ytra form Reglunnar og lagaákvæði, sem er enskt í anda og að orðfæri. Inntökuskilyrði reglunnar voru upphaflega þau, að umsækjandi væri af brezkum ættum og borinn til borgararéttar innan brezka ríkisins, eða hefði öðlast þann rétt. Reglan var nefnd* Alríkis (Imperial) Regla, *því hún átti að ná til allra landa, og í einingu saman tengja allar konur hins brezka ríkis, hvar sem þær voru búsettar. Takmarki þessu hefir eigi verið náð enn og Reglan eigi breiðst til muna út fyrir Canada, nema til Nýfundnalands, Bahama og Bermuda eyjanna. En samskonar félög hafa þá risið upp annarsstaðar, svo sem "The Victoria League" (stofnuð 1901) á Englandi "The Navy League", einnig á Englandi (stofnuð 1904) og "Hands Across the Sea", bandalag brezkra kvenna í Bandaríkjunum. Er samband með öllum þessum félögum og tilgangur þeirra að mestu leyti hinn sami. Gefa þau sig við ýmsikonar líknarstarfsemi jafnframt því sem þau eiga að vekja og viðhalda í huga þjóðarinnar og innræta hinni yngri kynslóð virðingu fyrir hinu brezka ríki, stofnunum þess og stjórnarfari og hvarvetna hvetja þegnana til hollustu við land og konung. Má því virðast svo sem að reglan sé að siðum og setningi fremur konungsinnuð og íhaldssöm við nýbreytni og lýðkröfur. En þess mun meira gæta í siðaskipaninni, en í sjálfu starfinu, og fremur mega teljast til umbúðanna en kjarnans. Aðalverk Reglunnar til þessa hefir gengið eingöngu í mannúðarátt, almenningi til stoðar og styrktar, til bóta fyrir nágrennið og þjóðfélagið, þar sem Reglan hefir náð til. Einkum hefir hún reynt að bæta kjör þeirra manna og kvenna, er í þjónustu ríkisins hafa verið og miklu orðið að fórna en lítið að launum tekið. Kom þetta greinilega í ljós á ófriðarárunum í fjársöfnun og framlagi til sjúkrahúsa, til ekkna og munaðarlausra barna látinna hermanna og til hjúkrunar særðum og sjúkum. Þá hafa og hinar ýmsu deildir jafnan látið fátækramálin til sín*

*taka og eftir föngum reynt að bæta úr nauðlíðan hinna umkomulausu og snauðu.*

*Reglan er stofnuð, sem nafnið ber með sér á alríkisgrundvelli og getur því í verkinu náð til allra hluta ríkisins jafnt. Þetta var hennar stærsti kostur, þegar til þess kom á ófriðarárunum, að fá haldið óslitnu sambandi við þá menn, er fóru úr landi og nota þurfti til þess milligöngu alríkisstjórnarinnar, og komast þurfti yfir einangrunar- og varnarmúrana, er settir voru um herinn. Þá var Reglan sem næst jafnrétthá ríkinu.*

*Sem gefur að skilja, var enginn félagsskapur til meðal Íslendinga af þessu tagi, né meðal hinna annara þjóðflokka, er til landsins höfðu flutt á undangengnum árum, en breytingar þær er voru í vændum, gerðu það brátt fyllilega ljóst, að hans var þörf. Félagsskapur þeirra stóð að mestu leyti um sérmálin þjóðernislegu og kom að öðru leyti almennum málum hins canadiska ríkis eigi við. Gat þessu vel farið fram upp að þeim tíma, að ófriðurinn brauzt út. En þá varð mjög snögg breyting á öllu saman. Því skipulagi innan þjóðfélagsins, er varað hafði upp til þess tíma, var kollvarpað og annað sett í staðinn. Enda byggðist það eigi á fullkomnum lagarétti. Að vísu voru til samningar, er gerðir höfðu verið af undanfarandi stjórnum við sérstaka þjóðflokka, er til landsins höfðu flutt, og bera virtust með sér þjóðernislega viðurkenningu í almennum skilningi. En samningum þessum mátti ryfta eða breyta, að vild þings og stjórnar, og er það samkvæmt brezku réttarfari, er veitir þingviljanum æðsta úrskurðarvald og lagavald í öllum málum. Ríkið var yfir öllu, og ríkið var enskt. Þetta var hið sanna og kom nú fyrst áþreifanlega í ljós. Í orði kveðnu vissu menn þetta áður, en höfðu sem næst enga hugsun að því leitt og áttuðu sig því eigi á þessum breytingum. Fram að þessum tíma hafði ríkið skift sér lítið sem ekkert af högum einstaklingsins, stöðu hans og starfa. Nú var öðru máli að gegna, það var dregið inn í allsherjar ófrið, er enginn fékk gizkað á, hve lengi mundi vara. Til valdsins var gripið, sem það átti yfir fjöri og frelsi þegnanna. Það var eigi lengur sambýli margra þjóðflokka, er allir fóru að sínum siðum og sinna ferða, — einskonar bandalag útleitarmanna er tjölduðu til náttstaðar — heldur var það nú í einni svipan orðið* eitt ríki, ein lög, ein þjóð, ein tunga, *og hinni miklu sundurgreiningu í sérskyld þjóðerni burtu kipt, sem hún hefði aldrei verið til. Ríkinu og lögunum voru allir* jafnskuldbundnir *að hlýða, hverrar þjóðar sem voru, til hvers sem var. Þetta veitti mörgum erfitt að skilja, því það brá svo algerlega út af fornri venju. Þá fanst og mörgum það eigi einleikið, ef þeir áttu að nefna Bretland* móðurland sitt,*er ættaðir voru víðsvegar að úr Norðurálfunni. Ef nú samband átti að haldast millum þeirra, er út voru kvaddir, og hinna, er eftir sátu, bréf og sendingar að fara á millum frænda og vina, varð að nota ríkisleiðina. Ef til félagsskapar var efnt til að fylgjast með örlögum þeirra, er í herþjónustu gengu, hlaut félagsskapur sá fyrst og fremst að teljast til ríkisins áður en hann gat tileinkast einhverju ákveðnu þjóðarbroti í landinu. Þetta skýrðist fyrir fólki, eftir því sem fram í sótti. Með þessu er þó eigi gefið í skyn, að á öll ættar- og þjóðernisbönd væri brugðið, innbyrðis meðal þjóðbrotanna. Engar breytingar innan þjóðfélagsins hefðu orkað því. Það var því aðal hlutverk þjóðarbrotanna, hvers um sig, að hlynna að samþjóðarmönnum sínum, eftir því sem föng voru á, en jafnframt haga öllum verkum eftir þessum alþjóðar-mælikvarða.*

*Á fyrsta ári ófriðarins höfðu engir minstu hugmynd um, hvað til tíðenda væri að bera. Margir ólu þá vissu von í huga, að til skarar myndi skríða innan skams. En er bréf fóru að berast af orustuvöllunum, mannfall að spyrjast og fregnir að flytjast af herútbúnaði öllum, gat engum dulist, að til friðar myndi eigi draga að svo komnu, en hríðin verða hörð og löng, hver svo sem endirinn yrði. Engar líkur voru til þess, að menn þeir fengju skjótlega heimfararleyfi, er farnir voru, en öllu fremur til hins, að bið gæti orðið til endurfunda. Urðu þá og einhverjir til þess að benda á, að margra smáþægginda færu menn þessir á mis, er þeir áður hefðu notið, og auðvelt væri enn að veita þeim, ef vilji væri til. Alt væri þeim skamtað úr hnefa, matur og drykkur, fatnaður og fé. Fréttir hefðu þeir og fáar að heiman, en úr því mætti bæta, ef samtök væru með að skrifa þeim við og við og segja þeim, hvað heimafyrir væri að gerast. Myndi það að nokkru bæta þeim burtuveruna og draga úr leiðindum þeirra og heimþrá. Þá lét*

*og Hermálastjórnin þess getið, að hún myndi greiða fyrir smásendingum að til skila kæmust, og kvað helzt skorta myndi, sokka, vetlinga, klúta, trefla, tóbak og sætindi.*

*Varð nú þetta til þess, að á hinu öðru ári ófriðarins var byrjað á því að safna nöfnum og áritan hinna burtu förnu hermanna. Tóku sig þá til bæði einstakir menn og félög að skrifa þeim og senda þeim þessar smá-nauðsynjar. Voru það einkum hin innlendu kirkjufélög, er fyrst gengust fyrir þessu. Sem eðlilegt var, völdu þau úr þá mennina, er þeim höfðu verið áhangandi og kunnu einhver deili á. Hinir urðu útundan og fóru varhluta í skiftunum, er þeim voru síður kunnir. En í þeim flokknum voru Íslendingar og aðrir af útlendum uppruna, er úr landi voru farnir. Það varð því eigi eingöngu nauðsyn, heldur sjálfsögð þjóðarskylda, að Íslendingar alment sæju svo um, að í þessu efni skyldu hinir ungu landar þeirra eigi gjalda ættar sinnar og uppruna.*

*Er fjársöfnunin stóð sem hæst til þessa fyrirtækis, hjá hinum innlendu kirkjudeildum, tóku Ungmennafélög íslenzku safnaðanna í Winnipeg sig saman um að fara að þeirra dæmi og efna til jólasendinga til íslenzku hermannanna, er yfir um voru farnir. Birtu þau áskoranir í íslenzku blöðunum til sveitanna, að styrkja þetta mál. Var því vel svarað og safnaðist á skömmum tíma meira fé en þurfti þá í bili til jólagjafanna. Þó nú þannig væri af stað farið, var vanséð um áframhaldið meðan enginn fastur félagsskapur tók þetta sérstaklega að sér. Þá var og engin fullkomin skrá yfir þá, er gengnir voru í herinn. Kvartanir heyrðust um það, að sumum bærust margar sendingar, en öðrum fáar eða engar. Þá var og eigi bréfaskiftum haldið uppi við þá, er farnir voru og enga áttu nákomna ættingja og vini. Til þess að ráða bót á þessu, ákváðu nokkrar konur í Winnipeg að stofna félag, er tæki alt þetta verk að sér, og svo það líka, að líta til með fjölskyldum burtu farinna hermanna, er einhvers liðsinnis þyrftu með. En það kom brátt í ljós, að þær voru margar. Skyldi félagið standa í sambandi við "Alríkisreglu Ríkisdætranna". Með því var trygging fengin fyrir því, að starf félagsins kæmi að tilætluðum notum. Fundur var boðaður að heimili frú Jóhönnu Guðrúnar Skaptason (sjá bls. 96), 378 Maryland stræti, hinn 20. marz um vorið, árið 1916. Gekst hún aðallega fyrir félagsstofnuninni. Til fundar komu 20 konur, en fimm sendu skeyti til fundarins og kváðu sig samþykkar fundarefni. Á fundi var deildarforseti Reglunnar yfir Manitoba, ekkjufrú Colin H. Campbell. Skýrði hún fyrir fundarkonum starf og stefnu Reglunnar. Að erindi hennar loknu var samþykt í einu hljóði að stofna íslenzka deild Reglu þessarar, og var deildin nefnd eftir Jóni Sigurðssyni forseta, "og skyldi félaginu nafn hans vera æfinleg hvöt í stríði og starfi til allra góðra hluta". Inngönguheitinn lögðu fundarkonur af við frú Campbell, völdu frú Skaptason til forseta, ungfrú Þóru Sigurðsson til skrifara, ungfrú Kristínu L. Hannesson til féhirðis. Varaforsetar voru kosnir frú Björg Anderson Carson (sbr. III., bls. 412); Frú Sophía Runólfsdóttir Brynjólfsson; merkisberi ungfrú Ólöf Oddsson og fregnritari ungfrú Jónína Johnson. Þá voru þær ungfrú Anna B. Skaptason (sbr. II, bls. 96), frú Guðrún Borgfjörð og frú Elinborg Hansson (sbr. II, bls. 149), kjörnar af fundinum í deildarráð félagsins. Ekkjufrú Lára Bjarnason og frú Rannveig Jónasson voru kjörnar heiðursforsetar. Á næsta fundi bættust við tólf konur, og svo á hverjum fundi eftir það fleiri og færri, unz tala félagskvenna var orðin nær tveimur hundruðum.*

*Frú J. Guðrún Skaptason veitti félaginu forstöðu fram til haustsins 1916, að hún fór til Englands. Var þá frú Björg Carson skipuð í hennar stað og hafði hún að mestu leyti alla forstöðu félagsins fram til stríðsloka, eða einmitt yfir það tímabilið, er félagið var sem mest starfandi. Hafði hún ærið verk með höndum. Að því loknu og þá er farið var fyrir alvöru að vinna að útgáfu þessarar bókar, tók frú Soffía Brynjólfsson við, og hefir hún verið forseti félagsins síðan.*

*Félagið tók þegar til starfa. Byrjaði það strax á því að safna nöfnum Íslendinga, er í herinn höfðu gengið. Jók það skrána ár frá ári, því svo að segja daglega bættust einhverjir við. Þá safnaði það ógrynni af prjónles, svo sem treflum, sokkum og vetlingum, ennfremur peningum til þess að kaupa fyrir tóbak, sætindi og ýmislegt fleira. Var þetta búið upp í smáböggla, og sent með jöfnu millibili til þeirra, er farnir voru. Þá var og allnokkru fé varið til hjálpar fátækum fjölskyldum, er ýmist höfðu mist fyrirvinnu*

*sína í herinn eða áttu við megnt heilsuleysi og atvinnuskort að stríða. Í einum hermannaspítala Winnipegborgar, er Manitobadeild Reglunnar kom á fót, lét það búa upp sjúkradeild að öllu leyti á sinn kostnað, til minningar um fyrsta íslenzka piltinn, er féll á Frakklandi, Magdal Hermannsson (sjá III, bls. 411). Einnig efndi það til skemtana fyrir pilta, er komu utan af landsbygðinni og dvöldu í herbúðunum, en fáa áttu kunningja meðal borgarbúa. Gerði þetta þeim dvölina skemtilegri, er annars var allmörgum full-leið og löng. Frá stofnun félagsins og til stríðsloka, mun það hafa haft saman, eingöngu í peningum, $8000.00. Rúmir $6000.00 gengu til styrktar og aðhlynningar hermönnum og skylduliði þeirra, mest til Íslendinga. — En út í þessa grein félagsins þýðir eigi lengra að fara.*

*Með því fyrsta sem félagið byrjaði á, eftir að það tók til starfa, var að koma á bréfasambandi við hina íslenzku unglinga — því flest voru þetta unglingar um og innan við tvítugt — er úr landi voru farnir. Varð þetta að lokum umfangsmikið verk, því eftir því sem leið á ófriðartímann, fór tala þeirra stöðugt vaxandi, er sendir voru úr landi, unz svo taldist til, að út væru farnir eitthvað á annað þúsund manns. Sérstakar konur höfðu þessar bréfaskriftir með höndum, og má þá einkum nefna til frú Guðrúnu Jóhannsdóttur Búason, er seinna vann einna mest að undirbúningi þessarar bókar (fædd á Ingveldarstöðum á Reykjaströnd 20. júní 1875, dáin í Winnipeg 16. ágúst 1921, sbr. III, bls. 457). Við bréfaskriftir þessar jukust félaginu kynni af mönnum þessum, kjörum þeirra og kringumstæðum, því frá mörgu var sagt og eftir mörgu spurzt. Myndaðist við þetta náið vinasamband milli þess og þeirra, er hélzt óslitið upp til þess tíma er þeir hurfu heim aftur, eða feigðarörin skóp þeim aldur um örlög fram. Félagið fylgdist með hverri hreyfingu, er gerð var á herstöðvunum og orustuvöllunum og svo að segja leitaði drengjaliðsins íslenzka meðal lifenda og dáinna eftir hvern bardaga. Svo varð þetta verk hjartfólgið þeim, sem að því unnu, og einkum frú Búason, að með sanni má segja, að um annað hugsaði hún eigi fremur, árin sem hún átti eftir ólifuð.*

*Oft bar það við, að bréf bárust í hendur félagskonum almörgum vikum eftir að spurzt hafði lát þeirra manna, er ritað höfðu. Voru þetta stundum síðustu bréfin, rituð deginum eða kvöldinu fyrir dauða þeirra, en bárust þetta seinna úr bardaganum en dánarfregnin. Má þá nærri geta hvaða hugrenningar þau hafa vakið hjá málkunningjunum, er orðnir voru heimafyrir. Flest voru þau skrifuð með ritblýi, letrið dauft, stundum í flýti; en stundum líka nokkrar línur pennadaginn og svo bætt við hinn næsta. Öll voru þau hugsuð út frá baráttu orustuvallarins með skugga óvissunnar miklu fyrir augum, hina óleystu gátu morgundagsins.*

*Bréf þessi voru lesin og lögð til síðu. Þeim varð ekki svarað á sama hátt og verið hafði. Í slóð þeirra fylgdust svo embættisseðlar Hermálastjórnarinnar, er skýrðu frá legstað og greftran hinna látnu, — oftast með sömu orðunum.*

*Áttu bréfaskiftin að enda með þessu? Eftir lifði minning um menn þessa og það sem þeir höfðu verið að hugsa um og ræða stundinni áður. Heimtaði ekki réttlætisskyldan að minningu þeirri yrði gefið líf, ef unt væri, þótt þeim sjálfum yrði eigi forðað við dauða? — Og var þá bréfunum eigi bezt svarað með því? — Með hvaða hætti það yrði helzt gert, gat verið álitamál, og þó var eigi nema eitt til, ef unt væri, að skýra svo hina daufu rithönd, að orðin yrðu læsileg, svo þeim, er tíminn fjarlægði sjálfa atburðina, sem hinum er nær stóðu.*

*Það má því að nokkru leyti segja, að bréf þessi yrðu til þess að byrjað var á útgáfu bókar þessarar. Eftir því sem fréttirnar urðu tíðari af mannfallinu í hinum dreifða íslenzka her, eftir því varð sú hugsun sterkari, að þannig væri eigi unt að skilja við grafirnar á "Flæmingja-landi", svo að þeirra er sváfu þar svefni ólifðum, yrði eigi með öðru getið en ljósmálaða krossinum, er Hermálastjórnin lét setja að höfðum þeirra.*

*Upphaflega átti þó ritið aðeins að geta um þá, er fallið höfðu eða dáið af sárum, vera til minningar um þá — og því var það nefnt Minningarrit íslenzkra hermanna. En við nákvæmari íhugun var þeirri ákvörðun fljótlega breytt. Nokkrir önduðust í herbúðum, komust aldrei á orustuvöll, létu lífið sem hinir, og hver vildi dæma það dýrarar einum en öðrum? Þá voru og margir, er lífs komust af, en létu hönd eða fót eða biðu örkuml önnur, er þeir svo bera allan aldur — var þess að engu getandi? Þannig óx efnið og varð æ yfirgripsmeira, unz ákveðið var, að getið skyldi*

*allra, er innritast höfðu við herinn, frá ófriðarbyrjun til stríðsloka. Samþykt þessi mun hafa verið gerð síðla ársins 1918.*

*Í fljótu bragði virtist eigi í stórt ráðist með þessu. Félagið hafði safnað á skrá nöfnum þeirra manna allflestra, er út höfðu farið, og talið var sjálfsagt, að nöfn hinna fengjust strax og eftir þeim væri spurt. Þá var og talið víst, að upplýsingar mætti fá hjá ættingjum og venzlamönnum svo að segja fyrirhafnarlaust um alla, og þyrfti eigi annað en gera almenningi aðvart. Tilgangurinn með ritinu er svo skýr, að eigi var unt að hugsa sér, að hann yrði með nokkru móti misskilinn: Að geta þeirra allra, er íslenzkir voru í aðra eða báðar ættir, er í herinn höfðu gengið meðan á ófriðnum stóð, fæðingarstaðar þeirra, heimilisfangs, foreldranafna, og ættar lengra fram, ef unt væri, úr hvaða héröðum á Íslandi þeir væru upp runnir og að hverju þeir hefðu starfað meðan á herþjónustunni stóð. Um meira var eigi hugsað og ekki gert ráð fyrir að segja ítarlega sögu hvers og eins, því þó félaginu væri það að nokkru leyti hulið, hvað margir hefðu farið í herinn, þá vissi það, að þeir voru svo margir, að eigi yrði hægt að rita langt mál um hvern einn og fara eigi fram úr áætlaðri stærð bókarinnar. Með því að rekja ættir þeirra til Íslands, var sambandi náð og sögutengslum við heimaþjóðina, er vonast er til að þýðingu geti borið síðar, ef um þá verður spurt, er vestur hafa flutt. Með þessu gátu og kaflar þessir orðið skiljanlegri mönnum, er annars þektu eigi til manna þessara af nafninu einu.*

*Með ársbyrjun 1919 byrjaði félagið að safna heimildum, birti áskoranir þess efnis í íslenzku blöðunum og skrifaði til manna í hinum ýmsu bygðarlögum, er tóku að sér að leita upplýsinga um þá, sem þaðan höfðu farið. Urðu margir vel við þessari kvöð, og er það þeim mikið að þakka, að skráin er eigi ófullkomnari en hún er. Án þeirrar aðstoðar hefðu fjölda margir eigi verið uppi spurðir, bæði fjær- og nærlendis, er þó er getið í ritinu. Svo margir hjálpuðu til, að of langt yrði upp að telja nöfn þeirra allra. Leyfir því félagið sér að þakka þeim öllum sameiginlega þeirra góðu liðveizlu. Þá urðu og foreldrar og ættingjar margir til að aðstoða félagið. Minnist það margra bréfa úr þeim áttum, sem bæði voru greinileg og þannig löguð, að þau gátu eigi annað en vakið hina dýpstu samúð í hjörtum þeirra, er að ritinu hafa unnið, með þeim er þau rituðu, og margir hverjir höfðu á bak að sjá ástkærum syni eða bróður. Er það einkum við samning III. flokksins, að stuðst hefir verið við þessi bréf.*

*Fyrst framan af hvíldi mest af verkinu við að safna heimildum, á herðum frú Guðrúnar Búason. Var það að nokkru leyti sökum þess, að hún var málinu einna kunnugust, hafði annast að miklu leyti bréfaskriftir til hinna utanförnu hermanna, og svo vegna hins, að hún óskaði þess sjálf. Gat hún þess við félagskonur, að hún kysi helzt að mega vera ein um þetta verk. Var henni sem öðrum óljóst, hvaða vinnu það útheimti, bjóst jafnvel við að geta lokið því og komið bókinni út innan árs. En þetta fór á annan veg. Var hún þá farin að finna til heilsubilunar, er ágerðist með mánuði hverjum. En þess meir gaf hún sig að verkinu, sem hún fann að tíminn styttist. Útgáfunefnd setti félagið henni til aðstoðar. Í fyrstu gat sú nefnd lítið gert, því sjálf varð hún að hafa alla fyrirsögn, ráð og að mestu aðferðinni, er notuð var við söfnunina.*

*Í ágústmánuði 1919 lét hún útbúa spurningablað, er síðan var prentað og sent (2. sept.) til allra hermanna, er voru á nafnaskrá félagsins. Þó spurningar þessar væru all-ítarlegar, hefðu þær þó þurft að vera enn greinilegri og þá verið spöruð margföld vinna eftir á, er farið var að vinsa úr blöðum þessum. Má þar sérstaklega benda á, að eigi var nógu rækilega spurt eftir nöfnum* foreldranna hvors um sig, ætt þeirra og uppruna, *en spurningin þannig löguð, að henni mátti eins svara á þessa lands vísu, er sniðin er eftir boðorðinu, að maðurinn og konan sé eitt, — og þetta eina sé maðurinn. Henni var því þráfaldlega svarað á þessa leið: "5. sp. Foreldrar? Mr. og Mrs. N. N. Hvar fædd? In Iceland. Heimilisfang? Selkirk, Man". Kostaði þetta, að skrifa varð aftur, og þá spurt eftir fleiru, eigi ósjaldan beðið um ritað æfiágrip, er var sent: voru þá heimildinar orðnar tvær, og sín með hvoru móti, svo að sami maðurinn var nefndur réttu skírnarnafni og föðurnafni á öðru blaðinu, en ættar eða viðurnefni föðursins á hinu. Gat þetta ollað eigi litlum ruglingi — og jafnvel tvítekningu — er farið var að skrifa æfisögu-ágrip-*

*in, er eigi varð leiðréttur nema með nákvæmum samanburði og fyrirspurnum á ný. Alt þetta drógst í tíma og tafði fyrir. En frú Búason virtist óþreytandi, og það eftir að hún var lögst í rúmið. Hélt hún áfram að skrifa, eða lét skrifa fyrir sig, eftir nýjum og nýjum upplýsingum. Búin var hún að safna vel tveim þriðju hlutum til II. og III. kaflans, er hún andaðist, en flest var það á lausum blöðum og eigi til nokkurrar hlítar frá því gengið. Hlaut nú það verk að falla þeim í skaut, er tóku við og sérstaklega þurftu að sjá um undirbúning ritsins til prentunar — leita þeirra upplýsinga, er enn vantaði. Þó nú eigi væri lengra á veg komið en þetta, má þó óhætt fullyrða, að án þessa mikla undirbúningsverks frú Búasonar, væri ritinu enn eigi lokið, og vanséð, hvort því hefði nokkurntíma verið lokið.*

*Tók nú útgáfunefndin algerlega við. Unnið hafði nefndin bæði að mynda og upplýsingasöfnun, og átt í allmiklum bréfaskriftum, einkum síðasta árið er frú Búason lifði. Hún hafði og útvegað áætlun um prentkostnað, um steypukostnað við myndirnar og samið við útsölumenn að safna áskriftum. Þá hafði hún og fengið vararáðherra Baldwin L. Baldwinson til að yfirfara heimildir og skýrslur og rita æfisögu-ágrip "hinna afturkomnu hermanna" (í II. fl.). Er hann allra manna kunnugastur hinum íslenzku bygðarlögum og sérstaklega eldri kynslóðinni, er frá Islandi hefir flutt. Var honum það góður styrkur við þetta verk. Flest þessi ágrip mun hann hafa ritað 1920, og skal athuga, að við þann tíma er miðað það sem þar er sagt. Geta ýmsar breytingar hafa gerst síðan á högum manna, svo sem bústað þeirra, atvinnu o. fl. Af eitthvað 1045 æfisöguágripum í II. fl. hefir hann ritað um 800. Nokkur bárust honum þannig, að hann breytti þeim eigi að neinu, en þau voru ekki mörg. Flest hinna hafa verið rituð jafnóðum og prentað hefir verið.*

*Um þenna II. flokk er það að segja, að þó hann sé einskonar ættartölu- og æfisögu-safn þeirra manna, er í herinn gengu, og eigi alls ekki að vera annað, þá er þó svo til ætlast með þeirri niðurskipan, sem fylgt er, fái hann veitt hugmynd nokkra um, hvernig herútboðinu var varið, en það var aðeins hægt með því að fylgja fastri tímaröð í frásögninni, svo að hvert ár myndaði kafla út af fyrir sig. Færir þá hvert ár fram sinn flokk, en þó svo að röðin er óslitin frá fyrsta til hins síðasta, svo að allir flokkarnir, er þeir eru framhjá farnir, verða ein óslitin samstæð sveit á hergöngu. Það varð því nauðsynlegt, að skjóta nöfnum hinna föllnu og dánu inn í þessa röð eins og gert er. Annars var sveitin eigi talin öll. Svo gáfu og nöfnin þeirra til kynna, hversu fylkingarnar skörðuðust.*

*Um æfisöguágripin sjálf má geta þess, að þau eru fæst svo greinileg, sem óskað hefði verið, en um það er þó eigi þá að saka, er þau rituðu. Þeir gátu óvíðast farið langt fram úr heimildunum, þó þeir gerðu það sumstaðar, þar sem þeir þektu bezt til. Víða kemur það fyrir, að ekki er getið fæðingarstaðar, eða aldurs eða móðurnafns þess, sem verið er að segja frá. En því er þess eigi getið, að um það gátu heimildirnar eigi heldur. Þá fylgja og eigi myndir alstaðar. Hepnaðist útgefendunum eigi að fá þær, þrátt fyrir stöðugar tilraunir og staka iðni, og ítrekuð opinber tilmæli í íslenzkum og enskum blöðum í full fjögur ár. Fyrirgreiðslan var eigi meiri en þetta sumstaðar, né skilningur á tilgangi ritsins. Nokkrir neituðu* að veita nokkrar upplýsingar um sig eða fyrir *hönd sinna. Tvennir foreldrar—eigi voru það þó nema tvennir, — afsögðu að ljá mynd eða láta æfisögu-ágrip barna sinna birtast í ritinu, fyrir þá sök, að bókin væri gefin út á íslenzku!. Aðrir álitu, að bókin myndi verða eftirkomandi kynslóðum hernaðarhvöt, og vildu eigi bera það á samvizkunni að verða óbeinlínis sök í því, að Islendingar vektu upp nýtt veraldarstríð, er fram liðu stundir! Allur er varinn beztur. Gegn þannig löguðum mótbárum urðu allar röksemdir að engu. Eftir það var eigi nema á einn stað að fara, — í skjalasafn hins opinbera, og tína upp úr því það lítið, sem þar fyndist. En þar var aftur sá hængur á, að erfitt var að greina þjóðerni á nöfnunum einum, er mörg eru hvert öðru lík.*

*Þriðji flokkurinn, sem hann ber með sér, er eiginlega sá flokkurinn, sem ritinu gefur nafn. Hann er einskonar minningasafn, fáort og ófullkomið, um þá, er lífið létu á einn eða annan hátt af völdum ófriðarins. Var svo til ætlast, að þessar minningar gætu orðið að einhverju leyti greinlegri en æfiágrip hinna er lífs komust af. Þeim var því ætlað svolítið meira rúm. En hér fór sem með æfisögu-brotin, að upplýsingar og heimildir réðu*

*þar um mestu. Þó urðu greinar þessar allflestar of langar, ef settar hefðu verið á sama letri og hinar; eru þær því prentaðar með smærra letri, en þó svo skýru, að erfiðari aflestrar verða þær eigi fyrir þá skuld.*

*Byrjað var á prentun ritsins snemma á síðastliðnum vetri. Þó var það ljóst, að enn vantaði marga. Meðan á prentun stóð var bætt við um 130 æfiágripum til beggja flokkanna, annars og þriðja. Nokkrar þeirra voru teknar upp úr bók, er út kom í bænum Crystal í Norður Dakota og heitir "Pembina County in the World's War", og myndirnar, er þeim fylgja. Eru myndir þessar öllu smærri en hinar, og má þannig þekkja þessa kafla úr. Loks voru eftir nöfn nokkurra manna (115), er vissa var fyrir, að verið höfðu í hernum. Um þá höfðu engar upplýsingar fengist, en eigi þótti rétt að sleppa þeim. Var því eigi um annað að gera en hnýta þeim aftan við sem einskonar viðbæti við annan flokk. Að þeim meðtöldum er þó alls óvíst enn, að allir séu taldir, en miklu fremur líkur til, að enn vanti marga. Kemur það ef til vill seinna í ljós. En af því má sjá, hvað margir Islendingar hafa í herinn gengið, að æfiágrip og minningar eru 1188, en getið í það heila 1303 manna. Í þessari tölu eru 16 hjúkrunarkonur, er hjúkrun veittu á sjúkrahúsum hersins, bæði hér í álfu og í Norðurálfunni. Voru þær allar í þjónustu hins opinbera, og var því sjálfsagt að telja þær með. Allar gátu þær sér hinn bezta orðstír fyrir framúrskarandi dugnað, lipurð og hirðusemi, og sköruðu að því leyti fram úr öðrum við það starf, að þess var getið í hermálaskýrslunum. Einni þeirra, ungfrú Ingu Johnson, eins og getið er um í greininni um hana (sbr. II, bls. 101) voru veittir tvennir verðlaunapeningar fyrir starf hennar, annar af George V. Bretakonungi: "First Class Royal Red Cross Medal", en hinn af konungi Belga: "Medaille De La Reine Elizabeth". Eru þetta hinar æðstu sæmdir, er nokkuru sinni eru veittar fyrir samskonar starf.*

*Allmargir hinna canadisku manna, er kvæntir voru íslenzkum konum, gengu í herinn. Létu sumir þeirra lífið en nokkrir áttu afturkvæmt. Um 30 eru á skrá félagsins, voru að því leyti taldir með Islendingum, að heimilin voru íslenzk. Sökum þess að þeirra er hvergi getið annarsstaðar í ritinu, þykir rétt að setja nöfn þeirra hér. Konur þeirra hafa unnið að málum félagsins og nokkrar heyra því til. Nafnaskráin er þessi:*

H. R. Allan. Sergeant W. J. Bailey. W. E. Bell. A. Brown. R. B. Burby. R. W. J. Chiswell, féll í orustu 27. sept. 1918. Hann var kvæntur Kristjönu Thomson frá Seyðisfirði; eiga þau eina dóttur barna. Búa þær mæðgur að Gimli í Nýja Islandi. H. R. Clarke. J. Davis. John Doherty. F. A. Dunn. Harry Floyd, féll í orustu á Frakklandi; voru þau hjón búsett í Austur Selkirk, Man., og heitir kona hans Elín Sigríður. Lawrence Fowler. Hurly Gillis. Joseph Hall. I. C. Hambly. A. Hill. H. G. Hunter. Dennis Lee. H. McCarthy. Archibald McNeill, kvæntur Ingibjörgu Jónssdóttur Helgasonar Henderson; bjuggu þau í Winnipeg; hann féll sumarið 1917; þau eiga einn son barna. M. H. McNey. Gilbert Proctor. Julian Prout. A. B. Reid. Albert B. Robinson. Dr. John Selfe. G. Stead. Sergeant Wm. Turnbull. George P. White. Fred Wright.

*Ritgerðirnar í bókinni eru prentaðar eins og höfundarnir gengu frá þeim, að undantekinni ritgerðinni:* "Um lækningastörf á vígstöðvum", *eftir Sigurgeir lækni Bardal, er rituð var á ensku máli, en hér er birt í þýðingu eftir fyrv. ritstjóra cand. phil. Kristján Sigurðsson. Kristján var í hjúkrunarliði canadiska hersins (sbr. II, bls. 260) og kyntist því nokkuð þessari grein herþjónustunnar.*

*Í bókinni koma fyrir nokkrar skammstafanir, en eigi óljósari en svo að flestir munu geta lesið í máli. Helztar eru á nöfnum fylkja og ríkja hér í álfu, nafnbótum við herinn, mentastigum o. s. frv., og þýðir eigi að lengja þetta mál með því að telja þær upp.*

*Konurnar, er staðið hafa í útgáfunefndinni, hafa frá því fyrsta lagt fram mikla vinnu við ritið, er eigi verður öll talin. En þessar skipa nefndina: Frú Jóhanna Guðrún Símonardóttir Skaptason, frú Guðrún Þórðardóttir Borgfjörð, frú Jórunn Magnúsdóttir Líndal, frú Olína Egilsdóttir Pálsson, frú Guðrún Asgeirsdóttir Jónsson og frú Guðrún Finnsdóttir Jónsson. Þó verður sérstaklega að tilgreina verk þriggja hinna síðasttöldu. Frú Guðrún Asgeirsdóttir Jónsson var upphaflega forseti nefndarinnar, en hefir verið skrifari hennar síðan að frú Búason*

andaðist. Hefir hún gegnt öllum bréfaskriftum út á við. Hún hefir staðið að mestu leyti fyrir myndasöfnuninni, og æfisöguágripin (í II. fl.) færði hún undir staflíði áður en handritið gekk til prentsmiðjunnar. Báðar hafa þær merkt allar myndir, er gengið hafa til myndamótaverksmiðjunnar, borið mótin saman við frummyndirnar áður en þau voru send í prentsmiðjuna og merkt þau, og svo að síðustu yfirfarið hverja örk og borið á ný saman við myndirnar áður en prentað hefir verið. Var verk þetta bæði mikið og tafsamt. Þá aðstoðuðu þær og við samlestur handrita og heimilda og hjálpuðu til að gera þær leiðréttingar, er þurfa þótti á handritunum, er voru allvíða fremur ónákvæm.

Frú Ólína Egilsdóttir Pálsson hefir gegnt féhirðisstörfum félagsins síðan árið 1919, þess utan haft á hendi allar bréfaskriftir í sambandi við útsölu bókarinnar. Er það verk bæði tímafrekt og vandasamt, og sízt að því sé lokið enn. Bókhald er margvíslegt og mikið í sambandi við fjármál félagsins, hefir hr. bókhaldari Páll S. Pálsson þar aðstoðað félagið á margan hátt, og þá einnig við hinar miklu og tíðu bréfaskriftir þess.

Herra prentsmiðjustjóri Gísli Jónsson hefir lesið síðustu prófförk af allri bókinni, haft tilsjón með hinum ytra frágangi hennar, og auk þess veitt félaginu ýmsar mjög svo nauðsynlegar leiðbeiningar meðan á undirbúningi stóð. Bera honum miklar þakkir fyrir alt það verk, sem og öllum hinum mörgu, er stutt hafa fyrirtækið á ýmsan hátt.

Að síðustu skal þess getið, að það er ósk útgefenda, að rit þetta megi verða kærkomin minning um vini og ættingja, er þola urðu eldraun "Ófriðarins mikla", þótt sjálfra atburðanna frá þeim árum verði eigi minst, né áhyggjanna og kvíðans, án sviða og sársauka. Verði hið sögulega gildi þess talið lítið, er tímar líða fram, mætti benda á, að það er efnismesta skráin, er enn hefir verið saman tekin um Íslendinga vestan hafsins.

Winnipeg, Man., 10. febrúar 1923.

Rögnv. Pétursson.

I.

# RITGJÖRÐIR

eftir ýmissa höfunda.

## Um tildrög heimsstyrjaldarinnar, þátt-töku Vesturheims, Íslendinga, o. fl.

# Tildrög stríðsins mikla

Eftir *prófessor Þorberg Thorvaldson.*

Ef maður hugsar sér hóp barna að leikjum á ísbreiðu, sem á einu augabragði brotnar í mjöl og steypir börnunum ofan í ólgandi straumiðu til að berjast fyrir lífi sínu, þá fær maður nokkra hugmynd um ástand alþýðu manna í Norðurálfunni, þegar fimm stórveldin, svo að segja á augabragði og fyrirvaralaust, lentu út í styrjöld, sem bráðlega útbreiddist, þar til nær allar þjóðir heimsins höfðu fylkt liði sínu á aðra hvora hlið.

Á fyrstu árum tuttugustu aldarinnar ræddu þjóðirnar meira um það, hvernig mögulegt væri að afstýra ófriði, meira um trygging alheimsfriðar en nokkru sinni áður. Félög voru stofnuð í flestum löndum til að viðhalda friði. Alheims-friðarþing voru haldin og gerðardómar settir, sem skyldu skera úr öllum þrætumálum milli þjóðanna. Þar að auki höfðu stjórnmálamenn stórveldanna á prjónunum fleiri eða færri friðarsamninga eða gerðardómssamninga, sem varna skyldu, að stríð gæti brotist út á milli þeirra. Alþýða manna var því farin að hugsa, að stríð milli stórþjóðanna gæti aldrei komið á daginn. Sumir þjóðmegunarfræðingar þóttust sannfærðir um. að hin margbreyttu verzlunarviðskifti þjóðanna hlytu að gera alheimsstríð ómögulegt.

Á sama tíma bjuggu stórveldin sig undir stríð af meira kappi en nokkru sinni áður. Sá undirbúningur var allur sagður vera til sjálfsvarnar, en samkepnin jókst ár frá ári og spursmálið virtist vera, hvert stórveldanna gæti haft mestan sjóflota, stærst og bezt æft herlið.

Það er ekki hægt að segja, að raddir, sem sýndu þjóðunum fram á, hvert þessi samkepni hlyti að bera þjóðirnar, hafi ekki heyrst. En alþýða manna skeytti þeim rökum lítið. Tilraunir voru samt gerðar hvað eftir annað til þess, að komast að samningum um takmörkun á þessari samkepni. Slíkir samningar tókust ekki; og það kom á daginn, að allar tilraunir stórveldanna, að varna ófriði með milliþjóða-samningum og samböndum (alliances), gerðu stríðið aðeins stórkostlegra, þegar það byrjaði. Braut sú, sem stórveldin þræddu, hlaut að leiða til styrjaldar fyr eða síðar, og alþýða manna vaknaði snögglega af öllum öryggisdraumunum, þegar herópin gullu við og herkallið kom. Þá var það orðið um seinan að afstýra stríði. Ísinn var brotinn og straumurinn sogaði börnin niður í djúpið. Sum náðu landi, en fjöldi slasaðist eða týndist. Mikið var rætt um að varna því, að þannig lagað slys gæti nokkurntíma aftur komið fyrir. En minni mannkynsins er ekki langvarandi, og börnin eru brátt komin aftur út á nýja ísinn til leikja.

Alþýða hinna vestrænu þjóða, sem fær fréttir sínar úr dagblöðunum, var orðin vön því að lesa annað slagið, að ófriðarský væru á lofti, að einhverjar þjóðir væru í þann veginn að brjóta friðinn. Í Suðaustur-Evrópu og í Asíu voru nokkur stríð háð um þessar mundir, án þess að vestrænu þjóðirnar drægjust að mun inn í þrætumálin. Þegar til ófriðar horfði meðal stórveldanna, voru málin fljótlega jöfnuð, að því er virtist á yfirborðinu, sett í gerðardóma, eða samningar tókust með stjórnmálamönnum þeirra þjóða, sem hlut áttu að máli. Friðurinn virtist því tryggur.

Það var því eðlilegt, að hið fyrsta leiftur, sem brá fyrir í austrinu, og sem var fyrirboði stormsins, drægi ekki að sér athygli almennings nema snöggvast. 28. júní 1914 var erkihertoginn Franz Ferdinand, ríkiserfingi Austurríkis og Ungverjalands, og frú hans, hertogafrúin af Hohenberg, myrt, er þau voru í heimsókn í borginni Sarajevo í Bosníu. Fylkin Bosnía og Herzegovína eru að mestu leyti bygð af Serbum, en höfðu verið alger-

lega undir stjórn Austurríkis síðan 1908. Morðinginn var serbneskur skólapiltur, og stjórnmálamenn Austurríkis héldu því fram, að hann hefði komið frá Belgrad, höfuðborg Serbíu, að tilhlutun og með hjálp háttstandandi embættismanna í stjórn og her þess lands, til þess að fremja þessi morð. Einnig sögðu þeir, að þetta væri partur af starfsemi serbneskra þjóðræknisfélaga, sérstaklega félagsins **Narodna Odbrana,** sem hefðu það fyrir sitt markmið, að ná fylkjum þeim, sem Serbar byggja, undan yfirráðum Austurríkis, og að þessi félög hefðu því gert samsæri á móti Austurríki, til að vinna að sundurlimun þess.

Fólki yfir víða veröld hrylti við þessum morðum. Sumum þótti þetta ekki vera nema eðlileg afleiðing þess, að ein þjóð héldi annari þjóð í undirokun. Þó að ekki væri hægt að halda serbnesku þjóðinni sem heild ábyrgðarfullri fyrir glæp, sem serbneskur einstaklingur framdi innan Austurríkis, nema því aðeins að stjórn Serbíu hefði átt þátt í samsæri á móti Austurríki, sem var mjög ólíklegt, þá var búist við að Austurríki notaði þetta tækifæri til þess að snúa sér beint til serbnesku stjórnarinnar viðvíkjandi þessu þjóðræknisstarfi innan Serbíu, sem þeir álitu, að næði til Austurríkis og Ungverjalands. Og það var alment álitið, að Serbíu bæri að taka vel í slíkar málaleitanir, og að hjálpa Austurríki, að svo miklu leyti sem hún gæti, til að hegna þeim, sem við morðin væru riðnir.

Sendiherra Frakka í Vínarborg aðvaraði frönsku stjórnina strax 2. júlí 1914, að **herstjórnin** austurríska væri að vinna að því, að Serbíu yrðu gerðir svo harðir kostir í sambandi við rannsókn þá, viðvíkjandi starfi þjóðræknisfélaga innan serbneska ríkisins, sem Austurríki ætlaði sér að heimta, að ekki yrði hægt fyrir stjórn Serbíu að ganga að þeim og halda sæmd og sjálfstæði ríkisins. Gæti þá Austurríki notað þetta sem afsökun til að fara með her inn í Serbíu. Um miðjan júlí komu sum austurrísku blöðin, svo sem **Militärische Rundschau** og **Neue freie Presse,** beint út og heimtuðu stríð. Þau sögðu þetta vera hentugasta tíma fyrir Austurríki og Þýzkaland til að há Evrópustríð, því Rússland væri ekki við stríði búið, og að Frakkland og Rússland gætu ekki haldið uppi sinni hlið í Evrópumálum á móti Miðveldunum. Að ef ekki yrði gengið til stríðs nú, yrði því frestað í mesta lagi tvö til þrjú ár, og þá yrði afstaða miðveldanna verri en nú.

Bretland, Frakkland og Rússland, er öll sáu hættuna, sem vofði yfir Norðurálfunni, ef Austurríki réðist á Serbíu, létu sendiherra sína í Vínarborg leggja fast að Austurríki, að heimta ekki meira af Serbum en þeir gætu í té látið og haldið þjóðsæmd sinni. Þegar stórveldin ræddu málið við Þýzkaland, sagðist það ekkert vita, hvaða kröfur Austurríki ætlaði að gera, og var ekki fáanlegt til að leggja þeim lið í því, að biðja Austurríki að gæta hófs í kröfum sínum; sagði málið snerta aðeins Austurríki og Serbíu.

Þann 23. júlí, kl. 6 að kvöldi, voru kröfur Austurríkis formlega frambornar í Belgrad, var Serbum gefinn 48 klukkust. frestur til að ganga að þeim. Ekki fengu hin stórveldin að vita, hvers Austurríki krafðist, fyr en næsta dag. Samkvæmt kröfum þessum átti serbneska stjórnin að láta prenta í stjórnarblaðinu þann 26. júlí yfirlýsing, samda af Austurríki, sem játaði að serbneskir stjórnmálamenn og fyrirliðar hefðu tekið þátt í samsæri á móti Austurríki, er hefði leitt til þess, að erkihertoginn og frú hans hefðu verið myrt, og sem bað opinberlega afsökunar á þessu athæfi borgara sinna. Auk þess varð serbneska stjórnin að undirrita skuldbindingar, sem voru í tíu liðum, um að bæla niður þjóðræknisfélög í Serbíu og gera upptækar eignir þeirra; gera upptæk viss blöð; gera ræka kennara, sem væru óvinveittir Austurríki; taka fasta og hegna vissum mönnum, sem áttu að hafa stutt að mótblæstri gegn Austurríki og Ungverjalandi, og láta austurríska embættismenn sjá um framkvæmdir þessara loforða innan Serbíu, ásamt fleiru.

Viðvíkjandi þessum kröfum sagði Sir Edward Grey, utanríkisráðherra Breta: "Eg hefi aldrei vitað neitt ríki senda öðru frjálsu ríki svo ósvífið skjal sem þetta. Fimta krafan er í algerðri mótsögn við framhald-

andi sjálfstæði serbneska ríkisins, ef hún þýðir það, að Austurríki á að útnefna embættismenn, sem hafi vald innan landamæra Serbíu."

Samkvæmt skýrslu Sir H. Rumbold, eins af sendiherrum Breta í Berlín, til Sir Edward Grey, játaði Herr von Jagow, utanríkisráðherra Þýzkalands, að Serbía gæti ekki gengið að öllum kröfunum, og að Austurríki ætlaði sér að nota hervald til að fullnægja þeim. Samt auglýsti Þýzkaland þann 24. júlí, að það væri samþykt kröfum Austurríkis; að það áliti þær nauðsynlegar til að stöðva Stór-Serbíu hreyfinguna í slavnesku fylkjunum í Suður-Ungverjalandi; að Austurríki yrði að fylgja kröfum sínum fram með hervaldi, ef þess gerðist þörf; og að málið, að sínu áliti, snerti aðeins Austurríki og Serbíu.

Á hinn bóginn sagðist Rússland ekki geta setið hjá og látið Austurríki kúga Serbíu og afnema sjálfstæði hennar. Vildi það, að Austurríki framlengdi frestinn, sem Serbar hefðu til þess að svara, svo að hægt væri að rannsaka nánar sönnunargögn þau, sem Austurríki bygði kröfur sínar á. Hin stórveldin, að Þýzkalandi undanskildu, reyndu árangurslaust að fá frestinn framlengdan, svo að hægt væri að hafa samtöl milli þjóðanna og reyna að miðla málum. Er þetta tókst ekki, vildu Rússar að Bretland lýsti því yfir, að það ætlaði að veita sér og Frökkum í þessum málum, en því neituðu Bretar. Á sama tíma lögðu Bretland og Frakkland fast að Rússlandi að sjá um, að Serbía gengi að kröfum Austurríkis, að svo miklu leyti sem hún gæti, án þess að skerða sjálfstæði sitt.

Þann 25. júlí svaraði Serbía þessu. Gekk hún að kröfum Austurríkis að mestu leyti og bauðst til að leggja öll ágreiningsmál undir úrskurð alþjóðadómstólsins í Haag, eða undir sameiginlegan dóm stórveldanna. Austurríki sagði svarið ekki fullnægjandi, kallaði heim sendiherra sinn frá Belgrad samdægurs og bauð út nokkru af her sínum næsta dag.

Í millitíðinni var Sir Edward Grey ekki aðgerðalaus. Þann 25. til 27. júlí gerði hann marg-ítrekaðar tilraunir til að fá Þýzkaland, ásamt Frakklandi og Ítalíu, til þess að taka þátt í miðlunartilraunum í Vínarborg, með því annaðhvort að hafa málfundi með sendiherrum þessara þjóða í Lundúnum, til þess að ráðgast um, hvernig hægt væri að halda friði, og síðan leita málamiðlunar samtímis bæði í Pétursborg og Vínarborg, eða á hvern annan hátt, sem Þýzkalandi virtist bezt. Frakkland og Ítalía lofuðu samvinnu, en Þýzkaland neitaði, sagðist ekki geta lagt þrætumál Austurríkis og Serbíu undir dóm stórveldanna. Austurríki kvaðst þá skyldi lofa að taka engin lönd af Serbum, en aðeins hertaka landið, þar til skilmálar sínir væru uppfyltir, og áleit að þetta loforð ætti að nægja Rússlandi. Sendiherra Rússlands í Vínarborg, sem var nýkominn frá Pétursborg, sagði, að almenningsálitið í Rússlandi leyfði ekki, að það sæti hjá, ef Austurríki réðist með her á veika bræðraþjóð, og að ef Austurríki segði Serbum stríð á hendur, hlyti Rússland að veita Serbum. En á hinn bóginn, að Rússland væri viljugt að ábyrgjast, að Serbar gæfu og efndu öll þau loforð, sem sanngjarnlega væri hægt að heimta af þeim. Rússar gerðu einnig þá uppástungu, að Austurríki og Rússland hefðu beint samtal um að miðla málum, en Austurríki neitaði ennþá að ræða serbnesku þrætumálin, en sagði Serbum stríð á hendur þann 28. júlí.

Daginn eftir kallaði Rússland saman her sinn í fjórum suðurfylkjunum, sem liggja að landamærum Austurríkis. Þann 30. júlí byrjaði stórskotalið Austurríkis að skjóta á Belgrad. Fregnir um almenn herboð flugu fyrir og hvert ríki fyrir sig hélt því fram, að hin þjóðin væri komin lengra í áttina að hervæðast en opinbert væri. Þann 30 júlí auglýstu blöð í Berlín alment herboð yfir Þýzkaland, en frétt sú var síðar um daginn borin til baka. Blöðin höfðu verið prentuð, svo þau væru til, ef alment herboð væri skipað, en verið í misgripum send út til sölu. Einnig kom frétt til Berlín frá þýzkum sendiherra í Rússlandi, um alment herboð þar, en Rússar neituðu að fréttin væri sönn. Bæði Þýzkaland og Frakkland höfðu búið sig til atlögu, fyrirliðar verið kallaðir til herdeilda sinna; varaliði gert aðvart, að vera til taks, og öllum deildum fastahersins verið fylkt við landamærin, þar sem þeirra þurfti við,

ef í stríð færi. Þenna dag höfðu jafnvel þýzkir herverðir farið inn fyrir landamæri Frakklands, og auglýstu Frakkar, að þeir hefðu dregið herdeildir tíu kílómetra (um sex mílur) inn fyrir landamærin, til þess að verjast, að í bardaga slæi. Þýzkaland kvartaði um, að franskir flugmenn hefðu flogið yfir Þýzkaland og fleygt niður sprengikúlum.

Sama dag bauðst Rússland til að hætta við stríðsundirbúning, ef að Austurríki vildi játa, að serbnesku málin snertu Evrópu alment, og vildi draga til baka þær kröfur, sem kæmu í bág við sjálfstæði Serbíu. Rússar gerðu þetta sama boð, nokkuð öðruvísi stílað, þann 31. júlí, samkvæmt ósk brezku stjórnarinnar. Sama dag sendu bæði Austurríki og Rússland út alment herboð. Þá sýndist koma hik á Austurríki. Það sagðist nú vera til með að ræða Serbíu-kröfur sínar, og var það í fyrsta skifti, sem það hafði gengið svo langt. Það leit því snöggvast út fyrir, að Evrópustríði yrði varnað. Rússland lýsti ánægju sinni yfir þessu, en tiltók, að Austurríki yrði að hætta á meðan herferð sinni á hendur Serbíu, og lagði til, að öll stórveldin héldu fund í Lundúnum til að ræða málin. Bretland sendi strax skeyti til allra stórveldanna og bað þau að taka þátt í fundarhaldinu.

En hér kom Þýzkaland til sögunnar. Það hafði áður sagt, að ef Rússland sendi út alment herboð, myndi það gera hið sama. Þýzkaland sendi nú Rússlandi kröfu, sem heimtaði, að herboð þess yrði dregið til baka innan 12 klukkustunda, eða það segði Rússlandi stríð á hendur. Einnig sendi það kröfu til Frakklands með 12 klukkustunda svarsfresti, sem heimtaði, að Frakkar lýstu yfir, hvað þeir ætluðu sér að gera, ef Þýzkaland og Austurríki lenti í ófriði við Rússland. Frakkland svaraði, að í því tilfelli mundi það haga sér eftir því, sem hagsmunir sínir krefðust. Bæði Frakkland og Þýzkaland sendu út almenn herboð 1. ágúst, og Þýzkaland sagði Rússlandi stríð á hendur sama dag. Inn á Frakkland réðst þýzkur her 2. ágúst, en Frökkum var ekki sagt stríð á hendur fyr en 3. sama mánaðar. Austurríki sagði Rússum stríð á hendur þann 6. ágúst.

Eins og áður er sagt, neitaði Sir Edward Grey, að verða við þeirri bón utanríkisráðherra Rússa, M. Sazonof, að Bretland lýsti því yfir, að það ætlaði að veita Rússlandi og Frakklandi að málum á móti miðveldunum. Hann svaraði, að afstaða Bretlands væri sú, að svo lengi sem málið snerti aðeins Austurríki og Serbíu, léti Bretland það afskiftalaust að öðru leyti en að reyna að varna því, að það yrði upphaf að almennri Norðurálfustyrjöld. Hann sá auðvitað, að Rússland hlaut að lenda inn í stríði milli Austurríkis og Serbíu, því að það gat ekki, hagsmuna sinna og sjálfsvirðingar vegna, látið það afskiftalaust, að bæði sjálfstæði og framtíð Serbíu væri lagt undir Austurríki og Þýzkaland. Það var því nauðsynlegt, að koma á friði milli þessara ríkja, til að viðhalda friði í Evrópu. Þess vegna reyndi Sir Edward Grey að fá Þýzkaland til að nota áhrif sín við Austurríki, til þess að fá málin lögð undir dóm fjögra stórveldanna, sem ekki voru beint málsaðilar. Þann 29. júlí, þegar stríð milli Rússlands og Austurríkis virtist óumflýjanlegt, sagði hann rússneska sendiherranum, að Bretland mundi ekki nauðsynlega taka þátt í stríði milli þessara ríkja út af Balkanskaganum. Sama dag sagði hann þýzka sendiherranum, að ef stríðið næði ekki til Þýzkalands eða Frakklands, mundi Bretland vera hlutlaust, en ef að þrætan breiddist út, svo að hún snerti öll Evrópumál, þá yrði Bretland að gæta hagsmuna sinna, og ekki að búast við, að það sæti hjá.

Ríkiskanzlari Þýzkalands reyndi þá að fá Bretland til að lofa því, að vera hlutlaust í Evrópustríði, á móti loforði frá Þýzkalandi, að það tæki engan hluta af Frakklandi eignarhaldi. Ekki vildi ríkiskanzlarinn lofa því sama viðvíkjandi nýlendum Frakka. Sir Edward Grey svaraði (þann 30. júlí), að þesskonar hlutleysi gætu Bretar ekki með nokkru móti hugsað sér. Hann sagði einnig, að eini vegurinn til þess að vinskapur milli Bretlands og Þýzkalands gæti haldist, væri með því móti, að þau ynnu bæði sameiginlega að viðhaldi friðar í Evrópu. Ef að þeim tækist að stilla til friðar nú, þegar útlitið væri svo ískyggilegt, þá gæfi það von um, að

samningar gætu tekist milli anra þjóða Evrópu, sem fyrirbygðu endurtekning á núverandi hættu. En ef Frakkland og Þýzkaland lentu nú í stríði, sagðist hann búast við, að Bretar gætu ekki látið það hlutlaust.

Sama dag vildi þó Sir Edward Grey ekki lofa Frakklandi, að Bretar myndu liðsinna því í stríði við Þýzkaland. Starfsemi hans var þannig öll í þá átt, að telja báðar hliðar frá því að hefja stríð.

Þann 31. júlí gerði Bretland fyrirspurn, bæði til Frakklands og Þýzkalands, þess efnis, hvort þau vildu hvort fyrir sig lofa að skerða ekki hlutleysi Belgíu, ef í stríð færi. Frakkland lofaði því tafarlaust, en Þýzkaland drógst undan að svara, en vildi í staðinn vita, hvernig það gæti gert samning við Bretland um hlutleysi þess í Evrópustríði. Sir Edward Grey sagði, að Bretar yrðu að hafa frjálsar hendur, ef í það færi.

2. ág. lofaðist Bretland til að verja norðurströnd Frakklands fyrir þýzkri árás af sjó. Samkvæmt samningum frá 1912 milli Frakklands og Bretlands, tóku Frakkar burt flota sinn úr Atlantshafinu, en Bretar sinn flota úr Miðjarðarhafinu, og ásettu sér að hafa samflota á þessum höfum. Þetta loforð Breta var bein afleiðing af þessum samningi, og þýddi ekki, sögðu Bretar, að þeir þar með segðu Þýzkalandi stríð á hendur.

3. ágúst krafðist Þýzkaland, að fá óhindraða umferð með her sinn yfir Belgíu. Eins og henni var skyldugt, samkvæmt milliþjóðasamningum, neitaði Belgía og bað Breta um hjálp til að verja hlutleysi sitt. Bretland bað sendiherra sinn í Berlín að fá fullvissu um það, að Þjóðverjar ekki skertu hlutleysi Belgíu, og bað um svar tafarlaust. Þýzkaland neitaði og sendi her sinn inn í Belgíu næsta dag, þann 4. ágúst. Þann sama dag sagði Bretland Þýzkalandi stríð á hendur.

Þegar sendiherra Breta kvaddi ríkiskanzlara Þýzkalands, áttu þeir samtal, sem seinna varð heimsfrægt. Sá síðarnefndi kvartaði um, að Bretland segði Þýzkalandi stríð á hendur aðeins vegna eins orðs — "**hlutleysis**" (Belgíu), orðs, sem svo oft hefði verið fyrirlitið. Að Bretar ætluðu að heyja stríð við þjóð, sem um fram alt vildi vera vinaþjóð þeirra, aðeins vegna **bréfsnepils** (hlutleysissamningur stórveldanna um Belgíu). Að það væri lífsspursmál fyrir Þýzkaland, að ráðast á Frakkland í gegnum Belgíu o. s. frv. En sendiherra Breta benti ríkiskanzlaranum á það, að Bretland áliti það lífsspursmál fyrir sig og heiður sinn, að efna loforð sín og halda samninga sína.

Þann 3. ágúst lýsti Ítalía yfir hlutleysi sínu. Samkvæmt samningi sínum við Þýzkaland og Austurríki, var Ítalía skuldbundin til að veita þeim að málum, ef á þau væri ráðist eða ef upptök ófriðarins ekki væru á þeirra hlið. Ítalía feldi því með hlutleysisyfirlýsingu sinni þann dóm yfir sambandsríkjum sínum, miðveldunum, að þau hefðu byrjað stríðið.

Eftir þetta jókst stöðugt fjöldi þeirra þjóða, sem þátt tóku í stríðinu. Hér með fylgir skrá yfir þær þjóðir, er lýstu því yfir, að þær fylgdu annari hvorri hlið að málum, og hvenær sú yfirlýsing var gerð:

1. Með miðveldunum:
   Tyrkland, 29. október 1914.
   Búlgaría, 14. ágúst 1915.
2. Á móti miðveldunum:
   Montenegro, 9. ágúst 1914.
   Japan, 23. ágúst 1914.
   Portúgal, 23. nóvember 1914.
   Ítalía 24. maí 1915
   San Marino, 24. maí 1915.
   Rúmenía, 27. ágúst 1916.
   Grikkland, 28. nóvember 1916.
   Bandaríki Ameríku, 6. apríl 1917.
   Cuba, 7. apríl 1917.
   Panama, 7. apríl 1917.
   Siam, 22. júlí 1917.
   Libería, . ágúst 1917.
   Kína, 4. ágúst 1917.
   Brazilía, 26. október 1917.

Mörg önnur ríki slitu sambandi (sendiherra-sambandi) sínu við miðveldin.

Þannig er sagan frá 28. júní til upptaka stríðsins. En hin verulegu upptök styrjaldarinnar er ekki að finna á því tímabili. Rætur hennar ná langt aftur í tímann, og til þess að skilja upptökin, verðum við að lesa hálfrar aldar sögu veraldarinnar. Morðin í Sarajevo voru aðeins neistar, sem kveiktu eld þann,

sem í hálfa öld hafði verið viðað til meðal þjóðanna.

Hér er ekki tími til að fara nema lítillega yfir stefnur þær og atvik þau, sem leiddu til stríðsins mikla. Margvíslegar ástæður hafa verið færðar fram sem hinar verulegu orsakir ófriðarins, svo sem: Hefndarhugur Frakka fyrir niðurlæginguna frá hendi Þýzkalands 1870, ásælni Austurríkis á Balkanskagann og ásetningur Þýzkalands, að auka veldi sitt, þar til það næði frá Berlín til Bagdad. Ásetningur Rússa að ná Miklagarði (Constantinople) og að fá þannig aðgang að Miðjarðarhafinu. Ásælni Þýzkalands í nýlendur. Vöxtur Sósíalista-hreyfingarinnar í Þýzkalandi og ósk hervaldsins þar um að heyja utanlandsstríð til að sameina þjóðina. Baráttan milli stór-germönsku og stór-slafnesku hreyfingarinnar. Iðnaðar- og verzlunarsamkepnin milli Bretlands og Þýzkalands á heimsmarkaðnum. Hugsjón Þýzkalands, að breiða út þýzka menning yfir alla veröldina. Eðlileg afleiðing af samkepni þjóðanna í herbúnaði á sjó og landi, og þar af leiðandi vaxandi áhrif hervalds en þverrandi áhrif borgaralegs valds í ríkisráðum þjóðanna, o. s. frv. — Hver sem aðal-upptökin eru, þá eru líkindi til, að margt af þessu hafi átt sinn þátt í því, að hrinda af stað stríði.

Ef vér íhugum atburð, sem stjórnast af einu sérstöku náttúrulögmáli, svo sem ef að járnstykki félli til jarðar, þá er auðvelt að reikna út og segja fyrirfram, hvernig járnstykkið muni haga sér og hvar það muni verða á hverju sérstöku augnabliki meðan það er að falla. Ef nú fleiri en eitt náttúruafl hafa áhrif á þenna atburð, svo sem segulafl í viðbót við þyngdaraflið, þá verður strax erfiðara að reikna út, hvernig járnstykkið muni haga sér. Samt er það mögulegt, ef maður veit stærð aflanna og náttúrulögmál þeirra verkana. En á hinn bóginn, ef öflin, sem takmarka fyrirburðinn, eru mörg, og náttúrulög þau, er ákveða verkanir þeirra, eru lítið þekt, verður það oft ómögulegt að segja fyrir, hver úrslitin verða undir sérstökum kringumstæðum.

Líf einstaklingsins er takmarkað af mjög mörgum öflum og atvikum. Yfir sumum þeirra hefir hann nokkurt vald, en önnur eru alveg fyrir utan bein áhrif hans. Þar að auki eru sum öfl, þau sem hafa áhrif á hegðan einstaklingsins, eða samverkanir þeirra afla, lítið þektar. Það er því mjög erfitt að segja fyrirfram, hvernig að einstaklingurinn muni haga sér undir vissum kringumstæðum.

Líf einnar þjóðar er ennþá margbrotnara, svo að, þegar við íhugum gerðir hennar, þá er það oft erfitt, að sundurliða orsök og afleiðing. Endilegu úrslitin eru þá afleiðing verkana og mótverkana, sem erfitt er að liða í sundur. Samt er það að nokkru leyti auðveldara, að segja fyrir gerðir einnar þjóðar, heldur en gerðir einstaklingsins, vegna þess, að meðaltalslögmálið (Law of Averages) hefir hér sín áhrif. Við athugun sér maður, að vissar stefnur ríkja hjá hverri þjóð fyrir sig, og að þær virðast með tíð og tíma setja mark sitt meira og meira á skapkend (Character) þjóðarinnar. Á hinn bóginn er á sama tíma máske önnur gagnstæð stefna að þroskast og ná tangarhaldi á þjóðinni, og er þessi nýja stefna nær yfirhöndinni, með stjórnarskiftum eða stjórnarbyltingu, virðist (út í frá) sem stefna þjóðarinnar breytist snögglega.

En í framkvæmdum ráða ekki aðeins stefnur þær, sem ríkja innan þjóðarinnar, heldur og einnig, óbeinlínis, stefnur þær, sem ríkja meðal nágranna þjóðanna. Það má vera, að utanaðkomandi áhrif neyði stundum eina þjóð til að brjóta bág við stefnur þær, sem hún hefir tekið ástfóstri við. Eins og eitt sterkt náttúruafl, segjum segulafl, getur varnað lausa járnstykkinu frá því, að falla til jarðar og þannig hlýða þyngdarlögmálinu, eins geta sterk áhrif frá hegðan einnar þjóðar varnað því, að nágrannaþjóðirnar fái lifað samkvæmt hugsjónum sínum. Þegar við dæmum um athæfi einnar þjóðar, verðum við því að taka til greina bæði stefnur þær, sem þar ríkja, og einnig, að hve miklu leyti sterk utanaðkomandi áhrif hafa ákveðið gerðir hennar.

Þegar maður les stjórnmálasögu Evrópu yfir liðlega hálfa öld fyrir stríðið, þá verður það upphaf og þroskun hins þýzka veldis, sem yfirgnæfir alla aðra viðburði. Það eru

því líkindi til að öfl þau og stefnur, er skópu og þroskuðu ríki þetta, svo það varð hið voldugasta á meginlandi Evrópu, hafi átt mjög mikinn þátt í því, að ákveða sögu Norðurálfunnar á þessu tímabili.

Það var Bismarck, sem stofnsetti hið nýja þýzka keisaraveldi og sem stýrði því yfir fyrstu brotsjóana. Það fæddist undir ægishjálmi hervalds þess, sem hann, þvert á móti þjóðarviljanum, stofnsetti á Prússlandi. Þegar Bismarck áleit her sinn nógu sterkan til að reyna afl sitt, valdi hann Danmörku fyrir mótstöðumann og með tilhjálp Austurríkis tók frá Dönum Schleswig og Holstein 1864. En Austurríki var of ráðríkur félagi fyrir Prússland, sem samkvæmt áformi Bismarcks skyldi ráðstafa málum Mið-Evrópu eftir sínum geðþótta, svo að það var nauðsynlegt, að heyja annað stríð til þess að "kasta Austurríki út úr Þýzkalandi". Þetta tókst vel. Prússar sigruðu Austurríki 1866 og her Bismarcks vann sér nýja frægð.

Nú þótti Bismarck tími til kominn að sameina öll þýzku smáríkin í eina heild undir stjórn Prússa. En það var langt frá því, að gott samkomulag væri milli hinna þýzku ríkjanna og Prússlands, og tók hann því þá aðferð, að telja þeim trú um, að nauðsynlegt væri að sameina sig gegn útlendum óvinum, og tókst það ágætlega, með því að koma af stað stríði við Frakkland. Prússneski herinn reyndist betri en nokkurn varði, og Frakkar urðu fljótt nauðbeygðir til að sækja um frið, þó það kostaði þá, að láta af hendi tvö fylki, Alsace og Lorraine, og borga Þjóðverium miklar skaðabætur.

Strax og sigur var unninn, myndaði Bismarck hið þýzka keisaradæmi, með Prússland og konung þess í öndvegi. Þýzku ríkin, sem ekki vildu ganga inn í sambandið, voru neydd til þess með prússnesku hervaldi. Sambandsríki það, sem hér var stofnsett, hafði ekki nema að nafninu til þingbundna stjórn, svo að framkvæmdastjórn landsins væri ábyrgðarfull gagnvart þingi þjóðarinnar. Hér kaus keisarinn ráðuneyti ríkisins og ráðherrarnir voru því að eins ábyrgðarfullir gagnvart honum en ekki þinginu. Þegar um þingbundna stjórn er að ræða, verður það ráðuneyti, sem mist hefir tiltrú meirihluta þingmanna, að segja af sér og þingmenn að kjósa nýtt ráðuneyti. Í þýzka keisaradæminu var þetta alveg öfugt. Ef þingmenn ekki vildu samþykkja það, sem keisarinn og ráðgjafar hans heimtuðu, þá var þingið leyst upp og gengið til nýrra kosninga, en ráðuneyti keisarans sat kyrt. Stjórnarfar Þýzkalands var því keisara- og aðalsstjórn, studd af hervaldi, en aðeins að ytra útliti þingbundin stjórn.

Nú sá Bismarck, að Þýzkaland þurfti frið, til þess að geta haldið löndum þeim, er það hafði tekið frá nágrannaþjóðunum, og til þess að styrkja bönd þau, er héldu þýzka ríkinu saman undir stjórn Prússlands. Til þess að tryggja friðinn myndaði hann, 1872, þriggja keisara sambandið, milli Þýzkalands, Austurríkis og Rússlands, hinna þriggja einveldisríkja Evrópu, og stundaði jafnframt á vinskap við Bretland. Til þess að halda stöðugum vinskap við Breta, áleit hann, að Þjóðverjar ættu að varast að mynda nýlendur. Á þenna hátt voru Frakkar, sem voru eina hættulega óvinaþjóðin, einangraðir, og Frakkland, án vina í Norðurálfunni, var ekki hættulegt og gat auðveldlega verið kúgað til hlýðni. Til þess þurfti aðeins sterkan her, og það sá Bismarck um að Þýzkaland hefði. Og til þess að draga athygli Frakka frá hefndarhugsunum, hvatti hann þá til þess að stofna franskar nýlendur í Afríku. Þetta gaf Frökkum þeim, er herskáir voru, starf, og var líklegt til að leiða til óvinskapar milli Frakklands og Englands og Ítalíu, sem voru að stofna nýlendur í sömu álfu.

Þetta gekk alt að óskum. Frakkland eignaðist engan vin í Evrópu og var meira að segja nærri komið í stríð við Ítalíu 1881 og Bretland 1882, út af nýlendumálum í Norður-Afríku. Erfiðast var fyrir Bismarck að halda vinfengi bæði við Austurríki og Rússland, þar sem þessar tvær þjóðir sóttust báðar eftir yfirráðum á Balkanskaganum, og voru því, afstöðu sinnar vegna, óvinaþjóðir. Hann gerði því náið samband milli Þýzkalands og Austurríkis 1879 (Dual Alliance), en á sama tíma tókst honum að gera leynilega samninga við Rússland um hlutleysi

þess, ef Þýzkaland ætti í stríði, gegn líku loforði frá hendi Þýzkalands. Nýlenduþrætu Frakka við Ítali 1881 notaði Bismarck til að ná Ítalíu inn í sambandið við Þýzkaland og Austurríki, og var þannig þríríkjasambandið (Triple Alliance) myndað til varnar. Þetta samband hélzt þar til 1914, að Ítalía feldi þann dóm, að sambandsþjóðir sínar væru komnar út í sóknarstríð.

Með tilhjálp Bismarcks var Þýzkaland orðið langmestu ráðandi ríki í Evrópu, þegar Vilhjálmur II., 30 ára að aldri, kom til ríkis 1888. Nýja keisaranum þótti Bismarck, sem var farinn að eldast, vera of ráðríkur, ekki nógu framsækinn og standa í vegi fyrir framkvæmdum áhugamála sinna. Hann vildi nefnilega setja Þýzkaland í jafn virðulegan sess í alheimsmálum, eins og það nú hafði í sérmálum Norðurálfunnar, en Bismarck fanst ekki kominn tími til þess. Rak því keisarinn Bismarck frá völdum 1890, og breytti strax um stjórnaraðferð hans að miklu leyti. Samningarnir við Rússland, sem Bismarck áleit lífsnauðsynlega fyrir Þýzkaland að halda við, til þess að einangra Frakkland, voru ekki endurnýjaðir, en sambandi Frakka og Rússa var á fót komið næsta ár (1891). Þannig, einu ári eftir að Bismarck var rekinn frá völdum, er Frakkland komið úr þeim ólögum vinleysis, sem Bismarck hafði haldið því í, og Rússland komið yfir í andstæðingaflokk miðveldanna. Annað undirstöðu-atriðið í stjórnaraðferð Bismarcks var, eins og áður er sagt, að halda vinskap við Bretland. Vilhjálmur keisari, og aðrir forsprakkar hinnar nýju hreyfingar, að gera Þýzkaland að hinu voldugasta veraldarveldi, létu fljótt opinberlega í ljós, að það væri Bretland, sem stæði mest í vegi Þýzkalands, að Brezka veldið væri á fallanda fæti og að Þýzkalandi væri af forsjóninni fyrirhugað, að taka sess þess í alheimsmálum. Það var því eðlilegt, að afleiðingarnar yrðu þær, að Bretar og Frakkar jöfnuðu innan skams öll þrætumál sín og mynduðu vinasambandið **(The Entente Cordiale)** 1904, og að Bretar og Rússar gerðu hið sama nokkrum árum síðar. Þannig skipuðu nú stórveldi Norðurálfunnar sér í tvær vopnaðar herbúðir andspænis hver annari.

Frá því 1890 var Vilhjálmur II. einvaldur stjórnari Þýzkalands. Hann þoldi enga mótspyrnu frá ráðgjöfum sínum. Hann sagði: "Konungurinn er konungur af guðs náð. Þess vegna verður hann að standa drotni einum reikningsskap gerða sinna. Það er aðeins eitt lögmál og það lögmál er vilji minn." — Eins og áður er sagt breytti hann stjórnmálastefnu Þýzkalands í utanríkismálum og fylti hann flokk hinnar svokölluðu stór-germönsku (Pan-German) hreyfingar: Áformi þeirrar stefnu má lýsa með orðum Vilhjálms: "Ekkert má héðan í frá vera ákveðið í heiminum án tilhlutunar Þýzkalands og þýzka keisarans". Eða: "Þýzkaland mun verða eins voldugt og rómverska ríkið var". **"Ich bin ein deutscher Burger"** (eg er þýzkur borgari), mun verða eins áhrifamikið yfir víða veröld eins og "civis romanus sum" (eg er rómverskur borgari), var í tíð rómverska ríkisins."

Til þess að hugmyndir þessar gætu sannast í staðreyndinni, var nauðsynlegt fyrir Þýzkaland að mynda þýzkt veraldarveldi og fyrsta sporið í þá átt var að mynda nýlenduríki. Bismarck hafði lengi vel varnað þess, að Þýzkaland slægi eign sinni á nýlendusvæði, til þess að auðveldara væri að halda vinsældum við Bretland og önnur nýlenduríki, á meðan að þýzka hervaldið væri að ná fullum þroska. En árið 1884 lét hann tilleiðast að byrja nýlendustofnun, með því að slá vernd Þýzkalands yfir landflæmi í Suður-Afríku. Eftir það tók Þýzkaland hvert tækifæri, sem það fékk, til að auka nýlendur sínar, en af því það byrjaði svo seint, voru flest beztu nýlendusvæði heimsins þegar tekin, og það náði því ekki eins hentugum landspildum eins og þýzka þjóðin áleit, að ætti að vera sitt hlutskifti. Þýzkaland leit því stöðugt öfundaraugum í þessum málum til hinna stórveldanna, sérstaklega til Frakka og Breta.

Þessi nýlendustefna leiddi einnig af sér aðrar nýungar. Nýlenduríki þarf á skipaflota að halda og þýzka þingið veitti fjárstyrk til skipasmíða, er notuð yrðu til fólks- og vöruflutninga frá Þýzkalandi til Suður-

Afríku og Ameríku. Þessum styrkveitingum var haldið áfram og þær auknar, þar til kaupskipafloti Þýzkalands var orðinn einn af þeim stærstu í heimi.

Árið 1890, þegar Þýzkaland fékk Helgoland frá Bretlandi, byrjaði Vilhjálmur nýja stefnu í flotamálinu, er gekk út á að keppa við herskipasmíðar Breta. Það ár hélt hann ræður víða um landið og tók orð Herweghs sem heróp: "Okkar framtíð er á hafinu". Hin svokölluðu flotasambönd (Navy Leagues) voru mynduð um alt Þýzkaland, til þess að uppfræða almenning um nauðsyn á stórum herskipastól, og til að undirbúa þjóðina og þingmenn hennar undir fjármálakröfur keisarans. Fyrstu herflotalögin, sem ákváðu smíð herskipa í næstu sjö ár, voru samþykt í þýzka þinginu 1898. "Eg hætti ekki," sagði Vilhjálmur um þetta leyti, "fyr en eg hefi gert herskipaflota minn jafnoka hers míns". En her sinn áleit hann auðvitað þann mesta í heimi. Næsta ár hófst Búastríðið, og eins og ríkiskanzlarinn þýzki, von Bulow játar í bók sinni, "**Imperial Germany**", hefði Þýzkaland þá ráðist á Bretland ef þýzki flotinn hefði verið nógu stór til að gera það mögulegt. En þetta var notað sem ástæða til að koma í gegnum þýzka ríkisþingið nýjum flotalögum (1899—1900), sem fyrirskipaði stórkostlega auknar skipasmíðar í næstu sextán ár. Við það var svo hvað eftir annað aukið með nýjum flotalögum. 1906, 1908 og 1912, hvenær sem hægt var að telja þinginu trú um, að það væri nauðsynlegt.

Afstöðu sinnar og nýlenda vegna áleit Bretland frá því fyrsta, að nauðsynlegt væri fyrir sig að eiga sterkan herskipastól. Sérstaklega sýndist þetta rétt, þegar tillit var tekið til þess, að landher þess var mjög lítill og herskylda engin. Árið 1908 ákvað það að smíða eins mörg herskip og nauðsynlegt væri, til þess að brezki flotinn yrði jafnstór tveimur stærstu flotum annara þjóða, teknum til samans. Þetta var að líkindum ákveðið í varnarskyni, ef Frakkar og Rússar skyldu sameina flota sína. En tíu árum síðar stakk Mr. Goschen, flotamálaráðgjafi Breta, upp á því, að öll stórveldin takmörkuðu smíðar nýrra herskipa. Það fékk engar undirtektir. Árið 1906, þegar Þýzkaland var í óða önn að auka herskipasmíðar sínar, lét Bretastjórn auglýsa, að hún hefði minkað fjárveitingu sína til herskipasmíða stórkostlega og að hún hugsaði sér að skjóta því máli til friðarþingsins í Haag næsta ár. Þýzkaland hótaði þá að senda engan erindreka á þingið, ef það mál yrði rætt. Frjálslynda stjórnin, sem var nýkomin til valda á Bretlandi, gerði marg-ítrekaðar, en árangurslausar, tilraunir til þess að komast að samningum við Þýzkaland, til að afstýra samkepni í herskipasmíðum. Þýzkir stjórnmálamenn og rithöfundar létu það ótvíræðilega í ljós, að ef ein þjóð gæti ekki staðið sig í samkepninni við aðrar þjóðir, þá væri kominn tími fyrir hana til að falla til baka úr tölu stórveldanna ofan í flokk smáþjóðanna, og láta öðrum vaxandi þjóðum eftir sess sinn. Eins og að ofan er sagt, juku Þjóðverjar enn herskipasmíði sína 1908, og á sama tíma ráðlögðu þeir Bretlandi, að bezt væri fyrir það að hætta herskipasmíðum í nokkur ár, svo að Þýzkaland gæti sem fyrst eignast jafnstóran flota. Bretland svaraði nú að lokum með því, að byrja smíði á tveimur skipum fyrir hvert eitt, sem Þýzkaland byrjaði á. Sjómálaráðgjafi Breta gerði samt enn eina tilraun árið 1913, til þess að bæði löndin minkuðu hlutfallslega smíði nýrra herskipa, en Þjóðverjar brostu aðeins að þessum málaleitunum.

Á sama tíma jók Þýzkaland stöðugt fastaher sinn. Samkepnin á milli Þýzkalands og Austurríkis annarsvegar, en Frakklands og Rússlands hinsvegar, að hafa sem stærstan fastaher, jókst ár frá ári. Árið 1900 færðu Þjóðverjar fastaher sinn upp í 495,500 manns, 1905 upp í 506,000 manns, auk liðsforingja þeirra, er aðeins voru skyldir um 1 árs herþjónustu; 1912 var hermannatalan aukin upp í 544,000 og 1913 upp í 870,000 manns. Frakkland, sem hafði mikið færri íbúa, gat ekki fylgst með í þessari samkepni, en 1913 jók það lengd heræfingatímans frá tveimur upp í þrjú ár, til þess að fá stærri fastaher, án þess þó að fjöldi æfðra hermanna, sem fáanlegir væru á stríðstímum,

væri aukinn. Austurríki jók einnig stöðugt her sinn og flota, eftir því sem fjármál þess framast leyfðu. Rússland, sem ekki hafði ennþá náð sér eftir stríðið við Japan og innbyrðisstyrjöld þá, sem því fylgdi, var að reyna að koma í lag hermálum sínum og bjóst við að hafa komið skipulagi á her sinn árið 1916.

Á yfirborðinu var það látið í veðri vaka, að allur þessi undirbúningur væri nauðsynlegur til þess að halda friði. Vilhjálmur keisari hélt því fram, að "hið hárbeitta sverð" væri bezta tryggingin fyrir friðnum. Reyndar var þeirri kenningu haldið meira og minna á lofti meðal allra þjóða, að bezti vegurinn til að tryggja frið væri, að hervæðast sem mest, svo að enginn þyrði að sækja á. Sú kenning heyrist nú aftur, þótt maður mætti halda, að hún hefði fallið í stríðinu mikla. Þegar alt hugvit og kraftar einnar þjóðar er notað til þess, að nema hernaðarlist og hernaðarfræði, og til að fullkomna sem bezt hernaðarvélar, bæði á sjó og landi, þá er ekki nema eðlilegt, að þjóðin vilji fyr eða síðar prófa hernaðarútbúnað sinn og hernaðarlist sína.

Á meðan stóð á þessari samkepni í að hervæðast, lá oft við stríði. Í hvert skifti voru upptökin þau, að miðveldin notuðu hnefaréttinn í skjóli hers síns. Árið 1905, þegar Rússar voru að verða undir í stríðinu við Japani, og gátu því ekki stutt Frakka, sendu Þjóðverjar kröfu til hinna síðastnefndu út af nýlendumálum í Norður-Afríku. Frakkar urðu að láta undan, og M. Delcassé, utanríkismálaráðherra þeirra, varð að segja af sér. Vonaði Þýzkaland um leið, að veikja hið nýja vinasamband milli Breta og Frakka, með því að sýna Frakklandi, að það gæti ekki reitt sig á hjálp Breta, þegar í nauðir ræki. Áhrifin fóru í öfuga átt og leiddu til nánara sambands milli Frakka og Breta. Árið 1908 unnu miðveldin annan sigur með hnefaréttinum. Í þetta skifti yfir Serbíu og Rússlandi, sem var illa á sig komið eftir japanska stríðið, þegar Austurríki með hjálp Þýzkalands innlimaði Bosníu og Herzegovínu. Næsta tilraunin til að nota hnefaréttinn kom 1911. Í þetta skifti var það aftur á móti Frakklandi, út af nýlendumálum í Afríku. En þýzka þjóðin, sem hafði verið æst með fundahöldum, sérstaklega í stórborgunum, þar til hún heimtaði stríð við Frakkland, varð að lækka seglin, þegar Bretland lýsti því yfir, að það fylgdi Frökkum í þessum málum. Þýzkaland var ekki enn tilbúið að berjast við Frakka og Breta sameinaða. Hnefarétturinn beið ósigur og þrætumálið var lagt í gerðardóm. Þetta var í fyrsta skiftið, sem hnefaréttur Þjóðverja beið ósigur á meginlandi Norðurálfu, og mátti því búast við, að þeir mundu ekki reyna að nota hann aftur, þar til þeir væru ákveðnir í því að hefja stríð.

Árið 1912 gerði brezka stjórnin mjög ákveðna tilraun til þess að komast að samningum við Þýzkaland, sem fyrirbygðu samkepni í hermálum, og sendu Haldane lávarð til Berlínar í því skyni. Þá lýsti Bretland því yfir, að það væri ekki í neinu sambandi og að það hefði enga samninga gert, sem settu sér það markmið að ráðast á Þýzkaland, og að það ætlaði sér ekki að gera þannig lagaða samninga. Bretland sagðist viljugt að lýsa því yfir, að það skyldi ekki gera eða taka þátt í ástæðulausri árás á Þýzkaland. Svar Þjóðverja var, að þeir einu samningar, sem Þýzkaland vildi gera, væru, að ef Bretar vildu lofa að standa hjá hlutlausir, hvenær sem Þýzkaland ætti í stríði; skyldu Þjóðverjar lofa því sama, hvenær sem Bretar ættu í stríði. Ef Bretar hefðu gengið að þessu, hefði verið mögulegt fyrir Þjóðverja að ráðast á Frakkland og Belgíu og sigra þau, en Bretland hefði orðið að sitja hjá. Bretar sögðu, að svo gæti engin frjáls þjóð bundið hendur sínar, því þá gæti farið svo, að hennar kraftar yrðu notaðir óbeinlínis til að þvinga veikari þjóðir, með óréttlátu stríði. Samningstilraunirnar féllu því niður.

Samtöl þessi 1912, og tilraunir Þýzkalands í júlí 1914 til þess að semja um hlutleysi Breta, ef í stríð færi milli miðveldanna og Rússa og Frakka, sýna greinilega, að Þjóðverjar vonuðu að fá endurtekið aðferð Bismarcks og yfirvinna óvini sína einn og einn í senn. Eftir sigur yfir Rússlandi og Frakklandi, og borgun stórra skaðabóta af þeim

ríkjum, yrði auðvelt að smíða nógu stóran herskipaflota til að ráðast á Breta.

Því hefir verið haldið fram, að ef Sir Edward Grey hefði strax, 25. júlí 1914, lýst því yfir, að Bretland stæði með Frakklandi og Rússlandi, í stað þess að reyna að miðla málum á vinsamlegan hátt, þá hefði Þýzkaland hætt við stríð í það skifti. Hvort svo hefði orðið, er mjög vafasamt, og engin von, að það hefði frestað ófriðnum nema skamma stund. En að gera þá yfirlýsingu í byrjun, hefði verið að áfrýja málinu strax til hnefaréttar og hervalds, í staðinn fyrir að reyna að komast að sanngjörnum samningum, sem allar þjóðir, er hlut áttu að máli, mættu við una.

Þar að auki benti margt til þess, að Þýzkaland og Austurríki hafi verið búin að ákveða, að láta til skarar skríða og heyja stríð, hvað sem það kostaði. Rússland var stöðugt að starfa að því, að koma her sínum í lag eftir stríðið við Japan; biðin var því óhagstæð Þjóðverjum, eins og dagblöð þeirra sýndu fram á. Þýzki fastaherinn hafði verið aukinn um yfir þrjú hundruð þúsund manns árið áður. Borgarstríð sýndist vera í byrjun á Írlandi, og það var álitið, að Bretar ættu þar fult í fangi og gætu því ekki hjálpað Frökkum. Einnig misskildu Þjóðverjar að líkindum hinar mörgu tilraunir Sir Edwards Grey til að stilla til friðar og álitu, að Bretar vildu undir engum kringumstæðum berjast. Einnig sýna innflutningaskýrslur, að Þýzkaland var í óða önn að birgja sig upp að þeim efnum, sem nauðsynlegu eru til hernaðar, en landið ekki framleiddi. Eitt af þeim efnum, sem þeim flokki tilheyra, og sem er ómissandi við tilbúning sprengiefna, er saltpéturssýra. Þetta efni var á þeim tíma mestmegnis unnið úr Chile-saltpétri, sem var flutt inn frá Suður-Ameríku. Fyrstu sex mánuði ársins 1914 flutti Þýzkaland inn nær fjórum sinnum eins mikið af Chile-saltpétri, eins og nokkurntíma áður á jafn-löngu tímabili. Margt fleira því líkt mætti til færa, ef rúm leyfði.

Ári fyrir ófriðinn, í ágúst 1913, tilkynti einnig Austurríki sambandsþjóð sinni Ítalíu, að það ætlaði sér að ráðast á Serbíu bráðlega. Í nóvember 1913 sagði Vilhjálmur II. í samtali við Belgíukonung, að stríð við Frakkland væri óumflýjanlegt, og ráðlagði Belgíu að veita Þýzkalandi, þegar þar að kæmi. Einnig hefir það komið í ljós eftir skeytum, sem fóru á milli þýzku ríkjanna, að Þýzkaland þekti kröfur Austurríkis gegn Serbíu áður en þær voru sendar, og að þær mundu leiða til ófriðar. Aðferð Þýzkalands að sjá um, að Austurríki neitaði stöðugt að ræða kröfur sínar gegn Serbíu, og að Þýzkaland sagði Rússum strax stríð á hendur, þegar Austurríki að lokum lézt tilbúið að ræða kröfuatriðin, og von sýndist vera til þess, að stríði yrði varnað, bendir til óbreytanlegs ásetnings Þýzkalands, að fresta ekki lengur að leggja undir sig Norðurálfuna.

Ef maður íhugar að endingu grundvallaratriði þau, er leiddu til stríðsins mikla, þá verður maður fyrst og fremst að telja heimspeki þá, sem hinir þýzku rithöfundar og stjórnmálafræðingar kendu; nefnilega, að það sé skylda hverrar framfaraþjóðar, að iðka hernað, svo að undirstöðuatriði náttúrulögmálsins, að þeir sterkustu skuli lifa og erfa jörðina, geti verkað til viðhalds og þroskunar mannkyninu; að **máttur** sé því það sama og **réttur**, og að það sé skylda þeirra sterkari, að sigra og stjórna, eða jafnvel uppræta þá, sem veikari reynast. Lofsöngvar voru sungnir um sverð og stríð sem það eina lyf, sem gæti læknað allar meinsemdir þjóðanna. Ofan á þetta bættist sú trú þýzku þjóðarinnar, sem var eðlileg afleiðing kenninga skálda hennar í bundnu og óbundnu máli, að hún væri að öllu leyti hafin langt yfir aðrar þjóðir, að þýzk menning væri það æðsta í heimi og að það væri því fyrirhugað af forsjóninni, að Þýzkaland skyldi stjórna öllum þjóðum.

Í þessum jarðvegi döfnuðu alment hernaðaríþróttir og hernaðarfræði, þar til hermenska var orðið helzta einkenni þjóðarinnar. Það var því í samræmi og eðlilegt, að Þjóðverjar gerðu sitt ítrasta til að hindra vöxt og viðgang allra alheimsfriðarsamtaka. Hvað eftir annað varð að breyta samþyktum á friðarþinginu í Haag, unz þær voru orðnar

tilgangslausar, svo Þjóðverjar ekki gengju af þingi, eða þeir hótuðu að senda enga erindreka á þingið, ef viss mál, er gátu leitt til alheimsfriðar, yrðu sett á dagskrá. Þetta átti sér einkanlega stað, þegar um takmörkun á herbúnaði þjóðanna var að ræða, því þesskonar takmörkun var á móti heimspekis- og stjórnmálahugmyndum Þjóðverja. Afleiðingin varð hin mikla samkepni í herbúnaði þjóðanna, sem Þýzkaland gekk á undan í, bæði á sjó og landi, og sem hlaut að leiða til stríðs fyr eða síðar. Meðan þessi andi ríkti hjá þýzku þjóðinni, var ekki að búast við neinum árangri af tilraunum Breta til að koma á samningum, er trygðu frið í Norðurálfunni. Það eina, sem Þýzkaland var viljugt að gera í því efni, var að lofa Bretlandi, að hafa frið, þar til þess tími kæmi, eftir að stórveldin á meginlandi Evrópu væru sigruð. Hnefaréttur Þýzkalands hafði sigrað þar til 1911, að hann beið ósigur. Næsta vopnið var herinn. Undirbúningur undir stríð fór fram af kappi í næstu þrjú ár. Svo kom átyllan. Morð ríkiserfingjans austurríska og konu hans í Sarajevo. Það var talið, að þessi morð myndu fylla svo viðbjóði hina löghlýðnu borgara brezka konungsveldisins, að þeir ekki tækju þátt í stríðinu. En ályktun Þjóðverja var aðeins að parti rétt. Þeir gleymdu að taka með í reikninginn árás þá, er þeir gerðu á Belgíu litlu, og áherzlu þá, sem brezka veldið leggur á það, að efna loforð sín og halda samninga sína, þótt þeir séu eigi annað en ritaður "bréfsnepill".

# Þátttaka Canada í stríðinu

Eftir *B. J. Brandson lækni.*

Fáum mun hafa komið það í huga, þegar fréttin um að Ferdinand, ríkiserfingi hins mikla keisaradæmis, Austurríkis, hefði verið myrtur í smáþorpi einu í Bosníu, 28. júní 1914, að með dauða hans hefði verið kveiktur sá neisti, sem átti eftir að verða það alheimsbál, sem stríðið mikla síðar varð. Draumsjónamenn heimsins voru farnir að ímynda sér, að stríð og blóðsúthellingar gætu ekki lengur átt sér stað í hinum svokallaða siðaða heimi; að menningin væri orðin svo fullkomin, og þroski hennar kominn á svo hátt stig fullkomnunar, að slíkt gæti ekki lengur átt sér stað. Alment viðurkendu menn, að stríð yfirleitt færðu meiri hörmungar, eymd og volæði yfir þjóðirnar, en nokkuð annað. Með vaxandi þroska og menningu fjölgaði þeim óðum, sem þóttust sjá, að stríð milli siðaðra þjóða væri óhugsanlegt. En samt voru til menn, sem á annan veg lásu tákn tímanna og þóttust sjá handskrift á veggnum, sem skrifaði með blóðugu letri. Á fyrsta áratug þessarar aldar var samkepni stórþjóðanna á ótal svæðum áþreifanlegri en nokkru sinni fyr. Með samkepninni í verzlunarskiftum fór vaxandi þrá eftir meiri völdum og meiri yfirráðum. En friðsamlega samkepni, eins lengi og engin óheiðarleg vopn eru notuð, er ekki að lasta, því slík samkepni getur aldrei haft hættu í för með sér. En með vaxandi verklegri samkepni, fór líka vaxandi samkepni í herútbúnaði öllum, bæði á sjó og landi. Norðurálfan var svo að segja sem stórar herbúðir, þar sem stórþjóðirnar keptust um, að vera sem bezt við stríði búnar. Í staðinn fyrir að fyrirbyggja stríð, getur slíkur viðbúnaður ekki haft aðrar en gagnstæðar afleiðingar. Þótt vaxandi samkepni og tortrygni meðal þjóðanna væri hættuuleg, þá var það ekki nægilegt til að hrinda þeim út í þann hyl hörmunganna, sem fyrir framan þær lá.

Aðalorsökin til stríðsins var sú, að stjórn Þýzkalands hafði ásett sér að hefja stríð, þegar tækifærið álitist heppilegt, með því augnamiði, að gerast alheimsherrar. "Alheimsveldi eða eyðilegging," voru einkunnarorð hins þýzka hervalds. Með þetta fyrir augum var gripið fyrsta tækifærið, sem hagkvæmt þótti, til þess að byrja stríðið, sem átti að gera hið þýzka hervald að alheimsherra. Í byrjun stríðsins gerðu menn sér ekki grein fyrir þessu, og áttu bágt með að trúa, að hin þýzku yfirvöld hefðu starfað með þessu augnamiði í heilan mannsaldur. En með tímanum urðu sannanirnar svo margar og ótvíræðar, að menn hlutu að trúa, ef þeir voru ekki andlega blindir.

Það, sem eg hefi sagt um herútbúnað Norðurálfuþjóðanna, átti ekki við Canada. Hjá fáum þjóðum hafði hernaðarlist verið minni gaumur gefinn en hjá Canadamönnum, alt þar til stríðið mikla byrjaði. En strax og styrjöldin hófst, var það óumflýjanleg skylda hinnar canadisku þjóðar, að taka þátt í henni. Sem partur af hinu brezka veldi var Canada siðferðislega, ef ekki lagalega, skyldugt til að leggja móðurlandi sínu Bretlandi, lið eftir megni. Einkanlega var þetta sjálfsögð skylda, þegar á það var litið, að Bretland var ekki að berjast af eigingjörnum hvötum, en það fann skyldu sína, að standa við þá samninga, sem gerðir höfðu verið við hina litlu þjóð, Belgíu, að koma henni til liðs, ef á hana væri ráðist að fyrrabragði. Þegar Canada réðist út á vígvöllinn, var það ekki orðið augljóst, að þetta stríð væri barátta upp á líf og dauða milli tveggja ólíkra stefna, milli frelsis og ófrelsis, milli afturhalds og framsóknar. Ef hið þýzka hervald hefði borið sigur úr býtum, þá hefði frelsisbarátta þjóðanna á öllum liðnum öldum verið til ónýtis, og allir þeir, sem fórnað höfðu lífi sínu fyrir frelsi og menning þjóðanna í liðinni tíð, starfað og dáið til einkis. Það var ekki fyr en áform Þjóðverja urðu

augljós, að bandaþjóðirnar, sem á móti þeim stríddu, vöknuðu til fullrar meðvitundar um, hvað í veði var, og sú meðvitund gaf þeim það þrek og þann kjark, sem að lokum bar málefni þeirra til sigurs.

Í fyrstu var hugmyndin hjá Canadastjórn, að senda 30,000 hermenn til Evrópu. Margir af þeim, sem fyrst buðu sig fram til herþjónustu, gerðu það eflaust meir af æfintýrafýkn en ættjarðarást. Margir hugsuðu, að stríðið stæði aðeins nokkrar vikur, eða ef til vildi nokkra mánuði. Fáum kom víst til hugar, að það liðu meira en fjögur ár áður en það yrði leitt til lykta. Með hverju árinu fóru kröfurnar stöðugt vaxandi. Smám saman fóru menn að skilja, að til þess að bera hið góða málefni til sigurs, yrðu allar bandaþjóðirnar að leggja fram alla krafta sína og leggja meira í sölurnar en nokkrum manni hafði í fyrstu komið til hugar. Í stað þess að senda 30,000 menn til vígvallar, réðist Canadastjórn í að senda þangað 100,000 hermenn, og þegar það sýndist ekki vera nægilegt, var reynt til að bæta þar enn við. Í endir stríðsins voru nálega 160 þúsundir á vígvellinum. Til þess að halda úti svo mörgum mönnum, og fylla stöðugt hin auðu pláss þeirra, sem féllu eða særðust, var nauðsynlegt að hafa fjölda manns til vara (in reserve). Í alt voru innritaðir í her-Canada 595,441, og af þeim fóru til Evrópu um 440,000. Um 95,000 voru leystir úr herþjónustu af ýmsum ástæðum og ekki sendir frá Canada. Rúmlega 60,000 voru enn í hernum, en ekki farnir frá Canada í lok stríðsins.

Fyrst framan af var auðvelt að fá nægilega marga menn, sem af frjálsum vilja buðu sig fram til herþjónustu. En eftir þrjú ár, var svo farið að sverfa að þjóðinni, að nauðugur var einn kostur, ef Canada átti að halda áfram að taka jafn mikinn þátt í stríðinu, eins og þjóðin hafði þá sett sér, að lögleiða herskyldu. Þetta var mörgum ógeðfelt og vakti mikla sundrung og óánægju. Margir álitu, að Canada gerði betur að beita kröftum sínum til aukinnar framleiðslu á matvörum og öðrum nauðsynjum. Öðrum fanst það ekki útheimta sérlega mikla frelsis- og ættjarðarást og sízt fórnfýsi, að starfa að framleiðslu á vörum, sem seldar voru með góðum ágóða. En Canadaþjóðinni til ævarandi heiðurs valdi hún það hlutskiftið, sem heiðarlegra en erfiðara var, kaus að slá ekki slöku við, heldur gera sitt ýtrasta til hins síðasta, og bregðast ekki þeim af sonum sínum, sem þegar voru komnir á vígvöllinn og í þrengingum sínum báðu um hjálp.

Á þeim þremur og hálfu ári, sem Canadamenn voru á vígvellinum, tóku þeir þátt í ótal mörgum orustum og áhlaupum. Aldrei í nokkru stríði hafa hermenn allra þjóða, sem í því tóku þátt, sýnt meiri hugprýði, kjark og þolgæði en kom í ljós í stríðinu mikla. Þetta má með sanni segja um hermenn allra þjóða, sem hér áttu hlut að máli. Líka má með sanni segja, að engir hermenn tóku Canada fram. Samkvæmt vitnisburði óvina þeirra, eftir að þeir höfðu lært að þekkja þá, vildu þeir einna sízt verða fyrir áhlaupum frá þeim, og mjög sjaldan réðust þeir þar að, sem þeir vissu, að Canadamenn voru fyrir. Skömmu eftir að þeir komu á vígvöllinn, gátu þeir sér ágætan orðstír í seinni orustunni við Ypres, þar sem Þjóðverjar notuðu í fyrsta skifti eiturloft gegn óvinum sínum. Í þeirri orustu héldu þeir sínum hlut á vígvellinum og vörðu óvinunum aðgang að Calais og öðrum höfnum á Frakklandi. Í orustunum við Passchendale og Vimy Ridge vakti framkoma þeirra ekki aðeins athygli, heldur og aðdáun. En aldrei kvað jafnmikið að þeim eins og í atlögum þeim, sem Bandamenn gerðu að Þjóðverjum á síðustu fjórum mánuðum stríðsins. Hvert hreystiverkið rak annað frá orustunni við Amiens, 8.—17. ágúst, þar til að morgni 11. nóvember, að þeir tóku bæinn Mons. Ludendorff, hinn frægi þýzki yfirherforingi, segir svo frá í bók sinni um stríðið, að hann hafi fyrst örvænt um sigur, þegar Canadamenn 8. ágúst brutust áfram 14,000 skref í gegnum víggirðingar hans á einum degi. Þótt hann héldi áfram að verjast, þá hafði hann ekki lengur neina von um sigur. Ótal aðrar orustur mætti nefna, þar sem Canadamenn sýndu frábæra hreysti, þrautseigju og vígkænsku, og gátu sér þá frægð, sem aldrei

mun deyja í huga og hjörtum frjálsra og frelsiselskandi manna.

Af her Canada féllu á vígvelli eða dóu af sárum 51,674 menn. Af öðrum orsökum dóu 4960. Þess utan voru særðir um 150,-000 manna. Hryllilegt er að hugsa sér þenna stóra hóp deyja fórnardauða fyrir frelsi og viðgang þjóðar sinnar. En þetta er sama sagan, sem hefir endurtekist í gegnum aldirnar, að fyrir ættjörðina leggja lífið í sölurnar margir af hennar göfugustu og hugprúðustu sonum. Að verða að sjá svo mörgum af þjóðarinnar ágætustu sonum á bak er óumræðilegt sorgarefni, og eina huggunin er sú, að það málefni, sem þeir fórnuðu lífi sínu fyrir, báru þeir mitt í dauðanum til sigurs. Æfistarf þeirra var stutt, en óumræðilega þýðingarmikið, ekki aðeins fyrir þá, sem nú lifa, heldur líka fyrir komandi kynslóðir, sem munu uppskera ríkulega það, sem þeir hafa sáð.

Þegar ein þjóð stendur uppi í stríði fyrir tilveru sinni, eru það ekki aðeins hermennirnir, sem hlut eiga að máli, heldur verður svo að segja hver einstaklingur, beinlínis eða óbeinlínis, hluttakandi í baráttunni. Viljinn til sigurs, viljinn til að leggja fram alt, sem getur til liðs orðið, alt, sem viðheldur þreki og móð hjá þjóðinni, hefir ómetanlega mikil áhrif. Þetta skildu stríðsþjóðirnar mæta vel, vinir jafnt sem óvinir. Þess vegna voru öll möguleg meðöl notuð til að auka sálarkraft og ættjarðarást þjóðanna. Menn skildu það mæta vel yfirleitt, að ef þjóðin heima fyrir léti hugfallast, þá væri ekki lengur að hugsa til þess, að þeir, sem á vígvellinum voru, héldu sinni hugprýði og þolgæði. Að þetta var rétt skoðun, sást bersýnilega, þegar að enda stríðsins dró og hin þýzka þjóð misti sigurvon sína, þá mistu líka hermenn hennar hugrekkið og alla von um sigur. Ludendorff segir, að ef þjóðin heima fyrir hefði ekki gefist upp, þá hefðu hermennirnir haldið uppi baráttunni miklu lengur en þeir gerðu. En þegar þjóðin misti það þrek, sem viljanum til sigurs er meðfylgjandi, þá var alt tapað. Mikið af stríðsstarfi hinnar canadisku þjóðar miðaði ekki aðeins að því, að veita hermönnum hennar alt það, sem mögulegt var að láta í té, heldur að því, að gera kjör aðstandenda þeirra, og þar næst þjóðarinnar í heild sinni, eins þolanleg og mögulegt var undir hinum erfiðu kringumstæðum. Þegar um hluttöku Canada í stríðinu er að ræða, þá er ærið margs að minnast fyrir utan hermenn þjóðarinnar, þó að þeirra starf sé stærsti þátturinn í stríðssögunni. Þjóðræknissjóður var stofnaður strax í byrjun stríðsins, með því augnamiði, að styrkja aðstandendur hermanna, þar sem þess virtist þörf. Þessi sjóður var stofnaður og honum haldið við með frjálsum samskotum. Í hann safnaðist alls yfir $50,000,000, og milli 50 og 60 þúsund fjölskyldur nutu aðstoðar af honum fyr eða síðar. Starf Rauða Krossins, hjúkrunarfélagsins alkunna, var líka umfangsmikið og margvíslegt. Meira en $20,000,000 söfnuðust félaginu í sjóð, sem svo var útbýtt þar sem þörfin sýndist mest. Til styrktar starfsemi hins Kristilega félags ungra manna var safnað nær $5,000,-000, sem gerði því mögulegt að halda uppi stórkostlegri hjálparstarfsemi meðal canadiskra hermanna, bæði á Frakklandi og annarsstaðar. Mörg önnur líknar og hjálparfyrirtæki mætti nefna, en þessi voru stærst. Þegar verið er að tala um líkarstarfsemi í sambandi við stríðið, má ekki gleyma hinu canadiska kvenfólki og hluttöku þess í stríðinu. Engar skýrslur geta gefið neina verulega hugmynd um starf þeirra, því að það var svo margvíslegt og yfirgripsmikið. Samt má geta þess, að 2400 canadiskar hjúkrunarkonur fóru yfir hafið, til að starfa þar á sjúkrahúsum að hjúkrun særðra hermanna. Mörg hundruð annara kvenna eyddu lengri eða skemri tíma við margvíslegt líknar- og hjálparstarf, bæði fyrir hermenn og aðstandendur þeirra. Yfirleitt er óhætt að fullyrða, að kvenfólk þjóðarinnar lá ekki á liði sínu, heldur gerði alt, sem í þess valdi stóð, ekki aðeins til sigurvinningar, heldur líka til að græða þau mörgu sár, sem stríðinu voru samfara. Líka fyltu margar þeirra pláss manna, sem á vígvöllinn voru farnir, og það oftsinnis við verk, er til þess tíma hafði verið skoðað sem ekki við kvenfólks hæfi. Þegar vopnasmíð og skotfæragerð stóð sem

hæst, þá unnu um 30,000 konur við þá vinnu í canadiskum verksmiðjum. Fleiri kvenmenn unnu við landbúnað og akuryrkju en nokkru sinni fyr, og gerðu það mögulegt, að framleiða meira af matvöru, þegar mest var þörfin, en nokkru sinni áður hafði átt sér stað. Á ótal stöðum létu konur til sín taka og jafnan bar starf þeirra heillaríkan ávöxt.

Á stríðsárunum, einkanlega árin 1917 og 1918, var svo að segja öllum framleiðslukröftum þjóðarinnar beitt beinlínis eða óbeinlínis í þarfir stríðsins. Á þessum árum óx framleiðsla og verzlun í landinu ótrúlega mikið, og ýmsir atvinnuvegir, sem áður hafði verið lítill gaumur gefinn, urðu stórkostleg fyrirtæki. Vopn og skotfæri voru búin til upp á meira en $1,000,000,000, sumpart handa Canadahernum, en sumpart handa öðrum bandaþjóðum. Skipasmíði hafði lítið verið iðkuð í Canada fyr, en nú voru búin til af ýmsu tagi nær þúsund skip, mörg stór, þó fleiri væru smá. Síðasta árið, sem stríðið stóð, var flutt út úr landinu meira en fjórfalt af matvöru við það, sem átti sér stað á næstu árum á undan, þegar miðað er við verðmæti vörunnar. Hin aukna framleiðsla á matvöru var stórkostlega mikils virði fyrir bandaþjóðirnar, og átti stóran þátt í því, að mögulegt var að leiða stríðið til sigursælla lykta.

Eins og hjá öðrum þjóðum, var stríðskostnaðurinn afskaplega mikill frá fjárhagslegu sjónarmiði. Ríkisskuldin óx um nærri $2,000,000.000 á stríðsárunum, alt af völdum stríðsins. Til þess að mæta þessum skuldum, eða réttara sagt vöxtunum af þeim, því meira hefir þjóðin enn ekki færst í fang, hafa allir skattar hækkað ótrúlega mikið, svo mikið, að sumum finnast þeir óbærilega háir. Samt má geta þess, að skattar í Canada eru yfirleitt lægri en hjá nokkurri annari þjóð, sem í stríðinu tók þátt. Með þeirri náttúruauðlegð, sem Canada á yfir að ráða, sem í sumum tilfellum er nærri því óausinn brunnur, eru meiri vonir um, að þessi þjóð fái risið undir sinni skattabyrði en flestar aðrar þjóðir. Til þess, að svo megi verða, þarf viturlega stjórn, samúð og fyrirhyggju einstaklinganna, ásamt áræði og þrautseigju. Þrátt fyrir stormviðrið og myrkur það, sem stríðið færði yfir þjóðina, er óhætt að segja, að vonarstjarna þjóðarinnar skín nú á milli skýjanna með ótrúlega mikilli birtu.

Það hefir verið mikið óþarfa hjal um, hvaða þjóð hafi unnið stríðið. Sannleikurinn er sá, að allar þjóðirnar, sem í því tóku þátt á hlið Bandamanna, unnu stríðið. Ef nokkra eina þeirra hefði vantað í hópinn, þá hefði stríðið farið á alt annan veg. Það væri í fylsta máta skoplegt að segja, að Canada hafi unnið stríðið, en hitt má segja með sanni, að ef Canada hefði ekki lagt til sinn skerf, þá hefði stríðið ekki unnist. Það var svo oft, sem ekki munaði nema hársbreidd, að óvinirnir ynnu ekki algerðan sigur. Ef Belgíumenn hefðu ekki í bráðina heft för þeirra við Liegé, ef Frakkar hefðu ekki sýnt dæmafáa hreysti við Marne, ef Englendingar hefðu látið bugast í fyrstu orustunni við Ypres, eða Canadamenn í hinni síðari, ef Frakkar hefðu gefist upp við Verdun, — eins langt og maður nú getur séð, hefði alt verið tapað. Og þá auknir kraftar og aukinn móður fékst með komu Bandaríkjanna á vígvöllinn, tóku allar sambandsþjóðirnar þátt í þeim stórkostlegu atlögum, sem um síðir lögðu óvinina að fótum þeirra. Hin canadiska þjóð getur með sanni stært sig af því um allar ókomnar aldir, að hún hafi slegið nokkur af þeim hamarshöggum, sem steyptu hinu þýzka hervaldi til jarðar. Þetta hervald táknar í huga þjóðarinnar það afturhald og ófrelsi, sem á öllum öldum hefir leitast við að leggja hömlur á alla sanna framsókn. Margir, sem á vígvellinum voru, börðust með þá hugsjón í hjarta sínu, að með fengnum sigri fengist líka betri heimur, heimur, þar sem framsóknarþrá mannsandans fengi að dafna og þroskast til fullkomnunar, óáreitt af völdum stríðs og blóðúthellinga. Það er fyrir framtíðina að leiða í ljós, hvort þessar hugsjónir hinna stríðandi hermanna verða að virkileika eða ekki.

Stríðið og hluttakan í því hefir haft stórkostleg áhrif á hugsunarhátt og andlegt líf þjóðarinnar. Í eldraunum stríðsins hafa

skapast nýjar hugsjónir, og sumar aðrar hafa hreinsast og fágast. Þjóðernisandinn hefir þroskast ótrúlega mikið, svo að það má með sanni segja, að Canada hafi farið í stríðið sem nýlenda, en komið þaðan fullveðja ríki í hinu brezka sambandi. Þessi þjóðernistilfinning getur ekki annað en haft stórkostleg áhrif á allar hliðar hins canadiska þjóðlífs. Endurminningarnar um þá, sem fórnuðu lífi sínu fyrir land og þjóð, verða ómetanlegur andans fjársjóður fyrir komandi kynslóðir. Í sögu mannkynsins er ein kynslóð sem eitt æðarslag, en þeir menn, sem hjá sinni kynslóð lögðu lífið í sölurnar fyrir hana, gleymast aldrei. Hugsjónir þær, sem hermenn vorir hafa lagt svo stóran skerf til að skapa, eiga eftir að bæta þjóðinni að nokkru leyti fyrir þann ómetanlega skaða, sem hún hefir liðið af völdum stríðsins mikla.

# Hluttaka Bandaríkjanna

Eftir *Geo. Peterson lögmann.*

Í þessari stuttu grein verður aðeins snert við aðalatriðunum:

I.

Hvað dró Bandaríkin út í stríðið?

Kafbáta hernaðaraðferð Þjóðverja.

Þeir bönnuðu heiminum umferð um höfin, hvort sem nokkra heimild, eða ekki, í alheimslögum var fyrir því banni að finna. Þeir tilkyntu heiminum, að eftir 1. febr. 1917 yrði öllum farþega- og flutningaskipum sökt fyrirvaralaust, er um höfin sigldu í þeirra forboði. Og rækilega var sú hótun efnd. Öllum skipum var miskunnarlaust sökt, án nokkurs fyrirvara og án nokkurrar ráðstöfunar til björgunar þeim er voru innanborðs. Hvort það voru hermenn, sjómenn, farþegar, konur eða börn, gerði engan mun. Hverju fari var sökt í hið kolgræna kaf, er um sjóinn sigldi, hverrar þjóðar sem var, undir hvaða flaggi sem fór, til hverrar hafnar sem stefndi eða hvaða flutning sem bar eða erindi rak; skipum sem fluttu gjafir til hinna sárþjáðu og líðandi belgísku þjóðar og spítalaskipum, jafnt sem öðrum, enda þótt fararleyfi og óhult leiði hefðu fengið hjá sjálfri þýzku stjórninni. Hér var enginn munur gerður á milli vinveittra hlutlausra þjóða og óvinaþjóða. Þessi stríðsaðferð var, eins og Wilson forseti komst að orði: "stríð við allan heiminn. Mannkynið var skorað á hólm" við Þýzkaland. Hver þjóð fyrir sig varð að ráða það við sig, hvernig þeirri áskorun væri tekið. Bandaríkin tóku henni með því, að segja Þýzkalandi stríð á hendur 6. apríl 1917.

Ekki skorti aðrar ástæður. Lengi hafði verið grunt á því góða með Þjóðverjum og Bandaríkjamönnum. Engin veruleg vinátta átti sér stað, eða gat átt sér stað, með einvalds- og hervaldsstjórninni þýzku og þjóðstjórn Bandaríkjanna. Lengi hafði varghugur prússneska hervaldsins seilst neðansjávar til Ameríku, eins og Miðgarðsormurinn, þótt haus skrimslisins sæist fyrst, þegar Lusitaníu var sökt. Enda var því níðingsverki fagnað með hátíðahaldi um þvert og endilangt Þýzkaland, sem stórmiklum "mórölskum" sigri. Í meira en mannsaldur höfðu hermálaráðgjafar Þýzkalands setið eins og valkyrjur og ofið sinn Darraðar-vef:

"Sas orpinn vefr
ýta þörmum
ok harðkléaðr
höfðum manna.
Eru dreyrrekin
dörr at sköftum,
járnvarðr yllir,
enn örum hrælat.
Skulum slá sverðum
Sigurvef þenna."

Í raun réttri flutti Þýzkaland Bandaríkjunum stríð að höndum jafnsnemma og hinum þjóðunum, Englandi og Belgíu. Njósnarar þess voru hér á hverju strái í byrjun stríðsins, 1914, og enda löngu fyr. Erindrekar og sendiherrar þess gerðu hverja tilraunina á fætur annari til að sprengja hér upp verkstæði og koma á verkföllum og upphlaupum um land alt, strax frá byrjun stríðsins. Kafbátar þess söktu, við hvert tækifæri sem þeim gafst, farþega- og flutningaskipum Bandaríkjanna.

Loks reyndi Zimmermann, utanríkisráðherra Þjóðverja, að koma Mexico og Japan í stríð við Bandaríkin; alt á meðan Bandaríkjastjórnin gætti vandlega hlutleysis í stríðinu. Og síðast, til að bæta háðung ofan á skömm, var tilboð þýzku stjórnarinnar til Bandaríkjastjórnar, 31. janúar 1917, um að leyfa farþegaskipum Bandaríkja ferð um hafið, bundið þessum skilyrðum:

(a) Að lent skyldi í Falmouth.

(b) Að skip frá og til þeirrar hafnar sigldu hjá Scilli-eyjunum, 50° N., 20 W.

(c) Skip séu merkt sem fylgir, en óleyfilegt öllum öðrum skipum í amerískum höfnum: Á skipsskrokki og yfirbyggingu þrjár rauðar rendur upp og niður, málaðar til skíftis, rauð og hvít. Stórt tiglað flagg á hverju siglutré, rautt og hvítt, en í skut þjóðflagg Bandaríkjanna. Vel skuli þess gætt, þegar dimt er, að þjóðflagg og merki séu vel sjáanleg tilsýndar, og að skipin séu vel upplýst.

(d) Eitt skip á viku má sigla hvora leið, koma til Falmouth á sunnudag, fara þaðan á miðvikudag.

(e) Bandaríkjastjórn ábyrgist, að skip þessi flytji engan óleyfilegan varning, eftir fyrirmælum Þjóðverja.

Eins og röndótt Zebradýr, eins og dílótt Pardusdýr, með flagg í skut, eitt á viku, aðeins til Falmouth, máttu skip Bandaríkjanna skríða um sjóinn, í leyfi Vilhjálms keisara. Undir það jarðarmen gat Bandaríkjaþjóðin ekki svínbeygt sig fyrir Þjóðverjum.

Friðelsk er Bandaríkjaþjóðin. Friðelskari stjórn en Wilsons-stjórnina getur ekki. Roosevelt, fyrirrennari Wilsons, sveiflaði kylfunni. Wilson sveiflaði pennanum. — Meðan Þjóðverjar brugguðu Bandaríkjunum allskonar fjörráð og söktu skipum þeirra og myrtu þegna þeirra í þúsundatali, ritaði Wilson "Nótur". Skínandi voru þær og snjallorðar, en áhrifalausar á hið úlfslega hugarþel prússneska hervaldsins, sem skotið væri sápubólum á bryndreka. Þjóðverjar héldu áfram uppteknum hætti með að sökkva farþegaskipum fyrirvaralaust.

Loksins sá þó Wilson, að ekki mátti svo búið standa. Hann lagði málið fyrir þingið 2. apríl 1917. Fjórum dögum síðar, eða 6. apríl, lýsti þingið yfir, með 82 atkv. gegn 6 í efri málstofunni og 273 gegn 50 í hinni neðri, að komið væri í stríð milli Þýzkalands og Bandaríkjanna. Stjórn og þingi fylgdi þjóðin einhuga. Of lengi hafði prússneski berserkurinn bitið í skjaldarrendur og ögrað ungu hetjunni í vestrinu til hólmgöngu. Nú snerist hún til atlögu.

Bandaríkin voru langt frá því að vera vígbúin, þegar þau lögðu út í stríðið. Herinn taldi tæpar 200,000. "Svo snildarlegur, lítill her," sagði Kipling í spaugi. "Fyrirlitlegur her," sagði Vilhjálmur keisari. Herflotinn var að mestu undirbúinn. Hann á ætíð að vera það. Tvent var það þó, sem Bandaríkin voru útbúin með: fallbyssukúlur og sprengiefni. Stríðið gegn Þjóðverjum til þessa, og altaf, var mestmegnis háð með þessum hlutum frá Bandaríkjunum. Peningar voru líka nægilegir til, sem kom sér vel, því mikils þurfti með.

Ötul og hagsýn er Bandaríkjaþjóðin, og sú mesta starfsþjóð, sem enn hefir verið uppi í heiminum. Hún gerði það samstundis að sínu starfi, að vinna stríðið. Það var ekki horft í nokkurn skapaðan hlut til þess. Stjórnin bað um það, sem hún þurfti. Samstundis lagði þjóðin það til, og möglunarlaust. Ef beðið var um peninga, var ætíð meira í boði en beðið var um. Hið sama um mannafla. Hið sama var um stríðsföng. Öll þjóðin — meira en hundrað miljónir — vann að því takmarki einu, að vinna stríðið, og að vinna það sem fyrst, konur og karlmenn, börn og gamalmenni. Fólkið borðaði, meira að segja, aðeins það, sem stjórnin leyfði; gerði það, sem stjórnin sagði því; fékk stjórninni alt, sem hún bað um.

Það var kafbáta-hernaðaraðferð Þjóðverja, sem var aðal-orsökin til þess, að Bandaríkin lögðu út í stríðið. Sama dag og stríðsyfirlýsingin var samþykt, lagði herflotinn út til að vinna bug á þeim. Upptæk voru gerð öll þýzk skip í bandarískum höfnum, 88 talsins, með 460,737 smálesta rúmi. Þjóðverjar reyndu að eyðileggja þau, og skemdu mörg þeirra, áður en þau voru tekin, en við hvert einasta skip var gert, og öll voru þau notuð til herflutninga. Fyrsta verk flotans var að eyðileggja kafbáta Þjóðverja. Að því starfi vann hann, með hjálp brezka flotans, með þeim árangri, að eyðileggingarverk kafbátanna, sem var á sínu hæsta stigi, þegar Bandaríkin fóru í stríðið, þvarr mjög sumarið 1917, og 1918 var það orðið af-

kastalítið. Næsta aðalverk flotans var að vernda herflutningaskip Bandaríkjanna. Það starf var svo vel af hendi leyst, að varla hlektist á einu einasta skipi, þrátt fyrir allar kafbáta-árásir.

Nú var um að gera, að senda Bretum og Frökkum sem fyrst nógu mikið lið til þess að vinna á Þjóðverjum. Fyrst var herinn aukinn úr 200,000 upp 500,000, en það hrökk lítið. Almenn herskylda var lögleidd. Herskyldir voru allir heilbrigðir menn, 18—45 ára að aldri. Fyrst voru innritaðir menn frá 21 til 31 árs. Þeir voru 10,679,814. Af þeim fóru í herinn 2,666,867. Næst voru innritaðir menn frá 18 til 45 ára. Þeir voru 13,228,762. Af þeim fóru í herinn 120,157. Frá Havai, Alaska og Porto Rico voru innritaðir 325,445 menn, á aldrinum 18—45 ára. Af þeim fóru í herinn 23,272. Ein miljón sjálfboða gáfu sig fram. Af þeim voru teknir í herinn 500,000. Allur varð því herinn um 4,000,000. Sjóherinn taldi 800,000. Land- og sjóher til samans 4,800,000. Til Frakklands fóru 2,084,000. Af þeim tóku 1,390,000 þátt í orustum. Til Ítalíu fóru 1200.

Lítið gerðu Þjóðverjar úr því, að Bandaríkin gætu nógu snemma tekið svo mikinn þátt í stríðinu, að verulega munaði um. — "Þeir geta smalað saman skríl fjölmennum; en að gera úr þeim hermenn og koma þeim yfir til Norðurálfunnar áður en við vinnum stríðið, er ómögulegt," sögðu þeir. Samt komu Bandaríkin þessu hvorutveggja í verk. Herflutningar til Frakklands byrjuðu strax í júní 1917. Fyrst dræmt, en svo með sívaxandi hraða, þar til 306 þúsundir voru fluttar á einum mánuði. Það var í júlí 1918. Í árslok 1917 höfðu Bandaríkin 194,000 hermanna á Frakklandi. 1. júlí 1918 var talan orðin 1,000,000; nóg til þess að snúa liðsmuninum á Þjóðverja.

Herföng og allur útbúnaður var fluttur jöfnum höndum við menn, 7,500,000 smálestir.

Alt var þetta valið lið, ekki síður en liðið á Orminum langa; kornungir og hraustir menn, Jómsvíkingarnir úr Vesturheimi, er aldrei mæltu æðruorð, og hvorki brá við sár né bana. Þeir voru mergurinn úr þjóðinni, blómi mannkynsins, háir og hermannlegir menn, æfðri frá barnæsku við leikfimi og allskyns íþróttir, sund, kapphlaup, stökk, glímur, hnefaleiki, knattleiki, og nú við vopnaburð, eins og hetjurnar í fornöld. Fráir voru þeir sem hreinar, sterkir sem vísundar, hugrakkir sem ljón og grimmir í orustum sem grábirnir Klettafjallanna; prúðar og hraustar hetjur með sigurvissuna í brjóstum. "Vasklegir eru þeir," sögðu Englendingar og Frakkar. "Þeir eru óæfðir, þeir geta ekki barist," sögðu Þjóðverjar. Hvort þeir gátu barist eða ekki, var að dálitlu reynt við Cambrai, Chateau-Thierry — þar voru tekin öll tvímæli af um það. Þetta fríða og hrausta lið flutti Pershing úr vestrinu, og gekk með það í fylkingar Englendinga og Frakka, þar sem þeir vígmóðir og liðfáir háðu hinn ójafna og ægilega hildarleik við Þjóðverja, eins og Grímumaðurinn mikli, er hann gekk í lið með Hrólfi og Stefni í viðureign þeirra við Grím ægi og Eirík jarl. Í 200 daga börðust þeir. Þrettán orustur háðu þeir á franskri fold, landi Lafayettes, sem með Washington barðist fyrir frelsi feðra þeirra. Nú börðust þeir hlið við hlið með hraustum Frökkum, og ekki síður hraustum og þrautseigum Bretum, fyrir frelsi mannkynsins, svo að þjóðveldið mætti þrífast í heiminum. "Eins og jarðfast móberg stóðu mókæddu fylkingar Bandaríkjamanna á Parísarveginum, í bardaganum við Chateau-Thierry. Á þeim kletti brotnuðu hinar stálgráu fylkingar Þjóðverja, sem æddu áfram eins og hafrótið og hótuðu París og Frakklandi eyðileggingu. Eins og skriðuhlaup, er öllu sópar fyrir sér, var áhlaup þeirra, er þeir ruddust til framgöngu. Þeir brutu St. Mihiel fylkingaroddinn, sem Þjóðverjar mynduðu og miðuðu eins og morð-rýting að hjarta Frakklands í fjögur ár, og ekkert vann á. Fimm hundruð þúsund Bandaríkjamenn ráku Þjóðverja þaðan á þrem dögum, 12—15. september 1918.

Eftir orustuna við Chateau-Thierry byrjuðu Þjóðverjar að hörfa til baka. Liðsaukinn frá Bandaríkjunum, sem þá var orðinn 700,000 á bardagalínunni, gerði Þjóðverj-

um ómögulegt að reisa rönd við. — Þó varð seinna betur.

Í ágústmánuði myndaði Pershing sjálfstæðan Bandaríkjaher. Í þeim her voru um 1,200,000 manns. Með þeim her háði Pershing hershöfðingi Argonne—Meuse-orustuna, frá 20. september til 11. nóvember; mesta orusta, sem Bandaríkjamenn hafa háð. Á móti Pershing í þeirri orustu barðist von der Morwitz hershöfðingi með úrvalalið úr þýzka hernum, og keisarann og krónprinsinn, sem aðstoðara og ráðunauta. Nú var Bandaríkjaherinn ekki lengur fyrirlitlegur. Í Argonne-skógunum og klettaklungrunum þar voru sterkustu vígi Þjóðverja, sem þeir héldu í stríðinu. Að ná þeim og halda var keppikefli Friðriks krónprins 1914. Þaðan stóð Frakklandi og bandamönnum þess mesta hættan. Þar á bak við lá Sedan—Mezieres-járnbrautin, lífæð þýzka hersins. Eftir þeirri braut gátu þeir Hindenburg og Ludendorff flutt á einni nóttu menn og herföng til hvaða staðar sem þeir óskuðu á vesturvígstöðvunum. Að reka Þjóðverja úr þeim vígum og ná þeirri járnbraut, var hið örðuga og mikla ætlunarverk, sem Foch marskálkur úthlutaði Pershing hershöfðingja og hinum mikla Bandaríkjaher. Tækist það, var óhjákvæmilegt fyrir Þjóðverja, að draga sig til baka á allri vesturlínunni. Að það mundi verða dýrkeypt, sáu þeir vel fyrirfram, bæði Foch og Pershing. Ynni Bandaríkjaherinn þar sigur, þýddi það, að allur her Þjóðverja færi á ringulreið, og friður kæmist á fyrir árslok 1918. Þetta mikla hlutverk áræddi Pershing einn að vinna með Bandaríkjahernum, þó ekki væri eins lengi æfður og her Frakka, Breta og Þjóðverja. Á hinn bóginn vissu Þjóðverjar þetta eins vel, og eins hitt, að ynnu þeir sigur á Pershing, myndu þeir geta sett friðarkostina að mestu sjálfir. Hér var um mikið að tefla fyrir báðum aðilum. Að þessum sviðum rökuðu Þjóðverjar sínum hraustustu og æfðustu herfylkingum. Það vissi Pershing, og einmitt þess óskaði hann sér. Hann vissi, hvað hann mátti bjóða sínum drengjum. Að eyða — einni eftir annari — beztu hersveitum Þjóðverja, var einmitt það, sem hann ætlaði sér. Hér höfðu Þjóðverjar þreföld vígi: Hagen-vígin, Volker vígin og hin nafnfrægu Kriemhild-vígi, sem Þjóðverjar álitu óvinnandi. — Að næturþeli þann 25. september, þyrptust Bandaríkjamenn hljóðlega inn í skotgrafirnar framundan Argonne, sem Frakkar höfðu haldið í 4 ár. Næsta morgun í dögun réðu þeir á Þjóðverja, og sóttu þá inn í þenna myrkviðarskóg og inn um þessi klettavígi. Það var hin gamla bardagaaðferð Indíána. Því voru Bandaríkjamenn þaulvanir. Hver sá um sig og skýldi sér fyrir aftan hvert tré og hvern stein. Það þurfti ekki að gefa þessum mönnum nema eina skipun, þá, að taka vígin Þeir voru allir hershöfðingjar. Þetta vöruðust Þjóðverjar ekki. Bandaríkjamenn sóttu fram strjált, í lausum fylkingum, en þó eftir reglum, sem er óþekt á hervöllum Norðurálfunnar. Þeir komu að úr öllum áttum, að framan, til hliðar, að baki, við hvert vélbyssu-hreiður Þjóðverja. Þeir voru flestir ósýnilegir. Skotin riðu úr öllum áttum og Þjóðverji féll fyrir hverju. Þetta var einvígi milli hernaðaraðferðar Bandaríkja, sem Indíánar höfðu kent þeim á mörg hundruð orustuvöllum, og hernaðaraðferðar Norðurálfunnar. Hernaðaraðferð Bandaríkja vann. Hér yrði of langt mál að lýsa þessari orustu, sem stóð í 47 daga samfleytt. Vígi eftir vígi var tekið af Þjóðverjum. Hver herdeild þeirra eftir aðra eyddist eða gafst upp, fyrir þeirri árás, sem aldrei linti. Hvert skógar- og klettavígið af öðru var frá þeim tekið, af sí aðsækjandi her, sem að mestu var ósýnilegur. Stundum sást aðeins einn maður, sem réðist á vélbyssuhreiður, en þúsundir kúlna skullu á þeim, sem vörðu það. Frá hverju tré, undan hverjum steini, af hverjum kletti, og maður féll fyrir hverju skoti, eins og þegar Þorgerður Hörgabrúðir sat í stafni á dreka Hákonar jarls í bardaganum á Hjörungavogi og skaut af hverjum fingri, og hafði mann fyrir hverri ör. Stundum var það aðeins einn Bandaríkjahermaður, sem tók hjálparlaust heilt vélbyssuhreiður af Þjóðverjum. Sergeant York, fjallamaður frá Tennesee-ríkinu, djákni í Kristskirkjunni, sem áleit það samvizkusök að berjast, þó í ófrið væri komið, og neitaði að ganga í herþjónustu,

þar til einhver sýndi honum: Ezekiel, 32. kap., 2.—6. v., — drap einsamall í þessari orustu 25 Þjóðverja, tók til fanga 132, eyðilagði 35 vélbyssuhreiður, og varði 223. hæð fyrir áhlaupi heillrar þýzkrar herdeildar. Fyrir öll þessi afreksverk sæmdu Frakkar hann "Croix de Guerre" ásamt pálmaviðargrein. Congress Bandaríkjanna veitti honum heiðurs-orðuna, og Tennesee sæmdi hann með veizlu, þegar hann kom heim úr stríðinu.

Þá var Tíunda herdeildin. Þeim var skipað að taka norðurbrúnina á hæðinni "Bois des Rapes". Baldwin majór var fyrirliði. Þeir gerðu, sem þeim var sagt. En aðalfylkingin komst ekki áfram, svo þeir urðu einangraðir og umkringdir af Þjóðverjum. Hjálp komst ekki til þeirra svo dögum skifti. Þýzkur liðsforingi kom undir friðarflaggi og bauð þeim að gefast upp. Mennirnir litu allir til Baldwins. Hverju skyldi hann svara? hugsuðu þeir. Ætlar hann að gefast upp? Baldwin var ekki fremur á því, en þeir voru. "Til helvítis með þig," sagði hann við þýzka liðsforingjann. Það var í senn óbæn og áhríns-orð. Daginn eftir kom Baldwin hjálp. Þýzki herforinginn féll.

6. nóvember var Pershing búinn að reka alla Þjóðverja úr Argonne-skógunum, og kominn niður að Meuse-ánni, gegnt Sedan. Takmarkinu var náð: Sedan—Merzieres-járnbrautin var í veði. Nú var um þrent að velja fyrir Þjóðverja: berjast og stofna öllum her sínum í hættu, gefast upp eða biðja um vopnahlé. Þeir báðu um vopnahlé. — Fimm dögum síðar endaði stríðið.

Hermenn Bandaríkja tóku þátt í þessum orustum:

| | | |
|---|---|---|
| Cambrai 20. nóv. til 4. des. 1917, .... .... .... .... .... | 2,500 | menn |
| Somme 21. marz til 6. apríl 1918 .... .... .... .... .... | 2,200 | — |
| Lys, 9.—27. apríl, 1918 | 500 | — |
| Aisne, 27. maí til 5. júní | 27,500 | — |
| Noyon—Montedieres, 9.—15. júní .... .... .... .... | 27,000 | — |
| Champagne—Marne, 15.—18 júlí .... .... .... .... .... | 85,000 | — |
| Aisne—Marne, 18. júlí til 6. ágúst .... .... .... .... .... | 270,0"0 | — |
| Somme, 8. ág. til 11. nóv. | 54,000 | — |
| Oise—Aisne, 18. ág. til 11. nóvember .... .... .... .... | 85,000 | — |
| Ypres—Lys, 19. ág. til 11. nóvember .... .... .... .... | 168,000 | — |
| St. Mihiel, 12.—16. sept. | 550,000 | — |
| Meuse-Argonne, 20. sept. til 11. nóvember .... .... .... | 1,200,000 | — |
| Á Ítalíu, Vittorio—Veneto, 24. okt. til 4. nóv. | 1,200 | — |

Af Bandaríkjamönnum féllu í stríðinu 50,000, 206,000 særðust. Í hernum dóu alls 115,000. Að meðaltali voru þeir æfðir 6 mánuði, áður en þeir gengu í orustu.

Af hverjum 100 Bandaríkjamönnum, sem fluttir voru til Norðurálfunnar, fóru 49 á brezkum skipum, 45 á Bandaríkjaskipum, 3 á ítölskum, 2 á frönskum, 1 á rússneskum undir brezkri stjórn. Flotinn, sem flutti herföng, var nærri alveg amerískur, og hafði 2,700,000 smál. lestarrúm og flutti 7,500,-000 af vörum yfir um.

Bandaríkin lögðu til 2,500,000 rifla, 227,000 vélbyssur, 1,800,000,000 riflaskot, 3,500 fallbyssur, 20,000,000 fallbyssuskot, 200,000 vættir af gasi, 740 loftbáta. Þeim var skift í 45 loftflota, og tóku þeir mikinn þátt í orustuunum við Chateau-Thierry, St. Mihiel og Meuse—Argonne.

Frá miðjum ágúst til 11. nóvember 1918 héldu Bandaríkjamenn lengri línu á orustusvæði vesturvígstöðvanna en Englendingar. Út októbermánuð 1918 héldu þeir 101 mílu.

Bandaríkin voru í stríðinu 1 ár og 5 mánuði og 7 daga. Það kostaði Bandaríkin yfir $1,000,000 um klukkustundina, eða alls $22,000,000,000. Þess utan lánuðu Bandaríkin bandaþjóðum sínum $10,000,000,000:

| | |
|---|---|
| Bretlandi .... .... .... .... .... | $4,166,318,358 |
| Frakklandi .... .... .... .... | 3,350,762,930 |
| Ítalíu .... .... .... .... .... | 1,648,034,050 |
| Belgíu .... .... .... .... .... | 375,280,147 |
| Rússlandi .... .... .... .... | 192,601,297 |
| Póllandi .... .... .... .... .... | 135,661,659 |
| Czeco-Slóvakíu .... .... .... | 91,179,527 |
| Serbíu .... .... .... .... .... | 51,153,159 |
| Rúmeníu .... .... .... .... .... | 36,128,494 |
| Austurríki .... .... .... .... | 24,055,708 |

| | |
|---|---|
| Grikklandi | 15,000,000 |
| Eistlandi | 13,999,144 |
| Cuba | 9,025,500 |
| Armeníu | 11,959,917 |
| Finnlandi | 8,281,926 |
| Latvíu | 5,132,286 |
| Lithaugalandi | 4,981,627 |
| Ungverjalandi | 1,685,835 |
| Líberíu | 26,000 |

Lán til þjóðanna, sem börðust með Þjóðverjum, voru veitt eftir stríðslok.

Þjóðin gaf $400,000,000 til Rauða krossins, $25,000,000 til Y. M. C. A., $166,000,000 til K. of C. reglunnar, og auk þess gjafir til nauðstaddra Belgíu-, Serbíu-, Armeníumanna og Gyðinga, sem nam meiru en $1,000,000,000.

# Vestur-Íslendingar og stríðið

*Eftir séra Björn B. Jónsson, D.D.*

Er rætt skal hér stuttlega um þátttöku Vestur Íslendinga í stríðinu mikla, gerist þess ekki þörf, að ræða til hlítar tildrög stríðsins, né rekja sögu þess. Ekki gagnar heldur nú að fárast um hörmungar þær, sem stríðið hafði í för með sér. Vér huggumst við þá von, að samskonar hörmungar gangi aldrei framar yfir heiminn. Það er og trú margra manna, að einmitt fyrir þetta síðasta og mesta stríð verði þjóðum heimsins trygður ævarandi friður. Þá fyrst eru og full manngjöld fengin fyrir þá, sem létu lífið í stríðinu.

Til eru þeir menn, sem svo óviturlega tala, að stríðið hafi ekki komið Vestur-Íslendingum við, og ófyrirsynju hafi þeir gefið sig við því. En sagan og sannleikurinn þaggar niður það óvitahjal.

Þótt ekki væri því alment trúað fram að árinu 1914, þá vita það allir nú, að Þjóðverjar höfðu um heilan mannsaldur búið sig undir alheimsstríð. "Ofurmennin" þýzku á öllum svæðum þjóðlífsins létu sig dreyma þann sameiginlega draum, að Þjóðverjar yrðu yfirþjóð allra þjóða. Alt uppeldi þjóðarinnar miðaði að því, að gera hana hæfa til að verða öndvegisþjóð heimsins, og þeim styrkleika gædd, að geta orðið nýtt heimsveldi í líkingu við rómverska ríkið gamla. Þetta var að sönnu ekki nýr draumur; aðrar þjóðir hafði dreymt svipaða drauma, svo sem sagan ber með sér. En aldrei síðan í fornöld hafði svo lengi og kappsamlega verið unnið að því í kyrþey, að láta drauminn rætast. Enda munaði minstu að svo færi. Það vantaði ekki nema herzlumuninn til þess, að Þjóðverjar yrðu að því leyti eins og Rómverjar í fornöld, að þeir bindu allar þjóðir við stríðsvagna sína og gerðu hnefa sinn einvaldan í heiminum.

Öll ráðagerð Þjóðverja er nú uppvís orðin. Þeir vissu sjálfa sig viðbúna, en aðrar þjóðir óviðbúnar, og þóttust því eiga ráð þeirra allra í hendi sér. Fyrst átti að fara um Frakkland eins og logi yfir akur. Ekki skyldi tefja sig við krókaleiðir, heldur vaðið þvert yfir Belgíu, og lögmæltir sáttmálar þjóðanna tættir sundur sem ómerkir pappírsmiðar. Frá Frakklandi var förinni heitið til Rússlands, og átti kollhríðin að hafa staðið þar löngu áður en Bretar gætu gripið til vopna sinna. Þóttust Þjóðverjar þá mundu hafa alt ráð Breta í hendi sér, er að því kæmi, að heyja við þá lokasennuna. En þar brást þeim bogalistin. Bretar sáu þegar í upphafi, hvert ferð Þjóðverja var heitið, og þeir vissu líf sitt í veði, ef fyrirætlunum Þjóðverja yrði framgengt á meginlandinu. Og þótt nú Bretar væru lítt við ófriði búnir, vissu þeir þann kost vænstan, að búast þegar til varnar og senda her sinn til liðs við Frakka, áður en Þjóðverjar kæmu þeim á kné. Hefðu Bretar hikað í upphafi stríðsins, þó óviðbúnir væru, og ekki orðið svo fljótir til Frakklands sem þeir urðu, hefði sagan orðið önnur en hún varð. Þá hefðu Þjóðverjar að líkindum fengið vilja sínum framgengt og væru nú sama sem einvaldir í Norðurálfu.

Kunnugt er það og orðið nú, að Þjóðverjar hugðu gott til fjár og jafnvel landa í Vesturheimi. Vesturheimur átti að borga brúsann að stríði loknu. Ekki er þar fyrir sagt, að Þjóðverjar hefðu að vörmu spori vaðið með her sinn vestur um Atlantsála. Eftir er þeir yrðu alráðandi í Norðurálfu og í lýðlendum Breta annarsstaðar, töldu þeir það hægan leik, að þröngva svo kosti Ameríkumanna í viðskiftum, að Vesturheimur yrði í rauninni skattland og féþúfa alheimsríkisins þýzka. Að minsta kosti hefðu þá verið auðsén örlög Canada, ekki síður en Karþagóborgar forðum, þar sem Canada er partur Bretaveldis, en refirnir aðallega skornir til þess, að koma Bretaveldi fyrir kattarnef. Enda er það nú með jarteinum sannað, að

Vilhjálmur keisari hafði heitið fjármálagæðingum sínum því, að þeir skyldu fá fé sitt ríkulega endurgoldið með vísum einkaréttindum, sem þeim skyldi veita í Canada, að því er námur, skóga og aðra náttúruauðlegð landsins snertir. Þá er það og uppvíst orðið, að Þjóðverjar reyndu til að múta öðrum þjóðum til að óvingast við Bandaríki, og hétu þeim landeignum í Bandaríkjum fyrir vikið. Er til marks um það, meðal annars, firðskeyti það, er utanríkisráðherra Þjóðverja, Alfred Zimmermann, sendi 19. janúar 1917 Eckhart, sendiherranum þýzka í Mexico, og skipaði honum, að lokka Mexicomenn í stríð við Bandaríki og heita þeim að launum, að loknum Evrópu-ófriðnum, þrem fylkjum Bandaríkja: Texas, New Mexico og Arizona.

Má nú sjá, hvert óvit það er að segja, að stríðið hafi alls ekki komið við þjóðunum í Vesturheimi: Canada og Bandaríkjum. Um Canada má það ennfremur segja, að sjálfkrafa var það, sem einn hluti hins brezka ríkis, komið út í stríðið þann dag, sem Bretar gripu til vopna gegn Þjóðverjum austan hafs. Hverjum augum, sem menn annars líta á samband þjóðanna í allsherjarríkinu brezka, þá munu þeir fáir vera af góðum drengjum með þeim þjóðum, er telji það sæmilegt, að þær þjóðir bregðist hver annari á neyðartíð. Er það vegsauki Írum, að þeir létu niður falla innbyrðis ágreining við Engla, þegar stríðið skall á, og börðust samhliða öðrum brezkum bræðrum gegn yfirgangi Þjóðverja. Það eitt er víst, að Þjóðverjar töldu Canadamenn fjandmenn sína frá upphafi, sem aðrar brezkar þjóðir. Hefðu bandamenn orðið undir í viðureigninni, þá hefði Canada orðið að sætta sig við hlutskifti sigraðrar þjóðar. Var Canada því nauðugur einn kostur að verja sig. Allir vita, hversu Bandaríkin reyndu í lengstu lög að forðast ófriðinn, þar til svo var að þeim þrengt, að líka þeim var nauðugur einn kostur að grípa til vopna, til þess að verjast yfirgangi og spellvirkjum óvinanna, og tryggja framtíðarsjálfstæði sitt.

Verður því að álykta, að báðar Vesturheimsþjóðirnar hafi verið til neyddar að ganga í stríðið til sjálfsvarnar.

Hafi þjóðunum í Vesturheimi, bæði Canada og Bandaríkjum, verið nauðugur einn kostur að ganga í stríðið, getur naumast með viti verið sagt, að stríðið hafi ekki komið Vestur-Íslendingum við.

Sammála eru að líkindum allir um það, að þeir menn, sem eru fæddir í þessu landi, og hinir, sem svarist hafa með borgara-eiði í fóstbræðralag við aðra þegna þessa lands og samþykt hafa stjórnarskrá og lög þjóðarinnar, séu allir siðferðislega skuldbundnir til þess, að hlýða lögum og stjórn landsins. Er því auðsætt, að ekki mátti það sæma fremur þeim, sem af íslenzku bergi eru brotnir, en öðrum borgurum, að skorast undan herskyldu, þegar nauðsyn krafðist. Þetta verður maður að viðurkenna, hverjum augum, sem maður lítur á herskyldulögin. Það er með þau, eins og önnur lög: maður er siðferðislega skyldur til að hlýða lögum þjóðar sinnar, enda þó maður hvorki telji þau viturleg né þörf. Leyfi og skyldu hefir hver borgari til þess, að gera alt, sem í hans valdi stendur til þess, á réttmætan hátt, þ. e. með meirihluta atkvæða borgaranna, að fá þeim lögum breytt, sem maður álítur óheppileg eða ill. En það, sem gildir sem lög, má vitanlega ekki hver einstaklingur brjóta eftir vild sinni. Löghlýðni er fyrsta skilyrði bæði frelsis og þjóðþrifa. Það getur því ekki verið ágreiningur um það, að íslenzkum borgurum bar að gegna **herskyldunni,** eins og öðrum borgurum, — og það gerðu þeir með heiðri og sóma.

En nú ber þess að geta, að langflestir þeir Íslendingar, sem á stríðsárunum gáfu sig við herþjónustu, gerðu það **fríviljugir,** án þess og áður en þeim bæri bein skylda til þess samkvæmt lögum. Var það rétt gert af þeim eða rangt? Eiga þeir fyrir það lof eða last? Þeirri spurningu verður að svara, er rætt er um þátttöku Vestur-Íslendinga í stríðinu.

Er dæmt skal um athafnir manna, ber ávalt að taka **hvatirnar** fyrst til greina. Og er ræðir um hvatir þeirra, sem buðu sig í herþjónustu, þarf að minnast þess, að langflestir framþjóðendur voru **ungir menn.** Hvatir þessara ungu manna hafa óefað verið marg-

víslegar og ólíkar. Skal hér vikið að þeim, sem algengastar voru:

1. **Metnaður.** — Ungum efnismönnum er metnaðurinn meðfæddur. Þeir menn, sem eitthvað er í spunnið, bera jafnan í brjósti metnað fyrir sjálfum sér og metnað fyrir þjóð sinni. Á þá strengi báða knúði stríðið.

Herlúðrarnir gullu. Manngöfgi sitt fanst ungum mönnum í veði, ef ekki væri hlýtt rödd þeirra. Óðar en stríðið var skollið á, gerðust daglega stórviðburðir í sögu mannkynsins og mynduðu tímamót í sögu heimsins. Margur ungur maður tók þá að tala við sjálfan sig og sagði: "Hvernig má eg standa hjá aðgerðalaus og kallast þó maður? Hvernig fengi eg hugsað til þess síðar á æfi minni, þá lesið verður letur það, er nú er ritað á spjöld sögunnar, að hafa verið ungur og hraustur, þá viðburðir þessir gerðust, en hafa þó sjálfur engan þátt átt í þeim? Hvernig fæ eg síðar horft framan í jafnaldra mína, er ganga fram til að rita sögu mannkynsins á þessum örlagaþrungnu tímum, ef eg sjálfur kúri heima kyr? Eg hlýt líka, eins og þeir, að grafa stafina mína á dyrastaf hins nýja tíma. Eg hlýt að fullnægja manngildiskröfum sálar minnar, með því að eiga hlut í viðburðunum. Eg hlýt að fara þangað, sem æskan og vorið heyja stríð við harðneskju og vetur. Eg hlýt að fara yfir láð og lög og vera þar, sem bræður mínir berjast fyrir málstað sumarsins og frelsisins." Á þessa leið hugsaði margur ungur hermaður. Og sérhver sá, er þannig hugsaði með sjálfum sér, hefði aldrei beðið þess bætur, hefði hann brotið á móti manngildisvitund sjálfs sín og setið kyr.

Metnaðarhvöt var það einnig, að sjá sóma þjóðar sinnar borgið. Þó ekki sé nema um kappleik að ræða, fyllast menn metnaði og meðhaldi með **sínum mönnum.** Þegar íþróttamennirnir íslenzku, Fálkarnir, háðu heimsfræga kappleiki sína, var metnaður Íslendinga svo ákafur, að alt hefðu menn viljað til vinna, svo Fálkarnir sigruðu, sem raun varð á. En nú var það ekki **leikur**, sem háður var, heldur stríð upp á líf og dauða. Og annarsvegar var manns eigin þjóð. Þá væru Íslendingar illa úrkynja, ef þeim hefði staðið á sama, hvort þjóðin **sín** yrði undir eða ofan á í þeim hrikaleik. Tvísýnt var lengi, hvernig fara myndi. Ómögulegt var þá hraustum drengjum og góðum sonum fósturjarðarinnar, að standa hjá með köldu blóði, því:

> "Góður sonur getur ei séna
> göfga móður með köldu blóði
> viðjum reyrða og meiðslum marða,
> marglega hrjáða, og fá ei bjargað."

Og það var ekki einungis metnaður fyrir hönd fósturjarðarinnar hér, heldur og ættjarðarinnar íslenzku, sem réði hjá mörgum hermanni. Það mátti ekki spyrjast, að niðjar **Íslands** reyndust eftirbátar annara borgara þessa lands, þegar á drengskap reyndi. Íslenzkri lund samrýmist það ekki, að verða seinastur til, þá hrópað er á hjálp. Í fóstbræðralag höfðu menn svarist með borgurum landsins hér. Um forfeðurna íslenzku hafði það verið sagt, að "ætíð þeir héldu þá eiða þeir sóru, og ágætir þóttu því konungamenn". Niðjarnir vestur-íslenzku vildu ekki gera feðrum sínum í gröfunum þá skömm, að reynast eiðrofar við fóstbræður sína.

2. **Drenglyndi.** — Ef til vill réði það ekki minna en metnaðurinn fyrir sjálfum sér og sinni þjóð, þá neyðaróp Norðurálfuþjóðanna bárust vestur um haf. Það er þaulvígður þáttur í íslenzkri lund, að þola ekki að níðst sé á öðrum. Þjóðverjar unnu sér til óhelgis þegar í byrjun stríðs, þá þeir brutust inn á varnarlausa Belgíu, og síðar með mörgum níðingsverkum og launvígum á sjó og landi. Drenglyndir menn gátu þá ekki staðið hjá aðgerðalausir. "Munið nú Maine", kvað við um öll Bandaríki eftir níðingsverkið á Havana-höfn árið 1898, og var þess þá sviplega hefnt. Af sjávarbotni hrópaði nú sokkin **Lusitania** og sárbændi Ameríkumenn, að láta ekki lengur níðast á saklausu og varnarlausu fólki. Þegar á þessa strengi var slegið, lét gamla íslenzka drenglyndið sér ekki til skammar verða hjá ungum Vestur-Íslendingum.

3. **Skyldurækni.** — Vafalaust hafa margir íslenzkir menn gengið í stríðið aðallega af skyldurækni. Þeim hefir fundist, eins og komið var, það vera skylda sín að fara. Hefir þar þá mestu ráðið virðingin fyrir sjálfum sér. Margir hafa víst hugsað eitthvað á

þessa leið: "Fyrst nauðsyn ber til, að einhverjir fari. þá stendur það mér nær en mörgum öðrum". Ef til vill hefir hjá þeim, sem þannig hugsuðu, ekki verið sterk sannfæring fyrir nauðsyn eða réttmæti þátttökunnar í stríðinu. En skyldu sína var sjálfsagt að gera, hvort létt var eða þungt. Má og vera, að ekki sé þessi hvötin hinum ógöfugri. Að ganga út í það, sem manni er ógeðfelt og maður kvíðir fyrir, einungis af því maður er sannfærður um, að það sé skylda sín, ber vott um göfuglyndi og mikla mannkosti.

4. **Æfintýrafýsn.** — Óefað hafa margir ungir menn farið í hernaðinn meðfram af löngun til að komast í nokkur æfintýri. Hefir að því leyti Íslendingum kipt í kynið forna. Má ef til vill telja hvöt þá lítt göfuga. En sízt skyldu þeir hana lasta, er mest dá Íslendingasögur hinar fornu. Þótt langt sé það frá þeim, er þetta ritar, að bótmæla stríðum og blóðsúthellingum, þá getur hann ekki annað en kannast við, að æfintýrafýsn ungra manna ber vott um táp og hugprýði og er gleðilegur vottur þess, að mikið er í mennina spunnið.

Hafa þá verið taldar hinar helztu hvatir, sem fyrir vöktu ungum mönnum, er þeir gerðust **sjálfboðar** í her þjóðar sinnar á stríðsárunum. Má svo hver um það dæma sem vill, hvort þeim beri lof eða last. En er Saga minnist sjálfboðaliðsins íslenzka, ætla eg hún kveði:

"Deyr fé,
deyja frændr,
deyr sjálfr et sama.
Enn orðstírr
deyr aldrigi,
hveims sér góðan getr."

— — — — — — —

Ekki er til óskeikul skýrsla um þá Vestur-Íslendinga alla, sem í hernum voru. Jóns Sigurðssonar félagið hefir leitast við að afla sér upplýsinga um alla íslenzka hermenn bæði í Canada og Bandaríkjum, en ekki hefir auðnast að ná til allra. Hér verður farið eftir heimildum frá Jóns Sigurðssonar félaginu, og eru það ábyggilegustu heimildir, sem menn hafa.

Samkvæmt þessum skýrslum gengu á stríðsárunum í herþjónustu í Canada og Bandaríkjum **eitt þúsund tvö hundruð fjörutíu** og fimm Íslendingar. Af þeim voru í Canadahernum **níu hundruð áttatíu og níu**, en í Bandaríkjahernum **tvö hundruð fimtíu og** sex. Auk þess hafa fundist á herskrám rúmt hundrað nöfn íslenzk, en engar upplýsingar fengist um þá menn.. Eftir því sem næst verður komist, létu **eitt hundrað fjörutíu og fjórir lífið í stríðinu,** en ellefu hundruð og einn komust lífs af. Af þeim, sem létu lífið, féllu í orustum **94**, **2** dóu af slysum, til **tveggja** hefir aldrei spurst, **19** dóu af sárum og **27** (þar með talin ein hjúkrunarkona) dóu af sjúkdómum. **207** særðust í orustum, en héldu lífi. **10** voru handteknir af óvinunum.

Af þeim, sem innrituðust í herinn, voru 391 fæddir á Íslandi, 456 í Canada og 304 í Bandaríkjum. Um fæðingarstað 94 vita menn ekki.

Af þeim, sem féllu, voru 128 í Canadahernum og 16 í Bandaríkjahernum.

Í hernum voru **fjórir** íslenzkir læknar, þrír frá Canada og einn frá Bandaríkjum. Íslenzkar hjúkrunarkonur voru **fjórtán**, átta frá Canada og sex frá Bandaríkjum.

Yfirforingjar (Commissioned Officers) eru taldir **tuttugu og sex,** og undirforingjar (Noncommissioned officers) fimtíu og níu í hvorumtveggja hernum.

**Tuttugu og sjö** Íslendingar voru sæmdir heiðursmerkjum fyrir hugprýði og aðra góða frammistöðu. **Ein** íslenzk hjúkrunarkona var af konungi Breta sæmd æðsta heiðursmerki fyrir ágæta yfirstjórn á sjúkrahúsum bak við vígvellina.

Af þessum skýrslum má sjá, hvern veg farið var **beinni** þátttöku Vestur-Íslendinga í stríðinu. Borið saman við tölu Íslendinga í álfunni (25—30 þúsundir), má fullyrða, að þeir hafi engum þjóðflokki staðið að baki að tölunni til. Skýr rök má og færa að því, að þeir reyndust vel, svo enginn þjóðflokkur hefir borið meiri sæmd úr býtum í stríðinu en Íslendingar.

Um **óbeina** þátttöku Íslendinga í stríðinu má margt segja. Engar skýrslur eru fyrir hendi, er sýni, hversu mikið fé Vestur-Íslendingar lögðu fram til herkostnaðar. En

fullyrða má, að yfirleitt hafi þeir lagt þar fram sinn skerf, bæði með kaupum á skuldabréfum stjórnarinnar, og á annan hátt. Skiftir það mörgum tugum þúsunda, sem Vestur-Íslendingar lögðu fram að láni og í gjöfum.

Ef til vill er sú þátttaka ekki minst, sem falin er í líknarstörfum bæði einstakra manna og félaga, og margskonar hjálp, sem veitt var hermönnum og stundum einnig aðstandendum þeirra. Nærri öll félög Vestur-Íslendinga störfuðu eitthvað í þá átt. Mestu afkastaði **Jóns Sigurðssonar félagið.** Er félag það deild af hinu mikla alríkisfélagi brezkra kvenna: **Imperial Order Daughters of the Empire.** Þar næst má telja **Aðstoðarfélag 223. herdeildar,** sem íslenzkar konur í Winnipeg stofnuðu. Í 223. herdeild Canadaliðsins voru fleiri íslenzkir hermenn en í nokkurri annari deild. Var upprunalega ætlast til, að í þeirri deild og 197. deildinni, væru Skandínavar einir saman. Reyndist það þó misráðið, og hurfu þær deildir inn í aðrar stærri seinna. En Aðstoðarfélagið (Auxiliary) starfaði ávalt að velferð þeirra mörgu Íslendinga, er innritast höfðu í 223. herdeildina, enda þótt deildin hætti að vera til sem sérstök sveit.

Safnaðarfélög Íslendinga unnu ágætt verk á stríðsárunum. Leitaðist hver söfnuður við að sinna þörfum sinna manna í hernum, senda þeim það, er þá vanhagaði um, rita þeim og gleðja þá eftir mætti; og þá einkum taka á móti þeim, er þeir komu aftur, oft sárir og sjúkir, og annast þá eftir þörfum þeirra. Einnig var reynt eftir mætti að liðsinna, er á þurfti að halda, vandamönnum hermannanna heima fyrir, og hugga og hughreysta þá, er fyrir sárustu sorgunum urðu. Líknarstarf þetta var hvað mest í höndum ungmennafélaga safnaðanna og Dorkasfélaganna, sem eru líknarfélög ungra kvenna.

Goodtemplarafélögin og mörg félög önnur tóku ágætan þátt í þessu starfi.

Í umboði kirkjunnar í Bandaríkjum starfaði einn íslenzkur prestur lengi í herbúðum Bandaríkjahersins. Annar íslenzkur prestur þar syðra hafði boðið herstjórninni þjónustu sína og var erindisbréf hans frá stjórninni í afgreiðslunni, er vopnahlé var samið. Íslenzkur maður veitti forstöðu allsherjar bandalagi lúterskra kirkjufélaga í Canada, sem stofnað var til líknarstarfs meðal hermanna á sjó og landi. Á margan hátt var reynt að draga mesta sviðann úr sárum manna á stríðsárunum, og aðstoða og hughreysta þá, er gengu út í stríðið og sifjalið þeirra heimafyrir, og ennfremur að leggja fé til stríðsþarfanna og aðstoða þjóðina í baráttu hennar. Er það von vor, að sagan beri Íslendingum það vitni, að þar hafi þeir reynst vel.

— — — — — — — —

Þó nú sé stríðið unnið og friður hafi staðið í fjögur ár, er enn ekki unt að átta sig á öllum afleiðingum byltingarinnar miklu. Áratugi og heilar aldir mun þurfa til þess. En það er víst, að þátttaka Vestur-Íslendinga í stríðinu hefir í för með sér stórkostlegar afleiðingar fyrir þá sjálfa. **Útlendingar** verða þeir ekki framar í landi hér. Dýru verði hafa þeir heimilisréttinn keyptan. Sagan segir, að þjóðunum hafi sjaldan orðið ættjörðin kær fyr en þær höfðu vökvað hana blóði sínu. Nú hefir svo farið, að íslenzku blóði hefir úthelt verið fyrir ættjörðina nýju, og nú elskum vér hana ekki með orðagjálfri, heldur **blóði,** — blóði, jafn heitu og því, er bunaði úr hjarta hermannsins, sem fyrir oss dó. Hörmungar stríðsins, sárin og tárin, hafa keypt oss einlæga **ættjarðarást** í landi hér. Og fyrir það, að vér gengum undir jarðarmen stríðsins með hinum þjóðflokkunum í landi voru, blönduðum blóði við þá, drukkum eiðsmjöðinn með þeim, höfum vér gengið í fóstbræðralag við samþegna vora hér, og leggjum við drengskap vorn, að það aldrei slitni.

Í dularstraumi ókominnar tíðar felst framtíð fósturjarðar vorrar, hinnar ungu og kæru. Vísast á hún fyrir höndum enn miklar hörmungar, áður en hún fái "inn gengið í guðs ríki" friðar og farsældar hér á jörðu. Óvinir sitja um hana enn, og það jafnvel heima fyrir. Ennþá verður hún ótal stríð að heyja, þótt ekkert þeirra verði vonandi háð á **blóðugum** vígvöllum. En svo hún nái takmarki sínu og njóti ávaxta þeirra, er spretta upp af fórnarblóðinu frá 1914—1918, mun hún þurfa enn að stríða, og ávalt biðjum vér, að hún vinni

sigur, svo hún verði merkisberi allra þjóða á hergöngu mannkynsins fram á brautir frelsis, réttlætis og fullkomnunar. En hver sem sagan verður, skal geyma sem þjóðarinnar helgasta dóm **minningu hermannanna, sem lífið lögðu í sölurnar fyrir ættjörð sína** í heimsstríðinu mikla.

"Eitt eilífðar smáblóm með titrandi tár" er æfi vor, sem í bili nefnumst Vestur-Íslendingar. Eins og dægurflugur deyjum vér. Sem andgustur einn eru allar þjóðir. Einungis eitt er ódauðlegt: **líf, sem gengur í dauða öðru lífi til lífs.** Það eitt verður hrósun vor, þegar einingar lífsins um síðir safnast í al-lífsins eilífa safn, að vér höfum haft í oss kraft til þess að ganga, í einhverjum skilningi, í dauða til þess að tryggja líf einhverju því, sem æðra er en sjálfir vér. Og á því stigi, þar sem nú stöndum vér á framþróunarleið tilveru vorrar, vitum vér ekkert í þjóðlífi voru, sem oss geti þótt jafn vænt um, eins og minningu íslenzku hermannanna, sem dóu vegna vor og landsins vors. Oss skilst, að blóð þeirra sé útsæði óumræðilegrar blessunar fyrir alda og óborna, og vér höfum hugboð um það, að einhver mikil sæla, sem vér enn ekki skiljum til fulls, hafi fallið þeim sjálfum í skaut, þegar þeir dóu fyrir bræður sína.

# Lækningastörf á vígstöðvum

Eftir *Capt. Sigurgeir lækni Bardal, R.A.M.C.*

Störf lækna í stríðinu mikla voru margvísleg, frá því þeir skoðuðu nýja liðsmenn, til þess þeir skipuðu nefndir til að meta sárabætur; að segja þá miklu sögu, ætla eg mér ekki, heldur vil eg reyna að lýsa þeim störfum, sem eg var kunnugastur og eg vann sjálfur að, en það var lækningavinna á orustustöðvum. Svo kallaðist 7—10 mílna svæði frá "auðn" eða "einkis reit" (No Man's Land) eða hinum fremsta verði þar, til hinna fyrstu spítala að vígvélabaki; þeir spítalar voru nefndir "Almenningar slasaðra" (Casualty Clearing Stations).

Lækningasveit voru ætluð þau störf helzt á orustustöðvum, að varna næmum sóttum meðal liðsmanna, að flytja særða og sjúka úr orustu og vinna þeim bót, og að skilja sauði frá höfrum, eða losna við þá, sem það þóttust vera.

Í her, engu síður en í siðaðra manna samfélagi, liggur mikið við, að sóttvörnum sé haldið uppi; það er með rökum sýnt, að í þessu stríði dóu miklu fleiri af sárum en af sóttum; en í hverjum öðrum ófriði, er menn hafa sögur af, hafa miklu fleiri látist af sóttum, heldur en fallið fyrir vopnum; þar af má ráða, að lækningasveitir hafi unnið verk sitt dyggilega í stríðinu mikla. Til samanburðar má geta þess, að meðan Suður-Afríku-stríðið stóð, dóu fjórir af taugaveiki í her Breta fyrir hvern einn, er vopnbitinn var. Þeirrar sóttar varð ekki vart í Stríðinu mikla, og aldrei bar sjúkling fyrir mig með þeirri veiki. Þetta er aðeins til dæmis, en mörg fleiri mætti telja. Öllum lækningafróðum fyrirliðum var sagt sérstaklega til um hollusturáðstafanir, meðan á námsskeiði þeirra stóð. Þegar þeir tóku við stöðu sinni, urðu þeir að fara iðulegar, reglubundnar skoðunarferðir um herbúðir eða vígstöðvar, meðal liðsmanna, er þeir voru yfir settir. Alt drykkjarvatn varð að rannsaka og hreinsa, ef þörf gerðist, svo engin hætta stafaði af. Stöðugar gætur voru hafðar á geymslu eða meðferð matvæla, svo og á fatnaði og á liðsmönnum sjálfum, að hreinlætis væri gætt; það gerðu lækningafróðir fyrirliðar. Ennfremur voru liðsmenn skoðaðir með vissu millibili, hvort sóttnæma kvilla hefðu. Hver maður var bólusettur, nema það afsegði, og gefinn skamtur til að varna taugaveiki, eins oft og þurfa þótti. Ef maður særðist, hversu litlu sári sem var, þá var honum gefið blóðvatn gegn sárakrampa, og annar skamtur til að varna drepi af gasi. Loks má geta þess, að vitavörn gegn gasi bjargaði mörg þúsund mannslífum; en það áhald var, að eg ætla, bætt svo að dugði af manni í lækningasveitinni.

Undireins og hermaður særðist eða sýktist, var svo kallað, að hann væri "slasaður" (Casualty). Strax frá þeirri stund og til þess er hann varð albata, var hann á spítala eða í batabúðum, og var hann að fullu og öllu skilinn frá þeirri sveit, er hann hafði áður verið í, og komst undir umsjón lækningasveitar, er réði fyrir honum og annaðist hann að öllu leyti. Ef maður særðist eða sýktist á orustustöðvum, svo að aðgerðar eða hjúkrunar þurfti á sjúkrahúsi, þá var sá sami borinn á börum og ekið í sjúkravagni til næsta "almennings slasaðra", og þaðan í veikravagni til sjúkrahúss, er enn fjær voru, sum við sjó (Base Hospitals). Frá því

sjúkrahúsi var hann fluttur á þar til búnu skipi til Englands, og ef svo vildi til, að honum batnaði svo, að ferðafær teldist, en ekki herfær, þá var hann fluttur til Canada á sjúkraskipi. Svo taldist til, að í áhlaupum óvinanna sex síðustu vikurnar, sem stríðið stóð, hefðu um sex hundruð þúsund manna orðið fyrir áverka í liði Bandaþjóða; af því má marka, hve mikið reyndi á lækningaliðið. Mjög reið á því, að sárir menn væru fljótt fluttir af vettvangi, svo að ekki slæi óhug á þá, sem héldu uppi orustu. Þessu varð svo að haga, að þeir, sem fóru til áhlaupa, hefðu örugga trú á, að ef særast kynnu, þá myndi lækningasveitin taka þá þegar í stað, gera að sárum þeirra og flytja úr háskanum án tafar. Mikinn varnað varð á að hafa, að sem fæstir fengju nýja ákomu, og að sem fæstir færust af blóðláti á leiðinni til óhultra stöðva. Beinlínis þetta gerði mikið að um hug hersins. Mér er óhætt að segja, að lækningasveitin brást aldrei þessu trausti hermannanna.

Það er tæplega sanngjarnt, að fjölyrða um skrópasótt meðal kappa vorra, eða það, sem kallað er "að sveifla sökkunni", á þeirra mállýzku. En sú sótt var mjög næm; við henni varð að reisa ramar skorður, ella hefði hún spilt heraga að miklum mun. Þegar við skrópara var að eiga, hlaut læknisfróður fyrirliði að gleyma því um stund, að hann var læknir að eiga við vanheilan; þá varð hann að beita valdi liðsforingja til að halda því við, sem hverjum her er nauðsynlegt, en það er heraginn, sem alt veltur á. Þó réðu atvik stundum niðurstöðu í því efni, er stýrðu úrskurðum til línkindar. Eg minnist þess til dæmis, að í liðsveit nokkurri kom fyrir mig, í vanheillarunu, gráhærður maður, og kvartaði um höfuðverk. Hann hafði barist í fjögur ár og aldrei gengið í vanmetahóp fyrri. Nú kvartaði hann um höfuðverk og beiddist þess að vera færður af vígstöðvum; en er eg fór að spyrja hann, þá kom það fram, að hann var ekki krankur, heldur hafði hann nýfrétt fall sona sinna og var leiður á öllum látunum. Mundi eg geta lagt til með honum, að hann yrði færður til sveitar að vígvélabaki? Nú má hver gera sér í hug, hvort karlinn fékk flutning. Það mega vorir menn eiga, að í slíkum fjölda, svo gífurleg hryðjuverk, sem hann var settur til að vinna, varð tiltölulega lítilla skrópa vart.

Nú skal þess getið, hvernig lækningaliði var skipað á orustustöðvum, og því skift niður á þær fylkingar, sem í bardaga voru. Herliði er skift í ýmsa parta, svo hægra sé að stjórna því, svo sem þúst (Division) með níu þysjum (Battalions), en hver þessara er auðkend með tölum. Með þúst hverri voru þrennar lækningasveitir, nefndar viðlagahjálp á vettvangi. Í þeim voru tíu fyrirliðar og aðrir níu lækningafróðir fyrirliðar og einn vistastjóri; þar með tvö hundruð og fimtíu aðrir, óbreyttir liðsmenn og undirforingjar. Læknir fylgdi þysju hverri; honum voru fengnir sextán manns til aðstoðar; þá æfði hann við að bera sára menn og réði fyrir þeim. Þústu hverri var skift í þrent (brigades), og var ein lækningasveit (F. A.) með hverri fyrð.

Þegar þysja tók sér stöðu á vígvelli, settist læknir að á hentugum stað, venjulega í jarðhýsi eða kjallara, sem næst þeysi er fylkingu stýrði, svo að vel mætti boðum til hans koma, ef skift væri um stöðvar. Jarðhúsin voru oft og tíðum viðværileg, sæmilega varin, hlý og þur; en oft kom það fyrir, að þeirra naut ekki við, og varð þá læknir að gegna starfi sínu í opnum skurðum, hlífarlaus gegn vindi, regni, snjó og margvíslegum skeytum, er hinir mildu Húnar voru vanir að strá yfir orustuvöll, án manngreinarálits.

Jarðhús voru gerð í skurðbakka, brekku, síkis eða götubakka. Þakin voru

þau bárujárni eða sandpokum. Hér stundaði læknirinn sára menn, eftir föngum, en þegar mikið var að gera, mátti hann ekki öðru við koma en stöðva blóðrás, búa um beinbrot og gefa særðum morfín, gegn benroti (shock). Föngin voru ekki meiri en það, að hann bar þau með öðrum manni, alla leið; því varð hann oft að grípa til sinna ráða, að vinna verk sitt vel með lélegum áhöldum, svo sem að hafa byssu fyrir spelku við brotinn legg, og belti til að halda að skorinni æð. En við stöðuga æfingu urðum við vel færir í þessari grein starfs vors.

Að lokinni þessari aðgerð, var hinn sári borinn á börum af fjórum, axlarhátt, til aðgerða á umbúðastöð, en fyrir þeim réð lækningasveit að öllu leyti. Þær voru vanalega í jarðhúsi eða kjallara, svo sem mílu vegar frá fremstu fylkingum. Með því að jafnvel þær stórbyssur, sem skemst drógu, náðu til þeirra, varð að ganga eins vel frá þessum umbúðastöðvum og unt var. Í þeim var meira um áhöld og umbúðir og hægra að vinna sárum nákvæma bót. Byssuspelkur voru teknar burtu og Thomas-spelkur settar í staðinn, og vot línsýja lögð við sár í stað þeirra reifa, er í fyrstu voru við lagðar. Inntaka var gefin við sárakrampa og meira morfín, ef þörf var á. Heitt te, vindlingar og rekkjuvoðir biðu vesalinganna á umbúðastöðvum.

Fyrsta kvöldið, sem eg var þar, hugsaði eg mest um, hve skelfileg afráð mannslífa og sælu væru goldin á blóðvellinum, svo sem mílu vegar frá þeim stað, sem eg var að verki. Eg var ekki orðinn því vanur þá og mjög kröftuglega stríddi sú hugsun á mig, að þeir ræflar í mannsmynd hefðu fyrir stundu verið með hinum vöskustu af sinni þjóð, útvaldir vegna dugs og líkamlegrar fullkomnunar, til að halda uppi heiðri síns lands. Fáum mánuðum fyr hafði eg lokið námi á læknaskóla; þar hafði eg svo árum skifti kepst við að vera fullnuma í þeirri íþrótt, að vinna bug á veikindum og varðveita mannslíf; en hér var mörg hundruð mannslífum fargað á hverri mínútu, í vígahryðju, er mönnum var í sjálfsvald sett að stöðva. Ef þeir, sem efndu til Stóra Stríðsins, hefðu átt kost á að vera stundarkorn á umbúðastöð, þá þykist eg fullviss um, að aldrei hefði til heimsstríðs komið.

Þegar sárum var bót unnin á nýnefndum stöðvum, var hinum særðu ekið í sjúkravagni til aðal lækningastöðva, tveim eða fjórum mílum lengra burt frá fremstu fylkingum. Hér var sjúkur eða sár skoðaður á ný, af lækningafróðum fyrirliða, og umbúnaður veittur, svo að sem bezt færi um þá og óhultast á leiðinni til "almennings slasaðra". Aðal umbúðastöðvum var stjórnað af hjúkrunarliði vígvallar (Field Ambulance), og var vanalega fyrirkomið í timburskálum ofanjarðar. Til þeirra náðu ekki skot nema úr þeim byssum, er lengst drógu, og því mátti starfa þar að sárum sæmilega hættulaust. Smávægilegar aðgerðir sára fóru þar fram, og þeim veittur umbúnaður á ný, ef þörf var á.

Næsta viðstaða á undanhaldi var "slasaðra almenningur" (Casualty Clearing Station). Þangað var ekið í sjúkravögnum, og þar var unnið að sáragræðslu á sama hátt, sem á sjúkrahúsum gerist. Almenningar þessir voru venjulega í bæ eða þorpi, sem næst járnbrautum; höfðu stofur til sára-aðgerða, x-geislaáhöld og alt annað, sem tíðkast á sjúkrahúsum nú á dögum; sáralækna og lyfja, konur og karla til hjúkrunar, skrifara o. s. frv. Ef ekki voru hentug hús, fóru störf þessi fram í tjöldum. Þegar mjög mikið var að gera, voru fleiri en einn slíkur "almenningur" settir upp hjá brautarstöðvum, er skiftust á að taka við sjúklingum. Aðgerðir á sárum fóru fram daginn eftir að

sjúklingar voru þangað fluttir, nema mikið lægi við.

Þeim, sem veikir voru eða lítt særðir, var haldið í almenningum, unz færir þóttu til að sendast til sinna fylkinga. Þeir, sem mikið gekk að af sárum eða sóttum, voru fluttir í sjúkralestum til hinna yztu sjúkrahúsa við strendurnar, til bæja sem Boulogne, Etaples, Le Tuport. Þeim sárralestum var prýðilega fyrirkomið, særðir fluttir þangað, sem fara áttu, bæði fljótt og með sem mestum hægindum. Lækningafróður fyrirliði hafði umsjón með hverri lest, og með honum læknar og konur og menn til hjúkrunar. Þær lestir gengu fyrir öðrum á brautum, og léttu ekki fyr en í ferðalok, svo að aldrei þurfti að færa sjúklinga milli lesta.

Nú er sárum hermanni fyrirkomið á nýtízku sjúkrahúsi, þar sem enginn háski nær til hans, nema ef vera skyldi sprengikúla frá loftfari. Hann nýtur hinnar beztu aðhjúkrunar, er í umsjá hinna færustu lækna, og má treysta því, að alt verði gert, sem auðið er, til að flýta fyrir afturbatanum, svo að þar munum vér skilja við hann.

Af minni reynslu í hernum, þó ekki stæði lengur en átján mánuði, lærðist mér margt, sem eg mun aldrei gleyma. Mér lærðist að vera viðbragðsfljótur og skjótur til úrræða, að stjórna geði mínu, láta ekki finna á mér hræðslu, óþol né reiði, og að hlýða umyrðalaust hverju, sem yfirboðararnir lögðu fyrir mig. Eg var í verki með og þótti góður félagsskapur manna, er keptu í sameiningu að sama marki, og voru álíka fúsir og eg að fórna löngunum og metnaði sjálfra sín fyrir rétt efni. Því bræðralagi manna á meðal hafði eg ekki fyr kynst á jafn háu stigi, og mun aldrei kynnast aftur, nema líkt standi á; en ekki mun sá bróðurhugur fyrnast mér, heldur fylgja mér sem skærasti sólskinsbletturinn frá þeim dimmu dögum.

—

II.

# LIÐSMANNASKRÁ

Myndir og æfiágrip
íslenzkra hermanna
í Heimsstyrjöldinni

# 1914

## CARL ANDERSON.



Carl Anderson er fæddur í bænum West Selkirk í Manitobafylki 9. september 1892. Hann er sonur Sigurðar Anderson (Árnasonar) frá Breiðavaði í Suður-Múlasýslu á Íslandi, Gíslasonar, og konu hans, Bjargar Ólafsdóttur, dóttur Ólafs Guðmundssonar Nordal og Margrétar Ólafsdóttur frá Kirkjubæ í Norðurárdal í Húnavatnssýslu á Íslandi. — Carl gekk í Canadaherinn 22. desember 1914, 44. deildina, og fór með þeirri deild til Englands 18. október 1915, en var skipað í 43. herdeildina, þegar til Frakklands kom. Carl tók þátt í orustunni við Ypres 3. júní 1916 og særðist þar mjög; eftir það var hann á Frakklandi og Englandi, unz hann var sendur til Canada í október 1918, þá ófær til víga eða verka, og var hann leystur frá herþjónustu 19. febrúar 1918 sökum heilsubrests.

## JÓHANN VIKTOR AUSTMANN.



Fæddur í Winnipeg 18. ágúst 1893. Foreldrar: Snjólfur Jóhannsson Austmann frá Krossi á Berufjarðarströnd í Suður-Múlasýslu og Sigríður Jónsdóttir, ættuð úr Skagafirði. Jóhann gekk í herinn í ágúst 1914 og hlaut yfirforingjastöðu, og á vígvöll var hann kominn fyrstur allra Íslendinga, svo vitanlegt sé. Jóhann hefir frá barnæsku æft skotfimi og hlaut verðlaunapening úr gulli sem bezta skytta Manitoba, er hann var 18 ára; um 50 verðlaun önnur hefir hann unnið á skotmótum í Austur- og Vestur-Canada. Þegar hann kom til Englands, var honum um hríð skipuð staða í vopnaverksmiðju, en þaðan var hann sendur til Frakklands og gerðist leyniskytta í her Breta; en varð brátt fyrir eiturlofti Þjóðverja og særðist auk þess af sprengikúlu. Hann var tekinn til fanga 27. apríl 1915, í orustu við Ypres í Belgíu og með öðrum föngum fluttur til Þýzkalands og haldið þar við þröngan kost og illan, þar til eftir að friður var saminn.



## Corp. THOR BLÖNDAL.

Fæddur 14. jan. 1882 að Hvammi í Vatnsdal í Húnavatnssýslu. Foreldrar Magnús Blöndal frá Hvammi í Vatnsdal og Þorbjörg Jónsdóttir frá Hjallalandi í Vatnsdal. Thor gekk í Canadaherinn í ágúst 1914, og var kominn á hervöll á Frakklandi í febrúar 1915. Hann tók þátt í orustum við Ypres og Festumbert 1915, á Somme-svæðinu 1916, á Vimy-hæðunum, Passchendale og við Loos 1917, og við Somme og Arras 1918. Hann særðist tvisvar á fótleggjunum. Var sæmdur undirforingjatign á vígvelli. Kom aftur til Canada í maí 1919, og var leystur frá herþjónustu um haustið það ár, eftir 5 ára dygga þjónustu þar. Thor var fyrir nokkrum árum í herþjónustu í Bandaríkjunum. Var þá 2 ár á Philippseyjum og um tíma á Hawaiieyjunni. Hann flutti til Canada eftir að hafa verið leystur með góðum orðstír úr Bandaríkjahernum. Thor er kvongaður Helgu Sigurjónsdóttur, Gestssonar af Langanesi. Þau hjón búa í Winnipeg.



## Capt. MAGNÚS A. S. BREIDFJORD, M. C.

Fæddur í Churchbridge, Sask., 13. nóvember 1892. Sonur Sigurðar Magnússonar Breidfjord frá Hamarlandi í Reykhólasveit í Barðastrandarsýslu og Kristbjargar Guðbrandsdóttur frá Kirkjubóli vestra í Múlasveit í Barðastrandarsýslu. Áður en Magnús gekk í herinn, 22. ágúst 1914, sem óbreyttur liðsmaður, var hann yfirkennari við Crowstand Indian kristniboðsskólann í Kamsack, Sask. Magnús var alls fult hálft fimta ár í brezka hernum og vann sig með hermannlegri hugprýði upp í kapteinsstöðu. Hann stýrði deild sinni í ýmsum skæðum orustum á þrem hersvæðum, við Gallipoli, á Egyptalandi og síðast á Frakklandi. Hann særðist ekki og kom aftur til Canada í marz 1919. Fyrir ágæta framgöngu á vígvelli var hann sæmdur "Military Cross", afhentum af konungi Breta. Magnús er kvongaður ungfrú May McGaw, af írskum ættum. Þau eiga einn son. Þau hjón búa nú í Toronto, Ont., þar sem Capt. Breidfjord stundar guðfræði við Presbyterian skóla.



## PÉTUR BREIDFJORD.

Sonur Guðmundar Sveinssonar af Barðaströnd og Maríu Pétursdóttur frá Skáleyjum á Breiðafirði. Þau hjón bjuggu í Geiradal í Barðastrandarsýslu. Pétur gekk sem undirforingi í herinn í september 1914. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Ypres og Somme. Særðist einu sinni á hendi. Hann giftist enskri konu, Dorothy að nafni. Hann er timbur smiður að iðn, og hefir ennþá ekki komið aftur til Canada.

*Sergeant SIDNEY CUZNER (sjá III.)*

## FREDERICK GOODMAN, A. B.




Fæddur 12. febr. 1897 í Victoria, B.C. Foreldar: Sigfús B. Guðmundsson Goodman frá Katadal á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu og Guðrún Árnadóttir frá Sigríðarstöðum í Vesturhópi í Húnavatnssýslu. Frederick gekk í canadiska sjóliðið 10. desember 1914. Skip það, sem hann var á, hafði gæzlu meðfram Mexicoströndinni á árinu 1915, eftir það hélt það uppi gæzlu umhverfis Nýfundnaland, og fylgdi þess utan canadiskum flutningaskipum eins langt út á Atlantshaf og þörf gerðist. Svo vel gegndi Frederick stöðu sinni, að hann hlaut A.B. skírteini og að auk heiðurspening fyrir langa þjónustu. Hann kom heim aftur 3. ágúst 1919. Var ökumaður í Victoriaborg áður en hann gekk í herinn.

## GUÐMUNDUR PÉTUR GOODMAN.



Fæddur í Winnipeg 21. september 1896. Foreldrar: Kristinn Guðmundsson, Ólafssonar frá Kalastaðakoti á Hvalfjarðarströnd í Borgarfjarðarsýslu, og Sigurbjörg Jónsdóttir, Sigurðssonar frá Ferstiklu á Hvalfjarðarströnd. Guðmundur gekk í herinn 29. ágúst 1914, og kom til Englands í október það ár. Tók þátt í orustum á Frakklandi við Somme, Passchendale, Cambrai, Amiens, Arras og Le Chateau. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 4. júní 1919. Hann hefir ritarastöðu hjá Canadian National járnbrautakerfinu og býr í Winnipeg.

## SIGURÐUR K. A. GOODMAN.



Fæddur 31. desember 1892 að Nýlendu í Leiru í Gullbringusýslu. Sonur Hreins Hreinssonar frá Sperðli í Vestur-Landeyjum í Rangárvallasýslu og Sigríðar Þórðardóttur frá Hlöðutúni í Stafholtstungum í Mýrasýslu. Sigurður gekk í herinn 23. ágúst 1914, með fyrstu Íslendingum, og var kominn á vígstöðvar Frakklands í febrúar 1915. Hann særðist mikið í bardaganum við St. Julien 22.—23. apríl 1915, svo að hann varð að liggja á sjúkrahúsum, fyrst á Frakklandi og síðan á Englandi, þar til í september 1915, að hann var sendur aftur til Canada. Hann gekk síðan á verzlunarskóla, þar til hann fékk atvinnu hjá T. Eaton félaginu, og vinnur þar síðan. Sigurður mun nú (1920) vera orðinn sem næst jafnhraustur og hann var áður en hann særðist. Foreldrar Sigurðar búa að Piney, Manitoba.



## GUÐMUNDUR GOODMANSON.

Fæddur í Brandon, Manitoba, 4. marz 1894. Foreldrar: Þorsteinn Guðmundsson frá Njarðvíkum í Gullbringusýslu og Hólmfríður Guðmundsdóttir frá Kirkjuhvammi á Vatnsnesi. Guðmundur gekk í 8. herdeildina í ágúst 1914 og fór til Evrópu 3. okt. 1914. Hann tók þátt í þrem orustum við Ypres. Varð fyrir eiturgasi 1915 og særðist á vígvelli 1916. Kom aftur til Canada í júní 1917, þá vinnufær. Hann vinnur að rafleiðslu í Winnipeg.

*ÁSTÝR VALGEIR MAGDAL HERMANNSSON (sjá III).*

## STEFÁN G. HOLM.

Faðir hans er Gunnar Jónsson Holm frá Hólalandi í Borgarfirði í Norður-Múlasýslu. Þar mun hann vera fæddur 1888. Móðir hans er Guðný Stefánsdóttir frá Bakka í sömu sveit. Stefán kom hingað ungur með foreldrum sínum um 1890. Hann vann á ýmsum stöðum í Álftavatnsnýlendunni, þar til sumarið 1914, að hann gekki í herinn, 27. hersveitina, og fór með henni 1915 austur um haf. Hann var á vígvellinum á Frakklandi þar til stríðinu lauk, nema fárra vikna tíma, er hann lá í sárum, sem greru að fullu, svo hann má heita jafngóður. Vann hann ýmist í skotgröfum eða við skotfæraflutninga. Stefán er kvongaður dóttur Guðmundar bónda Jónssonar við Siglunes, Man., frá Húsey í Norður-Múlasýslu.



## GUNNLAUGUR G. HOWARD.

Fæddur 20. nóvember 1894 að Hnefilsdal á Jökuldal í Norður-Múlasýslu. Hann bjó með foreldrum sínum að Siglunes P. O., Manitoba, áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Guðmundur Hávarðsson frá Gauksstöðum á Jökuldal og María Jónsdóttir, Metúsalemssonar, frá Möðrudal á Fjöllum. Gunnlaugur gekk í herinn 1914 og sigldi til Englands 24. ágúst það ár. Hann var í orustum á Frakklandi. Særðist tvisvar, lítilsháttar á fæti í fyrra skiftið, en misti hendi í seinna skiftið. Var leystur frá herþjónustu í marz 1916. Vinnur nú á tollskrifstofu Canadastjórnar í Winnipeg.



## BJÖRGVIN JOHNSON.

Fæddur í Winnipeg 18. maí 1894. Foreldrar: Guðmundur Johnson, Árnasonar, frá Máná á Tjörnesi, og Katrín Arngrímsdóttir frá Brekkugerði í Fljótsdal í Norður-Múlasýslu. Björgvin gekk í 11. hersveitina 26. september 1914 og sigldi 3. október til Evrópu. Tók þátt í orustum við Ypres, St. Elois og Amiens. Særðist á kné, varð fyrir eiturlofti og einnig fyrir jarðfalli á orustuvelli. Taldist þó vinnufær, er hann kom aftur til Canada 19. maí 1919. Hann vinnur við húsagerð og hefir heimili í Winnipeg.

## ERIC DOUGLAS JOHNSON.

Er fæddur í Winnipeg árið 1896, því hann er sagður 18 ára, er hann gekk í herinn með föður sínum 28. desember 1914. Þeir gengu báðir í varalið 44. hersveitar (2nd Reinforcem't). Foreldrar Erics eru þau Jón Helgi, frá Læknisstöðum á Langanesi, sonur Jóseps Helgasonar frá Skálum í sömu sveit og konu hans Hólmfríðar Jónsdóttur, og Florence Smith, af enskum ættum. Þeir feðgar fóru til Englands snemma ársins 1915. Eric var í hernum til stríðsloka. Kvæntist á Englandi og settist þar að.



## JÓN HELGI JOHNSON.

Fæddur á Læknisstöðum á Langanesi á Sumardaginn fyrsta árið 1873. Foreldrar: Jósep Helgason frá Skálum á Langanesi og Hólmfríður Jónsdóttir, úr sömu sveit. Jón var 44 ára, er hann gekk í herinn 28. des. 1914. Fór sama ár til Englands og var þar í herþjónustu. Var gufuvélastjóri í mörg ár í Winnipeg áður en hann gekk í herinn. Kona hans heitir Florence Smith og er hún af enskum ættum. Þau bjuggu í Winnipeg.



## PÉTUR ÍVARSSON JÓNASSON.

Fæddur í Winnipeg 17. nóvember 1895. Var verzlunarþjónn. Foreldrar: Ívar Jónasson, Jónssonar frá Skjálg í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu, og Magnea Pétursdóttir frá Felli í Grímsnesi í Biskupstungum. Pétur tilheyrði 8. deild Canadahersins áður en stríðið byrjaði, og fór áleiðis til vígvallar 30. september 1914. Hann var í orustunum við Plough Strasse og Fleurbaix og í Ypres-orustunni miklu. Varð fyrir eiturlofti 24. apríl 1915, og tekinn til fanga af Þjóðverjum og geymdur í Þýzkalandi til stríðsloka. Kom aftur til Canada 13. júní 1919, þá illa vinnufær. Ívar Jónasson, faðir Péturs, býr að Langreuth, Man.



## KRISTJÁN WILHELM FRIÐFINNSSON KÆRNESTED.

Fæddur að Meirihlíð í Bolungarvík í Ísafjarðarsýslu 19. júlí 1865. Foreldrar: Friðfinnur Jónsson Kærnested, fæddur að Skriðu í Eyjafirði, og Rannveig Magnúsdóttir, fædd að Þjóðólfstungu í Bolungarvík. Kristján gekk í herinn 24. október 1914. Tók þátt í orustum við Somme, Cresselette, St. Elois og Ypres. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 5. desember 1918, þá vinnufær. Hann er kvæntur Jóhönnu Jóhannesdóttur. Stundar landbúnað.



## Srgt. Major JÓN AÐALSTEINSSON LAXDAL.

Fæddur á Akureyri 2. september 1882. Foreldrar: Aðalsteinn Jónsson og Sigríður Jónsdóttir Laxdal, er bjuggu á Akureyri. Jón gekk í 101. herd. í ágúst 1914 og sigldi til Evrópu í okt. það ár. Hann tók þátt í hverri orustu frá ársbyrjun 1915 til nóvember 1916. Var sæmdur Sergeant-Majors-nafnbót fyrir hermannlega framkomu á vígvelli. Særðist einu sinni. Jón kom aftur til Canada 28. apríl 1919, þá vinnufær. Hann stundar járnþynnusmíðar.

## EINAR MAGNÚSSON.



Fæddur 16. ágúst 1895 á Torfastöðum í Norður-Múlasýslu á Íslandi. Foreldrar: Magnús E. Magnússon frá Hamborg og Gróa Einarsdóttir frá Götu í Norður-Múlasýslu, nú búandi að 650 Home Street í Winnipeg. Einar gekk í 43. hersveitina — Cameron Highlanders — í desembermánuði 1914. Hann tók þátt í orustum við Ypres, Somme, Vimy Ridge, Lens, Passchendale, Amiens, Arras, Cambrai, Mons og víðar. Var 1915 sæmdur heiðursmerki fyrir hreystilega framgöngu í hernaði. Kom aftur til Canada í maílok 1919, þá vinnufær. Stundar nú kjötverzlun.

*ÞORSTEINN G. ÓLAFSSON (sjá III).*

## JÓEL BJÖRNSSON PÉTURSSON.



Fæddur á Bakka í Fljótum í Skagafjarðarsýslu 25. júní 1895. Foreldrar: Björn Pétursson og Dorothea Jóelsdóttir, nú búsett í Winnipeg. Jóel var í Canadahernum áður en stríðið byrjaði, og fór til Englands 30. september 1914. Hann var í Ypres-bardaganum mikla, Plough Strasse og Fleusbaix-orustunum, og varð fyrir eiturlofti 24. apríl 1915. Hann var tekinn til fanga og fluttur til Þýzkalands, og var þar til stríðsloka. Kom aftur til Canada 6. marz 1919, þá vinnufær.

## KRISTJÁN GUÐMUNDUR SIGURÐSSON.



Fæddur í Winnipeg á nýársdag 1891. Hann er sonur þeirra hjóna Teits Sigurðssonar frá Litlanesi í Múlasveit í Barðastrandarsýslu og Guðrúnar Þorsteinsdóttur frá Höll í Þverárhlíð í Mýrasýslu. Þau giftust 1885 og fluttu frá Íslandi til Winnipeg sumarið 1888. Kristján gekk í 5. canadisku hersveitina í ágúst 1914 og fór með henni til Valcartier-herbúða. Með henni fór hann frá Canada 3. október 1914. Hann særðist í áhlaupi 3. júní 1916 og eftir nokkra veru á spítala kom hann til baka til Canada aftur í marz 1917. Hann vann við verzlun áður en hann fór í herinn.



## Corporal ÓSKAR P. SIGURÐSSON, M.M.

Fæddur í Winnipegborg 28. september 1894. Hann er yngsti sonur þeirra Páls Sigurðssonar, er áður bjó að Notre Dame Ave. í Winnipeg, var ættaður úr Suður-Múlasýslu, dáinn fyrir nokkrum árum, og Sveinbjargar Einarsdóttur, er ættuð er af Seyðisfirði. Óskar gekk í canadiska herinn 29. desember 1914 og innritaðist við 43. hersveitina. Hann sté á skip 1. júní 1915 og var til Frakklands kominn 17. júlí sama ár. Hann var í orustum við Vimy-háls, Hill 70, Passchendale og víðar. Sæmdur heiðursmerki eftir orustuna við Hill 70 (Military Medal). Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada í janúar 1919 og var leystur frá herþjónustu í febrúar sama ár. Stundar klæðaskurð.

*SIGSTEINN HOLM SIGURÐSSON (sjá III).*



## RICHARD W. SMITH.

Fæddur í Winnipeg árið 1891. Foreldrar hans eru Richard Samuel Smith, af enskum ættum, fæddur í Essex á Englandi, og kona hans Sigrún, dóttir Guðmundar Skúlasonar og Guðríðar Guðmundsdóttur frá Reykjavöllum í Lýtingsstaðahreppi í Skagafjarðarsýslu; fluttu vestur um haf 1876; bjuggu fyrst við Íslendingafljót í Nýja Íslandi, en síðar í íslenzku bygðinni í Norður Dakota. Richard var til heimilis hjá foreldrum sínum í Winnipeg, er hann gekk í herinn í september 1914. Hann innritaðist í 11. hersveitina og fór með henni til Englands snemma á árinu 1915. Kom til Frakklands 2. marz sama ár. Var frá marz 1915 til nóv. 1916 í Echelon á aðalskrifstofu þriðja hersins (3rd Army). Síðan á Arras- og Cambrai-svæðinu til stríðsloka 1918. Er nú búsettur í Winnipeg.



## EGILL JÓNSSON STEPHANSSON.

Fæddur á Skógi í Miðdölum í Dalasýslu 3. maí 1890. Foreldrar: Jón Guðmundsson frá Bíldhóli í Snæfellsnessýslu og Kristín Þórðardóttir frá Haukatungu í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu. Þau fluttu frá Íslandi til Winnipeg sumarið 1892. Var Egill þá tekinn í fóstur af Jóni Stephanssyni frá Klettakoti á Skógaströnd og konu hans Kristínu Teitsdóttur frá Ytraleiti í sömu sveit. Hjá þeim ólst hann upp, þar til fóstri hans andaðist 29. des. 1897. Var með fóstru sinni eftir það og seinna síðari manni hennar Bárði Sigurðssyni frá Æsustöðum í Saurbæjarhreppi í Eyjafirði, unz hann fór að eiga með sig sjálfur og kvongaðist Jónínu Guðvarðardóttur, Eggertssonar, Jochumssonar. Egill gekk í 78. hersveitina haustið 1914. Misti í orustu sjón og heyrn vinstra megin á höfði. Kom til Canada aftur 1919, og er nú umferðasali fyrir stórsöluhús í Winnipeg.

## SRGT. KOLSKEGGUR THORSTEINSON.



Fæddur 1889 í Fljótum í Skagafirði á Íslandi. Foreldrar: Tómas Thorsteinsson frá Núpakoti í Rangárvallasýslu og Guðrún Jóelsdóttir frá Sauðanesi á Upsaströnd í Eyjafjarðarsýslu. Kolskeggur gekk í herinn sem undirforingi 4. ágúst 1914 og sigldi til Evrópu í september það ár. Tók þátt í orustum við Ypres í Belgíu, Neuville og Chappelle á Frakklandi og ennfremur í 14 orustum á Norður-Rússlandi, á svæðinu frá Murmansk til Kapiselga. Hann særðist tvisvar. Var þó vinnufær, er hann kom heim aftur til foreldra sinna í Winnipeg, 3. október 1919, eftir meira en 5 ára herþjónustu. Kolskeggur er trésmiður sem faðir hans og á heima í Winnipeg, Manitoba.

*THOMAS JÓNSSON THORDARSON* *(sjá III).*
*THORVALDUR THORVALDSSON* *(sjá III).*



## JÓN THURSTAN.

Fæddur á Íslandi. Stjúpsonur Jóns Guðmundssonar, sem býr í Calgaryborg í Albertafylki. Jón gekk í herinn í ágústmánuði 1914, og var kominn í skotgrafir Breta á Frakklandi í febrúar 1915. Tók þátt í St. Julien-orustunni og særðist þar. Þegar hann var gróinn sára sinna, fór hann aftur á vígvöll og tók þátt í orustum alt til stríðsloka. Kom þá aftur til Canada. Hann kvongaðist og býr í Calgaryborg.

# 1915

## JÚLÍUS ALFRED.



Fæddur í Winnipeg 14. júlí 1891. Foreldrar: Jón Alfred Jónasson frá Reykjavík og Rannveig Þórðardóttir Þórðarsonar frá Stafholtsey í Bæjarsveit í Borgarfjarðarsýslu. Júlíus gekk í herinn í janúarmánuði 1915. Tók þátt í orustum við Amiens, Cambrai og Somme. Kom aftur til Canada í apríl 1919, þá vinnufær. Stundar landbúnaðarvinnu. Júlíus er kvongaður, heitir kona hans Karólína Guðbjörg.

## ANDRÉS DAGBJARTUR ANDERSON.

Fæddur í Brandonborg, Manitoba. Foreldrar: Dagbjartur Anderson ættaður úr Vestmannaeyjum og Þórdís Þórðardóttir, ættuð af Ísafirði á Íslandi. Þessi piltur var í Canadahernum og tók þátt í orustum á Frakklandi. Frekari upplýsingar um hann ekki fáanlegar.

## DAGBJARTUR ANDERSON.



Fæddur í Vestmannaeyjum árið 1870. Foreldrar: Vigfús Andrésson og Nikólína Ottadóttir, er bjuggu í Hólshúsi þar á Eyjunum. Dagbjartur stundaði gipslagningu í Brandonborg, Manitoba, áður en hann gekk í Canadaherinn árið 1915. Hann sigldi áleiðis til hervallar í aprílmánuði 1916, en sýktist á Englandi og var eftir það talinn óvígfær. Kom því aftur til Canada í nóvembermánuði það ár. Dagbjartur er tvíkvæntur; hét fyrri kona hans Þórdís Þórðardóttir, ættuð af Ísafirði. En núverandi kona hans heitir Ingibjörg. Þau hjón búa í Churchbridge, Sask.



## EINAR S. ANDERSON.

Fæddur að Garðar, N. D., U. S. A., 1. október 1892. Foreldrar: Sigurður Einarsson, Þorsteinssonar, frá Tunguseli á Langanesi, Þingeyjarssýslu, og Halldóra Guðmundsdóttir Ólafssonar prests að Hjaltabakka í Húnavatnssýslu. Þau hjón bjuggu í Wpeg. og stundaði Sigurður Málaraiðn. Einar gekk í 78. herd. 29. júní 1915. Sigldi til Englands 14. maí 1916, til Frakklands í september það ár. Hann tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge, Arras, Passchendale, Amiens og Mons. Hann særðist ekki og kom aftur til Canada 12. júní 1919. Hann er ókvæntur; vann að málaraiðn með föður sínum áður en hann fór í herinn, en hygst að stunda landbúnað á eigin reikning framvegis.

*EINAR SIGURÐUR ANDERSON (sjá III).*



## HARALDUR CARL ANDERSON.

Fæddur í Selkirk, Manitoba, 3. desember 1900. Foreldrar: Haraldur Guðmundsson Árnasonar úr Andakíl í Borgarfjarðarsýslu og Josephina Helga Magnúsdóttir, Guðlaugssonar frá Guðrúnarstöðum í Áshreppi í Húnvatnssýslu. Haraldur gekk í 108. herd. 17. des. 1915 og sigldi til Englands 12. sept. 1916, og var þar við heræfingar í 6½ mánuð; vegna þess hve hann var ungur, var hann ekki sendur á vígvöll, en leystur frá herþjónustu með góðum orðstýr í marzmánuði 1917. Stundar nú verzlun á Winnipeg Beach í Manitoba.

*ARNLEIFUR ARASON (sjá III).*



## BJÖRGVIN ANDERSON.

Fæddur 10. júní 1891 í Winnipeg. Sonur Árna Jónssonar Árnasonar frá Ekkjufellsseli í Norður-Múlasýslu og Önnu Bjarnadóttur konu hans. Björgvin gekk í herinn sem óbreyttur liðsmaður þann 5. marz 1915 og sigldi áleiðis til vígvalla á Frakklandi 13. maí 1915. Hann tók þátt í orustum við Amiens, St. Elai, Vimy, Passchendale, Cambrai, Arras, Ypres og Lens. Hann særðist ekki, en veiktist vorið 1918. Var þá fluttur til Englands og var þar, þegar vopnahlé varð. Kom heim aftur 19. maí 1919. Biörgvin vinnur á C. P. járnbrautinni og er til heimilis í Winnipeg.

## STEFÁN ANDERSON.

Fæddur 22. desember 1869 í Árnanesi í Norður-Þingeyjarsýslu. Soreldrar hans voru þau Björn Árnason (Anderson) frá Árnanesi og kona hans Guðrún Guðmundsdóttir. Fluttu þau hjón með börnum sínum vestur um haf árið 1876. Stefán gekk í 108. canadisku hersveitina 23. desember 1915, og fór með henni frá Winnipeg til Englands 12. september 1916. Til Frakklands var hann sendur með 16. herdeildinni 12. febrúar 1917 og var þar í 22 mánuði. Heim kom hann aftur 1919. Stefán er ekkjumaðu r og býr í Winnipeg.



## ÁGÚST ÁRNASON.

Fæddur að Gimli í Manitoba 18. ágúst 1894, sonur hjónanna Árna Hafliðasonar úr Ísafjarðarsýslu og Guðrúnar Sigurðardóttur frá Deildará í Barðastrandarsýslu, til heimilis í Selkirk í Manitoba. Ágúst gekk sem óbreyttur liðsmaður í herinn í aprílmánuði 1915 og fór um haustið það ár til Frakklands, og tók þar þátt í ýmsum orustum og særðist tvisvar. Hann kom heim aftur 10. ágúst 1917, þá nokkurnveginn vinnufær. Er til heimilis í Selkirk og stundar bændavinnu.



## EGGERT JÚLÍUS ÁRNASON, M.M.

Fæddur árið 1886 á Vatnsleysuströnd á Íslandi. Foreldrar: Árni Þorláksson frá Minna-Knarrarnesi á Vatnsleysuströnd og Helga Kjartansdóttir frá Munaðarnesi í Mýrasýslu. Eggert gekk í 226. Manitoba fótgönguliðsdeildina árið 1915. Sigldi til Evrópu í október 1916. Hann tók þátt í orustum við Hill 70, Passchendale, Amiens, Cambrai, Arras og Valenciennes. Særðist tvisvar. Var sæmdur "Military Medal" fyrir hermannleg afrek í Paschendale-orustunni. Kom aftur til Canada í apríl 1919, þá vinnufær. Hann var bankagjaldkeri áður en hann gekk í herinn, en stundar nú landbúnað.

*SIGURÐUR ÁRNASON (sjá III).*

## SIGURÐUR ÁRNASON.

Fæddur um 1860. Sonur hjónanna Árna Sigurðssonar og Margrétar Guðmundsdóttur, sem lengi bjuggu í Höfnum á Skaga í Húnavatnssýslu. Sigurður var um eða yfir 3 ár í Canadahernum. Hann þjónaði á Frakklandi. Særðist ekki. Kom aftur til Canada að stríðinu loknu í desember 1918. Hefir aðsetur í Winnipeg.

*GÍSLI ÁSMUNDSSON (sjá III).*



## EDWIN GESTUR BALDWINSON.

Fæddur í Reykjavík á Íslandi 8. marz 1893. Foreldrar: B. L. Baldwinson, fyrv. aðstoðar-fylkisritari í Manitoba, og Helga Sigurðardóttir frá Jaðri í Skagafirði. Edwin gekk í Mechanical Motor Transport liðið í Imperial Army Service í desember 1915. Sigldi í janúar 1916 áleiðis til Frakklands og starfaði þar í þrjú og hálft ár. Hann tók þátt í orustum við Thiepeval (1916), Somme (1916), Arras (1917), Lens (1917), Ypres (1918) og Passchendale (1918). Særðist ekki, en varð fyrir eiturgasi í Somme-orustunni miklu og á undanhaldi 5. brezka hersins þar, milli Cambrai og Amiens, í marz 1918. Hann var skipaður undirforingi (Corporal), og síðar aðstoðar vistastjóri um 6 mánaða tíma, þar til hann var leystur úr herþjónustu 15. marz 1919. Kom aftur til Canada í júnílok það ár. Edwin lauk lögfræðisnámi við Manitoba háskólann í maí 1921. Heimili hans er í Winnipeg.



## CAPT. SIGURGEIR BARDAL, M. D. C. M.

Fæddur í Winnipeg 2. okt. 1891. Foreldrar: Páll Sigurgeirsson Bardal og Halldóra Björnsdóttir Únítaraprests, Péturssonar. Sigurgeir læknir var að námi, er hann gekk í fyrirliðasveit til heræfinga í apríl 1915. Innritaðist í hið canadiska hjúkrunarlið 3. des. 1917 sem kapteinn. Sigldi til herstöðva í febrúar 1918, og vann upp frá því með hinni konunglegu læknasveit (R. A. M. C.) í þessum orustum: Við Somme í maímánuði, við Ypres í apríl og ágúst, við Bellecourt í september og síðast við St. Souplet í október, alt sama árið. Hann varð fyrir eiturgasi í orustunni hjá Ypres. Kom aftur til Canada í apríl 1919. Útskrifaður af læknaskóla í Winnipeg og leggur fyrir sig lækningar.



## KRISTJÁN ÞÓRARINN BENEDIKTSSON.

Fæddur í Winnipeg 4. nóvember 1886. Foreldrar Björn Benediktsson, Björnssonar frá Víkingavatni í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu, og Sigríður Jónsdóttir, Jónssonar frá Ketilsstöðum á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. Kristján gekk í herinn í desember 1915 og sigldi til vígvallar í október 1916. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Passchendale, Cambrai og víðar á Frakklandi. Særðist tvisvar. Kom aftur til Canada í maímánuði 1919; þá vinnufær.



## LIEUTENANT JÓHANN (SIGURBJÖRNSSON) BENSON.

Fæddur á Ljótsstöðum í Vopnafirði 1892. Sonur Sigurbjörns Ásbjörnsonar og Stefaníu Magnúsdóttur, er fluttu frá Vopnafirði árið 1893 og búa í Selkirk, Man. Jóhann gekk í herinn síðla ársins 1915. Þegar hann kom til Englands var hann skipaður í fluglið Breta og vann í því fyrst á Englandi, en seint á árinu 1917 var hann sendur til Egyptalands til þess að fullkomna sig í fluglistinni. Þar var hann í nokkra mánuði, en var svo kallaður til Englands og síðan sendur til Frakklands. Var þar nokkurn tíma, eða þar til hann var sendur til Canada til þess að ljúka hér læknisskólanámi, er hann hafði stundað áður en hann gekk í herinn. Hann kom heim aftur 31. ágúst 1918. Jóhann er giftur konu af enskum ættum og býr í Selkirk, Man.



## JÓNAS BERGMANN, SKIPSTJÓRI.

Fæddur á Íslandi árið 1855. Sonur Jónasar Jónassonar frá Yztafellskinn og Guðnýjar Jónsdóttur frá Mjóadal í Bárðardal í Þingeyjarsýslu. Gekk í herinn 30. ágúst 1915. Sigldi til Englands 10. febrúar 1916. Þar varð hann fyrir því slysi að fótbrotna og var því ekki sendur til Frakklands, en hvarf aftur til Canada 22. desember 1917. Hefir nú atvinnu sem gæzlumaður á gistihúsi.



## HARALDUR BARNEY BERNSTEIN.

Fæddur 25. júní 1893 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Nú búandi að Hanna, Alberta, Canada. Foreldrar: Sigurður Bjarnason, ættaður úr Skagafirði, og kona hans Sigríður, ættuð úr Snæfellsnessýslu á Íslandi, nú búandi í Calgary Alta. Haraldur gekk í Canadaherinn í júlímánuði 1915. Sigldi til hervallar á Frakklandi árið 1916, og þjónaði þar, unz hann kom heim aftur árið 1919. Hann er kvæntur Myrtle May, og stundar prentiðn. Sigurður faðir Haraldar tók sér ættarnafnið Bernstein.



## JOHN WILLIAM BERNSTEIN.

Fæddur 14. október 1900 í Okatoks, Alberta. Var á háskóla í Red Deer áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Sigurður Bjarnason, ættaður úr Skagafirði og kona hans Sigríður, ættuð úr Snæfellsnessýslu, nú búandi að Calgary Alberta. John gekk í herinn 9. júlí 1915. Sigldi frá Canada árið 1916. Þjónaði í stríðinu þar til hann fótbrotnaði. Kom heim aftur árið 1918. Stundar nú skrifstofustörf fyrir Canada Kyrrahafs járnbrautarfélagið. Sigurður faðir Jóns tók sér ættarnafnið Bernstein.

*BJARNI BJARNASON (sjá III).*
*GUÐMUNDUR KRISTINN BJARNASON (sjá III).*
*SIGURÐUR BJARNASON (sjá III).*



## BERGSTEINN BJÖRNSSON.

Fæddur 13. desember 1872 að Botni í Tálknafirði í Barðastrandarsýslu. Foreldrar: Björn Þorleifsson bóndi á Botni og Elízabet Bergsteinsdóttir, Ólafssonar járnsmiðs í Keflavík í Gullbringusýslu. Bergsteinn stundaði trésmíðar í Winnipeg, þegar hann gekk í 197. herd. 26. nóv. 1915. Sigldi til Englands 15. janúar 1917. Var skipaður til þjónustu í Wales og síðar á Skotlandi. Kom aftur til Canada 17. apríl árið 1918.

*PÉTUR BRYNJÓLFSSON (sjá III).*

## ÁGÚST ROY BYRON.

Sonur hjónanna Björns Guðmundssonar, Skúlasonar, frá Þverá í Vesturhópi í Húnavatnssýslu, og Ólínu Sigfúsdóttur Þórarinssonar. Ágúst gekk í 52. herdeildina árið 1915. Tók þátt í orustum á Frakklandi. Kom aftur til Canada árið 1919. Er nú til heimilis hjá foreldrum sínum í Winnipeg.

## KRISTMUNDUR CHRISTIANSON.



Fæddur 10. júlí 1894 að Hafnarnesi í Austur-Skaftafellsýslu. Foreldrar: Kristm. Kristmundsson frá Rafnseyri við Arnarfjörð og Halldóra Högnadóttir frá Suðurhóli í Austur-Skaftafellssýslu. Kristmundur gekk í 90. herd. 29. nóvember 1915. Tók þátt í orustum við Somme, Ypres, Hill 70, Vimy Ridge og Passchendale. Særðist einu sinni og sýktist þrisvar af eiturlofti. Var þó vinnufær, er hann kom aftur til Canada 24. júlí 1919.

*HRÓLFUR JACOBSSON CRAWFORD* (*sjá III*).

## SIGURÐUR RAGNAR BJÖRNSSON CRAWFORD.



Fæddur að Gautsdal í Geiradal í Barðastrandarsýslu 13. nóvember 1885. Foreldrar: Björn Sigurðsson Crawford frá Kambi í Reykhólasveit og Sigríður Pétursdóttir, ættuð úr Barðastrandarsýslu. Sigurður gekk í 101. herd., 8. des. 1915; og var í orustum á Frakklandi. Særðist þar einu sinni, en var orðinn vinnufær, þegar hann kom aftur til Canada. Sigurður er kvæntur Maud Griffiths, konu af enskum ættum. Hann er vagnstjóri hjá strætisbrautafélaginu í Winnipeg.



## ÁRNI (ARTHUR) DALMAN.

Fæddur í Winnipeg 7. desember 1895. Sonur Jónasar Guðmundssonar Dalman og Rósu Marteinsdóttur, úr Þingeyjarsýslu á Íslandi. Árni gekk í 44. herd. 6. maí 1915 og hélt áleiðis til herstöðvanna í október sama ár. Hann barðist í orustunum við Somme, Vimy Ridge, Lens, Passchendale, Amiens, Valenciennes og Mons. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 19. maí 1919, eftir meira en fjögra ára herþjónustu. Árni er steinsmiður og stundar þá iðn í Winnipeg, en foreldrar hans bjuggu að Gimli, Man.



## NORMAN DALMAN.

Fæddur í Winnipeg 22 september 1893. Sonur Jónasar Guðmundssonar Dalman og Rósu Marteinsdóttur, úr Suður-Þingeyjarsýslu á Íslandi, er bjuggu að Gimli, Manitoba. Norman innritaðist sem undirforingi í 27. herd. 8. marz 1915 og fór tli Evrópu í maí það ár. Hann tók þátt í orustum við St. Eloi—Somme—Vimy Ridge—Lens og Passchendale. Særðist ekki og kom aftur til Canada 26. maí 1919, eftir meira en fjögra ára herþjónustu. Hann stundar nú skrifstofustörf.



## HERMANN DAVIDSON.

Fæddur 13. okt. 1880 í Flatey á Skjálfandaflóa. Foreldrar: Eiríkur Davíðsson (nú látinn) og Helga Stefánsdóttir, bæði úr Þingeyjarsýslu. Þa uhjón fluttu til Ianada haustið 1880. Hermann dvaldi hjá móður sinni þar til hann gekk í 90. herd. í júlí 1915 og fór áleiðis til Englands í ágúst s. á. og þaðan eftir skamma dvöl til Frakklands. Tók þátt í orustum við St. Eloi 3. apr. 1916 og Ypres 9. júní s. á., en í september það ár særðist hann á fæti í orustunni á Sommehæðunum, svo að flytja varð hann til Englands og þar dvaldi hann á sjúkrahúsi í níu mánuði, og misti hann þar fótinn. Til Canada kom hann aftur í maí 1918, og stundar nú vélstjórn við fiskiklaksstöðina í Mikley í Winnipegvatni.

## LEIFUR ALEXANDER DAVIDSON, M. M. & Bar.



Fæddur að Baldur, Man., 2. des. 1896. Sonur Gunnlaugs Davíðssonar, Ísleifssonar frá Hólkoti í Reykjadal í S.-Þingeyjarsýslu og Margrétar Jónsdóttur, Erlendssonar frá Brettingsstöðum í Laxárdal í S.-Þingeyjarsýslu, nú búandi að Baldur, Man. Leifur gekk í herinn 29. júní 1915, þá 19 ára gamall. Hann tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge, Passchendale, Amiens, Arras, Cambrai og Valenciennes, og var sæmdur öðru hæsta sæmdarmerki, er Bretar veita fyrir hugrekki í orustum. Tvisvar særðist hann, en var þó vinnufær, þegar hann kom aftur til Canada 12. júlí 1919. Hann stundar nú landbúnað. — Kunnugir segja, að hann að réttu lagi hafi verðskuldað Victoria Cross, en sjálfur verst hann allra frétta um hernaðarafrek sín.

*ÁRNI VALDIMARSSON DAVIS (sjá III).*



## SIGURBJÖRN GUNNLAUGUR DINUSSON, M. M.

Fæddur að Hallson P. O., Norður Dakota U. S. A., 1895. Foreldrar: Jón Dínusson, ættaður úr Reykjadal í Þingeyjarsýslu, og Kristín Guðnadóttir, ættuð úr Eyjafirði. Sigurbjörn gekk í herinn 13. desember 1915. Hann tók þátt í orustu við Cambrai og særðist svo, að af varð að taka annan fótinn neðan við hnéð. En svo var framkoma hans hermannleg á vígvellinum, að hann var sæmdur Sergeants-nafnbót og hlaut auk þess "Military Medal", fyrir ötula starfsemi að hjúkra og bjarga særðum af vígvellinum. Hann kom aftur til Canada 1. júní 1918, þá vinnufær. Hann er handverksmaður og hefir aðsetur í Winnipeg.

*Lieutenant JÓN EINARSSON (sjá III).*



## BJARNI EYÞÓR EIRÍKSSON.

Fæddur 26. desember 1895, að Svold, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Sveinn Eiríksson og Guðrún Halldórsdóttir frá Reykhólum við Breiðafjörð. Bjarni gekk í 61. herd. 4. júlí 1915, og tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi. Veiktist af eiturlofti 1. nóvember 1918. Kom aftur til Canada 5. apríl 1919, þá vinnufær. Stundar nú akuryrkju.



## FRIÐRIK JÓHANN S. EIRÍKSSON.

Fæddur 10. apríl 1898 að Svold, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Sveinn Eiríksson og Guðrún Halldórsdóttir frá Reykhólum við Breiðafjörð. Friðrik gekk í canadiska riddaraliðið 6. apríl 1915. Sigldi til vígvallar 5. janúar 1916, og tók þar þátt í öllum orustum með herdeild sinni. Veiktist einu sinni af eiturlofti. Deild þessi var sæmd heiðursmerkjum fyrir hreysti og hugprýði, en þau ekki tileinkuð sérstökum mönnum úr henni. Friðrik kom aftur til Canada 10. apríl 1919, þá vinnufær. Hann er nú kvongaður ungfrú Theódóru Valgerði Geirþrúði Helgason. Þau hjón stunda landbúnað.



## INGVI SVEINN EIRÍKSSON.

Fæddur að Svold, Norður Dakota, U. S. A., árið 1893. Foreldrar: Sveinn Eiríksson og Guðrún Halldórsdóttir frá Reykhólum við Breiðafjörð. Ingvi gekk í canadiska riddaraliðið 3. desember 1915, og sigldi frá Canada í október 1916. Hann tók þátt í orustum við Somme, Cambrai, Fresnoy, Messiners og Amiens. Særðist aldrei. Kom aftur til Canada í febrúar 1919, þá vinnufær. Stundar nú landbúnað í Wawanesa í Manitoba. Er kvæntur Herdísi Ingjaldsson (12. janúar 1920).



## VILHJÁLMUR S. EIRÍKSSON.

Fæddur árið 1892 að Mountain í Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Sveinn Eiríksson og Guðrún Halldórsdóttir frá Reykhólum við Breiðafjörð. Vilhjálmur gekk í 61. deild Canadahersins 15. okt. 1915 og sigldi áleiðis til vígvallar í febrúarmánuði 1916. Hann tók þátt í orustum við Ypres í Belgíu og við Somme og Courcelette á Frakklandi. Særðist einu sinni. Var þó orðinn vinnufær, er hann kom aftur til Canada í júlí 1917. Stundar nú landbúnað í grend við Wawanesa í Manitoba. Vilhjálmur er kvæntur Reginu Jóhönnu Helgason.



## ÓSKAR FINNBOGASON, M. M.

Fæddur við Reyðarfjörð á Íslandi 2. nóvember 1898. Foreldrar: Jón Ó. Finnbogason, Sigmundssonar, fyrrum gestgjafa á Seyðisfirði, og Björg Traustadóttir. Óskar gekk í 78. deild Canadahersins 26. nóvember 1915 og sigldi til herstöðvanna 19. maí 1916. Á vígvelli vann hann að hergagnaflutningum og vélbyssustjórn. Tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge, Lens, Amiens, Arras, Canal du Nord, Cambrai, Bourbon Wood, Valenciennes og víðar. Hann særðist tvisvar. Var sæmdur "Military Medal" fyrir hrausta framgöngu. Hann kom aftur til Canada 19. maí 1919. Stundar skólanám.



## SIGURÐUR FINNBOGASON.

Fæddur 15. desember 1881 á Seyðisfirði á Íslandi. Foreldrar: Finnbogi Sigmundsson, fyrrum gestgjafi á Seyðisfirði, og Jóhanna Ketilsdóttir frá Bakka í Borgarfirði austur (bæði dáin). Sigurður gekk í 61. herd. sem Sergeant 7. júní 1915. Tók þátt í orustum á Frakklandi við Somme, Vimy Ridge, og Passchendale. Særðist tvisvar. Kom aftur til Canada 23. september 1919. Stundar verzlun.



## GUSTAV A. FINNSON.

Fæddur í Selkirkbæ í Manitoba 11. sept. 1892. Gekk í stórskotalið Canadahersins sem sjálfboði 5. júlí 1915. Sigldi frá Canada 12. ágúst sama ár og tók þátt í öllum orustum hersveitarinnar frá janúar 1916 til stríðsloka, í nóvember 1918. Meðal þeirra má nefna orusturnar við St. Eloi, Ypres, Somme, Vimy Ridge, Passchendale, Amiens, Arras og Cambrai. Hann særðist ekki og kom aftur til Canada 28. maí 1919, og starfar nú við bókhald, eins og hann gerði áður en hann gekk í herinn. Foreldrar þessa manns eru þau Guðmundur vélstjóri Finnsson, ættaður frá Keflavík í Gullbringusýslu og Ingibjörg Ófeigsdóttir frá Klaustursseli í Jökuldalshreppi í N.-Múlasýslu. Þessi hjón hafa um langt skeið búið í Selkirkbæ.

## CARL FREDERICKSON.

Fæddur Argylebygð í Manitoba fyrir síðustu aldamót. Sonur Sæmundar Friðrikssonar og Valgerðar Kristjánsdóttur, bæði ættuð úr Strandasýslu. Bjuggu í Baldur, Manitoba, en eru nú bæði dáin. Carl var kominn á vígvöll á Frakklandi árið 1916 og var undrforingi í herdeild þeirri, sem hann barðist með. Hann gekk í herinn vestur við Kyrrahaf, og er þar að líkindum nú, síðan hann kom aftur eftir stríðslokin.

*Corporal JÓNAS FREDERICKSON (sjá III).*

## WALTER FREDERICKSON.

Fæddur í Argylebygð í Manitoba fyrir síðustu aldamót. Sonur Sæmundar Friðrikssonar og Valgerðar Kristjánsdóttur, bæði ættuð úr Strandasýslu. Þau bjuggu að Baldur í Manitoba, en eru nú bæði dáin. Walter gekk í herinn sem óbreyttur liðsmaður og var kominn á orustuvöll á Frakklandi árið 1916. Walter særðist allmikið á höfði í orustu þar, en fékk svo bót á því, að hann getur, síðan hann kom aftur til Canada að stríðinu loknu, stundað iðn sína. Hann vinnur við prentun í Weyburn í Saskatchewanfylki.



## GUÐJÓN SALBERG FRIÐRIKSSON.

Fæddur 4. nóvember 1867 að Haukadal í Dýrafirði í Ísafjarðarsýslu. Sonur Friðriks Ólafssonar, Ásgeirssonar prófasts frá Holti í Önundarfirði og Sólveigar Oddsdóttur Helgasonar frá Dufansdal í Arnarfirði. Kvæntist árið 1900 Regínu S. Indriðadóttur frá Ytri-Ey í Húnavatnssýslu. Þau fluttu frá íslandi til Winnipeg árið 1911, og þar dó kona hans 11. október 1913. Árið eftir flutti Guðjón til Selkirk, og hefir síðan dvalið þar. Hann innritaðist í 108. herdeildina 31. desember 1915. Sigldi frá Canada áleiðis til herstöðvanna á Frakklandi 12. september árið 1916. Á vígstöðvarnar kom hann 9. febrúar 1917. Settur með fleirum við járnbrautarlagningar, og tók hann því ekki beinan þátt í orustum. Hann kom aftur til Canada 27. febrúar 1919, eftir þriggja ára hernaðarstarf.

*SIGURÐUR EINAR BJORNSSON FRIMANN (sjá III).*

## ALFRED J. GILLIES.

Fæddur í Manitoba. Foreldrar Jón Gíslason frá Eyvindarstöðum í Húnavatnssýslu og Elísabet Jónsdóttir frá Björnólfsstöðum í sömu sýslu. Alfred gekk í Canadaherinn, tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi. Særðist þar. Kom aftur til Canada árið 1919. Dó nokkru síðar á sóttarsæng í Winnipeg.

## SIGURÐUR GÍSLASON (Sam Gillis).

Fæddur í Ólafsvík á Íslandi. Sonur Sigurðar Gíslasonar, en um móður hans er ókunnugt. Sigurður gekk í herinn árið 1915. Sigldi til Evrópu árið 1916. Var settur við hergagnakeyrslu, þar til hann var leystur frá herþjónustu árið 1918. Hann var ekkjumaður og átti heima í Selkirk, Man., áður en hann gekk í herinn. Er nú kvongaður Victoriu Smith. Þau hjón eiga heima í Albertafylki.



## THORSTEINN J. GÍSLASON.

Sonur Jóns Gíslasonar frá Stíflisdal í Þingvallasveit í Árnessýslu á Íslandi og Guðbjargar Gottsveinsdóttur frá Árvelli á Kjalarnesi í Kjósarsýslu, sem lengst af bjuggu í Reykjavík. Þorsteinn gekk í 144. herd. 20. des. 1915. Fór til Englands 12. september 1916 og á vígvöll á Frakklandi 11. maí 1917. Hann særðist í orustu í ágústmánuði það ár og var þaðan af eins árs tíma á sjúkrahúsum. Hann var leystur frá herþjónustu 31. marz 1919, þá ógróinn sára sinna.



## AGNAR (ARTHUR) GOODMAN.

Fæddur 21. ágúst 1884 á Íslandi. Foreldrar Sigfús B. Guðmundsson Goodman frá Katadal á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu og Guðrún Árnadóttir frá Sigríðarstöðum í Vesturhópi í Húnavatnssýslu, nú búandi að Victoria, B. C. Arthur gekk í herinn þann 8. ágúst 1915. Hann var bakari í Victoriaborg áður en hann gekk í herinn, og mun hafa unnið að þeirri iðn meðan hann var í herþjónustu. Hann kom aftur til Canada 22. október 1918. Stundar nú bakaraiðn.



## G. PÁLMI GOODMAN.

Fæddur í Winnipeg 23. febrúar 1895. Sonur Nikulásar Guðmundssonar Pálssonar, og Önnu Jónsdóttur, sem bjuggu að Hjálmsstöðum, og Hallgerðar Ólafsdóttur, Magnúsonar og Guðnýjar Halldórsdóttur, er bjuggu að Gröf í Grímsnesi í Árnessýslu. Pálmi gekk í 108. herdeildina í Selkirkbæ í Manitoba þann 11. desember 1915. Við heræfingar kom í ljós, að hann var ekki nógu hraustur líkamlega til þess að álítast vígfær. Var því leystur frá herþjónustu þann 29. september 1916. Var því leystur frá herþjónustu þann 29. í Manitoba. Faðir hans er löngu látinn.



## GUÐMUNDUR (JAMES) GOODMAN, M. M.

Fæddur 10. júní 1882 á Íslandi. Verkamaður í Victoria, B. C. Foreldrar: Sigfús B. Guðmundsson Goodman frá Katadal á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu og Guðrún Árnadóttir frá Sigríðarstöðum í Vesturhópi í Húnavatnssýslu, nú búandi að Victoria, B.C. James gekk í 67. herd. 1. september 1915. Sigldi til Evrópu 1. apríl 1916. Tók þátt í orustu við Vimy Ridge og særðist þar. Hann var sæmdur "Military Medal" fyrir hugrekki á vígvelli. Kom aftur til Canada í marzmánuði 1919, þá vinnufær.

## JÓNAS BJÖRN (PETER) GOODMAN.



Fæddur að Flögu í Vatnsdal í Húnavatnssýslu 27. júlí 1878. Foreldrar hans: Benoní Guðmundsson, Guðmundssonar frá Ferjubakka í Mýrasýslu, og Margrét Bjarnadóttir, Jónssonar frá Steiná í Svartárdal í Húnavatnssýslu. Þau komu til Canada 1887. Benoní nú skömmu látinn, en Margrét hefir heimili að Glenboro, Man. Áður en Peter gekk í herinn 30. nóvember 1915, hafði hann um 20. ára skeið starfað sem umferðasali fyrir ýms verzlunarfélög. Þó Peter færi til Frakklands með herdeild sinni, var hann ekki sendur á vígvöll vegna gigtveiki og augnveiki, sem hvorttveggja þjáði hann. Vann þar samt um tíma, en vinna sú reyndist honum ofraun. Hann kom aftur til Canada 27. febrúar 1918. Keypti sér þá bújörð í Argylebygð og stundar þar landbúnað.

## KJARTAN GOODMAN.



Fæddur í Winnipeg 4. febrúar 1898. Foreldrar: Kristinn Guðmundsson, Ólafssonar frá Kalastaðakoti á Hvalfjarðarströnd í Borgarfjarðarsýslu, og Sigurbjörg Jónsdóttir, Sigurðssonar frá Ferstiklu á Hvalfjarðarströnd. Kjartan gekk í herinn 10. ágúst 1915, og var kominn á vígvöll á Frakklandi í janúarlok 1916. Særðist 3. apríl í orustu við St. Eloi. Hann kom aftur til Canada í árslok 1916. Kjartan er prentari og á heima í Winnipeg.

## KRISTJÁN OCTO GOODMAN.



Fæddur 1. október 1896 í Winnipeg, Manitoba. Foreldrar: Kristján Guðmundsson, sonur Guðmundar Sigurðssonar og Málmfríðar Guðmundsdóttur frá Hólakoti á Mýrum; bjuggu í Miðengi í Garðahverfi í Gullbringusýslu, — og Jóna Magnúsdóttir, dóttir Magnúsar Brynjólfssonar og Þorbjargar Jóhannsdóttur prests á Hesti í Borgarfirði, er bjuggu að Dysjum í Garðahverfi í Gullbringusýslu. Kristján Octo innritaðist í herinn 11. janúar 1915, og fór frá Canada 5. febrúar 1915. Var sæmdur "Good Conduct Stripe". Kom heim aftur 8. október 1919. Hann er giftur Emely Alice Arlott. Hann er bifreiðastjóri.



## OLIVER A. GOODMAN.

Fæddur í Winnipeg 18. ágúst 1893. Sonur Nikulásar Guðmundssonar, Pálssonar, og Önnu Jónsdóttur, sem bjuggu að Hjálmsstöðum, en móðir Olivers er Hallgerður Ólafsdóttir, Magnússonar og Guðnýjar Halldórsdóttur frá Gröf í Grímsnesi í Árnessýslu. Oliver gekk í 108. herdeildina í Selkirkbæ þann 18. des. 1915, og sigldi áleiðis til Englands 12. september 1916. Til Frakklands kom hann 17. júlí 1917. Þar vann hann að járnbrautalagningu á ýmsum svæðum, til manna- og hergagnaflutninga að skotgröfunum, um 15. mánaða tíma. Komst þá oft í mannraunir og miklar lífshættur. Var þó ekki særður. Til Canada kom hann aftur í desember 1918. Faðir hans er látinn og býr hann því með móður sinni að Petersfield í Manitoba.



*ÓSKAR GOODMAN (sjá III).*

## Sergeant SÆMUNDUR KRISTINN GOODMANSON.

Fæddur í Brandon, Manitoba, árið 1899. Foreldrar: Þorsteinn Guðmundsson frá Njarðvíkum í Gullbringusýslu og Hólmfríður Guðmundsdóttir frá Kirkjuhvammi á Vatnsnesi. Sæmundur gekk í herinn sem undirforingi 18. desember 1915. Tók þátt í mörgum orustum á Frakklandi. Særðist þar. Kom aftur til Canada 8. maí 1919.



## Sergeant OSCAR J. GOTTFRED.

Fæddur 2. október 1892 í Winnipeg. Sonur Jóhannesar Gottskálkssonar frá Tóvegg í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu, nú til heimilis að Jessie Ave., Wpeg. Foreldrar Jóhannesar voru þau Gottskálk Jónsson, Gottskálkssonar frá Fjöllum, og Lilja Jóhannesdóttir, ættuð úr Eyjafirði; en móðir Oscars, kona Jóhannesar, er Sesselía Magnúsdóttir, Sæbjörnssonar og konu hans Bjargar Ögmundsdóttur. Oscar innritaðist í 138. herdeildina 15. nóvember 1915. Fór frá Canada 20. ágúst 1916. Tók þátt í flestum orustum, og særðist aldrei. Kom aftur til Canada 22. marz 1919. Kona hans (nú látin) var af enskum ættum. Atvinna hans er "Typewriter Mechanic".



## Sergeant LEONARD GLADSTONE GRIFFITHS.

Fæddur í Victoria, B. C., 20. marz 1899. Sonur Josephs H. Griffiths, af enskum ættum, og Alríðar Bjarnadóttur. Leonard gekk í 67. herd. sem Sergeant þann 16. ágúst 1915. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, í Sommehéraðinu, Passchendale og víðar, og særðist tvisvar. Kom aftur til Canada 21. júlí 1919, þá vinnufær. Hann starfar nú að rafleiðslu í Victoriaborg. Þó Griffiths eigi enskan föður, telur hann sig Íslending, og er því hér talinn með íslenzkum hermönnum, samkvæmt eigin ósk hans.



## MATTHÍAS GUÐMUNDSSON.

Fæddur 29. janúar 1893 í Gaulverjabæjarhreppi í Árnessýslu. Sonur Guðmundar Elíasar Guðmundssonar, Vigfússonar, ættaður frá Seljatungu í Gaulverjabæjarhreppi, og Guðrúnar Steingrímsdóttur, Grímssonar frá Kópareykjum í Reykholtsdal. Fluttist með foreldrum sínum til þessa lands árið 1900. Dvaldi fyrst í Dakota, en síðar í Foam Lake, Sask. Hann innritaðist í herinn í Yorkton, Sask., 25. nóv. 1915, í 188. herdeildina, en var færður yfir í 96. Can. Highlanders. Fór frá Canada 20. sept. 1916. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Passchendale, Somme, Arras, Amiens, Cambrai, Mons og víðar. Særðist við Vimy Ridge, fékk skot í gegnum handlegg og kvið. Eftir legu á sjúkrahúsum á Englandi fékk hann fullan bata. Fór aftur yfir til Frakklands, og var þar til stríðsloka. Var sæmdur heiðursmerki deildar sinnar, og fór með henni alla leið til Þýzkalands. Hann kom heim aftur 19. maí 1919.

*JOHN ALBERT HALL (sjá III).*



## JÓN HALLDÓR HALLDÓRSSON.

Fæddur 24. marz 1893 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Kristján Halldórsson frá Nýpi á Skarðsströnd og Sigurbjörg Ásgeirsdóttir frá Heydalsá í Strandasýslu, nú búandi að Padding Lake, Sask. Jón gekk í herinn 26. október 1915. Tók þátt í orustum og særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 18. júlí 1918, þá vinnufær. Stundar landbúnaðarvinnu.



## KÁRI ÓSKAR HANNESSON.

Fæddur í Winnipeg 26. september 1897. Foreldrar hans: Kristján Hannesson, Magnússonar, frá Yztu-Görðum í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu, og Sigríður Ólafsdóttir, Tómassonar, frá Grísatungu í Mýrasýslu. Kári gekk í herinn 11. desember 1915. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70, Passchendale, Amiens og Arras, ásamt mörgum smærri orustum öðrum. Særðist á handlegg og á báðum fótleggjum, og var á sjúkrahúsum á Frakklandi og Englandi frá 28. ágúst 1918, þar til hann var sendur til Canada 23. september 1919. Hefir ekki náð fullri heilsu, en getur þó stundað vinnu.

*SIGURBJÖRN Ó. G. HELGASON (sjá III).*



## EDWIN HENDERSON.

Fæddur í Winnipeg 17. janúar 1893. Foreldrar: Jón Helgason Jónssonar frá Valabjörgum í Skagafirði, og Margrét Jónasdóttir, Sigfússonar frá Grófárgili í Skagafirði. Edwin gekk í herinn 18. júní 1915. Hann fylgdi enska hernum (Imperial Forces) um þriggja ára tíma, eða til stríðsloka. Kom aftur til Canada 19. maí 1919. Vinnur nú að bókfærslu við Merchants bankann í Winnipeg.



## HARALDUR HERMANNSSON.

Fæddur árið 1893. Sonur Sigurðar Hermannssonar, úr Mjóafirði, og Önnu S. Tómasdóttur frá Brekkukoti í Húnavatnssýslu. Haraldur gekk í herinn 18. nóvember 1915, og sigldi til Englands með 108. herdeildinni í september 1916. Á Frakklandi tók hann þátt í orustu við Vimy Ridge og særðist þar, og hafðist þá við á sjúkrahúsi á Englandi, þar til í nóvember 1917, að hann fór aftur til Frakklands og tók þátt í orustu við Amiens og særðist þar. Var þá á ný sendur á sjúkrahús á Englandi, til 6 mánaða veru þar. Hann kom til Canada í marzmánuði 1919 og var í 2 mánuði á hermannaspítala í Winnipeg áður en hann var leystur úr hernum í maí 1919.



## SVEINN INGILEIFUR HERMANNSSON.

Fæddur að Brimneshjáleigu í Seyðisfirði 1898. Foreldrar hans: Guðjón Hermannsson, fæddur á Þórustöðum á Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu, og Magdalena, dóttir Sigurðar Bjarnasonar og Ingibjargar Pálsdóttur á Grímsstöðum á Seltjarnarnesi í Kjós. Með foreldrum sínum fluttist hann vestur um haf árið 1904. Sveinn gekk í Strathcona riddaraliðssveitina 29. júní 1915, en vék úr henni sama ár, en gekk svo í canadiska Tank-liðið 30. maí 1918. Fór til Englands 3. júní sama ár, og með brezku Tank-sveitinni til Frakklands 27. sept. Til Canada kom hann aftur 29. maí 1919.



## GESTUR ERNEST HJÁLMARSSON, M. M. & BAR.

Fæddur 11. ágúst 1892 að Hallson P. O., Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar Hjálmar Hjálmarsson, Jónssonar, ættaður frá Sýrnesi í Aðaldal í Þingeyjarsýslu, og Friðrika S. Jónsdóttir frá Skinnalóni á Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu. Hjálmar og Friðrika giftust hér í landi fyrir meira en 40 árum og hafa lengst af búið í Norður Dakota. Gestur gekk í herinn sem undirforingi 1. október 1915 og sigldi til Evrópu í júní 1916. Hann tók þátt í orustum við Somme, Lens, Hill 70, Passchendale, Amiens, Arras, Denain og Valenciennes. Særðist tvisvar. Var sæmdur "Military Medal" fyrir vasklega framgöngu á vígvelli, og hlaut síðar viðauka-sæmdarmerkið "Bar". Til þessa lands kom hann aftur heill heilsu 8. júlí 1919. Hann stundar gripaverzlun.



## BJÖRN HJÖRLEIFSSON.

Fæddur að Árnes P. O., Man., árið 1882. Sonur Hjörleifs Björnssonar frá Litlakoti í Mýrdal í Skaftafellssýslu og Ragnhildar Árnadóttur frá Dyrhólum í sömu sýslu. Björn gekk í herinn 24. júlí 1915. Sigldi til Evrópu í maí 1916. Barðist á Somme-hersvæðinu 1916 og við Passchendale og Arras 1918. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 6. júní 1919, þá vinnufær. Hann stundar tinsmíði.



## JÓN JÓNSSON HÚNFJÖRÐ.

Fæddur að Sauðanesi í Húnavatnssýslu árið 1872. Foreldrar: Jón Jónsson frá Yztavatni og Helga Gísladóttir frá Flatatungu í Skagafirði. Jón gekk í herinn í júníbyrjun 1915, og var settur í varðlið í British Columbia til að hafa eftirlit með þýzkum föngum. Hann kom til Winnipeg og gekk í 197. herdeildina og fór til Englands 15. maí 1917. Vann þar við skógarhögg til stríðsloka. Kom aftur til Canada í janúar 1919. Stundar landbúnað í Kelowna, B. C.



## GRANT THORSTEINSSON HÖJGAARD.

Fæddur að Garðar, Norður Dakota, U.S.A. Foreldrar: Thorsteinn Nicolai Höjgaard frá Krossavík í Vopnafirði og Ingigerður Ófeigsdóttir frá Klausturseli á Jökuldal í Norður-Múlasýslu. Gekk í 108. herd. árið 1915. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Passchendale og víðar á Frakklandi. Særðist tvisvar. Var þó vinnufær, er hann kom aftur til Canada 16. marz 1919. Stundar landbúnað.



## JOSEPH DANÍEL THORSTEINSSON HÖJGAARD.

Fæddur 14. júní 1896 í Cavalier í Norður Dakota. Foreldrar: Þorsteinn Nicolai Höjgaard frá Krossavík í Vopnafirði og Ingigerður Ófeigsdóttir frá Klausturseli á Jökuldal í Norður-Múlasýslu. Joseph gekk í 108. herd. 25. nóv. 1915. Tók þátt í orustum við Cambrai og víðar á Frakklandi. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 7. marz 1919. Stundar daglaunavinnu.



## EINAR JÓNSSON ÍSDAL.

Fæddur 19. nóvember 1894 í Selkirkbæ í Manitoba. Foreldrar: Jón Pétur Ísdal frá Háreksstöðum í Jökuldalsheiði í Norður-Múlasýslu og Margrét Friðriksdóttir frá Marðarnúpi í Vatnsdal í Húnavatnssýslu. Einar gekk í Bandaríkjaherinn 18. nóvember 1915. En fékk lausn frá herþjónustu í aprílmánuði 1919.

*FRIÐFINNUR KRISTJÓNSSON JÓHANNSSON (sjá III).*



## GÍSLI G. JÓHANNESSON.

Fæddur í Reykjavík á Íslandi í maí 1892. Foreldrar hans: Guðmundur Jóhannesson, ættaður úr Húnavatnssýslu, og Sigríður Ólafsdóttir, úr Reykjavík. Gísli stundaði fiskiveiðar að Winnipegosis, Manitoba, áður en hann gekk í herinn í maímánuði 1915. Hann tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi á árunum 1916 og 1917, og varð eitt sinn fyrir eiturlofti. Til Canada kom hann aftur árið 1919. Gísli er giftur konu af enskum ættum.



## GUÐNI JÓHANNESSON.

Fæddur að Keldunesi í Norður-Þingeyjarsýslu 11. október 1867. Foreldrar: Jóhannes Árnason og Ingiríður Ásmundsdóttir frá Ytra-Álandi í Þingeyjarsýslu. Guðni gekk í herinn 21. júní 1915, og vann með honum í Evrópu, þar til hann kom aftur til Canada í árslok 1919. Hann vann að skósmíði í hernum, og var því ekki í orustum.



## ÁRNI JOHNSON.

Fæddur 11. janúar 1889 í Laugaseli í Helgastaðahreppi í Þingeyjarsýslu. Sonur Jóns Jónssonar, Magnússonar frá Hörgsdal í Mývatnssveit, og Margrétar Árnadóttur, Indriðasonar frá Hálsgerði í Köldukinn í Þingeyjarsýslu. Árni gekk í 44. herd. 25. sept. 1915, og var á vígstöðvum Frakka í marz 1916. Tók þátt í orustum við St. Elois, Ypres og Somme. Særðist í þeirri síðustu, svo af varð að taka hægra fótinn um læri ofarlega; fékk og sár mikið á hægri hönd. Til Canada kom hann — að mestu gróinn — 3. apríl 1917, og stundar nú skrifstofustörf í Winnipeg. Árni er kvæntur Sesselíu Björnsdóttur frá Selsstöðum við Seyðisfjörð í Norður-Múlasýslu.



*EIÐUR JOHNSON (sjá III).*

## EMIL ÁGÚST JOHNSON.

Fæddur að Hensel, Norður Dakota, U. S. A., 29. nóvember 1894. Sonur Kristjáns Jónassonar frá Móbergi í Ásum í Húnavatnssýslu og Ólínar Jónsdóttur frá Litlu-Giljá í Þingi í sömu sýslu. Emil er kvæntur Önnu Þorgilsson, býr í Winnipeg og stundar rafleiðsluvinnu. Hann gekk í herinn 9. desember 1915, og lagði af stað áleiðis til hervallar Frakklands í febrúar 1916. Þar tók hann þátt í orustum við Ypres, Kemmel Hill, Somme, Arras, Vimy Ridge, Hill 70 og Passchendale. Særðist einu sinni. Kom til Canada að stríðinu loknu, þann 20. desember 1918.



## GUÐMUNDUR ÁSGEIR JOHNSON.

Sonur Ásgeirs Jónssonar frá Skaga í Dýrafirði í Ísafjarðarsýslu og Sigríðar Þórðardóttur. Móðir hans er nú gift Þorsteini Þorsteinssyni í Beresford, Man. Guðmundur innritaðist í 99. Manitoba Rangers 6. júní 1915, en var færður yfir 181. herdeildina og fór með henni til Englands 9. apríl 1917. Veiktist í Englandi og var á sjúkrahúsi í 3 mánuði. Var sendur til Canada 3. október 1917 og var 3 mánuði á sjúkrahúsi í Winnipeg. Hann var til heimilis í Brandon, Man.



## GUÐMUNDUR GÍSLI JOHNSON.

Fæddur 3. september 1881 að Hallson, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Gísli Jónsson frá Veðramóti í Skagafirði og Guðrún Jóhannsdóttir frá Litlu-Gröf í Skagafjarðarsýslu. Gekk í herinn 29. júní 1915. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Somme, Amiens og Arras. Varð fyrir eiturgasi. Kom aftur til Canada 13. marz 1919. Hann var trésmiður í Edmonton, Alberta, áður en hann gekk í herinn.



## Sergeant JÓHANN ARNÓR JOHNSON.

Fæddur í Skagafirði á Íslandi 8. maí 1891. Foreldrar: Pétur Jónsson frá Húsabakka í Hólmi í Skagafirði og Jóhanna Jónsdóttir, Jónssonar, og Guðrúnar Steinsdóttur frá Sauðárkróki. Jóhann gekk í herinn 20. marz 1915, og tók þátt í orustum við Somme, Bully og á Vimy-hæðum. Hann var undirforingi. Særðist hættulega á höfði og andliti, og lá í sárum þeim nær árlangt. Kom aftur til Canada í janúar 1918 og stundar nú skrifstofustörf. Hann telur sig til heimilis í Calgary, Alberta, og er giftur konu af canadiskum ættum.

*JOHN PÉTURSSON JOHNSON (sjá III).*



## JÓNAS TRYGGVI JÓNASSON JOHNSON.

Fæddur 17. ágúst 1897 við Manitobavatn í Manitoba. Foreldrar: Ásgeir Tryggvi Jónasson frá Skútustöðum við Mývatn og Margrét Kristjánsdóttir frá Daðastöðum í Skagafirði. Jónas gekk í herinn 17. nóvember 1915. Við heræfingar veiktist hann af botnlangabólgu í febrúar 1916. Varð að þola uppskurð við sýki þeirri, en var ekki talinn vígfær eftir það, og var leystur frá herþjónustu. Síðar náði hann svo heilsu, að hann gat unnið við bifreiðakeyrslu, eins og áður en hann gekk í herinn. Jónas er kvæntur ungfrú Ida Harriet Jacobson.



## Lieut. KONRÁÐ KRISTINN JOHNSON.

Fæddur 13. marz 1897 í Selkirk, Man. Fósturforeldrar: Jörgen Jónsson og Guðný Davíðsdóttir, Daníelssonar frá Daðastöðum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu, en móðir Konráðs var Snjólaug Þorsteinsdóttir og Sigurveigar Jóhannesdóttur frá Laxamýri í sömu sýslu. Konráð gekk í 44. herd. í febr. 1915 og sigldi til Evrópu í maí það ár. Hann tók þátt í orustu við Ypres. Varð þar fyrir heilahristingi við stórskotasprengingu. Gekk síðar í enska flugliðið og var gerður að undirforingja. Kom aftur til Canada í júlímánuði 1919. Hann stundaði miðskólanám í Winnipeg áður en hann gekk í herinn.

*ÓLAFUR JOHNSON (sjá III).*



## RAGNAR (ROGER) JOHNSON.

Fæddur 15. marz 1888 í Mjóafirði á Íslandi. Foreldrar: Marteinn Jónsson, ættaður úr Strandasýslu, og Helga Jóhannsdóttir, prests að Kálfafelli í Skaftafellssýslu. Þau hjón fluttu af austfjörðum til Canada 1889. Ragnar gekk í herinn 1. september árið 1915 og var þar starfandi alt til stríðsloka. Særðist ekki. Var í sveit þeirri, er fylgdi á eftir Þjóðverjum inn á Þýzkaland að stríðinu loknu. Kom aftur til Canada 26. apríl 1919. Hann vinnur að stálþynnusmíði í Winnipeg. Kvæntur Ingibjörgu Jónsdóttur Helgasonar.



## SVANBERGUR G. JOHNSON.

Sonur Guttorms Jónssonar, ættaðs úr Norður-Múlasýslu, og Kristínar Lilju Gunnarsdóttur, Gíslasonar. Gekk í herinn 4. október 1915. Var kominn á vígvöll á Frakklandi 2. janúar 1917. Særðist í orustunni miklu við Ypres 14. nóvember það ár. Var á sjúkrahúsum á Frakklandi og Englandi, þar til í apríl 1918, að hann fór aftur á vígvöll. Varð þá fyrir eiturgasi og var tvær vikur óvígfær. Fór svo í þriðja sinn til vígvallar og særðist 3. október 1918. Fékk þá lausn frá herþjónustu. Svanbergur er kvæntur Bertilínu Sigurðardóttur og býr í Árnesbygð í Gimlisveit í Nýja Íslandi.

## THORY (ÞÓRHALLUR) JOHNSON.



Fæddur 20. júní 1897 að Selárdal í Hörðudal í Dalasýslu. Foreldrar hans: Þórhallur Jónsson, Jónssonar, úr Hörðudal, (dáinn), og Sigurást Daðadóttir, Magnússonar hreppstjóra á Núpi í Haukadal, nú að Innisfail P. O., Alberta. Thory gekk í herinn 23. marz 1915 og sigldi til Englands 12. september það ár. Þar lærði hann alskonar heræfingar. Fór svo til Frakklands 23. marz 1916. Tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge, Hill 70, Passchendale, Arras, Amiens, Cambrai, Canal du Nord, Pepuicourt, Hasnon og mörgum fleiri orustum, og að síðustu með varðliðssveit til Þýzkalands. Kom aftur til Canada 7. maí 1919. Var leystur frá herþjónustu 6. júní 1919, eftir hart nær 4 ára starf. Thory var undirforingi í vélbyssudeild.

*JÓHANNES GUÐMUNDUR JOHNSTON* *(sjá III).*

## Lieut. EDWIN S. JOHNSON.



Fæddur í Reykjavík á Íslandi 12. júlí 1897. Foreldrar hans: Egill Jónsson, fæddur að Skildinganesi við Reykjavík, og Sigurlaug Jóhannesdóttir frá Eyjólfsstöðum í Vatnsdal í Húnavatnssýslu. Edwin ólst að mestu upp í Winnipeg, fékk góða mentun og stundaði bókfærslu, þar til hann gekk í herinn í október 1915. Fór til Englands í júnímánuði 1916. Fór þaðan til Frakklands og gerðist flugstjóri (second Lieutenant) í flugliði Breta þar. Hann kom aftur til Canada í ágústmánuði 1919. Vinnur nú við dagblaðið "Free Press" í Winnipeg.

## AÐALSTEINN JÓNASSON.



Fæddur í Selkirk, Manitoba, 12. marz 1897. Foreldrar hans: Hermann Jónasson og Ósk Sigurðardóttir, er bjuggu á Akureyri á Íslandi. Aðalsteinn gekk í 144. herd. 22. marz 1915. Hann getur ekki um starf sitt í hernum. Hann stundar nú landbúnað að Howardville, Manitoba.

*STEFÁN JÓNASSON* *(sjá III).*

*SVEINN JÓNASSON* *(sjá III).*



## EMIL THEODORE JÓNSSON.

Fæddur 16. september 1894 í bænum Minneota, Minn., U. S. A. Foreldrar hans: séra Björn Björnsson, Jónssonar, frá Ási í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu, nú prestur Fyrsta Lút. safnaðar í Winnipeg, og fyrri kona hans, Sigurbjörg Stefánsdóttir, Gunnarssonar, bróður séra Sig. á Hallormsstað. Emil gekk sem undirforingi í herinn vorið 1915, og fór til Evrópu með 223. herdeildinni frá Winnipeg, en heilsa hans leyfði ekki, að hann kæmist á vígvöll. Hann var því leystur frá herþjónustu og kom aftur til Canada árið 1917. Hann stundar nú skrifstofustörf í Winnipeg.



## JÓN AXEL JÓNSSON.

Fæddur í Selkirk, Manitoba, 27. apríl 1895. Foreldrar hans: Jón Jónsson frá Torfastöðum í Jökulsárhlíð í Norður-Múlasýslu og Guðlaug Sigfúsdóttir frá Straumi í Hróarstungu í sömu sýslu. Þau hjón búa í Selkirk og stundar Jón trésmíðar. Jón Axel gekk í herinn í júní 1915. Hann tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi. Særðist nokkrum sinnum, en aðallega þó í eitt skifti, er sprengikúla frá Þjóðverjum lærbraut hann og lagði á sjúkrabeð um nokkurra mánaða tíma. Hann var leystur frá herþjónustu í janúar 1919, þá sem næst vinnufær. Áður en hann fór í herinn stundaði hann búðarstörf í Selkirk.



## LIEUT. JÓHANNES LAXDAL.

Fæddur í Winnipeg 5. febrúar 1898. Foreldrar: Böðvar Gíslason, Steindórssonar frá Þrándarkoti í Laxárdal í Dalasýslu, og Ingibjörg Sigurðardóttir, Sigurðssonar, frá Hróðnýjarstöðum í Laxárdal í Dalasýslu. Jóhannes gekk í herinn 18. janúar 1915. Hann vann að hergagnaflutningum í 2½ ár, og gekk eftir það í flugdeild hersins og hafði lokið flugnámi, þegar vopnahlé samdist. Hann særðist ekki og kom aftur til Canada 14. júlí 1919. Jóhannes var aðeins 17 ára gamall, þegar hann gekk í herinn.

*JAKOB LINDAL (sjá III).*



Lieut. WALTER (VALDIMAR) J. LINDAL.

Hann er sonur Jakobs Líndal, Hanssonar á Þóreyjarnúpi, og Önnu Hannesdóttur, Þorvarðarsonar, prests á Breiðabólsstað í Vesturhópi. Móðir Önnu var Hólmfríður, dóttir Jóns Bjarnasonar stjörnuspekings í Þórormstungu. Walter er fæddur 22. apríl 1887 á Þóreyjarnúpi og fluttist vestur um haf með foreldrum sínum sama ár; ólst upp hjá þeim, en þau bjuggu á ýmsum stöðum í Manitoba og Sask. Hann innritaðist við háskóla Manitoba 1905, útskrifaðist þaðan með hæstu einkunn og silfur-verðalaunapening í stærðfræði 1911. Lögfræðisprófi lauk hann í Saskatchewan árið 1914. Innritaðist í herinn 1915, gekk í 223. herdeildina 1916, skipaður þar kapteinn. Fór til Englands 1917, og til vígvallar samsumars sem Lieut. í 27. hersveitinni. Varð fyrir eiturgasi óvinanna og sýktist. Kom heim 1918. Lauk lögfræðisprófi í Manitoba sama ár og stundar nú málafærslu í Winnipeg. Kvæntur Jórunni Magnúsdóttur, Hinrikssonar frá Churchbridge, Sask. Er hún einnig lögfræðingur og útskrifuð frá Manitoba-háskóla.

*Lieutenant SVEINBJÖRN LOPTSSON (sjá III).*



SIGURÐUR LUNDAL.

Fæddur í Winnipeg 15. desember 1895. Foreldrar: Árni Lundal Guðmundsson, Guðmundssonar, frá Arnþórsholti í Lundareykjadal, og Margrét Sigurðardóttir frá Jaðri á Akranesi. Sigurður gekk í herinn í desember 1915. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Fresnoy, Hill 70, Passchendale, Amiens, Arras og Cambrai. Særðist einu sinni og kom aftur til Canada í júní 1919, þá vinnufær.

*GÚSTAF Í. MAGNÚSSON (sjá III).*



LEONARD MAGNÚSSON.

Fæddur í Carberry, Manitoba, 30. júní 1895. Sonur J. Valdimars prentara Magnússonar (Jónssonar skipstjóra á Akureyri á Íslandi), og Steinunnar Stefánsdóttur, Þorlákssonar, úr Vestmannaeyjum. Leonard gekk í Canadaherinn 14. júní 1915, og eftir all-langa dvöl við heræfingar á Englandi var hann kominn á vígvöll Frakka í september 1916. Tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge, Hill 70, Passchendale og Lens. Komst ósærður úr þeim öllum. Vorið 1918 fór hann til Englands að nema fluglist, og hafði lokið því námi, þegar friður komst á. Hann kom aftur til Canada 11. júlí 1919. Stundar nú vinnu í heildsöluhúsi í Winnipeg, þar sem hann vann áður en hann gekk í herinn.



## MAGNÚS MAGNÚSSON, D. C. M.

Fæddur 19. ágúst 1885 að Hafnarhólmi í Strandasýslu. Sonur Magnúsar bónda og hafnsögumanns í Hafnarhólmi og Guðrúnar Mikkaelsdóttur frá Hellu við Steingrímsfjörð. Magnús átti heima við Bolungarvík og sótti sjó áður en hann kom til Canada. Gekk í 90. herdeildina í Winnipeg 12. nóv. 1915. Fór til Englands í maí 1916. Til Frakklands með 27. deildinni í ágúst það ár. Tók, í samfleytta 18 mánuði, þátt í öllum orustum við Somme, Passchendale og Vimy Ridge. Særðist einu sinni. Var sæmdur heiðursmerki fyrir hreysti og snarræði. Einn síns liðs tók hann vélbyssu af óvinaflokki, feldi fjóra en rak hina á flótta. Blaðið "London Gazette", dags. 28. marz 1918, fer lofsamlegum orðum um verk þetta. Magnús kom aftur til Canada 27. des. 1918. Hann var kvæntur Elenoru Kr. Pétursdóttur, Oddsonar, kaupmanns í Bolungarvík, og misti hana árið 1911 eftir eins árs hjónaband, og seinna son, sem þau hjón höfðu eignast. Magnús er tæplega vinnufær enn. Er að læra vélafræði í Winnipeg.



## JÓHANN E. MAGNÚSSON, M. M.

Fæddur 24. júní 1897 að Torfastöðum í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Magnús E. Magnússon frá Hamborg og Gróa Einarsdóttur frá Götu í Norður-Múlasýslu. Jóhann gekk í 43. deild Canadahersins — Cameron Highlanders — 24. júlí árið 1915. Hann tók þátt í orustum við Ypres, Vimy Ridge, Lens, Passchendale, Amiens, Arras, Cambrai, Mons og víðar. Hann var sæmdur "Military Medal" fyrir sérstakt snarræði á hættustund í orustu. Kom aftur til Canada 24. marz 1919, þá vinnufær; hafði þó særst einu sinni á vígvelli. Hann vinnur við verzlun í Winnipeg.



*JÓN MAGNÚSSON (sjá III)*

## JÓN MAGNÚSSON.

Fæddur 9. september 1895 að Heiðarseli í Gönguskörðum. Foreldrar: Magnús Benediktsson frá Grísatungu í Borgarfirði (nú látinn) og Guðný Jónasdóttir, nú búsett á Sauðárkróki á Íslandi. Jón innritaðist í 79. herdeild Skota þann 15. desember 1915, en vegna veikinda var hann ekki sendur úr landi, og var leystur frá herþjónustu 23. janúar 1916. Stundar bændavinnu að Belmont, Manitoba.

## CHRISTOPHER J. MIDFORD.



Fæddur í Víðidalstungu í Húnavatnssýslu 2. desember 1893. Sonur Jóhanns Kristóferssonar á Skeggjastöðum í Miðfirði í Húnavatnssýslu og Margrétar Friðriksdóttur, ættaðrar af Suðurlandi. Christopher gekk í Fort Garry riddaradeildina í Winnipeg 25. ágúst 1915. Fór með henni til Englands um haustið, og til Frakklands í febrúar 1916. Hann tók þátt í orustum við Somme, Leone Quentin, Cambrai. Í síðustu orustunni særðist hann af kúluskoti í hálsinn og lá hjálparlaus á vígvellinum í meira en sólarhring, þar til Þjóðverjar, sem þá komu til að kanna valinn, fundu hann og fluttu sem fanga til Þýzkalands og hjúkruðu honum þar. Seint í maí 1918 fékk hann faraleyfi til Englands og var þar á spítala, unz hann fór til Canada aftur í október 1918, með vingjarnlegt bréf frá konungi Breta í vasanum.

## JOHN MITCHELL.



Fæddur í Winnipeg 2. nóvember 1896. Sonur Mitchells, ættaðs af Englandi, og Helgu Pálsdóttur frá Stóra-Núpi í Húnavatnssýslu á Íslandi. John gekk í 61. herdeildina 2. desember 1915 og fór með henni til Englands í marz 1916. Á Frakklandi tók hann þátt í orustum við Ypres, Somme og Vimy Ridge. Hann særðist 10. apríl 1917 og var sendur til Englands til lækninga. Í ágúst 1918 hvarf hann aftur til Frakklands og var skipaður undirforingi. Fór svo með Canadahernum til Þýzkalands í janúar 1919, en hvarf aftur til Canada í aprílmánuði sama ár. Hann er til heimilis í Selkirk, Manitoba.

*VILHELM NORMAN (sjá III).*

## NORQUAY JÓNAS OLIVER.



Fæddur 16. desember 1896 að Gimli, Manitoba. Foreldrar: Eggert Jónsson Oliver, Ólafssonar, fyrrum ritara Norður- og Austuramtsins á Íslandi, og Vilborg Lovísa Pálsdóttir, Jónssonar frá Tungu í Fáskrúðsfirði. Norquay stundaði lögfræðisnám í Prince Albert, Sask., áður en hann gekk í 53. herdeildina 15. sept. 1915. Sigldi til Englands í apríl 1916. Var kominn á vígvöll á Frakklandi 1. júní það ár. Tók þar þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge og Passchendale. Særðist á vinstri handlegg í Passchendale-orustunni 31. október 1917. Kom aftur til Canada í apríl 1919. Kvæntist í september það ár ungfrú Eunice Mildred Ruttan. Hann hefir, síðan hann kom úr stríðinu, tekið fullnaðarpróf í lögum og stundar nú lögfræðisstörf í Prince Albert.



GÍSLI ÓLAFSSON, St. G. C.

Fæddur 29. desember 1896 að Foam Lake P. O., Sask. Foreldrar: Stefán Ólafsson og Guðrún Hinriksdóttir, ættuð úr Árnessýslu. Gísli gekk í 68. herdeildina 11. desember 1915. Sigldi til Evrópu í apríl 1916. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge og Somme. Særðist tvisvar. Var sæmdur St. George krossi fyrir ósérhlífni og ötula framgöngu. Kom aftur til Canada 23. marz 1918. Stundar landbúnaðarvinnu.



HJÖRTUR ÓLAFSSON.

Fæddur 14. desember 1893 í Carberrybæ í Manitoba. Foreldrar hans: Jón Ólafsson frá Reykjavík og Rósinkransa Hafliðadóttir, Helgasonar í Efstadal í Ögursveit í Ísafjarðarsýslu. Hjörtur gekk í canadiska riddaraliðið 28. júní 1915. Hann tók þátt í mörgum orustum á Frakklandi. Særðist þó ekki, og kom aftur til Canada í júnímánuði 1919, eftir fjögra ára herþjónustu. Áður en hann gekk í herinn, var hann ritari við Dominion bankann í Winnipeg. Faðir hans er löngu látinn, en móðirin býr í Brandonborg, Manitoba.

*MAGNÚS JÚNÍUS ÓLAFSSON (sjá III).*



ÓLAFUR ÓLAFSSON.

Fæddur 24. júní 1886 á Ísafirði á Íslandi. Foreldrar: Jón Ólafsson frá Reykjavík og Rósinkransa Hafliðadóttir, Helgasonar í Efstadal í Ögursveit í Ísafjarðarsýslu. Ólafur stundaði rakaraiðn í Winnipeg, áður en hann gekk í herinn 14. ágúst 1915. Hann meiddist á Englandi í júlí 1916, svo að hann var ekki talinn vígfær, og var því leystur frá herþjónustu og sendur heim til Canada í maí 1917.

## Sergeant PAUL BJARNI PAULSON, M.M.



Fæddur 26. maí 1896 að Dundee P. O., Alberta. Foreldrar: Árni J. Pálsson frá Kömbum í Ljósavatnsskarði í Þingeyjarsýslu og Guðbjörg Eyjólfsdóttir frá Geitdal í Skriðdal í Suður-Múlasýslu. Paul gekk í 78. herd. 15. ágúst 1915. Tók þátt í mörgum orustum á Frakklandi, svo sem við Vimy Ridge, Ypres, Somme, Passchendale, Amiens og á ýmsum fleiri stöðum. Settur Sergeant. Hann særðist í orustunni við Amiens 11. ágúst 1918, af skoti í gegnum hálsinn aftanvert. Var sæmdur "Military Medal" fyrir hraustlega framgöngu gegn óvinaflokki, og fyrir hyggilega stjórn deildar þeirrar, sem hann barðist með eftir að foringi hennar var fallinn. Paul kom aftur til Canada í apríl 1919, þá vinnufær, og stundar nú landbúnað með föður sínum, að Glenboro, Manitoba. Móðir hans er látin.

## LÁRUS M. E. PÉTURSSON.



Fæddur að Nýjabæ á Akranesi í Borgarfjarðarsýslu 29. apríl 1892. Sonur Magnúsar Einarssonar, Þorfinnssonar, Péturssonar, frá Hvítanesi í Borgarfjarðarsýslu, og Rósu Árnadóttur, Sigurðssonar, frá Litla-Hrauni í Hnappadalssýslu. Lárus gekk í herinn 6. desember 1915 og starfaði lengst af í fyrstu stórskotadeild Canadahersins, þar til stríðinu lauk. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70, Hill 60, Ypres, Arras, Cambrai, Valenciennes og Mons. Fór, eftir að vopnahlé var sett, með setuliðsdeild til Bonn á Þýzkalandi. Hann særðist aldrei og kom aftur til Canada 13. maí 1919. Lárus er giftur konu af enskum ættum og stundar húsgagnasmíðar í Winnipeg.

*WILLIAM PREECE (sjá III).*

## INDRIÐI FRIÐRIKSSON REINHOLT.



Fæddur 16. september 1862 á Kaupangi við Eyjafjörð á Íslandi. Foreldrar: Friðrik Jafetsson Reinholt og Sólveig Rebekka Benediktsdóttir frá Reykhúsum í Hrafnagilshreppi í Eyjafjarðarsýslu. Gekk í 50. herdeildina 24. sept. 1915. Leystur frá herþjónustu 31. janúar 1917. Tók tvisvar þátt í orustu. 3. júlí 1916 særðist hann lítillega af byssusting, í návígi. En að Baupaume á Frakklandi, þann 28. nóvember 1916, varð hann fyrir allþungum meiðslum á augum, baki og á hægri ökla.



## FRIÐRIK LEWIS REINHOLT.

Fæddur 26. desember 1888 að Alma, Cavalier Co., N. D., U. S. A. Foreldrar: Indriði F. Reinholt, að Red Deer, Alta., og Björg Jasonardóttir, Þórðarsonar, og Önnu Jóhannesdóttur, fædd og uppalin í Húnavatnssýslu. Gekk í herinn í febrúarmánuði 1915. Leystur frá herþjónustu seint í nóvember 1919. Tók þátt í mörgum stórorustum, t. d. við Ypres 3.—13. júní 1916. Slapp þaðan heill á húfi, en særðist allhættulega 28. september 1916, í bardaga við Somme. Komst þó svo til heilsu, að hann gat tekið þátt í orustunni við Vimy Ridge. Fékk stöðu við "Head Quarter Staff". Kvæntur og á heimili í Edmontonborg. Stundar þar iðn sína, húsa- og brúasmíðar.



## GUÐMUNDUR REYKJALÍN.

Fæddur að Lögberg P. O., Sask., 4. janúar 1891. Foreldrar hans: Snorri Reykjalín Jónsson, prests að Þönglabakka í Þingeyjarsýslu og Pálína Marteinsdóttir, Guðlaugssonar frá Álftagerði við Mývatn í Þingeyjarsýslu. Guðmundur gekk í 144. herd. 20. des. 1915. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70, Amiens, Arras og Cambrai. Særðist tvisvar. Kom aftur til Canada 30. apríl 1919, þá ekki vinnufær. Hann á heima að Churchbridge, Sask.

*GUNNAR RICHARDSON (sjá III).*
*AÐALSTEINN JANUS SIGURÐSSON (sjá III).*



## BJÖRN SIGURÐSSON.

Fæddur 7. desember 1894 að Icelandic River P. O., Manitoba. Foreldrar hans: Björn Sigurðsson frá Kirkjubóli í Fáskrúðsfirði og Jóhanna Antoníusdóttir, bjuggu fyrrum að Steinaborg á Berufjarðarströnd í Suður-Múlasýslu. Björn gekk í 144 herd. í desember 1915. Var kominn á vígvöll Frakka síðla ársins 1917 og tók þar þátt í mörgum orustum, þar til hann særðist í október 1918, skömmu áður en stríðinu lauk. Hann kom aftur til Canada árið 1919, þá gróinn sára sinna. Stundar nú landbúnað.

*KONRÁÐ SIGTRYGGSSON (sjá III).*

## GUNNAR GUTTORMUR SIGURÐSSON.



Fæddur í Selkirk, Manitoba. Foreldrar: Sigvaldi Sigurðsson frá Harðbak á Sléttu í Þingeyjarsýslu og Margrét Árnadóttir frá Setbergi í Borgarfirði austur. Gunnar gekk í 79. herd. í ágúst 1915 og sigldi til Evrópu í desember það sama ár. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi við Zillebeck, Somme og Vimy Ridge. Honum var veitt lausn frá herþjónustu í september 1917, bæði fyrir það, hve ungur hann var, og það einnig, að þrír bræður hans voru þá ýmist fallnir eða höfðu dáið af öðrum orsökum. Gunnar var málari áður en hann gekk í herinn. Býr hjá foreldrum sínum í Winnipeg.

*GUÐMUNDUR JÓNSSON SIGURÐSSON (sjá III).*
*HJÁLMAR STEPHANÍUS SIGURÐSSON (sjá III).*

## Srgt. JÓHANN SIGURÐUR SIGURÐSSON.



Fæddur 2. nóvember 1897 í Westbourne, Manitoba. Foreldrar: Friðbjörn Jóhannsson, Sigurðssonar, úr Vopnafirði, og Guðrún Erlendína Sigurðardóttir frá Hamri í Hörðudal í Dalasýslu. Hann gekk í 45. herd. í október 1915 og sigldi til Evrópu í apríl 1916. Tók þátt í orustum við Somme. Særðist lítillega. Kom aftur til Canada í júlí 1918. Stundar nú vélasmíði í Selkirk, Man.

## JÓN ÁRNI GUÐNI SIGURÐSSON.



Fæddur árið 1896 í Reykjavík á Íslandi. Foreldrar: Sigurður Jónsson og Oddný Árnadóttir, búsett í Reykjavík á Íslandi. Jón gekk í 108. herd. 3. des. 1915. Tók þátt í orustum við Hill 70 og Vimy Ridge. Særðist tvisvar, á höfði, handlegg og fótlegg. Kom aftur til Canada í janúar 1919, þá vinnufær. Stundar algenga vinnu í Winnipeg.



## VALDIMAR JÓN SIGURÐSSON, M. M.

Fæddur að Hnausa P. O., Manitoba, 8. marz 1896. Foreldrar: Jón Sigurðsson Björnssonar, og Guðfinnu Oddsdóttur frá Hryggstekk í Skriðdal í Suður-Múlasýslu, og Kristín Jónsdóttir frá Grænavatni í Þingeyjarsýslu. Valdimar gekk í riddarasveit Canadahersins 4. nóvember 1915. Tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge, Lens, Passchendale, Amiens, Cambrai, Canal du Nord og Valenciennes. Særðist aldrei. Var sæmdur undirforingjatign á vígvellinum og hlaut auk þess "Military Medal" fyrir hermannlega framgöngu á vígvelli. Hann kom heim aftur til Canada 13. júní 1919. Stundar búskap að Víðir P. O., Manitoba.

*SIGTRYGGUR VALDEMAR SIGURÐSSON (sjá III).*
*SIGÞÓR SIGURBJORN SIGURÐSSON (sjá III).*



## JOHN SIMONSON.

Fæddur 1. apríl 1892 á Seyðisfirði á Íslandi. Foreldrar: Guðmundur Símonarson frá Litlabæ í Landeyjum í Rangárvallasýslu og Sigríður Pálsdóttir frá Hofsnesi í Öræfum í Austur-Skaftafellssýslu. John gekk í Bandaríkjaherinn árið 1915, og hafði hlotið heiðurspening sem bezta skytta í öllu Californiaríki. Var sendur til þjónustu á Philippineeyjarnar. Er enn í hernum og hefir aðsetur í California.



## Capt. JOSEPH B. SKAPTASON.

Fæddur að Hnausum í Húnavatnssýslu 14. nóvember 1873. Foreldrar: Björn Stefán Jósephsson, Skaptasonar, héraðslæknis, og Margrét Stefánsdóttir. Joseph gekk í 108. herdeildina 4. desember 1915 og var skipaður gjaldkeri hennar og sæmdur kapteinstign. Starfa þessum hélt hann til endaloka stríðsins. Hann fór með deild sinni til Englands í september 1916 og var þar fram til ágústmánaðar 1917, er hann var sendur til Frakklands til 78. deildarinnar frá Winnipeg. Með þeirri deild var hann eitt ár, og síðan með verkfræðingadeild, þar til í janúar 1919, að hann var kallaður heim til Winnipeg, til þess að sinna fjármálastörfum við aðalherstöðina þar. En frá herþjónustu var hann leystur 31. júlí það ár. Joseph er kvæntur Jóhönnu Guðrúnu Símonardóttur, Símonarsonar, frá Gönguskörðum í Skagafirði, hálfsystur dr. Valtýs Guðmundssonar í Khöfn.

*STANLEY SMITH (sjá III).*

## Lieut. BJÖRN STEFÁNSSON.



Fæddur á Litla-Bakka í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu 19. janúar 1887. Foreldrar: Stefán Björnsson og Guðríður Björnsdóttir, sem þar bjuggu, en fluttu til Manitoba árið 1889 og bjuggu lengst af síðan að Mary Hill, Man. Björn er háskólalærður og útskrifaðist í lögvísi frá Manitoba-háskólanum árið 1915. Það ár gekk hann í Canadaherinn og var skipaður Lieutenant. Hann var í orustum á Frakklandi. Foringi í flugliði Breta. 1918 var skip hans skotið niður og hann særður miklu sári, svo honum var eigi vænt lífs. Varð þó græddur og kom aftur til Canada að stríðinu loknu. Stundar lögfræðisstörf í Winnipeg. Faðir hans lézt árið 1913, en móðirin er enn á lífi.

## Capt. WILLIAM SAMUEL STEPHENSON, M.C.,D.F.C.,C.G.



Fæddur 11. jan. 1896 í Winnipeg. Foreldrar: Vigfús Stefánsson af Skógarströnd í Snæfellsnessýslu og Kristín Guðlaugsdóttir frá Kóngabrekku í sömu sýslu. William gekk í verkfræðingadeild Canadahersins 1915, og sigldi til Englands snemma árs 1916. Lærði fluglist og var skipaður flugstjóri í atlögum á vígvelli. Fyrir áræði, dugnað og skothæfni var hann álitinn í fremstu röð flugmanna brezka hersins; skaut niður 18 þýzkar flugvélar. Hann var sæmdur kapteinstign og "Military Cross", Distinguished Flying Cross" og "Croix de Guerre". Þessi merki eru eingöngu veitt fyrir afburða hreystiverk. Capt. Stephenson særðist af skoti í fótlegginn í Aisne—Marne-orustunni í júlí 1918. Aftur kominn til Canada í marz 1919, þá sem næst vinnufær. Er nú umsjónarmaður Stephenson-Russell félagsins í Winnipeg.



## ÞORVARÐUR SVEINBJÖRNSSON.

Fæddur 21. marz 1889 á Akranesi á Íslandi. Sonur Sveinbjarnar Þorvarðarsonar og Margrétar Kristjánsdóttur frá Sýruparti á Akranesi. Þorvarður gekk í Strathcona riddaraliðið 2. janúar 1915 og sigldi til Evrópu 23. júní það ár. Hann tók þátt í ýmsum orustum á vígvöllum í Frakklandi og Belgíu, um þriggja ára skeið, en vill að öðru leyti ekkert um það mál segja. Hann kom aftur til Canada 2. júní 1919, eftir meira en fjögra ára herþjónustu. Áður en hann gekk í herinn vann hann að trésmíðum í Langreuth, Manitoba.



## VERNHARÐUR SVEINSSON.

Fæddur að Winnipeg Beach árið 1894. Sonur Sveins Kristjánssonar frá Hrauni í Helgastaðarhreppi og Veróníku Þorkelsdóttur frá Víðikeri í Ljósavatnshreppi; þau bjuggu að Bjarnarstöðum í Bárðardal í Suður-Þingeyjarsýslu. Vernharður gekk í herinn í desember 1915. Vann fyrst sem hraðboði, og svo um tveggja ára tíma í brezka flugliðinu. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 20. júlí 1919. Hann er úrsmiður að iðn og vinnur við verzlun í Dafoe, Sask. Hann er kvæntur og heitir kona hans Frieda.



## LEIFUR ERIC SÖLVASON.

Fæddur í Winnipeg 15. september 1895. Foreldrar: Sölvi Sölvason frá Króki á Skagaströnd og María Pálína Hallgrímsdóttir frá Gröf í Kaupangssveit í Eyjafirði. Leifur gekk í herinn 18. desember 1915 og hélt skömmu síðar til Englands. Þaðan var hann sendur með hersveit til Austur-Afríku, og þar fékk hann sýki þá, sem nefnd er "Black Water Fever". Var þá talinn ófær til frekari herþjónustu og sendur heim til Canada árið 1917.

*RÚTUR SIGURÐUR SÖLVASON (sjá III).*



## STEFÁN SÖLVASON.

Fæddur í Winnipeg 28. janúar 1893. Átti heima í Selkirk, Man. Foreldrar: Gunnlaugur Sölvason, fæddur á Þverá í Hrollaugsdal í Skagafjarðarsýslu, og Guðríður Helgadóttir frá Ólafsvöllum á Skeiðum í Árnessýslu. Gekk í 108. herd. 20. nóv. 1915. Tók þátt í orustum við Passchendale og umhverfis Vimy Ridge og Arras. Varð fyrir eiturlofti á Arras-orustusvæðinu í apríllok 1918. Kom aftur til Canada 6. júní 1919. Stefán er giftur konu af enskum ættum. Hann kennir hljóðfæraslátt.

*JÓN SIGVARÐUR THOMPSON (sjá III).*



## ÁRNI THODLACIUS.

Fæddur í Stykkishólmi á Íslandi 15. apríl 1877. Foreldrar: Daníel Thorlacius frá Stykkishólmi og Guðrún Jósepsdóttir, Skaptasonar, frá Hnausum í Húnavatnssýslu. Áıni gekk í 79. herdeildina, "Canadian Cameron Highlanders", þann 19. ágúst 1915. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Lens, Hill 70, Passchendale og víðar. Hann særðist á Frakklandi og misti þá vinstri handlegginn, í maí 1918. Kom aftur til Canada í október það ár. Var sæmdur heiðursmerki. Hann er, eins og gefur að skilja, aðeins vinnufær með hægri handleggnum, en hefir þó með sæmd unnið fyrir sér síðan hann kom til baka úr stríðinu. Hann er kvæntur Guðfinnu Jónsdóttur, sem ættuð er úr Reykjavík.



## EDWARD JÚLÍUS THORLAKSON.

Fæddur 1. júlí 1899 að Big Point, Manitoba. Foreldrar: Magnús S. Thorlákson frá Vestmannaeyjum og Moníka Einarsdóttir Suðfjörð, ættuð úr Barðastrandarsýslu, bjuggu að Churchbridge, Sask. Edward gekk í 44. herd. 19. apr. 1915. Tók þátt í orustum við Ypres, Somme, Vimy Ridge, Amiens, Cambrai og Mons. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 26. maí 1919. Hann var stúdent við Wesley College í Winnipeg áður en hann gekk í herinn, og stundar ennþá nám.

*JÓHANNES STEFÁNSSON THORLAKSSON* *(sjá III).*



## STEFÁN SUÐFJÖRÐ THORLAKSON.

Fæddur 10. desember 1897 að Duck Island, Manitoba. Foreldrar: Magnús S. Thorlakson og Moníka Einarsdóttir Suðfjörð, bjuggu að Churchbridge. Stefán gekk í 44. herd. 19. apríl 1915. Tók þátt í orustum við Ypres, Somme, Vimy Ridge, Hill 70, Passchendale, Amiens, Cambrai og Mons. Í einu orði sagt, var í öllum orustum frá marz 1916 til stríðsloka. Særðist aldrei. Kom aftur til Canada 15. apríl 1919. Stundar landbúnað.



## BRAGI THORSTEINSSON.

Fæddur að Bellingham, Wash., U. S. A., 22. júlí 1895. Átti heima í Vancouverborg, B. C., áður en hann gekk í hjúkrunardeild Canadahersins 20. júní 1915. Foreldrar hans eru Þorfinnur Þorsteinsson frá Reykjavík og Guðrún Bergsteinsdóttir frá Torfastöðum í Fljótshlíð. Bragi sigldi frá Canada í ágúst 1915. Vann tvö ár í Saloníku á Balkanskaganum, en eftir það á Frakklandi. Var í hrakningum með Serbum í nóvember 1915. Á Frakklandi tók hann þátt í orustum við Hill 70 og Lens, og særðist þar. Kom aftur til Canada í júlí 1919. Hann var sæmdur heiðursmerki fyrir hermannsstarf sitt.

*HÖRÐUR THORSTEINSSON (sjá 111).*



## THORSTEINN THORSTEINSSON.

Fæddur 10. október 1892 í Bolungarvík í Ísafjarðarsýslu. Foreldrar: Jón Þorsteinsson frá Barmi í Gufudalssveit í Barðastrandarsýslu og Markúsína Kristjánsdóttir frá Borg í Arnarfirði í Ísafjarðarsýslu. Thorsteinn gekk í 65. herd. 14. nóvember 1915. Tók þátt í orustum við Ypres og Somme. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada í apríl 1917. Stundar landbúnað í Peace River héraðinu í Albertafylki.



## TRYGGVI THORSTEINSSON.

Fæddur 20. september 1898 að Kolkuósi í Skagafjarðarsýslu. Foreldrar: Tómas Thorsteinsson frá Núpakoti í Rangárvallasýslu og Guðrún Jóelsdóttir frá Sauðanesi á Upsaströnd í Eyjafjarðarsýslu. Tryggvi gekk í 44. herd. 20. september 1915 og sigldi til Evrópu í nóvember það ár. Hann tók þátt í orustum við Ypres og særðist þar. Kom aftur til Canada 7. janúar 1919. Hefir enga fasta atvinnu, þegar þetta er ritað, en vann að prentiðn áður en hann gekk í herinn.

*ÞORSTEINN THORSTEINSSON (sjá 111).*



## ÞÓRÐUR AÐALSTEINN THORSTEINSSON.

Fæddur 7. janúar 1884 í Reykjavík á Íslandi. Foreldrar: Steingrímur Thorsteinsson skáld og kona hans Guðríður Birgitta Eiríksdóttir frá Reykjavík (bæði dáin). Gekk í 90. herd. 7. nóv. 1915. Tók þátt í orustum á Frakklandi við Lens, Vimy Ridge, Fresnoy og Arras. Særðist tvisvar. Kom aftur til Canada 5. janúar 1919, þá fær um að vinna létta vinnu.



## GUÐJÓN THORVALDSSON.

Fæddur að Hólmum í Austur-Landeyjum í Rangárvallasýslu árið 1884. Sonur Þorvaldar Þorsteinssonar, Gunnarssonar, frá Hólmum í Austur-Landeyjum, og Guðbjargar Jóhannesdóttur, ættaðrar af Skeiðum í Árnessýslu. Guðjón gekk í Fort Garry riddaraliðið 24. ágúst 1915 og sigldi til Englands í október sama ár. Fór á vígvöllu Frakklands í febrúar 1916 og tók þar þátt í ýmsum stórorustum, stundum sem riddari og stundum sem fótgönguliðsmaður. Í skotgröfum Breta var hann eitt sinn í 7 vikur samfleyttar. Hann særðist aldrei, en varð fyrir eiturgasi tvívegis; í síðara skiftið varð hann svo veikur af því, að hann varð eftir það að vera á sjúkrahúsum á Frakklandi og Englandi, þar til hann var sendur til Canada 2. nóvember 1918. Hann er ennþá heilsuveill af þessari gaseitrun.



## FRIÐRIK BRYNJÓLFUR VOPNI.

Fæddur 5. nóvember 1896 í Glenboro, Manitoba. Foreldrar: Ólafur J. Vopni, Jónssonar, frá Ljótsstöðum í Vopnafirði og Stefanía Árnadóttir frá Gunnarsstöðum í Þistilfirði. Friðrik gekk í 27. herd. 4. febr. 1915 og sigldi til Englands 13. maí sama ár. Hann tók þátt í orustum í Frakklandi og Belgíu frá 15. september 1915 til stríðsloka 11. nóvember 1918. Kom aftur til Canada 26. maí 1919. Hann er hljómfræðingur og stundar þá iðn í Winnipeg. Friðrik er kvæntur Hólmfríði Margréti Byron.

*FRANK WILLIAM WALTERSON (sjá III).*



## KRISTINN GUÐJÓN WALTERSON.

Fæddur 11. október 1888 í Selkirkbæ í Manitoba. Foreldrar: Kristján Sigvaldason, Þorvaldssonar, úr Mýrasýslu, og Guðrún Helgadóttir, ættuð úr Snæfellsnessýslu. Kristján gekk í 108. herd. í nóv. 1915, og var árstíma við æfingar í Canada, en var þá talinn of heilsuveill til að fara á vígvöll og var því leystur frá herþjónustu. Hann er kvæntur Jóhönnu Jóhannsdóttur, býr í Selkirkbæ og stundar fiskiveiðar.



## SIGURGEIR SIGVALDASON WALTERSON.

Fæddur árið 1862 í Hraunsfirði í Snæfellsnessýslu. Foreldrar: Sigvaldi Þorvaldsson, fæddur í Mýrasýslu, og Gróa Árnadóttir, ættuð úr Snæfellsnessýslu. Gekk í 108. herd. í des. 1915 og var árstíma við æfingar; en var þá ekki talinn vígfær og var því leystur frá herþjónustu. Hann er kvæntur Sigríði Benonísdóttur; býr í Selkirk og stundar smíðavinnu.



## ALFONSE WESTMAN.

Fæddur í Winnipeg 10. október 1896. Foreldrar: Salman Westman Jóhannesson, Jónssonar, frá Blámýri í Ögursveit í Ísafjarðarsýslu, og Rósa Vigfúsdóttir, Hallssonar, frá Krossi við Ljósavatn í Þingeyjarsýslu. Alfonse gekk í 8. herd. 28. október 1915. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Arleaux, Hill 70, Passchendale, Amiens, Arras og Cambrai. Særðist á öðrum degi Cambrai-orustunnar 28. sept. 1918. Var alls 28. mánuði á Frakklandi. Kom aftur til Canada 6. maí 1919. Vinnur að skrifstofustörfum.



## Sergeant EMIL PÁLL WILSON.

Fæddur 26. september 1897 í Winnipeg, Man. Foreldrar: Sigurður Erlendsson frá Grundarkoti í Laxárdal í Húnavatnssýslu og Metonía Indriðadóttir frá Marbæli í Óslandshlíð í Skagafjarðarsýslu. Emil gekk í 61. deild Canadahersins, og tók þátt í mörgum orustum á Frakklandi. Særðist í orustunni við Lens af skoti í gegnum handlegginn. Var þó vinnufær, þegar hann kom aftur úr stríðinu í janúar 1918. Hann var sæmdur Sergeantstign á orustusvæðinu, fyrir hermannalega framkomu þar. Hann er kvæntur ungfrú Lucy Blanche Shaw og stundar keyrsluvinnu.



## HARRY WILSON (Sigurbjörn Haraldur).

Fæddur í Winnipeg 9. júlí 1894. Foreldrar: Sigurður Erlendsson frá Grundarkoti í Laxárdal í Húnavatnssýslu og Metonía Indriðadóttir frá Marbæli í Óslandshlíð í Skagafjarðarsýslu. Gekk í 78. herd. 1. júlí 1915. Sigldi til Evrópu. Veiktist þar við heræfingastarf og var leystur frá herþjónustu í marzmánuði 1917. Hann er kvæntur ungfrú Ednu Winnifred og vinnur sem umferðasali.



## ALEXANDER ÞÓRARINSSON.

Fæddur 13. október 1892 í Reykjavík á Íslandi. Foreldrar hans: Þórarinn Guðmundsson, ættaður úr Steingrímsfirði, og Karitas Jónsdóttir frá Raufarfelli undir Eyjafjöllum. Alexander gekk í 79. herd. 6. okt. 1915 og var kominn á hervöllu Frakklands 6. desember 1916. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Arleaux, Hill 70, Amiens, Arras og Cambrai. Hann var í deild þeirra, er rak þýzka flóttann út úr Belgíu í stríðslokin 1918. Hann særðist aldrei. Var skipaður undirforingi 1918, fyrir dugnað á hervelli. Kom aftur til Canada í maí 1919. Móðir hans bjó að Winnipegosis, Man.

# 1916



GUÐJÓN ABRAHAMSSON.

Fæddur að Sinclair P. O., Manitoba, 30. september 1892. Foreldrar hans eru: Friðrik Kr. Abrahamsson frá Hólum í Eyjafirði og kona hans Sigríður Árnadóttir Þorsteinssonar, frá Espihóli í Eyjafirði. Guðjón innritaðist sem undirforingi í 100. deildina þann 5. febrúar 1916 og sigldi til Evrópu 19. september sama ár. Hann sýktist við heræfingar á Englandi. Var því ekki sendur á vígvöll, en skipaður í þjónustu á einni af skrifstofum hersins í Englandi. Til Canada kom hann aftur 2. júlí 1919, og stundar nú landbúnað.



Lieutenant WILLIAM ALFRED ALBERT.

Fæddur í Winnipeg 30. júlí 1887. Foreldrar: Kristján Kristjánsson frá Látrum á Látraströnd og Jónína Kristjana Kristjánsdóttir frá Flatey á Skjálfandaflóa í Þingeyjarsýslu. Alfred gekk í 223. canadisku herdeildina 1. marz 1916, og fór með henni til Englands 23. apríl 1917. Á vígvöll Frakklands var hann kominn í júlí það ár. Var þá gerður verkstjóri við sporbrautagerð og sæmdur Lieutenant-nafnbót. Að því vann hann til stríðsloka. Kom aftur til Canada 28. febr. árið 1919. Hann er kvæntur Þóru, dóttur Wilhelms Pálssonar (W. H. Paulson) þingmanns í Saskatchewanfylki, og stundar verzlunarstörf.



## BRYNJÓLFUR ANDERSON.

Fæddur 27. sept. 1879 á Ferjubakka í Axarfirði í Þingeyjarsýslu. Sonur Árna Brynjólfssonar frá Hólsseli á Hólsfjöllum og Jónínu Stefánsdóttur. Hann innritaðist í 223. herdeildina sem undirforingi og fór með henni til Englands 23. apríl 1917. Á Frakklandi tók hann þátt í bardögum við Arras—Amiens og Cambrai, og særðist á hinum síðartalda stað. — Hann kom aftur til Canada 27. janúar 1919. Brynjólfur er kvongaður Helgu Pálsdóttur og býr í Selkirk, Man. Þau hjón eiga 7 börn. Hann stundar málaraiðn.



## HELGI ÓLAFSSON ANDERSON.

Fæddur 30. apríl 1891 í Mjóafirði í Suður-Múlasýslu. Foreldrar Ólafur Árnason frá Nesjum í Austur-Skaftafellssýslu og Sólrún Árnadóttir, fædd á Eldleysu í Mjóafirði, nú búandi að Geysir P. O., Manitoba. Helgi gekk í 223. herdeildina í Winnipeg 6. apríl 1916 og sigldi með henni til Englands 23. apríl 1917. Tók þátt í orustum við Somme, Ypres, Lens og á ýmsum öðrum stöðum. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 10. ágúst 1919. Stundar landbúnað og fiskiveiðar.



## JÓHANN PÉTUR ANDERSON.

Fæddur að Lögberg P. O. í Saskatchewan 15. júlí 1894. Foreldrar hans eru Ólafur Andrésson Guðmundssonar frá Gilsbakka í Skagafirði og Guðrún Þorleifsdóttir, Jónssonar frá Reykjum á Reykjaströnd í Skagafjarðarsýslu. Jóhann gekk í herinn 15. janúar 1916, og tók þátt í orustum við Vimy Ridge—Hill 70—Somme og Cambrai o. fl. Hann særðist einu sinni og varð fyrir eiturlofti í annað skifti. Var þó vinnufær, er hann kom aftur til Canada 5. marz 1919. Hann stundar landbúnað.



## ÓLAFUR ANDERSON.

Fæddur árið 1885 í Eyjafirði á Íslandi. Foreldrar: Guðmundur Anderson úr Eyjafirði og Ágústína María Jóhannesdóttir, úr Suður-Þingeyjarsýslu — nú bæði löngu dáin. Ólafur gekk í 108. herd. 22. febr. 1916, og tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi, þar til hann særðist í júlímánuði 1917. Hann fékk heiðursmerki fyrir vel unnið starf og kom aftur til Canada í marzmánuði 1919. Aðsetur hefir hann í Wynyard í Saskatchewan og stundar landbúnaðarvinnu.



## THORDUR ÓLAFSSON ANDERSON

Fæddur 31. ágúst 1891 í Mjóafirði í Suður-Múlasýslu. Sonur Ólafs Árnasonar og Sólrúnar Árnadóttur, hann frá Nesjum í Austur-Skaftafellssýslu, hún frá Mjóafirði í Suður-Múlasýslu, nú búandi að Geysir, Man. Hann gekk í 223. herd. 6. apríl 1916. Sigldi til Englands 23. apríl 1917 og kom aftur til Canada 30. maí 1919. Stundar nú algenga vinnu að Geysir, eins og áður en hann gekk í herinn.



## KRISTJÁN JÓNSSON AUSTMANN.

Fæddur að Glenboro P. O., Manitoba, 25. september 1890. Foreldrar Jón Ólafsson fyrrum alþm. og ritstjóri á Íslandi og Þóra Þorvarðardóttir, ættuð úr Borgarfirði suður. Kristján er stjúpsonur Jóns Austmanns, ættaðs af Austurlandi, sem hefir alið hann upp að mestu leyti og gengið honum með allri sæmd í föðurstað. Kristján gekk í herinn sem undirforingi 23. marz 1916. En á leiðinni til Englands sýktist hann svo mjög, að hann var talinn ófær eftir það og fékk lausn úr hernum 25. september 1917. Hann útskrifaðist úr læknadeild Manitobaháskólans vorið 1921. Hann er kvæntur Ólöfu Guðbjörgu Þorsteindóttur, Oddssonar, fasteignasala í Winnipeg.



## Capt. HERBERT AXFORD.

Fæddur í Glenboro, Manitoba, 24. ágúst 1894. Foreldrar Árni Árnason, Árnasonar frá Skógum í Axarfirði og Guðbjörg Jónsdóttir frá Ljótsstöðum í Vopnafirði. Herbert gekk í herinn 4. marz 1916 og var í flugdeild á Frakklandi og í Belgíu, og ávann sér þar fyrir frækilega framgöngu í loftorustum, sæmdarmerkið "Distinguished Flying Cross" og kapteinsnafnbót. Hann kom aftur til Winnipeg í maímánuði 1919.



## GUÐNI ÁGÚST ÁMUNDASON.

Fæddur í Mikley í Bifröstsveit, Man., 1. ágúst 1893. Sonur Ámunda Gíslasonar, Styrssonar að Hvammi í Skorradal í Borgarfjarðarsýslu og Jónínu Sólveigar Brynjólfsdóttur, Einarssonar á Hreðavatni í Norðurárdal í Mýrasýslu. Guðni gekk í herinn 17. maí 1916. Fór til Englands í janúar 1917, og til Frakklands í marz sama ár. Hann tók þátt í orustum við Vimyhæðir, Hill 70, Passchendale og á fleirum stöðum. Í janúar 1918 veiktist hann af eiturgasi í orustu. Hann kom aftur til Canada í júlí 1919.



## ÁRNI A. BJARKI ÁRNASON.

Fæddur í Carberry í Manitoba 29. júní 1897. Sonur hjónanna Sveinbjörns Árnasonar og Maríu Bjarnadóttur, búandi að 909 Alverstone St. í Winnipeg. Árni gekk í 108. herd. 9. jan. 1916 og sigldi í sept. áleiðis til herstöðvanna á Frakklandi. Hann var í samfleytta 18 mánuði í fremstu skotgröfunum þar og vann á vígstöðvum þar til stríðinu lauk. — Særðist ekki og kom aftur til Canada í maí 1919. Hann er nú kvongaður. Kona hans er af skozkum ættum. Þau hjón búa í Winnipeg.



## ÁRNI S. ÁRNASON.

Fæddur 7. nóvember 1888 að Húsavík í Norður-Múlasýslu. Sonur Sveins Árnasonar frá Starrastöðum, Skagafjarðarsýslu og Jórunnar Jóhannsdóttur frá Engihlíð í Húnavatnssýslu, nú búandi að Leslie, Sask. Gekk í 223. herd. 21. marz 1916. Var brátt skipaður heræfingakennari og þeirri stöðu hélt hann þar til hann sigldi til Evrópu sem óbreyttur liðsmaður þann 4. marz 1918. Hann tók þátt í orustum við Cambrai og Valenciennes á Frakklandi. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 31. marz 1919. Hann stundar verzlun að Leslie, Sask.



## GUÐMUNDUR ÁRNASON.

Fæddur í Winnipeg 17. júní 1895. Foreldrar Björn Árnason Jónssonar, Ólafssonar frá Kálfárdal í Húnavatnssýslu, og Björg Jónsdóttir frá Geirastöðum í Húnavatnssýslu. Guðmundur gekk í 223. herdeildina 16. apríl 1916, og sigldi með henni frá Canada 23. apríl 1917. Tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi, en særðist ekki. Að loknu stríðinu var hann sendur með herdeild til Þýzkalands. Hann kom aftur til Canada 24. apríl 1919. Guðmundur stundar nú landbúnað á eigin reikning að Teulon, Man. Móðir hans býr þar með honum, en faðir hans er látinn. Guðmundur hafði heimili að Framnes, Man., áður en hann gekk í herinn.

*GUÐMUNDUR SVEINN ÁRNASON (sjá III).*



## SVENBJÖRN ÁRNASON.

Fæddur 22. september 1869 að Hrísum í Flókadal í Borgarfjarðarsýslu. Sonur Árna Sveinbjörnssonar og Ólafar Jónsdóttur frá Oddsstöðum í Lundareykjadal í Borgarfjarðarsýslu. Sveinbjörn gekk í 108. herdeildina 6. janúar 1916. Sigldi til Englands 12. sept. sama ár. Til Frakklands var hann sendur 6. febr. 1917 og vann að járnbrautalagningu á bardagasvæðinu í Somme-dalnum alt það ár. Fór til Englands aftur snemma á árinu 1918 og vann þar við sjúkrahús, til þess tíma, er hann kom til baka í aprílmánuði 1919. Kona hans er María Bjarnadóttir frá Langholti við Hvítá í Borgarfjarðarsýslu. Þau hjón hafa lengi búið í Winnipeg og er heimili þeirra að 909 Alverstone stræti.

*GUÐMUNDUR ÁSGEIRSSON (sjá III).*

## THORDUR ÁSGEIRSSON.

Fæddur að Rutsholti í Snæfellsnessýslu árið 1889. Sonur Ásgeirs bónda Þórðarsonar alþingismanns á Rauðkollsstöðum í sömu sýslu, og Ólínar Guðmundsdóttur söðlasmiðs, Ólafssonar prests að Hjaltabakka í Húnaþingi. Thordur gekk í 223. canadisku hersveitina vorið 1916 og fór með henni frá Winnipeg áleiðis til Englands 23. apríl 1917. Á Englandi var hann um tíma við heræfingar, en svo sendur með fleirum til Frakklands, til liðs við 107. hersveitina. Í skotgröfunum var hann þangað til ófriðnum lauk. Hann er nú til heimilis að Mozart, Sask.

## SIGTRYGGUR ÁGÚSTSSON.

Fæddur 21. marz 1874. Sonur Ágústs Jónassonar og Guðrúnar Þorsteinsdóttur, sem bjuggu að Torfufelli í Eyjafirði. Hann innritaðist í 223. herd. Canadahersins þann 25. maí 1916. Hann gegndi herþjónustu í Canada um 9 mánaða tíma, en dæmdist ekki nægilega heilsuhraustur til þess að sendast á vígvöll í Evrópu. Var því leystur frá frekari þjónustu 8. febrúar 1917.



## CARL BALDWIN.

Fæddur að Baldur í Manitoba 9. ágúst 1896. Foreldrar Baldvin Benediktsson Guðlaugssonar, ættaður úr Þingeyjarsýslu, og Guðný Antoníusdóttir frá Kelduskógum á Berufjarðarströnd í Suður-Múlasýslu. Carl stundaði skólanám í Winnipeg, þegar hann gekk sem undirforingi í herinn 22. marz 1916. Hann sigldi frá Canada 3. maí 1917 og tók þátt í mörgum orustum á Frakklandi, við Amiens, Arras, Cambrai, Valenciennes og víðar. Særðist ekki. Kom aftur 28. júlí 1919. Stundar nú landbúnað nálægt Glenboro í Manitoba.

## KRISTBERGUR BALDWINSON, M.M., M.C.



Fæddur að Einarsstöðum í Núpasveit í Norður-Þingeyjarsýslu 13. desember 1897. Sonur Stefáns Baldvinssonar og Kristbjargar Vigfúsdóttur frá Núpi í Núpasveit. Hann gekk í 100. herd. 1. marz 1916 og sigldi til herstöðvanna 13. september sama ár. Hann tók þátt í orustum við Vimy-hæðir, Passchendale, Amiens, Cambrai, Arras, Valenciennes og fleiri orustum. Var sæmdur þrem heiðursmerkjum fyrir hermannleg afrek á vígvelli. Kom aftur til Canada 12. júní 1919, og stundar nú landvinnu að Árborg, Manitoba.

## VIGFÚS STEFÁNSSON BALDWINSON.



Fæddur að Einarsstöðum í Presthólahreppi í Norður-Þingeyjarsýslu 3. okt. 1894. Foreldrar Stefán Baldvinsson, fæddur á Valþjófsstöðum í Presthólahreppi, og Kristbjörg Vigfúsdóttir frá Núpi í Axarfirði; þau bjuggu að Einarsstöðum áður nefndum. Vigfús gekk í 223. herdeildina í aprílmánuði 1916 og sigldi til Evrópu 23. apríl 1917. Tilheyrði hljóðfæraflokki herdeildarinnar. Hann kom aftur til Canada í apríl 1919. Vigfús er bakari að iðn. Kona hans er Salome Josephson.

## ÓLAFUR BARDAL.



Fæddur að Mountain, Norður Dakota, U. S. A., 1. júlí 1897. Foreldrar: Páll Sigurgeirsson Bardal frá Grímsstöðum í Mývatnssveit í Þingeyjarsýslu og Halldóra Björnsdóttir frá Gíslastöðum á Völlum í Suður-Múlasýslu. Ólafur gekk sem óbreyttur liðsmaður í herinn 23. febr. 1916. Sigldi þá um haustið til herstöðvanna. Tók þátt í orustum við Somme og á Vimy-hæðum. Særðist einu sinni. Ólafur stundaði skólanám áður en hann fór í stríðið, en síðan hann kom aftur hefir hann stundað bókfærslu í Winnipeg. Hann er bróðir Sigurgeirs læknis Bardals.

## BERGUR BENEDIKTSSON.

Fæddur á Vindbarði á Mýrum í Hornafirði árið 1884. Foreldrar hans eru þau Benedikt Kristjánsson og Aðalheiður Sigurðardóttir, sem nú búa að Einholti í Hornafirði. Bergur fluttist frá Íslandi til Winnipeg árið 1903, og átti þar heima, þegar hann gekk í herinn. Hann fór til Englands með skógarhöggsdeild Canadahersins 18. september 1917, og vann við skógarhögg og járnbrautarlagningar til stríðsloka.

## KRISTJÁN ÁSGEIR BENEDIKTSSON.

Fæddur að Ási í Kelduhverfi í Norður-Þingeyjarsýslu 23. ágúst 1861. Foreldrar hans voru Benedikt Andrésson og Sigurveig Einarsdóttir, búandi þar. Kristján Ásgeir flutti til Manitobafylkis árið 1894 frá Víðihóli á Fjöllum, þá giftur Guðbjörgu Jónsdóttur bónda þar. Hann bjó í Winnipeg þar til hann innritaðist í 197. deild Canadahersins 6. marz 1916. Var í hernum 51 viku; fyrst sem liðssafnari, og síðan sem "Press Agent" með fl. Slasaðist á auga og fór aldrei út úr fylkinu . Atvinna hans er blaðamenska og ritstörf. Gervinafn hans er Snær Snæland.

*JÓN BENJAMÍNSSON (sjá III).*



## ALEXANDER LAWRENCE BENSON.

Fæddur í Winnipeg 16. apríl 1893. Foreldrar: Egill Benediktsson, Jóhannessonar (pósts), ættaður úr Skagafirði, og Lovísa, ættuð úr Færeyjum. Alexander gekk í herinn 23. febrúar 1916, og vann stöðugt að hergagnaflutningum á vígsvæði á Frakklandi, þar til stríðinu lauk. Kom aftur óskemdur til Canada 1. júlí 1919. Hann hefir vegg-rimlalagningu að iðn og hefir aðsetur í Winnipeg.

*DANIEL JAKOB BERGMANN BENSON (sjá III).*



## INGÓLFUR BENSON.

Fæddur í Winnipeg 1. september 1895. Foreldrar Sakarías Björnsson, Björnssonar frá Klúku í Strandasýslu, og Kristín Brynjólfsdóttir frá Tröllatungu í sömu sýslu, nú búandi í Winnipeg. Ingólfur gekk í herinn 29. febrúar 1916 og sigldi áleiðis til herstöðvanna 31. október það ár. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge og Fresnoy. Hann særðist í síðar töldum bardaga 8. maí 1917. Kom aftur til Canada 20. marz 1918, en var þá ekki full gróinn sára sinna. Var því á hermannaspítala í Saskatoon fram að árslokum 1918. Þá var hann leystur úr hernum. Hann stundar nú landbúnað.



## ROBERT JOHN BENSON.

Fæddur í Regina, Sask., árið 1894. Foreldrar: Benedikt Jóhannesson frá Naustavík í Köldukinn í Þingeyjarsýslu og Rósa Guðmundsdóttir frá Vatnakoti í Eyjafjarðarsýslu. Robert gekk í 223. herdeildina 21. marz 1916, og tók þátt í mörgum orustum á Frakklandi frá því að hann kom þar á vígvöll árið 1917 alt til stríðsloka. Særðist ekki. Kom aftur til Canada eftir að friður var saminn. Hann er kvæntur ungfrú Carry Gillespie og vinnur að húsasmíðum. Heimili hans er í Winnipeg.



## THORVALDUR HARVEY BENSON.

Fæddur í Regina, Sask., árið 1893. Foreldrar: Benedikt Jóhannesson frá Naustavík í Köldukinn í Þingeyjarsýslu og Rósa Guðmundsdóttir frá Vatnakoti í Eyjafjarðarsýslu. Thorvaldur gekk í 223. canadisku herdeildina 7. marz 1916 og sigldi með henni til Englands 23. apríl 1917 sem Sgt. Major. Hann tók þátt í öllum þeim orustum á Frakklandi, sem deild hans tók þátt í, frá því að hann kom á vígvöllinn alt til stríðsloka; og var í hópi þeirra, sem fóru inn á Þýzkaland. Hann særðist ekki og kom aftur til Canada 29. maí 1919. Stundar verzlunarstörf. Hann er kvæntur ungfrú Rúnu Árnason.



## WILLIAM BJÖRN BENSON.

Fæddur í Winnipeg 16. okt. 1891. Sonur Sakaríasar Björnssonar frá Klúku í Strandasýslu og Kristínar Brynjólfsdóttur frá Tröllatungu í sömu sýslu, nú búandi í Winnipeg. William er kvæntur Jónínu Hallsdóttur og búa þau hjón í Winnipeg. Hann vann við verzlun áður en hann gekk í 184. herdeildina 29. febrúar 1916. Til Evrópu sigldi hann 31. október 1916. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Fresnoy, Lens og Hill 70. Hann særðist 21. ágúst 1917 í Lens-bardaganum mikla, og var eftir það óvígfær. Kom aftur til Canada 21. júní 1918, þá ógróinn sára sinna.



## AGNAR ÁRNASON BERGMANN.

Fæddur í Winnipeg 24. maí 1894. Foreldrar: Árni Jónsson frá Máná á Tjörnesi í Suður-Þingeyjarsýslu, Árnasonar, og Jóhanna Guðmundsdóttir. Árni er löngu dáinn, en Jóhanna ól son sinn upp; býr nú með honum í Winnipeg. Agnar gekk í herinn árið 1916 og sigldi til Englands í maí 1917, og til Frakklands þá um haustið. Vann þar að því að aka hergögnum, og ávann sér Sergeants-nafnbót fyrir dugnað. Hann kom heim aftur í októbermánuði 1919.

*BJARNI SIGFUSSON BERGMANN (sjá III).*



## THORSTEINN BERGSSON.

Fæddur 17. maí 1890 að Stórafjalli í Borgarhreppi í Mýrasýslu. Sonur Jóns Bergssonar frá Galtarholti í Mýrasýslu og Þóru frá Lundareykjadal í Borgarfjarðarsýslu. Þau hjón búa að Hnausa, Man. Þorsteinn gekk í 223. herd. 17. apríl 1916, en sigldi frá Canada í marz 1917. Kom aftur til Canada 17. apríl 1919. Hafði þá verið rétt 3 ár í hernum. Hann komst af ómeiddur og stundar nú landbúnað og fiskiveiðar, eins og áður en hann gekk í herinn.

*ERLENDUR BJARNASON (sjá III).*

*FRIÐBJÖRN BJARNASON (sjá III).*



## HENRY CLEVELAND BJARNASON.

Fæddur 27. ágúst 1894 að Hensel, Norður Dakota, U. S. A. Sonur Benedikts Þórarins Sigfússonar frá Staffelli í Fellum í Norður-Múlasýslu, Bjarnasonar, og Jónínu G. Jónsdóttur Hörgdals frá Möðruvöllum í Hörgárdal, Jónssonar, er búa að Elfros, Sask. Hann gekk í 223. herd. 20. marz 1916. Sigldi til Evrópu 23. apríl 1917, kom til Frakklands í ágúst það ár. Hann tók þátt í orustunni við Ypres og fleiri orustum alt til stríðsloka. Særðist aldrei, og var að stríðinu loknu sendur með herdeild til Þýzkalands, og var þar fram í janúarmánuð 1919. Hann kom aftur til Canada í maí 1919.



## KARL BJARNASON.

Fæddur í Churchbridge, Sask., 4. janúar 1893. Foreldrar Sigfús Bjarnason frá Þórarinsstöðum í Seyðisfirði og Guðfinna Bjarnadóttir frá Sveinsstöðum í Hellisfirði í Suður-Múlasýslu. Þau hjón búa nú að Langreuth, Manitoba. Karl gekk í 223. herd. 11. apríl 1916, en fór eigi til Frakklands fyr en í apríl 1918, því hann var skipaður heræfingakennari hér í Canada. Á Frakklandi tók hann þátt í orustum hjá Canal du Nord, Cambrai og Bourbon Wood, og særðist í þeirri síðustu. Kom til Canada 3. apríl 1919. Er kvæntur Lillian Sigrúnu Claughton; er hún húnvetnsk í móðurætt. Hann stundar verzlunarstörf.



## MAGNÚS BJARNASON.

Fæddur í Churchbridge, Sask., 9. maí 1892. Sonur Eiríks Bjarnasonar úr Austur-Skaftafellssýslu og Oddnýjar Magnúsdóttur yfirsetukonu úr Vestmannaeyjum. Þau hjón bjuggu á Seyðisfirði áður en þau fluttu til Canada árið 1890, eða þar um bil. Magnús gekk í 184. herd. í febrúar 1916, og sigldi 12. okt. það ár áleiðis til herstöðvanna á Frakklandi. Hann tók þátt í orustum við Vimy-hæðir í apríl 1917, Fresnoy í maí 1917, Hill 70 í ágúst 1917, Amiens í ágúst 1918, Arras í sama mánuði og Cambrai í október 1918. Hann særðist tvisvar, fyrst í bardaganum við Hill 70, í ágúst 1917, og aftur í Cambrai-orustunni, í október 1918. Misti þá annan fótinn. Hann kom til Canada aftur í apríl 1919.



## OTTO VALDEMAR BJARNASON.

Fæddur 23. júlí 1897 að Langreuth, Man. Foreldrar: Sigfús Bjarnason frá Þórarinsstöðum í Seyðisfirði og Guðfinna Bjarnadóttir frá Sveinsstöðum í Hellisfirði í Suður-Múlasýslu, nú búandi að Langreuth, Man. Otto gekk í 223. herd. sem undirforingi 15. marz 1916. Sigldi til Frakklands 23. apríl 1917. Barðist við Passchendale, Amiens, Arras, Cambrai, Bourbon Wood og Mons. Særðist ekki. Hann fór með herdeild sinni alla leið til Bonn á Rínarbökkum á Þýzkalandi, og var í öllum þeim orustum, er herdeildin háði á þeirri leið. Komst þó óskemdur aftur til Canada 26. maí 1919. Stundar nú landbúnað.



## OTTÓ VILHJÁLMUR BJARNASON.

Fæddur að Hallson í Norður Dakota 3. maí 1898. Faðir hans er Magnús járnsmiður, er lengi var í Hallson, en býr nú við Wynyard, Sask, sonur Bjarna bónda Þorleifssonar í Vík í Sæmundarhlíð í Skagafjarðarsýslu og konu hans Hólmfríðar frá Halldórsstöðum í Laxárdal í Suður-Þingeyjarsýslu , Ásmundssonar. Kona Magnúsar, en móðir Ottós, er Rósa Sæunn Sveinsdóttir, Halldórssonar, frá Tungu í Stíflu í Skagafjarðarsýslu. Ottó gekk í 223. canadisku hersveitina vorið 1916 og fór með henni frá Winnipeg 23. apríl 1917 til Englands, og þaðan nokkru seinna til Frakklands. Hann var 18 mánuði í skotgröfum. Varð tvívegis fyrir eiturlofti, en særðist aldrei. Kom heim aftur í maí 1919. Stundaði nám um tíma á kostnað Canadastjórnar við Hemphills mótorskóla, og ennfremur við verzlunarskóla í Winnipeg. Er til heimilis með foreldrum sínum og stundar landbúnað.



## SIGFÚS BENEDIKT BJARNASON.

Fæddur að Hensel, Norður Dakota, U. S. A., 18. marz 1896. Sonur Benedikts Þórarins Sigfússonar frá Staffelli í Fellum í Norður-Múlasýslu, Bjarnasonar, og Jónínu G. Jónsdóttur Hörgdals frá Möðruvöllum í Hörgárdal, Jónssonar, er búa að Elfros, Sask. Gekk í 223. herd. 20. marz 1916, og fór til Evrópu 23. apríl 1917. Til Frakklands kom hann í september það ár og tók þar þátt í orustum. Særðist 27. ágúst 1918, og kom aftur til Canada í apríl 1919.



## VILHJÁLMUR ÓLASON BJERRING.

Fæddur að Húsavík í Þingeyjarsýslu 1. október 1883. Sonur Óla Bjerring frá Kaldbak og Nönnu Vilfríðar Ólafsdóttur frá Húsavík í S.-Þingeyjarsýslu. Hann gekk í 223. herd. 22. marz 1916 og sigldi til herstöðvanna 23. apríl 1917. Hann barðist við Vimy-hæðir og Morrock, og varð fyrir eiturlofti í síðari bardaganum. Var þó vinnufær, þegar hann kom aftur til Canada, og stundar nú landbúnað hjá Cayer í Manitoba.



## ANDRÉS J. BJÖRNSSON.

Fæddur í Hnífsdal í Ísafjarðarsýslu 22. maí 1890. Foreldrar: Jón Björnsson og Jóhanna Pálsdóttir bæði ættuð af Vesturlandi. Andrés gekk í 223. herd. 24. marz 1916 og vann þar ýmist að lögreglustörfum eða í hjúkrunarliðinu við herspítala. Kom aftur til Canada í marz 1919. Andrés er kvæntur Bandaríkjastúlku af frönskum ættum, og vinnur að járnvöruverzlun í Winnipeg.



## CARL BJÖRNSSON.

Fæddur við Breiðafjörð á Íslandi árið 1898. Foreldrar Friðrik Eggertsson frá Skáleyjum á Breiðafirði og Helga Jónsdóttir frá Rauðseyjum á Breiðafirði; en stjúpfaðir Carls er Stefán Björnsson, prestur að Hólmum í Reyðarfirði, og ber því Carl hans nafn. Carl gekk í 203. herd. 23. marz 1916 og sigldi til Evrópu í októbermánuði það ár. Hann tók þátt í orustum við Ypres, Somme, Neuport og Amiens. Særðist ekki, og kom aftur til Canada í marzmánuði 1919. Vinnur nú við verzlunarstörf.



## EDWARD BJÖRNSSON.

Fæddur 6. október 1891 að Baldur, Manitoba. Sonur Jóhanns Óla Björnssonar frá Finnsstöðum í Köldukinn í Þingeyjarsýslu og Halldóru Guðjónsdóttur frá Granastöðum í sömu sveit, nú búandi að Wynyard P. O., Sask. Edward gekk í 223. herdeildina 29. marz 1916 og sigldi með henni frá Canada 23. apríl 1917. Til Frakklands fór hann í september það ár, og var þar með fyrstu canadisku verkfræðingadeildinni til stríðsloka. Hann tók þátt í orustum við Passchendale, Arras, Amiens, Drocourt, Quent, Canal du Nord og Cambrai. Særðist ekki. Að vopnahlé sömdu var hann sendur með deild sinni til Þýzkalands. Hann kom aftur til Canada 6. maí 1919, og stundar nú akuryrkju, eins og áður en hann gekk í herinn.



## KRISTINN HALLDÓR BJÖRNSSON.

Fæddur 20. júlí 1897 að Gardar, N. D., U. S. A. Sonur Jóhanns Óla Björnssonar frá Finnsstöðum í Köldukinn í Þingeyjarsýslu og Halldóru Guðjónsdóttur frá Granastöðum í sömu sveit, nú búandi að Wynyard, Sask. Kristinn gekk í 108. herd. 6. marz 1916 og sigldi til Evrópu 12. sept. sama ár. Hann tók þátt í orustum við Fresnoy—Avion—La Coulette—Lens —Hill 70, og víðar á Frakklandi. Hann særðist á handlegg í okt. 1917 af sprengikúlubroti; blóðeitrun hljóp í sárið og var hann því strax sendur á spítala á Englandi og eftir nokkra mánuði græddur þar. Hann stjórnaði hríðskotabyssu í þeim orustum, sem hann tók þátt í á Frakklandi, og var því, eftir að sár hans greri, gerður að kennara við skólann í Seaford, þar sem kend var skotfimi, og var þar undirforingi. Hann kom aftur til Canada 22. des. 1918. Áður en hann gekk í herinn stundaði hann nám við miðskólann í Wynyard. Síðan hann kom úr hernaðinum hefir hann stundað akuryrkju.



## ÓLAFUR GUÐNI BJÖRNSSON.

Fæddur 13. sept. 1893 að Álftártungu í Mýrasýslu. Foreldrar: Björn Ó. Björnsson frá Álftártungu og Jensína Bjarnadóttir úr Reykjavík (systir Markúsar Bjarnasonar kennara í siglingafræði). Ólafur gekk í 223. herd. 9. maí 1916. Var gjaldkeri deildar sinnar með Sergeants-nafnbót. Hann fór með 223. deildinni til Englands 23. apríl 1917, en var þar fengið starf á útgjaldaskrifstofu Canadahersins í Lundúnum. Kom aftur til Canada í júní 1919. Stundar bankastörf. Ólafur er kvæntur Önnu Soffíu Vigfúsdóttur Deildal og Margrétar konu hans; þau eru ættuð úr Skagafjarðarsýslu.

*VALDIMAR BJORNSSON (sjá III).*
*ÞÓRARINN BJÖRNSSON (sjá III).*

## THEODORE BJÖRN BJÖRNSSON.



Fæddur 9. apríl 1896 í Seattle, Wash., U. S. A. Foreldrar: Sveinn Björnsson frá Valþjófsstað í Norður-Múlasýslu og Kristrún Ólafsdóttir frá Kolfreyjustað í Suður-Múlasýslu. Theodore fór í herinn í ágústmánuði 1916 og gekk í flugher Bandaríkjanna. Hann var skipaður umsjónarmaður við herspítala í Kellyfield í Texas. Lagðist í lungnabólgu og gat því ekki farið á vígvöll, en var skipaður til þjónustu við herspítala í St. Antonio, þegar hann náði heilsu aftur. Fékk lausn frá þeirri þjónustu 5. apríl 1919. Vinnur nú hjá sporvagnafélagi Seattleborgar.

*ALEXANDER BORGFJORÐ* *(sjá III).*

*JÓHANN SÓFFONÍAS EINARSSON BORGFJORÐ* *(sjá III)*

## EINVARÐUR BRECKMAN.



Fæddur í Winnipeg 9. febrúar 1889. Verzlunarmaður að Lundar, Man. Foreldrar: Þórarinn Guðlaugsson Breckman frá Klungurbrekku í Skógarstrandarhreppi á Snæfellsnesi og Halldóra Þ. Einvarðsdóttir frá Skutulsey á Mýrum, nú búandi að Lundar, Manitoba. Einvarður gekk sem undirforingi í 223. herdeildina 11. apríl 1916. Fór með henni til Englands 23. apríl 1917. Var þar færður yfir í 27. deildina og var með henni til stríðsloka. Kom aftur til Canada 18. maí 1919. Hann er maður kvæntur.

## JACOB WALTER BYRON.



Fæddur í Winnipeg 2. sept. 1894. Foreldrar: Björn Björnsson Byron frá Þórormstungu í Húnavatnssýslu og Margrét Kristjánsdóttir frá Bjargi í Miðfirði í Húnavatnssýslu, nú búandi í Winnipeg, Man. Jacob gekk í 223. herdeildina 1. apríl 1916 og sigldi með henni til Evrópu ári síðar. Hann tók þátt í orustum við Amiens, Arras og Cambrai. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 26. maí 1919. Hann vinnur við bókfærslu í Winnipeg. Hann var einn í hópi Fálkanna, er til Antwerp fóru og sigruðu í ólympisku leikunum þar.



## GEORGE WILLIAM CAMERON.

Fæddur í Winnipeg árið 1896. Foreldrar hans eru William Cameron, canadiskur maður, og Guðlaug Jóhannsdóttir, Þorsteinssonar frá Engilæk í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu, og Steinunnar Árnadóttur frá Gilsárvallahjáleigu í Borgarfirði í Norður-Múlasýslu. George gekk í sveit með þeim, er störfuðu að flutningum í brezka hernum (Imperial Motor Transport), um haustið 1916. Sigldi til herstöðvanna á Frakklandi í janúar 1917, og vann þar, unz stríðinu sleit. Hann kom aftur til Canada í maímánuði 1919, og tók upp þá iðju að stjórna bifreiðum.



## BJÖRN GESTSSON CHRISTIANSON, M. M.

Fæddur í Argylebygð í Manitoba 23. október 1892. Stundaði fiskiveiðar í grend við Langreuth, Man., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar hans eru Gestur Björnsson og Jóna Benediktsdóttir frá Sveinsstöðum í Húnavatnssýslu á Íslandi. Björn gekk 223. herd. í apríl 1916. Hann tók þátt í orustunni miklu við Passchendale á Frakklandi, og var sæmdur "Military Medal" fyrir framgöngu sína þar. Hann kom aftur til Canada í maí 1919.



## BJÖRN CLEMENSSON.

Fæddur 5. júlí 1892 að Geirbjarnarstöðum í Þingeyjarsýslu. Hann er sonur Jóns Clemenssonar frá Sigríðarstöðum í Hólshreppi í Þingeyjarsýslu og Þuríðar Jónsdóttur frá Litluströnd í sömu sýslu. Þau hjón búa að Silver Bay, Man., og þar stundaði Björn landbúnað með þeim áður en hann gekk í 223. herdeildina, þann 30. marz 1916. Hann varð fyrir áfalli skömmu eftir að hann gekk í herinn, svo að gera varð á honum holskurð. Hann var því ekki sendur á vígvöll og var leystur frá herþjónustu 3. janúar 1919.

## BJÖRN SIGURÐSSON CRAWFORD.



Fæddur 15. febrúar 1860 að Kambi í Reykhólasveit í Barðastrandarsýslu, en búandi að Winnipegosis, Manitoba, þar sem hann stundaði fiskiveiðar. Foreldrar hans voru Sigurður Sakaríasson frá Heydalsá í Strandasýslu og Ragnheiður Björnsdóttir frá Ballará í Dalasýslu. Þau bjuggu að Kambi í Reykhólasveit í Barðastrandarsýslu. Björn gekk í herinn 2. júní 1916 og stundaði heræfingar í Manitoba, þar til hann var leystur frá herþjónustu 28. marz 1917.

*STURLAUGUR BJORNSSON CRAWFORD (sjá III).*

## HJÁLMUR FRÍMANN DANÍELSSON, B. S. A.



Fæddur 12. okt. 1882 að Hólmlátrum á Skógaströnd í Snæfellsnessýslu. Sonur Daníels Sigurðssonar hreppstj. á Tjaldbrekku í Hraunhreppi í Mýrasýslu, og Kristjönu Jörundardóttur, Guðbrandssonar ríka á Hólmlátrum. Hjálmur var útskrifaður úr Búnaðarvísindadeild Manitobaháskólans og starfaði í þjónustu Manitobastjórnar sem kennari í þeirri grein, þar til hann gekk í herinn 13. marz 1916. Hann var við skotgrafirnar í orustum við Amiens og Arras árið 1918, og vann í líknardeild hersins að bjarga særðum af vígvelli og koma þeim á sjúkrastöðvar til græðslu. Hann fylgdist með hernum alt til stríðsloka og var þá meðal þeirra, sem sendir voru til Þýzkalands; þar var hann fram til febr. 1919. Til Canada kom hann 22. júní 1919, og starfar nú í þjónustu ríkisstjórnarinnar, að leiðbeina afturkomnum hermönnum í landbúnaðarstarfi þeirra.

*KRISTJÁN KONRÁÐ DAVÍÐSSON (sjá III).*

## JOHN JOSEPH DANIELS.



Fæddur 13. september 1898, að Blanchard P. O., Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: John Daniels frá Toronto, Ontario, og Ingunn Jakobsdóttir úr Skagafirði á Íslandi. John gekk í 108. herd. 16. febr. 1916. Tók þátt í orustum við Amiens og Vimy Ridge. Særðist einu sinni. Hann kom aftur til Canada 28. apríl 1919. Stundar keyrsluvinnu. Hann er kvongaður. Kona hans er ensk og heitir Ruth Mary Jones.



## JÓN HJALTALÍN DANÍELSSON.

Fæddur í Winnipeg 12. desember 1896. Sonur Jónasar Daníelssonar frá Kverná í Eyrarsveit í Snæfellsnessýslu og Guðrúnar Málmfríðar Þorfinnsdóttur frá Litla-Bakka í Hróarstungu. Jón gekk í "Army Service Corps" 1. maí 1916, og hélt áleiðis til Evrópu 10. desember sama ár. Hann vann að flutningum aðallega og meiddist við þá vinnu á Frakklandi, en náði aftur fullri heilsu og kom til Canada 1. ágúst 1919. Hann er vélfræðingur og stundar þá iðn fyrir C. P. járnbrautarfélagið.



## Lieut. JOHN DAVIDSON.

Fæddur í Winnipeg 8. febrúar 1891. Foreldrar: Sigurður Davidson frá Stóruvöllum á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu og Sigríður Jónsdóttir frá Strönd við Mývatn í Þingeyjarsýslu. John gekk í 223. canadisku herdeildina 4. marz 1916 og fór með henni til Englands 23. apríl 1917; gekk þar í flugherinn og gerðist flugstjóri með Lieutenant-nafnbót. Var síðan um eins árs tíma á vígsvæðinu við Salonika á Grikklandi. Hann kom heill aftur til Canada 10. júlí 1919



## Sergeant SIGURÐUR EIRÍKSSON DAVIDSON.

Fæddur 15. október 1890 í Winnipeg. Foreldrar Eiríkur Davíðsson og Helga Stefánsdóttir, bæði ættuð úr Þingeyjarsýslu, en hafa jafnan átt heima í Winnipeg síðan þau komu frá Íslandi haustið 1880. Sigurður gekk í herinn 19. febrúar 1916 og var kominn á hersvæði Frakka 7. apríl sama ár. Þar tók hann þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70 og Passchendale og Loos; eftir það stundaði hann lækningar í tannlækningadeild hersins, því hann hafði lært tannlækningar áður en hann gekk í herinn. Hann náði undirforingjastöðu fyrir góða framgöngu í hernaði. Kom aftur til Canada 2. júlí 1919 og stundar tannlækningar í Winnipeg.



Sergeant ALBERT VIGFÚSSON DEILDAL.

Fæddur í Glenboro, Man., 8. maí 1894. Sonur Vigfúsar Sveinssonar frá Enni í Viðvíkursveit og Margrétar Rósu Jónsdóttur, fædd að Þönglaskála í Skagafjarðarsýslu, en foreldrar hennar bjuggu í Hólakoti í Unadal. Albert gekk í 107. herdeildina í júlí 1916, og gerðist undirforingi í flokki, sem skipaður var til járnbrautagerðar á hersvæðinu. Særðist af skoti í fótinn og var 2 mánuði á spítala. Kom aftur til Canada í janúar 1919. Albert er kvæntur ungfrú Ruth Carlson. Hann býr í Vancouver, B. C., en foreldrar hans búa í Winnipeg, Manitoba.

GESTUR BJARNASON EASTMAN.

Er fæddur á Íslandi. Hann er sonur þeirra hjóna Bjarna Þorsteinssonar Eastmann og konu hans Guðríðar Einarsdóttur, er búa í Big Point bygð í Manitoba. Gestur mun hafa gengið í herinn að sagt er árið 1916. Býr hann nú með foreldrum sínum að Big Point. Frekari upplýsingar ekki fengist.

JÓN ÓLAFUR BENEDIKTSSON EASTMAN.

Fæddur í Gimlisveit í Manitoba 16. maí 1879. Foreldrar: Benedikt Jónsson Eastman og Rannveig Þorleifsdóttir, er bjuggu á Miklabæ í Gimlisveit. Jón gekk í herinn árið 1916. Tók þátt í orustum á Frakklandi og særðist tvisvar. Í síðara skiftið í orustu við Arras þann 21. marz 1918. Kom aftur til Canada í febrúar 1919, þá ekki vinnufær.



## WALDIMAR RAGNAR EGGERTSSON.

Fæddur í Winnipeg 22. sept. 1896. Foreldrar: Guðvaldi Eggertsson frá Kolbeinsstöðum í Mýrasýslu og Ragnheiður Jónsdóttir, Magnússonar, Jónssonar; þeir bjuggu í Stóru-Vogum í Gullbringusýslu hver fram af öðrum og tóku sér ættarnafnið Waage. Kona Magnúsar Waage var Guðrún Eggertsdóttir prófasts að Reykholti. Kona Jóns Waage var Guðrún Ágústa Guðmundsdóttir, verzlunarmanns í Reykjavík, Péturssonar, og Ragnheiðar systur Helga biskups. Waldimar var við skólanám við Wesley College í Winnipeg, þegar hann gekk í herinn 18. marz 1916. Sigldi til Englands með 223. herdeildinni 23. apríl 1917. Tók þátt í orustum á Frakklandi 1918 við Amiens, Arras og Cambrai. Fékk lausn úr herþjónustu í febrúarmánuði 1919. Stundar verzlunarstörf.



## PÁLL G. EGILSSON.

Fæddur 28. marz 1881 að Hallson, Norður Dakota, U. S. A. Sonur Gísla Egilssonar frá Völlum í Skagafirði og Ragnheiðar Jóhannsdóttur Hallssonar frá Egg í Hegranesi. Páll stundaði járnvöruverzlun í bænum Calder, Sask., áður en hann gekk í 223. herdeildina 10. marz 1916. Hann sigldi frá Canada 4. nóvember 1917. Fram að þeim tíma hafði hann verið kennari á vélbyssuskólum í Winnipeg og St. Charles. Hann tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi, en særðist ekki, og kom aftur til Canada 27. apríl 1919. Stundar nú sömu atvinnu og áður en hann gekk í herinn.



## ÁGÚST EINARSSON.

Fæddur 18. sept. 1878 að Hvappi í Þistilfirði í Þingeyjarsýslu. Sonur Einars Benjamínssonar, Kjartanssonar, og Ásu Benjamínsdóttur, Ágústínusarsonar. Gekk í 223. herdeildina 26. marz 1916. Var hann sendur úr þeirri deild í 230. deildina, sem stofnuð var í Brockville, Ontario, og fór með henni frá Canada 4. marz 1917. Við landgöngu á Englandi var hann sendur í 114. canadisku skógarhöggsdeildina og starfaði í henni til 18. nóvember 1918, að hann var leystur úr herþjónustu. Kom aftur til Canada 20. desember 1918. Ágúst stundaði bændavinnu og húsamálningar áður en hann gekk í herinn. Hann kom heim ósærður, og stundar nú sömu iðn og fyr.



ÁSMUNDUR EINARSSON.

Fæddur 22. október 1874, að Hrauni í Aðaldal í Þingeyarsýslu. Foreldrar Einar Einarsson og Guðbjörg Grímsdóttir, búandi í Gimlisveit, Man. Ásmundur gekk í 108. herd. 14. febrúar 1916, og fór til Englands í september það ár. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi við Hill 70 og Passchendale. Særðist ekki. Kom aftur til Canada í febrúar 1919. Stundar landbúnað.



EINAR EINARSSON.

Fæddur að Cardwell í Ontario í marzmánuði 1897. Sonur Einars Bjarnaonar frá Hóli í Norðurárdal og Sesselju Guðmundsdóttur frá Klettastíu í Norðurárdal í Mýrasýslu á Íslandi. Einar gekk í herinn þann 14. marz 1916, og sigldi til Frakklands í nóvember það ár; og frá þeim tíma var hann einatt á hervelli, þar til hann kom aftur til Canada í júní 1919. Hann veiktist einu sinni af eiturgasi, en varð skömmu síðar heill heilsu.



HÖSKULDUR EINARSSON.

Fæddur að Vestfold P. O., Man. 4. desember 1895. Foreldrar: Benjamín Einarsson frá Kollavíkurseli í Þistilfirði í Norður-Þingeyjarsýslu, og Guðlaug Stefánsdóttir frá Kúðá í sömu sveit. Höskuldur gekk í herinn 30. marz 1916. Fór til Englands í apríl 1917, og skömmu síðar á vígvöll Frakka. Tók þar þá þátt í orustum við Passchendale, og svo í öllum orustum þar á eftir, sem deild hans tók þátt í, alt til stríðsloka, í nóvember 1918. Veiktist af eiturlofti einu sinni. Kom aftur til Canada 7. marz 1919, þá vinnufær. Stundar landbúnað.



## JÓHANNES EINARSSON.

Fæddur 5. ágúst 1895 að Lögberg, Sask. Foreldrar: Jóhannes Einarsson frá Hvammi í Höfðahverfi í Þingeyjarsýslu og Sigurlaug Þorsteinsdóttir frá Grýtubakka í Þingeyjarsýslu. Jóhannes gekk í 223. canadisku herdeildina í október 1916. Sigldi til Evrópu í október 1917. Tók þátt í orustum á Frakklandi við Amiens, Canal du Nord, Bourbon Wood, Cambrai og Mons. Var í liði því, er rak Þjóðverja inn á Þýzkaland. Kom aftur til Canada í marz 1919. Jóhannes stundar nú landbúnað.



## KRISTINN ARI EINARSSON.

Fæddur 17. júlí 1896 að Hlíð í Súðavíkurhreppi í Ísafjarðarsýslu. Hann er sonur Einars Guðmundssonar frá Svarthamri í Súðavíkurhreppi, og Guðbjargar Einarsdóttur frá Eyrardal í sömu sveit, nú búandi að Gimli í Manitoba. Kristinn innritaðist í 223. herdeildina 17. apríl 1916, og hélt áleiðis til Frakklands 23. apríl 1917. Hann tók þátt í Passchendale-orustunni og ýmsum fleiri orustum á Frakklandi, en særðist aldrei. Kom aftur til Canada 19. maí 1919. Hann stundar nú fiskiveiðar, eins og áður en hann gekk í herinn.



## STEFÁN EINARSSON.

Fæddur 27. júlí 1896 í Neshjáleigu í Loðmundarfirði. Foreldrar: Sigurður Einarsson, Eiríkssonar á Sævarenda í Loðmundarfirði, og Arnbjörg Stefánsdóttir, Guðmundssonar í Loðmundarfirði. Faðir Stefáns er látinn, en móðir hans býr á landi sínu að Arborg P. O., Man., og hjá henni var Stefán þar til hann gekk í 100. herd. 17. jan. 1916. Til Englands fór hann í september það ár, og þaðan á vígstöðvar Frakka í nóvember sama ár. Hann tók þáttt í orustum við Vimy Ridge og Lens. Haustið 1917 fór hann með herdeild sinni til Belgíu og tók þar þátt í orustunni miklu við Passchendale. Særðist í þeim bardaga, skotinn í hægra auga. Til Canada kom hann 13. júlí 1918. Hann á heima að Minitonas í Manitoba.

## SVEINN EINARSSON.

Fæddur á Oddeyri við Eyjafjörð 25. nóvember 1898. Foreldrar hans voru þau Einar Sveinsson og Málmfríður Sigurðardóttir. Einar Sveinsson var fæddur á Þórustöðum í Grímsnesi í Árnessýslu 23. september 1857. Málmfríður var fædd í Reykjavík 12. maí 1858, andaðist að Gimli, Manitoba, 15. febrúar 1919. Sveinn innritaðist í herinn í marz 1916 í 108. herdeildina, og var látinn laus í ágúst sama ár, sökum þess, að hann þótti eigi hafa aldur til herþjónustu.



## VILHJÁLMUR SVANFRED EINARSSON.

Fæddur 24. desember 1897 að Lögberg, Sask. Foreldrar: Jóhannes Einarsson frá Hvammi í Höfðahverfi í Þingeyjarsýslu og Sigurlaug Þorsteinsdóttir frá Grýtubakka í Höfðahverfi. Vilhjálmur var hljómlistarnemi, þegar hann gekk í 223. herdeildina 4. marz 1916. Hann var 18 mánuði á Frakklandi og lék þar á fiðlu í hljóðfærasveit Canadahersins. Hann kom aftur til Canada 22. maí 1919. Stundar nú fiðluspil við leikhús í Winnipeg.



## ÖRNÓLFUR KRISTINN EINARSSON.

Fæddur 11. júlí 1887. Foreldrar: Einar Einarsson, ættaður úr Rangárvallasýslu (nú dáinn), og Jóhanna Örnólfsdóttir, ættuð af Vatnsleysuströnd, nú búandi í Hafnarfirði á Íslandi. Hann gekk í 223. herd. árið 1916. Var í ýmsum orustum á Frakklandi. Særðist ekki. Kom heim aftur 4. maí 1919. Stundar landbúnað.



ANDRÉS C. EIRÍKSSON.

Fæddur í Vopnafirði á Íslandi 27. ágúst 1888. Foreldrar: Gunnar Eiríksson (Norðmaður), og Anna Hansdóttir, Níelssonar, fædd að Víkingavatni í Þingeyjarsýslu. Andrés gekk í herinn 19. febrúar 1916, en fór aldrei til vígstöðvanna. Hann var leystur frá herþjónustu 25. des. 1918. Stundar málaraiðn í Winnipeg.



JOHN C. EIRÍKSSON.

Fæddur í Vestmannaeyjum 20. nóv. 1879. Foreldrar: Eyjólfur Eiríksson og Guðrún Eyvindsdóttir, úr Vestmannaeyjum. John gekk í Bandaríkjaherinn í janúar 1916. Fór skömmu síðar til Síberíu. Fékk þar eiturloft í augu og háls, svo að hann fékk tæpast mælt um tveggja mánaða tíma. Kom aftur í júní 1919. Hann stundaði námavinnu í Nevadaríki áður en hann fór í herinn, og vinnur nú aftur að sömu iðn.



LÚÐVÍK JÓHANN FERDINAND EIRÍKSSON.

Fæddur á Vopnafirði 28. febrúar 1890. Foreldrar: Gunnar Eiríksson (Norðmaður) og Anna Hansdóttir, Níelssonar, eitt sinn búandi að Baugastöðum í Þingeyjarsýslu. Hann gekk í 107. herd. sumarið 1916 og fór þá um haustið á orustuvöll Frakka. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Arleaux, Hill 70, Passchendale, Arras, Amiens, og á fleiri stöðum. Hann var með leiðangri þeim, er fylgdist með Þjóðverjum á undanhaldi þeirra heimleiðis í gegnum Belgíu, að stríðinu loknu. Hann særðist einu sinni, en náði fullum bata eftir fáa mánuði. Kom aftur til Canada í maílok 1919. Hann er kvæntur Margréti Þórarinsdóttur frá Reykjavík.

*SIGURÐUR J. EIRIKSSON* *(sjá III).*



## ELÍAS ELÍASSON.

Fæddur 20. febrúar 1880 að Steinsmýri í Vestur-Skaftafellssýslu. Foreldrar: Elías Gissurarson frá Steinsmýri og Guðríður Þórhallsdóttir frá Mörk í Vestur-Skaftafellssýslu, nú búandi að Þykkvabæ í Landbroti í V.-Skaftafellssýslu. Elías er kvongaður Guðbjörgu Sæmundardóttur. Þau búa að Árborg, Manitoba, og þar stundaði hann trésmíðar áður en hann innritaðist í 108. deildina þann 11. febrúar 1916. Hann sigldi til Frakklands 12. sept. það ár. Hann tók þátt í orustum við Ypres, Vimy Ridge. Hill 70 og Amiens. Særðist 16. ágúst 1918 og var tekinn fangi af Þjóðverjum. Hann kom aftur til Canada 29. júlí 1919, en ekki vinnufær.



## EINAR CARL EIRÍKSSON.

Fæddur á Seyðisfirði 27. janúar 1883. Foreldrar: Sigurður Eiríksson og Steinunn Stefánsdóttir á Seyðisfirði. Einar gekk í 143. herd. 11. júlí 1916. Tók þátt í orustum við Passchendale, Avion og Amiens. Særðist tvisvar. Var herfangi á Þýzkalandi frá 13. ágúst til 5. desember 1918. Kom aftur til Canada 22. marz 1919. Er vélstjóri.



## VALDIMAR ERLENDSSON.

Fæddur í Winnipeg 17. apríl 1895. Sonur Erlendar G. Erlendssonar frá Melbæ við Reykjavík og Margrétar Finnbogadóttur frá Geldingalæk á Rangárvöllum, en nú búandi að Langreuth, Manitoba. Valdimar gekk í 184. herdeildina 9. marz 1916, en var síðar færður yfir í 223. deildina. Hann sigldi frá Canada 3. maí 1917, og kom aftur 7. maí 1919. Um þátttöku sína í orustum getur hann ekki, þótt vafalaust hafi hann haft þar líka reynslu og aðrir, er þá deild skipuðu. Hann vinnur við verzlun með bræðrum sínum í Langreuth.



## JÖRUNDUR EYFORD.

Fæddur í Syðstabæ í Hrísey á Eyjafirði 26. maí 1866. Faðir hans var Sigurbjörn, sonur Sigurðar Kristjánssonar, bróður Kristjáns Amtmanns og séra Benedikts í Múla, en móðir Guðbjörg Jónasdóttir, systir Svanhildar konu Jörundar bónda í Hrísey. Jörundur ólst upp í Hrísey til 11 ára aldurs, fór þá í Naustavík í Þingeyjarsýslu til Baldvins föðurbróður síns, en þaðan tvítugur til Akureyrar. Kvongaðist þar Önnu Jónasdóttur. Frá Íslandi fluttust þau hjón til Mountain, N. D., 1893 og þaðan norður að Manitobavatni, og settust að á tanga þeim, er Jörundur nefndi Siglunes. Þar af dregur bygðin nafn. 1908 fluttu þau vestur að hafi, þaðan til Athabaska, Alberta. Þar andaðist Anna. Eignuðust þau 12 börn og eru 5 á lífi. Jörundur gekk í 218. herd. árið 1916, og fór til Frakklands. Var ár í skotgröfum; varð fyrir eiturgasi og misti alveg sjón. Sendur til Englands og heim aftur 1918. Hefir nú fengið sjónina að mestu.



## SKAPTI VALDIMAR EYFORD.

Fæddur í Rosseau County í Minnesota 5. ágúst 1896. Sonur Kristjáns Sigurðssonar Eyford frá Þúfnavöllum í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu og Guðríðar H. Jónsdóttur frá Sólheimum í Blönduhlíð í Skagafirði (nú látin). Skapti gekk í 223. herdeildina 2. marz 1916 og sigldi frá Canada 1. nóvember sama ár. Á Frakklandi tók hann þátt í orustum við Vimy Ridge (9. apr. 1917), Neuville Vitasse og hæðir þar umhverfis (í júlí 1918), Amiens (8.—14. ág. 1918), Arras (26.—29. sept. 1918). Særðist í Vimy Ridge orustunni. Var þá fluttur til Englands og lá þar í sárum nokkra mánuði, en fór síðan aftur til herstöðvanna og starfaði þar til stríðsloka. Til Canada kom hann aftur heill heilsu 24. marz 1919, og stundar nú búskap á landi sínu við Piney, Manitoba.



## EDWARD TRYGGVI EYJÓLFSSON.

Fæddur 8. október 1894 við Íslendingafljót í Manitoba. Sonur Sigurðar Eyjólfssonar frá Unaósi í Norður-Múlasýslu og Rósu Gísladóttur frá Króksstöðum í Húnavatnssýslu. Hann gekk í 223. herdeildina 28. maí 1916. Sigldi frá Canada áleiðis til Frakklands 23. apríl 1917. Tók þátt í orustum við Passchendale—Amiens og Cambrai. Varð tvisvar fyrir eiturgasi. Særðist ekki. Hann kom aftur til Canada 7. maí 1919, og stundar nú, eins og áður, landbúnað að Víðir í Manitoba.



## INGI VILHELM EYJÓLFSSON.

Fæddur 18. maí 1897 að Saltcoats, Sask. Sonur Halldórs Eyjólfssonar, Narfasonar, frá Hverakoti í Grímsnesi í Árnessýslu, og Sigríðar Þorkelsdóttur, Guðmundssonar frá Öndverðarnesi í Grímsnesi í Árnessýslu. Þau Halldór og Sigríður bjuggu lengi að Saltcoats og höfðu þar verzlun. Þar lézt Halldór fyrir nokkrum árum, og hefir Sigríður síðan búið í Winnipeg ásamt börnum sínum. Ingi gekk í herinn 2. marz 1916 og sigldi áleiðis til herstöðvanna í október sama ár. Hann tók þátt í orustum við Avion—Hill 70—Passchendale—Amiens—Damery—Arras—Cambrai—Valenciennes og Mons. Særðist ekki, en varð fyrir eiturgasi Þjóðverja. Hann kom heim aftur til Canada 30. marz 1919, þá vinnufær, og stundar nú sína fyrri atvinnu í Winnipeg, sem sé bókhald.



## MATTHÍAS ALBERT EYJÓLFSSON.

Fæddur 12. marz 1895 að Saltcoats, Sask. Foreldrar Halldór Eyjólfsson (dáinn 1901), ættaður frá Hverakoti í Grímsnesi í Árnessýslu, og Sigríður Þorkelsdóttir, Guðmundssonar frá Öndverðarnesi í Grímsnesi í Árnessýslu, nú búandi í Winnipeg. Matthías gekk sem undirforingi í herinn 20. febrúar 1916. Hann var settur við hergæzlu í Regina, Sask., og fór því aldrei frá Canada. Hann veiktist í nóvember árið 1918 og var undir læknishendi í 9 mánuði; hefir verið heilsutæpur síðan. Áður en hann gekk í herinn, var hann verzlunarþjónn í Winnipeg.

## SIGURJÓN EYJÓLFSSON.

Fæddur á Íslandi árið 1895, en til heimilis að Langreuth í Manitoba. Hann gekk í 223. herdeildina 1916. Stjúpfaðir hans er Jóhannes bóndi Johnson, fæddur á Færeyjum, býr í Big Point bygð, en móðir Kristín Sölvadóttir kona hans, er andaðist þar í bygð 6. september 1905. Upplýsingar um hann hafa ekki aðrar fengist en þessar.



## RAGNAR EYJÓLFUR EYJÓLFSSON.

Fæddur 9. apríl 1891 að Akra, Norður Dakota, U. S. A. Sonur Þorsteins Eyjólfssonar frá Breiðavaði í Eiðaþinghá og Kristjönu Jónsdóttur úr Hvammssveit. Faðir Ragnars er dáinn, en móðir hans býr að Lundar, Manitoba, og hjá henni var Ragnar áður en hann gekk í 223. herdeildina þann 16. maí 1916, sem hornleikari. Skömmu eftir að hann gekk í herinn veiktist hann af berklasýki, og var því leystur frá herþjónustu 23. ágúst 1916. Er nú við góða heilsu.



## PÉTUR EYVINDSSON.

Fæddur 5. júlí 1894 að Sandy Bay, Man. Foreldrar hans eru Þiðrik Eyvindsson, ættaður frá Útey í Laugardal í Árnessýslu og Guðrún Pétursdóttir frá Árhrauni í Árnessýslu, nú búandi að Westbourne, Man. Pétur innritaðist í 223. herdeildina 14. marz 1916 og sigldi til herstöðvanna í apríl 1917. Hann tók þátt í Passhendale-orustunni miklu, og fleiri orustum á öðrum svæðum. Kom aftur til Canada 30. maí 1919, og vinnur nú hjá foreldrum sínum.

## FILIPPUS FILIPPUSSON.

Fæddur 21. febrúar 1893 á Gufunesi í Mosfellssveit í Kjósarsýslu. Faðir hans er Filippus, sonur Filippusar Þorsteinssonar og Guðríðar Árnadóttur á Bjólu í Holtum á Rangárvöllum, en móðir Guðrún Guðmundsdóttir ríka frá Keldum í Rangárþingi. Hann kom frá Íslandi til Winnipeg 11. marz 1911, og stundaði smíðar, þangað til hann gekk í 223. hersveitina 1. marz 1916. Var um tíma við heræfingar, en því næst skipaður í herlöggæzluliðið 11. júní 1917, og var í því fram að jólum; fór þá austur til Toronto á fluglistarskóla, og var þar fram til stríðsloka. Kom til Winnipeg aftur í ágúst 1919; fór svo vestur til California og suður til Mexico og þaðan til Íslands. Kom að heiman aftur 8. júní 1922, og er nú sem stendur til heimilis í Winnipeg.

## JOHN FINNBOGASON.

Gekk í 223. herdeildina 1916. Jón er til heimilis í Langreuthbæ í Manitoba. Hann er sonur Sigurðar Finnbogasonar, ættaður af austurlandi. Frekari upplýsingar ekki fengist.



## ÞÓRARINN FINNBOGASON.

Fæddur að Brú í Argylesveit í Manitoba 22. ágúst 1896. Sonur Sigurðar Finnbogasonar úr Norður-Múlasýslu á Íslandi og Þóru Finnbogason, ættaðri úr Þingeyjarsýslu. Þórarinn innritaðist í 223. herdeild Canadahersins 14. apríl 1916 og fór með þeirri deild til Englands 23. apríl 1917. Þar var þeirri deild skift upp, og fór Þórarinn brátt til vígstöðvanna og tók þátt í orustunum við Lens og Passchendale það sama ár, og í orustum við Amiens og Arras 1918, og í orustunni við Arras, 26. ágúst, særðist hann, misti annan fótinn fyrir ofan hné. Þórarinn kom heim úr stríðinu 7. desember 1918, þá, eins og gefur að skilja, ófær til vinnu.



## FINNUR FINNSSON.

Albróðir Gustav A. Finnsson. Fæddur í Selkirkbæ 5. desember 1894. Gekk í herinn 7. marz 1916, og var í honum þar til 25. júní 1919. Hann tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens, Arras, Cambrai og Valenciennes á Frakklandi. Starf hans var meðal annars að gefa flokki sínum fregnir og leiðbeiningar, og er sá, sem það gerir, kallaður "Signaller". Finnur vann við rafmagnsleiðslu í Selkirk áður en hann gekk í herinn.



## KRISTJÁN FINNSSON.

Fæddur í Riverton, Man., 22. maí 1894. Sonur Kristjóns Finnssonar, fyrrum kaupmanns í Riverton, og Þórunnar Eiríksdóttur (látin 1911). Hann innritaðist í 223. herdeildina 9. apríl 1916, og sigldi til Frakklands 23. apríl 1917. Tók þar þátt í orustum við Lens og Passchendale. Úr hernaðinum kom hann aftur til Canada að stríðinu loknu á jólum 1918. Hann stundaði búskap með föður sínum í Víðirbygð í Nýja Íslandi. Kristjón faðir hans er ættaður úr Keflavík undir Snæfellsjökli, en Þórunn móðir hans er fædd að Heiðarseli í Norður-Múlasýslu, og var dóttir Eiríks Sigurðssonar.

*ÁSGEIR FJELDSTED (sjá III).*



## JÓHANNES BJÖRN FREDERICKSON.

Fæddur í Argylebygð í Manitoba 21. október 1889. Foreldrar Tryggvi Friðriksson, Friðfinnssonar úr Eyjafjarðarsýslu, og Sigríður Þorleifsdóttir, Ólafssonar prests að Höfða í Höfðahverfi í Þingeyjarsýslu. Jóhannes gekk í herinn 26. apríl 1916, og fór með 183. herdeildinni til Englands. Þar var hann skipaður til þjónustu á sjúkrastofum særðra hermanna, og vann þar til aprílmánaðar 1918. Hann býr með fjölskyldu sinni í Winnipeg, og er í þjónustu póststjórnarinnar. Kona hans er Helga Sigríður Dalman, dóttir Kristjáns Jónssonar Dalman frá Hömrum í Dalasýslu og Kristínar Sigurðardóttur frá Hömrum í sömu sýslu.



## PÉTUR FREDERICKSON.

Fæddur 8. apríl árið 1885 að Saurbæ í Kolbeinsdal í Skagafjarðarsýslu. Sonur Friðriks Friðrikssonar, Benjamínssonar í Grafargerði, og Guðlaugar Sesselíu Pétursdóttur frá Miklahóli í Skagafirði. Pétur bjó að Glenboro P. O., Man., og stundaði landbúnað áður en hann gekk í herinn 13. marz 1916. Sigldi frá Canada 12. september það ár. Hann tók þátt í orustum við Lens, Vimy Ridge og Passchendale, og særðist í þeirri síðustu, 30. okt. 1917. Hann kom aftur til Canada 13. október 1918, þá gróinn sára sinna, og stundar nú búskap, eins og áður en hann gekk í herinn.

## SIGURÐUR FRANKLIN FREDERICKSON.



Fæddur í Winnipeg 11. júlí 1895. Foreldrar: Jón Vídalín Friðriksson, Davíðssonar, frá Hverfi í Víðidal, og Guðlaug S. Sigurðardóttir, Guðlaugssonar, frá Stapaseli í Stafholtstungum. Sigurður gekk í herinn í febrúar 1916. Sigldi til Englands í apríl 1917. Var þaðan sendur til Egyptalands til að læra þar fluglist. Var eftir það settur flugkennari á Skotlandi, og meiddist nokkuð við það starf. Kom aftur til Canada í maí 1919, þá vinnufær. Þessi maður er alþektur íþróttamaður og æfinlega nefndur Frank Frederickson, og var einn af foringjum Fálkanna er sigur unnu við olympiska íþróttamótið í Antwerp 1920.

## VALTÝR FREDERICKSON.



Fæddur 3. maí 1892 í Duluth, Minnesota, U. S. A. Sonur Friðriks Friðrikssonar frá Grafargerði og Guðlaugar S. Pétursdóttur frá Miklahóli í Skagafirði. Valtýr stundaði landbúnað á eigin reikning í grend við Cypess River, Man., áður en hann gekk í 223. herd. 11. apríl 1916. Reyndist of heilsuveill til að vera sendur út úr Canada, og var leystur úr herþjónustu haustið 1917. Hann er vélfræðingur og stundar nú þá atvinnu.

*PÁLL BERGVIN FRIÐVINSSON* *(sjá III).*

## ALBERT LAWRENCE FREEMAN.



Fæddur í Winnipeg 24. janúar 1898. Foreldrar: Andrés Þorleifur Frímann frá Snæringsstöðum í Vatnsdal í Húnavatnssýslu og Oddný Pálsdóttir, Jónssonar frá Tungu í Fáskrúðsfirði. Albert gekk í 223. herd. 7. marz 1916. Hann varð fyrir slysi eftir að hann kom til Englands, en fór þó á vígvöll og tók þátt í orustunni við Woods Run á Frakklandi. Kom aftur til Canada 11. febrúar 1919. Vinnur á skrifstofu í Winnipeg.



## HERBERT ANDREW FREEMAN.

Fæddur í Winnipeg 10. apríl 1896. Foreldrar hans Andrés Þorleifur Frímann frá Snæringsstöðum í Vatnsdal í Húnavatnssýslu og Oddný Pálsdóttir, Jónssonar frá Tungu í Fáskrúðsfirði. Herbert gekk í 223. herd. 17. marz 1916. Tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens og Arras á Frakklandi. Særðist ekki. Kom aftur til Canada í maí 1919. Gegnir nú bankastörfum í Winnipeg.



## ÓLAFUR GUNNAR FREEMAN.

Fæddur 17. október 1896 í Winnipeg. Sonur Ólafs Freeman Ólafssonar frá Brekku í Víðimýrarsókn í Skagafirði og Guðrúnar Magnúsdóttur frá Lykkju á Kjalarnesi í Kjósarsýslu. Þau hjón bjuggu um 11 ár að Presthúsum á Akranesi áður en þau fluttu vestur um haf til Winnipeg 1887, þar sem heimili þeirra hefir verið síðan. Ólafur ólst upp hjá foreldrum sínum að 711 Pacific Ave. í Winnipeg, og þar var hann til heimilis, er hann innritaðist í 184. deild Canadahersins 17. marz 1916, og fór með henni austur um haf 12. október sama ár, en var þar skipaður í 78. herdeildina og fór með henni til Frakklands 23. des. Hann tók þátt í orustunni við Vimy Ridge 9. apríl 1917 og særðist þar, var skotinn í brjóstið. Sem betur fór var skot það ekki banvænt, því Ólafur náði sér aftur og kom heim til foreldra sinna 2. október 1917. Hann hefir lagt stund á verzlunarfræði síðan að hann kom heim, og er til heimilis hjá foreldrum sínum.

*ALFRED J. GILLIES (sjá III).*



## CARL EYJÓLFUR GILLIS.

Fæddur í Selkirkbæ, Man., 10. maí 1895. Sonur Einars Gíslasonar frá Hergilsey á Breiðafirði og Þórhildar Hafliðadóttur frá Svefneyjum á Breiðafirði, nú búandi að Gimli, Manitoba. Carl gekk í 223. herdeildina 28. marz 1916 og sigldi með henni til Englands 23. apríl 1917. Hann særðist af sprengikúlu frá þýzkum loftbát meðan hann var í Shorncliffe á Englandi, 25. maí 1917, og var þá á sjúkrahúsum um 14 mánaða tíma. Kom aftur til Canada 13. júlí 1918, þá ekki gróinn sára sinna. Úr herþjónustu var hann leystur 26. október 1918. Carl er kvongaður, og heitir kona hans Bessie Leota. Áður en hann gekk í herinn var hann í þjónustu C. P. R. félagsins, en síðan hann kom heim aftur, hefir hann lagt stund á símritun.



## ERLENDUR G. GILLIES.

Fæddur á Íslandi. Sonur Gísla Ólafssonar og Elízabetar Pálmadóttur, sem bjuggu að Eyvindarstöðum í Blöndudal í Húnavatnssýslu. Erlendur gekk í herinn 16. marz 1916, og starfaði í honum til 27. apríl 1919, en fór aldrei frá Canada. Hann er kvæntur Kristíönu Elízabetu Andreu. Þau hjón búa í Vancouverborg, B. C.

*BJORN GÍSLASON (sjá III).*



## HANS THEODORE AUGUST ODDSSON GÍSLASON.

Fædur 17. marz 1889 að Stað í Grindavík í Gullbringusýslu. Foreldrar: Síra Oddur V. Gíslason úr Reykjavík og Anna Vilhjálmsdóttir frá Kirkjuvogi í Gullbringusýslu. Hans gekk í 223. herdeildina 3. marz 1916. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi og var tekinn til fanga af Þjóðverjum þrem mánuðum áður en vopnahlé var samið. Hann særðist einu sinni, og var ekki vinnufær, þegar hann kom aftur til Canada, 21. maí 1919.

*SIGURÐUR PÁLMASON GÍSLASON (sjá III).*



## NÍELS GÍSLASON.

Fæddur á Íslandi 15. nóvember 1876. Foreldrar: Gísli Gíslason og Guðríður Níelsdóttir, frá Hólshjáleigu í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu. Níels gekk í 223. herd. 26. maí 1916. Sigldi til Englands 30. september 1917. Tók þátt í orustum við Amiens frá ágúst til nóvember 1918. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 9. júlí 1919. Níels er steinsmiður og býr í Winnipeg.



## VALDIMAR GÍSLI GÍSLASON.

Fæddur 15. janúar 1892 í Pembina, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Valdimar Gíslason, Þorsteinssonar, frá Hallgilsstöðum á Langanesi í Þingeyjarsýslu, og Guðríður Teitsdóttir Teitssonar frá Ánastöðum á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu, nú búandi að Wynyard. Valdimar gekk í 223. herd. 28. marz 1916, og tók þátt í mörgum orustum á Frakklandi, þar með töldum Passchendale, Cambrai, Arras, Amiens og Mons. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 21. maí 1919. Kvæntist eftir heimkomuna ungfrú Sigríði B. Björnsson, og býr nú að Gerald, Sask.



## ÁRNI (ANDREW) GOODMAN.

Fæddur á Íslandi 19. september 1880. Foreldar: Sigfús B. Guðmundsson Goodman frá Katadal á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu og Guðrún Árnadóttir frá Sigríðarstöðum í Vesturhópi í Húnavatnssýslu, nú búandi að Victoria, B. C. Andrew gekk í 102. herd. 9. febrúar 1916. Sigldi frá Canada í júlí það ár. Hann tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge, Særðist í báðum orustunum. Hann kom aftur til Canada í marzmánuði 1919, þá vinnufær. Stundaði algenga daglaunavinnu áður en hann gekk í herinn.



## Sergeant CARL WILLIAM GOODMAN.

Fæddur 12. september 1895. Foreldrar: Þorlákur Einarsson Goodman frá Fagradal á Hólsfjöllum og Friðrika Jónsdóttir frá Breiðsstöðum í Skagafirði. Carl gekk í 223. herdeildina í marzmánuði 1916. Hann tók þátt í Passchendale-orustunni og fleiri orustum á Frakklandi. Veiktist af vosbúð í skotgröfunum, og lá meira en árlangt á spítala á Englandi. Kom aftur til Canada 27. sept. 1919. Hann giftist á Englandi þarlendri konu. Hann stundar verzlunarstörf.

## GORDON GOODMAN.

Fæddur að Muskoka í Ontario 1897. Faðir hans er Ágúst Guðmundsson (Goodman), ættaður af Akureyri við Eyjafjörð, en móðir hans er af canadiskum ættum. Þau búa við Cardwell í Ontario. Gordon gekk í canadiska herinn með bræðrum sínum tveim sumarið 1916. Hann fór frá Canada í ágúst 1917. Var sendur til Frakklands og var þar í skotgröfum, og seinna til Belgíu. Hann kom heim aftur í apríl 1919, heill heilsu. Dvelur nú með foreldrum sínum.



## GUÐJÓN AÐALJÓNSSON GOODMAN.

Fæddur í Graftonbygð, Norður Dakota, U. S. A., 27. desember 1886. Foreldrar hans: Aðaljón Guðmundsson Jónssonar frá Sköruvík á Langanesi í Þingeyjarsýslu, og Ólöf Sigurveig Jónsdóttir,Sigurðssonar, af Langanesi. Guðjón gekk í herinn 18. marz 1916. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi þar til í ágúst 1918, að hann særðist hættulega á höfði í orustu við Amiens. Var þá fluttur á sjúkrahús á Englandi og dvaldi þar til ársloka. Kom aftur til Canada 16. janúar 1919. Guðjón er kvæntur Þorbjörgu Oddsson frá Árborg, Man. Hann stundar fiskiveiðar og hefir heimili í Winnipegosisbæ í Manitoba.



## GUÐMUNDUR R. GOODMAN.

Fæddur í Neskoti í Ólafsfirði í Eyjafjarðarsýslu 14. febrúar 1893. Foreldrar hans eru Guðmundur Guðmundsson frá Lóni í Ólafsfirði og María Kristjánsdóttir frá Kálfagerði í Eyjafjarðarsýslu. Guðmundur lézt á Íslandi, en María býr í grend við Kandahar, Sask. Guðmundur gekk í 108. herdeildina 14. febrúar 1916 og sigldi til Evrópu 12. september sama ár. Hann tók þátt í orustu við Vimy Ridge, og særðist þar 4. júní 1917. Kom aftur til Canada 28. marz 1918, þá vinnufær og stundar nú landbúnaðarstörf.

## HERBERT GOODMAN.

Fæddur 1892 í Muskoka, Ontario. Faðir hans er Ágúst Guðmundsson (Goodman), ættaður af Akureyri við Eyjafjörð, en móðirin af canadiskum ættum. Þau búa í grend við Cardwell, Ontario. Herbert gekk í herinn ásamt tveim bræðrum sínum sumarið 1916. Hann fór frá Canada í marz 1917 og var settur við viðartekju og sögunarmylnu á Englandi í þágu hersins. Við það vann hann, þangað til ófriðnum lauk. Hann kom heim aftur í júlí 1919 og var leystur frá herþjónustu skömmu síðar.



## KRISTJÁN GUÐJÓNSSON GOODMAN.

Fæddur á Akureyri á Íslandi 14. febrúar 1887. Sonur Guðjóns Guðjónssonar og Guðrúnar Kristjánsdóttur. Kristján gekk í 184. herd. 28. febr. 1916, og tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70, Passchendale og víðar. Veiktist einu sinni af eiturlofti. Kom aftur til Canada í maílok 1919, þá vinnufær. Hann er kvongaður Sigurbjörgu Jóhannesdóttur Hannessonar frá Grund í Blönduhlíð, og stundar smíðar. Heimili þeirra hjóna er í Winnipeg.



## S. GOODMAN.

Fæddur í Winnipeg 30. september 1896. Foreldrar: Guðmundur Guðmundsson úr Kjólsvík í Borgarfirði austur og Sigríður Erlendsdóttir frá Tungubakka í Laxárdal í Húnavatnssýslu. S. Goodman gekk í herinn 10. júní 1916, en fór aldrei frá Canada. Áður en hann gekk í herinn var hann bankaritari. Er nú ritari á skrifstofum Winnipegborgar, og kvæntur ungfrú Robina Pearl.

*THOMAS GOODMAN (sjá III).*

*THORSTEINN KRISTINN GOODMAN (sjá III).*



## WILBERT KÁRI AÐALJÓNSSON GOODMAN.

Fæddur í Graftonbygð í Norður Dakota 8. desember 1894. Sonur Aðaljóns Guðmundssonar, Jónssonar frá Sköruvík á Langanesi, og Ólafar Sigurveigar Jónsdóttur af Langanesi. Wilbert gekk í 223. herd. 13. apríl 1916. Særðist í orustu þann 5. nóvember 1917, og var um tíma á sjúkrahúsi á Englandi. Aftur særðist hann í orustu þann 1. október 1918; og eftir aðra sjúkrahússvist á Englandi kom hann aftur til Canada 1. apríl 1919. Wilbert hefir aðsetur hjá móður sinni í Winnipegosis og stundar fiskiveiðar.



## CHRISTIAN RAGNAR GOODMANSON.

Fæddur í Carberry, Manitoba, 9. apríl 1899. Foreldrar: Ólafur Guðmundsson, Ólafssonar og Kristjönu Jónsdóttur af Hvalfjarðarströnd í Borgarfjarðarsýslu, og Margrét Kristjánsdóttir, Jónssonar og Rannveigar Eiríksdóttur frá Vegamótum í Reykjavík. Christian gekk í 214. herdeildina í marz 1916. Fór til Englands 9. apríl 1917. Hann tók þátt í Cambrai-orustunni miklu og særðist þar. Kom aftur til Canada 7. apríl 1919. Er kvæntur ungfrú Lily Stott og stundar landbúnað.



## VALDIMAR GOODMANSON.

Fæddur í Brandon, Manitoba, 5. ágúst 1890. Foreldrar: Þorsteinn Guðmundsson frá Njarðvíkum í Gullbringusýslu og Hólmfríður Guðmundsdóttir frá Kirkjuhvammi á Vatnsnesi. Valdimar gekk í canadiska riddaraliðið þann 1. febr. 1916. Tók þátt í orustum við Somme, Cambrai, Amiens og Arras. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 13. júlí 1919. Hann er gufukatlasmiður og býr í Winnipeg. Kvongaður Minnie Hunt.



## JÓN HALLGRÍMSSON GOODMUNDSSON.

Fæddur að Gimli, Manitoba, 22. nóvember 1878. Sonur Hallgríms Guðmundssonar frá Stakkahlíð í Loðmundarfirði og Guðrúnar Margrétar frá Hákonarstöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu. Jón gekk í 223. herdeildina þann 29. apríl 1916, sem einn af brautryðjendum ("Sappers") hennar. Hann stundaði búskap og verzlun að Elfros, Sask., áður en hann gekk í herinn. Eftir að hann kom til baka gekk hann að eiga ungfrú Þrúði Guðvaldadóttur Jackson.



## GUNNAR GRÍMSSON.

Fæddur 16. desember 1896 að Garðar, N. D. Sonur þeirra Steinólfs Grímssonar frá Grímsstöðum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu og Kristínar Þorleifsdóttur, Gunnarssonar, frá Kjalvararstöðum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu. Gunnar innritaðist í 223. herdeildina 5. apríl 1916, og fór með henni frá Canada 23. apríl 1917. Tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens, Arras og Cambrai. Kom aftur 24. júní 1919. Stundar akuryrkju.



## JÓN HELGI GRÍMSSON.

Fæddur 1. febrúar 1891 að Garðar, N. D. Foreldrar hans eru Daníel Grímsson, Steinólfssonar bónda á Grímsstöðum í Reykholtsdal og Guðrúnar Þórðardóttur, Jónssonar prests á Lundi í Lundareykjadal; og Sigríður Þorleifsdóttir, Jónssonar frá Auðnum á Vatnsleysuströnd og Ingibjargar Halldórsdóttur, Þorsteinssonar prests á Lundi. Fluttu til Ameríku með foreldrum sínum sumarið 1885, og settust að í Garðarbygð, en fluttu til Vatnabygða 1906 og tóku land nálægt Elfros. Jón innritaðist í 223. herdeildina 21. maí 1916. Tók þátt í orustum við Amiens, Arras og Cambrai. Kom heim aftur 7. maí 1919. Hann stundar jarðyrkju.

## VILBERG GRÍMSSON.



Fæddur 11. júní 1897 að Garðar, N. D. Sonur Daníels Grímssonar, Steinólfssonar bónda á Grímsstöðum í Reykholtsdal og Guðrúnar Þórðardóttur, Jónssonar, prests á Lundi í Lundareykjadal. Móðir Vilbergs er Sigríður Þorleifsdóttir, Jónssonar frá Auðnum á Vatnsleysuströnd, og Ingibjargar Halldórsdóttur, Þorsteinssonar prests á Lundi. Fluttu til Ameríku sumarið 1885 og settust að í Garðarbygð, en til Vatnabygða fluttu þau 1906 og settust að nálægt Elfros. Vilberg innritaðist í 223. herdeildina 21. maí 1916. Tók þátt í orustum við Amiens, Arras og Cambrai. Særðist einu sinni. Kom heim aftur 7. maí 1919. Stundar jarðyrkju.

## EINAR GUÐMUNDSSON.



Fæddur 6 maí 1872 að Tjörn í Svarfaðardal. Faðir hans var Guðmundur (d. 1910), sonur Guðmundar Sveinssonar frá Hallbjarnarstöðum á Tjörnesi og Önnu Finnbogadóttur frá Stóru-Reykjum í Reykjahverfi; en móðir Einars er Guðrún Einarsdóttir, Jóhannessonar, Jónssonar og Margrétar Jónsdóttur frá Skjöldólfsstöðum á Jökuldal. Einar innritaðist í 108. herdeildina 8. febrúar 1916 og fór frá Canada 12. september sama ár. Veiktist á Englandi og fór undir uppskurð, og var færður yfir í C. M. A. C. á Englandi. Kom til baka 23. des. 1917. Hann er kvæntur Kristínu Guðlaugsdóttur Ólafssonar. Heimilisfang hans var í Kandahar, Sask., þegar hann innritaðist.

## Sergeant GUÐMUNDUR F. GUÐMUNDSSON, D.C.M.



Fæddur að Syðra-Lóni á Langanesi árið 1891. Sonur Friðriks Guðmundssonar frá Víðirhóli á Hólsfjöllum og Þorgerðar Jónsdóttur frá Eiði á Langanesi. Guðmundur innritaðist í 203. deild Canadahersins 14. júní 1916, og fór austur um haf 19. nóv. sama ár. Hann var á vígvöllum nálega þrjú ár og tók þátt í þessum orustum. Við Lens, Passchendale, Amiens,Canal du Nord og Cambrai. Skömmu eftir að Guðmundur kom til vígstöðvanna, var hann skipaður "Corporal", og síðar "Sergeant", og gat sér góðan orðstýr fyrir stjórnsemi og karlmensku. Hann var sæmdur "Distinguished Canadian Medal" og auk þess $100 í peningum fyrir röska framgöngu og fyrir að bjarga særðum félaga sínum úr skotmáli. Guðmundur kom heim til Canada úr herþjónustu 14. apríl 1919. Hafði særst einu sinni, en náði sér aftur svo, að hann var vinnufær. Hann stundar nú landbúnað nálægt Mozart í Saskatchewanfylki.



## STEFÁN VIKTOR GUÐMUNDSSON.

Fæddur 25. marz 1899 að Markerville, Alberta. Foreldrar: Þórarinn Guðmundsson frá Tungu í Skagafirði og Hallfríður Magnúsdóttir frá Sævarlandi í Laxárdal í Skagafjarðarsýslu. Stefán gekk í herinn 3. maí 1916. Tók þátt í orustum við Lens. Sýktist af eiturlofti í ágústmánuði 1917, og var á sjúkrahúsum á Englandi. Kom aftur til Canada 28. maí 1918, þá vinnufær. Stundar landbúnaðarvinnu. Stefán var háskólastúdent áður en hann gekk í herinn.

## ÞORSTEINN GUÐMUNDSSON.

Fæddur í Njarðvíkum í Gullbringusýslu. Foreldrar: Guðmundur Klemensson og Þórunn Stígsdóttir, í Njarðvíkum. Þorsteinn gekk í 108. herd. í jan. 1916 sem óbreyttur liðsmaður og vann í járnbrautadeild hersins. Hann kom aftur til Canada 5. nóv. 1917. Stundar nú algenga vinnu í Winnipeg. Hann er kvongaður Hólmfríði Guðmundsdóttur frá Kirkjuhvammi á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu.



## JACOB GUÐNASON.

Fæddur að Baldur, Manitoba, 27. maí 1892. Foreldrar hans eru Þorlákur Guðnason frá Kaldbak í Þingeyjarsýslu og Inga Hrólfsdóttir frá Draflastöðum í Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu, nú búandi að Argylebygð, Man. Jacob gekk í 223. herd. 11. febrúar 1916. Sigldi til Englands í nóvember sama ár. Kom til Frakklands 2. febrúar 1917. Tók þátt í orustu við Vimy Ridge, og særðist þar 12. apríl 1917. Fór aftur á vígvöll í marzmánuði 1918, en veiktist þá skömmu síðar, og hefir tæpast náð sér að fullu, þegar þetta er ritað. Hann kom til Canada aftur 30. desember 1918. Stundar nú landbúnað í Argylebygð.

HANNES GUNNLAUGSSON.

Fæddur í Árnessýslu á Íslandi 2. janúar 1868. Foreldrar: Gunnlaugur Hannesson og Hildur Jónsdóttir. Hannes gekk í 197. herd. 3. marz 1916. Af skýrslu hermanns þessa verður ekkert séð annað en að hann var færður úr 197. herdeildinni yfir í aðra deild þann 13. apríl 1917.



OLGEIR GUNNLAUGSSON.

Fæddur 4. desember 1891 að Hensel, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Ófeigur Gunnlaugsson frá Klausturseli á Jökuldal og Súlimía Jóhanna Stefánsdóttir frá Miðvöllum í Skagafirði (nú löngu látin). Olgeir gekk í 223. herdeildina 17. maí 1916. Tók þátt í orustum við Amiens, Arras og Cambrai á Frakklandi. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 19. júní 1919. Stundar búskap í grend við Wynyard, Sask. Olgeir er kvæntur Christinu Josephson frá Winnipeg.



ÁSGEIR HALLDÓRSSON.

Fæddur 7. desember 1887 í Hamilton, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Kristján Halldórsson frá Nýpi á Skarðsströnd í Dalasýslu og Sigurbjörg Ásgeirsdóttir frá Heydalsá í Strandasýslu, nú búandi að Padding Lake, Sask. Ásgeir gekk í 197. herd. 6. apríl 1916. Var við timburtekju. Kom aftur til Canada 25. maí 1918. Stundar bændavinnu.

## BJÖRN B. HALLDÓRSSON.

Fæddur á Úlfsstöðum í Loðmundarfirði 18. júlí 1871. Foreldrar: Björn Halldórsson frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði og Hólmfríður Einarsdóttir Scheving. Björn gekk í Canadaherinn 15. júní 1916 og stundaði herþjónustustörf um nokkurn tíma. Var ekki sendur úr landi. Leystur frá herþjónustu í ársbyrjun 1917. Hann er kvæntur Lilju Sveinsdóttur Sölvasonar læknis á Skarði á Reykjaströnd og konu hans Moníku Magnúsdóttur frá Kýrholti í Skagafirði. Björn stundar nú verzlun í Winnipeg.

*FRIÐRIK ROSBJÖRN HALLDÓRSSON (sjá III).*



## HALLDÓR HALLDÓRSSON.

Fæddur á Ísafirði á Íslandi árið 1876. Foreldrar: Halldór Halldórsson frá Seli í Bolungarvík og Kristín Pálsdóttir (bæði dáin) frá Ísafirði. Þau hjón námu land árið 1887, þar sem nú er Lundarbær í Manitoba. Hann gekk í 223. herd. í febrúarmánuði árið 1916, og vann við hergagnakeyrslu á hersvæði Frakka, þar til hann kom aftur til Canada, í marzmánuði 1918. Hann er kvæntur Sólveigu Sigurðardóttur Bárðarssonar, og stundar landbúnað að Lundar, Man.



## KRISTJÁN HALLDÓRSSON.

Fæddur að Lundar, Manitoba, 27. febrúar 1891. Foreldrar: Halldór Halldórsson frá Seli í Bolungarvík og Kristín Pálsdóttir (bæði dáin) frá Ísafirði. Þau hjón bjuggu lengi að Lundar, Man. Kristján gekk í herinn 16. febrúar 1916, og tók þátt í orustum við Hill 70, Passchendale, Amiens og Cambrai. Í Passchendale-orustunni varð hann fyrir eiturlofti árið 1917. Áður en hann gekk í herinn vann hann að fjárheimtu fyrir International akuryrkjuverkfærasölu félagið. Hann er kvæntur Guðlaugu Eyjólfsson, og stundar bókhald síðan hann kom heim úr hernaðinum, 8 maí 1919.



## LÁRUS HALLDÓRSSON.

Fæddur að Síðumúla í Hvítársíðu í Mýrasýslu 25. ágúst 1894. Sonur Árna Halldórssonar, Jónssonar frá Akri í Staðarsveit í Snæfellsnessýslu, og Sigríðar Sigurðardóttur frá Borg á Mýrum, nú búandi í Glenborobæ, Man. Lárus gekk í 226. herd. 16. febrúar 1916. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Passchendale, Avion, Lens og Hill 70. Í Passchendale-orustunni særðist hann 26. október 1917, af skoti í fótlegginn. Hann kom aftur til Canada 21. febrúar 1918, en er ennþá ekki gróinn sára sinna, svo að hann sé vinnufær. Kona Lárusar heitir Jóhanna og búa þau hjón í Winnipeg.



## HELGI HALLSSON.

Fæddur í aprílmánuði 1873 að Krossi í Þingeyjarsýslu. Foreldrar hans: Vigfús Hallsson frá Skógum á Þelamörk og Elín Guðlaugsdóttir frá Steinkirkju í Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu. Gekk í 197. herd. 24. febrúar 1916 og skipaði Corporalstöðu. Hann fór frá Canada 24. apríl 1917, og á vígvöli Frakka í júlí það ár. Þar vann hann sem vélstjóri til 27. desember 1918, og kom aftur til Canada í aprílmánuði 1919, þá vinnufær. Hann var hveitikaupmaður áður en hann gekk í herinn að Mountain í Norður Dakota.



## GUÐMUNDUR HANNESSON.

Fæddur 22. júní 1897 að Hlemmiskeiði í Árnessýslu. Sonur Hannesar Hannessonar frá Hlemmiskeiði og Sesselíu Eyjólfsdóttur. Guðmundur innritaðist í 223. herdeildina 25. júní 1916. Fór frá Canada 17. apríl 1917. Tók þátt í orustum. Særðist einu sinni. Kom heim aftur í desember 1918, og var þá ekki vinnufær.



Lance Corporal HANNES HANNESSON.

Fæddur í Winnipeg 16. ágúst 1893. Foreldrar: Kristján Hannesson, Magnússonar, og Kristínar Sigurðardóttur, sem bjuggu að Yztu-Görðum í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu, og Sigríður, dóttir Ólafs Tómassonar og Elínar Sæmundardóttur, sem bjuggu í Grísatungu í Stafholtstungum í Mýrasýslu. Hann gekk í 223. herd. 1. apríl 1916. Á Frakklandi vann hann að víggirðingabyggingum og öðrum nauðsynjastörfum á hersvæði Breta þar. Særðist af sprengikúlubrotum á hálsi og handlegg þann 5. apríl 1918, og lá í þeim sárum þar til skömmu áður en stríðinu lauk. Kom aftur til Canada 28. desember 1918. Hann vann að verzlun áður en hann fór í herinn, en hefir, síðan hann kom til baka, stundað landbúnað í Manitoba ásamt bróður sínum.



Lt. Col. HANNES MARINO HANNESSON (lögfræðingur).

Fæddur 27. nóv. 1884 í Öxnadal í Eyjafjarðarsýslu. Foreldrar, Hannes Hannesson og Pálína Þ.A. Jóhannesdóttir. Marino var einn þeirra, er gengust fyrir að mynda 223. herdeildina og var skipaður Lieutenant í henni 10. marz 1916. Í janúar 1915 hafði hann gengist fyrir að mynda liðsforingja skóla fyrir námsmenn við háskólann. Í maímánuði 1916 varð hann kapteinn og í marz 1917 Major, og 28. s. m. var hann skipaður Lieut. Colonel og fengin full umráð yfir 223. deildinni. Með deildina fór hann frá Winnipeg 23. apríl 1917, lenti í Englandi 14. maí, en 14. júní fór hann til Frakklands með 78. canadisku herdeildinni og hafði þar ýms embætti á hendi til 18. október 1918. Lausn frá herþjónustu fékk hann í Winnipeg 6. desember 1918. Hann er kvæntur Kristínu, dóttur Arngríms Jónssonar.



BJÖRN HANSSON, M. M.

Fæddur 11. marz 1894 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Var bóndi að Wynyard. Sask., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Hans Sigurbjörnsson Hansson frá Jarlsstöðum í Bárðardal í Þingeyjarsýslu og Herdís Björnsdóttir Josephsonar frá Þorpum í Tungusveit í Strandasýslu. Hans er til heimilis í Wynyard, en Herdís dáin. Björn gekk í 223. herdeildina 1916 og fór með henni til Englands. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi við Amiens, Arras, Cambrai og víðar. Særðist ekki. Var sæmdur "Military Medal" fyrir björgun særðra hermanna af vígvelli. Hann kom aftur til Canada sumarið 1919, og stundar nú búskap að Wynyard.



## JOSEPH H. HANSSON.

Fæddur 29. marz 1879 á Þursstöðum í Mýrasýslu. Sonur Hansar Josephssonar, Jónssonar Hjaltalíns prests að Breiðabólsstað á Skógaströnd, og Guðrúnar Magnúsdóttur. Hann gekk í 197. herd. 15. apríl 1916, en var ekki nógu hraustur til þess að teljast vígfær. Fór því aldrei frá Canada og var leystur frá herþjónustu í apríl 1917. Joseph stundaði aktýgjasmíði í Gimlibæ áður en hann gekk í herinn, og hefir nú aktýgjaverzlun í McCrearybæ í Manitoba. Joseph er kvæntur Torfhildi Hólm Benónísdóttur.



## Major SKÚLI HANSSON.

Fæddur í Húnavatnssýslu á Íslandi 14. marz 1880. Foreldrar: Hannes J. Hansson og Elinborg Ásbjarnardóttir. Skúli var fyrst skipaður Lieutenant í 90. Winnipeg Rifles hersveitinni í marzmánuði 1916, en innritaðist síðan í 223. herdeildina, og í maí það ár skipaður kapteinn yfir A.-flokki þeirrar deildar. Í marzmánuði 1917 var hann skipaður Major deildarinnar, og er sú staða næst aðal-yfirmanns, eða foringjastöðunni. Frá Winnipeg fór hann með deildinni 23. apríl 1917. Kom til Englands 14. maí, og til Frakklands 13. júlí 1917. Þar starfaði hann til stríðsloka í nóvember 1918 og var leystur frá herþjónustu 22. desember það ár. Skúli hefir um mörg ár stundað fasteignaverzlun í Winnipeg, og gerir það enn.



## THORSTEINN HANSSON.

Fæddur 23. október 1889 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Hafði heimili í Wynyard, Sask., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Hans Sigurbjörnsson Hansson frá Jarlsstöðum í Bárðardal í Þingeyjarsýslu og Herdís Björnsdóttir Josephsonar frá Þorpum í Tungusveit í Strandasýslu. Hans er til heimilis í Wynyard, en Herdís dáin. Thorsteinn gekk í 108. herdeildina, en fékk ekki að fara með henni á vígvöll vegna vanheilsu, og var því leystur frá herþjónustu. Hann stundar landbúnað að Wynyard.



## ÁRNI SOFFONÍAS JÓSEFSSON HELGASON.

Fæddur 1. júlí 1884 að Brú P. O., Man. Foreldrar: Jósef Helgason (dáinn), ættaður af Langanesi í Þingeyjarsýslu, og Guðrún Árnadóttir frá Sléttu í Þingeyjarsýslu, nú í Langreuth Man. Innritaðist í 184. herdeildina í Winnipeg 29. febrúar 1916. Fór frá Canada 9. apríl 1917. Tók þátt í orustum við Passchendale og Amiens. Særðist tvisvar. Kom aftur heim 20. Janúar 1919, og stofnaði verzlun í Langreuth. Hann dó af slysi sumarið 1922.



## BRYNJÓLFUR HELGASON.

Fæddur í Hvítanesi í Kjós 30. des. 1889. Sonur Helga Guðmundssonar og Guðfinnu Steinsdóttur frá Hvítanesi. Brynjólfur kom til Canada 1910. Gekk í 108. herd. 4. janúar 1916. Fór til Englands og var þar um tíma við heræfingar, en þótti ekki nógu hraustur til að sendast á vígvöll, og var því leystur frá herþjónustu. Hann er kvæntur Guðrúnu Ágústu Lárusdóttur frá Reykjavík, og stundar málaraiðn í Winnipeg.



## ÞORSTEINN HELGASON.

Fæddur að Hvassafelli í Mýrasýslu árið 1877. Foreldrar: Helgi Sigurðsson frá Kúskerpi á Skagaströnd í Húnavatnssýslu og Valgerður Brynjólfsdóttir frá Hreðavatni í Norðurárdal í Mýrasýslu. Þau hjón búa nú að Sandnesi í Mikley í Manitoba. Hann gekk í 223. herd. 3. maí 1916 og var við heræfingar þar til í september það ár. Var þá álitinn að vera ekki nægilega hraustur til að teljast vígfær, og var því leystur frá herþjónustu.



## SIGÞÓR MATTHÍAS HENRICKSON.

Fæddur að Baldur, Manitoba, 15. september 1892. Foreldrar: Tryggvi Sigurðsson, Hinrikssonar, og Jónína Ragnheiður Þórðardóttir (nú látin). Sigþór gekk í 223. herd. 17. marz 1916. Tók þátt í orustum við Passchendale, Lens, Amiens, Arras og Cambrai á Frakklandi. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 6. ágúst 1919. Hann er kvæntur Ethel Mary Gowans og býr í Winnipeg.



## Sergeant THORHALLUR HERMANN.

Fæddur í Húsavík á Íslandi 19. september 1884. Foreldrar Hermann Hjálmarsson frá Brekku í Mjóafirði og Magnea Pétursdóttur Guðjohnsen frá Reykjavík. Thorhallur gekk í 151. herd. með Sergeant-nafnbót 20. marz 1916. Var áður verkfræðingur fyrir Vegrevillebæ í Albertafylki. Þegar hann kom til Englands vann hann fyrst á verkfræðisskrifstofu, en var síðar skipaður kennari þar. Fór til Frakklands með verkfræðingadeild. Tók þátt í orustum við Amiens, Beaupaume, Valenciennes, Mons og víðar. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 17. júní 1919. Stundar verkfræði sem fyr.



## MAGNÚS G. S. HERMANNSSON.

Fæddur 23. febrúar 1888 að Bræðraborg í Víðinessbygð í Nýja Íslandi. Sonur Hermanns Hermannssonar og Guðrúnar Snjólaugar Jónsdóttur, Eiríkssonar, Winnipeg Beach, Man. Hann innritaðist í 223. herdeildina 7. marz 1916, og fór með henni til Englands 23. apríl 1917. Hann tók þátt í orustum við Lens, Hill 70 og Passchendale, og særðist á síðastnefndum stað, fékk brot af sprengikúlu í fótlegginn. Var á ýmsum sjúkrahúsum, þar til hann var sendur heim 7. maí 1918, og kom til Winnipeg 21. s. m.. Var sendur á Tuxedo-sjúkrahúsið í Winnipeg og fóturinn skorinn upp, og hepnaðist það vel. Hann stundaði trésmíði áður en hann innritaðist í herinn.



THOMAS HERMANNSSON.

Fæddur í Winnipeg árið 1887. Foreldrar: Sigurður Hermannsson, ættaður úr Mjóafirði, og Anna S. Tómasdóttir. Thomas gekk í 108. herdeildina sem undirforingi 12. september 1916. Hann var á Frakklandi frá því í desembermánuði 1916 til febrúarloka 1918. Kom til Canada vinnufær, og stundar nú landbúnað að Petersfield, Manitoba.



WILLIAM C. F. HERMANNSSON.

Fæddur 28. nóvember 1891 í West Selkirk, Manitoba. Sonur þeirra Hermanns Hermannssonar og Guðrúnar Snjólaugar Jónsdóttur, til heimilis að Winnipeg Beach, Man. Hann innritaðist í 239. herdeildina 3. ágúst 1916, og fór til Englands 15. desember sama ár. Hann varð fyrir meiðslum á Englandi af loftförum Þjóðverja. Eftir að til Frakklands kom, var hann gerður að Corporal, og var á Frakklandi þar til um nýár 1919. Hann kom heim 29. marz 1919. Hann er kvæntur og heitir kona hans Valgerður Margrét, dóttir Hrólfs Matthíassonar og Ingunnar konu hans. Þau áttu heima að Winnipeg Beach, þegar hann innritaðist, og stundaði hann verzlunarstörf.



OSCAR H. HILLMAN.

Fæddur í Winnipeg 18. júlí 1896. Foreldrar: Hjálmar Hjálmarsson frá Kóngsbakka í Helgafellssveit og Valgerður Sólborg Jónsdóttir frá Hjarðarfelli í Snæfellsnessýslu. Oscar var námsmaður, en hætti við námið til þess að ganga í herinn, þann 27. marz 1916. Fór frá Canada 18. janúar árið 1917. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70, Passchendale og Amiens, og fór með herdeild sinni til Þýzkalands. Særðist ekki og kom til Canada 6. maí 1919. Vinnur við vatnsleiðslur í Winnipeg.

## BJÖRN HJÁLMARSSON.

Fæddur að Brú í Argylebygð í Manitoba 1888. Sonur Jóns bónda Hjálmarssonar frá Hólum í Laxárdal í Suður-Þingeyjarsýslu og Önnu Kristjánsdóttur frá Sultum í Kelduhverfi í sömu sýslu. Björn ólst upp í Argylebygð með foreldrum sínum, þangað til þau fluttu vestur til íslenzku bygðarinnar við Kandahar, Sask. Hann er útskrifaður frá Manitobaháskólanum og er nú eftirlitsmaður alþýðuskóla í umdæmi því, er tekur yfir íslenzku bygðirnar þar, og búsettur í Wynyard. Hann er kvæntur og er kona hans Sigrún, dóttir Tryggva Friðrikssonar, Jóhannessonar, úr Þingeyjarsýslu, og Valgerðar Björnsdóttur, Jónssonar, frá Ási í Kelduhverfi. Þau eiga eina dóttur barna. Björn gekk í 223. hersveitina vorið 1916, var þá skólastjóri í Wynyard, sem liðssöfnunarmaður. Tæpu ári síðar, er honum var veitt umsjónarmannsembættið, var hann leystur frá herþjónustu.



## GUÐJÓN H. HJALTALÍN.

Fæddur 9. febrúar 1871 að Jörva í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu. Sonur Hans Josephssonar, Jónssonar Hjaltalíns prests að Breiðabólsstað á Skógaströnd, og Guðrúnar Magnúsdóttur frá Haukatungu í Kolbeinsstaðahreppi. Hann gekk sem undirforingi í 197. herdeildina (sem nefnd var "canadiska víkingadeildin") 3. marz 1916. En vegna þess hann þótti eigi nógu hraustur, fór hann ekki til Evrópu með deildinni og var leystur úr herþjónustu 14. febr. 1917. Guðjón er kvongaður Vigdísi Ragnheiði Jónsdóttur. Hann stundar skósmíði í Winnipeg.



## PÁLL JOHNSON HJALTDAL.

Fæddur á Seyðisfirði 5. febrúar 1900. Foreldrar: Sumarliði Jónsson Hjaltdal og Sigríður Lárusdóttir, sem bjuggu að Vestdalseyri við Seyðisfjörð. Páll gekk í hjúkrunardeild Canadahersins árið 1916, og hélt áleiðis til hersvæðis Evrópu í maí 1917, og starfaði þar, þar til hann kom aftur til Canada í júnímánuði 1919. Hann hefir heimili að Langreuth, Man.



## ÞÓRARINN HJALTDAL.

Fæddur 28. apríl 1898 á Seyðisfirði. Foreldrar: Sumarliði Jónsson Hjaltdal og Sigríður Lárusdóttir, sem bjuggu á Vestdalseyri við Seyðisfjörð, þar til þau fluttu frá Íslandi. Þórarinn gekk í 184. herd. 13. marz 1916, og tók þátt í orustum við Passchendale og Vimy Ridge á Frakklandi. Hann særðist svo, að hann misti hægri fótinn, sem taka varð af fyrir ofan hnéð. Áður en hann gekk í herinn, hafði hann heimili að Morden, Manitoba, og stundaði landbúnaðarvinnu. Eftir að hann kom úr hernaðinum, 14. júní 1918, tók hann að stunda skólanám.

*GUNNLAUGUR B. HJORLEIFSSON (sjá III).*



## ROBERT INGERSOLL HJÖRLEIFSSON.

Fæddur að Gimli í Nýja Íslandi 5. október 1895. Hann er sonur þeirra Björns Hjörleifssonar frá Hallfreðarstöðum í N.-Múlasýslu og Guðrúnar Einarsdóttur, sem ættuð er úr Skaftafellssýslu. Búa foreldrar hans nú við Íslendingafljót í Bifrastarsveit í Nýja Íslandi. Ingersoll gekk í 108. canadisku hersveitina 13. apríl 1916 og fór með henni frá Winnipeg 12. september sama ár til Englands. Hann var í hríðskotaliði hersveitarinnar, og tók þátt í þeim orustum, sem herdeild hans átti í. Hann særðist í einni þeirri atlögu 24. marz 1918; var eftir það á herspítala á Englandi til stríðsloka. Hann kom heim aftur 1919.



## INGIMUNDUR MARINO EDWARD HOUGHTON.

Fæddur í Selkirk, Manitoba, 5. desember 1896. Foreldrar: Edward Houghton frá Liverpool á Englandi og Helga Ingimundardóttur frá Kálfárdal í Skagafirði. Gekk í 108. herd. í desember 1916. Kom aftur til Canada í nóvember 1919. Hann er kvæntur Hildu Berston, og vinnur á stálverkstæði í Selkirkbæ.



## EDRIC ROLLAND HÖRDAL.

Fæddur 18. nóvember 1894 að Otto P. O., Manitoba. Foreldrar: Björn Þorsteinsson frá Hlíð í Hörðudal í Dalasýslu og Sigríður Jónasdóttir frá Ytra-Laugalandi í Eyjafirði. Edric gekk í 223. herdeildina þann 16. maí 1916, og fór með henni til Englands 23. apríl 1917. Hann tók þátt í orustum við Passchendale, Arras, Amiens, Cambrai og víðar á Frakklandi. Særðist ekki og kom til Canada aftur 23. febrúar 1919.



## INGIBERG INGIMUNDARSON.

Fæddur 25. marz 1888 á Íslandi. Foreldrar Ingimundur Guðmundsson og Sólborg Guðmundsdóttir, ættuð úr Breiðafirði á Íslandi. Ingiberg gekk í 108. herd. 21. marz 1916, og tók þátt í orustum við Ypres, Cambrai, Hill 70 og Arras. Særðist ekki. Kominn aftur 13. maí 1919. Hann er giftur konu að nafni Emelía Aðalborg. Þau stunda landbúnað í Lundarbygð í Manitoba.



## EGILL SKALLAGRÍMSSON INGJALDSSON.

Fæddur 21. apríl 1896 á Rótum í Árnesbygð í Nýja Íslandi. Sonur Jóhanns Ingjaldssonar úr Hegranesi og Bjargar Erlendsdóttur, ættuð úr Blönduhlíð í Skagafjarðarsýslu. Þau bjuggu á Bakka í Hólmi í sömu sýslu. Egill stundaði nám í bænum Selkirk í Manitoba, og hafði lokið miðskólaprófi, er hann innritaðist í Canadaherinn, 223. deild, 29. marz 1916, sem óbreyttur liðsmaður. Hann fór með þeirri deild til Englands 23. apríl 1917. Egill hefir ekki getað dvalið lengi á Englandi, því hann er kominn til vígvallar og tekur þátt í orustunni við Passchendale í nóvember það sama ár. Hann tók og þátt í orustunum við Amiens og Arras og særðist í annari þeirra, 26. ágúst 1918, en ekki hættulega, því þegar hann kom heim úr stríðinu, 22. janúar 1919, þá var hann vinnufær.



## JÓN INGJALDSSON.

(Jón er albróðir Egils Skallagrímssonar; sjá ættartölu hans.) Fæddur 6. október 1889 við Íslendingafljót í Nýja Íslandi. Sonur þeirra Jóhanns Ingjaldssonar og Bjargar Erlendsdóttur, sem bæði eru ættuð úr Skagafjarðarsýslu. Jón innritaðist í 223. deild Canadahersins 3. apríl 1916, og fór með henni áleiðis til Englands 23. apríl 1917. Eftir tiltölulega stutta dvöl á Englandi fór hann til vígstöðvanna og var þar, unz vopnahlé komst á. Jón tók þátt í orustunum við Amiens, Arras, Cambrai og Mons, og komst heill á húfi gegnum þær allar. Jón kom heim úr hernaði 26. maí 1919, og stundar nú aktýgjasmíði, eins og hann gerði áður en hann fór í stríðið.



## UNNSTEINN JACOBSON.

Fæddur að Geysir P. O., Man. Sonur Bjarna Jakobssonar frá Laxárholti í Hraunhreppi á Mýrum og Halldóru Bjarnadóttur, Guðmundssonar, frá Litlu-Skógum í Stafholtstungum. Unnsteinn gekk í 223. herd. 2. september 1916. Barðist á Frakklandi í orustum við Ypres, Amiens, Arras, Cambrai og Valenciennes. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 9. maí 1919. Vinnur nú að landbúnaði.



## ROY WALLACE JENSSON.

Fæddur í New Wesminster borg í British Columbia 3. febrúar 1900. Sonur Gunnars H. Jenssonar, ættaðs úr Reykjavík á Íslandi, og Sigurrósar Jóhannesdóttur frá Blönduósi. Roy gekk í canadiska sjóherinn sem undirforingi 5. apríl 1916, og starfaði þar á einu af strandvarnarskipunum. Skip það háði orustu við einn af kafbátum Þjóðverja í grend við Nýfundnaland í maímánuði 1918. Roy var leystur frá herþjónustu 26. desember 1918, með því að þá var friður tryggður. Hann er nú ráðsmaður yfir einni deild J. I. Case þreskivélafélagsins í Saskatoonborg, Sask., þar sem foreldrar hans eru búsett.

*JOSEPH DANIEL JÓELSSON (sjá III).*



## JÓHANNES JÓHANNESSON.

Fæddur í Reykjavík á Íslandi 18. október 1894. Sonur Guðmundar Jóhannessonar (fiskimanns) og Sigríðar Ólafsdóttur. Þau hjón bjuggu lengi í Reykjavík, og þar dó Sigríður. Jóhannes fluttist til Canada 6 ára gamall og hefir alist upp í Winnipegosis í Manitoba. Hann gekk í 43. herd. í marzmánuði 1916 og var kominn á vígvöll á Frakklandi ári síðar. Tók þar þátt í ýmsum orustum og var fram til janúarloka 1919. Hann særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 19. júlí 1919. Í janúarbyrjun 1919 kvongaðist hann enskri stúlku, ungfrú Margaret Walker. Þau hjón búa nú á landi í grend við Wynyard, Sask.



## Lieut. KONRÁÐ JÓNASSON JÓHANNESSON.

Fæddur 10. ágúst 1896 í Argylebygð í Manitoba. Sonur Jónasar Jóhannessonar frá Geiteyjarströnd í Mývatnssveit og Rósu Einarsdóttur frá Húsavík, nú búandi í Winnipeg. Konráð gekk í herinn 18. marz 1916 og sigldi ári síðar til Englands. Þaðan var hann sendur til Egyptalands, til að starfa þar við flugskóla. Hann kom aftur til Canada 19. maí 1919, og stundar nú háskólanám í Winnipegborg. Íþróttamaður góður. Var í Fálka-leikflokknum, er sigur vann í Olympisku leikjunum í Antwerp 1920.

*PÁLL JÓHANNESSON (sjá III).*



## RAGNAR JÓHANNESSON.

Fæddur að Garðar í Norður Dakota, U. S. A., 6. janúar 1896. Sonur Jóhannesar Jóhannessonar og Jóhönnu Jónsdóttur, er bjuggu í Leiðarhöfn á Vopnafirði áður en þau fluttust til Canada árið 1893. Ragnar gekk í 223. herdeildina 22. apríl 1916. Hann særðist í orustu á Frakklandi þann 19. október 1918. Kom aftur til Canada í marz 1919.



## Lieut. ARNLEIFUR LAWRENCE JÓHANNSSON.

Fæddur í Winnipeg, Manitoba, 17. september 1891. Sonur Eggerts Jóhannssonar frá Vindheimum í Skagafirði og Elínar Hjörleifsdóttur frá Dyrhólum í Vestur-Skaftafellssýslu, nú búandi í Vancouverborg á Kyrrahafsströnd. Arnleifur gekk sem undirforingi í 223. herdeildina, og síðar í hríðskotadeild Canadahersins í marz 1916. Sigldi til Evrópu 3. maí 1917. Á Frakklandi barðist hann í orustum við Amiens, Cambrai, Denain, Valenciennes og Mons. Hann særðist aldrei, og hvarf heim aftur til Canada að stríðinu loknu, 15. júní 1919. Hann er lögfræðingur og stundar þau störf í Vancouverborg, B. C.



## GÍSLI JÓHANNSSON.

Fæddur í Fagradal á Skarðsströnd í Dalasýslu 16. apríl 1889. Foreldrar hans: Björn Jóhannsson frá Ósi á Skarðsströnd við Breiðafjörð og Sigurbjörg Símonardóttir, fædd á Sléttu í Aðalvík í Ísafjarðarsýslu, en að mestu uppalin hjá séra Þórarni Böðvarssyni, þá presti í Vatnsfirði. Gísli var í Canadahernum og vann að viðartekju á Frakklandi. Hann er kvæntur og býr að Amaranth P. O., Manitoba. Kona hans heitir Jóhanna Gunnarsdóttir, Einarssonar, frá Eyford í Norður Dakota.



## HARALDUR WILHELM JÓHANNSSON.

Hann er fæddur að Sayreville, N. J., 12. september 1893. Sonur Guðjóns Ágústs Jóhannssonar, úr Keflavík í Gullbringusýslu, og Hólmfríðar Guðnadóttur frá Haga í Grímsnesi í Árnessýslu. Haraldur innritaðist í 184. herdeildina (Buffalo-deildina) 27. febrúar 1916. Fór til vígstöðvanna á Frakklandi 23. desember það sama ár, og var þá skipaður í 78. deildina. Tók þátt í bardaganum við Vimy Ridge, og særðist á hægri handlegg í þeim bardaga. Kom heim aftur 19. október 1917 og var leystur frá herþjónustu 23. marz 1918. Er nú búsettur í Winnipeg og stundar vinnu á járnbræðsluverkstæði. Hann er kvæntur og er kona hans af enskum ættum.



## HELGI JÓHANNSSON.

Fæddur í Milton, Norður Dakota, U. S. A., 5. desember 1896. Foreldrar: Björn Jóhannsson frá Ósi á Skarðsströnd við Breiðafjörð og Sigurbjörg Símonardóttir frá Sléttu í Aðalvík í Ísafjarðarsýslu, nú búandi að Víðir P. O., Manitoba. Helgi gekk í 108. herd. 21. febr. 1916. Fór áleiðis til vígvallar 12. september það ár. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge og Hill 70. Særðist 15. ágúst 1917. Kom aftur til Canada 13. ágúst 1919. Stundar landbúnað. Hann er giftur konu af brezkum ættum.



## JÓHANN TH. JÓHANNSSON.

Fæddur 11. október 1899 að Fitjum í Miðfirði í Húnavatnssýslu. Foreldrar hans: Þorsteinn Jóhannsson frá Bergsstöðum í Miðfirði og Soffía Jónsdóttir, úr sömu sýslu. Þau hjón bjuggu á Fitjum og fluttu til Canada árið 1901. Jóhann gekk í 223. herd. 15. apríl 1916. Tók þátt í orustum á Frakklandi og særðist þar á höfði 16. marz 1918. Eftir þriggja og hálfs árs hernaðarstarf kom hann aftur til Canada árið 1919. Var þá enn nokkuð veikur, bæði af höfuðsárinu og einnig af afleiðingum eiturlofts, sem hann varð fyrir á vígvelli. Hann býr nú með móður sinni í bænum Riverton í Manitoba.



## STEPHEN JÓHANNSSON.

Fæddur að Litla-Ósi í Húnavatnssýslu 4. nóvember 1869. Foreldrar hans voru Jóhann Helgason og Ósk Þorkelsdóttir, er þar bjuggu. Þriggja ára gamall misti hann föður sinn og fór þá í fóstur til Jónasar Jóhannssonar og Margrétar Sigurðardóttur í Gröf á Vatnsnesi, og var hjá þeim í nokkur ár. Stephen er kvæntur Sólveigu Ólafsdóttur frá Höfnum í Gullbringusýslu. Bjuggu þau í Glenboro, Manitoba. Stephen gekk í 223. herdeildina 23. marz 1916 og fór frá Canada áleiðis til Frakklands 23. apríl 1917 og vann þar að járnbrautalagningu í þágu hersins. Hann var settur þar verkstjóri með korporal-nafnbót, og hélt þeim starfa til stríðsloka. Heim kom hann aftur 22. janúar 1919, og vinnur nú hjá Can. Kyrrahafsbrautarfélaginu og er búsettur í Winnipeg. Son átti hann í hernum, er Óskar hét, er féll 15 ágúst árið 1918.



*ÁSGEIR F. JOHNSON (sjá III).*

## ÁSTRÁÐUR HELGI JOHNSON.

Fæddur 13. febrúar 1898 að Lundar, Manitoba. Sonur Sveins Jónssonar, Matthíassonar, frá Hergilsey á Breiðafirði, og Kristínar Jónsdóttur, Jónadabssonar Líndal, frá Lækjarkoti í Víðidal í Húnavatnssýslu. Ástráður gekk í 232. herd. 1. júní 1916. Þegar hann kom til Evrópu, var hann skipaður undirforingi í hríðskotaflokki 28. herdeildar Breta, og með henni barðist hann í orustum við Ypres, Vimy hæðir, Cambrai og víðar. Til Canada kom hann aftur 8. janúar 1919, og vinnur nú í Saskatoonborg, Sask., þar sem foreldrar hans nú búa.



## BERNHARD JOHNSON.

Fæddur 18. október 1896 að Brú P. O., Manitoba. Foreldrar: Jón S. Jónsson frá Skipalóni í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu og Guðný Friðfinnsdóttir frá Þorvaldsstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Bernhard gekk í 190. herd. 30. nóvember 1916. Tók þátt í orustum á Frakklandi og særðist þar. Hann kom aftur til Canada í janúar 1919. Áður en hann gekk í herinn stundaði hann nám við æðri skóla. Hann er til heimilis að Baldur, Manitoba.



## Sergt. BJÖRN JOHNSON, M.M. and Bar.

Fæddur að Kýrholti í Viðvíkursveit í Skagafjarðarsýslu 21. júlí 1897. Sonur Jónasar Jónssonar prests að Höfða í S.-Þingeyjarsýslu, og Helgu Gunnlaugsdóttur, Björnssonar, Arnþórssonar prests í Hvammi í Laxárdal ytri. Björn innritaðist, frá heimili foreldra sinna að Wynyard, Sask., í 108. herdeildina 12. febr. 1916 og fór með henni til Englands 12. sept. það ár. Var skipaður í 16. deildina, er til Frakklands kom, og tók þar þátt í þessum orustum: Við Hill 70 (15. ágúst 1917), við Passchendale (í nóv. það sama ár), við Amiens (8. og 9. ág. 1918) og við Arras (26. ágúst til 4. september það sama ár). Björn var sæmdur tveim heiðursmerkjum fyrir hreystilega framgöngu í orustunum við Arras og Amiens. Björn kom heim úr herþjónustu 7. maí 1919; hafði gengið gegnum eldraunina svo að segja ómeiddur; særðist eitt sinn ofurlítið, en var fljótlega albata. Hann stundar landbúnað að Wynyard, Sask.

## Sergt. EINAR EMIL JOHNSON.



Fæddur í Winnipeg 13. sept. 1896. Gekk í 61. herd. árið 1916 með undirforingja-tign. Eftir að til Englands kom var hann skipaður heræfingakennari. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi og særðist þar mikið, misti þó engan lim, en var lengi veikur. Hann stundaði verkfræðinám (Civil Engineering) við Manitobaháskólann áður en hann gekk í herinn. Og er hann kom aftur til baka, hélt hann náminu áfram og lauk því. Heimili hans er í Winnipeg. Foreldrar: Guðmundur Jónsson, Árnasonar frá Máná á Tjörnesi, er lengi stundaði álnavöruverzlun í Winnipeg, og Katrín Arngrímsdóttir frá Brekkugerði í Fljótsdal.

## ERLENDUR FREEMAN JOHNSON.



Fæddur í Poplar Park, Man., 24. marz 1890. Sonur Guðmundar Sveinssonar og Elínborgar Erlendsdóttur frá Gautavík á Berufjarðarströnd, og munu þau hjón hafa búið fyrstu búskaparár sín á Fossvöllum í Jökulsárhlíð. Bæði dóu þau, er Erlendur var barn að aldri; fór hann þá til ensku mælandi fólks og kann því ekki að mæla á íslenzka tungu. Erlendur innritaðist í 210. deild Canadahersins í bænum Moose Jaw, Sask., 3. marz 1916. Fór með þeirri deild til Englands; fór til Frakklands 16. maí 1917. Var skipað í 46. deild Canadahersins, þegar þangað kom, og með henni var hann 5½ mánuð, eða þar til hann særðist, 26. október 1917. Þegar Erlendur var ferðafær, var hann sendur til Englands, og þar var hann þangað til 14. des. 1918. Hann var leystur frá herþjónustu 21. janúar 1919.

## FINNUR JOHNSON.

Fæddur 8. febrúar 1896 á Ísafirði á Íslandi. Foreldrar hans: Jón Þórðarson frá Kistufelli í Borgarfirði suður og Vigdís Jónsdóttir frá Arnardal í Ísafjarðarsýslu. Finnur gekk í 223. herdeildina þann 10. marz 1916 og sigldi með henni til Englands í apríl 1917. Var þar við heræfingar um 9 mánaða tíma, en veiktist þá, svo að hann var sendur aftur til Canada í desember 1917. Finnur er nú kominn til fullrar heilsu, á heima í Winnipeg og stundar málaraiðn.



## FRANZ JÚLÍUS TÓMAS JOHNSON.

Fæddur í Winnipeg. Foreldrar: Páll Jónsson, ættaður úr Skagafirði, og Ágústa Ingimundardóttir, ættuð úr Reykjavík á Íslandi. Franz gekk í 184. herdeildina í febrúar 1916. Fór til Englands 12. október sama ár. Hann tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi og særðist þar mikið á höfði. Var ekki fullgróinn sára sinna, þegar hann kom aftur til Canada, en taldi sig vinnufæran, er hann gaf skýrslu þessa.



## GUÐBRANDUR JOHNSON.

Fæddur 5. september 1889 að Churchbridge, Sask. Foreldrar: Ólafur Guðmundsson, prests á Arnarbæli, Einarssonar Johnsen, og Sigþrúður Guðbrandsdóttir frá Hákoti á Álftanesi í Gullbringusýslu. Guðbrandur gekk í herinn 1. apríl 1916. Hann fékk gigtveiki eftir að hann gekk í herinn; var því ekki sendur úr landi og leystur frá herþjónustu 4. apríl 1917. Hefir heimili að Langreuth, Manitoba.



## GUÐMUNDUR JOHNSON.

Fæddur árið 1881 í Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Ólafur Guðmundsson, prests frá Arnarbæli, Einarssonar Johnsen, og Sigþrúður Guðbrandsdóttir frá Hákoti á Álftanesi í Gullbringusýslu. Guðmundur gekk í 223. herdeildina í apríl 1916. Fékk lausn frá herþjónustu árið 1917, af því hann hafði úlfliðsbrotnað og var því ekki talinn vopnfær. Guðmundur er kvongaður og heitir kona hans Þórunn Björnsdóttir, ættuð frá Kalmannstungu í Mýrasýslu.



## GUÐMUNDUR JOHNSON.

Fæddur að Rjúpnafelli í Vopnafirði 27. desember 1876. Foreldrar: Jón Jónsson frá Haugsstöðum í Vopnafirði og Aðalbjörg Friðfinnsdóttir frá Haga í Vopnafirði (bæði dáin). Guðmundur stundaði trésmíðar í Baldurbæ í Manitoba, áður en hann gekk í 197. herd. 11. apríl 1916. Hann fór til herstöðvanna í janúar 1917, og var leystur frá herþjónustu 3. marz 1919. Er kvæntur Erlínu Ingibjörgu Jónsdóttur, Jónssonar, frá Gilsárstekk í Breiðdal í Suður-Múlasýslu, og stundar sömu iðn og áður en hann gekk í herinn.



## HARALDUR JOHNSON.

Fæddur 2. marz 1892 að Mýri í Bárðardal í Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Jón Jónsson frá Mýri í Bárðardal og Helga Jónsdóttir frá Garðsá í Eyafjarðarsýslu (hún dó á Íslandi árið 1900). Jón býr að Kandahar, Sask. Haraldur gekk í 108. herd. 15. janúar 1916. Sigldi til Evrópu 12. sept. það ár. Tók þátt í orustu við Passchendale. Hann varð tvívegis að þola sjúkrahússvist á Frakklandi. Kom aftur til Canada 1. apríl 1918, og var eftir það um sex mánaða tíma undir læknisumsjá. Hann stundar nú akuryrkjuverkfærasölu í Kandahar.



## JÓHANNES BENEDIKT KR. JOHNSON.

Fæddur 2. ágúst 1874 að Gestsstöðum í Norðurárdal í Mýrasýslu. Foreldrar: Kristófer Jóhannesson og Guðlaug Pálsdóttir (bæði dáin). Jóhannes gekk í herinn 4. apríl 1916. Fór til Englands í janúar 1917 og til Frakklands í maí það ár. Vann þar við skógarhögg, þar til hann hélt heimleiðis aftur til Canada 22. marz 1919. Jóhannes er kvæntur Agnesi Halldórsdóttur, úr Mýrasýslu. Þau hjón eiga 2 börn á lífi, en hafa mist 5. Jóhannes á heima í Winnipeg og stundar trésmíði.

## JOHN JOHNSON.

Er fæddur 22. nóvember 1883, en eigi getur hvar. Hann er sonur þeirra hjóna T. Jonsons og konu hans, er bjuggu að Pembina. Hann gekk í herþjónustu Bandaríkjastjórnar í júlí 1916, í 163. sveit 41. deildar fótgönguliðsins. Hann var á vígstöðvum í Frakklandi frá því að Bandaríkin fóru í stríðið og þar til friður var saminn. Til heimilis er hann í Pembinabæ.



## JOHN ÁRNI JOHNSON.

Fæddur að Hallson, Norður Dakota, U. S. A., 23. janúar 1891. Foreldrar: Ágúst Jónsson frá Sörlatungu í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu og Margrét Engilráð Árnadóttir frá Eiríksstöðum í Svartárdal í Húnavatnssýslu. John gekk í 108. herd. 18. marz 1916. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70 og Passchendale, Amiens og Arras, á Frakklandi. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 7. maí 1919. Stundar landbúnað.



## JÓN BJARNI JOHNSON.

Fæddur í Winnipeg 7. ágúst 1892. Foreldrar: Ingimundur Jónsson, Jónssonar, frá Steinadal í Kollafirði í Strandasýslu, og Marsilía Halldórsdóttir, Jónssonar, frá Nýpi á Skarðsströnd í Dalasýslu, nú búandi að Brown P. O., Manitoba. Jón gekk í 184. herd. í jan. 1916. en vegna vanhreysti var hann ekki sendur á vígvöll, en skipaður til herþjónustu í Winnipeg og í Quebec. Lausn fékk hann frá herþjónustu 19. marz 1919. Jón er giftur konu að nafni Jónína Herdís. Þau stunda landbúnað að Brown P. O., Man.



## Sergeant JÓN GUÐMUNDSSON JOHNSON.

Fæddur í Húsey í Norður-Múlasýslu 8. september 1891. Sonur þeirra Guðmundar Jónssonar frá Hlíðarhúsum í Jökulsárhlíð í Norður-Múlasýslu og Jónínu Björnsdóttur frá Nefbjarnarstöðum í sömu sveit og sýslu. Fluttist vestur um haf með foreldrum sínum 1903. Innritaðist í 223. herdeildina í marz 1916, og fór með henni til Englands þann 23. apríl 1917. Frá Englandi fór hann og til vígstöðvanna í ársbyrjun 1918 og var þá settur í 78. deildina. En þar vann hann sig brátt upp í Sergeants-stöðu. Tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens, Dury, Cambrai og Valenciennes. Var sæmdur heiðursmerki fyrir að halda vígi við annan mann í orustunni við Cambrai. Kom heim úr stríðinu heill á húfi 10. júlí 1919. Jón hefir nú á hendi nautgripaverzlun við Ashern, Manitoba.



## JÓNAS JOHNSON.

Fæddur 7. ágúst 1884 á Íslandi. Bóndi að Leslie, Sask. Foreldrar. Jón Kristjánsson og Jóhanna Jóhannsdóttir frá Ljósalandi í Vopnafirði. Jónas gekk í 197. herd. 5. marz 1916. Sigldi til Evrópu í janúarmánuði 1917. Eftir þriggja ára herþjónustu kom hann aftur til Canada 15. apríl 1919. Stundar nú búskap, eins og áður en hann fór í stríðið.



## KONRÁÐ MULLER JOHNSON.

Fæddur 8. júlí 1899 á Seyðisfirði. Sonur Egils Jónssonar, úr Borgarfirði suður og Rósu Eiríksdóttur frá Papey í Hálsþinghá. Fluttist með foreldrum sínum til Canada 1903, og settust þau að í Nýja Íslandi. 1. febr. 1916 gekk hann í 108. herd. Fór með henni til Englands 12. sept. 1916. Dvaldi á Englandi rúma 4 mánuði. Fékk ekki að fara til Frakklands sökum þess, að hann hafði ekki náð lögaldri, en var gefinn kostur á að bíða í Englandi eða fara heim. Kom aftur heim til móður sinar (faðir hans dáinn) í febrúar 1917. Fór aftur til Winnipeg eftir 5 daga dvöl heima og gekk í 250. deildina; sagðist þá eldri en hann var, svo honum yrði ekki snúið aftur í annað sinn. Fór með deild þeirri til Valcartier. Þá veiktist móðir hans, og af því hann var eina lífsstoðin, þá var honum veitt heimfararleyfi. Kom heim aftur 11. des. 1917. Hann dó úr spönsku veikinni 20. nóvember 1918.



## MAGNÚS JÓHANNESSON JOHNSON.

Fæddur að Felli á Langanesströnd 1873. Foreldrar: Jóhannes Jónsson og Jakobína Einarsdóttir, er bjuggu að Hóli á Langanesi í Norður-Þingeyjarsýslu. Gekk í 197. herd. vorið 1916. Vann að timburtekju. Kom aftur til Canada vorið 1919. Stundar landbúnað í Kurokisveit í Saskatchewan.

*MAGNUS JOHNSON (sjá III).*



## MATTHÍAS ÁSVALDUR JOHNSON.

Fæddur 11. febrúar 1893 að Hallson, Norður Dakota, U.S.A. Foreldrar: Ágúst Jónsson frá Sörlatungu í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu og Margrét Engilráð Árnadóttir frá Eiríksstöðum í Svartárdal í Húnavatnssýslu. Matthías gekk í 108. herd. 18. marz 1916, og fór til Englands 12. september sama ár. Hann barðist við Hill 70 1917 og við Cambrai 1918, og særðist í báðum orustunum. Kom aftur til Canada 18. janúar 1919, þá vinnufær. Stundar landbúnað að Siglunes P. O., Man.



## ÓLAFUR JOHNSON.

Fæddur í Sauðagerði við Reykjavík á Íslandi 11. nóvember 1877. Foreldrar: Jón Ólafur Ólafsson frá Hákoti á Álftanesi og Sigríður Ingibjörg Benediktsdóttir frá Hallanda við Eyjafjörð. Ólafur gekk í 108. herd. 19. janúar 1916 og sigldi til Englands í september það ár, en veiktist, eftir að hann kom til Englands, og var þar á sjúkrahúsi fram í janúarmánuð 1917. Var þá sendur aftur til Canada. Ólafur er kvæntur og stundar landbúnað að Paswegin, Sask.

*PÁLL JOHNSON (sjá III).*



## PAUL JOHNSON.

Fæddur 15. ágúst 1871 að Litlu-Giljá í Húnavatnssýslu. Sonur Jóns Jónssonar og Oddnýjar Jónsdóttur, sem þar bjuggu. Paul gekk í 197. deild Canadahersins 2. marz 1916, með undirforingja-nafnbót. Hann gegndi herþjónustu í Canada þar til 13. janúar 1920. Paul er raffræðingur og kvæntur Ingunni Þorsteinsdóttur, Guðmundssonar frá Syðsta-Fossi í Andakíl í Borgarfirði suður, og konu hans Guðrúnar Bjarnadóttur, ættaðrar úr Hrútafirði í Húnavatnssýslu.



## THEODORE ODDSSON JOHNSON.

Fæddur á Seyðisfirði á Íslandi 14. október 1882. Foreldrar: Oddur Jónsson (hafnsögumanns í Reykjavík) og Hólmfríður Þórðardóttir. Þau hjón bjuggu að Lundar, Manitoba, en eru nú bæði dáin. Theodore gekk í herinn 19. apríl 1916, og tók þátt í orustum á Frakklandi og í Belgíu, en særðist í orustu við Arras þann 22. maí 1918. Hann kom aftur til Canada í desember það ár, þá nokkurnveginn vinnufær. Stundar nú landbúnað.



## STANLEY T. V. JOHNSON.

Fæddur í Winnipeg 12. júní 1898. Foreldrar: Thordur Johnson, Jónssonar og Vilborgar Guðmundsdóttur, er bjuggu á Hjarðarfelli í Miklaholtshreppi í Hnappadalssýslu, og Guðný Björnsdóttir, Ólafssonar, og Guðrúnar Jónsdóttur, er bjuggu á Akranesi í Borgarfirði. Stanley gekk í 61. herd. í febrúarmánuði 1916. Tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge, Arras, Lens, Amiens og Passchendale. Særðist 10. ágúst 1918. Kom aftur til Canada 15. janúar 1919. Stundar nám við verzlunarskóla.



THOMAS THORVALDUR JOHNSON.

Fæddur 26. júní 1891 að Grund P. O., Manitoba. Foreldrar: Kristján Jónsson, Björnssonar, frá Héðinshöfða á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu, og Arnbjörg Jónsdóttir, Eyjólfssonar frá Hjarðarhaga á Jökuldal í Norður-Múlasýslu. Tómas taldi heimili sitt hjá foreldrum sínum að Baldur, Man., og stundaði laganám áður en hann gekk í herinn 16. júní 1916. Til Evrópu hélt hann með 223. herdeildinni í apríl 1917, og kom aftur til Canada að stríðinu loknu 20. maí 1919.



Sergeant THORLÁKUR JOHNSON.

Fæddur 5. ágúst 1874 að Máná á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. Sonur Jóns Árnasonar, bónda þar, ættaðs frá Sveinstungu við Mývatn, og Rebekku Guðmundsdóttur frá Litlu-Strönd við Mývatn. Thorlákur fluttist með foreldrum sínum til Canada árið 1876 og hefir lengst af síðan dvalið í Winnipeg. Hann innritaðist í 223. herdeildina og sigldi með henni til Englands. Þar var hann skipaður umsjónarmaður þýzkra herfanga, með Sergeant-nafnbót. Hann kviðslitnaði þar, er hann var að kæfa eld, sem upp kom í matvælastöð, og var um tíma á sjúkrahúsi þar. Hann kom aftur til Canada sumarið 1920. Thorlákur er timbursmiður að iðn. Kona hans er Arnbjörg Jónsdóttir Oddsson, ættuð úr Þingeyjarsýslu.



WILLIAM SIGURÐUR JOHNSON.

Fæddur 8. marz 1880 í Gimlisveit í Manitoba. Foreldrar: Sigurður Jónsson, Jónssonar, Bjarnasonar, frá Draflastöðum í Eyjafjarðarsýslu, og Þóra Hannesdóttir, Jóhannessonar bónda að Vindheimum í Skagafirði. William gekk í 223. herd. 25. marz 1916 og fór til herstöðvanna í Evrópu 23. apríl 1917. Vann þar unz hann var leystur frá herþjónustu í okt. 1918. Hann stundar nú landbúnað með bræðrum sínum í Churchbridge í Saskatchewanfylki.



## ÞÓRÐUR JOHNSON.

Sonur Jóns Sæmundssonar frá Fossi í Kjós í Kjósarsýslu og Sesselíu Sigurðardóttur frá Skauthólum á Kjalarnesi, sem bjuggu að Haukagili í Húnavatnssýslu. Þórður gekk í 197. herd. 2. febr. 1916, en fór ekki utan. Hann er kvongaður Guðbjörgu Guðmundsdóttur. Þórður stundar fiskiveiðar í Les Pas í Norður-Manitoba.



## HARALDUR D. JÓNASSON.

Fæddur 10. nóv. 1884 í Húnavatnssýslu á Íslandi. Foreldrar: Davíð Jónasson frá Súluvöllum í Húnavatnssýslu og Ragnhildur Friðrika Jónsdóttir frá Hindisvík í sömu sýslu. Hann gekk í 194. herd. 20. marz 1916. Tók þátt í orustum við Amiens, Arras og Cambrai. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 31. marz 1919, þá vinnufær. Stundar gipslagningu. Hann er giftur konu að nafni Jónína Sigurveig.



## JÓNAS JÓNASSON.

Fæddur 9. október 1894 að Kelowna, B. C. Sonur Einars Jónassonar, ættaðs frá Harastöðum í Dalasýslu, og Jónínu I. Sigfúsdóttur frá Veigastöðum í Eyjafirði. Jónas innritaðist í 223. herdeildina 30. marz 1916 og fór með henni til Englands. Hann tók þátt í atlögunum við Passchendale, Amiens, Arras, Bourlon Woods, Cambrai, Valenciennes og Mons. Særðist ekki. Kom aftur til baka 9. ágúst 1919, og stundar fiskiveiðar.



## Lieut. JÓNAS TH. JÓNASSON.

Fæddur 3. febrúar 1890 í Mývatnssveit á Íslandi. Foreldrar: Þorlákur Jónasson og Kristrún Pétursdóttir, bæði úr Mývatnssveit, en nú búandi að Dafoe P. O., Sask. Jónas gekk í 108. herdeildina sem undirforingi í janúar 1916. Hann fór til Englands, en var ekki sendur á vígvöll vegna sjóndepru. Fékk því lausn frá herþjónustu og kom aftur til Canada í maí 1917. Jónas var yfirkennari við barnaskóla í Brandon, Man., áður en hann gekk í herinn. Hann stundar kenslustörf. Er útskrifaður frá Manitobaháskóla.



## MAGNÚS JÓNASSON.

Fæddur á Minni-Ökrum í Skagafirði. Sonur Jónasar Hallgrímssonar og Þóreyjar Magnúsdóttur, sem lengi bjuggu að Fremri-Kotum í Norðurárdal. Magnús kom til Canada árið 1901 og dvaldi í Wynyard í Saskatchewanfylki, þar til hann innritaðist í 223. herdeildina 19. apríl 1916. Hann tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi. Særðist lítillega einu sinni. Kom heill aftur til Canada og var leystur frá herþjónustu 19. júní 1919, eftir fullra þriggja ára hernaðarstörf.



## ÓLAFUR J. JÓNASSON.

Fæddur í Mikley í Winnipegvatni, Man., 6. nóvember 1878. Sonur Jóhannesar Jónassonar frá Harrastöðum í Miðdölum í Dalasýslu og Höllu Jónsdóttur frá Höll í Þverárhlíð í Mýrasýslu. Ólafur gekk í herinn 15. maí 1916 og sigldi frá Canada með 223. herdeildinni 23. apríl 1917. Hann tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi, þar með töldum þeim við Passchendale og Cambrai. Særðist aldrei. Kom aftur til Canada 27. maí 1919, og stundar nú landbúnað að Víðir P. O., Manitoba.



## THORFINNUR EGILL JÓNASSON.

Fæddur 29. apríl 1890 nálægt Hallson, Norður Dakota. Foreldrar hans eru Jónas Kristján Jónasson og fyrri kona hans Þóra Þorfinnsdóttir (dáin), bæði fædd og uppalin í Skagafirði, en Jónas býr nú að Vogar P. O., Man. Egill vann á landi föður síns þar til hann innritaðist í 251. herdeildina 22. september 1916. Fór til Englands 30. september 1917. Var 4 mánuði við heræfingar á Englandi og var svo sendur til Frakklands í 8. herdeildina. Tók þátt í orustum við Arras og Amiens, þar sem hann særðist 9. ágúst af kúlu, sem fór í gegnum ristina. Var sendur á sjúkrahús á Englandi og var þar í 5 mánuði, eða þar til hann kom til baka til Canada, 18. febrúar 1919. Fékk lausn úr hernum 7. apríl 1919.



## GUÐMUNDUR KRISTJÁN JÓNATANSSON.

Fæddur 25. júní 1885 að Staðarfelli á Meðalfellsströnd í Dalasýslu. Foreldrar: Jónatan Þorsteinsson og Sigríður Gísladóttir frá Valþúfu í Dalasýslu. Gekk í herinn 25. apríl 1916, og var með 3. vinnudeild hans alt til stríðsloka. Kom aftur til Canada 4. apríl 1919, þá vinnufær, og með hervottorð um dygga þjónustu. Guðmundur stundar daglaunavinnu.



## JÓN JÓNATANSSON.

Fæddur 1. júní 1876 á Bæ á Höfðaströnd, Skagafjarðarsýslu. Sonur Jónatans Jónatanssonar frá Litla-Árskógi í Eyjafirði og Guðnýjar Björnsdóttur, ættaðri af Austfjörðum. Þau hjón bjuggu að bæ á Höfðaströnd. Jón innritaðist í lúðraflokk 197. herdeildarinnar 1. apríl 1916. Var með þeirri deild hér í Canada og fór með henni til Englands í lok ágústmánaðar 1917. Var í herþjónustu erlendis í 7 mánuði, eða þar til 1. apríl 1918, að hann kom aftur heim og settist þá að í Winnipegborg, þar sem hann er enn og stundar rakaraiðn. Jón er kvæntur Önnu Steindóru Jónasdóttur.



## AÐALSTEINN JÓNSSON.

Fæddur 28. október 1898 að Mountain, N. D. Sonur Ísaks Jónssonar frá Stapaseli í Stafholtstungum í Mýrasýslu og Ingibjargar Benediktsdóttur frá Hvassafelli í Eyjafirði. Jón fluttist með foreldrum sínum frá Dakota 1901 til Canada, og var í Framnesbygð í Nýja Íslandi, þegar hann innritaðist í Canadaherinn, 223. herdeildina, 27. marz 1916, og fór með henni frá Canada 23. apríl 1917, og til Englands. En þegar til Frakklands kom, var hann skipaður í 78. deildina, og með henni tók hann þátt í orustunum við Amiens, Arras, Cambrai og víðar. Hann særðist einu sinni, en náði sér samt svo aftur, að hann var vinnufær, er hann kom heim til Canada 12. júní 1919. Hann stundar landbúnað, eins og hann gerði áður en hann fór í stríðið.



## EGILL JÓNSSON.

Fæddur í Skildinganesi við Reykjavík á Íslandi 14. marz 1870. Foreldrar: Jón Eiríksson og Sigríður Ólafsdóttir, sem bjuggu að Skildinganesi. Egill gekk í 223. herdeildina í aprílmánuði 1916, og var kominn á hersvæði á Frakklandi í byrjun ágústmánaðar 1917. Hann sýktist þar af eitrgasi og kom aftur til Canada í árslok 1918, að stríðinu loknu. Egill er kvæntur Sigurlaugu Jóhannesdóttur, Guðmundssonar, frá Eyjólfsstöðum í Vatnsdal í Húnavatnssýslu. Þau hjón komu til Canada árið 1903 og búa í Winnipeg. Egill hefir mest af tímanum, síðan hann kom úr stríðinu, dvalið á herspítala í Winnipeg.



## FRIÐLUNDUR JÓNSSON.

Fæddur á Íslandi 1. desember 1864. Foreldrar: Jón Jóhannsson frá Litlu-Þverá í Húnavatnssýslu og Ása Guðmundsdóttir, ættuð af Vatnsnesi í sömu sýslu. Friðlundur stundaði landbúnað að Langreuth, Man., áður en hann gekk í 223. herd. 4. marz 1916. Til Evrópu fór hann 23. apríl 1917, en getur ekki um starf sitt þar. Hann kom aftur til Canada í marzmánuði 1919, eftir þriggja ára herþjónustu.

## GÍSLI JÓNSSON.



Fæddur 7. apríl 1898 í Pembina, Norður Dakota. Sonur Guðmundar Guðmundssonar, sem var til heimilis að Gimli, Man., og konu hans Önnu (dáin fyrir mörgum árum). En fósturforeldrar Gísla eru þau Metúsalem Jónsson frá Dal í Svalbarðshreppi í Þingeyjarsýslu og Ása Einarsdóttir, ættuð af Fagranesi í Sauðaneshreppi í Þingeyjarsýslu. Hann innritaðist í 223. herdeildina 2. apríl 1916 og fór frá Canada 23. apríl 1917. Hann tók þátt í mörgum orustum, en komst óskaddaður úr þeim öllum. Kom til baka 6. maí 1919. Vinnur að landbúnaði. Heimili hans var að Árborg, Man., þegar hann innritaðist.

*GUÐNI BJARNI JÓNSSON (sjá III).*

*Lieutenant HALLGRÍMUR JONSSON (sjá III).*

## HELGI JÓNSSON.



Fæddur 24. maí 1899 að Mýri í Bárðardal í Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Jón Jónsson frá Mýri í Bárðardal, nú búandi að Kandahar, Sask., og Helga Jónsdóttir frá Garðsá í Eyjafjarðarsýslu (dáin 1900). Helgi gekk í herinn 6. marz 1916. En er hann lagði af stað frá Montreal, í júní 1918, var hann veikur. Var því lagður á sjúkrahús í Halifax, þar sem hann dvaldi í 9 mánaða tíma, eða þar til hann fékk lausn frá herþjónustu. Hann stundar nú landbúnaðarvinnu að Kandahar, Sask.

## HERMANN JÓNSSON.



Fæddur 11. apríl 1885 að Strandhöfn í Vopnafirði. Sonur Jóns Hjálmarssonar frá Brekku í Mjóafirði í Suður-Múlasýslu og Sigþrúðar Ólafsdóttur, Guttormssonar frá Austdal í Seyðisfirði (bæði dáin). Hermann gekk í 223. herd. 17. febr. 1916, og fór til Evrópu í nóvember það ár. Hann tók þátt í orustunni við Vimy Ridge og víðar. Hann særðist á höfðinu af sprengikúlubroti 3. júní 1917. Kom aftur til Canada 3. desember það ár. Var leystur frá herþjónustu 12. október 1918. Stundar síðan búskap á landi sínu að Minitonas P. O., Manitoba.



## JÓN JÓNASSON JÓNSSON.

Fæddur 9. nóvember 1896 að Búðareyri í Reyðarfirði í Suður-Múlasýslu. Sonur Jónasar Jónssonar frá Þjófsstöðum í Núpasveit í Norður-Þingeyjarsýslu (nú látinn) og Marenar Jónsson, fædd á Eiði í Austurey í Færeyjum, nú búandi að Vogar í Manitoba. Jón bjó með móður sinni, þar til hann gekk í 203. herd. 24. marz 1916. Sigldi til Evrópu í október það ár. Hann tók þátt í orustum við Lens, Vimy Ridge, Passchendale, Amiens, Arras, Valenciennes og Lechelett. Varð fyrir eiturgasi 1. september 1918. Kom aftur til Canada 13. júní 1919, þá vinnufær, og stundar nú landbúnað sem áður.



## JÓN JÓNSSON, M. M.

Fæddur 28. ágúst 1885 að Auðbrekku í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu. Foreldrar: Jón Snorrason (dáinn 1886), ættaður frá Þverárbakka í Yxnadal í Eyjafjarðarsýslu, og Sigríður Jónsdóttir, dóttir Jóns sál. hreppstjóra og dbrm. Einarssonar frá Laugalandi á Þelamörk í Glæsibæjarhreppi í Eyjafjarðarsýslu; fædd að Laugalandi, en nú til heimilis að Sauðárkróki í Skagafirði. Jón innritaðist í 222. herdeildina 2. marz 1916 og fór með þeirri deild til Englands 1. nóvember 1916. Hann tók þátt í flestum stórorustum, t. d. við Passchendale, Vimy Ridge, Hill 70, Lens og Arras. Hann var gerður að Corporal. Særðist lítið eitt 3. júní 1917. Var sæmdur heiðursmerki (Military Medal), fyrir að taka yfirmann og þrjá óbreytta liðsmenn þýzka til fanga. Hann tók þátt í síðustu atlögunni, 10. nóv. 1918, við Valenciennes á Frakklandi, og Mons. Kom heim aftur 21. júní 1919, og stundar nú bú sitt við Piney, Man.

*JÓN GILBERT JÓNSSON (sjá III).*



## SIGURÐUR JÓNSSON.

Fæddur 19. nóvember 1878 á Eskifirði í Suður-Múlasýslu. Foreldrar: Jón sýslumaður á Eskifirði Ásmundsson prests í Odda, Jónsens og Þuríður Hallgrímsdóttir prófasts á Hólmum í Reyðarfirði; þau hjón bjuggu á Lambeyri við Eskifjörð. Sigurður gekk í 223. canadisku herdeildina 20. apríl 1916. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi við Passchendale, Arras, Amiens, Canal du Nord og Somain. Var með í að veita Þjóðverjum eftirför inn til Köln á Þýzkalandi. Kom aftur til Canada 4. maí 1919. Sigurður stundaði landbúnað við Hayland P. O., Manitoba, áður en hann gekk í herinn, og einnig nokkru eftir að hann kom heim aftur. Fór síðar með móður sinni heim til Íslands.

## STEFÁN JÓNSSON.



Fæddur að Innisfail, Alberta, 30. ágúst 1890. Sonur þeirra Sigurbjörns Jónssonar, ættaðs frá Syðra-Álandi í Þistilfirði í Þingeyjarsýslu, og Vilhelmínu Sæmundsson frá Hóli á Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu. Hann innritaðist í herinn þann 25. febrúar 1916. Fór frá Canada 15. júlí 1916. Tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge, Passchendale, Amiens Hill 70 og Arras. Særðist við Passchendale, og í annað sinn við Arras. Hann er giftur og heitir kona hans Margrét. Heimili hans var í Vancouver, B. C., og vann hann við trésmíði. Hann kom heim aftur 17. maí 1919.

*FRIÐRIK JOSEPHSSON* *(sjá III).*

## HALLGRÍMUR JÚLÍUS JOSEPHSON.



Fæddur að Vestaralandi í Axarfirði árið 1872. Foreldrar: Joseph Björnsson Josephssonar og Málmfríður Hallgrímsdóttir, er bjuggu að Vestaralandi. Hallgrímur gekk í 223. herd. 21. maí 1916 og sigldi til Englands 23. apríl 1917. Varð þar fyrir meiðslum við loftskipaárás er Þjóðverjar gerðu á bæinn Shorncliffe, þar sem hann var þá við heræfingar. Hann komst því ekki á vígvöll. Var leystur frá herþjónustu og kom aftur til Canada í árslok 1917. Stundar nú búskap í Elfrosbygð í Saskatchewanfylki.

## ÓLI JOSEPHSON.



Fæddur 22. janúar 1893 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Björn Josephson frá Flatey á Breiðafirði og Þóra Guðmundsdóttir frá Broddanesi í Bitrusveit í Strandasýslu, nú til heimilis í Wynyard, Sask. Óli gekk í 197. herd. árið 1916 og fór þá til Englands. Vann þar um tíma að viðartekju. Fór svo til Frakklands og vann þar að hergagnaflutningum. Hann kom aftur til Canada vorið 1918. Stundar nú landbúnað.



## HÁLFDAN GEORG JÚLÍUS, M. M.

Fæddur í Winnipeg árið 1896. Foreldrar: Júlíus Jónasson Júlíus frá Miðhópi í Víðidal í Húnavatnssýslu og Kristín Sigurðardóttur frá Svalbarði við Eyjafjörð. Hálfdan gekk í 183. herd. 16. marz 1916 og hélt áleiðis til herstöðvanna í sept. það ár. Tók þátt í orustum við Passchendale, Lens, Arras, Amiens og Cambrai. Í Amiensorustunni varð hann með flokki manna viðskila við aðalherdeildina og var þá ráðist á þá af fjölmennum hópi Þjóðverja; í þeirri viðureign féllu allir félagar Hálfdans nema einn, og með honum varði hann vígi sitt í fullar 30 klukkustundir með vélbyssu, sem hann stýrði, þar til honum barst hjálp. Fyrir þessa vörn var hann sæmdur "Military Medal". Hann særðist einu sinni, en var þó vinnufær, þegar hann kom aftur til Canada 9. ágúst 1919. Hann vinnur fyrir félagið, sem gefur út dagblaðið Free Press í Winnipeg.



## JÚLÍUS JÓNASSON JÚLÍUS.

Fæddur 13. september 1863 að Miðhópi í Víðidal í Húnavatnssýslu. Foreldrar hans: Jónas Jónasson, ættaður af Vatnsnesi í Húnaþingi, og Júlíana Gunnarsdóttir frá Yxnatungu í Víðidal. Júlíus gekk í 183. herd. 24. apríl 1916. Fór til Evrópu 20. marz 1917. Tók ekki þátt í orustum, en vann ýmsa nauðsynjavinnu, og þar með við eitt af sjúkrahúsum Canadahersins á Englandi. Hann kom aftur til Canada 14. júlí 1919. Júlíus er timbursmiður að iðn. Kvæntur Kristínu Sigurðardóttur frá Svalbarði við Eyjafjörð. Þau hjón eru til heimilis í Winnipeg.



## ÓLI GUNNAR JÚLÍUS.

Fæddur árið 1888 á Vopnafirði á Íslandi. Foreldrar: Júlíus Jónasson Júlíus frá Miðhópi í Víðidal í Húnavatnssýslu og Kristín Sigurðardóttir frá Svalbarði við Eyjafjörð. Óli gekk í 183 herd. í febr. 1916. Hann tók þátt í orustum við Passchendale, Vimy Ridge, Lens, Arras, Amiens og Cambrai. Særðist ekki og kom aftur til Canada í marz 1919. Hann vinnur að prentiðn fyrir Stovel-félagið í Winnipeg.

*Lieut. MAGNÚS SIGURÐSSON KELLY (sjá III).*

*BALDUR KRISTJÁNSSON. (sjá III).*



## Lieut. WILHELM KRISTJÁNSSON.

Fæddur að Otto P. O., Manitoba, 28. desember 1896. Foreldrar: Magnús Kristjánsson, Sigurðssonar, og Margrétar Sigurðardóttur frá Selárdal í Dalasýslu, og Margrét Dagbjört Daníelsdóttir, Sigurðssonar frá Hólmlátrum í Dalasýslu. Wilhelm gekk í 107. canadisku herdeildina sem undirforingi þann 29. janúar 1916 og fór með þeirri deild til Evrópu síðla sumars það sama ár. Hann tók þátt í orustu við Vimy Ridge og særðist þar. Kom aftur til Canada í maí 1919. Hann stundar háskólanám.

## EDWARD LESSARD.

Fæddur í fylkinu British Columbia um 1895, eftir því sem næst verður komist. Faðir hans er af frönskum ættum og heitir Alphonse Lessard, en móðir hans er Katrín Árnadóttir, fædd á Íslandi, en eigi getur hvar. Hún býr við Teulon í Manitoba. Edward gekk í 107. canadisku hersveitina 12. febrúar 1916, og með henni fór hann frá Winnipeg 12. september 1916. Var með herdeild þessari til stríðsloka. Býr nú með móður sinni að Teulon.



## INGIMAR FRANKLIN LINDAL.

Fæddur að Garðar, Norður Dakota, U. S. A., 17. desember 1888. Fóstursonur Jóns Jónatanssonar Líndal og Ingibjargar konu hans, sem bjuggu að Vatnshorni í Kirkjuhvammshreppi í Húnavatnssýslu. Gekk í 223. herd. 18. maí 1916. Vann að hergagnakeyrslu á hersvæði Breta á Frakklandi. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 19. maí 1919. Hann er kvæntur Sigríði Björgu Ólafsdóttur, Kristjánssonar. Þau hjón stunda landbúnað.



## JOHN LINDAL.

Fæddur 10. maí 1886 að Árdal í Andakíl í Borgarfjarðarsýslu. Foreldrar: Jón Hannesson og Kristjana Jónsdóttir, er bjuggu að Heggsstöðum í Borgarfirði. Gekk í 223. herd. 9. marz 1916. Varð fyrir eiturgasi á vígvelli; lá lengi og þungt haldinn af afleiðingum þess. Kom aftur til Canada 29. marz 1919. Stundar skósmíði. Hann er kvongaður Margrétu Ólafsdóttur frá Kvíghúsum í Grindavík í Gullbringusýslu. Þau hjón hafa aðsetur í Winnipeg.

*SKÚLI G. LINDAL (sjá III).*

*EINAR STEFANSSON LONG (sjá III).*



## GUÐMUNDUR LUNDAL.

Fæddur í Winnipeg 17. nóvember 1891. Foreldrar: Árni Guðmundsson Lundal, Guðmundssonar, frá Arnþórsholti í Lundareykjadal, og Margrét Sigurðardóttir frá Jaðri á Akranesi. Guðmundur gekk í 200. herd. 14. marz 1916. Tók þátt í orustum við Hill 70, Passchendale, Amiens, Arras, Cambrai, Valenciennes og Mons. Kom aftur til Canada 26. apríl 1919, þá vinnufær.



## VILHJÁLMUR G. LUNDAL, M. M.

Fæddur 5. janúar 1897. Foreldrar: Gísli Guðmundsson, Guðmundssonar og Guðrúnar Gísladóttur, er bjuggu að Arnþórsholti í Lundareykjadal í Borgarfjarðarsýslu, og Halla Ingveldur Eggertsdóttir (látin) Jónssonar, og Sigríðar Jónsdóttur, er bjuggu að Tandraseli í Mýrasýslu. Hann gekk í herinn 6. apríl 1916 og sigldi til Evrópu mánuði síðar. Hann tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge, Passchendale, Amiens, Arras og Valenciennes. Særðist ekki. Hlaut "Miltary Medal" fyrir skyldurækni og hugrekki. Kom aftur til Canada í maí 1919. Stundar nú landbúnað með foreldrum sínum að Deer Horn P. O., Manitoba. Áður en Vilhjálmur gekk í herinn, stundaði hann nám í Saskatoonborg í Saskatchewanfylki.

## ÓLI SIGURBJÖRNSSON LYNGHOLT.

Býr í Big Point bygð í Manitoba. Hann mun hafa gengið í 223. herdeildina árið 1916. Um ætt hans er ókunnugt. Upplýsingar hafa engar fengist um hann.



## BJÖRN MAGNÚSSON.

Fæddur í Winnipeg árið 1894. Sonur Sigurðar Magnússonar, Sigurðssonar prests að Auðkúlu í Húnavatnssýslu, og Unu Jónsdóttur, Jóhannssonar, frá Litlu-Þverá í Miðfirði. Björn gekk í 222. herd. 2. marz 1916 og fór til Englands í okt. það ár. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Amiens og Arras. Særðist tvisvar, fyrst við Vimy Ridge 2. apríl 1917 og síðar við Arras, í Monchy-bardaganum mikla, 29. ágúst 1918. Hann kom aftur til Canada 31. desember 1919, og er, þegar þetta er ritað, sem næst alheill orðinn. Áður en hann fór í herinn, stundaði hann landvinnu með foreldrum sínum að Piney, Manitoba.

## GÍSLI MAGNÚSSON.

Fæddur 2. marz 1863 á Gunnfríðarstöðum á Ásum í Húnaþingi. Faðir hans var Magnús Snæbjörnsson, Snæbjörnssonar, prests í Grímstungu, Halldórssonar biskups, en móðir hans og kona Snæbjarnar yngra var Margrét Hinriksdóttir, ættuð af Hvalfjarðarströnd. Gísli kom frá Íslandi til Winnipeg 17. júlí 1894 og hefir átt þar heima að mestu leyti síðan. Hann gekk í 223. hersveitina 10. marz 1916 og var með henni til 12. apríl árið eftir, að hann var leystur frá herþjónustu, þótti eigi nógu hraustur til að fara á orustuvöll.



GUÐMUNDUR BJÖRGVIN MAGNÚSSON.

Fæddur 6. júní 1887. Sonur Magnúsar Jóhannessonar frá Kálffelli í Vopnafirði, nú búandi að Selkirk, Manitoba, og Ragnhildar Guðmundsdóttur( nú látin). Guðmundur gekk í 223. herd. 27. marz 1916, en vegna óhreysti var hann ekki sendur á vígvöll og var leystur frá herþjónustu 23. ágúst 1916.

*GUÐMUNDUR Ó. MAGNÚSSON (sjá III).*



HALLUR ENGILBERT MAGNÚSSON.

Fæddur í Skagafirði á Íslandi 17. ágúst 1876. Foreldrar: Magnús Sölvason og Ragnhildur Grímsdóttir, ættuð úr Skagafjarðar- og Húnavatnssýslum. Gekk í 108. herd. 4. janúar 1916. Tók þátt í orustu við Vimy Ridge og varð þar fyrir eiturgasi. Hann kom aftur til Canada 16. janúar 1918. Hann er kvæntur Guðrúnu Sveinbjarnardóttur. Hallur hefir Billiard-stofu í Winnipeg.



KRISTJÁN SIGURÐUR P. MAGNÚSSON.

Fæddur 17. desember 1895 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Pétur Jóhannesson Magnússon frá Hóli í Tungusveit í Skagafirði og Kristjana Benediktsdóttir frá Einarsstöðum í Lögmannshlíð í Eyjafirði. Kristján gekk í 223. herd. 8. apríl 1916. Hann veiktist við heræfingar í Manitoba og var leystur frá herþjónustu 30. nóvember árið 1917. Stundar landbúnað að Framnes P. O., Manitoba.



## LEIFUR CHRISTOPHER MAGNÚSSON.

Fæddur 14. ágúst 1899 á Seyðisfirði á Íslandi. Foreldrar: Hallur E. Magnússon og Guðrún Sveinbjarnardóttir ættuð úr Skagafjarðar- og Húnavatnssýslum. Gekk í 108. herd. 4. janúar 1916. Hann kom aftur til Canada 15. maí 1919, þá vinnufær. Hann er kvæntur og búsettur í Winnipeg.



## MAGNÚS VALDIMAR MAGNÚSSON.

Fæddur á Akureyri 26. apríl 1889. Sonur Páls Friðriks Magnússonar og Guðnýjar Friðbjarnardóttur Steinssonar frá Akureyri, nú búandi að Leslie, Sask. Magnús gekk í 223. herdeildina 19. marz 1916 og fór með henni til Evrópu í apríl 1917. Á Frakklandi tók hann þátt í flestum orustum frá 1. júlí 1917, þar til stríðinu lauk. Hann kom aftur til Canada 10. apríl 1919, þá vinnufær, og stundar nú landbúnað.

## ÓLAFUR MAGNÚSSON.

Fæddur 2. júlí 1895 að Gröf í Laugardal í Árnessýslu. Foreldrar: Magnús Ólafsson og Eygerður Egilsdóttir, ættuð úr Grímsnesi í Árnessýslu. Gekk í 108. herd. 29. marz 1916. Sigldi til Evrópu 13. september það ár. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi við Vimy Ridge, Lens, Amiens og á ýmsum fleiri stöðum. Varð fyrir gaseitrun árið 1917. Særðist af kúlu í Amiensbardaganum í ágústmánuði 1918. Kom aftur til Canada 14. febrúar 1919. Stundar nú landbúnað að Lundar, Manitoba.



## SIGURÐUR S. MARKÚSSON.

Fæddur að Blöndudalshólum í Blöndudal í Húnavatnssýslu 24. desember 1872. Sonur séra Markúsar Gíslasonar. Hann innritaðist í 108. herdeildina 17. janúar 1916 og fór með henni til Englands í septembermánuði það ár. Á Englandi var hann færður yfir 175. skozku herdeildina. En brátt dæmdist hann ófær til að sendast á vígvöll, þá 45 ára gamall, og var því sendur heim til konu og barna í Selkirkbæ, þar sem hann á heima.



## HELGI MARTEINSSON.

Fæddur árið 1866 í Álftagerði í Mývatnssveit í Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Marteinn Guðlaugsson frá Álftagerði og Sigríður Guðmundsdóttir, Pálssonar, frá Brúnagerði í Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu. Helgi gekk í 223. canadisku fótgönguliðsdeildina árið 1916. Var skipaður til herþjónustustarfa í Canada. Fór því ekki úr landi. Var leystur frá herþjónustu við stríðslok í nóvember 1918. Hann er kvæntur Gróu Magnúsdóttur, Jónssonar skálds frá Bægisá í Eyjafjarðarsýslu. Þau hjón búa í Winnipeg.



## ÓSKAR J. MELSTED.

Fæddur að Garðar P. O., Norður Dakota, U. S. A., 8. febrúar 1898. Sonur Jóhannesar Magnússonar Melsted frá Krossi í Ljósavatnsskarði í Þingeyjarsýslu, og Jóhönnu Jóhannesdóttur úr Suður-Þingeyjarsýslu. Óskar gekk í 108. herdeildina 23. febrúar 1916. Fór til Evrópu í september það ár og til Frakklands snemma á árinu 1917. Frá þeim tíma tók hann þátt í mörgum stórorustum alt fram að 1. október 1918, að hann særðist í orustu við Cambrai og var óvígfær eftir það. Hann fékk lausn frá herþjónustu 2. maí 1919, og hélt þá til Wynyardbæjar, þar sem faðir hans býr.



## JOHN JONATHAN NICKLIN.

Fæddur 25. ágúst 1898 að McLean P. O., Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Andrew Nicklin, af skozkum ættum, og Vilhelmína kona hans, Jónsdóttir Jónatanssonar frá Miðhópi í Húnavatnssýslu. John gekk í 184. canadisku herdeildina 28. marz 1916. Sigldi til Englands 1. nóvember það ár. Hann tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens og Arras. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 9. júní 1919. Stundar nú landbúnað.

*JOSEPH NICKLIN (sjá III).*



## GÍSLI PÉTURSSON NORMAN.

Fæddur 19. júní 1895 að Syðstu-Grund í Skagafirði. Foreldrar: Pétur Jón Jónsson Norman og Ingunn Pálmadóttir, er bjuggu að Syðstu-Grund. Gísli gekk í 123. herdeildina 17. marz 1916 og sigldi til Englands 3. maí 1917. Hann tók þátt í orustum við Amiens og Cambrai. Særðist 1. október 1918. Kom aftur til Canada 1. marz 1919, þá vinnufær. Stundar nú landbúnað með föður sínum að Winnipegosis, Manitoba. Móðir hans er látin.



## Sergeant GÍSLI ÁGÚST ODDLEIFSSON.

Fæddur að Hvoli í Húnavatnssýslu á Íslandi. Foreldrar: Sigurður Oddleifsson frá Kolbeinsá í Strandasýslu og Margrét Gísladóttir frá Húnsstöðum í Húnavatnssýslu (nú dáin). Gekk í 196. herd. með foringja-nafnbót 19. febrúar 1916, og barðist á Frakklandi, þar til hann féll sem fangi í hendur Þjóðverja, í hinu mikla áhlaupi þeirra á 5. herdeild Breta í marzmánuði 1918. Hann særðist ekki og var látinn laus að vopnahléi fengnu. Kom aftur til Canada 3. maí 1919. Hann er vélfræðingur og stundar nú nám í Boston, Mass.

*SVEINN HJALTALIN ODDSSON (sjá III).*



## Sergeant CLARENCE O. OIE.

Fæddur 27. september 1891 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Ole E. Oie, frá Oye í Þrándheimi í Noregi og Guðrún Sigríður Ólafsdóttir frá Þríhyrningi í Eyjafjarðarsýslu, nú búandi að Roseau, Minn. Clarence gekk í herinn 6. september 1916. Sigldi til Englands sem Sergeant í október 1918. Var leystur frá herþjónustu 22. apríl 1919. Er járnbrautarþjónn.

*WILLIAM HENRY O'DELL (sjá 111).*



## EINAR MARTEINN ÓLAFSSON.

Fæddur í Winnipeg 28. febrúar 1898. Foreldrar: Snæbjörn Ólafsson frá Ferjukoti í Borgarfjarðarsýslu (dáinn í Winnipeg árið 1901) og Ingiríður Einarsdóttir, fædd að Borg í Mýrasýslu. Marteinn gekk í 223. herd. 10. apríl 1916 og tók þátt í mörgum orustum bæði á Frakklandi og í Belgíu, svo sem við Lens, Passchendale, Merricourt, Neuville, Vitasse, Kemmel, Hill 70, Amiens og Arras og Mons í Belgíu. Hann var þar staddur, er vopnahlé samdist, og þá sendur þaðan á eftir óvinahernum inn á Þýzkaland. Þaðan fór hann í janúar 1919 áleiðis til Canada, og kom til Winnipeg í maílok það ár. Hann hefir nú fengið sér ábúðarland og býst við að stunda landbúnað framvegis.



## GUÐMUNDUR ÓLAFSSON.

Fæddur að Wild Oak P. O. 19. marz 1899. Foreldrar hans: Ingimundur Ólafsson, Jónssonar, frá Víðivöllum í Staðardal í Strandasýslu, og Katrín Tómasdóttir, Ingimundarsonar, og Guðrúnar Egilsdóttur, af Suðurlandi. Hann gekk í 223. herd. í marz 1916, ásamt föður sínum. Fór til Englands 23. apríl 1917 og þaðan til Frakklands, og barðist þar í mörgum stórorustum um 11 mánaða tíma, þar til hann særðist, svo að hann varð óvígur, 30. apríl 1918. Í eitt skifti var hann samfleytta 48 sólarhringa í skotgröfunum, og í annað sinn voru feld yfir hann jarðgöng og þrjá af félögum hans, og var þá, er hann náðist út, orðinn grár fyrir hærum, þó hár hans sé nú búið að ná eðlilegum lit aftur, síðan hann kom heim, 27. desember 1918.

## JÓHANN ÓLAFSSON.



Fæddur í Selkirk, Man., 27. október 1891. Sonur Jóns Ólafssonar frá Syðstabæ í Syðri-Steinsmýri í Vestur-Skaftafellssýslu og Margrétar Þorbjarnardóttur frá Vaðmúlastaðahjáleigu í Austur-Landeyjum í Rangárvallasýslu, sem búið hafa í Selkirkbæ síðan 1884. Jóhannes gekk í 223. herdeildina 29. marz 1916. Þegar hann kom til Englands, var hann talinn óhæfur til vopnaburðar á hervelli, vegna heilsubrests, og var því skipaður aðstoðarmaður við sjúkrahús á Englandi. Eftir þriggja ára herþjónustu var honum veitt fararleyfi til Canada í ágúst 1919. Hann stundar nú tinsmíði í Selkirkbæ.

*ÓLI GUÐNASON ÓLASON (sjá III).*

## HELGI OLIVER.



Fæddur 11. nóvember 1894 að Brú P. O., Manitoba. Foreldrar hans: Albert Jónsson Oliver, Ólafssonar, amtsritara á Möðruvöllum í Eyjafjarðarsýslu, og Lilja Rögnvaldsdóttir, Jónssonar frá Hólkoti á Reykjaströnd í Skagafjarðarsýslu. Gekk í 223. herd. 4. apríl 1916. Tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens, Monche Le Preux, Cambrai og Mons. Særðist ekki.Kom aftur til Canada 1. apríl 1919. Stundar nú landbúnað með foreldrum sínum að Brú P. O.

## GUÐMUNDUR OLIVER, M. M.



Fæddur í Skagafirði á Íslandi 21. marz 1880. Foreldrar: Stefán S. Oliver og Hallfríður Gunnarsdóttir, bæði ættuð úr Skagafirði. Guðmundur gekk í 223. herd. 15. marz 1916. Hann tók þátt í orustum við Amiens, Cambrai og Villinchy. Særðist einu sinni. Var sæmdur heiðursmerkinu "Military Medal" fyrir hugrekki á orustuvelli. Kom aftur til Canada 21. ágúst 1919, þá vinnufær. Guðmundur er kvongaður Þóru Illugadóttur, Ólafssonar frá Selkirk, Manitoba. Þau hjón búa að Framnes P. O., Manitoba. Guðmundur er trésmiður.



## ARTHUR EYJÓLFUR OLSON.

Fæddur í Glenboro, Manitoba, 18. júní 1900. Foreldrar: Guðmundur Eyjólfsson Olson frá Geitdal í Skriðdal í Suður-Múlasýslu, og Gíslína Gísladóttir frá Höllum í Kinn í Suður-Þingeyjarsýslu. Arthur bjó með foreldrum sínum í Selkirk, Man., og stundaði skólanám, þegar hann gekk í 223. herd. 7. apríl 1916. En vegna þess, hve hann var ungur, var hann ekki sendur úr landi og leystur frá herþjónustu 23. febrúar 1917. Hann stundar nú trésmíðar.



## DR. BALDUR H. OLSON.

Fæddur í Winnipeg 2. apríl 1888. Foreldrar: Haraldur Jóhannsson Olson og Hansína Einarsdóttir, bæði ættuð frá Húsavík í Þingeyjarsýslu· búandi í Winnipeg. Baldur gekk í 223. herdeildina, með kapteins-nafnbót, 3. apríl 1916. Í október það ár var hann skipaður yfirlæknir á hermannasjúkrahúsi í Albertafylki, og í febrúar 1917 var hann skipaður yfirlæknir á hermannasjúkrahúsi í British Columbia, og var þar til októbermánaðar 1919. Í því sjúkrahúsi voru 120 rúm, og fékst hann aðallega við að lækna brjóstveika hermenn. Dr. Olson er kvæntur Sigríði Jónsdóttur, Jónssonar frá Mýri í Bárðardal í Þingeyjarsýslu, og konu hans Kristínar Jónsdóttur. Dr. Olson og kona hans búa í Winnipeg, Manitoba.



## GUÐMUNDUR FRANKLIN OLSON.

Fæddur 19. apríl 1896 að Glenboro, Manitoba. Foreldrar: Guðmundur Eyjólfsson frá Geitdal í Skriðdal í Suður-Múlasýslu og Gíslína Gísladóttir frá Höllum í Þingeyjarsýslu. Guðmundur gekk í 223. herd. 3. apríl 1916 og tók þátt í orustum við Passchendale, Cambrai, Arras, Amiens og Mons. Hann særðist í síðari Mons-orustunni. Kom aftur til Canada 20. maí 1919, þá vinnufær. Hann átti heima í Selkirkbæ áður en hann gekk í herinn og stundaði fiskiveiðar og landbúnaðarvinnu.

## JÓHANNES ÓLAFUR HARALDSSON OLSON.



Fæddur í Winnipeg 2. marz 1894. Sonur Haraldar Jóhannessonar Olson og Hansínu Einarsdóttur, bæði ættuð af Húsavík í Þingeyjarsýslu. Jóhannes gekk í 223. herdeildina 25. marz 1916, en vegna heyrnardeyfu var hann leystur frá herþjónustu eftir 11 mánaða æfingar hér í landi. Piltur þessi var námsmaður og er útskrifaður tannlæknir frá læknadeild háskólans í Torontoborg, Ontario.

*PÉTUR ALEXANDER OLSON (sjá III).*

## GUÐMUNDUR LÚÐVÍK OTTENSON.



Fæddur að Árnes P. O., Manitoba, 10. júlí 1899. Foreldrar: Nikulás Össurarson, Össurarsonar hreppstjóra á Hvallátrum í Barðastrandarsýslu, og Anna Guðmundsdóttir Stefánssonar, frá Ferjukoti við Hvítá í Borgarfirði suður. Guðmundur gekk í 223. herd. 15. apríl 1916, þá tæpra 17 ára gamall. Fór til Englands í apríl 1917, og á vígvöll á Frakklandi var hann kominn 17. sept. 1917. Þar tók hann þátt í ýmsum orustum, þar til 21. maí 1918, að hann særðist af skoti gegnum vinstra lungað og var eftir það óvígur. Hann kom aftur til Canada 29. janúar 1919, og ber þess lítil útvortis merki, að hann hafi þolað slíka mannraun. Guðmundur er hinn gervilegasti maður og reyndist gildur hermaður, þar til hann særðist.

## HARALDUR PÁLMASON.



Fæddur 19. janúar 1889 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Erlendur Pálmason frá Ytragili í Langadal í Húnavatnssýslu og Guðríður Árnadóttir, ættuð úr Skagafirði. Gekk í 108. herd. 15. janúar 1916. Sigldi til Evrópu 12. september það ár. Tók þátt í orustum á Frakklandi við Vimy Ridge, Hill 70 og Lens. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 28. desember 1918. Stundar nú verzlun að Kandahar, Sask. Kona hans, sem nú er dáin, var Jórunn, dóttir Stefáns Sigurðssonar kaupmanns að Hnausa, Man., og konu hans Valgerðar Jónsdóttur.



## MAGNÚS PÁLMASON.

Er fæddur í íslenzku bygðinni í Norður Dakota um 1890. Foreldrar hans voru þau hjón Erlendur Pálmason (löngu dáinn) frá Ytragili í Langadal í Húnavatnssýslu og Guðríður Árnadóttir, ættuð úr Skagafirði. Magnús gekk í herinn canadiska við ársbyrjun 1916 og fór til Englands seint á sama ári. Þar var hann aðeins stuttan tíma áður en hann var sendur til Suður-Afríku. Nokkru eftir að þangað kom, veiktist hann, þoldi ekki loftslagið, og var lengi hættulega veikur. Kom til baka til Winnipeg í júnímánuði 1919, þá nær jafngóður að heilsu.



## EBENEZER PÁLSSON.

Fæddur 7. febrúar 1890 í Winnipeg. Sonur Páls Jónassonar og Oddfríðar Þorleifsdóttur, búandi að Nes P. O., Man. Hann gekk í 223. herdeildina 3. marz 1916. Fór með henni til Evrópu 23. apríl 1917 og til Frakklands í sept. það ár. Var frá þeim tíma stöðugt í skotgröfum, þar til vopnahlé var sett. Tók þátt í öllum þeim orustum, er háðar voru á svæðum þeim, sem hann starfaði á. Að stríðinu loknu var hann færður yfir í eina af verkfræðingadeildunum, og vann í henni, þar til hann fékk heimfararleyfi til Canada á árinu 1919.

*SVEINBJÖRN PÁLSSON (sjá III).*



## BJÖRN M. PAULSON.

Sonur Páls Jónssonar frá Tungu í Fáskrúðsfirði og Ólafar Níelsdóttur. Fæddur í Winnipeg 15. maí 1886. Var hjá foreldrum sínum að Gerald, Sask., og stundaði lögfræðisnám, áður en hann gekk í 223. herd. 9. marz 1916. Hann tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens og Arras á Frakklandi, og kom aftur til Canada 12. júní 1919, þá vinnufær. Hélt þá áfram laganámi sínu og lauk því. Stundar nú lögfræðisstörf á eigin reikning í Langreuth, Manitoba.



## JÓHANN HANNIBAL BJARNASON PAULSON.

Fæddur í Calgary í Albertafylki í Canada 20. marz 1892. Stundaði fiskiveiðar á Winnipegosisvatni í Manitoba, áður en hann gekk í 223. herdeildina í marz 1916. Foreldrar hans: Bjarni Paulson frá Fáksstöðum í Þingeyjarsýslu og Ólína Jóhannsdóttir. Jóhann tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi frá því í ágúst 1917 til stríðsloka. Kom aftur til Canada í maí 1919. Hann særðist einu sinni, en var orðinn vinnufær, er hann kom heim aftur. Hann stundar nú sömu atvinnu og hann áður gerði.



## LOUIS HAROLD PAULSON.

Fæddur í Argylebygð í Manitoba 21. október 1896. Foreldrar: Kristján Paulson frá Tungu í Fáskrúðsfirði í S.-Múlasýslu og Jónína Þórunn kona hans frá Heiðarseli í Hróarstungu í N.-Múlasýslu. Louis gekk í 223. herd. 27. marz 1916. Fór til Evrópu 23. apríl 1917. Barðist í orustum við Lens, Cambrai og Passchendale. Særðist í hinni síðasttöldu. Kom aftur til Canada 10. apríl 1919, þá vinnufær, og stundar nú bændavinnu að fyrra heimili sínu, Gerald, Sask.



## SIGURBJÖRN PAULSON.

Fæddur 23. apríl 1885 í Borgarfirði austur. Foreldrar: Páll Geirmundarson og Guðfinna Guðmundsdóttir, bjuggu í Kóreksstaðagerði í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu. Sigurbjörn gekk í 184. herd. 7. febr. 1916. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge 9.—27. apríl og 1. maí, Hill 70 15. ágúst 1917. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 22. febrúar 1918, þá vinnufær. Stundar fasteignaverzlun í Winnipeg. Sigurbjörn er tvíkvæntur, fyrri kona hans látin; þau eignuðust einn son, fæddan í ágústmánuði 1910.

*SIGURJÓN PAULSON (sjá III).*



## THORSTEINN GUÐJÓN PAULSON.

Fæddur í Naustum á Höfðaströnd í Skagafjarðarsýslu 25. apríl 1884. Foreldrar hans: Páll Jónsson (dáinn) frá Minna-Hofi á Höfðaströnd og Guðbjörg Guðmundsdóttir frá Efra-Lýtingsstaðakoti í Tungusveit. Guðbjörg fluttist frá Íslandi til Winnipeg sumarið 1888; varð sonur hennar þá eftir heima, en kom nokkru seinna. Þorsteinn gekk í herinn 8. marz 1916. Var við heræfingar í Canada um tíma. Því næst sendur til Englands og þaðan bráðlega til Frakklands. Var hann þar til stríðsloka og var í hersveitum, er sendar voru inn á Þýzkaland. Hann kom heim aftur í júní 1919. Er kvæntur Júlíönu Helgadóttur Oddson við Lundar. Þau búa að Davis Point, Manitoba.



## JÓHANN J. PETERSEN.

Frá Leslie, Sask. Fæddur á Siglufirði á Íslandi. Sonur Jacobs Petersens og Önnu Jónsdóttur frá Akureyri, dóttur Jóns Jónassonar og Guðnýar Guðmundsdóttur. Jóhann innritaðist í 223. herdeildina í marzmánuði 1916, þá liðugt tvítugur, og fór til Englands með henni 1917. Var þar við skólanám um tíma. Í september um haustið var hann færður yfir í 111. deildina, og með henni fór hann til Frakklands þann 14. september 1917. Þegar þangað kom, var hann settur í 107. herdeildina, og með henni var hann, þar til í febrúar 1918, að hann var á ný færður og þá settur í Battalion No. 2, og þar var hann, er hann særðist 27. september 1918. Var hann skotinn í hægra handlegginn og fluttur á sjúkrahús á Englandi 1. október.



## BJÖRN PÉTURSSON.

Fæddur 2. október 1867 á Sléttu í Fljótum í Skagafjarðarsýslu. Foreldrar: Pétur Jónsson og Björg Stefánsdóttir, bjuggu á Sléttu um 30 ára skeið. Gekk í 197. herd. 11. apríl 1916, og vann á Englandi að timburtekju. Kom aftur til Canada í árslok 1918; var eftir það í herþjónustu í Winnipeg til 25. apríl 1919. Björn er kvæntur Dorotheu Jóelsdóttur, Jónassonar, ættaðs úr Höfðahverfi í Þingeyjarsýslu. Þau hjón fluttu til Canada 1904; hafa búið í Winnipeg síðan.

## JÓHANN PÉTURSSON.



Fæddur 16. apríl 1888 að Þverholti í Mýrasýslu. Foreldrar: Þorvaldur Einarsson og Þorbjörg Runólfsdóttir, bæði ættuð úr Mýrasýslu; en Jóhann ólst upp hjá Þórði Péturssyni frá Smiðjuhóli og Guðrúnu Hallsdóttur frá Leirulæk í Mýrasýslu, nú búandi í Selkirkbæ í Manitoba. Jóhann tók sér því nafn fóstra síns og kallar sig Pétursson. Hann gekk í 223. herd. 29 .júní 1916. Fór til herstöðvanna í maí 1917. Var á orustuvelli frá þeim tíma til stríðsloka og tók þátt í ýmsum orustum, en særðist ekki. Hann stundar "Steamfitters"-iðn í Selkirk, eins og hann gerði áður en hann gekk í herinn. Hann er kvæntur Kristbjörgu Einarsdóttur Johnson frá Hnausa P. O. í Bifröstsveit í Manitoba.

*MAGNUS PÉTURSSON (sjá III).*

*ARCHIBALD JÓN POLSON (sjá III).*



## FRANK MULVEY POLSON.

Fæddur í Winnipeg 31. ágúst 1896. Foreldrar: Jóhann Polson, Gunnarssonar, frá Bakka í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu, og Jónína Loftsdóttir, ættuð úr Eyjafirði. Frank gekk í 100. herd. 16. marz 1916 og fór til Evrópu í september það ár. Hann tók þátt í orustu við Passchendale. Kom aftur til Canada 12. júní 1919. Áður en hann gekk í herinn var hann skrifstofuþjónn hjá Great West lífsábyrgðarfélaginu í Winnipeg og stundar nú sömu atvinnu.



## ANDRÉS RASMUSSEN.

Fæddur 14. júlí 1871 á Seyðisfirði á Íslandi. Foreldrar: Andrés og Anna Rasmussen, er þá bjuggu þar í kaupstaðnum. Gekk í 223. herd. 28. marz 1916, en sökum aldurs var hann skipaður til skrifstofustarfa á Englandi, þar til hann var leystur frá herþjónustu 30. maí 1919. Rasmussen er kvongaður og heitir kona hans Aðalborg. Þau hjón búa að Winnipegosis, Man., og stunda búskap.



FINNUR REYKDAL.

Fæddur 14. febrúar 1896 að Lundar, Manitoba. Foreldrar: Jón Árnason Reykdal, fæddur að Reykholtsdal í Borgarfirði suður, og Sigríður kona hans frá Kaldárbakka í Hnappadalssýslu. Finnur gekk í 223. herd. 20. apríl 1916. Hann tók þátt í orustu við Lens. Kom aftur til Canada 26. maí 1919. Stundar landbúnaðarvinnu.



THOMAS JOSEPH RIMMER.

Fæddur að Hallock, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Thomas Rimmer, ættaður af Englandi, og Ágústa Jónsdóttir, ættuð úr Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu. Thomas átti heima í Winnipeg og gekk í 107. herdeildina 3. janúar 1916. Sigldi til Evrópu í september það ár. Hann tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi. Særðist í bardögunum við Vimy Ridge og Passchendale. Kom aftur til Canada 6. desember 1918. Stundar nú járnsmíði á járnbrautaverkstæði í Winnipeg.

*JÓN GUNNAR ROGNVALDSSON (sjá III).*



CHRISTIAN J. SAMSON.

Fæddur 11. september 1886 á Seyðisfirði á Íslandi. Foreldrar: Jónas Samson frá Hávarðsstöðum í Þistilfirði og Katrín Ásmundsdóttir frá Seyðisfirði (bæði dáin). Christian gekk í 108. herd. 17. jan. 1916. Tók þátt í orustum við Hill 70 og Passchendale. Særðist í Passchendale-orustunni, svo að hann misti annan fótinn. Kom aftur til Canada 21. apríl 1919. Stundaði lögfræðisstörf í Lakota í Norður Dakota, U. S. A., áður en hann gekk í herinn. Stundar nú sömu störf í Wynyardbæ í Saskatchewanfylki.



SAMSON FREDERICK SAMSON.

Fæddur 18. apríl 1888 á Seyðisfirði á Íslandi. Foreldrar: Jónas Samson frá Hávarðsstöðum í Þistilfirði og Katrín Ásmundsdóttur frá Seyðisfirði. Gekk í 108. herd. 16. janúar 1916. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge og Hill 70. Særðist tvisvar. Kom aftur til Canada 21. desember 1918, þá vinnufær. Er kvongaður Önnu Jónsdóttur Thorsteinson og stundar bifreiða- og akuryrkjuvélasölu í Kandahar, Sask.



STEPHAN F. SAMSON.

Fæddur 22. marz 1886 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Friðbjörn Samsonarson frá Hávarðsstöðum í Þistilfirði og Jarðþrúður Gísladóttir frá Ytralóni á Langanesi, nú búandi að Garðar, Norður Dakota. Stephan gekk í herinn 27. júní 1916. Sigldi frá Bandaríkjunum 15. desember 1917. Var skipaður til þjónustu við hergagnaflutninga á Frakklandi, þar til hann fékk heimfararleyfi 19. marz 1919. Stundar nú landbúnaðarvinnu á búgarði föður síns, eins og hann gerði áður en hann gekk í herinn.

*EARL STANLEY SHORTT (sjá III).*



Sergeant SIGFÚS SIGFÚSSON.

Fæddur 27. janúar 1889 að Lundar, Manitoba. Foreldrar: Jón Sigfússon frá Nesi í Norðfirði og Anna Kristjánsdóttir, fædd á Akureyri á Íslandi. Foreldrar Önnu bjuggu að Látrum á Látraströnd. Gekk í 251 herdeildina sem undirforingi 18. september 1916. Hann stjórnaði flokki manna, sem vann að vöruflutningum með járnbrautum. Kom aftur til Canada 13. apríl 1919. Sigfús er háskólalærður búfræðingur og var kennari í þeirri grein áður en hann gekk í herinn. Er nú aðstoðar-yfirkennari á ríkis-fyrirmyndarbúinu í Brandon, Man. Hann er giftur konu að nafni Vilhelmína Sesselja.



## ELÍAS S. SIGURÐSSON.

Fæddur að Árborg, Manitoba, 20. nóvember 1890. Foreldrar: Sigurður Hafliðason, Sigurðssonar, og Guðrúnar Halldórsdóttur frá Kothóli í Álftanesshreppi, og Sigríður Jónsdóttir, Péturssonar, og konu hans Helgu Þorsteinsdóttur frá Litlu-Brekku í Mýrasýslu. Gekk í 223. herd. 15. marz 1916. Tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi, þar til í febrúar 1918, að hann sýktist af vosbúð í skotgröfum, og var frá því á sjúkrahúsi á Englandi, þar til í október 1918, að hann var sendur til Canada, þá enn svo veikur, að hann varð að leggjast á sjúkrahús í Winnipeg.



## EYJÓLFUR SIGURÐSSON.

Fæddur 17. júní 1886 í Húnavatnssýslu á Íslandi. Foreldrar: Sigurður Finnbogason, úr Skagafjarðarsýslu, og Elízabet Eyjólfsdóttir, úr Húnavatnssýslu. Faðirinn er dáinn, en móðir hans býr að Churchbridge, Sask. Eyjólfur gekk í 223. herd. 20. marz 1916. Tók þátt í orustum við Somme, Vimy Ridge og Cambrai. Kom aftur til Canada 5. júní 1919. Stundar nú landbúnað.



## JÓHANN KRISTINN SIGURÐSSON.

Fæddur á Teigi í Vopnafirði 5. maí 1892. Foreldrar: Jón Sigurðsson bóndi á Borg á Mýrum í Hornafirði í Austur-Skaftafellssýslu, og Kristín, dóttir Jóhanns Knúts Benediktssonar prests að Kálfafellsstað. Jóhann stundaði laganám í Winnipeg, en lét af því til þess að ganga í herinn í febrúarmánuði 1916, en vegna heilsubilunar var hann leystur frá herþjónustu á jólum 1916; tók þá aftur til laganámsins og fullkomnaði það 7. maí 1919. Stundaði þá lögfræðisstörf á eigin reikning, þar til hann dó, varð bráðkvaddur 15. júlí árið 1920.

## JÓN SIGURÐSSON.



Fæddur 30. júlí 1892 að Svignaskarði í Mýrasýslu. Sonur Sigurðar Sigurðssonar frá Melkoti og Ragnheiðar Þórðardóttur frá Leirá í Borgarfjarðarsýslu. Jón gekk í 108. herdeildina 18. febr. 1916. Fór frá Canada 9. apríl 1917 ,og var kominn á vígvöll Frakka síðari hluta sumars það ár. Tók þar þátt í ýmsum orustum, þar til hann særðist 9. september 1918. Hann fékk þá 9 sár, 7 í brjóstið, 1 í vinstra fótlegginn og 1 í hægri handlegg. Hann er ennþá máttvana í fætinum. Jón vann bænda- og keyrsluvinnu að Lundar, Man., áður en hann gekk í herinn, en síðan hann kom til baka til Canada, 5. júní 1919, hefir hann mátt heita ófær til vinnu. Starfar þó við kjötverzlun.

*MAGNÚS SIGURÐSSON (sjá III).*



## ÓLI SIGURÐSSON.

Fæddur árið 1889 að Bakkakoti á Seltjarnarnesi við Reykjavík. Foreldrar: Sigurður Jónsson (nú dáinn) og Þórdís Jónsdóttir, býr í Reykjavík. Óli gekk í herinn 3. janúar 1916, 107. herdeildina, og fór með henni til Englands 12. sept. s. á. Var á Frakklandi frá síðari hluta þess árs til stríðsloka. Kom aftur til Canada heill heilsu í maímánuði 1919. Stundar málaraiðn í Winnipeg.



## PÉTUR SIGURÐSSON.

Fæddur 12. marz 1888 á Reykjaströnd í Skagafirði. Foreldrar hans eru Sigurður Jónsson, ættaður úr Húnavatnssýslu (nú látinn), og Súsanna Sveinsdóttir frá Hólakoti á Reykjaströnd, býr nú í Albertafylki í Canada. Pétur vann á gufubát í Prince Rupert, B.C., áður en hann gekk í 197. herd. 8. ágúst 1916. Hann fór til Evrópu í janúar 1917 og var í orustum á Frakklandi í fulla 13 mánuði, og síðast á undanhaldi Breta frá Cambrai til Somme 1918. Særðist þó aldrei. Kom aftur til Canada 5. marz 1919.



## SIGURÐUR E. SIGURÐSSON.

Fæddur í Bifröstsveit í Nýja Íslandi. Foreldrar: Eggert Sigurðsson frá Álftanesi í Hraunhreppi í Mýrasýslu og Þorbjörg kona hans frá Þverholtum í sömu sveit, nú búandi í Selkirkbæ í Manitoba. Sigurður gekk í 223. herdeildina 29. marz 1916, og tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi alt til stríðsloka 1918. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 29. maí 1919. Sigurður er kvongaður Margrétu Jóhannsdóttur, Sólmundssonar, frá Gimli. Þau hjón búa nú í Selkirkbæ, þar sem Sigurður hefir tinsmíðaverkstæði.



## STEFÁN SIGURÐSSON.

Fæddur á Jórvíkurstekk í Breiðdal í Suður-Múlasýslu 28. júní 1862. Foreldrar: Sigurður Steingrímsson og Ragnheiður Jónsdóttir, er þar bjuggu. Stefán gekk í 197. herd. 24. marz 1916. Fékk lausn frá herþjónustu 13. febrúar 1917. Stundar landbúnað. Stefán er kvæntur Ragnhildi Kristófersdóttur.



## SVEINBJÖRN ANTON SIGURÐSSON.

Fæddur í Winnipeg 21. janúar 1902. Foreldrar: Stefán Sigurðsson frá Jórvíkurstekk í Breiðdal og Ragnhildur Kristófersdóttir. Sveinbjörn gekk í 197. herdeildina sem lúðurþeytari 12. marz 1916, þá 14 ára gamall. Var leystur frá herþjónustu 18. júlí sama ár. Vinnur nú að landrækt.



## GUÐMUNDUR SIGURJÓNSSON.

Fæddur 15. apríl 1883 í Suður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Sigurjón Guðmundsson og Friðfinna Davíðsdóttir. Þau bjuggu að Grímsstöðum við Mývatn. Guðmundur gekk í herinn 16. maí 1916. Hann var Sergeant í björgunarliði 27. herdeildarinnar, og var á vígvelli þar til vopnahlé var sett. Fylgdi brezka hernum inn á Þýzkaland og dvaldi þar 4 mánuði. Kom aftur til Canada 28. maí 1919. Guðmundur er verzlunarmaður í Reykjavík.



## CHRISTIAN SIVERTZ.

Fæddur 30. september 1897 að Point Roberts, Wash., U. S. A. Foreldrar: Christian og Elinborg Sivertz, bæði fædd á Íslandi. Christian gekk í 103. herdeildina 8. júlí 1916. Sigldi til Evrópu viku síðar. Tók þátt í orustum á Frakklandi, við Lens, Amiens, Arras, Cambrai og Valenciennes. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 4. ágúst 1919. Áður en Christian gekk í herinn var hann skólakennari í Victoria í British Columbia og bjó þar með foreldrum sínum. Eftir að hann kom úr hernum tók hann að stunda nám við fylkisháskólann í Vancouverborg.



## Sergeant GUSTAV SIVERTZ.

Fæddur í Victoria, B. C., 29. júlí 1895. Foreldrar: Christian og Elinborg Sivertz, bæði fædd á Íslandi. Gustav gekk í 103. canadisku herdeildina 7. júlí 1916. Sigldi til Evrópu viku síðar. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Amiens, Arras, Cambrai, Valenciennes og Mons. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 19. maí 1917, með heiðursskírteini fyrir snildarlega framsókn og björgun særðra af hervelli. Gustav bjó með foreldrum sínum í Victoriaborg og stundaði rafljósafræði áður en hann gekk í herinn, en er nú skógarvörður stjórnarinnar í B. C.

*HENRY GEORGE SIVERTZ (sjá III).*



## JÓHANN KÁRI SÓLMUNDSSON.

Fæddur 10. okt. 1897 að Gimli, Man. Foreldrar: Jóhann P. Sólmundsson, ættaður úr Borgarfirði suður, og Guðrún Jónasdóttir, Jóhannssonar, frá Álfhildarholti í Skagafirði. Gekk í 223. herd. 29. júní 1916. Tók þátt í orustum við Passchendale og víðar alt til stríðsloka. Hann kom aftur til Canada 15. júní 1919. Stundar landbúnað.

*JÚLÍUS VALTÝR STEFÁNSSON (sjá III).*



## RAGNAR ÁGÚST STEFÁNSSON.

Fæddur 12. ágúst 1888 í Lækjarkoti í Húnavatnssýslu. Sonur Stefáns Þorsteinssonar frá Þingeyrum og Ástu Margrétar Jónsdóttur frá Hyndisvík í Húnavatnssýslu. Ragnar gekk í 223. herd. 27. marz 1916. Fór til Englands 23. apríl 1917. Var þar skipaður hjúkrunarþjónn við hermannaspítala og átti því ekki kost á að komast á vígvöll. Kom aftur til Canada 1. ágúst 1919.



## RAGNAR STEFÁNSSON.

Fæddur að Geysir P. O., Manitoba, árið 1895. Sonur Eggerts Stefánssonar, Tómassonar, frá Egilsá í Skagafirði, og Margrétar Halldórsdóttur, Jónssonar, frá Ytravatni í Skagafirði, nú búandi að Pebble Beach P. O., Man. Ragnar gekk í 197. herd. 25. maí 1916. Særðist í orustu við Hill 70 á Frakklandi þann 26. apríl 1917, af riffilskoti í hnéð, og var óvígur, þar til 3. apríl 1918, að hann fór aftur í skotgrafirnar og var í þeim til stríðsloka. Var þá sendur með deild sinni til Þýzkalands og dvaldi þar um stund við ána Rín. Hann kom aftur til Canada 12. apríl 1919, og vinnur nú bændavinnu, eins og áður en hann fór í herinn.



## SIGURGEIR STEFÁNSSON, G.S.S.

Fæddur 25. desember 1895 að Hnausa P. O., Man. Foreldrar: Stefán Guðnason og Jóhanna Hannesdóttir, er bjuggu að Skálum í Vopnafirði. Sigurgeir gekk í 100. herdeildina 22. febrúar 1916. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70, Passchendale, Cambrai og Lens. Særðist tvisvar. Var með Canadahernum alt til stríðsloka, og var þá sendur með Bandamannahernum inn á Þýzkaland að stríðinu loknu. Hlaut sæmdarmerki fyrir góða þjónustu. Kom aftur til Canada 1. júní 1919. Stundar landbúnað og aðra vinnu.



## THORGRÍMUR EIRÍKSSON STEINBERG.

Fæddur í Suður-Þingeyjarsýslu árið 1892. Foreldrar hans: Eiríkur Magnússon og Kristín Kristjánsdóttir, bæði ættuð úr Suður-Þingeyjarsýslu. Faðir hans nú látinn, en móðirin á heima á Akureyri. Thorgrímur gekk í 223. herd. 6. apríl 1916. Tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens og Arras. Særðist 26. ágúst 1918 í orustu við Arras. Kom aftur til Canada 3. marz 1919, þá vinnufær. Hann er kvæntur Sigurlaugu Jónsdóttur frá Húsavík.



## STEFÁN STEPHANSON.

Fæddur 15. maí 1895 á Þórarinsstaðaeyrum við Seyðisfjörð. Vann á bújörð föður síns, að Piney, Manitoba, áður en hann gekk í 222. herd. 29. marz 1916. Foreldrar hans: Jóhann Stefánsson frá Urriðavatni í Fellum í Norður-Múlasýslu, nú búandi að Piney, og Anna María Jóhannesdóttir frá Kirkjubæ á Straumey í Færeyjum. Hún dó á almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg árið 1912. Stefán tók þátt í orustu við Vimy Ridge og á mörgum öðrum stöðum þar í grend, þar til hann særðist 7. júní 1917, við Lackalotbæ í grend við Lens. Hann kom aftur til Canada 25. marz 1919, þá vinnufær. Stundar nú landbúnaðarvinnu.



## DR. ÓLAFUR STEPHENSEN.

Fæddur 22. desember 1864 að Holti í Önundarfirði í Ísafjarðarsýslu. Foreldrar: Stephan prófastur í Vatnsfirði, Pétturssonar prests á Ólafsvöllum, og Guðrún dóttir Páls amtmanns Melsted og Ragnheiðar, dóttur Stefáns amtmanns á Möðruvöllum. Gekk í Canadaherinn 6. febrúar 1916 sem læknir 197. herdeildarinnar, með kapteinsnafnbót. Sigldi með deildinni til Englands 22. febrúar 1917. Hann þoldi ekki loftslagið á Englandi og fékk gigt. Gegndi þó læknisstörfum við hermannasjúkrahús í Shorncliffe og Ramsgate á Englandi um eins árs tíma. Bæði þau sjúkrahús urðu fyrir loftskipaárás frá Þjóðverjum meðan hann var þar. Hann kom aftur til Canada 21. febrúar 1918, þá ekki vinnufær. stundar nú lækningar í Winnipeg. Dr. Stephensen er kvongaður Margréti Stefánsdóttur, Gunnarssonar, bróður séra Sigurðar Gunnarssonar á Hallormsstað.



*ÓSKAR STEPHENSON (sjá III).*

## JOHN A. STEVENSON.

Fæddur að Churchbridge P. O., Saskatchewan. Foreldrar: Magnús Stefánsson, af Langanesi í Þingeyjarsýslu, og Ingigerður Jónsdóttir, úr Lýtingsstaðahreppi í Skagafjarðarsýslu. Gekk í 223. herd. í aprílbyrjun 1916. Varð fyrir eiturlofti á vígvelli 15. marz 1918. Kom aftur til Canada í janúar 1919. Stundar nú landbúnað að Beckville P. O., Man.



## VÍGBALDI STEVENSON.

Fæddur 17. júlí 1895. Foreldrar: Stefán Jónsson, ættaður úr Norður-Þingeyjarsýslu, og Ingibjörg Jónsdóttir, ættuð úr Skagafjarðarsýslu, nú búandi að Winnipegosis, Manitoba. Vígbaldi gekk í herinn 17. marz 1916. Sigldi til Englands með 223. herdeildinni í apríl 1917. Tók þátt í orustu við Passchendale. Særðist þar af skoti í hnéð og varð að þola tvo uppskurði, er gerðir voru til þess að ná út kúlubrotum. Varð ekki vígfær eftir það og var leystur frá herþjónustu í janúarmánuði 1919. Stundar landbúnað og fiskiveiðar.



WALTER STEVENSON.

Fæddur 13. október 1890 í Gimlisveit í Manitoba. Foreldrar: Stefán Jónsson, úr Norður-Þingeyjarsýslu, og Ingibjörg Jónsdóttir, úr Skagafjarðarsýslu, nú búandi að Winnipegosis, Man. Walter gekk í 223. herd. 17. marz 1916. Tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens og Arras. Særðist tvisvar. Kom aftur til Canada 4. maí 1919, þá vinnufær. Stundar fiskiveiðar og landbúnað.



ÞORSTEINN NORDAL SUÐFJÖRÐ.

Fæddur 22. september 1893 að Churchbridge P. O., Sask. Foreldrar: Páll Nordal frá Langhúsum í Fljótsdal í Norður-Múlasýslu, og Ólína Einarsdóttir Suðfjörð, ættuð úr Ísafjarðarsýslu. Þorsteinn gekk í 144. herdeildina 13. janúar 1916. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70, Passchendale, Amiens, Cambrai og Mons. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 13. júní 1919, þá vinnufær. Er nú landbóndi.



JÓN ÞORVALDUR SUMARLIÐASON.

Fæddur að Glenboro P. O., Man., 5. apríl 1897. Foreldrar: Eiríkur Sumarliðason frá Bjarnastöðum í Mýrasýslu og Þorbjörg Jónsdóttir frá Draghálsi í Borgarfjarðarsýslu ( nú dáin). Jón gekk í 108. herd. 2. febrúar 1916. Var kominn í skotgrafir á Frakklandi 2. marz 1917 og var þar þangað til 14. maí 1918, að hann sýktist af eiturlofti frá Þjóðverjum. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Fresnoy, Hill 70, Passchendale og í vörninni gegn áhlaupinu mikla, sem Þjóðverjar gerðu um vorið 1918. Eftir að hann sýktist var hann fluttur á sjúkrahús á Frakklandi. Hann kom heim aftur 20. apríl 1919. Vinnur nú við járnvöruverzlun í Kandahar, Sask.



## HALLDÓR SVEINSSON.

Fæddur 9. marz 1895 að Húsavík P. O., Manitoba. Foreldrar: Sveinn Kristjánsson, ættaður úr Mývatnssveit, og Veroníka Þorkelsdóttir frá Víðikeri í Bárðardal í Suður-Þingeyjarsýslu. Halldór gekk í 197. herd. um vorið 1916 og sigldi til Englands. Var skipaður til vega- og brúagerða og vann að því til stríðsloka. Kom aftur til Canada vorið 1919. Stundar nú mótorvagna-aðgerðir.



## Sergeant RAGNAR SWANSON.

Fæddur á Ísafirði á Íslandi 4. febrúar 1892. Foreldrar: Árni Sveinsson, ættaður úr Borgarfirði suður, og Guðrún Brynjólfsdóttir, fædd á Mýrum við Dýrafjörð. Ragnar gekk í herinn 15. maí 1916. Var skipaður í lögregludeild hersins og síðan færður yfir í leynilögregluskrifstofu hans í Canada. Fór því aldrei úr landi. Hann er kvæntur Carolinu Ólafsdóttur Thorgeirsson, vara-konsúls Íslands og Danmerkur í Winnipeg. Þau hjón búa í Winnipeg.



## LUTHER MELANCTON SÖLVASON.

Fæddur að Westbourne, Manitoba, 5. september 1898. Foreldrar: Sigurður Sölvason frá Ytri-Löngumýri í Húnavatnssýslu og Guðrún Pétursdóttir, Einarssonar frá Felli í Biskupstungum í Árnessýslu. Luther gekk í 184. herd. 2. marz 1916, en veiktist eftir að hann lagði af stað til Englands. Var settur á sjúkrahús í Nova Scotia og lá þar í lungnabólgu og afleiðingum hennar í fulla 6 mánuði. Hann fékk lausn frá herþjónustu 2. maí 1917. Hann var námsmaður að Westbourne áður en hann gekk í herinn.

*SIGURÐUR LÁRUSSON SÖLVASON* *(sjá 111).*



## TORFI INGIBERG SÖLVASON.

Fæddur 6. desember 1895 að Westbourne, Manitoba. Foreldrar: Sigurður Sölvason frá Ytri-Löngumýri í Húnavatnssýslu og Guðrún Pétursdóttir, Einarssonar, frá Felli í Biskupstungum í Árnessýslu. Torfi gekk í 184. herd. 23. marz 1916 og sigldi áleiðis til vígvallar í október það ár. Hann tók þátt í mörgum orustum á Frakklandi. Særðist tvisvar allmikið og varð að leggjast á sjúkrahús, þegar hann kom aftur til Canada 26. júní 1919.



## SIGURÐUR PÉTUR TÆRGESEN.

Fæddur 24. febrúar 1891 að Lögberg P. O., Sask. Sonur Péturs Tærgesens kaupmanns á Gimli, Man., ættaðs af Akureyri, og Sigríðar Pálsdóttur frá Hofi í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu. Sigurður vann við verzlun föður síns að Gimli áður en hann gekk í 223. herdeildina 30. marz 1916. Hann sigldi áleiðis til herstöðvanna í maí 1917, og tók, á Frakklandi, þátt í orustum við Passchendale, Amiens ,Arras og Cambrai. Hann særðist 11. október 1918, réttum mánuði fyrir stríðslok. Hann starfar nú, sem áður, við Tærgesens-verzlunina á Gimli.

## SIGURÐUR HELGASON THINGHOLT.

Fæddur í Reykjavík við Faxaflóa um 1872(?). Foreldrar hans: Helgi tónfræðingur Helgason í Reykjavík og Guðrún Sigurðardóttir frá Þerney á Kjalarnesi. Sigurður fluttist til Winnipeg rúmt tvítugur að aldri. Kvæntist Ingibjörgu Jónasdóttur læknis, Jónssonar, frá Saurbæ í Lýtingsstaðahreppi í Skagafirði. Sigurður hefir lagt fyrir sig söngfræði og hljómleika. Hann gekk í 197. herdeildina sem foringi lúðrasveitar deildarinnar árið 1916. Vék úr deildinni árið eftir. Tók sér ættarnafnið Thingholt. Býr vestur á Kyrrahafsströnd.

*JOSEPH HOSKULDUR THOMPSON (sjá III).*



## PÉTUR GÍSLI THOMPSON.

Fæddur 30. október 1890 að Gimli, Manitoba. Foreldrar: Gísli M. Thompson og Móníka Helga Friðbjörnsdóttir, sem lengi bjuggu í Gimlibæ. Pétur gekk í 108. herd. 26. janúar 1916. Hann barðist við Vimy Ridge. Særðist 9. apríl 1917. Kom aftur til Canada 25. apríl 1918, þá vinnufær. Hann stundar málaraiðn.



## STEINN ÓLAFUR THOMPSON.

Fæddur 23. nóvember 1893 í Selkirkbæ í Manitoba. Faðir hans er Sveinn aktýgjasmiður í Selkirk, sonur Tómasar á Skarði í Lundareykjadal í Borgarfjarðarsýslu og konu hans Ingibjargar Jónsdóttur, en móðir hans og kona Sveins er Sigurlaug Steinsdóttir skipstjóra í Vík í Héðinsfirði. Steinn var til heimilis hjá foreldrum sínum og hafði lokið námi við Manitobaháskóla, er hann innritaðist í canadiska herinn 1. marz 1916, við björgunardeildina (11th Field Ambulance). Hann fór til orustuvallar 14. maí 1916, og var í orustum frá Somme til Passchendale-bardaga 30. október 1917. Hann varð fyrir eiturlofti í september 1917 við Lens, en særðist í Passchendale-bardaganum. Var þá sendur til Englands og heim aftur í október 1918. Hann hefir síðan útskrifast við læknaskóla Manitobafylkis.



## HANS FRIÐRIK ÁGÚST THOMSON.

Fæddur 6. október 1877 að Skálanesi við Seyðisfjörð í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Hans Friðrik Ágúst Thomson og Guðrún Ólafsdóttir; bjuggu á Skálanesi. Gekk í 197. herd. 18. marz 1916 og vann að timburtekju meðan hann var í hernum. Kom aftur til Canada 29. marz 1919. Vinnur á trésmíðaverkstofu. Hann er giftur konu að nafni Sigríður Sólborg.



## ROBERT ROY THOMSON.

Fæddur 18. október 1884 í Parry Sound, Ontario, Canada. Foreldrar: Robert Thomson og Jósefína Hólmfríður Baldvinsdóttir, Helgasonar, frá Ásgeirsá í Víðidal í Húnaþingi. Robert gekk í herinn í marz 1916. Fór á vígvöll í nóvember sama ár. Kom aftur til Canada í júní 1919.



## JÓHANN STEFÁN THORARENSEN.

Fæddur á Akureyri 7. ágúst 1872. Sonur Stefáns Thorarensen, sem þar var sýslumaður, og konu hans Olivie Alvilde, af dönskum ættum. Jóhann gekk í 223. herdeildina 6. júní 1916, en var síðar færður úr henni yfir í lögreglu- og eftirlitsdeild canadisku hermálastjórnarinnar. Hann var leystur frá herþjónustu í júní 1917 og hefir síðan verið eftirlitsmaður skógarelda og fiskiveiða við Manitobavatn fyrir hönd sambandsstjórnar Canada. Hann býr með syni sínum að Fairford P. O., Manitoba. Er ekkjumaður.

*JÓN THORARINSSON* *(sjá III).*



## VILHJÁLMUR THORARINSSON.

Fæddur 10. febrúar 1872 á Húsavík í Þingeyjarsýslu. Sonur Einars Þórarinssonar frá Vestaralandi í Axarfirði og Sigríðar Oddsdóttur fá Breiðuvík á Tjörnesi í Suður-Þingeyjarsýslu. Vilhjálmur gekk í 184. herd. 22. febr. 1916 og sigldi til Evrópu í október það ár. Kom aftur til Canada 11. október 1918, þá vinnufær, og með sæmdarmerki fyrir skyldurækni við hernaðarstörf. Vilhjálmur vann á pósthúsi Winnipegborgar áður en hann gekk í herinn, en stundar járnsmíði síðan hann kom úr stríðinu. Hann er kvæntur Jónínu Antoníusardóttur. Þau hjón eiga 7 börn.



## HINRIK G. THORBERGSSON.

Fæddur 19. júlí 1892 í Winnipegborg í Manitoba. Foreldrar: Sveinn Bergmann Thorbergsson frá Stóruborg í Húnavatnssýslu og Helga Hinriksdóttir frá Efra-Núpi í Miðfirði í sömu sýslu. Hinrik gekk í 223. herdeildina sem undirforingi (Corporal) 16. marz 1916 og sigldi með henni til Evrópu 23. apríl 1917. Áður en hann gekk í herinn vann hann að skrifstofustörfum; var því skipaður ritari á kaupgjaldsskrifstofu Canadahersins og haldið við það starf á Englandi, þar til hann fór aftur til Canada í ágúst 1919. Hann stundar nú skrifstofustörf í Winnipeg.



## INGÓLFUR A. THORDARSON.

Fæddur á Íslandi í apríl 1885. Foreldrar: Árni Þórðarson frá Miðhúsum í Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu og Guðlaug Katrín Sigfinnsdóttir frá Refsmýri í Fellum í Norður-Múlasýslu. Ingólfur gekk í 108. herd. í janúar 1916. Hann tók þátt í orustum við Vimy Ridge og Hill 70. Særðist þar. Kom aftur til Canada í janúar 1919, þá vinnufær. Stundar nú landbúnaðarvinnu og á heima að Gimli, Manitoba.



## KOLBEINN THORDARSON.

Fæddur á Sturlu-Reykjum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu 12. júní 1866. Foreldrar: Þórður Þorsteinsson og Rannveig Kolbeinsdóttir, sem lengi bjuggu á Leirá í Borgarfjarðarsýslu. Kolbeinn flutti til Canada árið 1892. Hann var fjögur ár við gulltekju í héraðinu Klondyke, og eftir það nokkur ár í Alaska. Hann gekk í 197. herdeildina í febrúar mánuði 1916, en fékk lausn frá herþjónustu í febrúar 1917. Hann á nú heima í Winnipeg.



JOSEPH W. THORGEIRSSON.

Fæddur á Akureyri á Íslandi 12. september 1877. Foreldrar: Þorgeir Guðmundson, gullsmiður þar, og Sigríður Ólafsdóttir frá Hvammi í Eyjafirði. Joseph gekk í 184. herd. 17. marz 1916. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Cambrai og Amiens. Varð fyrir heilahristingi og særðist á fæti. Kom aftur til Canada 11. febrúar 1919. Stundar kola- og viðarverzlun í Winnipeg. Hann er kvæntur Kristínu G. Kærnested.



PÁLL THORGRÍMSSON.

Fæddur á Íslandi 7. september 1872. Sonur Þorgríms Þorsteinssonar og Jóhönnu Vilhjálmsdóttur, sem bjuggu að Berserkseyri í Eyrarsveit í Snæfellsnessýslu. Gekk í 107. herd. 7. janúar 1916. Fór áleiðis til vígvallar í septembermánuði það ár, og tók þátt í öllum þeim orustum, sem fyrir komu á því hersvæði á Frakkandi, sem hann var skipaður á, alt til stríðsloka. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 9. júlí 1919. Stundar smíðavinnu í Winnipeg. Hann er kvæntur Sveinsínu J. Arngrímsdóttur.



NJÁLL THORKELSSON.

Fæddur í Winnipeg 29. janúar 1895. Foreldrar: Þorsteinn Thorkelsson frá Ytri-Márstöðum í Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu og Guðbjörg Guðmundsdóttir frá Efra-Lýtingsstaðakoti í Tungusveit í Skagafjarðarsýslu. Njáll gekk í herinn 8. marz 1916, en var ekki sendur út úr Canada. Hann mun vera til heimilis hjá móður sinni í Winnipeg, Manitoba.



## HARALDUR FRIÐRIK THORLAKSON.

Fæddur að Park River, Norður Dakota, U. S. A., 27. júní 1898. Sonur séra N. Steingríms Thorlákssonar prests í Selkirk, Man., og Eiríku Rynnig, ættaðri úr Noregi. Haraldur gekk í 223. herdeildina 12. maí 1916 og sigldi til Evrópu 3. maí 1917. Hann tók þátt í orustum við Cambrai og Amiens á Frakklandi á árunum 1917 og 1918. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 7. apríl 1919. Stundar nú nám við læknaskólann í Winnipeg.

*SIGFÚS E. THORLEIFSSON (sjá III).*



## THORLEIFUR THORLEIFSSON.

Fæddur 11. febrúar 1896 á Íslandi. Foreldrar: Einar Þorleifsson frá Hrjót í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu og Guðríður Sigfúsdóttir smiðs, Sigurðssonar, Jónssonar prests að Eiðum í Suður-Múlasýslu, nú búandi að Stony Hill, Man. Thorleifur gekk í 108. herd. 22. febr. 1916 og sigldi til Evrópu í september það ár. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi við Hill 70, og særðist tvisvar. Kom aftur til Canada 28. marz 1918. Stundar nú landbúnað að Stony Hill, sem fyr.



## GUÐMUNDUR E. THORODDSSON.

Sonur Gísla Þóroddssonar og Guðrúnar Jónsdóttur frá Deild á Álftanesi í Gullbringusýslu. Gekk í 223. herd. í júní 1916. Vann á hersvæði Frakklands við hergagnaflutninga alt til stríðsloka. Kom aftur til Canada í marz 1919, þá vinnufær.

## Capt. JOSEPH T. THORSON.



Fæddur 15. marz 1889 í Winnipeg. Foreldrar: Stephen Thorson og Sigríður Þórarinsdóttir. Foreldrar Stephens: Þórður og Guðríður Jónsdóttir, hjón í Ásakoti í Biskupstungum, þau Stephen og Sigríður búa að Gimli. Joseph gekk sem kapteinn í 223. herdeildina í marz 1916 og sigldi til Evrópu í apríl 1917. Hann var skipaður gæzlustjóri herfangastöðva á Frakklandi. Kom aftur til Canada 10. apríl 1919. Joseph útskrifaðist frá Manitobaháskólanum árið 1910, með hæstu einkunn. Stundaði eftir það lögfræði við Oxford-háskólann á Englandi og útskrifaðist þaðan. Hann er nú forseti lögfræðisdeildar Manitobaháskólans. Joseph er kvæntur Aileen Scarth.

*STEPHEN HELGI THORSON* *(sjá III).*



## AÐALSTEINN THORSTEINSSON.

Fæddur 3. nóvember 1887 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Þorsteinn Þorsteinsson, fæddur á Uppsölum í Eyjafjarðarsýslu, og Sigríður Jónsdóttir, ættuð úr Þingeyjarsýslu. Aðalsteinn gekk í 223. herd. 11. marz 1916. Fór til Evrópu í apríl 1917. En er hann hafði um tíma stundað heræfingar og aðra herþjónustu á Englandi, var hann vegna brjóstveiki talinn óvígfær, og því leystur frá herþjónustu og sendur til Canada aftur í aprílmánuði 1918.



## ÁSGEIR THORSTEINSSON, M. M.

Fæddur á Íslandi árið 1899. Foreldrar: Þorvaldur Þorsteinsson frá Berunesi í Fáskrúðsfirði og Ragnhildur Eyjólfsdóttir, úr Reykjavík (dáin). Ásgeir gekk í 27. herd. í desember 1916. Fór til Frakklands í marz 1917. Var þar í flestum orustum til marz 1918, að hann særðist. Þessi hermaður var heiðraður með "Military Medal" fyrir unnið afrek á vígvelli. Hann kom aftur til Canada sumarið 1919. Vinnur nú við sögunarmylnu í bænum Keewatin, Ontario.



## CARL DANÍEL THORSTEINSSON.

Fæddur í Winnipeg 2. janúar 1882. Foreldrar: Þórður Þorsteinsson og Guðný Elízabet Daníelsdóttir, sem bjuggu í Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Carl gekk í 222. herd. 8. janúar 1916. Tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens og Arras. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada í apríl 1919. Stundar landbúnaðarvinnu.



## DANÍEL THORSTEINSSON.

Fæddur 5. apríl 1896 að Kolkuósi í Skagafjarðarsýslu. Foreldrar: Tómas Þorsteinsson frá Núpakoti í Rangárvallasýslu og Guðrún Jóelsdóttir frá Sauðanesi á Upsaströnd í Eyjafjarðarsýslu. Daníel gekk í 196. herd. 1. maí 1916 og sigldi til Evrópu í október það ár. Hann tók þátt í orustum við Lens, Passchendale og Cambrai, og særðist í báðum síðasttöldum orustum. Kom aftur til Canada í janúarmánuði 1919. Stundar nú nám við Wesley College í Winnipeg.



## ERIC THORSTEINSSON.

Fæddur 17. marz 1890 að Bæ í Lóni í Austur-Skaftafellssýslu. Sonur Þorsteins Vigfússonar frá Skálafelli í Lóni og Sigurbjargar Jónsdóttur frá Bæ í Lóni; Sigurbjörg nú látin, en Þorsteinn er búsettur í Glenborobæ í Manitoba. Eric gekk í 226. herd. 8. febr. 1916, og í desember það ár sigldi hann áleiðis til herstöðva Frakklands. Hann tók þar þátt í orustum við Avion, Passchendale, Amiens, Arras, og í mörgum smærri orustum. Særðist tvisvar, fyrst í Passchendale-orustunni 26. október 1917, og aftur í Arras-orustunni 28. ágúst 1918, þá á báðum handleggjunum af fallbyssukúlu. Hann kom aftur til Canada 29. júlí 1919, þá langt frá vinnufær, en hefir von um fullan bata með tímanum.

## Lieut. GUÐMUNDUR ÓLAFUR THORSTEINSSON.



Fæddur 14. september 1888 að Churchbridge, Sask. Foreldrar: Vigfús Thorsteinsson frá Nýlendu á Seltjarnarnesi og Guðríður Guðmundsdóttir, ættuð úr Borgarfjarðarsýslu, nú búandi að Lundar, Man. Guðmundur var skólastjóri á Lundar áður en hann gekk í 223. herd. 20. apríl 1916 og sigldi frá Canada 19. apríl 1917. Var sæmdur Lieutenants-tign í sept. 1916, en afsalaði sér þeim heiðri til þess að takast á hendur íþróttakenslu á Risboro-herstöðinni í Shorncliffe á Englandi, þar til í ágúst 1918, að hann fór til Frakklands til þess að starfa þar á hermannaspítala. Hann kom heim aftur 25. apríl 1919. Er kvæntur Kristínu Pétursdóttur frá Laugarfossi í Borgarfjarðarsýslu, og stundar skólakenslu.

*ÓSKAR FRANKLIN THORSTEINSSON (sjá III).*

## THORSTEINN ÓLAFUR THORSTEINSSON.



Fæddur að Birch Island í Manitoba. Foreldrar: Ásmundur Þorsteinsson frá Seltjarnarnesi í Gullbringusýslu og Ragnheiður Tómasdóttir frá Litla-Ármóti í Flóa í Árnessýslu, búandi að Westbourne, Man. Gekk í 223. herdeildina 14. marz 1916. Sigldi frá Canada 23. apríl 1917. Á Frakklandi tók hann þátt í orustum við Passchendale, Amiens, Arras og víðar. Aftur kominn til Canada 3. apríl 1919. Stundar landbúnað.

## THORSTEINN ÓLAFUR SNÓKSDALÍN THORSTEINSSON.



Fæddur 19. apríl 1898 í Portage la Prairie, Manitoba. Foreldrar: Vigfús Thorsteinsson frá Nýlendu á Seltjarnarnesi við Reykjavík og Guðríður Guðmundsdóttir frá Efra-Skarði í Leirársveit í Borgarfjarðarsýslu. Thorsteinn gekk í 223. herd. 10. apríl 1916. Fór til Englands með 23. herdeildinni í apríl 1917. Kom aftur til Canada í marz 1919. Stundar barnaskólakenslu.



## THORSTEINN S. THORSTEINSSON.

Fæddur árið 1888 í Reykjadal í Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Steingr. og Petrína Thorsteinsson, ættuð úr Mývatnssveit, nú búandi að Wynyard, Sask. Hann gekk í 197. herdeildina 13. apríl 1916. Sigldi til Evrópu 18. janúar 1917. Mun ekki hafa tekið þátt í orustum, en gegndi herþjónustustörfum fram yfir þann tíma, er stríðinu lauk. Hann kom aftur til Canada 13. apríl 1919. Stundar nú landbúnað að Wynyard, Sask. Hann er kvæntur Helgu Laurettu Goodman.



## WILBERT THORSTEINSSON.

Fæddur að Gimli, Manitoba, 19. september 1893. Foreldrar: Guðni Þorsteinsson, ættaður úr Gullbringusýslu, og Anna Jónsdóttir; móðir hans býr í Selkirk. Wilbert gekk í 223. herdeildina 6. apríl 1916 og fór með henni til Evrópu í apríl 1917. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi. Varð fyrir eiturlofti á vígvelli. Kom aftur til Canada 11. júní 1919. Áður en hann gekk í herinn stundaði hann slátraraiðn í Selkirkbæ í Manitoba. Stundar nú sömu atvinnu.



## ÞORGILS THORSTEINSSON (Jack Oliver).

Fæddur í Tungu í Árnessýslu 30. maí 1873. Foreldrar: Þorsteinn Þorsteinsson frá Tungu í Grafningi í Árnessýslu og Sigríður Þorgilsdóttir. Gekk í 223. herd. 14. marz 1916, en fór ekki á vígvöll. Hann er timbursmiður að iðn. Býr að Lundar, Manitoba.



## HELGI B. THORVALDSSON.

Fæddur 21. febrúar 1898 í Winnipeg. Foreldrar: Jón Thorvaldsson frá Urriðaá í Álftanesshreppi í Mýrasýslu og Sólveig Bjarnadóttir frá Arnarstapa í sömu sýslu. Jón er nú látinn, en Sólveig býr að Suffren P. O., Man, og hjá henni var Helgi, þegar hann gekk í 108. herd. 11. marz 1916. Hann tók þátt í öllum orustunum við Loos og Hill 70. Særðist í öxl, svo að hann var eftir það talinn óvígfær. Kom aftur til Canada í aprílmánuði 1918, þá vinnufær. Býr nú með móður sinni sem fyr.



## MAGNÚS THORVALDSSON.

Fæddur í Winnipeg 3. október 1896. Foreldrar: Vigfús Þorvaldsson frá Nesjum í Grafningi í Árnessýslu og Anna Magnúsdóttir frá Bjarnastöðum á Álftanesi í Gullbringusýslu. Gekk í 184. herd. 16. marz 1916. Særðist tvisvar á vígvelli. Kom aftur til Canada 8. júní 1918. Vinnur á járnbrautalestum C. P. R. kerfisins í Canada.

*ÞORVALDUR THORVALDSSON (sjá III).*



## THORBJÖRN TÓMASSON.

Fæddur 4. september 1883 að Hjöllum í Skutulsfirði í Ísafjarðarsýslu. Foreldrar: Tómas Tómasson og Þorbjörg Jónsdóttir. Thorbjörn kom til Canada árið 1912. Gekk í 223. herdeildina í Winnipeg 8. apríl 1916. Var leystur frá herþjónustu 21. apríl 1917, vegna meiðsla sem hann varð fyrir á Hughes heræfingasvæðinu í Manitoba, og sem gerði hann óvígfæran. Thorbjörn er skósmiður að iðn. Hann á nú heima á Ísafirði á Íslandi.



## BJARNI S. TORFASON.

Fæddur 29. ágúst 1880 á Seyðisfirði á Íslandi. Foreldrar hans: Skúli Torfason frá Sandbrekku í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu og Jóhanna Martina Jakobsdóttir, fædd í Mandal í Noregi og af norskum ættum. Bjarni gekk í 223. herdeildina 1. apríl 1916, en var, vegna heilsubrests, leystur frá herþjónustu í septembermánuði sama ár.



## LÚÐVÍK S. TORFASON.

Fæddur 12. júlí 1887 á Vopnafirði á Íslandi. Foreldrar: Skúli Torfason frá Sandbrekku í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu og Jóhanna Martina Jakobsdóttir, fædd í Mandal í Noegi af, norskum ættum. Lúðvík gekk í 223. herd. 4. apríl 1916. Var kominn á vígvöll í Frakklandi 7. september 1917. Tók þátt í orustum við Amiens, Cambrai og Arras, og að vopnahlé fengnu, var hann sendur með deild sinni til Þýzkalands og var þar um tíma. Kom aftur heill heilsu til Canada 21. maí 1919. Hann stundaði algenga daglaunavinnu í Winnipegborg áður en hann gekk í herinn.



## TORFI S. TORFASON.

Fæddur 2. október 1878 á Seyðisfirði á Íslandi. Foreldrar hans: Skúli Torfason frá Sandbrekku í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu og Jóhanna Martina Jakobsdóttir, fædd í Mandal í Noregi, af norskum ættum. Torfi gekk í 223. herdeildina 4. apríl 1916 og var kominn á vígvöll í Frakklandi 7. september 1917. Tók þátt í orustum við Amiens, Cambrai, Novelle og Arras. Að stríðinu loknu var hann sendur til Þýzkalands með deild sinni og var þar um tíma. Hann kom aftur til Canada 21. maí 1919, ósærður. Áður en hann gekk í herinn stundaði hann vöruflutninga um Winnipegborg.



## VALDIMAR D. VALDIMARSSON.

Fæddur 25. október 1893 að Langreuth, Manitoba. Sonur Davíðs Valdimarssonar frá Engihlíð í Þingeyjarsýslu og Guðbjargar Jónsdóttur, Þorgrímssonar, frá Litlu-Laugum í Reykjadal. Þau Davíð og Guðbjörg bjuggu á Hrappsstöðum í Bárðardal og fluttu þaðan til Canada árið 1890. Valdimar gekk í 223. herdeildina 12. apríl 1916 og sigldi með henni til Englands ári síðar. Hann tók þátt í orustu við Passchendale og særðist þar. Kom aftur til Canada 23. desember 1918, þá vinnufær. Stundar nú landbúnaðarvinnu.



## EGGERT FRANKLIN VATNSDAL.

Fæddur 7. marz 1896 í Roseau County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Elías Eggertsson Vatnsdal og Guðrún Jónsdóttir, Þórðarsonar úr Barðastrandarsýslu. Eggert gekk í herinn 11. apríl 1916. Hann bilaði á fótum við heræfingar á Englandi. Var því ekki sendur á hervöll, en skipaður til herþjónustu á Englandi. Kom aftur til Canada í ágústmánuði 1919, þá tæplega vinnufær.



## BARNEY VIBORG.

Fæddur 24. júní 1892 á Ísafirði á Íslandi. Foreldrar: Guðmundur gullsmiður Viborg frá Reykjavík og Helga Bjarnadóttir, Bjarnasonar, frá Bessatungu í Dalasýslu. Barney gekk í 108. herd. 4. janúar 1916. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70, Ypres og fimm öðrum orustum, alt til stríðsloka. Særðist tvisvar. Kom aftur til Canada 2. marz 1919, þá vinnufær. Stundar beykisiðn í Keewatin, Ont. Hann er giftur konu að nafni Helen Henrietta.



## EIRÍKUR VIGFÚSSON.

Fæddur á Seyðisfirði í Norður-Múlasýslu 22. júní 1897. Sonur Péturs Vigfússonar frá Seyðisfirði og Önnu Hjálmarsdóttur, ættaðrar úr Gullbringusýslu. Þau hjón búa að Oak View P. O., Manitoba. Eiríkur gekk í 223. herdeildina 28. marz 1916 og sigldi með henni frá Canada 23. apríl 1917. Hann tók þátt í orustum við Passchendale, Hill 70 og Lens. Varð fyrir eiturgasi og var óvígur eftir það. Hann kom aftur til Canada 5. janúar 1919, þá vinnufær. Stundar nú landbúnaðarvinnu.



## BJARNI SCHALDEMOSE WALTERSON.

Fæddur í Selkirk, Manitoba, 15. ágúst 1896. Foreldrar: Kristján Sigvaldason, Þorvaldssonar, úr Dalasýslu, og Ólína Jóhannsdóttir Schaldemose. Bjarni gekk í 223. herd. í marzmánuði 1916, og tók þátt í orustum á Frakklandi frá ágúst 1917 til ágúst 1918, að hann særðist. Hann kom aftur til Canada 15. október 1918. Stundar nú fiskiveiðar.



## Sergeant FREDERICK ALBERT WATHNE.

Fæddur 31. október 1891 á Reyðarfirði á Íslandi. Foreldrar: Frederik Wathne frá Mandal í Noregi og Elísabet Wathne úr Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Gekk í 108. herdeildina 17. janúar 1916. Tók þátt í orustum við Vimy Ridge, Hill 70 og Passchendale. Varð fyrir eiturlofti á orustuvelli, og var síðan undir læknisumsjá í 18 mánuði. Kom aftur til Canada 29. janúar 1919, þá ekki vinnufær. Áður en hann gekk í herinn vann hann að verzlunarstörfum í Kandahar, Sask. Hann er kvæntur Soffíu Vigfússon. Stundar skrifstofustörf í Winnipeg.

## EGILL THORDARSON ZOEGA.



Fæddur 22. júlí árið 1888. Foreldrar: Þórður Jóhannesson Zoega frá Reykjavík á Íslandi og Guðlaug Egilsdóttir frá Minnivogum í Gullbringusýslu. Egill gekk í 223. herd. 7. febrúar 1916 og sigldi áleiðis til vígvallar 1. október það sama ár. Hann stjórnaði vélbyssu og tók þátt í orustunum við Vimy Ridge, Arleaux, Hill 70 og Amiens. Kom aftur til Canada 10. marz 1919, þá vinnufær. Stundar nú landbúnaðarvinnu að Silver Bay, Manitoba, þar sem foreldrar hans búa.

*GUÐMUNDUR HJALTI OGMUNDSSON* *(sjá III)*

# 1917



## TÓMAS VALDEMAR BRIEM ABRAHAMSSON.

Fæddur 11. júní 1895 að Sinclair P.O., Manitoba, sonur Friðriks Kr. Abrahamssonar bónda þar í bygð, og konu hans Sigríðar Árnadóttur, bæði úr Eyjafirði. Tómas gekk í herinn 10 desember 1917 og sigldi frá Canada 8. janúar 1918. — Hann tók þátt í orustum Neu Chappelle—Amiens—Arras og Cambrai. Særðist 3. okt. 1918 í bardaganum við Cambrai og var þá fluttur á sjúkrahús á Englandi. Hann kom til Canada 17. janúar 1919, þá vinnufær. Hann stundar nú landbúnað að Leslie í Saskatchewan.



## ALBERT ANDERSON.

Fæddur árið 1889 í Seattle, Wash., U. S. A. Foreldrar: Indriði Indriðason frá Hóli í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu og Guðrún Ólafsdóttir, fædd á Ytri-Reistará í Möðruvallaplássi í Eyjafjarðarsýslu. Albert gegndi herkalli 4. október 1917. Sigldi til Frakklands í júlí 1918. Tók þátt í orustunni miklu við Argonne-skóginn, sem hófst 2. september það ár og varaði hvíldarlaust í 9 sólarhringa. Þar veiktist hann og var á sjúkrahúsi í 6 vikur. Kom heim aftur 15. apríl 1919. Býr með ekkjunni móður sinni í Seattle og stjórnar þar verki í vörugeymsluhúsi.



## ALBERT ANDERSON

Fæddur að Cypress River, Manitoba, 14. febrúar 1895. Foreldrar: Skúli Árnason frá Sigurðarstöðum á Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu og Guðrún Hafliðadóttir frá Kothóli í Álftaneshreppi í Mýrasýslu. Albert gekk í herinn í apríl 1917, en var ekki sendur utan vegna heilsuleysis.



## GEORGE ANDERSON.

Fæddur árið 1892 í Seattle, Wash., U. S. A. Foreldrar Indriði Indriðason frá Hóli í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu og Guðrún Ólafsdóttir frá Ytri-Reistará í Möðruvallaplássi í Eyjafjarðarsýslu. George gegndi herkalli 17. sept. 1917. Kom til Frakklands í júlí 1918. Sýktist í herbúðum við St. Mihiel og var á sjúkrahúsi í 6 vikur. Kom heim í apríl 1919. Býr með móður sinni í Seattle og vinnur fyrir verzlunarfélag þar í borginni.



## GEORGE W. ANDERSON.

Fæddur 4. júlí 1895 í Spanish Fork, Utah. U.S.A. Foreldrar: Bóas Arnbjarnarson, ættaður úr Skriðdal í Suður-Múlasýslu (dáinn) og Bjarnlaug Eyjólfsdóttir frá Eyjarbakka á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu, nú búandi að Spanish Fork. George gegndi herkalli 3. október 1917. Sigldi til Frakkalands í aprílmánuði 1918. Tók þar eftir þátt í flestum þeim orustum, sem Bandaríkjamenn háðu, alt til stríðsloka. Særðist ekki. Kom heim aftur 23. ágúst 1919. Hefir heimili í Spanish Fork og stundar daglaunavinnu.



## SYLVESTER ANDERSON.

Fæddur 12. Febrúar 1898 í Cloquet, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Þorvaldur Einarsson frá Klifhaga í Axarfirði í Þingeyjarsýslu og Gunnfríður J. Kristjánsdóttir frá Tungudalsmynni á Langadalsströnd í Ísafjarðarsýslu. Gegndi herkalli 6. apríl 1917 og þjónaði á herskipinu South Dakota, er sökti þýzkum kafbáti þann 26. júlí 1918. Sæmdur heiðursmerki. Kom heim 11. desember 1918. Stundar nám við Washington háskólann.



## WALTER R. ANDERSON.

Fæddur í Cloquet Minn., U. S. A., 9. nóvember 1894. Foreldrar: Þorv. Einarsson frá Klifhaga í Axarfirði og Gunnfríður Jónína Kristjánsdóttir frá Tungu í Dalsmynni á Langadalsströnd í Ísafjarðarsýslu. Walter stundaði bókfærslu, þegar hann gekk í Bandaríkjaherinn í októbermánuði 1917. Hann fór ekki úr landi, en var skipaður til þjónustu á hermálaskrifstofu í Seattle, þar til hann fékk lausn frá herþjónustu við árslok 1918.



## HEKTOR SNÆR AUSTMANN.

Fæddur í Winnipeg 7. nóvember 1901. Foreldrar: Snjólfur Jóhannsson Austmann frá Krossi á Berufjarðarströnd í Suður-Múlasýslu og Sigríður Jónsdóttir, ættuð úr Skagafirði. Hektor gekk í herinn vorið 1917 þá aðeins 15 ára, en stór og hraustlegur sem fulltíða maður. En með því að hann var þá innan herþjónustu aldurs, var hann samkvæmt kröfum föður hans og annara aðstandenda leystur úr herþjónustu, þar til hann næði lögaldri, eða yrði 18 ára. En Hektor undi þessu svo illa, að hann strauk að heiman og gekk í herdeild eina í Hamilton í Ontario og fór með henni til Englands, og þar var hann við æfingar er stríðinu lauk. Síðar kom hann aftur til Canada, og er mælt, að hann hafi þá gengið í flugher Canada.



JÓN INGVAR ÁRMANN.

Fæddur 13. marz 1895 að Grafton, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Guðjón Jónsson Ármann, Vigfússonar, frá Iðu í Biskupstungum í Árnessýslu, og Sigríður Jónsdóttir frá Kóreksstaðagerði í Hjaltastaðarþinghá. Jón gegndi herkalli 15. júní 1917. Sigldi til Frakklands í nóvembermánuði það ár. Þjónaði þar í verkfræðingadeild alt til stríðsloka. Kom heim aftur 23. febrúar 1919. Hann er prentari að iðn, en stundar verzlun á eigin reikning.



VALDIMAR BERGMAN.

Fæddur í Winnipeg 18. september 1892. Foreldrar: Jónas Bergman úr Miðfirði í Húnavatnssýslu og Sigríður Jónsdóttir skipstjóra, úr Skagafjarðarsýslu. Valdimar gekk í canadiska flugherinn í október 1917 og sigldi til Evrópu í september 1918. Tók ekki þátt í orustum og kom aftur til Canada 5. júní 1919. Stundar verzlunarstörf. Kona hans er Norah Helen Doré.



STEFÁN HARALDUR BERGSSON.

Fæddur 15. september 1890 í Winnipeg. Foreldrar: Jón Oddsson, Bergssonar, af Þelamörk í Eyjafjarðarsýslu, og Margrét Sigfúsdóttir frá Þórarinsstöðum við Seyðisfjörð. Stefán gekk í herinn 6. júlí 1917, riddaraliðið Lord Strathcona Horse, og sigldi til Englands í júlímánuði árið 1918. Var þar við heræfingar þegar stríðinu lauk. Kom aftur til Canada í janúar 1919.



## SVEINN B. BERGSSON.

Fæddur 30. október 1896 að Galtarholti í Borgarhreppi í Mýrasýslu. Sonur Bergmanns Bergssonar, Sveinssonar og Lilju Jónasdóttur, Jónassonar frá Vífilsdal í Hörðudal í Dalasýslu. Sveinn gekk sem sjálfboði í Strathcona Horse riddaraliðið 10. desember 1917, og fór með þeirri deild til Englands 18. júlí 1918. Kom aftur til Canada 14. júlí 1919. Heimili foreldra hans er að Minto P. O., Man.



## VILHELM G. BERNHÖFT.

Fæddur við Hallson í Norður Dakota 2. september 1894. Faðir hans er Edward Bernhöft bóndi að Akra, sonur C. Bernhöfts, er var bakari um langt skeið í Reykjavík á Íslandi, en móðir er Soffía, dóttir Ólafs Brynjólfssonar frá Skeggstöðum í Húnaþingi. Vilhelm var kvaddur í Bandaríkjaherinn 26. júní 1917 og þjónaði þar við matreiðslustörf til stríðsloka. Hann var eigi sendur úr landi.



## BJARNI BJARNASON.

Fæddur að Grund í Garði í Útskálasókn í Gullbringusýslu árið 1898. Sonur Þórðar Bjarnasonar frá Vörum í Garði í sömu sókn, og fyrri konu hans Rakelar Pálsdóttur dannebrogsmanns, Kristjánssonar, á Eyði í Austurey í Færeyjum. Fluttu þau Þórður og Rakel til Selkirk í Manitoba frá Íslandi sumarið 1902. Þar andaðist Rakel, en Bjarni hefir alist upp með föður sínum í Selkirk. Hann gekk í 18. hersveit canadiska varaliðsins 2. júní 1917, og fór frá canada samsumars — 16. júlí — áleiðis til Englands, og þaðan eftir stutta viðdvöl til vígvallar. Hann var í orustunni við Valenciennes, en særðist ekki. Hann kom heim aftur 4. júní 1919, vinnufær, og er nú til heimilis með föður sínum í Selkirk.



## BJARNI J. BJARNASON.

Fæddur á Beigalda í Mýrasýslu árið 1884. Foreldrar hans voru þau, Jón, sonur Bjarna Sigurðssonar og Arnfríðar Jónsdóttur á Höll í Þverárhlíð, og Þuríður Helgadóttir Sæmundssonar og Ingiríðar Hannesdóttur úr Mýrasýslu. Bjarni fluttist með foreldrum sínum og systkinum frá Íslandi 1888 til Mikleyjar í Nýja Íslandi og 1903 til Grunnavatnsbygðar. Þar andaðist móðir hans fyrir mörgum árum og faðir hans 1921. Bjarni gekk í Bandaríkjaherinn 28. júlí 1917, fór til Frakklands 20. júlí 1918, og var í orustum á Cantigny- og Soissons-svæðunum. Misti hægri handlegginn í bardaganum við Soissons. Til Bandaríkjanna kom hann aftur 19. september 1918. Hann er kvæntur Bandaríkjakonu og býr við Portland í Oregon.



## JOHN H. BJARNASON.

Fæddur að Mary Hill P. O., Manitoba, 28. september 1898. Foreldrar: Guðm. Bjarnason, Árnasonar, og Ingveldar Sigurðardóttur frá Austur-Skálanesi í Vopnafirði, og Guðrún Eyjólfína Eyjólfsdóttir, ættuð úr Fljótsdalshéraði. John gekk í herinn 11. janúar 1917; og tók þátt í orustum á Frakklandi við Amiens, Arras, Cambrai og víðar alt til stríðsloka. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 4. júní 1919, þá vinnufær.



## PÁLL KJARTAN BJARNASON

Fæddur að Grund í Garði í Útskálasókn árið 1895. Foreldrar hans eru Þórður Bjarnason, fæddur að Vörum í Garði í sömu sveit, og fyrri kona hans, Rakel Pálsdóttir, Kristjánssonar dannebrogsmanns á Eyði á Austurey í Færeyjum. Þau Þórður og Rakel fluttust frá Íslandi til Selkirk í Manitoba sumarið 1902. Þar andaðist Rakel, en Páll hefir alist upp með föður sínum. Hinn 12. júlí 1917 gekk Páll í herinn og innritaðist í 86. verkfræðingadeildina. Með henni fór hann áleiðis til Englands 7. ágúst 1917. Er þangað kom, var hann settur til eftirlits við ýmiskonar störf. Kom heim aftur 18. september 1919, og er við búskap með föður sínum.



## STEFÁN ÁGÚST BJARNASON.

Fæddur í Winnipegborg 10. ágúst 1886. Foreldrar: Guðmundur Bjarnason (dáinn), Árnasonar frá Austur-Skálanesi í Vopnafirði, og Eyjólfína Eyjólfsdóttir, ættuð af Fljótsdalshéraði. Bjuggu þau lengst eftir að til Ameríku kom við Mary Hill í Álftavatnsbygð. Stefán útskrifaðist frá Manitoba háskólanum vorið 1912 og frá Búnaðarháskóla Manitoba vorið 1915. Var hann þá settur af Manitobastjórn sem umsjónarmaður við fyrirmyndarbú fylkisins við Brandon. Hann gekk í hjúkrunarlið Canadahersins upp úr nýári 1917. Í hernum var hann nær því árlangt. Hann var leystur frá herþjónustu sökum heilsubilunar og fór því eigi af landi burt.



## ÁRNI BJÖRNSSON.

Fæddur 4. ágúst 1897. Stundaði aktýgjasmíðar að Baldur, Man. Sonur Björns Björnssonar frá Haga í Aðal-Reykjadal í Þingeyjarsýslu og Sigríðar Benediktsdóttur frá Grund í Höfðahverfi í sömu sýslu, nú til heimilis að Baldur, Man. Árni gekk í 223. herdeildina 14. marz 1917 og sigldi til Evrópu 23. apríl sama ár, og kom á vígvöll á Frakklandi 20. júní. Hann tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens, Arras og Cambrai og særðist í síðustu orustunni, 4. okt. 1918, en var á leið í skotgrafirnar aftur, þegar vopnahlé komst á. Árni fékk lausn úr hernum 18. júní 1919, og stundar nú fyrri iðn sína að Baldur.



## BJÖRN BJÖRNSSON.

Fæddur í Glenboro í Argylebygð árið 1899. Foreldrar hans eru Ívar frá Skjaldholti á Vatnsleysuströnd (f. 21. sept. 1866) Björnsson, Guðnasonar í Austurholti og Margrétar Ívarsdóttur, systur þeirra Skjaldholtsbræðra; og Anna Jónína Valtýsdóttir (f. 1. júní 1868) í Húsavík í Borgarfirði í Norður-Múlasýslu. Árið 1904 fluttist hann með foreldrum sínum að Langreuth og þar innritaðist hann í 34. riddarasveit Canadahersins (Fort Garry Horse) vorið 1917. Með hersveit þeirri var hann fram eftir sumri 1918, en gekk þá í "Siberian Expeditionary Force", lið það, er sendast átti til Síberíu, en ófriðnum lauk þá nokkru seinna; var hann því aldrei sendur af landi burt.



## SIGMUNDUR BJÖRNSSON.

Fæddur 1. júní 1889 að Hnitbjörgum í Jökulsárhlíð í Norður-Múlasýslu. Hann er sonur Björns Hannessonar bónda að Cold Springs, Man., og Steinunnar Eiríksdóttur, sem nú er látin. Guðmundur gekk í herinn 11. nóvember 1917. Hann tók þátt í þeim orustum, er háðar voru á Frakklandi á svæðinu milli Arras og Cambrai. Særðist einu sinni á vinstri mjöðm og hendi. Kom aftur til Canada 6. júní 1919, þá vinnufær, og stundar nú landbúnaðarvinnu.



## Lieut. STEFÁN K. BJÖRNSSON.

Fæddur 30. sept. 1891 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Kristján Björnsson, ættaður úr Mývatnssveit, og Valgerður Þorsteinsdóttir, fædd á Íslandi. Stefán gegndi herkalli 6. maí 1917, en kveðst ekkert það hafa unnið, sem vert sé að geta um. Var þó sæmdur Lieutenants-tign fyrir trausta þjónustu. Hann var búfræðingur áður en hann fór í herinn, en er nú umboðsmaður fyrir veðtryggingar- og ábyrgðarfélög.

*GUÐSTEINN TÓMASSON BORGFJÖRÐ (sjá III).*



## EGGERT BRYNJÓLFSSON.

Fæddur 11. marz 1891 í Victoria, B. C. Foreldrar: Einar Brynjólfsson frá Hreðavatni í Mýrasýslu og Margrét Sigurðardóttir frá Kvíum í Þverárhlíð í sömu sýslu, nú búandi í Victoria B. C. Eggert gekk í canadiska sjóliðið 8. desember 1917, og starfaði á tveim skipum þess, þar til hann var leystur frá herþjónustu 22. desember 1918. Stundar nú skipasmíðar.



## JOB DAVID BUTLER.

Fæddur í Spanish Fork, Utah, U. S. A., 19. ágúst 1893. Foreldrar: Job Butler, ættaður frá Wales á Englandi, og Katrín Þorláksdóttir frá Dufþekju í Rangárvallasýslu. Job gegndi herkalli í apríl 1917. Var skipaður í aðstoðardeild við herspítala í Californíu og þjónaði þar til stríðsloka og lengi eftir það.



## WALTER CAMERON.

Fæddur í Winnipeg árið 1899. Hann er sonur William Cameron, af canadiskum ættum, og Guðlaugar Jóhannsdóttur frá Engilæk í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu. Walter gekk í canadiska riddaraliðið sumarið 1917, og var við heræfingar á Englandi, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada árið 1919, og stundar nú múraraiðn.



## EDWARD M. CHRISTIANSON.

Fæddur 29. sept. 1894 í Spanish Fork, Utah, U. S. A. Foreldrar: Eggert K. Christianson, Arngrímssonar frá Steðja á Þelamörk í Eyjafjarðarsýslu, og Sesselía Jónsdóttir, Péturssonar frá Vatnahjáleigu í Landeyjum í Rangárvallasýslu. Edward gegndi herkalli 26. desember 1917. Fór ekki úr landi og var leystur frá herþjónustu 4. apríl 1919.



## GUNNI J. CHRISTIANSON.

Fæddur að Garðar í Norður Dakota 3. maí 1893. Foreldrar hans eru: Áskell J. Bergmann, sonur Jóns Jónassonar Bergmanns frá Garðsvík á Svalbarðsströnd, og Guðný Jónsdóttir. Gunni var tekinn til fósturs þriggja vetra gamall, er móðir hans dó, af Jóhanni Kristjánssyni og Guðrúnu konu hans að Mountain, og gengur svo undir nafni þeirra. Gunni var kvaddur í Bandaríkjaherinn 9. maí 1917 og gekk í 164. sveit 41. deildar; var þá í Valley City. Hann var sendur til Frakklands og þar gerður Corporal 25. september 1918. Á Frakklandi var hann til stríðsloka. Leystur frá herþjónustu 1919.



## CLEMENS CLEMENSSON, M. M.

Fæddur á Geirbjarnarstöðum í Suður-Þingeyjarsýslu 5. september 1896. Sonur Jóns Clemenssonar frá Sigríðarstöðum í Hólshreppi í Þingeyjarsýslu og Þuríðar Jónsdóttur frá Litluströnd í Skútustaðahreppi í Þingeyjarsýslu. Clemens gekk í 223. herdeildina 5. marz 1917. Sigldi frá Canada 23. apríl 1917. Kom á vígvöll í Frakklandi 21. júní sama ár, og tók þátt í orustum við Passchendale—Amiens—Arras og Cambrai. Særðist í síðustu orustunni af skoti í öxlina. Hann var sæmdur heiðursmerki (Military Medal) fyrir hreystilega framgöngu í áhlaupi á óvinaflokk við "Neuville Vitasse" á Frakklandi þann 18. ágúst 1918. Var sendur til Canada 18. janúar 1919. Foreldrar hans búa að Silver Bay í Manitoba.



## HALLDÓR CUZNER.

Fæddur í Winnipegborg 5. nóvember 1892. Sonur þeirra M. R. Cuzner bartskera í Winnipeg og Friðriku Halldórsdóttur Reykjalíns, Friðrikssonar, frá Kvennabrekku í Miðdölum í Dalasýslu og konu hans Sigríðar Bjarnadóttur frá Kollafjarðarnesi í Strandasýslu. Halldór innritaðist við vegagerðardeild Canadahersins 19. nóvember 1917 og fór með henni til Frakklands. Varð þar fyrir eiturgasi og heilahristingi, er orsakaðist af sprengikúlu, er óvinaherinn kastaði að tjaldi þeirra eitt skifti, er vinnudeild þeirra var að flytja sig. Hann kom heim vorið 1919. Vinnur á járnbrautarskrifstofu ríkisins.



## JÓN DAVIDSON.

Fæddur að Lögberg P. O., Sask., 18. apríl 1892. Foreldrar: Gunnlaugur Davíðsson, Ísleifssonar og Guðbjargar Jónsdóttur frá Hólkoti í Reykjadal í Þingeyjarsýslu, og Margrét Jónsdóttir Erlendssonar og Kristbjargar Guðlaugsdóttur frá Brettingsstöðum í Laxárdal í Þingeyjarsýslu. Jón gekk í herinn 10. apríl 1917, 223. hersveitina. Fór frá Winnipeg 23. apríl 1917. Tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens, Arras, Cambrai, Valenciennes og Mons. Kom aftur til Canada ósærður 5. ágúst 1919. Stundar akuryrkju.



## PÉTUR VILHELM DAVIDSON.

Fæddur að Baldur, Man., 3. desember 1899. Foreldrar: Hjörtur Davidson, Josephssonar frá Ferjubakka í Axarfirði og Guðný Pétursdóttir frá Árbót í Þingeyjarsýslu. Vilhelm gekk í björgunarliðið (C.A.M.C.) 20. janúar 1917. Tók þátt í orustum við Lens, Passchendale og Hill 70. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 26. marz 1919. Stundar bankastörf í Alberta.



## GESTUR EASTMANN.

Sonur Bjarna Þorsteinssonar, Jónssonar frá Breiðumýrarholti í Stokkseyrarhreppi í Árnessýslu, og Guðríðar Einarsdóttur, Einarssonar frá Grímsstöðum við Reykjavík. Gekk í herinn í marzmánuði 1917, og lagði af stað til Englands 15. júní sama ár. Skipinu hlektist á í hafi og var Gestur nærri drukknaður. Veiktist hann svo í þeim hrakningum, að hann var veikur lengst af tíma þeim, sem hann dvaldi á Englandi. Sneri því aftur til Canada í janúarmánuði 1919. Heimili hans er að Langreuth, Manitoba.



## HALLDÓR ÞORLEIFUR BENEDIKTSSON EASTMAN.

Fæddur 7. janúar 1878 í Gimlisveit í Manitoba. Foreldrar: Benedikt Jónsson Eastman og Rannveig Þorleifsdóttir, er bjuggu á Miklabæ í Gimlisveit. Halldór gekk í herinn árið 1917, og vann að timburtekju. Hann kvæntist í Skotlandi þarlendri konu. Kom aftur til Canada í maí 1919.



## ÁRNI GUÐNI EGGERTSON.

Fæddur í Winnipeg 10. janúar 1896. Foreldrar Árni Eggertsson fasteignasali í Winnipeg, ættaður úr Borgarfirði, og Oddný Jakobsdóttir, ættuð úr Þingeyjarsýslu (nú látin). Árni gekk í canadiska flugliðið 1. september 1917, en var ekki sendur úr landi og veitt lausn frá herþjónustu 1. september 1918. Hann útskrifaðist úr lagadeild Manitobaháskólans vorið 1921, og stundar lögfræðisstörf. Árni er kvongaður Maju Grímsdóttur Laxdal, fyrrum verzlunarstjóra á Vopnafirði. Þau hjón hafa aðsetur í Winnipeg.



## EINAR EINARSSON.

Er fæddur á Íslandi. Foreldrar hans eru Einar Einarsson frá Kleif í Breiðdal og Þórunn Oddsdóttir, ættuð af Austurlandi, og búa þau við Prepot í Saskatchewan. Einar gekk í Bandaríkjaherinn 10. júlí 1917, og var sendur til Frakklands. Heim kom hann aftur 1919. Frekari upplýsingar hafa ekki um hann fengist.

## GUÐMAR JÓN EINARSSON.

Fæddur í Sayreville í New Jersey í Bandaríkjunum 13. desember 1894. Foreldrar hans: Jón Einarsson, Eiríkssonar frá Balakoti í Gullbringusýslu, og Ingigerður Hannesdóttir frá Hrepphúsum í Mýrdal í Vestur-Skaftafellssýslu. Guðmar gekk í Canadaherinn á stríðsárunum, þá rúmlega tvítugur að aldri. Hann er raffræðingur og var ekki sendur úr landi. Er til heimilis hjá foreldrum sínum í Winnipeg og stundar iðn sína í þjónustu C. P. R. félagsins.



## HINRIK VALTÝR EINARSSON.

Fæddur í Winnipeg 29. marz 1894. Foreldrar: Einar Einarsson frá Gunnarsstöðum í Hörðadal í Dalasýslu og Soffía Guðbrandsdóttir frá Vatni í Haukadal í Dalasýslu. Hann tók þátt í orustum í Cambraihéraðinu á Frakklandi alt sumarið 1918. Særðist einu sinni og var á spítala tveggja mánaða tíma. Kom aftur til Canada í júní 1919, þá vinnufær, og vinnur nú hjá Eaton verzlunarfélaginu í Winnipeg. Hann er kvongaður og heitir kona hans Clara Erlendsdóttir, Þórðarsonar, frá Eyrarlandi við Eyjafjörð.



## Sergeant THORARINN E. EINARSSON.

Er fæddur að Hallson 1. febrúar 1895. Sonur Indriða Einarssonar, er ættaður er af Norðurlandi, og Önnu konu hans, er bjuggu um langt skeið að Hallson í Norður Dakota; þar var Thorarinn til heimilis, er hann var kvaddur í Bandaríkjaherinn 22. september 1917, og settur Corporal við deildina 19. janúar 1918 og síðar Sergeant (1. júní 1918). Hann var sendur til Frakklands og var þar til stríðsloka með 87. deild Bandaríkjahersins (Co. I, 347th Reg., 3rd Batt., 87th Div.). Hann var leystur frá herþjónustu að stríðinu loknu.



## TRYGGVI EINARSSON.

Fæddur 18. ágúst 1889 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Sonur Gunnars Einarssonar úr Norður-Múlasýslu, og Guðrúnar Jónsdóttur, ættuð úr Eyjafirði. Tryggvi stundaði búskap að Víðir, Man. Hann gekk í 230. herdeildina 10. janúar 1917, og sigldi til Englands 24. sama mánaðar. Og þar vann hann við skógarhögg og viðarsögun til stríðsloka. Hann kom ómeiddur aftur til Canada 2. júní 1919, og stundar nú fyrra starf sitt að Víðir, Man.



## ÓLAFUR EINARSSON.

Er fæddur við Hallson í Norður Dakota. Sonur Indriða Einarssonar og Önnu konu hans. Voru þau norðlenzk að ætt, en bjuggu lengi norðvestur af Hallson í Dakota. Ólafur var kvaddur í Bandaríkjaherinn 19. júlí 1917. Hann var til heimilis í Cavalier í Norður Dakota. Hann gekk í 11. sjóliðsdeildina og var með henni upp til 19. marz 1919, að hann fékk lausn frá herþjónustu. Fluttist þar á eftir vestur að Kyrrahafi og settist þar að. Frekari upplýsingar ekki fengist.



## GUÐMUNDUR EIRÍKSSON.

Fæddur í Minni-Martungu í Eystrihreppi í Árnessýslu. Sonur Eiríks Ólafssonar og Elízabetar Jónasdóttur, er þar bjuggu. Með þeim var hann þar til þau dóu árið 1901; fór þá vestur á land. Sumarið 1914 flutti hann frá Íslandi til Winnipeg, en fór þaðan um haustið til frænda sinna við Svold í Norður Dakota. Vorið 1917 fluttist hann vestur til Montana, tók þar heimilisréttarland, og bauð sig því næst í Bandaríkjaherinn. Fór þá til Dodge-herbúða í Iowa og þaðan til Deven í Mass. Til Frakklands fór hann vorið 1918. Tók þátt í orustum með Bandaríkjahernum þar.



JENS ELÍASSON.

Fæddur 25. apríl 1897 að Hávarðarstöðum í Bolungarvík í Ísafjarðarsýslu. Foreldrar: Elías Elíasson úr Ísafjarðarsýslu og Guðrún Hávarðardóttir frá Grundarhóli í Bolungarvík, nú búandi að Westbourne, Manitoba. Jens gekk í herinn 11. nóvember 1917. Sigldi til Englands 15. júní 1918. Tók þátt í orustum við Mons og aðra staði á Frakklandi. Kom aftur til Canada 4. apríl 1919. Stundar landbúnað með foreldrum sínum að Westbourne, eins og áður en hann gekk í herinn.



LEIFUR METÚSALEM ELLISON.

Fæddur 12. marz 1897 í Loðmundarfirði í Norður-Múlasýslu. Sonur Eileifs Magnússonar (löngu látinn) og Maríu Metúsalemsdóttur, nú til heimilis í Winnipeg. Leifur gekk í vöruflutningadeild Canadahersins 11. júní 1917 og sigldi til Evrópu í janúar 1918. Leifur getur ekki um þátttöku sína í orustum, en hann vann á vígstöðvunum til stríðsloka, og kom ekki heim til Canada fyr en 15. júní 1919, þá vinnufær. Hann stundar nú landbúnaðarvinnu.



Lieut. PÉTUR ERLENDSSON, A.S.M.A.—U.S.A.

Sonur Guðbrandar Erlendssonar og Sigríðar Ingibjargar Hávarðardóttur frá Gauksstöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu Pétur bauð sig í herþjónustu árið 1917 strax og Bandaríkin slitu viðskiftum við Þýzkaland, og gekk í flugliðið í apríl það ár. Vann svo við flugvélar og flugæfingar til októbermánaðar. Var þá sendur til fullnaðarnáms á Columbia háskólann í Ohio. Tók próf í flugvélafræði í Berkerly í California í janúar 1918. Útskrifaðist þaðan í marz það ár, en var ekki sendur til Frakklands fyr en í ágúst 1918, og gafst ekki kostur á að komast á vígvöll áður en stríðið endaði.



## Lieut. BERTRAND FRIÐÞJÓFUR EYFORD.

Fæddur að Ethelbert, Man., 10. júní 1899. Foreldrar: G. Eyford frá Ytri-Reistará í Eyjafirði og Sveinbjörg Pétursdóttir frá Kálfafellsstað í Suðursveit. Þau hjón bjuggu lengi í Prince Albert borg, Sask. Bertrand naut góðrar mentunar í uppvexti og stundaði hraðskeytasendingu fyrir C. N. járnbrautafélagið. Árið 1917 gekk hann í herdeild þá, sem send var til Síberíu. Herdeild sú var send til baka til Canada sumarið 1918, en Bertrand varð eftir og gekk þar í lið með Bretum, og í orustum með þeim vann hann sér "Lieutenant"-stöðuna. Var hann þá með öðrum settur til gæzlu járnbrauta í Vestur-Síberíu, og til umsjónar á hergagna- og matvælaflutningum til pólska hersins. Í janúar 1920 var hann tekinn herfangi af Bolshevikihernum í grend við Krasnoyarsk og fluttur til Moskva á Rússlandi, og var þar, er síðast fréttist.



## EINAR G. FINNSSON.

Fæddur að Gimli, Man., 18. júlí 1896. Sonur Guðmundar B. Jónssonar frá Gufudal í Barðastrandarsýslu og Margrétar Bjarnadóttur frá Víðivöllum við Steingrímsfjörð. Einar stundaði tinsmíði í Vancouver á Kyrrahafsströnd. Hann gekk í Canadaherinn 20. des. 1917 og innritaðist í 9. fylkingu verkfræðingadeildarinnar. Sigldi áleiðis til Frakklands 25. febr. 1918. Tók þar þátt í orustum við Amiens (ágúst 1918) og einnig í bardögum við Cambrai og þar í grend. Kom aftur til Canada 31. marz 1919, og stundar nú bændavinnu.

*Ungfrú CHRISTINE FREDERICKSON* *(sjá III).*



## WILLIAM FREEMAN.

Fæddur 19. september 1895 að Upham, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Guðmundur Jónsson Frímann úr Köldukinn í Dölum og Guðbjörg Helgadóttir, Guðmundssonar frá Ölvaldsstöðum í Mýrasýslu, nú búandi að Upham, N. Dak. William gegndi herkalli 6. september 1917. Sigldi til Frakklands í ágúst 1918. Tók þátt í úrslitaorustu Bandaríkjahersins þar, á Argonnesvæðinu. Kom heim aftur í júlí 1919. Hann er kvongaður Ólafíu Ruth Thordarson, og stundar griparækt.

## JÓHANNES GESTSSON.

Fæddur árið 1896 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Sigurjón Gestsson og Arnþóra Jóhannsdóttir bæði frá Eldjárnsstöðum á Langanesi. Jóhannes gegndi herkalli árið 1917 og gekk í flugdeild hersins. Hann þjónaði í þeirri deild á Frakklandi alt til stríðsloka. Kom heim aftur til foreldra sinna að Mountain árið 1919.



## JÓNAS J. GESTSSON.

Fæddur 26. febr. 1893 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Jóh. Gestsson og Jóhanna Jónsdóttir, frá Langanesi í Norður-Þingeyjarsýslu. Jónas gegndi herkalli 7. desember 1917, og vann við hergagnaflutninga á Frakklandi, þar til hann var leystur frá herþjónustu í júlí 1919. Hann stundar landbúnað í Garðarbygð.

## MATTHÍAS GESTSSON.

Fæddur árið 1888. Foreldrar: Sigurjón Gestsson frá Eldjárnsstöðum á Langanesi og Arnþóra Jóhannsdóttir frá sama bæ. Matthías gegndi herkalli árið 1917, og tók þátt í ýmsum orustum á Frakklandi alt til stríðsloka. Kom aftur árið 1919. Foreldrar hans búa að Mountain, Norður Dakota, U. S. A.



## SIGURJÓN J. GESTSSON.

Fæddur 11. apr. 1888 að Grafton, N. Dakota, U. S. A. Foreldrar: Jóhann Gestsson og Jóhanna Jónsdóttir, frá Langanesi í Norður-Þingeyjarsýslu, nú búandi að Garðar, Norður Dakota. Sigurjón gegndi herkalli 2. nóvember 1917 og innritaðist í fluglið Bandaríkjanna. Hann sigldi áleiðis til Frakklands 13. febrúar 1918. Hann kom aftur 20. júlí 1919. Hann stundar trésmíðar.



## SIGURBJÖRN (SAMUEL) GILLIES.

Fæddur 21. júní 1890 við Íslendingafljót í Manitoba. Sonur Gísla Jónssonar frá Njarðvík við Borgarfjörð í Norður-Múlasýslu og Vilborgar Ásmundsdóttur frá Setbergi í Fellum. Sigurbjörn er vélfræðingur og vann sem vélstjóri fyrir C. P. R. félagið áður en hann gekk í herinn 13. marz 1917. Mánuði síðar sigldi hann til Frakklands og stjórnaði þar gufuvél á járnbrautarlestum, sem notaðar voru til þess að flytja allskonar skotfæri að fremstu vígstöðvum. Til Winnipeg kom hann aftur heill á húfi þann 13. apríl 1919. Sigurbjörn er giftur konu af þýzkum ættum. Þau hjón búa í Winnipeg.

*BERTEL LINCOLN GILLIS (sjá III).*

*Sergeant CHARLES GISLASON (sjá III).*

*GUÐNI HELGI GOODMAN (sjá III).*

*SIGURÐUR GOODMAN (sjá III).*



## JOSEPH M. GOODMAN.

Er fæddur í Norður Dakota 29. september 1886. Er til heimilis við Crystal í Norður Dakota. Foreldrar hans eru þau Aðalmundur Guðmundsson og fyrri kona hans Ásdís Sigríður Guðmundsdóttir, bæði ættuð af Langanesi í Norður-Þingeyjarsýslu. Býr faðir hans á þessum stöðvum. Joseph gekk í Bandaríkjaherinn skömmu eftir að herútboð var gert um landið, sem bílstjóri, og þjónaði í því umdæmi til stríðsloka. Hann var 13 mánuði á Frakklandi og var leystur frá herþjónustu í marz 1919.



## ÓLI ALFRED GUÐJÓNSSON.

Fæddur 4. október 1897 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Stundaði landbúnað að Wynyard, Sask., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar Ásgeir Guðjónsson frá Köldukinn í Suður-Þingeyjarsýslu og Sigríður Árnadóttir frá Öngulsstöðum í Eyjafjarðarsýslu, nú búandi að Wynyard. Óli gekk í herinn í júlímánuði 1917, og sigldi frá Canada í ágústmánuði það ár. Kom aftur til Canada í júlí 1919.



## JÓHANN ANDREAS GUÐMUNDSSON.

Fæddur 31. október 1891 að Detroit Harbour, Wisconsin, U. S. A. Foreldrar Árni Guðmundsson frá Eyrarbakka í Árnessýslu og Halldóra Magnúsdóttir, Péturssonar frá Skeggjastöðum á Jökuldal, nú búandi að Detroit Harbour. Jóhann gegndi herkalli 1. júlí 1917. Sigldi til Frakklands í febrúar 1918. Tók þátt í orustum við Chateau Thierry og Argonne. Afturkominn 23. maí 1919. Stundar bókfærslu í Racinebæ í Wisconsin.



## SVEINBJÖRN G. GUÐMUNDSSON.

Er fæddur við Mountain í Norður Dakota 13. september 1890. Sonur Guðmundar Guðmundssonar, Jóhannessonar, frá Víðinesi í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu, og Sigurlaugar Sveinbjarnardóttur, Jóhannessonar, frá Veðramóti í Skörðum í sömu sýslu. Voru þau bræðrabörn. Sveinbjörn var kvaddur í Bandaríkjaherinn 22. september 1917 og gekk í lúðraflokk 348. sveitar 87. herdeildar. Með henni var hann til stríðsloka. Frekari upplýsingar um starf hans í hernum hafa ekki fengist.



## JÓN HALLDÓRSSON.

Fæddur 4. maí 1884 að Húnsstöðum í Fljótum í Skagafjarðarsýslu. Foreldrar hans Halldór Jónsson, Guðmundssonar frá Tungu í Fljótum, og Þóranna Gunnlaugsdóttir, Magnússonar frá Kálfsá í Ólafsfirði í Eyjafjarðarsýslu. Jón gekk í herinn 3. apríl 1917 og fór áleiðis til Englands í ágústmánuði það ár, og dvaldi þar við heræfingar, þar til hann veiktist af blóðeitrun í handlegg, og varð af því að þola skurð og langa spítalavist. Fór ekki á orustuvöll, og kom aftur til Canada 5. júlí 1919, þá vinnufær. Hann stundar nú smíðavinnu í Winnipeg.

*KONRÁÐ GUÐSTEINN HALLDÓRSSON (sjá III).*



## SÆMUNDUR V. HALLDÓRSSON.

Fæddur í Glasston, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Jósteinn Halldórsson frá Nýpi á Skarðsströnd og Margrét Sæmundardóttir, ættuð úr Húnavatnssýslu. Sæmundur gegndi herkalli í septembermánuði 1917 og var skipaður í lögregludeild Bandaríkjahersins. Hann sýktist af lungnabólgu og komst því ekki til Frakklands. Fékk því lausn frá herþjónustu með góðum vitnisburði, og var á vegum stjórnarinnar og naut kenslu í mannvirkjafræði á skóla hennar.



## JÓHANN P. HALLSSON.

Fæddur 1. marz árið 1887 í Hallson, Norður Dakota. Foreldrar hans eru þau Pétur, fæddur í Hvammi í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu, Jóhannsson, Hallssonar frá Egg í Skagafirði, er fyrstur nam land í Íslendingabygð í Norður Dakota· bróðir Jóns prófasts Hallssonar í Glaumbæ, og Gunnvör Baldvinsdóttir, úr Málmey í Skagafirði, nú í Blaine, Wash. Jóhann var við búskap í Manitoba og innritaðist í vinnudeild hersins 28. desember 1917. Fór yfir til Frakklands 28. febrúar 1918 frá Halifax. Vann við brauta- og brúalagningu og skurðgröft. Kom aftur 23. apríl 1919,



## VICTOR FREEMAN HANNESSON.

Fæddur 3. september 1894 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Frímann Hannesson frá Reykjarhól í Víðimýrarsókn í Skagafirði og Helga Jóhannesdóttir frá Hóli í Goðdalasókn í Skagafirði. Frímann býr að Upham, N. D. Victor gegndi herkalli í apríl 1917. Sigldi til Frakklands 30. júní 1918. Tók þátt í orustum á Gerardmor Vogses svæðinu, 3.—12. september, og á Meuse—Argonne svæðinu, 1. til 11. nóvember. Særðist ekki. Kom heim aftur 20. júní 1919. Stundar landbúnaðarvinnu að Upham, Norður Dakota.



## BENEDIKT B. HELGASON.

Fæddur 24. febrúar 1885 að Brúnahvammi í Vopnafirði í Norður-Múlasýslu. Sonur þeirra Bjarna Helgasonar og Halldóru Bjarnadóttur. Foreldrar Bjarna voru Helgi Jónasson og Guðlaug Bjarnadóttir, er bjuggu að Arndísarstöðum í Bárðardal í Þingeyjarsýslu, en foreldrar Halldóru voru Bjarni Jónasson, Þorsteinssonar prests í Reykjahlíð og konu hans Kristínar Kristjánsdóttur frá Illugastöðum í Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu. Benedikt innritaðist í 223. herd. 3. apríl 1917, og fór frá Canada 23. apríl 1917. Tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens, Arras, Canal du Nord og Cambrai. Kom óskaddaður til baka 26. maí 1919. Stundar algenga bændavinnu.



## ÓLAFUR ÁGÚST HELGASON.

Fæddur 19. júní í Chicagoborg í Bandaríkjunum. Sonur Ólafs Helgasonar frá Útkoti á Kjalarnesi í Kjósarsýslu, og Ingibjargar konu hans frá Reykjavík. Ólafur gekk í sjóher Bandaríkjanna 23. júní 1917. Var leystur frá herþjónustu 12. febrúar 1919.



## JACOB G. HENRICKSON.

Fæddur í Winnipeg 1. janúar 1890. Foreldrar hans: Gunnlaugur Hinriksson frá Efra-Núpi í Miðfirði í Húnavatnssýslu (nú löngu látinn) og Ásdís Sigurgeirsdóttir frá Svartárkoti í Bárðardal í Þingeyjarsýslu, nú að Gimli, Manitoba. Jacob gekk í herinn 29. desember 1917, og fór á vígvöll á Frakklandi. Tók þar þátt í orustum, og að vopnahlé fengnu, var hann einn þeirra, er skipuðu um tíma setulið í Þýzkalandi. Kom aftur til Canada í maí 1919, og stundar nú blýsmíðaiðn sína í Winnipegborg.



## SIGURÐUR HJALTALÍN.

Fæddur 14. janúar 1896 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Hjörtur Traustason Hjaltalín, ættaður úr Eyjafirði, og Elín Sigurðardóttir, ættuð úr Skagafirði, nú búandi að Bellingham, Wash. U. S. A. Sigurður gegndi herkalli 31. október 1917 og gekk þá í sjólið Bandaríkjanna, en gefur að öðru leyti alls engar upplýsingar um herþjónustu sína. Hann er verkstjóri fyrir fiski-niðursuðufélag í Bellingham.

## JÓHANN BJÖRN HOLM.

Fæddur 5. september 1896 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Var námsmaður þar. Foreldrar: Sveinn Jóhannesson Holm frá Kóreksstöðum í Norður-Múlasýslu og Ingibjörg Björnsdóttir frá Búastöðum í Vopnafirði. Jóhann gekk í herinn 12. maí 1917. Sigldi til Frakklands 10. september sama ár. Tók þátt í orustum við Chateau—Thierry, Marne, St. Mihiel, Champagne, Mequai og Argonne. Særðist ekki. Kom heim aftur 6. ágúst 1919.



## LÁRUS GUNNAR HVANNDAL.

Fæddur í Graftonbæ í Norður Dakota, U. S. A., 9. september 1894. Sonur Hjálmars Kristjánssonar frá Tungu á Langadalsströnd í Ísafjarðarsýslu og Maríu Kristjánsdóttur frá Sauðanesi á Langanesi í Þingeyjarsýslu (nú látin). Lárus gekk í herinn 11. nóvember 1917. Hann var í tölu þeirra manna, sem sendir voru til Síberíu. Kom þangað í janúar 1919. Var þar 4 mánuði. Þá var deild hans send til baka til Canada. Leystur frá herþjónustu 12. maí það ár.

## BYRON HÖGNASON.

Fæddur 19. nóvember 1886 að Clarkfield, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Snorri Högnason, Gunnlaugssonar, frá Ósi í Breiðdal í Suður-Múlasýslu, og Vilborg Jónatansdóttir, Péturssonar, frá Eiðum í Eiðaþinghá. Byron var háskólalærður rafleiðslu- og mannvirkjafræðingur, þegar hann gegndi herkalli í nóvembermánuði 1917. Til Frakklands fór hann með verkfræðingaflokki í aprílmánuði 1918, og starfaði þar að járnbrauta- og brúalagningu og vegagerðum fyrir Bandaríkjaherinn alt fram til júnímánaðar 1919, að hann var leystur frá herþjónustu.



GUNNLAUGUR HÖJGAARD.

Er fæddur í Norður Dakota 10. desember 1893. Sonur Kristjáns Þórðar Höjgaard, er ættaður er úr Krossavík í Vopnafirði, og Jensínu Pétursdóttur, sem ættuð er úr sömu sveit. Gunnlaugur var kvaddur í Bandaríkjaherinn 7. september 1917 og innritaðist í 348. hersveitina, og með henni var hann til stríðsloka. Mun hann hafa farið til Frakklands og tekið þar þátt í orustum, en um það bresta allar upplýsingar.



SAMÚEL UNNSTEINN ÍSDAL.

Fæddur 4. febrúar 1886 í Ísafjarðarkaupstað á Íslandi. Foreldrar: Árni Jónsson og Margrét Friðriksdóttir, frá Marðarnúpi í Húnavatnssýslu. Samúel gekk í Canadaherinn 18. febrúar 1917. Fór til Englands í júní það ár. Samúel var 18 mánaða tíma á vígvöllum Frakklands og fékk lausn úr herþjónustu 2. apríl 1919, eftir fulla tveggja ára þjónustu í hernum.



ALFRED JÚLÍUS JOCHUMSSON.

Fæddur í Winnipeg 21. september 1898. Foreldrar: Guðbert Eggertsson, Jochumssonar frá Skógum á Barðaströnd, og Sæunn Jónasdóttir. Þau bjuggu á Akureyri við Eyjafjörð. Alfred gekk í Canadiska flugliðið 18. janúar 1917. Var við heræfingar í Austur-Canada, þegar vopnahlé var samið. Hann er handverksmaður og er til heimilis í Winnipeg.

*JÓHANN JÓHANNSSON* *(sjá III).*



## JÓHANNES TH. JÓHANNESSON.

Fæddur að Brú í Manitoba 2. maí 1891. Sonur Þorfinns Jóhannessonar úr Breiðdal í Suður-Múlasýslu og Karólínar Rannveigar Jóhannesson, sem ættuð er úr Axarfirði í Norður-Þingeyjarsýslu. Búa þau hjón að Baldur í Argylebygð. Jóhannes er til heimilis með foreldrum sínum. Hann innritaðist við 223. canadisku hersveitina 14. marz 1917. Var við heræfingar um tíma, en sökum heilsuveiklunar var hann leystur úr herþjónustu 6. júní sama ár.



## JOSEPH SÆMUNDUR JÓHANNSSON.

Fæddur í Wpg. 10. júlí 1896. Foreldrar: Eggert Jóhannsson frá Vindheimum í Skagafirði og Elín Hjörleifsdóttir frá Dyrhólum í Vestur-Skaftafellssýslu. Joseph gekk í stórskotalið Canadahersins sem undirforingi í maí 1917, en fór aldrei úr Canada, með því að hann var sérfræðingur í stórskota- og fallbyssufræði og var skipaður kennari í þeim fræðum við stórskotaliðsbúðirnar við Petawawa í Ontariofylki. Hann stundar nú skrifstofustörf í Vancouverborg á Kyrrahafsströnd, þar sem foreldrar hans búa.



## SIGFÚS JÓHANNSSON.

Fæddur árið 1877. Foreldrar: Jóhann Þorsteinsson frá Engilæk í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu og Steinunn Árnadóttir frá Gilsárvallahjáleigu í Borgarfirði austur. Sigfús gekk í herinn árið 1917. Fór til Englands og var í herþjónustu fram á árið 1919, að hann fékk heimfararleyfi til Canada.



## BJÖRN JOHNSON.

Fæddur að Kötlustöðum í Vatnsdal í Húnavatnssýslu. Sonur Jóns Jóelsonar og Randheiðar Sigurðardóttur, er bjuggu að Saurbæ í Vatnsdal. Björn stundaði landbúnað að Leslie, Sask., áður en hann gekk í 223. herd. 15. marz 1917. Fór frá Winnipeg 23. apríl. Sigldi til Evrópu frá Halifax 5. maí það sama ár. Hann tók þátt í orustum við Passchendale og Arras. Særðist einu sinni. Hann kom aftur til Canada 23. apríl 1919. Stundar nú sína fyrri atvinnu að Leslie.



## Lieut. EINAR JOHNSON.

Fæddur 20. marz 1889 í Watertown, Suður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Guðjón Jónsson, Stefánssonar, úr Vopnafirði, og Jakobína Sigfúsdóttir frá Hofteigi á Jökuldal í Norður-Múlasýslu; hún dáin, en hann búandi í Bellingham, Wash. Einar gegndi herkalli 27. ágúst 1917 og var skipaður í stórskotaliðið og sæmdur Lieutenants-tign. Sigldi til Frakklands í júnímánuði 1918. Tók þátt í Meuse—Argonne-orustunum. Særðist ekki. Kom heim aftur 31. janúar 1919. Meðan hann var á Frakklandi var hann flugnjósnari með Lieutenant-tign. Einar er lyfjafræðingur og hefir aðsetur í St. Paul, Minnesota.

## Lieut. FRIÐJÓN (FRED) JOHNSON.

Fæddur 23. apríl 1896 að Glenboro, Manitoba. Foreldrar: Alex E. Johnson frá Kúðá í Þistilfirði í Þingeyjarsýslu og Margrét Friðbjarnardóttir frá Björgum í Kinn í Suður-Þingeyjarsýslu. Friðjón gekk í herinn 30. september 1917 og sigldi til Englands 1. júní 1918, sem undirforingi. Hann var við heræfingar, fyrst á Englandi og síðar á Skotlandi, og var ekki kominn á vígvöll, er vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 1. júní 1919. Stundar lögfræðinám í Winnipeg.

## Sergeant GUÐMUNDUR JOHNSON.



Fæddur 6. ágúst 1883 í Lincoln County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Daníel Jónsson frá Brekku í Barðastrandarsýslu og Arnbjörg Kristjánsdóttir frá Stóra-Múla í Dalasýslu. Guðmundur gekk í Bandaríkjaherinn 12. maí 1917, í verkfræðingadeild. Sigldi með henni til Evrópu 25. ágúst það ár. Hann tók þátt í orustum á Toulon—Troyon svæðinu frá 15. marz til 13. maí, á Chateausvæðinu frá 6. júní til 9. júlí, á Aisne—Marne svæðinu þann 18. og 19. júlí í St. Mihiel áhlaupinu frá 12.—16. september, í Meuse—Argonne áhlaupinu 1.—26. október, á sama svæði 1.—11. nóvember, þegar Þjóðverjar gáfust upp. Hann var í liði því, sem fylgdi Þjóðverjum inn á Þýzkaland, og þjónaði þar, þar til 21. júlí 1919. Kom heim aftur 8. ágúst 1919. Stundar trésmíðar í Minneota, Minnesota, eins og áður en hann gekk í herinn.

## INGVI LÍNDAL JOHNSON.



Fæddur 18. marz 1895 að Lundar P. O., Manitoba. Sonur Sveins Jónssonar, Matthíassonar, frá Hergilsey á Breiðafirði, og Kristínar Jónsdóttur, Jónadabssonar, Líndal, frá Lækjarkoti í Víðidal í Húnavatnssýslu. Gekk í 105. herd. 12. júní 1917 sem undirforingi (Corporal). Á Frakklandi tók hann þátt í orustum við Amiens, Bellecourt, Cambrai og á fleiri stöðum, við hina svonefndu Hindenburg-línu, þar með taldir staðirnir Valenciennes og Mons. Hann særðist í septembermánuði 1918 í bardaganum við Agrecourt. Kom heim aftur til Canada 14. apríl 1919, þá nokkurnveginn vinnufær. Stundar nú flutningavinnu.

## JOHN S. JOHNSON.



Fæddur í Winnipeg 6. marz 1892. Foreldrar: Guðmundur Johnson frá Máná á Tjörnesi, um langt skeið verzlunarmaður í Winnipeg, og Katrín Arngrímsdóttir frá Brekkugerði í Fljótsdal. John gekk í herinn árið 1917. Tók þátt í orustum á Frakklandi, og var þar í skotgröfum, þegar vopnahlé var sett. Kom heim aftur ósærður. Hann er útlærður landmælingamaður og er nú til heimilis í Winnipeg.



MAGNÚS JÚLÍUS JOHNSON.

Fæddur 18. júlí 1896 á Washingtoneyju, Wis., U. S. A. Foreldrar: Magnús Jónsson og Jóhanna Ingibjörg Hannesdóttir frá Eyrarbakka í Árnessýslu, nú búandi á Washingtoneyju. Magnús gegndi herkalli 8. júní 1917 og gekk í sjóher Bandaríkja. Sigldi 2. október 1917 til St. Thomas eyjunnar, í danska Vestur-Indía eyjaklasanum, og starfaði þar, þangað til hann var leystur frá herþjónustu 5. apríl 1919. Hlaut sæmdarmerki fyrir skothæfni. Er nú undirstýrimaður á gufuskipi. Mun telja sér heimili á Washingtoneyjunni.



NÍELS G. JOHNSON.

Fæddur 30. apríl 1896 á Akureyri á Íslandi. Foreldrar: Guðbjartur Jónsson frá Víghólsstöðum á Fellsströnd og Guðrún Ólafsdóttir frá Stóruhvalsá við Hrútafjörð í Strandasýslu, búandi að Upham, Norður Dakota, U. S. A. Níels gegndi herkalli 23. september 1917. Sigldi til Frakklands 1. maí 1918. Tók þátt í orustum á St. Mihiel og Argonne svæðunum, og sýndi þar svo hermannlega framkomu, að herforinginn sæmdi hann vottorðsskjali, svo ekki gefst betra. Hann kom heim aftur 30 maí 1919. Stundar nú nám við háskólann í Grand Forks, Norður Dakota.



Sergeant OLIVER E. JOHNSON.

Fæddur 31. ágúst 1892 í Winnipeg. Var brúarsmiður í Pembina í Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar hans: Bjarni Jónsson byggingameistari frá Kirkjubóli í Norðfirði og Guðrún Ólafsdóttir frá Tungu í Grafningi. Oliver gegndi herkalli 15. apríl 1917 og var skipaður í verkfræðingadeild með Sergeant-tign. Sigldi til Frakklands 12. nóvember 1917. Tók þátt í orustum við St. Mihiel og Argonne—Meuse. Særðist ekki. Kom heim aftur 20. júní 1919. Hann stundar brúasmíði sem fyr.



## OSCAR MATHEW JOHNSON, S. M.

Fæddur 7. febrúar 1894 í Spanish Fork, Utah, U. S. A. Foreldrar: Árni Árnason, Jónssonar, og Sólveig Sveinsdóttir. Þau bjuggu á Vilborgarstöðum í Vestmannaeyjum. Oscar gegndi herkalli 14. desember 1917 og gekk í verkfræðingadeild. Sigldi til Frakklands 14. marz 1918. Hann tók þátt í orustum við Chateau—Thierry, St. Mihiel og Argonne—Meuse. Særðist ekki, en varð fyrir eiturlofti. Var sæmdur heiðursmerki fyrir hugrekki og dygga þjónustu á vígvelli. Kom heim aftur í aprílmánuði 1919. Vinnur nú fyrir sykurgerðarfélag í Utah, eins og hann gerði áður en hann gekk í herinn.



## STEPHAN SIGURÐUR JOHNSON.

Fæddur 22. febrúar 1899 í Lincoln County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Jón Eyjólfsson Johnson af Völlum í Suður-Múlasýslu og Sigurbjörg Árnadóttir frá Vopnafirði, nú búandi að Minneota, Minnesota. Stefán var járnbrautarfélagsþjónn áður en hann gegndi herkalli 5. maí 1917. Hann fór til Frakklands 14. júlí 1918, en tók ekki þátt í orustum. Var leystur frá herþjónustu 27. febrúar 1919. Vinnur nú sem símritari.



## VILHJÁLMUR ANDRÉS JOHNSON.

Fæddur í Winnipeg 10. nóvember 1892. Foreldrar: Jóhannes Johnson, ættaður úr Dalasýslu, og Guðrún Andrésdóttir frá Holti í Snæfellsnessýslu. Gekk í herinn 7. marz 1917. Var við heræfingar í Canada. Leystur frá herþjónustu 26. desember 1918. Er nú í þjónustu C. P. R. félagsins og býr í Winnipeg. Kona hans er Rose Bertrand.



## GUÐMUNDUR JÓNSSON (GOODMAN JOHNSON).

Fæddur 10. júní 1857 á Íslandi. Foreldrar: Jón Einarsson frá Vermundarfelli í Þistilfirði í Þingeyjarsýslu og Ingunn Guðmundsdóttir, Þorsteinssonar á Hafursstöðum í Þistilfirði. Guðmundur gegndi herkalli og var skipaður umsjónarmaður Y. M. C. A. bygginganna við Kovney-heræfingastöðvarnar, No. 3, í California, en fyrir aldurs sakir var honum ekki leyft að fara til Frakklands. Guðmundur er trésmiður að iðn og hafði, áður en hann gekk í herinn, heimili í San Diego, California.



## Lieut. JOSEPH T. JOSEPHSON.

Fæddur í Lincoln County, Minnesota, U. S. A., 4. maí 1891. Foreldrar: Joseph V. Josephson frá Leifsstöðum í Vopnafirði og Guðrún Jónsdóttir frá Eskifirði. Joseph gegndi herkalli 27. maí 1917. Sigldi til Frakklands 25. ágúst 1918. Tók þátt í Argonne-orustunni miklu, frá 25. september til stríðsloka 11. nóv. 1918, og ávann sér Lieutenants-merki. Kom heim aftur 5. júlí 1919. Er símritari hjá járnbrautafélagi.



## PÉTUR JOSEPHSON.

Fæddur 3. apríl 1890 í Lincoln County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Sigurvin V. Josephson frá Leifsstöðum í Vopnafirði og Rósa Pálsdóttir, Péturssonar, frá Hákonarstöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu, nú búandi að Ivanhoe, Minnesota. Pétur gegndi herkalli 20. september 1917. Sigldi til Frakklands 3. maí 1918. Tók þátt í orustum við Somme, Vosges, Verdun, St. Mihiel og Meuse—Argonne. Særðist ekki. Kom heim aftur 3. maí 1919. Stundar landbúnað að Ivanhoe.

## Sergeant PÉTUR S. JÖKULL.



Fæddur 10. júlí 1897 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar Pétur P. Jökull frá Hákonarstöðum á Jökuldal og Sigurborg Hallgrímsdóttir frá Vakursstöðum í Vopnafirði, hvorirtveggja staðirnir í Norður-Múlasýslu. Pétur gegndi herkalli 5. maí 1917. Sigldi til Frakklands í maímánuði 1918. Tók þátt í orustum á Aisne—Marne svæðinu frá 20. júlí til 6. ágúst, á Vesle-svæðinu 7.—17. ágúst, á Toulon-svæðinu 10. og 11. september, við St. Mihiel 12.—16. september og á Meuse—Argonne svæðinu frá 26. sept. til stríðsloka 11. nóvember 1918; og var í gæzluliði Bandaríkjanna á Þýzkalandi frá 13. desember 1918 til 12. júlí 1919. Kom heim aftur, sæmdur Sergeant-nafnbót, 6. ágúst 1919. Er nú aðstoðar-féhirðir á Fyrsta National bankanum í Minneota.

## SIGURÐUR KJARTANSSON.



Fæddur 2. ágúst 1891 að Vattarnesi við Fáskrúðsfjörð. Sonur Kjartans sál. Sturlusonar og Konráðínu Bjarnadóttur söðlasmiðs, Oddssonar, úr Reyðarfirði. Sigurður innritaðist í herinn í Grafton, N. D., 28. júlí 1917. Sigldi frá Bandaríkjunum 15. desember það ár til Frakklands. Hann fór á vígvöll með deild sinni, og var í 5 stórorustum. Særðist einu sinni og var mánaðartíma á sjúkrahúsi; gekk þá aftur undir merki. Hann fór með deild sinni til Þýzkalands og var þar til 15. ágúst 1919, að hún fékk tilkynningu um að búa sig til brottferðar. Fékk lausn úr herþjónustu 24. sept. það ár. Sigurður kvæntist í júnímánuði 1921 Stefaníu, dóttur Trausta og Sigrúnar Kristjánsson að Garðar, N. D.

## SIGURÐUR JÓSÚA KOLBEINSSON.



Fæddur 9. apríl 1895 í Portage la Prairie, Manitoba. Foreldrar: Þórður Kolbeinsson frá Hreinsstöðum í Norðurárdal og Guðríður Jónsdóttir frá Einifelli í Stafholtstungum í Mýrasýslu. Sigurður gekk í canadiska sjóliðið 10. nóvember 1917 og þjónaði þar fram til aprílmánaðar 1919, að hann var leystur frá herþjónustu. Hann er kvæntur Aðalbjörgu Sigrúnu Arngrímsson, ættaðri úr Skagafirði. Þau hjón stunda landbúnað.



## FRED HERBERT LAVENTURE.

Fæddur í Winnipeg 17. janúar 1899. Foreldrar: Joseph Laventure, canadiskur maður af frönskum ættum, og Ása Jakobsdóttir, Oddssonar, og Sigurbjargar Jónsdóttur, er bjuggu að Rauf á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. Gekk í herinn 30. maí 1917. Tók þátt í orustum í Síberíu. Kom aftur til Canada 12. júní 1919. Er til heimilis í Winnipeg.



## LOUIS JOSEPH LAVENTURE.

Fæddur í Winnipeg 26. júlí 1895. Foreldrar: Joseph Laventure, canadiskur maður af frönskum ættum, og Ása Jakobsdóttir, Oddssonar, og Sigurbjargar Jónsdóttur, er bjuggu að Rauf á Tjörnesi. Gekk í Fort Garry riddaraliðið 4. júní 1917. Louis er gufuvélastjóri og hefir að líkindum unnið að því á Frakklandi. Hann kom aftur til Canada 27. ágúst 1919. Er til heimilis í Winnipeg.



## HRINGUR LAXDAL.

Fæddur 20. júlí 1896 í Bellingham, Wash, U. S. A. Foreldrar. Guðmundur Gíslason Laxdal, Jónssonar, frá Saurum í Dalasýslu, og Halldóra Kristjánsdóttir, Vernharðssonar, frá Eyrarbakka í Árnessýslu. Hringur gegndi herkalli í októbermánuði 1917 og gekk í flugdeild Banadríkja sjóliðsins. Starfaði með því, þar til hann var leystur frá herþjónustu í janúar 1919. Stundar nú bifreiða-aðgerðir.



## JOHN LAXDAL.

Fæddur 13. desember 1891 í Seattle, Wash., U. S. A. Foreldrar: Guðmundur Gíslason Laxdal, Jónssonar, frá Saurum í Dalasýslu, og Halldóra Kristjánsdóttir, Vernharðssonar, frá Eyrarbakka í Árnessýslu. John gegndi herkalli í nóvembermánuði 1917 og gekk í sjólið Bandaríkjanna, og starfaði með því, þar til hann var leystur frá herþjónustu í desembermánuði 1919. Hann stundar nú bifreiða-aðgerðir. John er kvæntur. Heitir kona hans Nellie Innes, af enskum ættum.



## JÖRGEN VICTOR LEIFSSON.

Fæddur 8. júní 1894 í Spanish Fork, Utah, U. S. A. Foreldrar: Sigurður Þorleifsson, ættaður úr Rangárvallasýslu, og Hólmfríður Hjálmarsdóttir, ættuð úr Vestmannaeyjum, nú búandi í Spanish Fork. Jörgen gegndi herkalli 3. október 1917. Sigldi til Evrópu 15. ágúst 1918. Tók ekki þátt í orustum. Var leystur frá herþjónustu 3. janúar 1919. Stundar trésmíðar. Er kvæntur Mary Bradford og býr í Spanish Fork.



## Sergeant ALBERT GUÐMUNDUR LEIFUR.

Er fæddur að Glasston í Norður Dakota 7. maí 1892. Foreldrar hans eru Ísleifur Vernharðsson Leifur frá Eyrarbakka í Árnessýslu, og Sigríður kona hans, er nú búa að Mountain í Norður Dakota. Albert var kvaddur í Bandaríkjaherinn 25. júlí 1917. Skipaður Corporal 18. október 1917, Sergeant 25. júlí 1918. Vann á aðalstöðvum 9. herdeildarinnar til stríðsloka.



## JOSEPH WALTER LINDAL.

Fæddur 4. apríl 1894 í Selkirk, Manitoba. Foreldrar: Þorsteinn Þorsteinsson Lindal, Þorleifssonar, frá Efravatnshorni í Víðidal í Húnavatnssýslu, og Sigríður Bjarnadóttir, Sigurðssonar, frá Melrakkadal í Víðidal í Húnavatnssýslu. Joseph gegndi herkalli 18. september 1917. Sigldi til Frakklands 7. maí 1918. Tók þátt í orustum við Marne, Chateau—Thierry, St. Mihiel og í Argonneskógi. Særðist ekki. Kom heim aftur 1. ágúst 1919. Vinnur við sögunarmylnu í Blaine, Wash., U. S. A.



## LEIFUR COLUMBUS LINDAL.

Fæddur 22. október 1892 að Markland P. O., Manitoba. Foreldrar: Björn Sæmundsson Lindal frá Gautshamri í Strandasýslu og Svava Ingibjörg Björnsdóttir, Kristjánssonar Skagfjörðs og fyrri konu hans Kristrúnar Sveinungadóttur frá Skinnastöðum í Axarfirði á Íslandi. Leifur gekk í herinn 17. júní 1917 og var við herþjónustustörf fram að jólum 1918. Foreldrar hans hafa lengi búið og búa enn að Markland P. O., Manitoba.



## SIGURGEIR ÓLAFSSON MACKSON.

Fæddur 14. janúar 1892 í Pembina, Norður Dakota, U.S.A. Foreldrar: Ólafur Magnússon, Ólafssonar og Guðrúnar Jónsdóttur, sem bjuggu á Áshólsskála undir Eyjafjöllum í Rangárvallasýslu, og Þórunn Sigurðardóttir, Ólafssonar, frá Torfastöðum í Fljótshlíð í sömu sýslu, nú búandi að Raymond, Wash., U. S. A. Sigurgeir gegndi herkalli 26. júlí 1917. Fór til Frakklands og þjónaði þar á annað ár. Fékk lausn frá herþjónustu 22. maí 1919. Hann gengur undir nafninu Gary Mackson.

*SIGURBJARNI MAGNÚSSON (sjá III).*

*METHUSALEM JÓNSSON MATTHEWS (sjá III).*



Sergeant BJÖRN MÝRDAL.

Er fæddur við Garðar í Norður Dakota 30. júlí 1893. Sonur Jóns Einarssonar Mýrdal frá Miðhvoli í Mýrdal, og Sigríðar Þorsteinsdóttur úr sömu sveit. Björn gekk í Bandaríkjaherinn 22. september 1917, í flugliðið. Hann var skipaður Corporal 1. marz 1918 og Sergeant 25. sama mánaðar. Fluglistarnám stundaði hann við 73. flugdeild hersins í Berkley, við ríkisháskólann í Californíu.



EINAR MÝRDAL.

Er fæddur við Garðar í Norður Dakota 13. júlí 1891. Sonur þeirra hjóna Jón Einarssonar Mýrdal fá Miðhvoli í Mýrdal og Sigríðar Þorsteinsdóttur. Einar gekk í fluglið Bandaríkjanna 22. september 1917. Var skipaður Corporal 22. marz 1918, og sendur þá um það leyti til Frakklands. Á Frakklandi var hann með 649. deild flugliðsins og tók þar þátt í orustum. Að ófriðarlokum kom hann heim aftur, og var leystur frá herþjónustu nokkru síðar.



EINAR VICTOR NORDAL.

Gekk í herinn í maí 1917. Fór aðeins til Halifax. Var þar skipaður herfangavörður. Foreldrar hans: Guðmundur Bjarnason frá Skarðshömrum í Norðurárdal í Mýrasýslu og Guðný Jónsdóttir frá Bæ í Bæjarsveit í Borgarfjarðarsýslu.



## KRISTJÁN NORDAL.

Gekk í 52. herd. 19. marz 1917. Fór til Englands í júní það ár. Í ágúst sama ár fór hann aftur heim til Canada. Hann er sonur Guðmundar Bjarnasonar frá Skarðshömrum í Norðurárdal í Mýrasýslu og Guðnýar Jónsdóttur frá Bæ í Bæjarsveit í Borgarfjarðarsýslu.



## DAVÍÐ JÓN ALEXANDAR NORMAN.

Fæddur 19. apríl 1893 í Duluth, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Sigurður Jónsson Norman frá Blönduholti í Kjós í Kjósarsýslu og Sigurjóna Davíðsdóttir frá Gilhaga í Hrútafirði í Strandasýslu, nú búandi að Duluth, Minn. Davíð gegndi herkalli 3. júlí 1917 og gekk í flugdeild sjóhers Bandaríkjanna, og þjónaði þar, þar til 22. febrúar 1919, að hann var leystur frá herþjónustu. Davíð átti heima í Duluth áður en hann gekk í herinn, og vann við mótorvagnaaðgerðir.



## Sergeant CHESTER HERMANN ODDSSON.

Fæddur 25. október 1896 í Seattle, Wash., U. S. A., og átti þar heima og stundaði skipasmíðar áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Jón Oddsson frá Fannardal í Norðfirði í S.-Múlasýslu og Guðfinna Gestsdóttir frá Akranesi í Borgarfjarðarsýslu, nú búandi í Seattle, Wash. Chester gegndi herkalli 5. október 1917 og sigldi til Frakklands 20. sama mánaðar. Þjónaði við björgun særðra hermanna úr valnum. Var sæmdur Sergeants-nafnbót. Leystur frá herþjónustu 2. júlí 1919. Stundar enn skipasmíðar.

## BJÖRN LÍNDAL ÓLAFSSON.

Fæddur 14. ágúst 1899 í Winnipeg í Manitoba. Foreldrar: Guðlaugur trésmiður Ólafsson frá Haga í Húnaþingi (fl. til Ameríku 1886) og kona hans Áslaug Hansdóttir frá Þóreyjarnúpi í sömu sýslu (fl. til Ameríku 1887). Björn vann við prentun um það leyti sem hann gekk í herinn — Strathcona riddaraliðið — í nóvember 1917. Til Englands fór hann í júní 1918 og til Frakklands í ágústmánuði sama ár. Hann kom heim aftur í aprílmánuði 1919, og er til heimilis hjá foreldrum sínum í Winnipeg.



## JÓHANN GUÐBRANDUR ÓLAFSSON.

Fæddur 2. júlí 1896 á Oddeyri við Eyjafjörð. Sonur Sveins Ólafssonar, Jónssonar, frá Blómsturvöllum í Kræklingahlíð, og Guðrúnar Guðmundsdóttur, Jóhannessonar, frá Garðsárdal í Eyjafirði. Jóhann gekk í 90. herd. 28. nóvember 1917, og sigldi til herstöðvanna 30. janúar 1918. Á Frakklandi tók hann þátt í orustum við Cambrai, Arras og Amiens, og særðist einu sinni lítillega á vinstra fæti. Hann kom aftur til Canada 14. febrúar 1919 og stundar nú búskap með foreldrum sínum, á landi þeirra að Holar P. O., Sask.



## ÓLAFUR G. ÓLAFSSON.

Fæddur 14. maí 1886 á Akranesi í Borgarfjarðarsýslu. Málari í Winnipeg. Foreldrar: Guðmundur Ólafsson frá Einarsnesi í Borgarhreppi í Mýrasýslu og Oddfríður Þorleifsdóttir, úr Breiðafirði. Gekk í 52. herd. 11. nóvember 1917. Tók þátt í orustu við Cambrai á Frakklandi. Særðist þar. Kom aftur til Canada 15. apríl 1919, þá vinnufær.



## JOHN WILLIAM PETERSON.

Fæddur 18. janúar 1894 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Gunnlaugur Vigfússon, Péturssonar, frá Grund á Jökuldal í Norður-Múlasýslu, og Sigríður Jakobsdóttir Espólín frá Gunnsteinsstöðum í Langadal í Húnavatnssýslu, nú búandi að Pembina, Norður Dakota. Jón gegndi herkalli í október 1917 og gerðist kyndari á einu af herskipum Bandaríkjanna. Fékk lausn frá herþjónustu í nóvember 1919. Er nú vélstjóri á heræfingaskipi sjóliðsskólans í Annapolis, Md., U. S. A.



## STEFÁN JÓN BJÖRNSSON PÉTURSSON.

Fæddur að Stóru-Þverá í Fljótum í Skagafjarðarsýslu 10. júní 1902. Foreldrar: Björn Pétursson og Dorothea Jóelsdóttir, búandi í Winnipeg. Stefán gekk í 197. herd. 1. marz 1917, sem lúðursveinn. En vegna þess, hve ungur hann var, var hann ekki sendur á vígvöll, en leystur frá herþjónustu 1. febrúar 1918.



## OSCAR THEODORE PURDY.

Fæddur 4. júní 1895 í Austur-Selkirk, Manitoba. Var daglaunamaður í Everettbæ, Wash., U. S. A., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Hiram Purdy, af canadiskum ættum, og Sigríður Vigfúsdóttir frá Þorbergsstöðum í Laxárdal í Dalasýslu. Oscar gegndi herkalli 12. júní 1917 og gekk í sjólið Bandaríkjanna. Var sæmdur heiðursmerki 1918. Var síðustu 8 mánuði herþjónustutímabilsins gæzlumaður loftskeytastöðvar í Oregonríki. Leystur frá herþjónustu 18. janúar 1919.



## ÁGÚST THEODORE REINHOLT.

Fæddur 2. ágúst 1887 að Micknack, Grand Forks Co., N. D. U. S. A. Foreldrar: Indriði F. Reinholt, eyfirzkur að ætt, og Björg Jasonsdóttir og Önnu Jóhannesdóttur frá Húsavík. Gekk í 27. herd. snemma á árinu 1917. Hermannsaga hans ókunn að öðru leyti en því, að hann særðist tvisvar. Vorið 1918 hörfaði fylking sú, er hann tilheyrði, frá áhlaupi; dvaldist honum þá við að bera særðan félaga sinn undan átroðningi, særðist þá og sjálfur, en fékk þó borgið sér og félaga sínum. Þann 6. ágúst 1918 varð hann óvígur af sárum. Hann er nú að miklu leyti gróinn, en ber þó kúlubrot í höfði, sem ekki næst til. Lifir við eftirlaun, $15.00 á mánuði.



## JACOB FRÍMANN REYKJALÍN.

Fæddur að Churchbridge P. O., Sask., 26. maí 1899. Foreldrar: Snorri Reykjalín Jónsson, prests að Þönglabakka í Þingeyjarsýslu, og Pálína Marteinsdóttir, Guðlaugssonar, frá Álftagerði við Mývatn í Þingeyjarsýslu. Jacob gekk í 223. herd. 22. febr. 1917. Tók þátt í orustum við Passchendale á Frakklandi og særðist. Kom aftur til Canada 25. maí 1919, þá vinnufær. Stundar nú landbúnaðarvinnu.



## SIGURÐUR BALDUR REYKJALÍN.

Fæddur að Lögberg P. O., Sask., 6. febrúar 1897. Foreldrar: Snorri Reykjalín Jónsson, prests að Þönglabakka í Þingeyjarsýslu, og Pálína Marteinsdóttir, Guðlaugssonar, frá Álftagerði við Mývatn í Þingeyjarsýslu. Sigurður gekk í 223. herd. 22. febr. 1917. Tók þátt í orustum við Passchendale, Amiens og Arras. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 20. desember 1919. Stundar akuryrkju.



### Sergeant WILLIAM JAMES RIMMER.

Fæddur í Winnipeg. Foreldrar: Thomas Rimmer, af enskum ættum, og Ágústa Jónsdóttir, ættuð úr Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu. William gekk í Bandaríkjaherinn 23. marz 1917 með undirforingjatign. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi. Særðist þar og varð fyrir eiturlofti. Var leystur frá herþjónustu í nóvember 1919. Hann vinnur að járnþynnusmíði.



### ALBERT RUNÓLFSSON.

Fæddur í Spanish Fork, Utah, U. S. A. Kolanámamaður. Foreldrar: Loftur Runólfsson, Runólfssonar, prests í Spanish Fork, og Kristín, af dönskum ættum, frá Duluth, Minn. Albert gegndi herkalli 4. maí 1917 og gekk í sjóherinn, var kyndari á skipinu "George Washington". Særður einu sinni í viðureign við kafbát. Hlaut heiðursmerki fyrir snarræði og hugrekki í þeirri viðureign. Var skipaður aðstoðarskipstjóri. Hann er kvæntur Pearl Patfield.

### BJÖRN FREEMAN SCHRAM.

Fæddur 21. október 1898 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Vilhjálmur Schram frá Reykjavík á Íslandi og Sigríður Björnsdóttir frá Vopnafirði. Björn gekk í Bandaríkjasjóherinn 15. desember 1917 og þjónaði á skipinu "Mongolia". Það skip starfaði að mann- og vöruflutningum milli Bandaríkjanna og Frakklands. Á því fór Björn 30 sinnum yfir Atlantshaf, þar til hann var leystur frá herþjónustu 15. september 1919.



## BJÖRN EDWARD EINARSSON SIGURÐSSON.

Fæddur 13. apríl 1900 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Einar Sigurðsson frá Brú á Jökuldal og Sigurlaug Jónasdóttir frá Grunnavatni á Jökuldalsheiði; þau búa í Minneota, Minnesota. Björn gegndi herkalli 10. desember 1917, en var ekki sendur úr landi. Hann var timbursmiður í Minneota áður en hann gekk í herinn, en stundar nú landbúnað og griparækt í Montanaríki, U. S. A.



## GUNNAR SIGURÐUR SIGURÐSSON.

Fæddur 22. ágúst 1896 að Riverton, Manitoba. Foreldrar: Sigurður Jónsson frá Njarðvík í Norður-Múlasýslu og Hansína Jóhannsdóttir frá Höfn á Langanesströnd. Gunnar gekk í herinn 12. janúar 1917. Tók þátt í orustu við Cambrai. Særðist ekki. Var sæmdur heiðursmerki fyrir skothæfni. Kom aftur til Canada 26. maí 1919. Hann stundar nú smíðavinnu í Amaranth í Manitoba.



## JÓN SIGURÐSSON.

Fæddur 4. apríl 1896 í Súðavík við Álftafjörð í Ísafjarðarsýslu. Foreldrar hans: Sigurður Jónsson og Helga Einarsdóttir, er bjuggu að Súðavík. Jón gekk í herinn 27. desember 1917, en eftir þriggja mánaða heræfingar hér í landi reyndist hann eigi nógu heilsusterkur til herþjónustu og var því gefin lausn úr henni.



## KRISTJÁN SIGURÐSSON.

Fæddur í Árnessýslu 31. janúar 1874. Sonur Sigurðar Gíslasonar á Kröggólfsstöðum í Ölvési og Valgerðar Ögmundardóttur frá Bíldsfelli. Kristján er kvæntur Þorbjörgu Þorláksdóttur, úr Árnessýslu, og bjó í Winnipeg. Var ritstjóri Lögbergs. Hann gekk í eina af hjúkrunardeildum Canadahersins í apríl 1917 og starfaði með henni í Evrópu langt fram yfir stríðslok. Hann kom aftur til Canada í ágúst 1919. Kristján er háskólagenginn og stundaði læknisfræði um tíma. Var því í bezta lagi liðtækur deild þeirri, sem hann starfaði með í hernum.



## ÓLI EMIL SIGURÐSSON.

Fæddur í Winnipeg 29. október 1895. Foreldrar hans eru þau Teitur frá Litlanesi í Múlasveit í Barðastrandarsýslu, Sigurðsson frá Deildará, Sigurðssonar, og Guðrún Þorsteinsdóttir frá Höll í Þverárhlíð í Mýrasýslu, Kjartanssonar. Óli gekk í canadiska herinn í febrúar 1917, og fór að heita mátti strax til Frakklands. Hann var í 58. deild járnbrautarsveitarinnar, við hergagnaflutning. Særðist í júní 1917, en gróinn og kominn aftur um haustið til Frakklands í október. Hann var við þetta starf til stríðsloka og kom heim aftur til Canada í apríl 1919.



## SIGURÐUR BREIÐFJÖRÐ SIGURÐSSON.

Fæddur 16. febrúar 1895 að Lundar P. O., Manitoba. Foreldrar: Snjólfur Sigurðsson, fæddur að Stapaseli í Mýrasýslu 1864 (nú dáinn), og Sigríður Stefánsdóttir, fædd í Borgarfirði í Norður-Múlasýslu, nú búandi að Blaine, Wash., U.S.A. Sigurður gegndi herkalli 13. desember 1917. Sigldi til Frakklands í júlí 1918, með verkfræðingadeild. Var sæmdur undirforingjatign 4. janúar 1919 og leystur frá herþjónustu í aprílmánuði það ár. Hann er járnsmiður að iðn og vann í skipakví Bandaríkjastjórnarinnar, í Brereton í Washingtonríki, bæði áður en hann gekk í herþjónustu og eftir að hann var leystur frá henni.



## SIGURÐUR ODDUR SIGURÐSSON.

Fæddur 25. desember 1893 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Einar Sigurðsson frá Brú á Jökuldal og Sigurlaug Jónasdóttir frá Grunnavatni á Jökuldalsheiði, nú búandi í Minneota, Minnesota. Sigurður gegndi herkalli 28. júlí 1917. Sigldi til Frakklands 2. marz 1918. Hann var fregnberi og þjónaði á ýmsum hersvæðum, svo sem St. Hillaire, Marne, Toul, St. Mihiel, Verdun og Nancy. Leystur frá herþjónustu 26. janúar 1919. Einar var timbursmiður í Minneota áður en hann gekk í herinn. Vinnur nú að brúasmíði og vegagerð.



## JOHN MARIUS SIGVALDASON.

Fæddur 27. nóvember 1895 í Duluth, Minn., U. S. A. Foreldrar: Jón Sigvaldason og Lára Eðvarðsdóttir, bæði fædd á Íslandi. John gegndi herkalli 9. janúar 1917 og var skipaður loftskeytamaður fyrir Bandaríkjaherinn. Hann var ekki sendur úr landi og leystur frá herþjónustu 29. ágúst 1919. Áður en hann gekk í herinn var hann námsmaður að Marshall, en hefir nú atvinnu við hveitimylnu.



## LÁRUS VALDIMAR SIGVALDASON.

Fæddur 18. nóvember 1890 í Duluth, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Jón Sigvaldason og Lára Eðvarðsdóttir, bæði fædd á Íslandi. Lárus gegndi herkalli 7. október 1917 og var skipaður í stórskotalið Bandaríkjanna. Mun ekki hafa verið sendur úr landi. Jón faðir hans er látinn, en móðir hans á heima í Marshallbæ í Minnesota, U. S. A. Gunnar er til heimilis í Butte, Montana, og vinnur hjá flutningafélagi þar.

## SVEINN GEORGE SIMPSON.

Fæddur í Winnipeg 1895. Sonur Guðmundar Sigurðssonar Guðmundssonar frá Áshildarholti í Skagafjarðarsýslu, Simpson, og Guðbjargar Sigmundsdóttur, er ættuð er af Vesturlandi. Þau hjón hafa um langt skeið búið að 408 McGee stræti í Winnipeg. George gekk í 4. skógarhöggssveitina, sem vann að timburtekju í þarfir sambandshersins, 9. júní 1917, og fór áleiðis til Englands þann 15. sama mánaðar. Er þangað kom, var hann færður yfir í hjúkrunarsveit Rauðakrossins og við hana starfaði hann eftir það. Leystur frá herþjónustu 1919. Er nú búsettur í New York borg og stundar nuddlækningar.



## KRISTJÁN AÐALBJÖRN SKARDAL.

Fæddur 16. maí 1899 á Heiði í Gönguskörðum í Skagafjarðarsýslu. Sonur Magnúsar Jónssonar Skardal frá Breiðsstöðum í Gönguskörðum og Ingunnar Kristjánsdóttur frá Fagranesi á Reykjaströnd í Skagafirði, nú búandi að Baldur P. O., Man. Kristján gekk í 79. herd. 10. júlí 1917. Tók þátt í orustum við Amiens, Arras og Cambrai. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 8. maí 1919. Hann stundar landbúnað með foreldrum sínum.



## BARÐI G. SKÚLASON.

Lögfræðingur í Portlandborg í Oregonríki. Er fæddur 19. janúar 1871 á Reykjavöllum í Lýtingsstaðahreppi í Skagafjarðarsýslu. Foreldrar hans voru Guðmundur Skúlason og Guðríður Guðmundsdóttir er bjuggu að Reykjavöllum. Fluttu til Nýja Íslands árið 1876 og síðar, 1880, til Norður Dakota og bjuggu lengi í grend við Mountain í Pembinahéraði í N. Dakota. Barði útskrifaðist frá ríkisháskólanum í Grand Forks. vorið 1895, og árið 1897 lauk hann lögfræðisprófi við sama háskóla. Hafði hann þá málafærslu á hendi um nokkur ár og bjó í Grand Forks. Árið 1911 settist hann að í Portland og hefir haft þar hinn sama starfa á hendi. Hann innritaðist í Bandaríkjaherinn í júlí 1917, og var settur við vistastöðva- og hergagnaflutningadeild hersins í Port Lawson. Hann var leystur frá herþjónustu eftir ófriðarlok. Gegnir nú lögfræðisstörfum sem áður í Portlandborg. Fyrri kona hans var Charlotta H. Robinson frá Coal Harbor í N. Dakota, og eru tvö börn þeirra á lífi.

## ROLFE SKÚLASON.

Fæddur í bænum Grand Forks í Norður Dakota haustið 1897. Sonur Barða Lögfræðings Guðmundssonar frá Reykjavöllum í Lýtingsstaðahreppi í Skagafjarðarsýslu, Skúlasonar, og konu hans Charlottu H. Robinson frá Coal Harbor í Norður Dakota, af skozk-amerískum ættum. Faðir hans býr í bænum Portland í Oregonríki, og var Rolfe til heimilis hjá honum, er hann gekk í Bandaríkjaherinn 6. apríl 1917. Tilheyrði hann áður herliði Oregonríkis (State Militia). Til Frakklands fór hann samsumars. Var í orustum við Chateau Thierry og Argonneskóga, en særðist ekki. Kom heim aftur 1919. Stundaði háskólanám um það leyti er hann gekk í herinn.

## SIGURÐUR SNJÓLFSSON.

Fæddur 30. október 1893. Foreldrar: Snjólfur Eiríksson, fæddur í Vík í Lóni í Austur-Skaftafellssýslu, og Elízabet Arnbjarnardóttir, fædd að Gerðum í Gaulverjabæjarhreppi í Árnessýslu. Sigurður gekk í herinn 12. nóvember 1917. Vann að timburtekju á Frakklandi, þar til hann fékk lausn frá herþjónustu við árslok 1918. Vinnur nú við sögunarmylnu í Anacortis, Wash., U. S. A. Stundaði sömu vinnu í Blaine, Wash., áður en hann gekk í herinn.

*TRYGGVI SOFFONÍASSON (sjá III).*



## THORSTEINN BJÖRGVIN STRAND.

Fæddur 6. júní 1896 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Jón Magnússon Strand frá Felli á Langanesströnd og Margrét Guðmundsdóttir, ættuð frá Hóli í Fljótsdal, nú búandi í Minneota, Minn. Thorsteinn gegndi herkalli 5. maí 1917. Sigldi til Frakklands í maímánuði 1918. Tók þátt í orustum við Marne, St. Mihiel, Argonne og Toul. Afturkomnin 5. ágúst 1919. Var trésmiður í Minneota áður en hann gekk í herinn. Stundar nú sömu atvinnu.



## SWAIN J. SVEINSSON.

Fæddur 30. desember 1890 að Svold, Norður Dakota, U. S. A. Var bankagjaldkeri í Benedict, Norður Dakota, áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Björn Sveinsson frá Syðri-Völlum í Húnavatnssýslu og Kristín Guðbrandsdóttir frá Hólmlátri á Skógaströnd, nú búandi að Svold, N. D. Swain gegndi herkalli 20. september 1917. Sigldi til Frakklands 30. apríl 1918. Tók þátt í orustum við St. Mihiel og Meuse—Argonne. Kom heim aftur 20 maí 1919. Stundar bankastörf í bænum Cavalier, Norður Dakota.



## SILAS ERNEST SWANSON.

Fæddur 12. febrúar 1895 í Cavalier, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: John Swanson, af sænskum ættum, og Sigríður Árnadóttir frá Bakka í Skagafirði, búandi að Hallock, Minn. Silas gegndi herkalli í Minneapolis, Minn., 10. desember 1917. Sigldi til Frakklands 23. apríl 1918. Tók þátt í orustum við St. Mihiel og Meuse—Argonne. Særðist ekki. Kom heim aftur 4. febrúar 1919. Er skrifstofuþjónn hjá timburfélagi í Moorehead, Minnesota, U. S. A., eins og áður en hann gekk í herinn.



## ÁGÚST JÓNSSON SÆMUNDSSON.

Fæddur í Winnipeg 6. ágúst 1883. Foreldrar: Jón Sæmundsson og Vigdís Emelía Þorkelsdóttir, bæði ættuð úr Bárðardal í Þingeyjarsýslu. Vigdís er systir séra Jóhanns Þorkelssonar dómkirkjuprests í Reykjavík. Ágúst gekk í 43. herd. 13. apríl 1917. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi frá marzmánuði til ágústmánaðar 1918, að hann særðist og lá síðan á sjúkrahúsi til stríðsloka. Kom aftur til Canada í febrúar 1919.



## HARRY THOMPSON.

Fæddur í Winnipeg 22. desember 1889. Foreldrar: Erlendur Þórðarson frá Eyrarlandi við Akureyri og Björg Erlendsdóttir frá Tungubakka í Laxárdal í Húnavatnssýslu. Þau hjón fluttu til Canada frá Eyjólfsstöðum í Vatnsdal. Harry gekk í 78. herd. árið 1917 og sigldi til Englands í febrúarmánuði 1918. Þjónaði þar þar til hann fékk lausn frá herþjónustu í júní 1919. Hann er kvæntur Hróðnýju Finnsdóttur, Stefánssonar. Þau hjón búa í Winnipeg. Harry er í þjónustu White mótorvagnafélagsins.



## JÓHANN ARNÓR THOMPSON.

Fæddur að Wild Oak, Man., 12. janúar 1899. Foreldrar: Bjarni Tómasson, Ingimundarsonar, í Efstadal í Laugardal í Árnessýslu, og Anna Jóhannsdóttir frá Húsabakka í Skagafirði. Jóhann gekk í 223. herdeildina 2. apríl 1917 og fór með henni til Englands 23. sama mánaðar. Var þar við heræfingar, þar til hann fór á vígvöll Frakklands 20. marz 1918. Eftir skammvint starf á Frakklandi meiddist hann af slysi, sem gerði hann óvígfæran. Var því fluttur á sjúkrahús á Englandi og dvaldi þar nokkra mánuði. Kom til Canada 5. janúar 1919. Hann stundar nú landbúnað á heimili foreldra sinna hjá Langreuth, Manitoba.



## STEPHEN THORARENSEN.

Fæddur á Akureyri við Eyjafjörð. Foreldrar hans eru Stefán L. Thorarensen frá Stóra-Eyrarlandi við Akureyri og María kona hans. Stefán gekk í herinn 14. apríl 1917. Sigldi til Englands 13. ágúst það sama ár. Segir að öðru leyti ekkert af störfum sínum, nema að hann kom aftur til Canada 13. desember 1917. Hann er giftur konu, sem Ingibjörg heitir. Þau hjón búa í Vancouver, B. C.

*ÞORBERGUR EIRIKUR THORBERGSSON (sjá III).*



## THORARINN HALLDÓR THORARINSSON.

Fæddur 22. ágúst 1897 við Hallson, Norður Dakota, U. S. A. Vann að brunnagerð í Blaine, Wash., U. S. A., áður en hann gegndi herkalli 13. desember 1917. Foreldrar hans: Magnús Þórarinsson frá Rauðamel og Elízabet Daníelsdóttir frá Klungurbrekku í Snæfellsnessýslu. Thorarinn gekk í sjólið Bandaríkjanna og var skipaður til þjónustu á Philips-eyjunum, þar til hann var leystur frá herþjónustu 20. september árið 1919.



## OSCAR THORDARSON.

Fæddur 2. febrúar 1896 á Rauðkollsstöðum í Eyjahreppi í Snæfellsnessýslu. Foreldrar: Þórður Þórðarson, fæddur á Rauðkollsstöðum, og Pálína Hansdóttir Hjaltalín frá Litla-Hrauni í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu. Oscar átti heima að Upham, N. D., U. S. A., áður en hann bauð sig til herþjónustu 29. marz 1917. Var við æfingar á ýmsum heræfingasvæðum í Bandaríkjunum áður en hann fór til Frakklands. Vann þar sem herfregna-hraðboði, þar til hann var leystur frá herþjónustu í júlí 1919. Stundar landbúnað.



## SIGURÐUR THORDARSON.

Fæddur 28. apríl 1894 að Svold, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Jóhannes Thordarson frá Presthvammi í Suður-Þingeyjarsýslu og Jóhanna S. Friðbjörnsdóttir frá Skálanesi í Seyðisfirði. Sigurður gegndi herkalli 20. júlí 1917. Var leystur frá herþjónustu 20. ágúst 1919.

## Lieut. T. W. THORDARSON.



Fæddur að Garðar, Norður Dakota, U. S. A., 2. nóvember 1892. Foreldrar: Grímur Thordarson, Árnasonar, og Guðrúnar Grímsdóttur, sem bjuggu að Bjarnastöðum á Hvítársíðu í Borgarfjarðarsýslu, og Ingibjörg Snæbjörnsdóttir, Hanssonar, og Sólveigar Guðmundsdóttur, sem bjuggu á Hrísum í Helgafellssveit í Snæfellsnessýslu. Þessi hermaður er háskólalærður búfræðingur. Hann gegndi herkalli 27. ágúst 1917. Var skipaður í stórskotalið sem Lieutenant, eftir að hann útskrifaðist frá liðsforingjaskólanum. Honum var haldið hér í landi til heræfingakenslu, þar til hann var leystur frá herþjónustu 4. febrúar 1919. Hann er kvæntur Katrínu Ólafsson, og hefir atvinnu hjá Montgomery Ward verzlunarfélaginu í Chicago, Ill., U. S. A.

## THORDUR THORDARSON.



Fæddur 16. október 1897 á Rauðkollsstöðum í Eyjahreppi í Snæfellsnessýslu. Foreldrar: Þórður Þórðarson, fæddur á Rauðkollsstöðum, og Pálína Hansdóttir frá Litlahrauni í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu. Thordur bjó með ekkjunni móður sinni í Fargo, N. D., U. S. A., áður en hann bauð sig til herþjónustu 3. febrúar 1917 og gekk í sjóherinn. Var sæmdur Corporals-tign og skipaður til að kenna heræfingar og meðferð eiturlofts og sprengikúlna. Fór til Frakklands 3. september 1918. Var þá sæmdur Sergeants-tign. Leystur frá herþjónustu 23. ágúst 1919. Stundar háskólanám í Fargo, Norður Dakota.

## THEODORE S. THORFINNSSON.



Er fæddur í grend við Hallson í Norður Dakota 16. janúar 1895. Sonur Þorláks Þorfinnssonar, Jóhannessonar, frá Brekkukoti í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu, og Guðbjargar Guðmundsdóttur, Skúlasonar, frá Reykjavöllum í sömu sýslu. Theodore var kvaddur í Bandaríkjaherinn 22. september 1917, og sendur til Frakklands árið eftir. Hann innritaðist í 307. hraðboðasveit 82. herdeildar og var gerður að Corporal. Hann var í orustum á Frakklandi með herdeildinni. Var leystur frá herþjónustu 1919. Theodore er útskrifaður frá landbúnaðarháskólanum í Fargo í Norður Dakota. Foreldrar hans búa að Mountain.



## GUÐMUNDUR GEIR THORGRIMSEN.

Fæddur 18. maí 1894 í Sioux Falls, Suður Dakota, U. S. A. Var kennari á háskóla áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Séra Hans B. Thorgrimsen frá Eyrarbakka á Íslandi og Mathilda Stub, fædd í Decorah, Iowa, U. S. A. Guðmundur gegndi herkalli 7. júní 1917 og innritaðist í sjóherinn. Hann var skipaður til þjónustu á herskipinu "Utah", sem notað var til fylgdar og verndar skipum þeim, sem fluttu hermenn frá Bandaríkjunum til Frakklands. Hann var leystur frá herþjónustu 1. janúar 1919. Stundar kenslustörf, eins og áður en hann gekk í herinn.



## FRIÐRIK THORKELSSON.

Fæddur í Winnipeg 7. október 1896. Foreldrar: Þorsteinn Þorkelsson frá Ytri-Márstöðum í Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu og Guðbjörg Guðmundsdóttir frá Efra-Lýtingsstaðakoti í Tunguveit í Skagafjarðarsýslu. Gekk í 223. herd. 5. marz 1917. Hann tók þátt í orustum við Passchendale og Arras á Frakklandi. Særðist einu sinni. Kom aftur til Canada 5. janúar 1919, þá vinnufær.



## BENEDICT TRYGGVI THORLAKSSON.

Fæddur í Selkirk, Manitoba, 1. ágúst 1894. Foreldrar: Magnús Þorláksson, fæddur í Hrísey á Eyjafirði, og Hallgerður Benediktsdóttir, ættuð úr Hjaltastaðarþinghá. Benedict gekk í herinn árið 1917 og þjónaði í honum í Ontariofylki um eins árs tíma. Kom heim aftur í desember 1918.



## PAUL HENRIK THORBJÖRN THORLAKSSON.

Fæddur í Park River, Norður Dakota, U. S. A., 5. október 1895. Foreldrar hans eru séra N. Steingrímur Thorláksson frá Stóru-Tjörnum í Ljósavatnsskarði í Suður-Þingeyjarsýslu og Erika Rynnig, ættuð úr Noregi, nú búandi í Selkirk, Man., þar sem séra Steingrímur er þjónandi prestur. Paul var háskólanemi áður en hann gekk í hjúkrunarflokk 223. herdeildarinnar 3. maí 1917. Hann fór til Englands, en var sendur þaðan aftur til Canada, til þess að ljúka námi sínu við læknaskólann í Winnipeg. Hann er nú læknir í Winnipeg í Manitoba.



## TH. GUNNAR THORLÁKSSON.

Fæddur að Mountain, Norður Dakota, U. S. A., 12. september 1890. Foreldrar: Jón V. Thorláksson og Petrína Guðnadóttir, bæði fædd í Þingeyjarsýslu á Íslandi. Gunnar gekk í canadiska flugliðið í október 1917 og var við flugæfingar í Austur-Canada alt til stríðsloka.



## VALDIMAR STEINGRÍMUR THORLÁKSSON.

Fæddur að Mountain, Norður Dakota, U. S. A., árið 1886. Foreldrar: Jón V. Thorláksson og Petrína Guðnadóttir, bæði fædd í Þingeyjarsýslu á Íslandi. Gekk í herinn í september 1917. Fór til Englands í marz 1918 og þaðan til Frakklands. Var þar skipaður í verkfræðingaflokk og hafði lengst af aðsetur í Lyonsborg þar í landi. Kom aftur til Canada 21. marz 1919. Stundar landbúnað.



## JÓHANN VIGFÚSSON.

Sonur Vigfúsar Eiríkssonar og Valgerðar Þórólfsdóttur, hjóna í Litlu-Breiðuvík í Reyðarfirði í Suður-Múlasýslu. Fluttist til Canada árið 1900. Innritaðist sem trésmiður fyrir 223. herdeildina í Winnipeg þann 17. maí 1917. Jóhann var ekki sendur með þeirri deild til Evrópu, en var fengið starf við skrifstofur hersins í Winnipeg, þar til 2. júní 1919, að hann fékk lausn frá þjónustunni í hernum.



## RICHARD GEORGE VIGFÚSSON.

Fæddur í Reyðarfirði á Íslandi 10. ágúst 1898. Foreldrar: Eiríkur Vigfússon og Ingigerður Richardsdóttir frá Litlu-Breiðuvík í Reyðarfirði. Richard gekk í herinn 25. apríl 1917. Sigldi til Evrópu í júní það ár. Var skipaður til þjónustu við herspítala á Frakklandi og þjónaði þar til stríðsloka. Kom aftur til Canada 13. júlí 1919. Stundar nú skrifstofustörf fyrir Royal bankann í Winnipeg.



## CHARLES PERCY WAGSTAFF.

Fæddur 16. júní 1893 að Glenboro, Manitoba. Foreldrar hans: Fred Wagstaff, af enskum ættum, og Guðný Jónsdóttir, úr Dalasýslu á Íslandi (nú látin). Charles gekk í herinn 30. október 1917 og sigldi til Evrópu 29. marz 1918. Hann tók þátt í orustum og særðist. Kom til Canada aftur 12. júlí 1919, þá vinnufær. Stundar akuryrkju.



## HARALDUR ÓSKAR BJÖRNSSON WALTER.

Fæddur 2. nóvember 1896 í Pembina, Norður Dakota, U. S. A. Var bifreiðastjóri í Grand Forks, N. D., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Björn Frímann Jósafatsson, Sigvaldasonar, og Guðnýar Guðlaugsdóttur frá Gili í Svartárdal í Húnavatnssýslu, og Soffía Halldórsdóttir, Rögnvaldssonar og Sigurbjargar Halldórsdóttur úr Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu. Haraldur gegndi herkalli 20. desember 1917. Sigldi til Frakklands í marz 1918. Tók þátt í orustum við St. Mihiel og í Argonneskógi og á Verdun-svæðinu. Særðist ekki. Leystur frá herþjónustu 31. janúar 1919.



## OSCAR WALTER WILSON.

Fæddur 14. september 1887. Foreldrar: Sigurður Erlendsson Wilson frá Grundarkoti í Laxárdal í Húnavatnssýslu og Metonía Indriðadóttir frá Marbæli í Óslandshlíð í Skagafjarðarsýslu. Sigurður nú dáinn en Metonía búandi í Winnipeg. Oscar gekk í herinn árið 1917. Hann særðist mikið og misti fingur af vinstri hendi. Stundar málaraiðn, eins og áður en hann gekk í herinn.



## ÍSFELD WOLFE.

Fæddur á Vopnafirði á Íslandi 12. október 1899. Foreldrar hans: Úlfar Gunnlaugsson frá Fagradal í Vopnafirði og Jóhanna Jóhannesdóttir frá Fosshóli í Víðidal í Húnavatnssýslu, nú ekkja í Keewatin, Ont. Ísfeld gekk í 79. herdeildina 5. maí 1917. Sigldi til Englands 4. febrúar 1918. Var ekki sendur á vígvöll og kom aftur til Canada 25. marz 1919. Hann á heima í Keewatin og starfar þar fyrir Lake of the Woods hveitimölunarfélagið.

# 1918



## EDWARD LYNN ABERCROMBIE.

Fæddur 24. desember 1897 að Kramer, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Hugh Abercrombie, af skozkum ættum, og Emma Goodman, búandi að Musselshell, Montana, U. S. A. Edward gegndi herkalli 3. sept. 1918 og var skipaður í stórskotalið Bandaríkjanna. Hann var við heræfingar í Lewisherbúðunum í Washingtonríki, þegar vopnahlé var samið. Var leystur frá herþjónustu 29. desember 1918. Hann er kvæntur Pearl Worthington.

## KRISTJÁN ALBERTSSON.

Fæddur að Hnausa P.O., Man. Foreldrar: Albert Sigursteinsson, ættaður úr Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu, og Sigurrós Guðrún Jónsdóttir, ættuð úr Hrútafirði í Húnavatnssýslu, nú búandi að Geysir P. O., Manitoba. Kristján gekk í herinn sumarið 1918, en hafði aðeins verið skamma stund við heræfngar í Winnipeg, þegar vopnahlé varð.



## SIGURSTEINN ALBERTSSON.

Fæddur 5. september 1889 að Hnausa P. O., Manitoba. Foreldrar Albert Sigursteinsson, ættaður úr Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu, og Sigurrós Guðrún Jónsdóttir, ættuð úr Hrútafirði í Húnavatnssýslu. Sigursteinn gekk í herinn 14. maí 1918, og var á Englandi við heræfingar, þegar friður samdist. Kom aftur til Canada 12. júlí 1919. Stundar landbúnað.



## ALBERT ANDERSON.

Fæddur að Skálholti, Man., 19. september 1898. Foreldrar: Jón Júlíus Anderson frá Sauðá og Guðrún Sigurðardóttir úr Sléttuhlíð í Skagafirði. Gekk í herinn 15. jan. 1918, og sigldi mánuði síðar áleiðis til Frakklands. Hann barðist við Arras—Cambrai og Canal du Nord, og særðist við síðasttaldan stað. Síðar, er hann var gróinn sára sinna, var hann sendur til Belgíu til að taka með herflokki sínum Mons-vígið af Þjóðverjum, og þar var hann staddur 11. nóvember 1918, er vopnahlé varð. Hann vann sér sæmdarmerki fyrir skotfimi í hernaði. Til Canada kom hann aftur 23. marz 1919. Hann vann að verzlunarstörfum áður en hann fór í herinn og gerir svo ennþá.



## EIRÍKUR ANDERSON.

Fæddur í Argyle-bygð í Manitoba 17. desember 1896. Sonur Andrésar Andréssonar, Helgasonar frá Héðinshöfða í Þingeyjarsýslu og Sesselju Eiríksdóttur, Pálssonar frá Heykollsstöðum í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu. Eiríkur gekk í herinn 3. maí 1918 og sigldi til Englands þann 10. júlí það ár. Til Frakklands komst hann í nóvember 1918, rétt um það leyti að vopnahlé samdist; tók því ekki þátt í orustum. Kom aftur til Canada í apríl 1919 og stundar nú landbúnað með foreldrum sínum í Argylebygð.

## GESTUR P. ANDERSON.

Sonur Andrésar Andréssonar Anderson og Jónínu Erlendsdóttur, er búa í Winnipeg. Gestur gekk í herinn 15. maí 1918 og innritaðist við Fort Garry riddaraliðssveitina. Hann fór áleiðis til Englands 28. júní. Varð skipreika á miðju hafi, en bjargað og fluttur aftur til Halifax. Sigldi svo þaðan aftur eftir stutta bið til Shorncliffe-herbúða á Englandi.



## GUÐMUNDUR ANDERSON.

Fæddur 28. október 1891, að Burnt Lake, Alberta. Foreldrar hans eru Sigurður Árnason frá Akranesi og Karitas Ólafsdóttir frá Vatnsnesi í Húnavatnssýslu á Íslandi. Þau hjón búa nú við Red Deer, Alberta. Guðmundur gekk í herinn 29. janúar 1918 og sigldi til Frakklands í marz sama ár. Hann tók þátt í orustum við Aire-Cambrai og Heinscourt. Til Canada kom hann aftur 24. apríl 1919 og stundar nú landbúnað.



## HANNES ANDERSON.

Fæddur 27. ágúst 1887 á Atlantshafi. Foreldrar: Jón Júlíus Anderson frá Sauðá við Sauðárkrók í Skagafirði og Guðrún Sigurðardóttir úr Sléttuhlíð í Skagafjarðarsýslu. Hannes gekk í herinn 5. janúar 1918 og sigldi til Frakklands mánuði síðar. Hann tók þátt í orustum við Cambrai og á öðrum svæðum, en veiktist af eiturgasi í atlögu 10. október 1918, einum mánuði fyrir stríðslok. Í hernum vann hann viðurkenningarmerki fyrir skothæfni. Hann kom aftur til Canada 1. apríl 1919. Hann stundar húsa- og aðrar timbursmíðar að Glenboro, Man.



## HJALTI S. ANDERSON.

Fæddur að Brú P. O., Manitoba, 26. júní 1883. Foreldrar: Skúli Árnason frá Sigurðarstöðum á Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu og Margrét Árnadóttir (löngu dáin). Hjalti gekk í herinn 12. marz 1918 og sigldi til Englands í júlí það ár. Mun hafa verið þar við æfingar, þegar stríðið endaði. Hann kom aftur til Canada 24. júní 1919.



## MAGNÚS ÓLAFSSON ANDERSON.

Fæddur í Mjóafirði í Suður-Múlasýslu 31. ágúst 1897. Sonur Ólafs Árnasonar frá Nesjum í Austur-Skaftafellssýslu og Sólrúnar Árnadóttur frá Mjóafirði í Suður-Múlasýslu. Hann gekk í herinn 11. júní 1918. Tók víst aldrei þátt í orustum og kom aftur til Canada 10. júlí 1919. Heimili hans er að Geysi, Manitoba. Hann stundar landvinnu og fiskiveiðar.

## THEODORE WILLIAM (SIGURDSON) ANDERSON.

Fæddur 7. janúar 1897 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Sigurður Vigfússon Anderson frá Gestreiðarstöðum á Fjöllum og Dora Thomson, af norskum ættum. Theodore gegndi herkalli 23. október 1918. Var ekki farinn úr landi þegar vopnahléð varð. Hann stundar verzlun með föður sínum í Minneota.

## VIGFÚS ÁRNI ANDERSON.

Fæddur að Geysir P. O., Manitoba, 25. desember 1895. Foreldrar: Árni Vigfússon, ættaður úr Borgarfjarðarsýslu og Ingibjörg Elízabet Guðmundsdóttir, ættuð úr Húnavatnssýslu (nú dáin). Vigfús gekk í herinn vorið 1918, og var við heræfingar í Winnipeg, þegar stríðinu lauk.



## WALDEMAR ANDERSON.

Fæddur að Cypress River, Manitoba, 13. júlí 1890. Foreldrar: Skúli Árnason Halldórssonar og Guðnýjar Skúladóttur, er bjuggu að Sigurðarstöðum á Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu, og Guðrún Hafliðadóttir, Sigurðssonar og Guðrúnar Halldórsdóttur, er bjuggu að Kothól í Álftaneshreppi í Mýrasýslu. Valdemar gekk í herinn 26. febrúar 1918, en var leystur frá herþjónustu vegna heilsuleysis 11. júní það sama ár.



## MAX KRISTIANSON, ATLASON.

Fæddur að Hemlu í Rangárvallasýslu. Foreldrar: Kristján Atlason frá Ey og Guðfinna Magnúsdóttir frá Áshólsskála, hvorttveggja í Rangárvallasýslu. Max er kvæntur Sarah Holland. Þau hjón bjuggu í Seattle, og þar stundaði hann slátraraiðn áður en hann gegndi herkalli 4. marz 1918 og sigldi til Frakklands. Hann var ekki í orustum, en var skipaður í þjónustu á Englandi í þarfir Bandaríkjahersins. Hann var leystur frá herþjónustu í marzmánuði 1919. Vinnur nú við sömu iðn og áður.



*SOFFONÍAS GUÐMUNDUR ÁRMANN (sjá III).*

## STEFÁN VALDIMAR ÁRMANN.

Fæddur 28. febrúar 1897 að Grafton, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Guðjón Jónsson Ármann, Vigfússonar frá Iðu í Biskupstungum í Árnessýslu, og Sigríður Jónsdóttir frá Kóreksstaðagerði í Hjaltastaðarþinghá. Stefán gegndi herkalli 5. ágúst 1918. Var ekki kominn úr landi, þegar stríðið endaði. Var leystur frá herþjónustu 9. febrúar 1919. Hann stundar verzlun.



## KRISTJÁN VILHJÁLMUR ÁRNASON.

Fæddur 2. september 1891 í Selkirk, Manitoba. Foreldrar: Ingjaldur Árnason frá Skörðum í Tjörneshreppi í Þingeyjarsýslu og María Guðrún Oddsdóttir frá Ásbyrgi í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu. Kristján gegndi herkalli 1. sept. 1918. Var ekki kominn úr landi, þegar stríðið endaði. Áður en hann gekk í herinn var hann aðstoðar féhirðir við Fyrsta Þjóðbankann í Balaston, Minnesota, og heldur enn sömu atvinnu· Hann er kvæntur Margréti Elízabet Ísfeld og býr í Balaston·

*ÓLAFUR ÁRNASON (sjá III).*



## ÁSMUNDUR JÓHANNES ÁSMUNDSSON.

Fæddur 11. marz 1900 í Selkirk, Manitoba. Foreldrar: Þorgils Ásmundsson frá Minniborg í Árnessýslu og Steinunn Jósefsdóttir frá Pétursey í Mýrdal í Vestur-Skaftafellssýslu. Ásmundur gekk í Canadaherinn í júlímánuði 1918 og sigldi til Englands í september það ár. Var þar við heræfingar þegar stríðinu lauk. Kom aftur til Canada í maí 1919. Stundar algenga daglaunavinnu.



JÓN ÁSMUNDSSON.

Fæddur í Winnipeg 1. júlí 1893. Foreldrar: Ásmundur Jóhannesson frá Hólmi í Tungusveit í Skagafjarðarsýslu og Anna Erlendsdóttir, Sigurðssonar frá Daðastöðum á Reykjaströnd í sömu sýslu. Jón gekk í herinn 30. apríl 1918, og fékk lausn úr honum í júní 1919. Hann hefir aðsetur hjá foreldrum sínum í Selkirk, Manitoba.



ELÍAS SIGURÐUR ÁSGRÍMSSON.

Fæddur í Minnesotaríki, U. S. A. Foreldrar: Marteinn Ásgrímsson og Sigríður Jónsdóttir frá Miðgrund í Skagafirði, nú búandi að Merid, Sask. Elías gekk í herinn 29. júní 1918. Hann var ekki kominn úr landi, þegar stríðið endaði.

*SIGURJÓN AUSTFJORÐ (sjá III).*



HALLDÓR ÁGÚST AUSTMANN.

Fæddur 3. ágúst 1896 að Hnausa, Man. Sonur Ásmundar B. Austmanns frá Bakka í Borgarfirði austur og Helgu Sigurðardóttur frá Setbergi í Fellum í Norður-Múlasýslu. Halldór gekk í herinn 3. maí 1918, og fór til Frakklands og þaðan með herdeild sinni til Þýzkalands. Til Canada kom hann aftur 12. júlí 1919. Stundar nú búskap að Víðir, Man.



## SIGURGEIR J. AUSTMANN.

Fæddur 18. janúar 1883 að Stakkahlíð í Loðmundarfirði á Íslandi. Foreldrar: Jón S. Austmann og Margrét Gunnarsdóttir, úr Þistilfirði; Jón nú dáinn en Margrét býr að Rivertonn, Man. Sigurgeir gekk í herinn 23. maí 1918, og var við æfingar á Englandi, þegar stríðinu lauk. Hann kom aftur til Canada 24. júní 1919. Stundar fiskiveiðar.



## HALLDÓR BALDWIN.

Fæddur að Baldur, Manitoba, 28. marz 1888. Foreldrar: Baldvin Benediktsson, ættaður úr Þingeyjarsýslu, og Guðný Antoníusdóttir frá Kelduskógum á Berufjarðarströnd í Suður-Múlasýslu. Halldór var til heimilis í Baldurbæ og stundaði þar gullsmíði áður en hann innritaðist í canadiska flugliðið í marzmánuði 1918. Í þeirri stöðu vann hann sér foringjanafnbót. Hann kom aftur til Canada í janúar 1919. Halldór er kvongaður Emily Jónsdóttur, Friðfinnssonar söngkennara.



## PÁLL BARDAL.

Fæddur í Winnipeg 5. nóvember 1889. Foreldrar: Páll Sigurgeirsson Bardal frá Grímsstöðum við Mývatn og Halldóra Björnsdóttir frá Gíslastöðum á Völlum í Suður-Múlasýslu. Páll gekk í canadiska flugliðið í júnímánuði 1918, en var ekki kominn á vígstöðvar, þegar friður samdist. Hann kom aftur 1. janúar 1919, og er nú umsjónarmaður við útfarir, eins og áður en hann gekk í herinn. Hann er albróðir Sigurgeirs læknis Bardals, er að framan getur.



## FRED JOHN BELL.

Fæddur í Vancouver, B. C., 8. ágúst 1898. Sonur Claude Frederick Bell, af enskum ættum, og Jónínu Jónsdóttur Árnasonar frá Gilsárvallahjáleigu í Borgarfirði austur. Hún er systir Árna lögmanns í Winnipeg. Fred gekk í Canadaherinn í júní 1918. Komst til Englands og sýktist þar. Hvarf aftur til Canada í febrúarmánuði 1919, þá vinnufær. Hann er við verzlunarstörf í Vancouver.



## JÓN BENEDICT LEO BENEDICTSON.

Fæddur 7. september 1897. Sonur Jóns Benediktssonar úr Skagafirði og Láru Sigurlínu Jónsdóttur Strong (fædd í Pembroke, Ontario, Canada). Þau hjón bjuggu að Markerville, Alberta, og þar stundaði sonur þeirra smjörgerðarvinnu áður en hann gekk í herinn, 22. maí 1918. Hann sigldi til Evrópu 21. júní sama ár, en mun ekki hafa tekið þátt í orustum. Hann kom aftur til Canada 19. júlí 1919.



## KÁRI HÓLMFRED BENEDICTSON.

Fæddur í Argylebygð í Manitoba 11. apríl 1889. Foreldrar: Björn Benediktsson, Björnssonar frá Víkingavatni í Þingeyjarsýslu, og Sigríður Jónsdóttir, Jónssonar frá Ketilsstöðum á Tjörnesi í sömu sýslu. Kári gekk í herinn í júnímánuði 1918 og sigldi til Englands tafarlaust. Var þar við æfingar, þegar vopnahlé var samið. Kom aftur til Canada í júlí 1919.



BALDUR BENEDIKTSSON.

Sonur Björns Benediktssonar, Björnssonar frá Víkingavatni í Þingeyjarsýslu, og Sigríðar Jónsdóttur, Jónssonar frá Ketilsstöðum á Tjörnesi. Baldur gekk í herinn, en var ekki álitinn nægilega heilsuhraustur til herþjónustu. Var því ekki sendur úr landi.



BJÖRNSTJERNE BENEDIKTSSON.

Fæddur að Wild Oak P. O., Man., 1. marz 1900. Foreldrar: Björn Benediktsson, Björnssonar frá Víkingavatni, og Sigríður Jónsdóttir, Jónssonar frá Ketilsstöðum á Tjörnesi. Björnstjerne gekk í herinn 6. maí 1918 og sigldi mánuði síðar til Englands. Var þar þegar stríðið endaði. Kom aftur til Canada í júní 1919.



Corp. FRIÐHOLM VALDIMAR BENEDIKTSSON.

Fæddur 7. maí 1894 að Icelandic River, Man. Foreldrar: Benedikt Kristjánsson frá Presthvammi í Þingeyjarsýslu og Björg Auðunsdóttir, uppalin í Langholti í Bæjarsveit í Borgarfjarðarsýslu. Friðholm gekk í Canadaherinn 16. júlí 1918 og sigldi til Evrópu 25. sama mánaðar. Hann kom aftur til Canada 25. júní 1919. Stundar nú landbúnað að Icelandic River, eins og áður en hann gekk í herinn.



## SKÚLI B. BENEDIKTSSON.

Er fæddur að Mountain í Norður Dakota 26. janúar 1896. Sonur þeirra Bjarna Benediktssonar, Ólafssonar, frá Eiðstöðum í Húnaþingi, og Ingibjargar Pálmadóttur, af Skaga, Jónssonar, er búa í grend við Mountain. Skúli var kvaddur í Bandaríkjaherinn 22. júlí 1918 og innritaðist í 78. sveit 14. herdeildar. Með henni var hann til stríðsloka. Hann er til heimilis hjá foreldrum sínum á búgarði þeirra við Mountain.



## KRISTINN SIGURLAUGUR BENSON.

Fæddur 3. marz 1895 að Upham, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Þórður Benediktsson frá Dalhúsum í Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu, og María Sveinsdóttir úr Seyðisfjarðarkaupstað. Kristinn gegndi herkalli 14. júní 1918. Sigldi til Frakklands 3. september það ár. Tók ekki þátt í orustum. Kom heim aftur 28. júlí 1919.



## ÓSKAR BENEDIKT BENSON.

Fæddur 18. júní 1898 að Upham, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Þórður Benediktsson frá Dalhúsum í Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu og María Sveinsdóttir úr Seyðisfjarðarkaupstað. Óskar gegndi herkalli 1. október 1918, laust fyrir stríðslok; gefur því engar upplýsingar um herþjónustu sína.



## STEFÁN SIGURBJÖRNSSON BENSON.

Fæddur að Ljótsstöðum í Vopnafirði árið 1885. Foreldrar: hans Sigurbjörn Ásbjörnsson frá Einarsstöðum í Vopnafirði og Stefanía Magnúsdóttir frá Áslaugsstöðum í Vopnafirði. Þau hjón komu til Canada árið 1893 og eiga heima í Selkirk, Manitoba. Þar gekk Stefán í herinn að áliðnu hernaðartímabilinu og fór því aldrei út úr Canada, en var hér við heræfingar, þegar stríðinu lauk. Hann stundaði kjötverzlun í félagi við bróður sinn í Selkirk. Nú látinn.



## AXEL FRANCIS BERGSON.

Fæddur 23. marz 1892 í Duluth, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Páll Bergsson frá Rauðalæk og Sigr. Halldórsdóttir frá Munkaþverá, hvorirtveggja bæirnir í Eyjafjarðarsýslu. Axel gegndi herkalli 24. júlí 1918. Sigldi til Frakklands 21. september sama ár. Kom heim aftur 26. janúar 1919. Stundar mjólkursölu í Duluth.



## SNÆBJÖRN J. BERGSON.

Fæddur 15. nóvember 1896 í Duluth, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Páll Bergsson frá Rauðalæk og Sigríður Halldórsdóttir frá Munkaþverá, hvorirtveggja bæirnir í Eyjafjarðarsýslu. Snæbjörn gegndi herkalli 15. júlí 1918, og var skipaður í sjóherinn. Fékk lausn frá herþjónustu 14. febrúar 1919. Stundar mjólkursölu í Duluth.



## ÓLAFUR B. BERNHÖFT.

Er fæddur nálægt Hallson í íslenzku bygðinni í Dakota 13. september 1892. Faðir hans er Edward Bernhöft bóndi við Akra, sonur C. Bernhöfts, er um langt skeið var bakari í Reykjavík á Íslandi, en móðir Soffía, dóttir Ólafs Brynjólfssonar frá Skeggstöðum í Húnaþingi, Brynjólfssonar. Ólafur var kvaddur í Bandaríkjaherinn 8. marz 1918 og innritaðist við verkfræðingadeildina (33rd Engineers). Í hernum starfaði hann til stríðsloka. Var leystur frá herþjónustu eftir að sett var vopnahlé.



## HELGI FINNBOGI BJARNASON.

Fæddur að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. 26. september 1888. Foreldrar: Bjarni Bjarnason, af Hólsfjöllum í N.-Þingeyjarsýslu og Gróa Jónsdóttir frá Kálfafelli í Skaftafellssýslu. Helgi gekk í Bandaríkjaherinn 30. marz 1918 og sigldi til Frakklands 2. maí það ár. Hann tók þátt í orustum við Argonneskóginn í grend við Verdun. Særðist 30. september 1918. Úr hernaðinum kom hann aftur í desembermánuði 1918. Hann var ritstjóri blaðsins Wynyard Advance, gefið út í bænum Wynyard, Sask., Can. Helgi er kvæntur Halldóru Kristínu Christianson. Hann er nú ritstjóri og eigandi blaðsins "Western Review" í Foam Lake, Sask.



## PÉTUR J. BJARNASON.

Fæddur 15. nóv. 1895 í Vestmannaeyjum á Íslandi. Sonur Jóhanns P. Bjarnasonar, fyrrum verzlunarstjóra þar á Eyjunum, og Margrétar konu hans. Pétur gekk í herinn 3. janúar 1918 og sigldi áleiðis til herstöðvanna 5 vikum síðar. Hann tók þátt í orustum við Amiens og Cambrai, og særðist einu sinni. Til Canada kom hann aftur 27. marz 1919, þá vinnufær. Hann stundar rafleiðslu í Winnipeg, þar sem foreldrar hans búa.



## THORSTEINN GUÐMUNDUR BJARNASON.

Fæddur í Westbourne, Manitoba, 25. ágúst 1895. Foreldrar: Bjarni Ingimundarson frá Eyjum í Kjós og Guðrún Þorsteinsdóttir frá Nýlendu á Álftanesi í Gullbringusýslu, nú búandi að Langreuth P. O., Man. Þorsteinn gekk í herinn 30. júlí 1918. Fór ekki úr landi og fékk lausn frá herþjónustu 13. janúar 1919. Hann stundar landbúnaðarvinnu.



## ÞORBERGUR HARALDUR BJARNASON.

Fæddur í Winnipeg 26. febrúar 1894. Foreldrar: Bjarni Árnason, fæddur í Reykjavík, og Guðveig Jónsdóttir, ættuð úr Mýrasýslu. Þorbergur gekk í herinn í aprílmánuði 1918. Var ekki farinn úr landi þegar vopnahlé var samið. Stundar nú landbúnað með móður sinni og stjúpföður, Agli Egilssyni, að Langreuth, Manitoba.



## HANNES J. BJÖRNSON.

Er fæddur við Mountain í Norður Dakota 30. júní 1895. Foreldrar hans eru: Hannes Björnsson frá Syðra-Mælifelli í Skagafjarðarsýslu, Jónssonar, og Maríu Einarsdóttur frá Veðramóti í Gönguskörðum, og síðari kona hans Anna Jóhannesdóttir, Magnússonar, frá Hóli í Tungusveit í sömu sýslu, og Steinunnar Jónsdóttur. Hannes var kvaddur í Bandaríkjaherinn 29. marz 1918 og sendur til Frakklands með 163. hersveitinni. Að stríðinu loknu fékk hann heimfararleyfi og var leystur frá herþjónustu 1919.



## BJÖRN LÁRUS BJÖRNSSON.

Fæddur að Markerville, Alberta, 5. ágúst 1896. Hann er sonur Björns Björnssonar bónda að Markerville, og Margrétar Gísladóttur (dáin 22. marz 1909). Björn er ættaður frá Hlíð í Kollafirði í Strandasýslu, en Margrét frá Þorgrímsstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Björn Lárus gekk í herinn 14. maí 1918, og sigldi frá Canada 1. ágúst sama ár. Hann er enn ekki kominn aftur til Canada, þegar þetta er ritað (í apríl 1920).



## GUÐBJÖRN J. BJÖRNSSON.

Fæddur 14. maí 1886 í Búð í Þykkvabæ í Rangárvallasýslu. Foreldrar: Jón Björnsson frá Marteinstungu í Rangárvallasýslu og Sólrún Jónsdóttir frá Syðri-Rauðalæk í sömu sýslu. Þau hjón búa að Framnes, Manitoba. Guðbjörn gekk í herinn snemma í júlí 1918, en var ekki farinn úr landi, þegar stríðinu lauk.

*MAGNUS H. BJORNSSON (sjá III).*



## SIGURÐUR M. BJÖRNSSON.

Er fæddur við Mountain í Norður Dakota. Sonur Árna Friðbjörnssonar Björnssonar frá Fornhaga í Hörgárdal og Guðrúnar Kristjánsdóttur frá Klúkum í Eyjafirði. Sigurður var kvaddur í Bandaríkjaherinn 15. júlí 1918, og gekk í 352. sveit 88. herdeildar, og með henni var hann til stríðsloka, að hann fékk lausn frá herþjónustu. Hann er til heimilis með foreldrum sínum við Mountain.



## EGGERT JÚLÍUS JÓNSSON BORGFJÖRÐ.

Fæddur að Árborg, Manitoba. Sonur Jóns Borgfjörðs frá Hofsstöðum í Mýrasýslu og Guðrúnar Eggertsdóttur frá Fróðhúsum í Stafholtstungum. Gekk í herinn 3. júlí 1918, og sigldi frá Canada 12. s. m. Hann var við heræfingar á Englandi þar til vopnahlé varð. Kom aftur til Canada 24. júlí 1919, og vinnur nú á búgarði foreldra sinna í grend við Árborg, Manitoba.



## EYSTEINN BORGFJÖRÐ.

Fæddur 9. september 1895 að Egilsstöðum á Völlum í Suður-Múlasýslu. Sonur Sigfúsar Sigfússonar frá Gilsárvallahjáleigu í Borgarfirði í Norður-Múlasýslu og Sigríðar Eiríksdóttur, Rafnkelssonar frá Hofi í Öræfum í Austur-Skaftafellssýslu. Eysteinn bjó á heimilisréttarlandi sínu að Cayer P. O. í Manitoba, áður en hann gekk í herinn, 7. maí 1918. Sigldi frá Canada 25. júlí sama ár, og kom aftur til Canada 24. júní 1919. Býr nú, sem fyr, á landi sínu.



## JÓHANN J. BRANDSON.

Fæddur á Seyðisfirði á Íslandi 5. júlí 1892. Foreldrar: Jón Brandsson, ættaður úr Rangárvallasýslu, og Þorgerður Árnadóttir, ættuð úr Öræfum í Austur-Skaftafellssýslu. Hann gekk í herinn 7. maí 1918 og var við heræfingar á Englandi, þegar stríðinu lauk. Kom aftur til Canada 24. júní 1919, og stundar griparækt að Siglunes, Manitoba.



KRISTJÁN S. BRANDSSON.

Fæddur á Íslandi 10. júní 1897. Foreldrar: Stefán Ólafur Guðbrandsson frá Ingjaldshóli í Neshreppi og Sigríður Lárusdóttir frá Berserkseyri í Eyrarsveit í Snæfellsnessýslu. Gekk í herinn 8. maí 1918. Sigldi frá Canada 25. júlí sama ár. Kom aftur til Canada 24. júní 1919. Stundar landbúnaðarvinnu að Oak View, Manitoba.



ARNGRÍMUR BÖÐVARSSON.

Fæddur að Jörfa í Haukadal í Dalasýslu 29. júní 1895. Foreldrar: Jón Böðvarsson, fæddur á Borðeyri í Hrútafirði, og Halla Arngrímsdóttir, fædd í Haukadal. Arngrímur gekk í herinn 13. maí 1918, og sigldi til Englands 14. júlí það ár. Var við heræfingar þar, þegar vopnahlé var samið. Kom heim aftur 25. júní 1919. Foreldrar hans búa að Markerville P. O., Alta, og ásamt þeim stundar Arngrímur landbúnað.



LÁRUS E. CHRISTIANSON.

Er fæddur 21. júní 1889 við Garðar í Norður Dakota. Foreldrar hans eru þau Kristján Guðmundsson og kona hans Kristín frá Dröngum á Snæfellsnesi, er búa við Edinborg í Norður Dakota. Lárus var kvaddur í Bandaríkjaherinn 24. júní 1918, og fékst við hergagnaflutninga þann tíma, sem hann dvaldi við herinn.



JOHN CHRISTOPHERSON.

Fæddur að Grund, Man., 15. sept. 1884. Sonur Hernits Christophersonar og Þóru Sigurðardóttur úr Suður-Þingeyjarsýslu á Íslandi. John er lögfræðingur og stundaði lögfræðisstörf í Winnipeg og gekk þar í herinn 19. maí 1918, og var í honum til 3. apríl 1919. Hann fór ekki af landi burt.



REUBEN LEO CHRISTIANSON.

Fæddur 24. október 1896 í Spanish Fork, Utah, U. S. A. Foreldrar Eggert Kristinn Christianson, Arngrímssonar, frá Steðja á Þelamörk í Eyjafjarðarsýslu, og Sesselía Jónsdóttir, Péturssonar frá Vatnahjáleigu í Landeyjum í Rangárvallasýslu. Reuben gegndi herkalli 5. sept. 1918. Fékk lausn frá herþjónustu 22. febrúar 1919.



Séra JOHN J. CLEMENS.

Fæddur í Reykjavík á Íslandi 5. sept. 1872. Prestur. Foreldrar: Jón Þorkelsson Clemens og Ingibjörg Jónsdóttir frá Elliðavatni við Reykjavík, nú búandi í Winnipeg. Séra Clemens gekk í herinn 1. júní 1918 og þjónaði sem herbúðaprestur fram yfir stríðslok. Áður en hann gekk í herinn var hann þjónandi prestur safnaðar í Lakeville, Minnesota, U. S. A. Eftir að hann fékk lausn úr herþjónustu, var hann, af National Lutheran Commission, sæmdur silfurmedalíu fyrir herbúðastarf sitt. Séra Clements er kvæntur Meta Roos, og þjónar nú söfnuði í Emporia í Kansas, U. S. A.



## JOHN COLLINS.

Fæddur 3. okt. 1897 að Hólabrekku í Árnessýslu. Foreldrar: Jón Collins Jónsson og Steinunn Þorkelsdóttir frá Apavatni í Árnessýslu, en nú búandi að Winnipegosis í Manitoba, og þar stundaði Jón yngri landbúnað með foreldrum sínum, þar til hann gekk í herinn 3. maí 1918. Á leiðinni frá Winnipeg til skips kendi hann sjúkleika, og var því settur í sóttkví í hafnarbænum St. John í Canada og haldið þar, þar til vopnahlé var sett. Hann stundar nú nautgriparækt með foreldrum sínum.



## ALBERT CRAIGIE.

Fæddur 6. júlí 1897 í Victoria, B. C. Foreldrar: Eli Craigie, af skozkum ættum, og Emely, ættuð af Ísafirði á Íslandi. Þau búa nú að Alta Vista, Burnaby, B. C. Albert gekk í herinn 27. maí 1918. Var ekki farinn úr landi, þegar vopnahlé var samið. Leystur frá herþjónustu 30. nóvember 1918.



## INGÓLFUR O. JACOBSON CRAWFORD.

Fæddur 4. júlí 1899 að Wild Oak, Manitoba. Hann gekk í herinn í Calgary, Alberta, 24. maí 1918, og sigldi frá Canada til Englands 25. júlí 1918. Var þar við heræfingar til 11. júní 1919, að hann hvarf aftur til Canada. Heimili hans er að Athabasca Landing, Alberta. Hann stundar landbúnað. Foreldrar hans eru þau Jacob Crawford, ættaður úr Barðastrandarsýslu, og Helga Þorsteinsdóttir, ættuð úr Norður-Múlasýslu. Þau hjón bjuggu mörg ár í Manitoba, en fluttu fyrir 10 árum til Alberta.



## LEIFUR JACOBSSON CRAWFORD.

Fæddur 8. febrúar 1897 að Wild Oak, Manitoba. Hann gekk í herinn í Calgary, Alberta, 6. júní 1918. Sigldi til Englands 25. júní sama ár, og var þar við heræfingar til 11. júní 1919, að hann var sendur aftur til Canada. Heimili Leifs er að Athabasca Landing, Alberta. Foreldrar hans eru þau Jacob Crawford, ættaður úr Barðastrandarsýslu, og Helga Þorsteinsdóttir, ættuð úr Norður-Múlasýslu á Íslandi. Þau bjuggu í Manitoba um margra ára skeið, en fluttu til Alberta árið 1912.



## CHARLES HAROLD CUZNER.

Er fæddur í Calgaryborg í Alberta 4. maí 1887. Foreldrar hans eru þau M. R. Cuzner bartskeri í Winnipeg og Friðrika Halldórsdóttir Reykjalín, Friðrikssonar, frá Kvennabrekku í Miðdölum í Dalasýslu, og konu hans Sigríðar Bjarnadóttur frá Kollafjarðarnesi í Strandasýslu. Charles var til heimilis hjá foreldrum sínum í Winnipeg, er hann var kvaddur í Canadaherinn í ágústmánuði 1918, og gekk í timburtekjusveit herliðsins. Er til Englands kom þótti hann ekki nógu hraustur til þess starfa, og því settur þar við skrifstofustörf og gegndi þeim til stríðsloka. Hann kom heim aftur 19. nóvember 1919. Er nú umferðasali fyrir verzlunarfélag í Winnipeg.



## BENJAMÍN INGIMAR DANÍELSSON.

Fæddur að Gimli, Man., 25. febrúar 1895. Foreldrar hans Daníel Daníelsson frá Ásbjarnarnesi í Vesturhópi í Húnavatnssýslu, og Ingibjörg María Benjamínsdóttir frá Hjallalandi í Húnavatnssýslu. Gekk í herinn 10. maí 1918 og sigldi til Evrópu 25. júlí sama ár, en fór ekki á herstöðvar Frakka, því friður komst á áður en hann hafði lokið heræfingum. Hann kom aftur til Canada 24. júní 1919, og stundar nú landbúnað með foreldrum sínum í Gimlibygð.



EYMUNDUR DANÍELSSON.

Fæddur 4. júní 1897 á Mýrum við Hrútafjörð í Húnavatnssýslu. Sonur Daníels Péturssonar frá Reykjum við Hrútafjörð og Þóru Bergsdóttur frá Kleyfakoti við Ísafjörð. Eymundur átti heima að Framnesi, Man., áður en hann gekk í herinn 14. marz 1918, og stundaði búskap fram að þeim tíma. Hann sigldi til Englands í júlímánuði það sama ár, og var þar við heræfingar, þegar stríðinu mikla lauk í nóvember það ár. Hann kom aftur til Canada 24. júní 1919, og stundar nú hið fyrra starf sitt á heimili föður síns að Framnesi.



KRISTJÁN BJÖRN DAVIDSON.

Fæddur 29. júlí 1887 í Marshall, Minnesota, U. S. A. Foreldrar Jón Davidson, Davíðssonar frá Máná í Húsavíkurhreppi í Þingeyjarsýslu, og Ingibjörg Rafnsdóttir, Jónssonar frá Galtastöðum í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu. Kristján gekk í Bandaríkjasjóherinn árið 1909 og þjónaði þar í 4 ár. Gekk aftur í herinn í febrúar 1918, þá í lúðrasveit 88. Bandaríkja-herdeildarinnar. Hann sigldi til Frakklands í ágúst það ár og var þar við heræfingar þegar stríðinu lauk. Kom heim aftur 18. júní 1919.

*SIGURBJORN DAVIÐSSON (sjá III).*



EGGERT MAGNÚSSON EGGERTSSON.

Fæddur 7. júlí í Hnífsdal við Ísafjarðardjúp. Foreldrar: Magnús Ágúst Eggertsson frá Flatey á Breiðafirði og Petrína Sigrún Stefánsdóttir frá Arney á Breiðafirði. Eggert gekk í herinn 22. apríl 1918. Sigldi til Englands í júní það ár, og var þar við æfingar, er stríðinu lauk. Kom aftur til Canada 2. júní 1919. Stundar málaraiðn.



## ARNÓR KONRAÐ EGILSSON.

Fæddur í Mouse River bygð í Norður Dakota, U. S. A., 30 desember 1890. Foreldrar: Halldór J. Egilsson frá Melstað í Húnavatnssýslu og Margrét Jónsdóttir, ættuð úr Lönguhlíð í Eyjafjarðarsýslu. Arnór gekk í Canadaherinn 28. febrúar 1918, og sigldi til Englands í júlí sama ár. Var við æfingar, þegar vopnahlé samdist. Arnór er kvongaður Þórunni Salome skólakennara, dóttur Stefáns S. Oliver, fyrrum í Selkirk, Man. Þau hjón hafa heimili að Swan River P. O., Man.



## HANNES G. EGILSSON.

Fæddur að Lögberg P. O., Sask., 20. sept. 1890. Sonur Gísla Egilssonar frá Völlum í Skagafirði og Ragnheiðar F. Jóhannsdóttur Hallssonar frá Egg í Hegranesi. Hannes gekk í Strathcona canadiska riddaraliðið 31. marz 1918 og sigldi til Englands 15. apríl það ár. Hann var ekki sendur til herstöðva á Frakklandi, af því hans var þörf við hestajárningarvinnu á Englandi. Hann kom aftur til Canada 13. júní 1919, og stundar nú, eins og áður, landbúnað með foreldrum sínum á landi þeirra að Lögberg P. O., Sask.



## EINAR EINARSSON.

Fæddur 25. febrúar 1897 að Upham, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar Stefán Stefánsson, Einarssonar, frá Eiðsstöðum í Húnaþingi, og Elísabet Geirhjartardóttir, Kristjánssonar, úr Flateyjardal í Þingeyjarsýslu, en móðir Elísabetar hét Guðfinna Jónsdóttir, ættuð úr Þingeyjarsýslu. Einar gegndi herkalli 4. nóvember 1918, einni viku áður en vopnahlé var samið. Fór ekki úr landi.

*GUNNAR JÓHANN EINARSSON (sjá III).*



## HALLDÓR FRÍMANN EINARSSON.

Fæddur 13. október 1893 að Pembina, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Þorvaldur Einarsson frá Fagranesi á Langanesi í Þingeyjarsýslu og Sigríður Halldórsdóttir frá Skarðsströnd í Dalasýslu, nú búandi að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Halldór gegndi herkalli 30. apríl 1918. Þjónaði 9 mánaða tíma í her Bandaríkjanna í Washington. Fékk lausn frá herþjónustu í janúar 1919. Áður en hann gekk í herinn var hann íþróttakennari í Chicago.



## HALLDÓR INGVAR EINARSON.

Fæddur 26. ágúst 1897 að Víkurgerði í Fáskrúðsfirði. Foreldrar: Einar Einarsson ættaður úr Breiðdal, og Sigurbjörg Þórðardóttir frá Fagradal, nú búandi að Grafton, Norður Dakota, U. S. A.. Halldór gegndi herkalli í október 1918 og sigldi tafarlaust til Frakklands. Var þar með herdeild sinni, þegar vopnahlé samdist. Kom aftur í febrúar 1919. Vinnur við talþráðakerfi fyrir stjórnina.



## HÖGNI EINARSSON.

Fæddur 19. apríl 1886 að Árnanesi í Austur-Skaftafellssýslu. Foreldrar: Einar Stefánsson (alþingismanns) í Árnanesi, og Lovísa Benediktsdóttir, Bergssonar, dannebrogsmanns. Högni gekk í herinn 7. janúar 1918. Tók þátt í orustum við La Croix og víðar á Frakklandi. Særðist ekki. Kom aftur til Canada 6. maí 1919. Stundar málaraiðn í Winnipeg. Högni var í eftirför á eftir þýzka hernum inn á Þýzkaland, og dvaldi þar á herverði um þriggja vikna tíma, unz fullur friður komst á.



## JÓHANN ÞORBJÖRN ELÍASSON.

Fæddur í Winnipeg 20. júlí 1892. Foreldrar hans eru Elías Vermundarson, Magnússonar frá Reynihólum í Miðfirði í Húnavatnssýslu, og Valgerður Jóhannsdóttir, Bjarnasonar frá Gnýsstöðum í Kirkjuhvammshreppi í Húnavatnssýslu. Jóhann gekk í herinn 3. janúar 1918, en á vígstöðvar Frakka var hann kominn 20. júní það ár. Tók þar þátt í ýmsum orustum, en særðist 9. ágúst, og var þá á spítala um tíma; en fór aftur í skotgrafirnar, og var þar, þar til stríðinu lauk. Þá var hann sendur með varðliði Breta inn í Belgíu og þaðan inn á Þýzkaland, og þar var hann, þar til hann sigldi aftur heim til Canada í maí 1919. Foreldrar hans hafa jafnan búið í Winnipeg, síðan þau giftust, árið 1889.



*GUÐLAUGUR ERLENDSSON (sjá III).*

## MARINO ERLENDUR ERLENDSSON.

Fæddur 2. febrúar 1895 að Suðholti í Gullbringusýslu. Foreldrar: Guðjón Erlendsson frá Skálholti í Biskupstungum og Valgerður Jóhanna Erlendsson, ættuð frá Skipholti í Árnessýslu, nú búandi að Reykjavík P. O., Manitoba. Marino gekk í herinn 10. maí 1918. Sigldi til Englands í júlílok það ár. Var þar við heræfingar, þegar vopnahlé var samið. Kom aftur til Canada 27. ágúst 1919. — Stundar landbúnað með móður sinni að Reykjavík P. O.



## ALBERT ÞORSTEINN EYJÓLFSSON.

Fæddur að Akra, Norður Dakota, U. S. A., 1. nóvember 1896. Sonur Þorsteins Eyjólfssonar frá Breiðavaði í Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu á Íslandi og Kristjönu Jónsdóttur. Faðir hans er dáinn, en móðirin býr að Osland, B. C., en áður að Lundar, Manitoba, og með henni bjó Albert þar áður en hann gekk í herinn 3. maí 1918. Hann sigldi áleiðis til herstöðvanna 10. júlí 1918, en hafði ekki tekið þátt í orustum, þegar vopnahlé var sett í nóvember það ár. Hann kom aftur til Canada 7. maí 1919. Stundar nú fiskiveiðar.



## GUÐMUNDUR FINNBOGI EYJÓLFSSON.

Fæddur 18. ágúst 1893 að Akra P. O., Norður Dakota, U. S. A. Sonur Jóns Eyjólfssonar frá Breiðavaði í Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu, og Guðrúnar Guðmundsdóttur frá Stefánsstöðum í Skriðdal í Suður-Múlasýslu. Guðmundur var daglaunamaður að Lundar, Man., áður en hann gekk í herinn, þann 15. apríl 1918. Hann fór aldrei frá Canada.



## ÓSKAR FRANKLIN EYJÓLFSSON.

Fæddur að Akra P. O., Norður Dakota, U. S. A., 13. apríl 1897. Sonur Jóns Eyjólfssonar frá Breiðavaði í Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu og Guðrúnar Guðmundsdóttur frá Stefánsstöðum í Skriðdal í Suður-Múlasýslu. Óskar var verzlunarþjónn að Lundar, Man., og vann að verzlunarstörfum, áður en hann gekk í Fort Garry riddaraliðið 3. maí 1918. Frá Canada fór hann áleiðis til Englands í júní 1918. Kom aftur til Canada í júní 1919.



## THORLÁKUR EMANUEL EYJÓLFSSON.

Fæddur 25. desember 1890 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Stefán Eyjólfsson, Magnússonar frá Unaósi í Norður-Múlasýslu, og Guðrún Þorláksdóttir, Björnssonar, frá Fornhaga í Eyjafjarðarsýslu, nú búandi að Garðar, N. D. Thorlákur gegndi herkalli 9. ágúst 1918. Fór til Frakklands. Tók þátt í orustu við Argonne, sem varaði uppihaldslaust frá 1 til 11. nóvember það ár. Var eftir það með í eftirför Bandaríkjamanna inn á Þýzkaland og í setuliði þeirra í Coblenz til 6. júlí 1919. Afturkominn til Bandaríkjanna 1. ágúst 1919. Fékk lausn frá herþjónustu 14. ágúst það ár.

*ÞORKELL SVEINN EYRIKSSON (sjá III).*



## ALBERT NORMAN FINNSSON.

Fæddur 14. marz 1899 í Winnipeg. Foreldrar: Jón Finnbogason frá Hrauni í Reykjadal, faðir hans var Finnbogi Finnbogason, Finnbogasonar, er bjó á Reykjum í Reykjahverfi í Þingeyjarsýslu, en móðir Jóns var Sólveig Grímsdóttir, úr Þistilfirði. Jón fluttist til Ameríku 1874, og giftist í Winnipeg árið 1880 Jakobínu Sigurðardóttur frá Þúfnavöllum í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu. Foreldrar hennar voru Sigurður Kristjánsson og Þóra Þorláksdóttir, sem lengi bjuggu að Þúfnavöllum. Albert innritaðist í herinn í júní 1918; fór til Englands í júlí sama ár, gekk á hermannaskóla þar. Kom heim aftur í marz 1919. Hann vinnur fyrir Hudson Bay félagið í Vancouver, B. C.



## JAMES ARTHUR FINNSSON.

Fæddur í Winnipeg 26. desember 1896. Foreldrar: Jón Finnbogason og Jakobína Sigurðardóttir (sjá ættartölu Normans bróður hans). James innritaðist í "Canadian Engineers" í Vancouver í apríl 1918 og fór til Englands í sama mánuði, en til Frakklands í ágúst, og tók þátt í síðasta áhlaupinu við Cambrai. Varð veikur og sendur til Englands á sjúkrahús, en kom heim í apríl 1919, eftir eins árs dvöl. Hann vinnur hjá Tucket Tobacco Co. í Winnipeg.

## ADOLPH W. FREDERICKSON.

Er fæddur 17. nóvember 1886. Foreldrar hans eru þau Hermann Frederickson og kona hans, er bjuggu við Cavalier í Norður Dakota. Adolph var til heimilis í Fillmore í Saskatchewan, er hann var kvaddur í Bandaríkjaherinn 24. júní 1918. Hann gekk í 350. sveit hríðskotaliðs 88. herdeildar og fylgdist með henni til Frakklands, og var þar til stríðsloka. Hann var leystur frá herþjónustu 1919.



## ÁRMANN FREDERICKSON.

Fæddur að Glenboro P. O., Man., 11. maí 1897. Sonur Olgeirs Friðrikssonar, Jónssonar, lengi bónda að Hóli á Melrakkasléttu í Norður-Þingeyjarsýslu, og Vilborgar Jónsdóttur frá Stórabakka í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu. Ármann gekk í herinn 14. maí 1918, og lagði af stað frá Winnipeg áleiðis til Evrópu 25. júlí það ár, en var haldið í sóttverði í Quebecborg, þar til eftir að stríðinu var lokið. Kom aftur til Winnipeg 11. desember 1918. Var færður yfir í Fort Garry riddaraliðsdeildina og ekki leystur frá herþjónustu fyr en 15. ágúst 1919.



## FREDERICK VICTOR FREDERICKSON

Fæddur í Winnipeg, Man., 9. nóvember 1893. Sonur Árna Friðrikssonar, fyrrum bæjarfulltrúa og kaupmanns í Winnipeg, ættaðs frá Hóli á Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu á Íslandi, og Sigurbjargar Þorláksdóttur frá Fornhaga í Eyjafjarðarsýslu. Friðrik gekk í herinn í Vancouverborg, þar sem foreldrar hans búa, og innritaðist í landvarnardeildina þar þann 30. apríl 1918, en var leystur frá herþjónustu 3. maí 1919. Hann stundar verzlun með föður sínum að 4295 Sophia Street, Vancouver, B. C..

## LLOYD HERMANN FREDERICKSON.

Er fæddur 1. desember 1896 í íslenzku bygðinni í Dakota. Sonur þeirra Hermanns Frederickson og konu hans, er bjuggu við Cavalierbæ í Norður Dakota. Lloyd var kvaddur í Bandaríkjaherinn 26. júlí 1918 og gekk í vistaflutningasveit herins. Vann hann við vistaafgreiðslu í Lemons-herbúðunum, þar til ófriðnum sleit. Hann er til heimilis í Cavalier.



## ÓSKAR GUNNAR FREDERICKSON.

Fæddur í Ostersund í Ontariofylki 17. marz 1898. Foreldrar: Gunnar Friðriksson, úr Kræklingahlíð í Eyjafirði og Guðrún Jörundardóttir frá Búrfelli í Hálsasveit í Borgarfirði, nú búandi að Winnipegosis, Manitoba. Óskar gekk í herinn 22. júní 1918, og var við heræfingar í Halifaxborg, þar til hann hvarf heim aftur 18. maí 1919. Óskar er kvæntur ungfrú Nellie Björnsdóttur Crawford, og stundar fiskiveiðar.



## VICTOR FREDERICKSON.

Fæddur að Cypress River P. O., Man., 16. júní 1895. Foreldrar: Páll Friðfinnsson, Jónssonar frá Þorvaldsstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu, og Guðný Jónsdóttir, Ólafssonar, fyrrum amtsritara á Möðruvöllum í Eyjafirði. Victor gekk í herinn 9. maí 1918, sigldi frá Canada 15. júlí og lenti á Frakklandi í nóv. 1918. Þá var friður kominn og tók hann því ekki þátt í orustum. Hann kom aftur til Canada 1. apríl 1919. Stundar akuryrkju.



## ÓLAFUR JOHN FREEMAN.

Fæddur að Lundar, Manitoba, árið 1895. Foreldrar: Magnús Freeman, Ólafssonar, frá Brekku á Hvalfjarðarströnd, Gunnarsonar, og Helga Jónsdóttir, Sigurðssonar frá Ferstiklu í Borgarfjarðarsýslu. Ólafur gekk í canadiska riddaraliðið 1. maí 1918 og fór til Englands. Var þar við heræfingar, þegar stríðið endaði. Kom aftur til Canada í marzsmánuði 1919. Stundar búskap.



## VILHJÁLMUR FRIÐFINNSSON.

Fæddur að Brú P. O., Manitoba, 7. janúar 1890. Foreldrar: Jón tónskáld Friðfinnsson, Jónssonar, úr Breiðdal í Suður-Múlasýslu og Anna Sigríður Jónsdóttir frá Þverá í Eyjafirði. Vilhjálmur gekk í canadiska stórskotaliðið 11. febrúar 1918, en mun ekki hafa verið sendur úr landi. Hann fékk lausn úr herþjónustu 4. desember 1918. Er nú ritari á pósthúsinu í Winnipeg.



## FRIÐRIK FRIÐRIKSSON.

Fæddur í Winnipeg árið 1892. Foreldrar Guðleifur Friðriksson, Einarssonar frá Steinólfsstöðum í Grunnavíkurhreppi í Ísafjarðarsýslu, og Ingibjörg Sigmundsdóttir Jónssonar frá Mýrum í Dýrafirði í Ísafjarðarsýslu. Friðrik hafði verið skólakennari um fjögra ára skeið áður en hann gekk í herinn í ágúst 1918, og sigldi frá Canada 26. desember það ár, eftir að vopnahlé var sett. Hann var einn í tölu þeirra, er sendir voru til eftirlits í Síberíu, en kom aftur til Canada 26. maí 1919. Friðrik er og íþróttamaður og vann verðlaun í íþróttakappleikjum, sem hann tók þátt í með samherjum sínum.



## ÁRNI FRIÐSTEINSSON.

Fæddur við Íslendingafljót í Manitoba 9. janúar 1891. Sonur Friðsteins Sigurðssonar frá Harðbak í Þingeyjarsýslu og Sesselíu Guðnýjar Sigurbjörnsdóttur frá Núpi í Axarfirði. Þau hjón bjuggu lengi við Íslendingafljót. Árni gekk í herinn 31. júlí 1918, en fór aldrei á vígvöll, því að vopnahlé var sett 4 mánuðum síðar.



## JÓN KRISTJÁN FRÍMANN.

Fæddur að Svold, Norður Dakota, U. S. A. 14. ágúst 1897. Foreldrar Jón Frímann frá Harastöðum í Dalasýslu og Helga Líndal frá Bjarnastöðum í Hvítársíðu í Mýrasýslu. Jón gegndi herkalli 26. október 1918. Hann veiktist í herbúðum Bandaríkjamanna í Fargo, Norður Dakota, og nýtur nú eftirlauna frá Bandaríkjastjórninni. Áður en hann gegndi herkalli, var hann bankaþjónn í bænum Kandahar í Saskatchewanfylki.

## ÁGÚST GESTSSON.

Fæddur að Mountain, Norður Dakota, U. S. A., árið 1899. Foreldrar Sigurjón Gestsson og Arnþóra Jóhannsdóttir, bæði frá Eldjárnsstöðum á Langanesi. Ágúst gegndi herkalli árið 1918, og var við heræfingar í Bandaríkjunum, þegar vopnahlé var samið.



## BENEDICT GESTSSON.

Fæddur í Dýrafirði á Íslandi árið 1891. Foreldrar: Gestur Björnsson og Jóna Benediktsdóttir, er bjuggu að Hjarðardal í Dýrafirði. Benedikt innritaðist í Bandaríkjaherinn þann 17. maí 1918, og var skipaður undirforingi í verkfræðingadeild. Hann þjónaði á Frakklandi frá því í júlímánuði árið 1918 til júlíloka 1919, og var mánuði síðar leystur frá herþjónustu í Bandaríkjunum, með bezta vitnisburði. Benedikt er lærður verkfræðingur (Civil Engineer).



## GESTUR J. GESTSSON.

Fæddur 2. september 1890 að Grafton, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Jóhann Gestsson og Jóhanna Jónsdóttir af Langanesi í Norður-Þingeyjarsýslu, nú búandi að Garðar í Norður Dakota. Gestur gegndi herkalli 5. september 1918, en var ekki farinn úr landi, þegar stríðið endaði. Hann stundar trésmíðar. Er kvæntur Þórunni Valgerði Thorlacius.



## KRISTINN J. GESTSSON.

Fæddur 27. júlí 1895 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Jóhann Gestsson og Jóhanna Jónsdóttir, af Langanesi í Norður-Þingeyjarsýslu. Kristinn gegndi herkalli 3. september 1918 og sigldi til Frakklands 11. október það ár. Kom heim aftur í októbermánuði 1919. Stundar landbúnað.



## GUÐMUNDUR HAFSTEINN GILLIES.

Fæddur 15. júlí 1891 að Churchbridge, Sask. Sonur Einars Gíslasonar frá Hergilsey á Breiðafirði og Þórhildar Hafliðadóttur frá Svefneyjum á Breiðafirði. Hann var skrifstofuþjónn og hafði heimili í Winnipeg áður en hann gekk í herinn 28. febrúar 1918, og fór þá rakleiðis á vígstöðvarnar á Frakklandi. Þar tók hann þátt í orustum við Monchy, Broiry, Cambrai og Mons, og var sæmdur heiðursmerki fyrir hugrakka framgöngu í áhlaupi og hertöku Monsborgar. Hann kom aftur til Canada 5. apríl 1919.



## ALBERT GILLIS.

Fæddur 10. nóvember 1892 í Duluth í Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Jóhannes Gíslason, Gíslasonar frá Márstöðum í Húnaþingi, og Valgerður Stefánsdóttir, Björnssonar frá Kambi í Barðastrandarsýslu, nú búandi að Garðar, Norður Dakota. Albert gegndi herkalli og gekk í sjóliðið 8. maí 1918, og þjónaði á heræfingasvæðum í Illinois og við Kyrrahaf. Var leystur frá herþjónustu 3. marzmánaðar 1919. Stundar landbúnað.



## GUÐNI GILLIS.

Fæddur við Íslendingafljót í Manitoba 4. júlí 1890. Er tinsmiður og hafði heimili að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Jóhannes Gíslason, Gíslasonar, frá Márstöðum í Húnaþingi, og Valgerður Stefánsdóttir, Björnssonar frá Kambi í Barðastrandarsýslu, nú búandi að Garðar, Norður Dakota. Guðni gegndi herkalli 24. júní 1918 og sigldi til Frakklands í ágústmánuði það ár. Kom heim aftur 15. júní 1919, þá vinnufær, og stundar nú trésmíðar sem áður.



## Sergeant GÍSLI GÍSLASON.

Fæddur 30. ágúst 1893 í Saskatchewanfylki í Canada. Foreldrar: Sigurður Gíslason frá Stafafelli í Austur-Skaftafellssýslu og Kristín Stefánsdóttir, Jónssonar, frá Miðvöllum í Skagafjarðarsýslu, búandi að Blaine, Wash., U. S. A. Gísli eða Gill (sem hann er oftast kallaður) gegndi herkalli 3. apr. 1918, og var skipaður, með undirforingjanafnbót, til þjónustu í líknardeild Bandaríkjahersins. Sigldi til Frakklands 12. nóvember 1918. Leystur frá herþjónustu 1. febrúar 1919. Stundar nú keyrslustörf.



HALLGRÍMUR GÍSLASON.

Fæddur 12. nóvember 1893. Sonur Péturs Gíslasonar úr Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu og Bjargar Jónsdóttur úr Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Gekk í canadiska riddaraliðið 6. maí 1918, og leystur frá herþjónustu í marzmánuði 1919.



JOHN E. GÍSLASON.

Fæddur 10. október 1895 að Joliette, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar Pétur Gíslason, fæddur að Kjarvalsstöðum í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu, og Björg Jónsdóttir frá Ásunnarstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu, nú búandi að Bellingham, Wash., U. S. A. John gegndi herkalli 19. júní 1918, en var ekki farinn úr landi, þegar vopnahlé var samið. Leystur frá herþjónustu 13. marz 1919. Stundar daglaunavinnu.



ALEX HALLGRÍMUR S. GOODMANSON.

Er fæddur í Norður Dakota 17. september 1891. Hann er sonur Sigurðar Goodmanson (Guðmundssonar) af Langanesi og Guðrúnar Hallgrímsdóttur, ættuð úr Fnjóskadal; þau búa nú við Garðar í Norður Dakota. Alex var kvaddur í Bandaríkjaherinn 26. ágúst 1918 og innritaðist í 76. sveit 13. deildar fótgönguliðsins. Hann mun hafa verið við heræfingar, þegar ófriðnum lauk og því eigi hafa verið sendur úr landi.



## ALEXANDER SVEINN GOODMAN.

Fæddur 22. febrúar 1898 að Upham, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar Guðmundur Goodman og Anna Jónsdóttir. Alexander gegndi herkalli 15. júlí 1918 og gekk í verkfræðingadeild hersins. Sigldi til Frakklands 15. ágúst 1918, og starfaði þar, til þess er hann kom aftur 9. júlímánaðar 1919. Hann stundar akuryrkju með foreldrum sínum að Upham.



## GUÐMUNDUR FRIÐJÓN GOODMAN.

Fæddur 29. ágúst 1892 að Fjallalækjarseli í Þistilfirði í Þingeyjarsýslu. Sonur Þorláks Guðmundssonar frá Snartarstöðum í Núpasveit og Önnu Davíðsdóttur frá Ferjubakka í Axarfirði í Þingeyjarsýslu. Guðmundur var búðarsveinn í Glenboro, Manitoba, áður en hann gekk í herinn 12. janúar 1918. Hann var ekki sendur úr landi, en var skipaður undirforingi í lögregludeild landvarnarliðs Canada og ákveðið starfsvið í Quebecfylki. Frá herþjónustu var hann leystur 28. desember 1918. Hann stundar nú sína fyrri atvinnu.

## GUÐMUNDUR S. GOODMAN.

Fæddur 15. desember 1896 að Milton, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Stefán Guðmundsson, Jónssonar, af Berufjarðarströnd í Suður-Múlasýslu, og Kristín Steingrímsdóttir, Grímssonar frá Steindórsstöðum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu. Gegndi herkalli 5. nóv. 1918, einni viku áður en vopnahlé var sett. Var því ekki sendur úr landi. Guðmundur stundaði landbúnað við Milton, N. D., áður en hann gekk í herinn. Stundar enn sömu atvinnu.



## LEONARD S. GOODMANSON.

Er fæddur í Norður Dakota 23. júlí 1896. Foreldrar hans eru þau Sigurður Goodmanson (Guðmundsson), ættaður af Langanesi, og Guðrún Hallgrímsdóttir einhenta, ættuð úr Fnjóskadal í Suður-Þingeyjarsýslu, er búa við Garðar í Norður Dakota. Leonard var kvaddur í Bandaríkjaherinn 26. ágúst 1918 og innritaðist við 76. sveit 13. deildar fótgönguliðsins. Hann mun hafa verið við heræfingar, þegar stríðinu lauk og því eigi hafa verið sendur úr landi.



## GUSTAV GOTTFRED.

Fæddur 23. september 1896 í Winnipeg. Sonur Jóhannesar Gottskálkssonar og Sesselíu konu hans, sem búa við Jessie Ave. í Winnipeg (sjá ættfærslu Oscars J. Gottfred bróður hans). Gustav innritaðist í flugherinn 13. maí 1918. Fór til Toronto 30. maí sama ár. Var aldrei sendur yfir til Englands. Kom aftur 2. desember 1918. Hann er nú símastjóri við aðalstöðvar Can. Nat. Telegraph félagsins í Winnipeg. Hann er kvæntur Valdínu Þorvaldsdóttur Reykdal.

*ARNGRIMUR EINARSSON GRANDY (sjá III).*



## GRÍMUR S. GRÍMSSON.

Fæddur í Burnt Lake, Alberta, 23. júlí 1895. Foreldrar hans eru þau Sigurður Grímsson frá Landakoti og Kristín Erlendsdóttir frá Breiðabólstað á Álftanesi í Gullbringusýslu. Hann innritaðist í sjóliðið 9. maí 1918, og fékk lausn úr hernum 9. marz 1919. Stundar búaskap.



VILHJÁLMUR GRÍMSSON.

Fæddur 27. apríl 1893 að Nikhól í Mýrdal. Foreldrar: Grímur Sigurðsson, ættaður frá Skeiðflöt í Mýrdal, og Ólöf Sigurðardóttir frá Pétursey í Mýrdal. Hann innritaðist í 72. herdeildina 9. apríl 1918 og fór frá Canada 15. maí sama ár. Tók þátt í orustum við Cambrai og Valenciennes. Kom heim aftur heill á húfi 20. júní 1919. Stundar fiskiveiðar í Smith Island, B. C.



GUSTAV VALDIMAR GRÖNVOLD.

Fæddur í Vopnafirði á Íslandi 1. september 1888. Foreldrar: Sigurður Erlendsson frá Nefbjarnarstöðum í Hróarstungu og Stefanía Vigfúsdóttir, úr sömu sveit. Gustav gekk í herinn 5. janúar 1918, og tók þátt í orustum við Amiens, Arras og Cambrai. Særðist í síðasttalinni orustu 30. september 1918. Kom aftur til Canada 8. maí 1919, þá vinnufær. Gustav er póstþjónn í Selkirkbæ.



JÓN G. GUÐJÓNSSON.

Fæddur í Lincoln County, Minnesota, U. S. A., 15. ágúst 1888. Foreldrar: Guðjón Jónsson frá Hróaldsstöðum í Vopnafirði í Norður-Múlasýslu og Sigríður Sigurðardóttir frá Brekku í Þingeyjarsýslu, nú búandi að Minneota, Minnesota. Hjá þeim var Jón, þegar hann gegndi herkalli 4. september 1918. Var við heræfingar í Illinoisríkinu. Veiktist þar og var á spítala í 6 vikur. Hann var leystur frá herþjónustu 12. janúar 1919.



## BJARNI J. GUÐMUNDSSON.

Fæddur 18. október 1895. Sonur Jóns Guðmundssonar frá Ásum í Gnúpverjahreppi í Árnessýslu og Sigríðar Bjarnadóttur, Jónssonar frá Tungufelli í Hrunamannahreppi í Árnessýslu, nú búandi að Hove P. O., Manitoba. Bjarni gekk í herinn 17. maí 1918, en komst ekki til Evrópu. Var haldið í sóttverði austur við Atlantshaf alt sumarið 1918 og leystur frá herþjónustu 29. janúar 1919. Stundar landbúnað.



## DAGBJARTUR GUÐMUNDSSON.

Fæddur 30. júní 1889 í Efstadal í Ögurhreppi í Ísafjarðarsýslu. Foreldrar: Guðmundur Egilsson, úr Ögurhreppi ofangreindum, og Margrét Jónsdóttir frá Meirihlíð í Bolungarvík í Ísafjarðarsýslu. Dagbjartur gegndi herkalli 26. júlí 1918. Sigldi til Frakklands 16. september það ár. Kom heim aftur í júnílok 1919. Stundar trésmíðar í Minneapolis, Minnesota, U. S. A.



## EINAR GUÐMUNDSSON.

Fæddur 21. júlí 1894 í Yellow Medicine County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Bjarni Guðmundsson frá Ytra-Nýpi í Vopnafirði og Stefanía Einarsdóttir frá Sandfellshaga í Axarfirði, nú búandi að Ivanhoe, Minnesota. Einar gegndi herkalli 21. maí 1918. Sigldi til Frakklands í ágústmánuði það ár. Fékk lausn úr herþjónustu 16. maí 1919. Einar er kvæntur Mabel Endeline Komplien, og stundar landbúnað.



## HANNES GUÐMUNDSSON.

Fæddur á Stokkseyri í Árnessýslu 17. marz 1898. Var bankagjaldkeri í Allan, Sask., er hann gekk í herinn 21. febr. 1918. Foreldrar: Bjarni Guðmundsson frá Skeiðum í Árnessýslu og Ingibjörg Jónsdóttir frá Gaulverjabæ í Árnessýslu, nú búandi að Foam Lake, Sask. Hannes sigldi til Englands í marzmánuði 1918 og var þar um tíma við heræfingar með fótgönguliðsdeild, en var síðan færður yfir í flokk þann (Signallers Corps), er merki gefa og bendingar með veifum. Hann hafði rétt fullnumið þá fregnsendinga-aðferð, þegar vopnahlé var sett. Leystur frá herþjónustu 21. maí 1919. Er verzlunarþjónn.



## JACOB C. GUÐMUNDSSON.

Fæddur 30. desember 1895 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar Gunnar Guðmundsson og Elín Pálmadóttir, úr Skagafirði, er áður bjuggu að Mountain. Elín dáin, en Gunnar býr nú hjá dóttur sinni í Winnipeg. Jacob gegndi herkalli 29. marz 1918. Sigldi til Frakklands í júlí það ár. Heim kominn aftur og leystur frá herþjónustu 15. apríl 1919. Stundar lífsábyrgðarsölu.



## JÓEL SVERRIR GUÐMUNDSSON.

Fæddur 25. september 1900 í Reykjavík á Íslandi. Foreldrar: Bjarni Guðmundsson frá Skeiðum í Árnessýslu og Ingibjörg Jónsdóttir frá Gaulverjabæ í Árnessýslu, nú búandi að Foam Lake, Sask. Jóel var í riddara lögregluliði Vestur-Canada áður en hann gekk í herinn þann 19. apríl 1918. Sigldi til Englands 8. maí sama ár. En með því hann var talinn of ungur, undir herþjónustulögum Breta, til þess að sendast á vígvöll, var honum haldið við heræfingar á Englandi, þar til hann var leystur úr herþjónustu 10. júní 1919. Hann er nú skólakennari.



## JOHN GUÐMUNDSSON.

Fæddur 30. desember 1895 í Laxárdal í Dalasýslu. Foreldrar: Jóhannes Guðmundsson, Halldórssonar frá Gröf í Laxárdal í Dalasýslu, og Helga Sigurðardóttir, Jakobssonar úr Miðdölum í Dalasýslu. John gegndi herkalli 26. ágúst 1918, en fór ekki úr landi, og fékk lausn frá herþjónustu þann 4. apríl árið 1919.



## KRISTJÁN J. GUÐMUNDSSON.

Fæddur 3. október 1896 að Bæ í Súgandafirði í Ísafjarðarsýslu. Sonur Jóns Guðmundssonar frá Bæ í Ísafjarðarsýslu (dáinn fyrir nokkrum árum) og Guðríðar Kristjánsdóttur frá Barmi í Barðastrandarsýslu. Kristján vann fyrir ekkjuna móður sína á landi hennar í Swan River bygð áður en hann gekk í herinn þann 7. maí 1918. Hann fór aldrei úr Canada, með því að vopnahlé var sett áður en heræfingum hans var lokið.



## INGÓLFUR VÍGLUNDUR GUÐMUNDSSON.

Fæddur í Mikley í Nýja Íslandi 8. des. 1889. Foreldrar: Guðmundur Guðmundsson og Guðrún Ólafsdóttir, ættuð úr Snæfellsnessýslu á Íslandi. Hann innritaðist í herinn í marz 1918. Var þrjá mánuði við heræfingar í Winnipeg, en fékk svo heimfararleyfi og var ekki kallaður aftur, því friður komst á um það leyti. Hann vinnur aðallega við að fiska á vetrum, en á sumrum vinnur hann í Rice Lake námunum.



## SIGURÐUR GUÐMUNDSSON.

Fæddur 14. júní 1888 í Efstadal í Ögurhreppi í Ísafjarðarsýslu. Foreldrar: Guðmundur Egilsson, úr Ögurhreppi ofangreindum, og Margrét Jónsdóttir frá Meirihlíð í Bolungarvík í Ísafjarðarsýslu. Sigurður gegndi herkalli 26. júlí 1918 og var skipaður í verkfræðingadeild hersins. Hann fór til Frakklands 30. ágúst 1918, og tók þátt í orustum við Meuse og Argonne. Kom heim aftur 21. júní 1919. Stundar trésmíðar í Minneapolisborg, Minnesota, U. S. A.



## VALGARÐUR GUÐMUNDSSON.

Fæddur 7. júlí 1890 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Gunnar Guðmundsson og Elín Pálmadóttir, úr Skagafirði (önduð), bjuggu við Mountain. Valgarður gegndi herkalli 29. marz 1918. Tók þátt í orustum við St. Mihiel og Argonne á Frakklandi. Særðist einu sinni. Var þó vinnufær, er hann kom heim aftur 23. desember 1919. Áður en hann gekk í herinn vann hann að landbúnaði með föður sínum, en vinnur nú við bifreiða-aðgerðir.



## HÓLMGEIR GUÐNASON.

Fæddur að Baldur, Man., 7. maí 1897. Sonur Þorláks Guðnasonar frá Kaldbak í Þingeyjarsýslu og Ingu Hrólfsdóttur frá Draflastöðum í Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu. Þau hjón komu til Canada 1887 og búa í Argylebygð í Manitoba. Hólmgeir gekk í herinn 12. janúar 1918 og hélt til vígvallar Frakklands mánuði síðar. Hann tók þátt í orustunni miklu við Cambrai, en særðist ekki, og kom aftur til Canada 14. júlí 1919. Áður en hann gekk í herinn stundaði hann landbúnaðarvinnu að Darey, Sask., og stundar nú sömu vinnu.



## LEON EINAR GUNNARSSON.

Fæddur 17. ágúst 1893 í Duluth, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Kristján Gunnarsson, Jónssonar frá Geirshlíð í Flókadal, og Margrét Guðmundsdóttir, Sæmundssonar frá Vígliólsstöðum í Dalasýslu. Leon gegndi herkalli 26. apríl 1918. Sigldi til Frakklands 29. júní það ár. Hann tók þátt í orustum við St. Mihiel, Meuse og Argonne. Særðist ekki. Kom heim aftur 6. júní 1919. Hann er kyndari við gufuvélar á járnbrautarlestum.



## SIGGEIR HANNES GUNNLAUGSSON.

Fæddur 12. apríl 1896 í Argylebygð í Manitoba. Foreldrar: Brynjólfur Gunnlaugsson frá Flögu í Breiðdal í Suður-Múlasýslu og Halldóra Sigvaldadóttir frá Presthvammi í Þingeyjarsýslu. Þau hjón bjuggu í Höskuldsstaðaseli í Breiðdal. Siggeir gekk í herinn 30. maí 1918, og var við heræfingar í Canada, þegar vopnahlé var sett. Hann stundar landbúnað með móður sinni í Argylebygð.



## BJÖRN GUTTORMSSON.

Fæddur 30. desember 1883. Foreldrar Guttormur Þorsteinsson og Birgitta María Josephsdóttir. Þau hjón bjuggu að Krossavík í Vopnafirði. Björn gekk í herinn 9. maí 1918, og þjónaði í setuliði hans bæði í Manitoba og Nova Scotia fylkjum. Björn er handverksmaður, og kvongaður Helgu Jónsdóttur Kernested við Winnipeg Beach.



## HALLDÓR K. HALLDÓRSSON.

Er fæddur við Mountain í Norður Dakota 12. nóvember 1890. Sonur þeirra Kristjáns Halldórssonar, Þorgilssonar, frá Hundadal, og Maríu Rögnvaldsdóttur, sem ættuð er úr Skagafirði; þau búa við Mountain. Halldór var kvaddur í Bandaríkjaherinn 5. september 1918. Hann var við heræfingar, þegar stríðinu lauk, og fór því aldrei úr landi.



## HALLDÓR MARCELLINUS HALLDÓRSSON.

Er fæddur við Mountain í Norður Dakota 1. apríl 1894. Faðir Tómas bóndi þar, Halldórsson, frá Hundadal í Dalasýslu, Þorgilssonar, og móðir Þórvör Jónasdóttir Kortssonar frá Sandi í Aðaldal og Margrétar Sveinsdóttur. Halldór var kvaddur í herinn 26. ágúst 1918 og gekk í stórskotaliðið, 39. sveit 13. deildar. Með herdeild þeirri var hann til stríðsloka. Hann er til heimilis með foreldrum sínum að Mountain.



## JÓN HALLDÓRSSON.

Fæddur í Hensel, Norður Dakota, U. S. A., árið 1895. Foreldrar: Halldór Halldórsson, Sveinssonar, frá Firði í Seyðisfirði, og Guðfinna Jónsdóttir, Árnasonar, frá Ekkjufellsseli í Fellum í N.-Múlasýslu. Jón gegndi herkalli 26. ágúst 1918. Var ekki farinn úr landi, þegar vopnahlé var samið. Stundar nú landbúnað. Áður en hann gekk í herinn, hafði hann heimili að Elfros, Sask.

## JONATHAN HALLDÓRSSON.

Fæddur að Hallson í Norður Dakota 18. júlí 1896. Faðir hans er Halldór kaupmaður í Wynyard, Sask., Jónatansson, frá Húki í Miðfirði í Húnaþingi, Halldórssonar, og Elínar Magnúsdóttur; þau fluttu vestur 1876; settust fyrst að í Nýja Íslandi, en færðu svo bygð sína til Hallson í Norður Dakota 1880 og bjuggu þar lengi; en móðir Cecilía, dóttir Odds Magnússonar og Margrétar Ólafsdóttur frá Haukadal í Dalasýslu (fædd 11. október 1873 á Giljalandi í sömu sýslu). Jonathan var kvaddur í Canadaherinn í júníbyrjun 1918 og sendur til herbúðanna í Regina, Sask., en rúmum mánuði síðar leystur frá herþjónustu (17. júlí 1918); hefir hann svo dvalið með foreldrum sínum síðan.



## KJARTAN JÓNASSON HALLDÓRSSON.

Fæddur 22. júlí 1884, í íslenzku bygðinni suður af Hallson í Norður Dakota. Foreldrar: Jónas Halldórsson og Jóhanna Jónsdóttir frá Ytra-Laugalandi í Eyjafirði. Gekk í herinn 23. maí 1918. Fór til Englands 25. júní frá Winnipeg. Var við æfingar, þegar vopnahlé var sett. Átti tvívegis að sendast með fleirum til Frakklands, en herbúðin sett í sóttkví í hvorttveggja skiftið, svo enginn fór þaðan. Kom til baka til Canada seint í júní 1919. Giftist 18. maí 1918 Mable Shewfelt frá Larivier, Man., af írskum ættum. Eiga þau hjón tvö börn. Kjartan býr í Winnipeg og stundar trésmíðar.

*RALPH E. HALLDÓRSSON* *(sjá III).*



## EDWIN P. HALLGRÍMSSON.

Fæddur 12. marz 1897 að Glenboro P. O., Manitoba. Sonur Bærings Hallgrímssonar og Sigurborgar Christophersdóttur, búandi í Argylebygð. Edwin gekk í herinn 21. maí 1918 og hafði ekki lokið heræfingum hér í landi, þegar vopnahlé var sett. Fór því aldrei úr Canada. Hann stundar landbúnað með foreldrum sínum.



JÓN J. HALLGRÍMSSSON.

Fæddur 13. marz 1889 á Vakursstöðum í Vopnafirði. Foreldrar: Jón Hallgrímsson frá Vakursstöðum og Sigríður Guðvaldadóttir frá Hámundarstöðum í Vopnafirði. Jón gegndi herkalli 6. september 1918 og var skipaður í hjúkrunardeild hersins. Var ekki farinn úr landi, þegar vopnahlé var samið. Var leystur frá herþjónustu 2. janúar 1919. Stundar trésmíðar í Minneota, Minnesota, U. S. A.



SIGURÐUR HALLGRÍMSSON.

Fæddur að Garðar í Norður Dakota, U. S. A., 26. júní 1895. Foreldrar: Þorsteinn Hallgrímsson, ættaður úr Þingeyjarsýslu, og Elízabet Hallgrímsdóttir, ættuð úr Eyjafirði. Sigurður gekk í herinn 18. júní 1918. Fór ekki utan. Var leystur frá herþjónustu 10. janúar 1919. Stundar bændavinnu að Framnes P. O., Manitoba.

Lieut. DANÍEL HANNESSON.



Fæddur að Syðri-Brekkum í Skagafirði 4. maí 1896. Sonur Benedikts Hannessonar búfræðings frá Hofsstaðaseli í Skagafirði. Var Benedikt ættaður úr Hjaltadal, sonur Hannesar og Jóhönnu, sem bjuggu á Karvelsstöðum í Hjaltadal og dóu bæði sama ár og Benedikt fæddist. En móðir Daníels er Sigrún Daníelsdóttir, Ólafssonar prests að Viðvík í Skagafirði, en móðir Sigrúnar var Svanhildur Loptsdóttir frá Sandnesi á Upsaströnd. Daníel fluttist með foreldrum sínum til Ameríku; settust þau að á Mountain, N. D. Fluttist til Winnipeg og vann við verzlunarstörf; útskrifaðist af verzlunarskóla, og hefir unnið ýmist við bókhald eða sem farandsali fyrir verzlunarfélag í Winnipeg, Manitoba, þar til 5. apríl 1918, að hann innritaðist sem sjálfboði í flugher Englands. Fór til Englands 6. október 1918. Kom heim 16. apríl 1919.

*HANNES HANNESSON* (sjá III).



## HANNES A. HANNESSON.

Er fæddur í Pembina í Norður Dakota 19. júní 1900. Sonur þeirra Jóhanns Hannessonar, Hannessonar, úr Norður Þingeyjarsýslu, og Hansínu Hansdóttur frá Gimli (ættaður úr Þingeyjarsýslu). Hannes var til heimilis hjá foreldrum sínum í Cavalier í Norður Dakota, er hann var kvaddur í Bandaríkjaherinn 9. október 1918, rúmum mánuði áður en vopnahlé var sett. Hann var því aldrei sendur úr landi.



## Lieut. TRYGGVI HANNESSON.

Fæddur að Churchbridge, Sask., 11. ágúst 1891. Foreldrar: Árni Hannesson frá Marbæli í Skagafirði og Guðrún Hallgrímsdóttir frá Torfalæk í Húnavatnssýslu, nú búandi að Ísafold P. O., Manitoba. Tryggvi gekk í canadiska flugliðið 4. marz 1918, og var við flugæfingar í Ontariofylki. þar til stríðinu lauk. Var leystur frá herþjónustu 3. marz 1919. Hann stundaði járnvöruverzlun með Jóni bróður sínum, í bænum Langreuth í Manitoba, áður en hann gekk í herinn.



## VALDIMAR HELGI HANNESSON.

Fæddur 19. ágúst 1896 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Frímann Hannesson frá Reykjarhóli í Víðimýrarsókn í Skagafirði og Helga Jóhannesdóttir frá Hóli í Goðdalasókn í Skagafjarðarsýslu. Frímann býr að Upham, N. D. Valdimar gegndi herkalli 1. marz 1918 og var skipaður til þjónustu innan lands, þar til hann fékk lausn frá herþjónustu, að vopnahléi fengnu.



## KAFFON HANSSON.

Fæddur 30. apríl 1898 að Garðar, N. D., U. S. A. Foreldrar: Vigfús Snæbjörnsson Hansson frá Hrísum í Snæfellnessýslu og Margrét Bjarnadóttir frá Garði í Skagafirði. Kaffon gegndi herkalli og gekk í fluglið Bandaríkjanna 12. janúar 1918. Sigldi til Frakklands 23. apríl það ár. Kom heim aftur 27. febrúar 1919. Stundar landbúnaðarvinnu.



## LEO HANSSON.

Fæddur 8. október 1897 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Vigfús S. Hansson frá Hrísum í Snæfellsnessýslu og Margrét Bjarnadóttir, Jónssonar, frá Garði í Skagafirði. Leo gegndi herkalli 26. ágúst 1918 og var skipaður í hjúkrunardeild hersins, við Lewis heræfingastöðina í Washingtonríki, og þar þjónaði hann, þar til að hann var leystur frá herþjónustu 1. ágúst 1919.



## SIGURBJÖRN HANSSON.

Fæddur 27. júní 1894 að Mountain, N. D., U. S. A. Foreldrar: Albert Sigurbjörnsson Hansson frá Jarlsstöðum í Bárðardal í Suður-Þingeyjarsýslu og Sigríður Sigurðardóttir, Erlendssonar, frá Klömbrum í Reykjadal í Suður-Þingeyjarsýslu. Sigurður hafði heimili að Edinburg, Norður Dakota, U. S. A., þegar hann gegndi herkalli 29. marz 1918. Hann tók þátt í orustum á Frakklandi. Særðist þar í orustunni um Argonne skóginn 28. september 1918. Kom heim aftur 8. maí 1919.



## A. S. HELGASON.

Fæddur í Hvammi í Landamannahreppi í Rangárvallasýslu. Sonur Eyjólfs Jónssonar þar. Gekk í Bandaríkjaherinn, en upplýsingar um hann að öðru leyti ekki fáanlegar. Hann er kvæntur Guðlaugu Jónsdóttur frá Klofa í sama hreppi, og hefir heimili í Los Angeles í Californa, U. S. A.



## Sergeant ÁRNI HELGASON.

Fæddur 16. marz 1891 í Hafnarfirði á Íslandi. Foreldrar: Helgi Sigurðsson frá Hafnarfirði og Sigríður Jónsdóttir, ættuð úr Biskupstungum, en ólst upp á Setbergi við Hafnarfjörð, þar sem faðir hennar bjó lengst af. Árni gegndi herkalli 26. apríl 1918 og sigldi til Frakklands 31. þess sama mánaðar. Hann tók þátt í orustunni miklu við Argonneskóginn. Særðist ekki. Hann fékk lausn úr herþjónustu 30. júní 1919. Gengur á búnaðarskóla.

*ELIS HELGASON (sjá III).*



## INGÓLFUR HELGASON.

Fæddur 17. júní 1895 að Baldur P. O., Manitoba. Sonur Jónasar Helgasonar frá Grænavatni í Mývatnssveit og Sigríðar Sigurðardóttur frá Ingjaldsstöðum við Skjálfandafljót í Þingeyjarsýslu. Gekk í Fort Garry riddaraliðið 1. jan. 1918. Sigldi til Englands 24. júlí það ár. Var ekki sendur á vígvöll, og kom aftur til Canada 14. júní 1919. Stundar landbúnaðarvinnu.



## JOHN C. HENRY.

Heitir réttu nafni Jón Þorsteinn Karl. Fæddur í Winnipeg 2. desember 1895. Sonur þeirra Jóns Hreggviðs Jónssonar (vanalega nefndur Henry), Tómassonar, er lengi var á Hólum í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu, og Ingveldar Jónsdóttur Þorsteinssonar og konu hans Sólveigar Bjarnadóttur frá Ytri-Hraundal í Hraunhreppi í Mýrasýslu, — nú búsett nálægt Petersfield P. O., Manitoba. John gekk í herinn 4. júní 1918 og var sendur til Englands 25. júlí sama ár. Gat ekki verið við heræfingar sökum bilunar í fæti, en vann að öðrum störfum, þar til 18. nóvember, að hann var sendur áleiðis heim, og kom til Canada 6. desember 1918.



## THORHALLUR MAGNÚS HJÁLMARSSON.

Er fæddur við Akra í Norður Dakota 15. janúar 1894. Faðir hans var Halldór búfræðingur frá Haugsstöðum í Vopnafirði, Hjálmarsson frá Brekku í Mjóafirði, Hermannssonar frá Firði, en móðir Margrét, dóttir Björns Halldórssonar frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði og Hólmfríðar Einarsdóttur Scheving. Magnús var kvaddur í Bandaríkjaherinn 17. apríl 1918, og skipaði þar ýmsar lægri stöður (svo sem Chief Petty Officer, Warrant Machinist o. s. frv.) fram á árið 1919. Leystur var hann frá herþjónustu það ár. Hann á heima í Cavalier í Norður Dakota.



## VILHELM HJÁLMSSON.

Fæddur 8. september 1892 að Hallson, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Guðmundur Hjálmsson frá Kúskerpi í Skagafjarðarsýslu og Sigurlaug Guðmundsdóttir frá Miðvöllum í sömu sýslu, nú búandi í Augusta, Montana. Vilhelm gegndi herkalli 24. júní 1918. Tók þátt í orustum við Meuse og Argonne. Særðist ekki. Kom heim aftur 22. maí 1919. Stundar griparækt.



## INGIMUNDUR ELLERT HJALTALÍN.

Fæddur 12. júní 1900 að Mountain, Norður Dakota, U.S.A. Foreldrar: Hjörtur Traustason Hjaltalín, fór til Ameríku árið 1883 frá Nöf á Höfðaströnd í Skagafirði, og Elín Sigurðardóttir, ættuð frá Litlu-Brekku í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu, nú búandi að Bellingham, Wash., U. S. A. Ingimundur gegndi herkalli í september 1918, og var við æfingar á heræfingaskóla í Pullman, Wash., þegar vopnahlé var samið. Hann var leystur frá þeirri þjónustu 20. desember 1918. Hann hefir heimili og atvinnu í Bellinghamborg.

*PÉTUR HOFFMANN (sjá III).*



## JÓN HOLM.

Fæddur 8. júní 1892 að Hólalandi í Borgarfirði austur. Foreldrar: Gunnar Holm, sonur Jóns Stefánssonar frá Hólalandi og konu hans Láru Þórðardóttur frá Hákonarstöðum, — og Guðný Stefánsdóttir, Abrahamssonar frá Bakkagerði í Borgarfirði, en móðir hennar Rannveig Jónsdóttir, ættuð af Norðurlandi (Gunnarsætt). Jón er til Heimilis að Hayland, Man. Jón gekk í herinn 12. júní 1918, og var í Halifax á skipinu Cartier. Fékk lausn 2. apríl 1919 og vinnur nú við vélasölu.



## JÓN SIGURÐSSON HOLM.

Fæddur 22. nóvember 1899 í Strandhöfn í Vopnafirði í Norður-Múlasýslu. Sonur Sigurðar Holm og Guðrúnar Jónsdóttur, sem bæði eru ættuð úr Hornafirði í Austur-Skaftafellssýslu. Fluttust vestur um haf árið 1902 og settust fyrst að í Minnesota. Eftir tveggja ára dvöl þar fluttu þau til Winnipeg, en farin þaðan (eftir 10 ára dvöl) til Nýja Íslands, og tóku þeir feðgar lönd í Framnesbygð. Hann innritaðist í herinn 17. júní 1918 og fór til Englands í júlí, og var við heræfingar, þar til stríðið endaði. Kom heim 18. september 1919, heill og hraustur.



## HELGI HORNFJÖRÐ.

Fæddur að Ísafold P. O., Man., 3. júlí 1897. Foreldrar hans eru Jón Jónsson Hornfjörð frá Setbergi í Nesjum í Skaftafellssýslu, og Guðleif Árnadóttir frá Görðum í Mjóafirði austur, nú til heimilis að Framnes, Man. Hann innritaðist í herinn 4. júní 1918, en fékk lausn í janúar 1919. Stundar bændavinnu.



## STEPHAN GUÐMUNDUR HÚNFORD.

Fæddur að Markerville, Alberta, 22. marz 1896. Foreldrar: Jónas Jónsson Húnford, ættaður frá Lýtingsstöðum í Skagafjarðarsýslu, og Margrét S. Bjarnadóttir, ættuð frá Eiðsstöðum í Blöndudal. Stephan gekk í herinn í byrjun maímánaðar 1918 og sigldi til Englands í ágúst það ár. Var þar við heræfingar, þegar stríðinu lauk. Kom aftur til Canada í júní 1919. Stundar nú landbúnaðarvinnu, eins og áður.



## KRISTJÁN ÞORSTEINSSON HÖJGAARD.

Fæddur 12. október 1884 að Garðar, N. D. Foreldrar: Þorsteinn Nicolin Höjgaard frá Krossavík í Vopnafirði og Ingigerður Ófeigsdóttir frá Klausturseli á Jökuldal í Norður-Múlasýslu. Gekk í herinn 25. maí 1918. Fór ekki úr landi. Stundar bifreiðakeyrslu.



## GUSTAV EDWARD ISAACSON.

Fæddur að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. 10. desember 1894. Foreldrar: Páll Ísaksson og Sigríður Eyjólfsdóttir, ættuð úr Árnessýslu, nú búandi að Brown P. O., Manitoba. Gustav gekk í herinn 14. júní 1918, og var við heræfingar á Englandi, þegar vopnahlé var samið. Kom til baka 25. september 1919. Stundar landbúnaðarvinnu og smíðar.



## SIGURGEIR VALDIMAR ISAACSON.

Fæddur að Garðar, Norður Dakota, U. S. A., 4. ágúst 1892. Foreldrar: Páll Ísaksson og Sigríður Eyjólfsdóttir, bæði ættuð úr Árnessýslu á Íslandi, en nú búandi að Brown P. O., Manitoba. Sigurgeir gekk í herinn 14. júní 1918. Var við heræfingar á Englandi, þegar stríðinu lauk. Afturkominn 25. júní 1919. Stundar landbúnaðarvinnu.



## AÐALSTEINN EINARSSON ÍSFELD.

Fæddur 11. ágúst 1897 að Big Point, Manitoba. Foreldrar: Einar Eiríksson Ísfeld frá Fjarðarkoti í Mjóafirði í S.-Múlasýslu og Jónína Guðrún Friðfinnsdóttir, úr Þingeyjarsýslu. Aðalsteinn gekk í herinn 3. maí 1918 og fór til Englands mánuði síðar. Kom aftur til Canada í júlí 1919, og var veikur árlangt eftir afturkomu sína. Var þá ýmist á sjúkrahúsum eða undir læknishendi heima hjá sér, að Langreuth P. O., Manitoba.



## EIRÍKUR P. ÍSFELD.

Fæddur 27. júní 1893. Stundaði bakaraiðn að Winnipeg Beach áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Páll Eiríksson Ísfeld frá Fjarðarkoti í Mjóafirði í Suður-Múlasýslu og Anna Guðrún Pálsdóttir, ættuð frá Núpskötlu á Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu. Eiríkur gekk í herinn 10. maí 1918. Fór til Montreal í Austur-Canada og var þar við heræfingar í 4 mánuði. Var leystur frá herþjónustu 12. desember 1918. Býr nú með föður sínum að Nes P. O., Manitoba. Hann er kvæntur Petrínu Ólínu Reykdal.



## HRINGUR ÍSFELD.

Sonur Kristjáns Magnússonar Ísfeld og Helgu Tómasdóttur, sem búa að Cypress River, Manitoba. Foreldrar Kristjáns voru þau hjón Magnús og Kristín, er bjuggu að Fótaskinni í Aðal-Reykjadal í Þingeyjarsýslu, en Foreldrar Helgu þau Tómas og Margrét, er bjuggu að Litluvöllum í Bárðardal í Þingeyjarsýslu. Hringur innritaðist í 44. herdeildina 5. janúar 1918 og fór frá Canada í apríl sama ár. Særðist við Cambrai 28. september það ár. Hann kom heim aftur 27. marz 1919.



## GUÐLAUGUR JACOBSON.

Fæddur í Geysisbygð í Nýja Íslandi í Manitoba, og stundaði landbúnað í þeirri bygð áður en hann innritaðist í 82. deild Canadahersins 14. júní 1918. Fór með þeirri deild áleiðis til Englands 24. júlí það sama ár. Var leystur úr herþjónustu 24. júní 1919. Stundar nú landbúnað.



## SIGURÐUR JÓELSSON.

Fæddur 26. janúar 1896 að Baldur, Manitoba. Foreldrar: Jóel Jósepsson frá Skörðum í Dalasýslu og Steinunn Jónasdóttir frá Vífildal í Dalasýslu. Sigurður gekk í herinn 17. maí 1918. Var við heræfingar í Canada, þegar vopnahlé var sett. Stundar landbúnað.



## ÁRMANN JÓHANNSSON.

Fæddur í Baldurbæ í Manitoba 16. febrúar 1897. Foreldrar: Kristján Jóhannsson frá Glaumbæ í Aðal-Reykjadal í Suður-Þingeyjarsýslu og Sigríður Magnúsdóttir frá Efra-Hreppi í Skorradal í Borgarfjarðarsýslu. Ármann gekk í herinn 28. maí 1918, en var leystur frá herþjónustu í nóvember það ár. Hann stundar landbúnað að Markerville, Alberta, þar sem foreldrar hans búa.



## BJARNI G. JÓHANNSSON.

Er fæddur við Hallson í Norður Dakota 13. ágúst 1895. Sonur Gísla bónda Jóhannssonar við Hallson, er ættaður er úr Húnavatnssýslu, og Mettu Nilsdóttur Petersen; var faðir hennar af dansk-íslenzkum ættum og flutti af Skagafirði til Vesturheims 1883. Var kvaddur í Bandaríkjaherinn 14. ágúst 1918 og gekk í flugliðið, 39. sveit. Með henni var hann til stríðsloka. Hann er til heimilis hjá foreldrum sínum við Hallson.



## FRIÐRIK STEFÁN JÓHANNSSON.

Fæddur í Winnipeg 1894. Foreldrar: Sigmundur Jóhannsson frá Húsabökkum í Skagafirði og Sigurbjörg Jóhannsson, úr sömu sýslu, nú til heimilis að Brown P. O., Man. Friðrik innritaðist í herinn í Saskatchewan 20. apríl 1918. Fór frá Canada 16. júní sama ár. Komst aldrei til vígvallar, vegna veikinda (inflúenzu) á Englandi. Fékk lausn úr hernum 26. júní 1919. Stundar nú atvinnu sem búðarmaður.



## HALLDÓR JÚLÍUS JÓHANNSSON.

Fæddur 1. júlí 1895 að Tindastól P. O., Alberta. Sonur Gunnars Jóhannssonar, úr Þingeyjarsýslu, og Þorbjargar Gestsdóttur, úr Árnessýslu á Íslandi. Halldór gekk í herinn 13. maí 1918. Sigldi til Englands 10. ágúst 1918. Var þar, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 26. júlí 1919. Stundar landbúnað.



## JÓHANN BJARNASON JÓHANNSSON.

Fæddur að Geysir P. O., Manitoba, 18. júlí 1897. Foreldrar: Bjarni Jóhannsson, ættaður úr Húnavatnssýslu, og Steinþóra Þorkelsdóttir, ættuð úr Gullbringusýslu á Íslandi. Jóhann gekk í herinn 14. marz 1918, en veiktist, og var ekki farinn úr landi, þegar stríðinu lauk. Hann stundar landbúnað með foreldrum sínum.



## JÓHANN TRYGGVI JÓHANNSSON.

Fæddur 24. desember 1886 í Hrísey í Eyjafirði á Íslandi. Foreldrar: Gunnlaugur Frímann Jóhannsson frá Þverá í Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu og Elín Jónsdóttir frá Brita á Þelamörk í sömu sýslu. Jóhann gekk í herinn 11. maí 1918 og var leystur frá herþjónustu 25. febrúar 1919. Hann er járnsmiður og stundar nú þá atvinnu. Faðir hans býr í Selkirk, Man., en móðirin er dáin.



## STURLAUGUR HALLDÓR JÓHANNSSON.

Fæddur 25. janúar 1896 að Bifröst, Manitoba. Foreldrar hans eru þau Hjálmar Jóhannsson og Guðbjörg Sturlaugsdóttir, bæði ættuð úr Laxárdal í Dalasýslu. Faðir hans býr að Bifröst, Man., en móðirin er dáin. Sturlaugur innritaðist í herinn 9. maí 1918. Hann fór frá Winnipeg 25. júlí sama ár, yfir til Englands, en var ekki sendur til Frakklands. Kom heim aftur 24. júní 1919. Hann stundar landbúnað.



## WALTER ELLERT JÓHANNSSON.

Fæddur í Winnipeg 25. ágúst 1897. Foreldrar: Guðmundur Jóhannsson, Arasonar, frá Landbrotum í Hnappadalssýslu, og Sigurlaug Jakobína Arngrímsdóttir, Sigurðssonar, frá Snóksdal í Dalasýslu. Ellert gekk í herinn 9. janúar 1918. En með því að hann er hljómfræðingur, var hann, þegar til Englands kom, ekki sendur á vígvöll, heldur skipaður í hornleikaraflokk á Englandi, og vann í honum, unz hann var leystur frá herþjónustu 27. júní 1919.

## ALEXANDER ARCHIBALD A. JOHNSON.

Fæddur að Hallson í Norður Dakota, en óvíst hvenær. Sonur Ágústs Jónssonar frá Sörlatungu í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu og Margrétar Engilráðar Árnadóttur frá Eiríksstöðum í Svartárdal í Húnavatnssýslu. Gekk í Canadaherinn með hinum fjórum bræðrum sínum og var þar nokkurn tíma, þar til hann fékk lausn frá herþjónustu.



## ÁGÚST ALECK JOHNSON.

Fæddur 11. september 1891 í Marshall, Minnesota, U. S. A. Foreldrar. Guðjón Jónsson úr Köldukinn og Sigurveig Einarsdóttir frá Hafursstöðum í Norður-Þingeyjarsýslu (nú bæði dáin). Ágúst gegndi herkalli 24. júní 1918. Sigldi til Frakklands 14. september það ár. Tók þátt í Argonne-orustunni miklu, og var þar á eftir í deild þeirri, sem fylgdu Þjóðverjum inn á Þýzkaland, og í gæzluliði Bandaríkjanna þar alt til 25. ágúst 1919, að hann var leystur frá herþjónustu. Ágúst er rafleiðslufræðingur og hefir aðsetur í Minneapolis í Minnesota.

*ANDRÉS THOMAS STEFANSSON JOHNSON (sjá III).*

## ÁRMANN FRIÐDÓR JOHNSON.

Fæddur 26. maí 1895 að Brú P. O., Manitoba. Foreldrar: Jón S. Johnson frá Skipalóni í Eyjafjarðarsýslu og Guðný Friðfinnsdóttir frá Þorvaldsstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Ármann gekk í herinn í maímánuði 1918. Var ekki farinn úr landi, þegar stríðið endaði. Hann stundaði verzlunarvinnu í bænum Baldur í Manitoba, áður en hann gekk í herinn.

*ARNGRIMUR JÓHANN MAGNUSSON JOHNSON (sjá III)*



## ÁRNI S. JOHNSON.

Fæddur 3. ágúst 1892 að Garðar P. O., Norður Dakota, U. S. A. Sonur Sigmundar Jónssonar frá Hjarðarhaga á Jökuldal og Soffíu Björnsdóttur, Guðmundssonar frá Skógum í Vopnafirði í Norður-Múlasýslu. Árni gekk í herinn í janúar 1918. Hann tók þátt í orustum við Kemmel og Ypres á Frakklandi. Kom aftur til Canada 5. apríl 1919. Hann hefir heimili í Winnipeg og stundar aðgerðir á bifreiðum.



## ÁRNI VALDEMAR JOHNSON.

Er fæddur við Mountain í Norður Dakota 1. janúar 1897. Sonur þeirra Sigurðar Johnson og fyrri konu hans, er bjuggu við Mountain. Árni var kvaddur í Bandaríkjaherinn 5. nóvember 1918, nokkrum dögum áður en stríðinu sleit; var því ekki sendur burtu.



## ÁSGEIR ÁSGEIRSSON JOHNSON.

Sonur Ásgeirs Jónssonar frá Skaga í Dýrafirði í Ísafjarðarsýslu og Sigríðar Þórðardóttur, nú gift Þorsteini Þorsteinssyni að Beresford, Man. Ásgeir innritaðist í herinn 15. janúar 1918, og fór yfir til Frakklands. Ásgeir var hveitikaupmaður og landbóndi áður en hann fór í herinn.



## BENEDIKT B. JOHNSON.

Fæddur 14. desember 1896 í Pembina, N. D. Foreldrar: Benedikt Jónsson, ættaður frá Hólum í Hjaltadal, og Kristín Baldvinsdóttir, ættuð frá Hjartarstöðum í Eiðaþinghá. Innritaðist í herinn 20. maí 1918. Fór til Englands 25. júlí sama ár. Kom heim aftur 24. júní 1919. Stundar landbúnað að Howardville, Manitoba.



## BERGÞÓR EMIL JOHNSON.

Fæddur á Mikley í Manitoba 1. ágúst 1896. Foreldrar: Einar Jónsson frá Beingarði í Hegranesi og Oddfríður Þórðardóttir frá Ánabrekku í Borgarhreppi í Mýrasýslu, búandi að Lundar P. O., Manitoba. Bergþór gekk í canadiska flugliðið í apríl 1918, en var ekki kominn úr landi, þegar vopnahlé var samið. Hann er skólakennari.



## BJÖRGVIN S. JOHNSON.

Er fæddur við Mountain í Norður Dakota 15. janúar 1894. Sonur þeirra Sigurðar R. Johnsons og síðari konu hans Margrétar Þorfinnsdóttur, Jóhannessonar, frá Brekkukoti í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu; þau bjuggu við Mountain. Björgvin var kvaddur í Bandaríkjaherinn 22. júlí 1918 og innritaðist við 77. herdeildina. Með henni var hann þangað til stríðinu lauk, og var þá leystur frá herþjónustu nokkru seinna.



## CARL SIGURÐUR LÚÐVÍK JOHNSON.

Fæddur í Glenboro, Man., 4. desember 1898. Foreldrar hans eru Björn Benediktsson Björnssonar frá Víkingavatni og Sigríður Jónsdóttir frá Ketilsstöðum á Tjörnesi. Þegar Carl var sex mánaða gamall tóku hann til fósturs þau hjónin Gísli Johnson frá Múla í Álfafirði í Suður-Múlasýslu og Þóra Gísladóttir Johnson frá Gröf í Hrunamannahreppi í Árnessýslu. Eru þau nú búsett á Gimli. Carl ber nafn fósturforeldra sinna og var hjá þeim, þar til hann í marz 1918 gekk í herinn. Innritaðist hann í Fort Garry riddaraliðsdeildina. Fór til Englands um sumarið og var þar við heræfingar, þar til í júní 1919, að hann koma til baka heim. Á næsta vetri í janúarmánuði, kvæntist hann og er nú búsettur í Winnipeg.



## CHRISTINN SIGURJÓN JOHNSON.

Fæddur 8. maí 1887 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Árni Sigvaldi Jónsson, Jónssonar frá Grímsstöðum á Fjöllum, og Sigríður Vigfúsdóttir, Jósepssonar, Arngrímssonar, frá Haugsstöðum í Vopnafirði. Christinn gegndi herkalli 25. júlí 1918. Sigldi til Frakklands 7. september það ár. Var aðeins ókominn á vígvöll, þegar vopnahlé var samið. Kominn aftur 13. janúar 1919. Er til heimilis í Minneota og stundar prentiðn.



## FRIÐRIK VALDIMAR A. JOHNSON.

Fæddur að Hallson, Norður Dakota, U.S.A., 3. janúar 1894. Foreldrar: Ágúst Jónsson frá Sörlatungu í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu og Margrét Engilráð Árnadóttir frá Eiríksstöðum í Svartárdal í Húnavatnssýslu. Gekk í herinn 14. maí 1918. Fór til Englands í júlí það ár. Var við heræfingar, þegar stríðið endaði. Kom aftur til Canada 22. júní 1919. Stundar landbúnað.



## GUSTAV ADOLF JOHNSON.

Fæddur 16. ágúst 1898 á Akureyri við Eyjafjörð. Foreldrar: Sigtýr Jónsson frá Brautarholti í Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu og Guðrún Snorradóttir, ættuð úr Reykjavík á Íslandi, nú búandi að Blaine, Wash., U. S. A., og þar hafði Gustav heimili áður en hann gegndi herkalli í júnímánuði 1918. Gekk í fótgöngulið Bandaríkjanna og var við heræfingar í Los Angeles, California, þar til í nóvember 1918, þegar vopnahlé var samið, að hann var leystur frá herþjónustu. Gustav er háskólagenginn og stundar nú tannlækninganám í Los Angeles, California.



## GUNNAR S. JOHNSON.

Fæddur 15. janúar 1895 í Spanish Fork, Utah, U. S. A. Foreldrar: Jón Jónsson (vefari) frá Þingeyrum í Húnavatnssýslu og Ingveldur Eiríksdóttir, Ólafssonar frá Brúnum. Gunnar gegndi herkalli 26. júní 1918 og sigldi til Frakklands 9. ágúst það ár. Var á orustuvelli frá 26. september til 5. nóvember. Særðist ekki. Kom heim aftur 22. maí 1919. Hefir heimili í Spanish Fork og stundar algenga vinnu.



## GÍSLI JOHNSON.

Fæddur 5. janúar 1893 að Mountain, Norður Dakota, U.S.A. Foreldrar: Þorleifur Jónsson frá Móafelli í Skagafirði og Jakobína Jónsdóttir frá Hundadal í Dalasýslu, nú búandi að Point Roberts, Wash. Gísli gegndi herkalli 5. marz 1918. Gekk í sjólið Bandaríkja, og var skipaður á herskipið "Craven", og síðar færður yfir á skipið "Panaman". Hann fór 5 ferðir á milli New York og Frakklands. Var leystur frá herþjónustu 1. júlí 1919. Stundar fiskiveiðar.



## HENRY J. JOHNSON.

Fæddur 26. apríl 1897 í Spanish Fork, Utah, U. S. A., og stundaði landbúnað þar áður en hann gekk í herinn. Foreldrar hans: Árni Árnason, Jónssonar, og Sólveig Sveinsdóttir; þau bjuggu að Vilborgarstöðum í Vestmannaeyjum, en nú í Spanish Fork. Henry gegndi herkalli 1. september árið 1918, en var ekki farinn úr landi, þegar stríðið endaði. Var leystur frá herþjónustu 24. febrúar 1919. Stundar landbúnað, eins og áður.



## JOHN ÁSGEIR JOHNSON.

Fæddur í Winnipeg 22. marz 1891. Foreldrar: Ásgeir Jónsson og Kristín Sveinsdóttir, ættuð úr Miðfirði í Húnavatnssýslu. Gekk í herinn 22. júlí 1918. Var ekki farinn úr landi, þegar vopnahlé var samið. Stundar trésmíðar og landbúnað.



## JOHN EGGERT JOHNSON.

Fæddur 27. febrúar 1896 í Argylebygð í Manitoba. Foreldrar: Joseph, sonur Jóns Jónssonar og Aðalbjargar Jónsdóttur, er bjuggu að Böðvarsdal í Vopnafirði, og Ásdís S. Eggertsdóttir, dóttir Eggerts Guðnasonar og Ástríðar Þorvarðardóttur, er bjuggu að Kolbeinsstöðum í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu. John gekk í herinn í maímánuði 1918. Var við heræfingar á Englandi, þegar stríðinu lauk. Kom aftur til Canada í júnílok 1919. Stundar smíðavinnu.



## JOHN MAGNÚSSON JOHNSON.

Fæddur 31. marz 1890 að Mountain, Norður Dakota, U.S.A. Foreldrar: Magnús Jónsson, fæddur á Silfrastöðum í Blönduhlíð í Skagafirði, en ólst upp á Írafelli í sömu sveit, og Oddný Jóhannesdóttir, ættuð frá Tjörn í Aðal-Reykjadal í Þingeyjarsýslu, nú búandi að Edinburg, Norður Dakota. John gegndi herkalli 24. júní 1918 og sigldi til Frakklands 16. ágúst það ár. Var tvær vikur í skotgröfum Bandaríkjamanna þar, áður en stríðið endaði. Særðist ekki. Kom heim aftur 9. júní 1919. Vinnur við járnbrautarstöðvar í Grand Forks, Norður Dakota. John er kvæntur ungfrú Júlíu Samson.



## JÓN KRISTJÁN JOHNSON.

Fæddur 25. apríl 1895 á Hámundarstöðum við Eyjafjörð. Foreldrar: Þorsteinn Jónsson frá Kífsá í Eyjafjarðarsýslu og Guðrún Ingibjörg Þórðardóttir frá Þernuskeri við Eyjafjörð. Jón gekk í herinn 4. júní 1918. Sigldi til Englands 4. ágúst það ár. Kom aftur til Canada 4. júní 1919. Stundar fiskiveiðar.



## Lieut. JÓN MAGNÚS JOHNSON.

Fæddur 18. desember 1893 að Upham, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Stefán Jónsson frá Einfætisgili í Bitruhreppi í Strandasýslu og Hólmfríður Hansdóttir Hjaltalín frá Litlahrauni í Hnappadalssýslu, nú búandi að Upham. Jón gegndi herkalli 6. september 1918 og sigldi til Frakklands 23. þess sama mánaðar, sem Lieutenant. Kom heim aftur 12. ágúst 1919. Jón var námsmaður áður en hann gekk í herinn.



## JÓN M. JOHNSON.

Fæddur í Winnipeg 30. marz 1894. Sonur Markúsar Jónssonar og Margrétar Jónsdóttur, sem lengi hafa búið í grend við Baldurbæ í Manitoba. Þau hjón eru bæði úr Dalasýslu á Íslandi. Jón gekk í herinn 9. júlí 1918, og var við heræfingar hér í Canada, þegar stríðinu lauk. Hann stundar landbúnað með foreldrum sínum að Baldur. Hann er giftur konu að nafni Kristín Magnúsína.



## JÓN MARTEINN VÍGLUNDSSON JOHNSON.

Fæddur árið 1891 í Brandonbæ, Manitoba. Foreldrar: Víglundur Jónsson, Bjarnasonar, frá Dýrafirði í Ísafjarðarsýslu, og Ingibjörg Jónsdóttir, Sigurðssonar, frá Sauðárkróki í Skagafirði. Jón gekk í herinn 18. maí 1918 og var skipaður til formensku við skipasmíðar í Borginni Halifax í Nova Scotia fram að jólum það ár, að hann var leystur úr herþjónustu. Áður en hann gekk í herinn hafði hann heimili að Gimli, Manitoba.



## JÓNAS KRISTINN BÖÐVARSSON JOHNSON.

Fæddur að Wild Oak P. O., Manitoba, 14. september 1889. Foreldrar: Böðvar Jónsson frá Auðsholti í Ölfusi í Árnessýslu og Guðrún Tómasdóttir frá Litla-Ármóti í Flóa í Árnessýslu. Jónas gekk í herinn 17. maí 1918. Fór til Englands í júlí það ár. Var við heræfingar, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 24. júní 1919. Stundar landbúnaðarvinnu.



## JÓNAS INDRIÐASON JOHNSON.

Fæddur 22. marz 1897 í Selkirk, Manitoba. Foreldrar Indriði Jónatansson frá Skriðulandi í Suður-Þingeyjarsýslu og Jónína Jónsdóttir frá Bergsstöðum í sömu sýslu. Jónas gegndi herkalli í október 1918. Var ekki farinn úr landi, þegar stríðið endaði, og var leystur frá herþjónustu 24. desember 1918. Hann er til heimilis í Aberdeen, Suður Dakota, U. S. A., og stundar blikksmíði.



## JÓNATAN INDRIÐASON JOHNSON.

Fæddur 14. apr. 1890 á Skriðulandi í Suður-Þingeyjarsýslu. Sonur Indriða Jónatanssonar frá Skriðulandi og Jónínu Jónasdóttur frá Bergsstöðum í sömu sýslu. Gekk í herinn í marzmánuði 1918. Tók þátt í orustum við Cambrai á Frakklandi og særðist þar. Kom aftur til Canada í apríl 1919. Þá sem næst vinnufær. Stundar blikksmíðar í Edmonton í Albertafylki.



## KÁRI SIGMUNDUR JOHNSON.

Fæddur 15. ágúst 1895 að Garðar P. O., Norður Dakota, U. S. A. Sonur Sigmundar Jónssonar frá Hjarðarhaga á Jökuldal og Soffíu Björnsdóttur. Guðmundssonar, frá Skógum í Vopnafirði í Norður-Múlasýslu. Kári gekk í herinn 24. júní 1918, og tók þátt í orustum við Haute í Alsachéraði, sem Þjóðverjar tóku af Frökkum eftir stríðið 1870—71, en sem þeir hafa nú orðið að skila aftur. Hann kom aftur til Canada 31. maí 1919 og stundar búskap í Argylebygð. Kári er kvongaður Önnu Dalmann.



## LÁRUS ÞÓRARINN A. JOHNSON.

Fæddur 28. nóv. 1894 að Brú P. O. Manitoba. Sonur Hannesar Hannessonar, Jónssonar, frá Þernumýri í Vesturhópi fjarðarsýslu og Margrét Engilráð Árnadóttir frá Eiríksstöðum í Svartárdal í Húnavatnssýslu. Lárus gekk í canadiska riddaraliðið 11. júní 1918. Fór til Englands í júlí það ár. Var þar við æfingar, þegar vopnahlé var samið. Kom aftur til Canada 13. júlí 1919. Lárus er fóstursonur Högna Guðmundssonar og konu hans, sem búa í Laufási við Lundarbæ í Manitoba.

Eftirfarandi tvær línur féllu úr greininni um Lárus Þ. A. Johnson, bls. 337, og tvær rangar settar í staðinn,

Fæddur að Hallson, Norður Dakota, U. S. A., 12. júlí 1895. Foreldrar: Ágúst Jónsson frá Sörlatungu í Hörgárdal í Eyja-



## MAGNÚS JOHNSON.

Fæddur 10. apríl 1887 í Winnipeg, en hafði heimili í Langreuth, Man., og stundaði þar rakaraiðn áður en hann gekk í Ft. Garry riddaraliðið í maílok 1918. Foreldrar hans: Gísli og Guðný Johnson, búandi að Gimli, Man. Magnús var við heræfingar með deild sinni hér í Canada, þegar stríðinu lauk.



## MAGNÚS LEO JOHNSON.

Fæddur 28. nóvember 1894 að Brú P. O., Manitoba. Sonur Hannesar Hannessonar, Jónssonar, frá Þernumýri í Vesturhópi í Húnavatnssýslu, og Margrétar Halldórsdóttur, Árnasonar, frá Hólkoti í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu, nú búandi að Glenboro P. O., Manitoba. Magnús gekk í herinn 4. júlí 1918, en var ekki kominn utan, er stríðinu lauk. Hann stundar nú landbúnaðarvinnu.



## ÓLAFUR G. JOHNSON.

Mun vera fæddur á Íslandi. Foreldrar Guðmundur Jónsson og Ásta Helgadóttir frá Hamarsgerði í Lýtingsstaðahreppi í Skagafjarðarsýslu, er fluttu til Garðar fyrir mörgum árum. Guðmundur er dáinn fyrir mörgum árum, en Ásta býr með sonum sínum í Garðarbygð í Norður Dakota. Ólafur var kvaddur í Bandaríkjaherinn 5. september 1918. Hann var við aðalstöðvar 161. deildar og settur við æfingar í Grant-herbúðunum í Illinois-ríki. Þar var hann þegar stríðinu sleit.



## OLGEIR JOHNSON.

Fæddur 3. apríl 1897 í Argylebygð í Manitoba. Foreldrar: Joseph, sonur Jóns Jónssonaı og Aðalbjargar Jónsdóttur, er bjuggu að Böðvarsdal í Vopnafirði, og Ásdís S. Eggertsdóttir, dóttir Eggerts Guðnasonar og Ástríðar Þorvarðsdóttur, er bjuggu að Kolbeinsstöðum í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu. Olgeir gekk í herinn 14. apríl 1918, en var ekki kominn úr landi, þegar stríðinu lauk. Stundar landbúnað.



## ÓSKAR TRYGGVI JOHNSON.

Fæddur á Mountain, Norður Dakota, 17. nóvember 1894. Foreldrar hans eru þau Guðmundur Jónsson, Jónssonar bónda á Elliðavatni og Guðrúnar Jónsdóttur prests, Matthíasonar í Arnarbæli og Sigríðar Bjarnadóttur, Helgasonar, og kona hans Helga Jónasdóttir, ættuð úr Eyjafirði; bjuggu þau á Hrappsstöðum í Víðidal í Húnavatnssýslu. Óskar gekk í herinn 27. júní 1918, en fékk lausn 20. janúar 1919. Hann fluttist til Canada um vorið 1913 og tók heimilisréttarland nálægt Amelia, Sask.



## PÁLL RAGNAR JOHNSON.

Fæddur 16. ágúst 1897 að Fremra-Núpi í Núpsdal í Miðfirði í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Guðmundur Jónsson frá Saurum í Miðfirði og Ingveldur Arngrímsdóttir, ættuð úr Snæfellsnessýslu, nú búandi að Geysir P. O., Manitoba. Páll gekk í herinn 3. maí 1918 og sigldi til Englands 4. ágúst það ár. Var þar við æfingar, þegar vopnahlé samdist. Kom aftur til Canada 24. júní 1919. Stundar landbúnaðarvinnu.



## SIGURLAUGUR E. JOHNSON.

Fæddur 20. október 1896 að Árnes P. O., Manitoba. Sonur Einars Jónssonar, úr Mývatnssveit, og Bjargar Illugadóttur, af Langanesi. Sigurlaugur gekk í herinn 3. maí 1918. Sigldi til Evrópu 15. júní það ár, en komst ekki á vígvöll áður en vopnahlé var sett. Kom til Canada aftur 28. júlí 1919. Stundar landbúnað að Hnausum, Man. Hann er kvæntur Valgerði E. Markússon.



## STEFÁN BENJAMÍN JOHNSON.

Fæddur 20. febrúar 1888 í Mývatnssveit á Íslandi. Foreldrar: Benjamín Johnson frá Grænavatni í Mývatnssveit og Þuríður Jónsdóttir frá Stöng í sömu sveit; þau hjón eru nú bæði dáin. Stefán var til heimilis að Hallson, Norður Dakota, U. S. A., þegar hann gekk í Bandaríkjaherinn 22. júlí 1918. Eftir að hann fékk lausn frá herþjónustu að stríðinu loknu, flutti hann til Canada og býr nú á landi sínu að Wynyard, Saskatchewan.

## SVEINN S. JOHNSON.

Er fæddur í Pembina í Norður Dakota 11. marz 1885. Foreldrar hans eru Sigurður Jónsson og Pálína Sveinsdóttir frá Egilsstöðum í Fljótsdal í Norður-Múlaýslu. Sveinn vann við Y. M. C. A. (Kristilegt félag ungra manna) skrifstofur, er stofnaðar voru í þjónustu hersins, frá því að Bandaríkin gengu í stríðið og til ófriðarloka.



## THORVALDUR JOHNSON.

Fæddur að Árnes P. O., Manitoba, 23. október 1897. Foreldrar hans: Sigurjón Jónsson frá Hörgsdal í Mývatnssveit og Guðrún Þorvaldsdóttir frá Rein í Hegranesi í Skagafirði. Thorvaldur gekk í herinn 27. apríl 1918 og innritaði sig í flugliðið. Hann var skólakennari og háskólanemandi í Saskatchewanfylki. Fór ekki úr landi, með því að stríðinu lauk rúmum 6 mánuðum eftir að hann gekk í herinn.



## VALDIMAR ÁSGEIRSSON JOHNSON.

Fæddur á Íslandi 20. apríl 1887. Foreldrar: Ásgeir Jónsson og Kristín Sveinsdóttir, ættuð úr Miðfirði í Húnavatnssýslu. Gekk í herinn 12. febrúar 1918. Fór til Englands í júlí það ár. Var þar við æfingar, þegar stríðið endaði. Kom aftur til Canada 20. júní 1919. Stundar landbúnað.

## VALTÝR JOHNSON.



Er fæddur við Mountain í Norður Dakota 12. ágúst 1896. Sonur þeirra J. T. Johnson og konu hans, er búa við Mountain. Valtýr var kvaddur í Bandaríkjaherinn 4. júní 1918 og gekk í varðliðið (Provost Guard). Í hernum þjónaði hann til stríðsloka. Faðir hans er Jón Þorlákur, sonur Björns Jónssonar frá Sleitustöðum í Kolbeinsdal í Skagafjarðarsýslu, og Sigríðar Þorláksdóttur, systur Gísla bónda Þorlákssonar á Frostastöðum í Skagafjarðarsýslu. Fluttu þau vestur um haf 1876; bjuggu fyrst í Nýja Íslandi, síðar að Hallson í Dakota, en eru nú bæði dáin. En móðir Valtýs var Margrét Jóhannsdóttir, Sigurðssonar, fyrri kona Þorláks.

## WALTER JOHNSON.

Fæddur 21. apríl 1891 í Lincoln County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Daníel Jónsson frá Brekku í Barðastrandarsýslu og Arnbjörg Kristjánsdóttir frá Stóra-Múla í Dalasýslu. Walter gegndi herkalli í aprílmánuði 1918. Sigldi til Evrópu í júní það ár. Kom heim aftur 15. júlí 1919. Hann stundar trésmíðar í Minneota, Minnesota, en vann í verkfræðingadeild meðan hann var í hernum.

## WILFORD THEODORE JOHNSON.



Fæddur 17. apríl 1895 í Spanish Fork, Utah, U. S. A. Var skólakennari í Spanish Fork áður en hann gekk í herinn. Foreldrar hans: Sigurður Jónsson frá Akrakoti á Álftanesi í Gullbringusýslu og Jóhanna Guðmundsdóttir frá Mandal í Vestmannaeyjum, nú búandi í Spanish Fork. Wilford gegndi herkalli 15. júní 1918. Var ekki sendur úr landi. Fékk lausn frá herþjónustu 5. febrúar 1919. Hann er verkfræðingur. Er kvæntur Verma May Loveless.



## WILLIAM HELGI JOHNSON.

Fæddur í Spanish Fork, Utah, U. S. A., 21. ágúst 1894. Foreldrar: Helgi Guðmundsson, Einarssonar Johnson, frá Hólum í Austur-Landeyjum í Rangárvallasýslu, og Eleanor Jones, af enskum ættum, nú búandi í Spanish Fork. William gegndi herkalli 27. apríl 1918. Sigldi til Englands 14. ágúst það ár. Eftir nokkra dvöl þar fór hann til Frakklands, skömmu fyrir stríðslok. Var ekki sendur á vígvöll. Var leystur frá herþjónustu í desember 1918. Kom heim aftur 29. janúar 1919. Stundar landbúnaðaratvinnu í Utah.



## BALDUR NORMAN JÓNASSON.

Fæddur 28. október 1896 í Kelowna, B. C. Foreldrar: Einar Jónasson, ættaður frá Harastöðum í Dalasýslu, og Jónína I. Sigfúsdóttir frá Veigastöðum í Eyjafjarðarsýslu. Baldur innritaðist í herinn 9. maí 1918. Fór frá Winnipeg 21. júlí sama ár. Var gæzlumaður þýzkra fanga. Kom aftur 12. desember 1918. Til heimilis að Gimli, Man.



## GUÐMUNDUR FINNBOGI JÓNASSON.

Fæddur 19. október 1895 að Vogar P. O., Man. Foreldrar hans eru: Jónas Kristján Jónasson, ættaður úr Skagafirði á Íslandi, og seinni kona hans, Guðrún Guðmundsdóttir, ættuð úr Breiðdal í Suður-Múlasýslu; þau búa nú að Vogar P. O., Man. Hann innritaðist í "1st Depot Batt. of Manitoba" 10. maí 1918 og fór til Englands 25. júlí sama ár. Veiktist á Englandi og var á sjúkrahúsi þar til 24. september sama ár. Eftir að friður var saminn, gekk hann á "Canadian Khaki University" á Englandi, þar til hann kom til baka til Canada 24. júní 1919.



HALLDÓR MAGNÚS JÓNASSON.

Fæddur 16. desember 1890 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Guttormur Jónasson frá Keldnakoti í Árnessýslu og Guðlaug Eyjólfsdóttir frá Apavatni í sömu sýslu, nú búandi að Edinburg, Norður Dakota. Halldór gegndi herkalli 9. febrúar 1918 og sigldi frá Bandaríkjunum 29. september það ár. Kom heim aftur 3. maí 1919. Stundar akuryrkju.



SIGURBJÖRN ÓSKAR JÓNASSON.

Fæddur á Engimýri við Íslendingafljót 11. marz 1896. Foreldrar hans eru þau Tómas A. Jónasson og Guðrún Jóhannesdóttir, bæði eyfirzk, Tómas fæddur á Engimýri í Öxnadal 8. ágúst 1845 (af Hvassafellsættinni), en Guðrún fædd að Litla-Hóli í sömu sveit 1. september 1852. Fluttust til Ameríku 1876 frá Gloppu í Öxnadal. Sigurbjörn gekk í sjóherinn 13. maí 1918. Fór frá Winnipeg til Halifax 6. júní 1918. Hann var kyndari í sjóhernum. Kom heim aftur 15. maí 1919. Sigurbjörn stundar bændavinnu hjá föður sínum við Riverton, Man.



TÓMAS G. JÓNASSON.

Fæddur í Canada árið 1893. Sonur Ármanns Jónassonar og Óskar Sigurðardóttur, er bjuggu á Akureyri. Tómas gekk í herinn 8. apríl 1918, og tók þátt í orustunni við Mons á Frakklandi, þeirri síðustu. Kom aftur til Canada 31. marz 1919, þá vinnufær, og stundar nú landbúnað.



## UNVALD ÓSKAR JÓNASSON.

Fæddur 13. febrúar 1890 að Geysir P. O., Man. Sonur Jónasar Þorsteinssonar og konu hans, ættaðrar úr Skagafjarðarsýslu, en nú búandi að Geysir P. O. Unvald gekk í herinn 23. maí 1918. Var við heræfingar á Englandi, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 24. júní 1919. Stundar landbúnað.



## BJÖRN JÓNSSON.

Fæddur 20. október 1891 á Bakka í Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu. Foreldrar: Jón Sóffoníasson og Svanhildur Björnsdóttir, sem bjuggu að Bakka og síðar að Neðra-Ási í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu. Björn flutti til Ameríku árið 1916, og gekk í herinn í Blaine, Wash., U. S. A., 26. ágúst 1918. Var við heræfingar í Lewis-herbúðunum í Washingtonríki, þegar stríðið endaði. Var leystur frá herþjónustu 18. marz 1919. Áður en Björn gekk í herinn stundaði hann skrifstofustörf.



## Sergeant GUÐMUNDUR JÓNSSON.

Fæddur á Sleðbrjót í Norður-Múlasýslu á Íslandi 11. janúar 1891. Sonur Jóns Jónssonar frá Sleðbrjót, fyrrum Alþingismanns, og Guðrúnar Jónsdóttur, og eru þau bæði ættuð úr Norður-Múlasýslu. Guðmundur ólst upp hjá foreldrum sínum að Sleðbrjót, þar til hann var tólf ára, að þau og hann fluttust vestur um haf, og hafa lengst af búið góðu búi að Siglunes P. O., Manitoba. Guðmundur innritaðist í þá deild sjóhersins, er nefnist "Royal Naval Canadian Volunteer Reserve", 11. júní 1918, og var kvaddur til heræfinga austur til Halifax í Nova Scotia, þar sem hann dvaldi unz vopnahlé var sett, og hafði þá hlotið Sergeants-nafnbót. Hann var leystur úr herþjónustu 9. marz 1919, heill heilsu. Fór hann þá heim til Sigluness, og stundar þar landbúnað og fiskiveiðar.



## JÓN KRISTJÁN JÓNSSON.

Fæddur í Reykjavík 1. júlí 1889. Sonur Jóns Jónssonar frá Dússkoti í Reykjavík (dáinn) og Ragnheiðar Vigfúsdóttur frá Reykjum. Jón stundaði bændavinnu og smíðar að Tantallon, Sask., áður en hann gekk í herinn 15. apríl 1918. Hann sigldi til Englands 16. júní það ár og kom aftur þaðan 24. júní 1919.



## SIGFÚS FRANK ÁRNASON JÓSEFSSON.

Fæddur að Hraunfelli í Vopnafirði 20. janúar 1892. Foreldrar: Árni Sigfússon, Jósefssonar, frá Hraunfelli í Vopnafirði, og Friðrika Helgadóttir frá Vindbelgi við Mývatn, nú búandi að Glenboro P. O., Manitoba. Sigfús gegndi herkalli 13. febrúar 1918. Sigldi til Frakklands 17. ágúst það ár. Tók þátt í orustum á Haute-Alsac svæðinu. Særðist ekki. Kom heim aftur 12. júní 1919. Sigfús er kvæntur Elínu Sigurbjörnsdóttur og stundar landbúnað í grend við Minneota, Minnesota, U. S. A.



## FRIÐBJÖRN ÁRNI JOSEPHSON.

Fæddur að Brú P. O., Manitoba, 12. nóvember 1894. Sonur Þorsteins Jósepssonar, Arasonar, frá Sigríðarstöðum í Bárðardal, og Hólmfríðar Helgadóttur, Jónassonar, frá Grænavatni í Mývatnssveit í Þingeyjarsýslu, nú búsett að Sinclair, Manitoba. Friðbjörn gekk í herinn 11. júní 1918 og sigldi til Englands 4. ágúst sama ár. Lengra komst hann ekki áður en vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 24. júní árið 1919.



## GUNNLAUGUR JOSEPHSON.

Fæddur árið 1889 á Geitastekk í Dalasýslu. Sonur þeirra Jóseps Jónssonar og Ásgerðar Gunnlaugsdóttur; faðirinn dáinn, en móðir hans á heima að Otto P. O., Manitoba. Hann innritaðist í herinn 9. júlí 1918. Fór aldrei frá Canada. Fékk lausn úr hernum 3. janúar 1919. Stundar trésmíðar.



## HERMANN JOSEPHSON.

Fæddur 24. febrúar 1889 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Sigurvin V. Josephson frá Leifsstöðum í Vopnafirði og Rósa Pálsdóttir frá Hákonarstöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu, búandi að Ivanhoe, Minnesota. Hermann gegndi herkalli 25. júlí 1918. Sigldi til Frakklands 5. ágúst það ár. Tók þátt í Argonne-orustunni miklu. Kom heim aftur 24. júlí 1919, þá vinnufær. Stundar landbúnað að Ivanhoe P. O., Minnesota.



## JÓHANN JOSEPHSON.

Fæddur 11. ágúst 1896 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Hermann Vigfússon, Jósepssonar, frá Torfastöðum í Vopnafirði, og Aðalbjörg Sigfúsdóttir frá Melum í Vopnafirði, nú búandi að Minneota. Jóhann gegndi herkalli 21. marz 1918 og gekk í sjólið Bandaríkjanna. Hann var ekki farinn úr landi, þegar stríðið endaði. Var leystur frá herþjónustu 17. febrúar 1919. Stundar landbúnað.



MARVIN O. JOSEPHSON.

Fæddur 9. desember 1888 að Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Jón Josephson og Ingibjörg Arngrímsdóttir frá Vopnafirði á Íslandi. Marvin gegndi herkalli 23. september 1918. Hann var ekki sendur úr landi og var leystur frá herþjónustu 12. apríl 1919. Hann var til heimilis í Seattleborg, Wash., og var vélstjóri á mótorbát áður en hann gekk í herinn, en stundar nú skipasmíðar.



VILHJÁLMUR JÓSEPHSSON.

Sonur Björns Josephssonar frá Vestaralandi í Axarfirði og Guðnýjar Helgadóttur frá Valadal á Tjörnesi í Suður-Þingeyjarsýslu. Er fæddur í Argylebygð 31. júlí 1896. Hann var kvaddur í Canadaherinn í maí árið 1918. Hafði þá stundað landbúnað um nokkur ár. Hann innritaðist við 10. skógartekju- og brautalagningadeildina. Fór frá Canada austur um haf í júní 1918, og vann í þarfir hersins þar, unz hann fékk lausn frá herþjónustu og hvarf heim aftur í júní 1919. Hann hefir nú á hendi hveitikaup fyrir samvinnufélag bænda í Kandahar, Sask.



CARL JÚLÍUS.

Sonur Júlíusar Guðbrandssonar frá Vatni í Haukadal í Dalasýslu og Lilju Guðmundsdóttur, Magnússonar, frá Snóksdal. Carl gegndi herkalli í San Fransisco, California, U. S. A. Gekk í stórskotaliðsdeild og fór með henni til Frakklands. Tók þar þátt í orustum. Aðrar upplýsingar um þenna mann ekki fáanlegar.



## JÓHANN PÁLSSON KÆRNESTED.

Fæddur 27. september 1895 að Narrows P. O., Manitoba. Sonur Páls Kristjánssonar Kærnested, Jónssonar, frá Skriðu í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu, og Guðnýjar Jóhannesdóttur, ættaðrar úr Dalasýslu á Íslandi (látin). Jóhannes innritaðist 10. maí 1918 í landvarnarher Canada og var þar um tveggja mánaða tíma, en 13. júlí sama ár gekk hann í sjóher Canada og starfaði þar til 28. maí 1919, að hann var leystur frá herþjónustu. Hann stundar nú landbúnað með föður sínum að Narrows, Man.

*BJARNI KJARTANSSON (sjá III).*



## THORLEIFUR KJARTANSSON.

Fæddur við Akra í Norður Dakota, árið 1891. Foreldrar: Gunnar Kjartansson og Gróa Þorleifsdóttir, er bjuggu að Kleppjárnsstöðum í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu, nú búandi að Amaranth P. O., Manitoba. Hann gekk í herinn 30. maí 1918 og var við heræfingar í Winnipeg þar til stríðinu lauk. Stundar landbúnað með foreldrum sínum.



## AÐALSTEINN KRISTJÁNSSON.

Fæddur 14. apríl 1878 að Bessastöðum í Öxnadal í Eyjafjarðarsýslu. Foreldrar: Kristján Jónasson, Magnússonar, frá Engimýri í Öxnadal, og Guðbjörg Þorsteinsdóttir, Þorsteinssonar, frá Mýrarlóni. Þau hjón bjuggu að Flögu í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu. Aðalsteinn er húsasmiður og fjársýslumaður. Gerði margar tilraunir til að komast í herinn, bæði í Bandaríkjunum og Canada, alt frá því er stríðið hófst, en var ekki talinn fær um að þola svaðilför þá. Tókst þó loksins að fá inngöngu í verkfræðingadeild eina með brezka hernum og starfaði með henni í 4 mánuði, frá 11. október 1918; en varð of seinn til að komast á vígvöll á Frakklandi, sem hann þó hafði lengi þráð. Aðalsteinn er giftur konu af brezkum ættum, Olive Emely að nafni. Þau hjón hafa nú aðsetur í New York borg, U. S. A.



## ALBERT K. KRISTJÁNSSON.

Fæddur 23. júlí 1884 í Aðalvík í Ísafjarðarsýslu á Íslandi. Sonur Kristjáns Jónssonar bónda í Miðvík í Aðalvík og Kristínar Sigurðardóttur. Albert stundaði trésmíðar í Winnipeg frá því hann kom til Canada 1913 og þar til hann gekk í herinn 26. apríl 1918. Í ágúst það ár fór hann til Englands og var þar við heræfingar þar til stríðinu lauk. Kom aftur til Canada í júní 1919.



## JÓHANN J. KRISTJÁNSSON.

Er fæddur að Eyford í Norður Dakota 8. apríl 1896. Sonur þeirra Kristjáns G. Kristjánssonar og Svanfríðar Jónsdóttur; eru þau ættuð af Langanesi í Norður-Þingeyjarsýslu, en hafa lengi búið í grend við Mountain. Jóhann var kvaddur í Bandaríkjaherinn 22. júlí 1918 og innritaðist í 78. sveit 14. deildar, og í deild þeirri þjónaði hann til stríðsloka. Hann er til heimilis hjá foreldrum sínum við Mountain.



## ÁRNI BJÖRN LAXDAL.

Fæddur í Winnipeg, Man., 5. maí 1899. Sonur Lúðvíks Hermanns Jóns Laxdal, Sigurðssonar Laxdals, verzlunarmanns á Akureyri við Eyjafjörð, og Margrétar Steinunnar Þorláksdóttur, Björnssonar frá Fornhaga í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu. Árni innritaðist í flugher Canada í maí 1918, og með því að hann hafði numið vélfræði, var hann skipaður til þess að starfa að þeirri iðn hér í landi, þar til stríðinu lauk. Árni hefir notið góðrar skólamentunar. Hann býr nú með foreldrum sínum í Portland, Oregon, U. S. A.



## DANÍEL LAXDALE.

Er fæddur í Argylebygð nálægt Cypress River, Manitoba, árið 1896. Um foreldra hans getur ekki. Hann er til heimilis í Blaine í Washingtonríki. Hann var kvaddur í Bandaríkjaherinn 15. október 1918, en sökum þess að vopnahlé var sett tæpum mánuði síðar, var hann eigi sendur úr landi. Frá herþjónustu er hann leystur 26. nóvember 1918. Hann vinnur nú við jarðyrkju eins og áður en hann gekk í herinn.



## SIGURSTEINN LÁRUSSON.

Fæddur að Gimli, Manitoba, 1. janúar 1898. Foreldrar: Pálmi Lárusson, Erlendssonar, frá Móbergi í Laugadal í Húnavatnssýslu, og Guðrún Steinsdóttir, Steinssonar, frá Gvendarstöðum í Skagafjarðarsýslu. Sigursteinn gekk í sjóher Canada í maímánuði 1918, og starfaði við strendur Canada þar til hann var leystur frá herþjónustu í maí 1919. Hann dvelur nú með foreldrum sínum að Gimli, Man.



## JACOB LEIFSSON.

Fæddur 10. júlí 1895 að Skálmholtshrauni í Árnessýslu, og heitir réttu nafni Jakob Jónsson, Friðleifssonar, frá Sýrlæk í Flóa í Árnessýslu. Hann dvaldi á Hunter Island, Bella Bella P. O., B. C., áður en hann gekk í herinn 16. júlí 1918. Fregnir af pilti þessum eru óljósar, en næst liggur að ætla, að hann hafi ekki átt þátt í orustum áður en stríðinu lauk. Hann stundar landbúnað að Bella Bella P. O., B. C.



## KONRÁÐ VILHJÁLMUR LEIFUR.

Er fæddur við Glasston í Pembina County í Norður Dakota 26. október 1897. Foreldrar hans eru Ísleifur Vernharðsson Leifur frá Eyrarbakka í Árnessýslu, og Sigríður kona hans, er nú búa að Mountain. Konráð var kvaddur í Bandaríkjaherinn 30. september 1918, að herdeild ríkisháskólans í Grand Forks, og var þar við heræfingar, þegar stríðinu sleit. Var því eigi sendur utan.



## SIGURGEIR LEIFUR.

Fæddur 26. febrúar 1900 í Pembina, Norður Dakota, U.S.A. Foreldrar: Gísli Vernharðsson Leifur frá Grjótlæk á Eyrarbakka í Árnessýslu og Ingibjörg Einarsdóttir frá Dvergasteini í Árnessýslu. Sigurður gegndi herkalli 26. febrúar 1918. Gekk í Bandaríkjasjóliðið og vann í því, þar til hann var leystur frá herþjónustu í sept. 1919. Er nú aðstoðarkennari við mótorvélaskóla í Fargo, Norður Dakota.



## JÓN ÓLAFUR LINDAL.

Fæddur 12. október 1896. Foreldrar: Jón Jónadabsson Líndal og Ingibjörg Tómasdóttir; bjuggu lengi í Víðidal í Húnavatnssýslu, en nú að Lundar, Manitoba. Jón gekk í 34. deild canadiska riddaraliðsins ("Fort Garry Horse") 1. maí 1918, en hafði ekki lokið heræfingum að fullu á Englandi, þegar vopnahlé var sett, í nóvember 1918. Hann kom aftur til Canada í júní 1919.



## GUÐBJARGUR ÞÓRÐUR THORODDSEN LOPTSSON.

Fæddur að Churchbridge P. O., Sask., 16. marz 1892. Sonur Jóns Loptssonar frá Hlíðarenda í Flókadal í Borgarfjarðarsýslu og Guðnýjar Guðmundsdóttur, Helgasonar, frá Grjótaþorpi í Reykjavík á Íslandi. Geirbjargur gekk í herinn snemma í janúar 1918 og starfaði í hermannaskála í Winnipeg., þar til stríðinu lauk. Var þá leystur frá herþjónustu og starfar nú á landi foreldra sinna að Beckville P. O., Man.



## JÓHANNES JÓNSSON LOPTSSON.

Fæddur að Beckville P. O., Manitoba, 13. október 1896. Gekk í herinn í janúar 1918. Hann er sonur Jóns Loptssonar frá Hlíðarenda í Flókadal í Borgarfjarðarsýslu og Guðnýar Guðmundsdóttur, Helgasonar, frá Grjótaþorpi í Reykjavík á Íslandi. Hann veiktist skömmu eftir að hann kom í herinn; en gegndi engum herstörfum og var leystur frá herþjónustu að stríðinu loknu. Stundar nú bú foreldra sinna að Beckville P. O., Manitoba.



## JOHN LUTHER.

Fæddur 20. janúar 1895 að Hjaltastöðum í Skagafirði. Foreldrar: Jón Jónsson, sem lengi bjó á Hjaltastöðum, og Helga Arnbjarnardóttir frá Króktúni í Rangárvallasýslu. Luther gegndi herkalli í Grand Forks, Norður Dakota, U. S. A., 15. apríl 1918. Sigldi til Frakklands í maí sama ár. Tók þátt í orustum við Marne frá 16. júlí til 3. ágúst, Toulon 1.—12. september , St. Mihiel 12.—16. sept., Argonne—Meuse frá 26. september til 1. október. Særðist þar, en komst á vígvöll aftur þann 8. nóvember og var þar til stríðsloka. Eftir það var hann í gæzluher Bandaríkjamanna inn á Þýzkalandi og þjónaði þar í grend við Koblenz. Kom heim aftur í ágúst 1919. Vann við landmælingar og verzlun áður en hann gekk í herinn.



## KJARTAN ÓLAFSSON MACKSON.

Fæddur 29. nóvember 1890 í Pembina, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Ólafur Magnússon, Ólafssonar og Guðrúnar Jónsdóttur frá Áshólsskála undir Eyjafjöllum í Rangárvallasýslu, og Þórunn Sigurðardóttir, Ólafssonar og Guðrúnar frá Torfastöðum í Fljótshlíð í sömu sýslu, nú búandi að Raymond, Wash., U. S. A. Kjartan gegndi herkalli 24. maí 1918 í South Bend, Wash., en var ekki kominn úr landi, þegar vopnahlé var sett. Var leystur frá herþjónustu 30. desember 1918. Kjartan gengur undir nafninu John K. Mackson. Hann er verkfræðingur.



## AÐALSTEINN MAGNÚSSON.

Fæddur á Akureyri á Íslandi 6. ágúst 1896. Sonur Páls Friðriks Magnússonar og Guðrúnar Friðbjarnardóttur Steinssonar frá Akureyri, nú búandi að Leslie, Sask. Gekk í herinn 1. júní 1918 og var ekki kominn úr landi, er stríðinu lauk. Hann var leystur frá herþjónustu í ágúst 1919. Hann stundar nú landbúnað með foreldrum sínum.



## FRANKLIN BERGÞÓR MAGNÚSSON.

Fæddur í Selkirkbæ, Man., 30. apríl 1898. Sonur Péturs Magnússonar frá Hjarðarnesi í Barðastrandarsýslu og Pálínu Gottskálksdóttur frá Keflavík í Grýtubakkahreppi í Suður-Þingeyjarsýslu. Franklin gekk í canadiska sjóliðið 28. maí 1918 sem kyndari á strandvarnaskipi. Fór því ekki í orustu í Evrópu, en stundaði starf sitt hér við land, þar til hann var leystur, með sæmd, frá herþjónustu í júlímánuði 1919. Heimili hans er að Gimli, Man.



KARL P. MAGNÚSSON.

Fæddur 13. júlí 1897 í Norður-Dakota, U. S. A. Foreldrar: Pétur Jóhannesson, Magnússonar, frá Hóli í Tungusveit í Skagafirði, og Kristjana Benediktsdóttir frá Einarsstöðum í Lögmannshlíð í Eyjafirði. Karl gekk í herinn 2. maí 1918, en var ekki kominn úr landi, þegar vopnahlé var sett. Leystur frá herþjónustu í janúar 1919. Stundar landbúnað með foreldrum sínum að Framnes P. O., Manitoba.



JÓN MAGNÚSSON.

Fæddur í Lincolnhéraði í Minnesota, U. S. A., 28. október 1894. Foreldrar: Magnús Hjörleifsson, Jónssonar frá Brekku í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu, og Guðný Halldórsdóttir frá Mýrnesi í Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu. Jón gekk í herinn í júlímánuði 1918 og var við heræfingar í Winnipeg, þegar stríðinu lauk. Hann er kvæntur Kristínu Anderson frá Winnipeg Beach, Manitoba, og býr þar.



MAGNÚS MAGNÚSSON.

Fæddur í Winnipeg 2. júlí 1896. Sonur Sigurðar Magnússonar, Sigurðssonar prests að Auðkúlu í Húnavatnssýslu, og Guðrúnar Pétursdóttur, Péturssonar bónda að Miðhópu í Húnavatnssýslu. Móðir Magnúsar er Una Jónsdóttir, Jóhannessonar, og Ásu Guðmundsdóttur, er síðast bjuggu að Litlu-Þverá í Miðfirði. Magnús innritaðist í herinn 27. apríl 1918 og fór til Englands, en hafði ekki lokið heræfingum þar, þegar stríðinu lauk. Hann kom aftur til Canada 30. maí 1919, og stundar nú landbúnað að Piney, Manitoba, þar sem foreldrar hans búa.

## MAGNÚS G. MAGNÚSSON.



Fæddur á Eyrarbakka í Stokkseyrarhreppi í Árnessýslu 17. október 1891. Faðir hans er Guðmundur Magnússon frá Kaldaðarnesi, Einarssonar, og Ingiríðar Einarsdóttur, úr Borgarfirði suður, en móðir Sigríður Jóhannesdóttir frá Laugardælum í Árnessýslu, Pálssonar frá Vatnsmúla, og Ragnheiðar Jónsdóttur frá Galtafelli. Magnús var til heimilis hjá foreldrum sínum í Winnipeg, er hann var kvaddur í herinn 7. janúar 1918. Hann gegndi skrifstofustörfum við Minto-herbúðirnar til stríðsloka. Hann var leystur frá herþjónustu 24. febrúar 1920. Vinnur nú hjá Remington ritvélafélaginu í London, Ont., og hefir aðsetur sitt þar.

## SIGURÐUR TRYGGVI MAGNÚSSON.



Fæddur 5. október 1897 á Geirastöðum í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Magnús Magnússon, Stefánssonar og Guðlaugar Þorgeirsdóttur, er bjuggu að Skógarnesi í Árnessýslu, og Ögn Ingibjörg Guðmundsdóttir Frímanns, Gunnarssonar og Ingibjargar Árnadóttur, er bjuggu að Sauðadalsá í Húnvatnssýslu. Sigurður stundaði nám að Point Roberts, Wash., U. S. A., þegar hann gegndi herkalli 11. október 1918. Var ekki kominn úr landi, þegar stríðið endaði, og var leystur frá herþjónustu 18. desember 1918.

## MAGNÚS H. MÝRDAL.



Er fæddur við Garðar í Norður Dakota 22. desember 1896. Sonur Jóns Einarssonar Mýrdal frá Miðhvoli í Mýrdal, og Sigríður Þorsteinsdóttir, er ættuð er úr sömu sveit. Magnús var kvaddur í Bandaríkjaherinn 4. nóvember 1918. Hann var skipaður Corporal, en ófriðnum lauk um þetta leyti, svo að hann var ekki sendur úr landi.



## THORSTEINN S. MÝRMANN.

Fæddur 28. janúar 1888 í Austur-Skaftafellssýslu á Íslandi. Foreldrar: Sigurður Jónsson og Þuríður Þorsteinsdóttir, bæði ættuð úr Austur-Skaftafellssýslu. Thorsteinn gekk í herinn 15. júní 1918. Var um árstíma í þjónustu á Englandi. Kom aftur til Canada árið 1919. Stundar fiskiveiðar.



## GUÐJÓN ERLENDUR NARFASON.

Fæddur 17. september 1896 að Gimli, Manitoba. Foreldrar: Magnús Narfason, Magnússonar frá Traðarkoti í Gullbringusýslu, og Emerentiana Jónsdóttir, Jónssonar frá Skammadal í Vestur-Skaftafellssýslu, búandi að Gimli, Man. Guðjón gekk í herinn 25. júlí 1918 og var við æfingar á Englandi, þegar stríðinu lauk. Kom aftur til Canada 24. júní 1919. Stundar landbúnað.



## HERBERT LAWRENCE NORDAL.

Fæddur 13. ágúst 1895 í Duluth, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Guðmundur G. Nordal frá Kirkjubæ í Norðurárdal í Húnavatnssýslu og Sigurborg Stefánsdóttir frá Gautsdal í Geiradal í Barðastrandarsýslu. Herbert gegndi herkalli 15. júní 1918. Sigldi til Frakklands í september það ár. Var ekki kominn á orustuvöll, þegar stríðið endaði. Kom heim aftur 19. janúar 1919. Hann er verzlunarþjónn og á heima í Duluth, Minn.



## JÓHANNES SIVERTSEN NORDAL.

Fæddur 27. janúar 1896 í Glenboro, Manitoba. Var skrifstofuþjónn og kennari áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Rafn Guðmundsson Nordal frá Staðarhöfða í Borgarfirði suður og Vigdís Sigurðardóttir frá Skógsmúla í Dalasýslu. Jóhannes gegndi herkalli Bandaríkjanna 4. júní 1918. Sigldi til Frakklands 31. júlí sama ár. Tók þátt í orustum við St. Mihiel og Argonne. Særðist ekki. Heim kominn 2. október 1919. Stundar nú kenslustörf. Jóhannes var í varðliði Bandaríkjamanna, sem fór til Þýzkalands eftir að vopnahlé var sett.



## EVAN O. OIE.

Fæddur 2. janúar 1888 að Mountain, Norður Dakota, U. S. A. Var verzlunarþjónn að Roseau, Minn., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Ole E. Oie frá Oye í Þrándheimi í Noregi og Guðrún Sigríður Ólafsdóttir frá Þríhyrningi í Eyjafjarðarsýslu, nú búandi að Roseau, Minn. Evan gegndi herkalli 7. apríl 1918. Sigldi til Frakklands 16. ágúst það ár. Var leystur frá herþjónustu 27. desember 1918. Vinnur við verzlun í Roseau, Minn.



## BJÖRN ÓLAFSSON.

Er fæddur við Garðar í Norður Dakota 17. maí 1889, og er sonur þeirra Björns Ólafssonar og Guðrúnar Guðmundsdóttur, er búa að Edinborg í Norður Dakota. Björn var kvaddur í Bandaríkjaherinn 29. apríl 1918, og sendur til Frakklands með 359. sveit 90. deildar fótgönguliðsins. Þar starfaði hann með Bandaríkjahersveitunum fram að þeim tíma, að friður var saminn.



## HALLDÓR BENEDIKT ÓLAFSSON.

Fæddur að Akra, Norður Dakota, U. S. A., árið 1891. Foreldrar hans: Ólafur Árnason frá Bakka í Hólmi í Skagafirði og Ragnheiður Sigurðardóttir frá Grund í Eyjafirði, nú búandi að Brown P. O., Manitoba. Halldór gekk í herinn 14. júní 1918 og var við heræfingar á Englandi, þegar vopnahlé var sett. Kom heim aftur til foreldrahúsa 24. júní 1919, og stundar nú landbúnað, eins og áður en hann gekk í herinn.



## HALLDÓR JÓHANN ÓLAFSSON.

Fæddur 14. september 1894 að Hensel, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Ólafur Jónsson, Ólafssonar, frá Sveinsstöðum í Húnavatnssýslu, og Jónína Þorgerður Þorgeirsdóttir, Guðmundssonar, gullsmiðs á Akureyri við Eyjafjörð. Halldór gekk í herinn í janúar 1918. Fór til Englands miðsumars það ár og var þar í herþjónustu til stríðsloka. Kom aftur til Canada í júní 1919. Halldór vann við rafleiðslulagningar í Winnipeg áður en hann gekk í herþjónustu, en starfar nú að viðgerð mótorvagna í Kandahar, Sask.



## INGERSOLL ÓLAFSSON.

Fæddur í Tantallon, Sask., 20. apríl 1896. Sonur Guðmundar Ólafssonar frá Firði í Mjóafirði í Suður-Múlasýslu og Sigríðar Valgerðar Jónsdóttur, Snorrasonar, frá Auðbrekku í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu, sem nú búa að Tantallon, Sask. Ingersoll gekk í herinn í apríl 1918 og hélt til Englands mánuði síðar, en veiktist á skipinu og varð að fara á sjúkrahús á Englandi. Komst því aldrei á vígstöðvarnar og hvarf aftur til Canada í júní 1919. Er nú með foreldrum sínum, á landi þeirra í Tantallonbygð.



## JÓHANNES E. ÓLAFSSON.

Fæddur 2. ágúst 1887 í Pembina, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Erlendur Ólafsson, ættaður frá Ytri-Brekkum í Akrahreppi í Skagafirði, og Halldóra Magnúsdóttir frá Kleifarstöðum í Miklaholtshreppi í Snæfellsnessýslu, búandi í Pembina, Norður Dakota. Jóhannes gegndi herkalli 22. júlí 1918. Sigldi til Frakklands 23. október það ár. Leystur frá herþjónustu 12. marz 1919. Er kyndari á járnbrautarlestum.



## KRISTJÁN ÓLAFSSON.

Fæddur í Winnipeg 21. marz 1886. Foreldrar: Kristján Ólafsson og Ólöf Hannesdóttir, úr Hnappadalssýslu á Íslandi. Kristján gekk í herinn 10. maí 1918. Kom aftur til Canada 1. apríl 1919. Hann var undirforingi í hernum. Er vélfræðingur og starfar við þá iðn í Winnipeg.



## LOUIS ÓLAFSSON.

Fæddur 2. október 1896 í Brandonborg í Manitoba. Foreldrar hans: Jón Ólafsson frá Reykjavík og Rósinkransa Hafliðadóttir, Helgasonar, í Efstadal í Ögursveit í Ísafjarðarsýslu. Louis gekk í herinn 29. apríl 1918 og sigldi til Englands í júlí það ár. Var við heræfingar þar, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 24. júní 1919.



## MILTON ÓLAFSSON.

Fæddur að Duxby, Minnesota, U. S. A., 13. júlí 1895. Átti heima í Roseau, Minn., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Grímur Ólafsson frá Þríhyrningi í Eyjafjarðarsýslu og Björg Sigfúsdóttir frá Staffelli í Norður-Múlasýslu, nú búandi að Roseau, Minn. Milton gegndi herkalli 3. september 1918, en var ekki kominn úr landi, þegar stríðið endaði. Leystur frá herþjónustu 9. janúar 1919. Stundar landbúnaðarvinnu.



## ÓLAFUR JÚLÍUS ÓLAFSSON.

Fæddur að Hallson P. O., Norður Dakota, U. S. A., 16. júlí 1897. Foreldrar hans: Kristján Ólafsson frá Búð í Þykkvabæ í Rangárvallasýslu og Guðrún Þorláksdóttir frá Galtastöðum í Gaulverjabæjarhreppi í Árnessýslu. Ólafur gekk í herinn 1. júní 1918. Fór til Englands og stundaði þar heræfingar, þegar stríðinu lauk. Hann var leystur frá herþjónustu í júnílok 1919. Ólafur á heima að Foam Lake, Sask., og stundar þar landbúnað með föður sínum.



## PÉTUR ÓLAFSSON.

Er fæddur við Garðar í Norður Dakota 25. janúar 1897. Sonur Ólafs Kristjánssonar, Ólafssonar frá Stokkahlöðum í Eyjafirði, og Sigurbjargar Tómasdóttur Jóhannssonar, einnig ættuð úr Eyjafirði. Pétur var kvaddur í Bandaríkjaherinn 5. nóvember 1918. Var við æfingar, þegar ófriðnum lauk, og var því ekki sendur úr landi. Foreldrar hans búa við Garðar í Norður Dakota.



## PÉTUR H. E. ÓLAFSSON.

Fæddur 6. október 1892 í Selkirk, Manitoba. Foreldrar: Einar Ólafsson frá Geirmundarstöðum í Norður-Múlasýslu og Ingibjörg Pétursdóttir frá Stórabakka í Hróarstungu í sömu sýslu, nú búandi í Minneota, Minnesota, U. S. A. Pétur gegndi herkalli 28. apríl 1918 og var skipaður til gæzlustarfa í Bandaríkjahernum. Sigldi til Frakklands 28. júní 1918. Tók þátt í orustum við St. Mihiel og Meuse—Argonne. Særðist ekki. Var í gæzluliði því, sem Bandaríkin sendu inn á Þýzkaland. Kom heim aftur 24. júní 1919. Býr nú með konu sinni, sem May heitir, á landi þeirra í grend við Minneota, Minn.



## SIGFÚS HELGI ÓLAFSSON.

Fæddur 1. nóvember 1896 að Roseau, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Grímur Ólafsson frá Þríhyrningi í Eyjafjarðarsýslu og Björg Sigfúsdóttir frá Staffelli í Norður-Múlasýslu. Sigfús gegndi herkalli 20. maí 1918. Sigldi til Frakklands 4. október það ár. Leystur frá herþjónustu 18. febrúar 1919.



## STEFÁN ÓLAFSSON.

Er fæddur í Winnipeg 2. ágúst 1896. Foreldrar hans voru þau Stefán Ólafsson (nú löngu dáinn) og Jóhanna María Friðriksdóttir frá Víðidalstungu í Húnaþingi. Er María gift öðru sinni og heitir síðari maður hennar Sophonías Thorkelsson, ættaður úr Svarfaðardal í Eyjafirði. Stefán var kvaddur í herinn vorið 1918. Var um allnokkurn tíma í Minto-herbúðunum í Winnipeg, en sökum heilsulasleika var hann leystur frá herþjónustu um haustið.



## STEINGRÍMUR SIGMAR ÓLAFSSON.

Fæddur að Ásgerðarstöðum í Hörgárdal 14. maí 1896. Sonur Jóns Ólafssonar frá Hrafnsstöðum í Svarfaðardal, nú búandi í Glenboro í Manitoba, og Laufeyjar Hrólfsdóttur frá Draflastöðum í Fnjóskadal (nú látin). Steingrímur gekk í herinn í janúar 1918 og hélt rakleitt til herstöðvanna á Frakklandi. Hann tók þátt í orustum við Cambrai og særðist þar. Kom aftur til Canada í janúarlok 1919, og stundar nú sína fyrri atvinnu (trésmíði) í Glenboro.



## METÚSALEM ÓLASON.

Fæddur að Akra, Norður Dakota, U. S. A., 26. marz 1888. Var daglaunamaður. Foreldrar: Guðni Ólason frá Útnyrðingsstöðum í Suður-Múlasýslu og Margrét Þórðardóttir, ættuð úr Loðmundarfirði í Norður-Múlasýslu. Metúsalem gekk í Bandaríkjaherinn 29. marz 1918 og sigldi til Frakklands í apríl það ár. Tók þátt í orustum við St. Mihiel, Meuse—Argonne og í Alsace-Loraine. Særðist ekki. Kom aftur til Bandaríkjanna 23. apríl 1919. Stundar akuryrkju. Hann átti heima í California áður en hann gekk í herinn. Kvæntist Kristrúnu Kristjánsson þann 20. september 1920.



## Sergeant VILHJÁLMUR ÓLASON.

Fæddur að Akra, Norður Dakota, U. S. A., 6. september 1889. Foreldrar: Guðni Ólason frá Útnyrðingsstöðum í Suður-Múlasýslu, og Margrét Þórðardóttir, ættuð úr Loðmundarfirði í Norður-Múlasýslu. Vilhjálmur stundaði landbúnað að Caliento í Manitoba. Hann hafði gert ítrekaðar tilraunir til að komast í Canadaherinn, en með því að hann hafði fyrir nokkrum árum mist sjón á öðru auga, fékk hann ekki inngöngu í herinn fyr en 4. apríl 1918. Innritaðist þá sem undirforingi og sigldi áleiðis til hervallar 18. júní það ár. Síðan hann kom heim aftur hefir hann stundað landbúnað.



## ÓLAFUR OLIVER.

Er fæddur í Pembina í Norður Dakota 8. ágúst 1893. Sonur Þorsteins Oliver og konu hans, er búa í Pembina, Ólafssonar frá Tungu í Grafningi í Árnessýslu, Þorsteinssonar. Ólafur var kvaddur í Bandaríkjaherinn 27. maí 1918 og gekk í 115. sveit 40. deildar og vann við skotfæraflutning a Frakklandi. Með þeirri deild var hann til stríðsloka. Hann var leystur frá herþjónustu 1919, og er til heimilis hjá foreldrum sínum í Pembina.



## SIGURÐUR OLIVER.

Fæddur 5. febrúar 1897 á Vopnafirði á Íslandi. Var fiskimaður og landbóndi að Winnipegosis áður en hann gekk í 52. herd. 7. maí 1918. Foreldrar hans: Þorsteinn Þorsteinsson Oliver, fæddur að Eyrarlæk í Árnessýslu, og Vilborg Jónsdóttir frá Laugarnesi í Kjósarsýslu. Sigurður var við heræfingar á Englandi til stríðsloka. Kom aftur til Canada 28. marz 1919. Hann er kvæntur Guðrúnu Johnson, og stundar fiskiveiðar.



## BENJAMIN FRANKLIN OLSON.

Fæddur á Gimli, Manitoba, 1. júní 1889. Kennari. Foreldrar: Björn B. Olson frá Finnstungu í Blöndudal í Húnavatnssýslu og Guðrún Sólmundardóttir, ættuð úr Borgarfjarðarsýslu. Gekk í canadiska sjóherinn og þjónaði þar fram til 16. desember 1918. Benjamín er kennari við barnaskóla í Gimlisveit.



## HJALDUR OSCAR OLSON.

Fæddur 10. júní 1898. Sonur Guðmundar Eyjólfssonar, Guðmundssonar prests að Hólmum í Reyðarfirði, og Þóru Þorleifsdóttur frá Villingadal í Haukadal í Dalasýslu. Hjaldur gekk í canadiska flugliðið 10. maí 1918, og var við æfingar á flugskólanum í Torontoborg, Ontario, þegar vopnahlé var sett. Fór ekki til Evrópu. Fékk lausn úr herþjónustu í janúar 1919. Hann stundar verzlunarstörf í Winnipeg.



## LEONARD HELGI OLSON.

Fæddur í Winnipeg 18. september 1891. Foreldrar: Ólafur Ólafsson, Ólafssonar og Guðnýar Eyvindardóttur frá Súlunesi í Melasveit í Borgarfjarðarsýslu, og Helga Guðmundsdóttir, Hanssonar, ættuð úr Borgarfjarðarsýslu. Leonard gekk í herinn 19. marz 1918. Hann tók þátt í orustu við Cambrai á Frakklandi. Særðist þar af skoti í vinstri handlegg. Hann kom aftur til Canada í apríllok 1919, þá vinnufær. Hann stundar nú landbúnaðarvinnu.



## Lieut. Dr. ÓLAFUR S. OLSON.

Fæddur 11. september 1883 á Borðeyri í Hrútafirði á Íslandi. Foreldrar: Sigurgeir Ólafsson frá Krossum í Staðarsveit í Snæfellsnessýslu og Halldóra Guðmundsdóttir, Stefánssonar, Guðmundssonar prófasts, Jónssonar, er var síðast þjónandi prestur á Staðarstað á Ölduhrygg í Snæfellsnessýslu. Dr. Olson gegndi herkalli 12. september 1918, og var skipaður læknir við heræfingastöðina "Fort Riley" í Kansasríki, sæmdur hærri Lieutenants-tign. Dr. Olson fékk lausn frá herþjónustu 11. desember 1918. Hann er kvæntur Leota Pearl Hoyt. Þau hjón búa í Duluth, Minnesota, U. S. A.



## SIGURJÓN HOLMAN OLSON.

Fæddur í Winnipeg 27. marz 1892. Foreldrar: Ólafur V. Olson og Sigurbjörg Pálsdóttir. Sigurjón gekk í canadiska flugliðið 23. janúar 1918, en sýktist við flugæfingar í Torontoborg í Ontario og varð að þola tvo holskurði, og lá lengi á sjúkrahúsi þar. Hann var leystur frá herþjónustu 29. apríl 1919, með aðeins eins árs eftirlaunum. Hann er kvæntur Kristínu Ingibjörgu Kristjánsdóttur. Þau hjón búa í Selkirkbæ í Manitoba. Sigurjón stundar járnsmíðar.



## WILLMAR OLSON.

Er fæddur suðaustur af Akra 1888, eða þar um bil. Sonur Hans Olson, norðmanns, er fluttist til íslenzku bygðarinnar í Dakota frá Seyðisfirði árið 1887, og Gróu Eiríksdóttur Ísfeld frá Hofi í Mjóafirði. Willmar var kvaddur í Bandaríkjaherinn 12. apríl 1918. Var sendur til Frakklands og særðist í atlögunni við Argonne—Meuse 29. september 1918. Hann var leystur frá herþjónustu 1919.



## ALBERT NIELS PAULSON.

Fæddur í Argylebygð í Manitoba 18. febrúar 1895. Foreldrar hans: Christian Paulson frá Tungu í Fáskrúðsfirði í Suður-Múlasýslu og Þórunn Jónína Eyjólfsdóttir frá Heiðarseli í Hróarstungu í N.-Múlasýslu. Gekk í herinn 23. maí 1918, en var ekki farinn utan áður en friður var saminn. Hann stundar nú, sem fyr, bændavinnu að Gerald, Sask.



## FRIÐRIK PAULSON.

Er fæddur 14. maí 1897. Sonur þeirra hjóna M. Paulson og konu hans, er búa við Garðar í Norður Dakota. Friðrik var kvaddur í Bandaríkjaherinn 31. maí 1918 og innritaðist við 313. sveit stórskotaliðsins, við 80. herdeild. Hann fór með hersveit sinni til Frakklands, átti þar í orustum og var allmikið særður í orustunni við Verdun 6. nóvember 1918. Heim var hann sendur að stríðinu loknu og leystur frá herþjónustu 1919.



## JÓHANN PÁLSSON.

Fæddur í Reyðarfirði í S.-Múlasýslu 5. apríl 1899. Foreldrar hans: Páll Hansson og Rannveig Pálína Pálsdóttir, er síðast bjuggu í Reyðarfirði, en nú að Icelandic River, Manitoba. Jóhann gekk í herinn 8. apríl 1918, þá 19 ára. Hann var skipaður í eina af hjúkrunardeildum Canadahersins og var við æfingar í Canada, þegar stríðinu lauk. Hann vinnur nú að landbúnaði með foreldrum sínum.



## CARL PETERSON.

Fæddur 7. desember 1896 í Lincoln County, Minnesota, U. S. A. Stundaði landbúnað í Ivanhoehéraði í Minnesota áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Pétur Vigfússon, Péturssonar, frá Hákonarstöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu, og María Þorsteinsdóttir, Sigurðssonar á Nýjabæ á Hólsfjöllum í Norður-Þingeyjarsýslu. Carl gegndi herkalli árið 1918, en var ekki kominn úr landi, þegar vopnahlé var sett. Leystur frá herþjónustu í janúar 1919. Stundar landbúnað.



## GEORGE DANIEL PETERSON.

Fæddur 20. maí 1889 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Vann að hraðritun í Minneapolis, Minn., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Gunnlaugur Vigfússon, Péturssonar, frá Grund á Jökuldal í Norður-Múlasýslu, og Sigríður Jakobsdóttir Espólín frá Gunnsteinsstöðum í Langadal í Húnavatnssýslu, nú búandi að Pembina, Norður Dakota. George gegndi herkalli 11. febrúar 1918. Sigldi til Frakklands í maí sama ár. Tók þátt í öllum orustum Bandaríkjahersins frá þeim tíma til stríðsloka. Var leystur frá herþjónustu 1. apríl 1919. Er eftirlitsmaður innflutninga til Bandaríkjanna og hefir aðsetur í Winnipeg, Manitoba.



## GEORGE PETERSON.

Fæddur 27. maí 1888 í Lincoln County, Minnesota, U. S. A. Stundaði landbúnað að Ivanhoe, Minn. Foreldrar: Pétur Vigfússon, Péturssonar, frá Hákonarstöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu, og María Þorsteinsdóttir, Sigurðssonar á Nýjabæ á Hólsfjöllum í Norður-Þingeyjarsýslu. George gegndi herkalli 4. maí 1918 og gekk í sjólið Bandaríkjahersins. Var leystur frá herþjónustu 20. febrúar 1919. Stundar landbúnað.



## JÚLÍUS M. PÉTURSSON.

Fæddur 25. júlí 1888 á Marbakka á Akranesi í Borgarfjarðarsýslu. Foreldrar: Magnús Einarsson, Þorfinnssonar, Péturssonar frá Steinholti í Leirársveit í Borgarfjarðarsýslu og Rósa Árnadóttir, Sigurðssonar, frá Litla-Hrauni í Hnappadalssýslu. Júlíus gekk í herinn 1. júní 1918, en fór ekki úr landi og var leystur frá herþjónustu 1. janúar 1919. Hann er giftur konu að nafni Tercie.



## OLE T. PETERSON.

Fæddur 31. janúar 1896 að Hensel, Norður Dakota, U. S. A. Stundaði miðskólanám í Blaine, Wash., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Bjarni Pétursson og Þóra Jónsdóttir, bæði fædd á Íslandi. Ole gegndi herkalli 10. apríl 1918 og gekk í sjólið Bandaríkjanna sem undirforingi. Var leystur frá herþjónustu 8. marz 1919.



## SVEINN HALLGRÍMSSON PÉTURSSON.

Fæddur 23. október 1880 í Mjóafirði á Íslandi, nú verzlunarmaður að Upham, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Hallgrímur Pétursson frá Ánastöðum í Hjaltastaðarþinghá (nú dáinn) og Sigurlaug Sveinsdóttir, úr Seyðisfjarðarkaupstað, býr nú að Upham, Norður Dakota. Sveinn gegndi herkalli 22. júlí 1918. Var skipaður vistastjóri deildar sinnar. Sigldi til Frakklands 7. september 1918. Var leystur frá herþjónustu 21. júní 1919. Stundar verzlun sem fyr.



## THORLEIFUR PÉTUR PÉTURSSON.

Fæddur 14. maí 1887 að Instalandi á Reykjaströnd í Skagafjarðarsýslu. Sonur Bjarna Pétursson frá Reykjum á Reykjaströnd og Kristínar Þorleifsdóttur frá Glæsibæ í Skagafirði, nú búandi að Arnes P. O., Manitoba. Thorleifur gekk í herinn 17. maí 1918. Sigldi til Englands 26. júlí það ár og var þar við heræfingar, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 24. júní 1919.



## FRANK PLEASANCE.

Er fæddur 2. desember 1890 við Hallson í Norður Dakota. Foreldrar hans eru: William Pleasance, af enskum ættum, er um 40 ára skeið hefir búið í íslenzku bygðinni við Hallson, og Sigríður Dínusardóttir, Jónssonar, frá Mýlaugsstöðum í Reykjadal í Suður-Þingeyjarsýslu. Frank var kvaddur í Bandaríkjaherinn 25. júní 1918, og þjónaði þar til stríðsloka við fregnboðadeildina. Hann var leystur undan frekari herþjónustu, strax og vopnahlé var sett.



## AÐALSTEINN REINHOLT.

Fæddur að Garðar, Norður Dakota, U. S. A., 12. marz 1891. Foreldrar: Jafet Reinholt og Anna Rósa Jónasdóttir frá Bakkaseli í Öxnadal í Eyjafjarðarsýslu. Þau hjón bjuggu um nokkur ár í Red Deer, bygð Íslendinga í Alberta, en fluttu síðar til eyjarinnar Cuba, og þaðan kom Aðalsteinn, um 4 þúsund mílur vegar til Winnipeg. Hann gekk í Canadaherinn í Winnipeg þann 24. júní 1918, og hélt tafarlaust til herstöðvanna, en sýktist á Englandi, svo að hann komst ekki á vígvöll áður en stríðinu lauk. Heim til sín mun hann aftur hafa komist fyrir árslok 1919.



## RICHARD WENDELL REINHOLT.

Fæddur 10. október 1892 í Calgary, Alberta. Foreldrar: Indriði F. Reinholt, byggingameistari í Red Deer, Alta, og Björg Jasonsdóttir og Önnu Jóhannesdóttur. Gekk í canadiska flugliðið í marzmánuði 1918. Stríðinu lauk áður en hann kæmi á vígstöðvar. Stundar nú iðn sína, smíðar af ýmsum tegundum.



## JOHN J. REYKDAL.

Fæddur 16. okt. 1895, að Lundar, Man. Foreldrar: Jón Árnason Reykdal, fæddur í Reykholtsdal í Borgarfirði suður, og Sigríður kona hans, frá Kaldárbakka í Hnappadalssýslu. John gekk í herinn í maí 1918. Var við æfingar á Englandi, þegar stríðið endaði. Kom aftur til Canada 31. marz 1919. Stundar landbúnaðarvinnu.



## JÓNAS SAMSON.

Fæddur 20. nóv. 1898. Foreldrar: Jón Jónasson, Jónssonar alþingismanns Samsonssonar frá Keldudal í Hegranesi í Skagafirði, og Guðbjörg Ólafsdóttir, Jónssonar, frá Búð í Þykkvabæ í Rangárvallasýslu. Jónas gekk í canadiska flugliðið 31. maí 1918. Hann var við verkfræðinám við Manitobaháskólann áður en hann gekk í herinn. Hann var talinn of heilsutæpur til þess að eiga í hernaði og var því leystur frá þeirri þjónustu snemma vetrarins 1918. Stundar landmælingar, þegar heilsa hans leyfir það. Býr með foreldrum sínum í Winnipeg.



## EINAR SAMÚELSSON.

Er fæddur 12. febrúar 1892 að Máskeldu í Saurbæ í Dalasýslu. Sonur þeirra Alberts Samúelssonar, Eiríkssonar frá Máskeldu, og Elízabetar Jónsdóttur, ættuð af Breiðafirði, er nú búa við Garðar, fluttu þangað 1893. Einar var kvaddur í Bandaríkjaherinn 5. marz 1918 og innritaðist í 321. stórskotasveit 82. herdeildar. Með henni var hann til stríðsloka.



## KRISTJÁN G. SAMÚELSSON.

Fæddur að Naustum við Ísafjörð 13. apríl 1887. Foreldrar: Samúel Halldórsson og Sigríður Pálsdóttir frá Ísafirði. Kristján gekk í Canadaherinn 27. maí 1918. Var ekki kominn á vígvöll, þegar stríðinu lauk, og fékk lausn frá herþjónustu 7. marz 1919. Kristján er sjómaður og hefir aðsetur í fylkinu Nova Scotia í Austur-Canada.



## FRANKLIN EINARSSON SCHEVING.

Er fæddur 21. janúar 1891 við Carlisle í Norður Dakota þar sem foreldrar hans bjuggu þá, Einar Þorkelsson Scheving, ættaður úr Skriðdal í Suður-Múlasýslu, og kona hans. Nokkrum árum síðar færðu þau bú sitt upp í íslenzku bygðina norðvestur af Hensel og bjuggu þar um mörg ár. Franklin var kvaddur í Bandaríkjaherinn 14. júní 1918, og vann við hergagnaflutninga þar til stríðinu lauk.



## HAROLD K. SCHEVING.

Fæddur 31. október 1892 í Carlisle, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Árni Þorkelsson Scheving frá Stóra-Sandfelli í Múlasýslu og Margrét Eyjólfsdóttir frá Breiðavaði í Eiðaþinghá. Haraldur gegndi herkalli 8. ágúst 1918. Sigldi til Frakklands 22. september sama ár. Var leystur frá herþjónustu 21. apríl 1919. Stundar landbúnað að Elfros, Sask., Canada, en móðir hans býr að Hensel, Norður Dakota.

*SIGURÐUR ÁRNI SCHEVING (sjá III).*



## STEFÁN HERBERT SCHEVING.

Fæddur í Winnipeg 5. maí 1893. Foreldrar: Stefán J. Scheving og Guðrún Torfadóttir, ættuð úr Norður-Múlasýslu. Gekk í herinn 9. maí 1918, og var í þjónustu hans, bæði í Winnipeg og Halifax þar til 3. febrúar 1919, að hann var leystur frá herþjónustu.



## SIGFÚS J. SIGFÚSSON.

Er fæddur við Mountain í Norður Dakota 19. ágúst 1891. Sonur Sigurjóns bónda við Mountain, Sigfússonar, Jónssonar frá Krossanesi við Eyjafjörð, og Sólrúnar Jónsdóttur. Er Sigurjón nú látinn, en Sólrún ekkja hans býr þar enn. Sigfús var kvaddur í Bandaríkjaherinn 29. apríl 1918 og sendur bráðlega til Frakklands. Særðist í orustunni við Villenhay 17. september 1918. Hann innritaðist við 358. fótgöngusveit 90. herdeildar og var með henni til stríðsloka. Hann var leystur frá herþjónustu 1919.

*SIGURJÓN S. SIGFÚSSON (sjá III).*



## BJÖRN SIGMAR.

Fæddur 26. júní 1895 að Glenboro P. O., Manitoba. Sonur Sigmars Sigurjónssonar frá Einarsstöðum í Reykjadal og Guðrúnar Kristjánsdóttur frá Sultum í Kelduhverfi; bjuggu að Hólum í Reykjadal í Suður-Þingeyjarsýslu. Björn gekk í herinn 14. maí 1918. Fór aldrei úr Canada. Var leystur frá herþjónustu 6. janúar 1919. Stundar landbúnað.



## GEORG SIGMAR.

Fæddur 24. september 1891 að Glenboro P. O., Manitoba. Sonur Sigmars Sigurjónssonar frá Einarsstöðum í Reykjadal og Guðrúnar Kristjánsdóttur frá Sultum í Kelduhverfi; bjuggu að Hólum í Reykjadal í Suður-Þingeyjarsýslu. Georg gekk í canadiska flugliðið 6. febrúar 1918, en fór aldrei frá Canada og var leystur frá herþjónustu í desember 1918. Hann stundar verzlunarstörf.



## STEPHAN SIGMAR.

Fæddur 21. janúar 1888 að Glenboro P. O., Manitoba. Foreldrar hans: Sigmar Sigurjónsson frá Einarsstöðum í Reykjadal og Guðrún Kristjánsdóttir frá Sultum í Kelduhverfi; þau bjuggu að Hólum í Reykjadal í Suður-Þingeyjarsýslu. Stefán gekk í herinn 18. marz 1918, en var ekki álitinn nógu hraustur til herþjónustu og var því leystur frá henni 31. júlí 1918, og fór því aldrei úr Canada. Hann stundar landbúnað með foreldrum sínum.



## RAGNAR SIGTRIG.

Fæddur að Kasthvammi í Suður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Sigtryggur Kristjánsson, Sveinssonar, frá Kasthvammi í Laxárdal í Suður-Þingeyjarsýslu, og Anna Benediktsdóttir, Jónssonar, frá Steiná í Svartárdal í Húnavatnssýslu. Þau hjón bjuggu í Kasthvammi áður en þau fluttu til Vesturheims vorið 1907. Ragnar gegndi herkalli 5. ágúst 1918. Hann var á Atlantshafi á leið til vígvallar, þegar vopnahlé var sett. Ragnar stundar fasteignasölu í Seattleborg, Wash., U. S. A.



## ÁGÚST P. SIGURÐSSON.

Fæddur í Winnipeg 25. ágúst 1890. Foreldrar: Páll Sigurðsson, ættaður úr Múlasýslum, og Sveinbjörg Einarsdóttir frá Seyðisfirði í Norður-Múlasýslu. Gekk í 8. herd. 1. janúar 1918. Kom til Frakklands í ágúst 1918. Tók þátt í orustum við Cambrai og Amiens á Frakklandi. Fór til Þýzkalands er vopnahlé var sett, og sat í 2 mánuði í borginni Köln ásamt fleirum úr canadiska hernum. Kom aftur til Canada 8. maí 1919. Er nú útgefandi blaðsins Wynyard Advance í Wynyard, Sask.



## BJÖRN SIGURÐSSON.

Fæddur 20. nóvember 1897. Sonur Sigurðar Sigurðssonar, Jóhannessonar, Árnasonar Eyjafjarðarskálds, frá Gagnstöð í Norður-Múlasýslu, og Járngerðar Eiríksdóttur, ættaðrar af Langanesströndum. Björn stundaði landbúnað með föður sínum áður en hann gekk í herinn 26. marz 1918. Hann fór frá Canada í apríl 1918. Særðist í orustu við Cambrai 28. september 1918. Var sæmdur heiðursmerki fyrir skotfimi. Kom aftur til Canada 17. janúar 1919. Stundar nú sína fyrri atvinnu að Winnipeg Beach, Manitoba.



## ELLIS GUÐFINNUR SIGURÐSSON.

Fæddur við Icelandic River árið 1898. Foreldrar hans: Björn Sigurðsson frá Kirkjubóli í Fáskrúðsfirði og Jóhanna Antoníusardóttir, nú búandi að Hove P. O., Manitoba. Ellis gekk í herinn 29. maí 1918 og sigldi til Englands í júlí sama ár. Var þar við heræfingar, þegar stríðinu lauk. Kom aftur til Canada 13. júní 1919. Stundar nú landbúnað.

## EYVINDUR SIGURÐSSON.

Fæddur 12. desember 1892 í Björgvin við Dvergastein í N.-Múlasýslu. Faðir hans var Sigurður, sonur Sigurðar Sigurðssonar og Ragnhildar Pálsdóttur, hálfsystur Sigurðar í Haukadal í Biskupstungum, en móðir hans og kona Sigurðar er Anna, dóttir Guðmundar Sigurðssonar og Sigríðar Þorgeirsdóttur á Smærnavelli í Garði í Gullbringusýslu. Anna flutti frá Íslandi með börnum sínum til Winnipeg 17. júní 1905 og hefir fjölskyldan átt þar heima síðan. Eyvindur gekk í herinn 31. maí 1918. Fór áleiðis til Englands 28. júlí s. á. Var við heræfingar, er vopnahlé var sett. Kom til baka 28. júlí 1919. Leystur frá herþjónustu 4. ágúst. Hefir unnið hjá Ford bifreiðafélaginu síðan.



## GUÐMUNDUR SIGURÐSSON.

Er fæddur við Svold í Norður Dakota 8. marz 1896. Sonur þeirra Sigurðar Sigurðssonar og Elízabetar konu hans, er búa við Svold. Guðmundur var kvaddur í Bandaríkjaherinn 22. júlí 1918 og gekk í 42. sveit 14. herdeildar, og vann á aðalstöðvum hennar til stríðsloka. Hann er til heimilis hjá foreldrum sínum að Svold.

*HARALDUR SIGURÐSSON (sjá III).*

## JÓHANN SIGURÐSSON.

Er fæddur sunnan við Akra í Norður Dakota 18. janúar 1890. Foreldrar hans eru þau Benedikt Sigurðsson og Guðný Halladóttir frá Bessastaðagerði í Fljótsdal í Norður-Múlasýslu. Þau komu snemma á árum til bygðarinnar og hafa búið þar síðan. Jóhann var kvaddur í Bandaríkjaherinn 29. marz 1918 og innritaðist við 137. sveit 35. herdeildar. Með henni var hann þangað til ófriðnum sleit. Var veitt lausn frá herþjónustu ári síðar.



## JOHN SIGURÐSSON.

Er fæddur 11. nóvember 1889, en getur eigi hvar. Hann er sonur þeirra Sigurðar Sigurðssonar, bónda við Svold í Norður Dakota, og Elízabetar konu hans. John var kvaddur í Bandaríkjaherinn 8. ágúst 1918 og gekk í 135. herdeildina. Hann var við æfingar, þegar stríðinu lauk, tók því eigi þátt í orustum. Lausn fékk hann frá herþjónustu skömmu seinna.



## JÓNAS SIGURÐSSON.

Fæddur 18. júní 1897. Foreldrar hans: Björn Sigurðsson frá Kirkjubóli í Fáskrúðsfirði og Jóhanna Antoníusardóttir, búandi að Hove P. O., Manitoba. Jónas gekk í herinn 10. maí 1918 og sigldi til Englands 25. júlí sama ár. Mun hafa verið þar við heræfingar, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 20. júlí 1919. Stundar nú landbúnaðarvinnu.



## KRISTJÁN SIGURÐSSON.

Fæddur að Grund P. O., Manitoba, 8. febrúar 1895. Foreldrar: Kristján Sigurðsson frá Víðivöllum í Fnjóskadal í Suður-Þingeyjarsýslu og Jóhanna Björnsdóttir frá Pálsgerði í Höfðahverfi í sömu sýslu, nú búandi að Markerville í Alberta. Kristján gekk í herinn 13. maí 1918 og sigldi áleiðis til her stöðvanna í Evrópu þann 4. ágúst það sama ár. Hann mun ekki hafa verið kominn á vígvöll, þegar stríðinu lauk. Kom aftur til Canada í júnílok 1919. Stundar nú landbúnað.



KRISTJÁN SIGURÐSSON.

Fæddur að Geysir P. O., Manitoba, 28. febrúar 1890. Foreldrar: Sigurður Friðfinnsson og Kristrún Pétursdóttir, ættuð úr Hólasókn í Skagafirði. Kristján gekk í herinn 30. júlí 1918. Var við heræfingar í Winnipeg, þegar stríðið endaði.



MARVIN SIGURÐSSON.

Fæddur 21. marz 1896 í Glenboro, Manitoba. Foreldrar: Einar Sigurðsson og Sigurlaug Jónasdóttir, Bergssonar, frá Grunnavatni á Jökuldalsheiði, nú búandi í Minneota, Minnesota, U. S. A. Marvin gegndi herkalli 6. september 1918, en var ekki farinn úr landi, þegar stríðið endaði.



PÁLMI M. SIGURÐSSON.

Fæddur 18. júní 1887 á Seyðisfirði á Íslandi. Foreldrar: Magnús Sigurðsson frá Heyskálum í Hjaltastaðarþinghá og Stefanía Ketilsdóttir frá Bakkagerði í Borgarfirði austur; faðirinn fyrir löngu látinn, en móðir hans býr í Winnipeg. Pálmi gekk í herinn 7. febrúar 1918. Hann tók þátt í orustum við Raulens, Menin og Lille um haustið 1918. Kom til Canada 30. maí 1919. Stundar trésmíðavinnu í Winnipeg, Manitoba.

## PÉTUR AÐALSTEINN SIGURÐSSON.

Fæddur 9. marz 1887 í Lincoln County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Einar Sigurðsson frá Egilsstöðum í Vopnafirði og Elízabet Jónsdóttir frá Heiðarseli í N.-Múlasýslu, nú bæði dáin. Pétur gegndi herkalli 25. júní 1918. Var ekki sendur úr landi og leystur frá herþjónustu 16. janúar 1919. Pétur er handverksmaður og á heima í Minneota, Minn.



## RANDVER SIGURÐSSON.

Fæddur 18. febrúar 1889 að Svignaskarði í Mýrasýslu. Sonur Sigurðar Sigurðssonar frá Melkoti og Ragnheiðar Þórðardóttur frá Leirá í Borgarfjarðarsýslu. Randver gekk í herinn 7. janúar 1918. Í október það ár var hann kominn á vígvelli Frakklands og tók þar þátt í orustum til þess er vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 12 .júní 1919. Hann er múrari og stundar þá iðn í Winnipeg.



## SIGURÐUR H. SIGURÐSSON.

Fæddur að Baldur, Manitoba, 15. maí 1885. Foreldrar: Hjörtur Sigurðsson og María Sigurðardóttir, er bjuggu að Ingjaldsstöðum í Þingeyjarsýslu, en nú að Baldur P. O., Man. Sigurður gekk í herinn þann 20. maí 1918 og sigldi til Evrópu í júlí sama ár. Var við heræfingar á Englandi, þegar vopnahlé var sett. Kom heim aftur í júnílok 1919.

## SIGURÐUR JÓN TORFI SIGURÐSSON.

Fæddur 20. janúar 1891 í Pembina, N. D., U. S. A. Foreldrar: Séra Jónas A. Sigurðsson frá Ásbjarnarstöðum í Víðidal í Húnavatnssýslu og Oddrún Frímannsdóttir frá Helgavatni í Vatnsdal í sömu sýslu. Torfi gegndi herkalli 9. marz 1918. Var settur Sergeant við deild sína og skipaður til heræfingakenslu. Fór því aldrei úr landi. Hann var leystur frá herþjónustu í janúar 1919. Torfi er kvæntur ungfrú Hildu Westman. Þau eiga heima í Seattle, Wash., U. S. A., þar sem hann stundar verzlun, eins og áður en hann gekk í herinn.



## SIGURÐUR P. SIGURÐSSON.

Fæddur í Winnipeg 29. sept. 1892. Foreldrar: Páll Sigurðsson, úr Múlasýslum, og Sveinbjörg Einarsdóttir frá Seyðisfirði í Norður-Múlasýslu. Gekk í canadiska Tank-liðið 30. maí 1918. Fór til Englands þann 3. júní sama ár. Var við hernaðarstörf á Englandi, þegar stríðið endaði. Kom aftur til Canada 30. maí 1919. Hann er prentari.



## SIGURÐUR VICTOR SIGURÐSSON.

Fæddur að Hnausa P. O., Manitoba, 23. janúar 1895. Foreldrar: Stefán Sigurðsson, Erlendssonar, frá Stórulaugum í Helgastaðahreppi í Þingeyjarsýslu, og Valgerður Jónsdóttir frá Svarfhóli í Mýrasýslu. Sigurður gekk í canadiska flugliðið þann 8. maí 1918. Var við flugæfingar í Austur-Canada, þegar vopnahlé var sett. Kom heim aftur í desember 1918. Sigurður er kvæntur Kristínu Grace Bjarnadóttur, Marteinssonar. Stundar fiskiveiðar.



## VICTOR ARTHUR SIGURÐSSON.

Fæddur í Selkirkbæ í Manitoba 5. marz 1891. Foreldrar: Jón Sigurðsson, Jónssonar bónda á Hvalsá í Hrútafirði (nú löngu látinn), og Sigríður Helgadóttir, Hallgrímssonar, fyrrum bónda að Kristnesi í Eyjafirði. Victor gekk í herinn 9. janúar 1918 og hélt þá rakleiðis til herstöðvanna á Frakklandi og tók þar þátt í orustum við Amiens og Arras. Hann særðist þann 7. september 1918, og kom aftur til Canada í marz 1919, þá vinnufær, og stundar nú smíðavinnu.



## ROSMANN ÁRELÍUS SIGVALDASON.

Fæddur 18. ágúst 1896. Foreldrar: Sigvaldi Símonarson frá Núpi í Miðfirði í Húnavatnssýslu og Margrét Benediktsdóttir frá Aðalbóli í sömu sveit. Þau hjón fluttu til Ameríku 1887 og bjuggu lengst af við Framnes P. O., Manitoba. Sigvaldi nú dáinn. Rosmann gekk í canadiska sjóherinn í júlí 1918, en var leystur frá herþjónustu í maí 1919. Hann á heima hjá móður sinni að Framnes P. O.

## CHRISTIAN SIMPSON.

Er fæddur í Winnipeg haustið 1897. Faðir hans er Guðmundur Simpson, er vinnur við póstsendingar í þjónustu Canadastjórnar, sonur Sigurðar Guðmundssonar frá Áshildarholti í Skagafjarðarsýslu, og Ingibjargar Sveinsdóttur, er ættuð er úr Borgarfirði suður. Tók Guðmundur sér ættarnafnið Simpson. Kona Guðmundar en móðir Christians er Guðbjörg Sigmundsdóttir, ættuð af Vesturlandi. Christian var kvaddur í Canadaherinn 1918 og sendur til herstöðva. Þjónaði hann þar til stríðsloka. Var leystur frá herþjónustu árið 1919.

## JÓN PÉTURSSON SKJÖLD.

Er fæddur í Edinborg í Norður Dakota. Foreldrar hans eru þau Pétur Skjöld, fyrverandi kaupmaður að Hallson, Jónssonar, Péturssonar prests frá Valþjófsstað, og Sigurlaug Bjarnadóttir, nú önduð. Jón var kvaddur í Bandaríkjaherinn 5. febrúar 1918 og gekk í 326. sveit 82. herdeildar. Var sendur til Frakklands og tók þar þátt í orustum. Særðist í bardaganum við Meuse—Argonne 15. október 1918. Kom heim aftur að stríðinu loknu og var leystur frá herþjónustu 1919. Hann á heima á Mountain í Norður Dakota, þar sem faðir hans býr.



## GUÐMUNDUR VALDIMAR SNORRASON.

Fæddur 27. maí 1894 í Grafton, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Snorri Sigurðsson frá Klömbrum í Vesturhópi í Húnavatnssýslu og Skúlína Rósamunda Guðmundsdóttir, Ólafssonar prests á Hjaltabakka í Húnavatnssýslu, frá Múla í Aðal-Reykjadal í Suður-Þingeyjarsýslu, nú búandi að Grafton, Norður Dakota. Guðmundur gegndi herkalli 11. maí 1918. Tók ekki þátt í orustum. Var leystur frá herþjónustu 2. marz 1919. Er járnbrautarþjónn í Grafton, eins og áður en hann gekk í herinn.



## FRIÐÞJÓFUR EDWARD SNÆDAL.

Fæddur að Otto P. O., Manitoba, 26. júní 1893. Foreldrar: Nikulás Snædal, fæddur að Hvanná á Jökuldal, og Ragnhildur Einarsdóttir frá Ásgeirsstöðum í Eiðaþinghá. Friðþjófur gekk í herinn í marzmánuði 1918 og var nýskeð kominn til Frakklands, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada í júní 1919. Er verzlunarmaður í Steep Rock, Man.



## HERMANN KRISTJÁNSSON SNÆFELD.

Fæddur að Hnausa P. O., Manitoba, 18. júlí 1898. Foreldrar: Kristján Björnsson, ættaður úr Þistilfirði í Norður-Þingeyjarsýslu, og Björg Markúsdóttir, af Langanesi. Hermann gekk í herinn 3. maí 1918. Fékk lausn úr honum 25. ágúst sama ár.



## ÁRNI SOFFONÍASSON.

Fæddur 22. febrúar 1900 í Kelowna, British Columbia. Var námsmaður að Blaine, Wash., U. S. A., og hafði þar heimilisfang, þegar hann gegndi herkalli 12. október 1918. Foreldrar hans: Sveinbjörn Soffoníasson frá Bakka í Vallnahreppi í Eyjafjarðarsýslu og Snjólaug Runólfsdóttir frá Hreiðarsstöðum í sama hreppi. Árni var skipaður í sjólið Bandaríkjanna og samdi um þjónustu í því um fjögra ára skeið.



## ROBERT SOFFONÍASSON.

Fæddur 15. nóvember 1889 á Gimli í Manitoba. Vann á þakspónaverkstæði í Blaine, Wash., U. S. A., og var þar til heimilis, þegar hann gegndi herkalli 24. maí 1918. Foreldrar hans: Sveinbjörn Soffoníasson frá Bakka í Vallnahreppi í Eyjafjarðarsýslu og Snjólaug Runólfsdóttir frá Hreiðarsstöðum í sama hreppi. Robert var ekki sendur úr landi, en var skipaður til þjónustu við Lewis-heræfingastöðina, þar til hann fékk lausn frá herþjónustu í janúarmánuði árið 1919.



## HALLGRÍMUR JÓHANNSSON STADFELD.

Fæddur 9. febrúar 1897 að Stangarholti í Mýrasýslu. Foreldrar hans: Jóhann Guðmundsson frá Stangarholti og Ólína Kristín Jónsdóttir frá Staðarfelli í Dalasýslu. Hallgrímur gekk í canadiska sjóliðið þann 11. júní 1918, og starfaði með fram austurströndum Canada, þar til hann var leystur frá herþjónustu 15. júlí 1919. Heimili hans er að Howardville, Manitoba, þar sem hann stundar landbúnað og fiskiveiðar.

## ELÍAS STEFÁNSSON.

Er fæddur við Cavalierbæ í Norður Dakota 12. desember 1897. Foreldrar hans eru þau Sigurrós og Sigurgeir Stefánsson frá Miðvöllum í Lýtingsstaðahreppi í Skagafjarðarsýslu. Elías var kvaddur í Bandaríkjaherinn 1918, og var við heræfingar, er stríðinu lauk. Hann var því eigi sendur úr landi. Hann er til heimilis hjá foreldrum sínum við Cavalier í Norður Dakota.



## GUÐJÓN TH. STEFÁNSSON.

Fæddur að Austurhóli í Nesjum í Austur-Skaftafellssýslu 28. ágúst 1891. Sonur Þórarins Stefánssonar frá Hvammi í Lóni og Steinunnar Jónsdóttur frá Svínafelli í Öræfum. Hann bjó að Framnesi í Manitoba áður en hann gekk í herinn 31. júlí 1918, en fór ekki utan áður en stríðinu lauk og var leystur frá herþjónustu í janúar 1919. Hann býr nú á landi sínu að Framnes, Manitoba.



## INGI GUNNAR STEFÁNSSON.

Er fæddur í Norður Dakota. Foreldrar hans eru Ármann Stefánsson og Kristíana Kristjánsdóttir, bæði af eyfirzkum ættum. Bjuggu þau áður í íslenzku bygðinni í Norður Dakota, en eru nú bæði dáin. Ingi var kvaddur í Bandaríkjaherinn 1918. Var við hernaðarstörf til stríðsloka. Nákvæmari upplýsingar um hann hafa ekki fengist.

## INGI SIGURJÓN STEFÁNSSON.

Er fæddur 5. september 1898 við Mary Hill í Álftavatnsbygð í Manitoba. Foreldrar hans voru þau Stefán Björnsson frá Litla-Bakka í Hróarstungu (dáinn 1913), og Guðríður Björnsdóttir, Hannessonar. Ingi innritaðist í Canadaherinn rúmra 19 ára að aldri og var sendur til Frakklands. Þar var hann til stríðsloka. Hann kom heim aftur vorið 1919, og hefir stundað landbúnað síðan.



## PÁLL TH. STEFÁNSSON.

Fæddur að Árnanesi á Nesjum í Austur-Skaftafellssýslu 11. september 1885. Sonur Þórarins Stefánssonar frá Hvammi í Lóni og Steinunnar Jónsdóttur frá Svínafelli í Öræfum. Páll bjó að Framnesi í Manitoba áður en hann gekk í herinn 31. júlí 1918. Hann fór ekki utan áður en stríðinu lauk og var leystur frá herþjónustu í janúar 1919.

## SIGMUNDUR STEFÁNSSON.

Er fæddur við Cavalierbæ í Norður Dakota 18. maí 1899. Sonur þeirra hjóna Sigurrósar og Sigurgeirs Stefánssonar frá Miðvöllum í Lýtingsstaðahreppi í Skagafjarðarsýslu. Sigmundur var kvaddur í Bandaríkjaherinn snemma ársins 1918 og var innritaður í sjóliðið. Að stríðinu loknu vistaði hann sig áfram í sjóliðinu og var á herskipum vestur í Kyrrahafi. Hann druknaði af skipi, er hann var nýskipaður á snemma í ágústmánuði 1922. Lík hans var flutt heim og hann jarðsettur í íslenzku bygðinni í Norður Dakota, skamt frá æskuheimilinu.



## SIGURÐUR STEFÁNSSON.

Fæddur 5. október 1897 í Kirkjuskarði í Laxárdal í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Björn Stefánsson, Guðmundssonar, frá Kirkjuskarði, og Sigþrúður Jónasdóttir, Einarssonar, frá Köldukinn í Torfulækjarhreppi í Húnavatnssýslu. Sigurður átti heima í Selkirk, Man., og stundaði fiskiveiðar á Winnipegvatni áður en hann gekk í herinn í ágústmánuði 1918, en var ekki sendur úr landi, með því að stríðinu lauk í nóvember það ár.



## SIGURÐUR S. STEFÁNSSON.

Er fæddur við Cavalier í Norður Dakota 17. október 1892. Sonur Skúla Stefánssonar frá Miðvöllum í Lýtingsstaðahreppi í Skagafjarðarsýslu og konu hans Kristrúnar að nafni, sem ættuð er úr Eyjafirði. Sigurður var kvaddur í Bandaríkjaherinn 1. júlí 1918 og settur í fregnboðadeildina (116 Field Signal 41. division). Hann var leystur frá herþjónustu að stríðinu loknu.

## RÖGNVALDUR JÓNAS STEVENSON.

Er fæddur í Duluthbæ í Minnesotaríki 9. marz 1896. Sonur þeirra Sigmundar Stefánssonar, er ættaður er af Vesturlandi (úr Barðastrandarsýslu) og konu hans. Rögnvaldur var kvaddur í Canadaherinn 4. júlí 1918. Var hann þá til heimilis hjá foreldrum sínum við Kandahar, Sask., er þar búa. Hann var við heræfingar um sumarið, fyrst í Regina og síðar í Winnipeg. Hann fór eigi úr landi, en var leystur frá herþjónustu 4. janúar 1919. Hann vinnur nú við hveitikornsverzlun í þorpinu Cut-Knife, Sask.



## VALDIMAR STEINÓLFSSON.

Er fæddur 30. nóvember 1892 við Garðar í íslenzku bygðinni í Norður Dakota. Foreldrar hans eru þau Grímur Steinólfsson, Grímssonar, úr Borgarfirði suður, og Bjarngerður Þorsteinsdóttir, ættuð úr Borgarfirði suður; þau búa við Concrete í Pembina County í Norður Dakota. Valdimar var kvaddur í Bandaríkjaherinn 22. júlí 1918 og vann við aðalstöðvar 41. deildar stórskotaliðsins. Hann var leystur frá herþjónustu að stríðinu loknu.



## EINAR EGILL STEPHANSON.

Fæddur 18. desember 1894 að Tindastól P. O., Alberta. Foreldrar hans: Jósep Stephanson frá Hallfreðarstaðahjáleigu í Norður-Múlasýslu og Guðrún Messíana Jósíasardóttir frá Svertingsstaðaseli í Húnavatnssýslu, nú að Innisfail Alberta. Einar gekk í herinn 13. maí 1918 og var leystur úr honum 10. desember sama ár. Hann útskrifaðist af búnaðarskóla Albertafylkis árið 1914, og hlaut heiðursverðlaunapening skólans.



## MARVIN STONE.

Fæddur 17. marz 1894 í Yellow Medicine County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Guðjón Þorsteinsson Stone frá Grímsstöðum í Þingeyjarsýslu og Margrét Jónsdóttir á Tókastöðum í Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu. Marvin gegndi herkalli 28. maí 1918. Sigldi til Frakklands 8. ágúst sama ár. Tók þátt í orustu við Meuse—Argonne. Varð fyrir eiturlofti á vígvelli 17. október 1918. Leystur frá herþjónustu 20. maí 1919, þá vinnufær. Stundar nú landbúnað á búgarði foreldra sinna í Minnesota, eins og áður en hann gekk í herinn.



## BJÖRN STRAND.

Fæddur 2. nóvember 1891 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Jón Magnússon Strand frá Felli á Langanesströnd og Margrét Guðmundsdóttir, ættuð úr Fljótsdal, nú búandi í Minneota, Minn. Björn gegndi herkalli 7. apríl 1918. Sigldi til Frakklands 13. júní sama ár. Tók þátt í orustum við Oise, Aisne og Meuse—Argonne. Særðist ekki. Heim kominn 13. marz 1919. Er handverksmaður í Minneota.



## JOHN STRAND.

Fæddur 29. júní 1887 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Jón Magnússon Strand frá Felli á Langanesströnd og Margrét Guðmundsdóttir, ættuð úr Fljótsdal. John gegndi herkalli árið 1918, en var ekki sendur úr landi, og leystur frá herþjónustu í júní 1919. Hann er kvongaður og býr í Lewiston, Montana. Stundar mannvirkjafræði.



## JÓHANN FRANKLIN STRAUMFJÖRÐ.

Fæddur 4. apríl 1898 í Selkirk, Manitoba. Foreldrar: Jóhann Jóhannsson (Elíassonar) Straumfjörð frá Hrísdal í Snæfellsnessýslu, og Björg Kristjánsdóttir, Jóhannessonar, fædd í Eyjafirði. Jóhann var með foreldrum sínum í Blaine. Wash., U. S. A., og var vélstjóri á skipi, áður en hann gegndi herkalli 12. október 1918 og var skipaður í sjólið Bandaríkjanna. Var ekki farinn úr landi, þegar stríðið endaði, og leystur úr herþjónustu 22. desember 1918. Stundar siglingar.



## HENRY McLEOD SUMARLIÐASON.

Fæddur 1. júlí 1895 að Glenboro P. O., Manitoba. Foreldrar: Eiríkur Sumarliðason frá Bjarnastöðum í Mýrasýslu og Þorbjörg Jónsdóttir frá Draghálsi í Borgarfjarðarsýslu (nú dáin). Henry gekk í herinn 6. júlí 1918 og var skipaður í verkfræðingadeild hans, en var ekki kominn úr landi, þegar stríðinu lauk. Hann stundar nú búskap á landi sínu í í Saskatchewanfylki.



## ÁSMUNDUR SVEINSSON.

Fæddur 29. júlí 1893 að Akra, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Sigurður Sveinsson frá Seyðisfjarðarkaupstað og Margrét Ásmundsdóttir frá Parti í Húsavík í Norður-Múlasýslu. Ásmundur stundaði bifreiða-aðgerðir í Bantry, Norður Dakota, áður en hann gegndi þar herkalli 22. júlí 1918. Hann var ekki farinn úr landi, þegar vopnahlé var sett, og leystur frá herþjónustu 10. febrúar 1919. Stundar nú verzlunarstörf í Upham, Norður Dakota.



## GÍSLI J. SVEINSSON.

Fæddur að Thingvalla P. O., Sask., 29. september 1894. Sonur Jóns Sveinssonar, úr Gullbringusýslu, og Þóru Gísladóttur, úr Árnessýslu. Gísli gekk í herinn 16. febrúar 1918 og fór mánuði síðar áleiðis á orustusvæði Frakklands. Tók þátt í orustum þar og særðist einu sinni. Kom aftur til Canada í ágúst 1919, þá vinnufær, og stundar nú fyrri iðn sína að Markerville, Alberta.



## JÓHANN K. SVEINSSON.

Fæddur 12. júlí 1884 í Húsavík í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Sigurður Sveinsson frá Seyðisfjarðarkaupstað og Margrét Ásmundsdóttir frá Húsavík, nú búandi í Upham, Norður Dakota, U. S. A. Jóhann gegndi herkalli 22. júlí 1918. Var skipaður í vistastjórnardeildina. Sigldi til Frakklands 7. september 1918. Var leystur frá herþjónustu 4. júlí 1919. Stundar verzlun.



## VALDIMAR J. SVEINSSON.

Fæddur að Thingvalla P. O., Sask., 16. nóvember 1896. Foreldrar: Jón Sveinsson, ættaður úr Gullbringusýslu, og Þóra Gísladóttir, úr Árnessýslu, nú búandi að Markerville P. O., Alberta. Valdimar gekk í herinn 13. maí 1918, og lagði af stað á vígvöll Frakklands 10. ágúst sama ár. Hann var sæmdur heiðursmerki fyrir skothæfni. Kom aftur til Canada 11. ágúst 1919, og stundar nú landbúnað.

*CHRISTMANN SWANSON (sjá III).*




## SIGTRYGGUR Þ. THORARINSSON.

Fæddur 16. ágúst 1894 að Icelandic River, Man. Foreldrar: Þorvaldur Þórarinsson frá Skógum í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu og Helga Thómasdóttir, Jónassonar, frá Bakkaseli í Eyjafjarðarsýslu, nú búandi að Icelandic River, Man. Sigtryggur gekk í herinn 13. maí 1918, og vann um hríð sem kyndari á canadisku strandvarnarskipi við austurströnd Canada. Hann var leystur frá herþjónustu í desember 1918. Hann er kvæntur Kristínu Sigrúnu Williams.



## THORARINN Þ. THORARINSSON.

Fæddur að Icelandic River, Man., 2. marz 1896. Foreldrar: Þorvaldur Þórarinsson frá Skógum í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu og Helga Tómasdóttir, Jónassonar, frá Bakkaseli í Eyjafjarðarsýslu, nú búandi að Icelandic River. Thorarinn gekk í herinn 8. maí 1918, en fékk lausn úr honum tveim mánuðum síðar, eða 25. júlí 1918.



## LÁRUS TRYGGVI THORDARSON.

Fæddur 6. marz 1896 að Svold, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Jóhannes Þórðarson frá Prestshvammi í Suður-Þingeyjarsýslu og Jóhanna S. Friðbjörnsdóttir frá Skálanesi í Seyðisfirði; bjuggu áður að Svold, Norður Dakota. Lárus gegndi herkalli 8. marz 1918 og sigldi til Frakklands 30. júní það ár. Leystur frá herþjónustu 30. júní 1919.



## SIGURBJÖRN THORDARSON.

Fæddur 5. maí 1895 á Miðfjarðarnesi í Skeggjastaðahreppi í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Eggert Ólafur Þórðarson og Helga Kristín Hallfríður Ásbjörnsdóttir, móðirin dáin, en faðirinn býr í Mikley í Manitoba. Sigurbjörn gekk í herinn 28. júní 1918. Sigldi til Englands 16. júlí sama ár og var þar við heræfingar, þá er vopnahlé var sett. Hann kom aftur til Canada 2. júlí 1919. Dvelur nú í Mikley og stundar landbúnað og fiskiveiðar.



## SIGURÐUR S. THORDARSON.

Fæddur 12. desember 1886 á Þúfu í Út-Landeyjum í Rangárvallasýslu. Foreldrar: Sigurður Þórðarson frá Garðhúsum í Gullbringusýslu og Guðríður Eiríksdóttir frá Þúfu í Út-Landeyjum. Sigurður gegndi herkalli 29. maí 1918. Var ekki farinn úr landi, þegar vopnahlé var sett. Leystr frá herþjónustu 17. desember 1919. Sigurður vann að skósmíði í Seattleborg, Wash., U. S. A., áður en hann gekk í herinn.



## THORDUR GORDON THORDARSON.

Fæddur 30. júní 1895 í Mikley í Winnipegvatni, Manitoba. Foreldrar hans: Bergþór Þórðarson frá Ánabrekku í Borgarhreppi í Mýrasýslu og Kristjana Sigurðardóttir, Erlendssonar, frá Klömbrum í S.-Þingeyjarsýslu, nú búandi að Gimli, Man. Thordur gekk í canadiska sjóliðið 28. maí 1918, og vann með því við austurströnd landsins, þar til í desembermánuði sama ár, að hann fékk lausn frá frekari þjónustu. Hann er kvæntur og býr að Gimli, Man., og stundar smíðar.



## THORDUR V. THORDARSON.

Fæddur 31. ágúst 1897 í Áskoti í Melasveit í Borgarfjarðarsýslu. Sonur Vigfúsar Þórðarsonar frá Leirá í Borgarfirði og Kristínar Ólafsdóttur frá Sturlureykjum í Reykholtsdal í Borgarfjarðarsýslu. Thordur gekk í herinn 11. júní 1918, og sigldi til Englands mánuði síðar, en hafði ekki lokið heræfingum þar, þegar vopnahlé var sett. Hann kom aftur til Canada 24. júní 1919. Stundar nú landbúnað að Hove P. O., Manitoba.



## OSCAR JÓHANN THORGILSSON.

Fæddur í Winnipeg 7. september 1896. Foreldrar hans: Finnbogi Thorgilsson frá Rauðamel í Eyrarhreppi í Hnappadalssýslu og Hólmfríður Hallgerður Jónsdóttir frá Úlfarsfelli á Skógaströnd. Oscar gekk í herinn 12. marz 1918 og sigldi til Englands 10. apríl sama ár. Var við heræfingar á Englandi, þegar stríðinu lauk og kom aftur til Canada 5. marz 1919. Stundar nú landbúnað að Vestfold, Man.



## ÁRNI THORLACIUS.

Fæddur að Narrows P. O., Manitoba, 11. nóvember 1893. Foreldrar: Ólafur Thorlacius Helgason, Jónssonar frá Skarfsstöðum í Hvammssveit í Dalasýslu, og Guðrún Daðadóttir, Magnússonar, frá Smyrsholti í Haukadal í Dalasýslu. Árni gekk í herinn 3. apríl 1918 og sigldi til Evrópu 10. sama mánaðar. Var við æfingar á Englandi, þegar stríðið endaði. Kom aftur til Canada 24. júní 1919. Stundar landbúnað með foreldrum sínum að Dolly Bay P. O., Man.



## BÚI THORLACIUS.

Fæddur að Narrows P. O., Manitoba, 19. febrúar 1897. Foreldrar: Ólafur Thorlacius Helgason, Jónssonar, frá Skarfsstöðum í Hvammssveit í Dalasýslu, og Guðrún Daðadóttir, Magnússonar, frá Smyrsholti í Haukadal í Dalasýslu. Búi gekk í herinn 10. maí 1918. Fór til Evrópu í júlí það ár. Var við æfingar á Englandi, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 24. júní 1919. Stundar landbúnað með foreldrum sínum að Dolly Bay P. O., Manitoba.



## DONALD GORDON ROSS THORLAKSSON.

Fæddur í Selkirk, Manitoba, 2. júlí 1901. Foreldrar: Magnús Þorláksson, fæddur í Hrísey á Eyjafirði, og Hallgerður Benediktsdóttir, ættuð úr Hjaltastaðarþinghá. Donald gekk í herinn 11. október 1918. Var skipaður í riddaradeild í Ontariofylki. Kom aftur 2. janúar 1920.



## FRIÐJÓN THORLEIFSSON.

Fæddur 22. júní 1897 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Gamalíel Þorleifsson frá Hömrum í Eyjafirði og Katrín Tómasdóttir frá Ási á Þelamörk í Eyjafirði, nú búandi að Garðar, Norður Dakota. Friðjón gegndi herkalli 31. ágúst 1918, en var ekki farinn úr landi, þegar vopnahlé var sett. Leystur frá herþjónustu 27. janúar 1919. Stundar landbúnað.

## LÁRUS THORLEIFSSON.

Yngsti sonur þeirra hjóna Einars Thorleifssonar frá Hrjót í Fljótsdalshéraði og Guðrúnar Sigfúsdóttur frá Njarðvík austur, Sigurðssonar, Jónssonar prests á Eiðum í Suður-Múlasýslu. Þau búa við Stony Hill í Manitoba. Lárus mun fæddur á Íslandi. Hann var kvaddur í Canadaherinn 1918 og var um tíma í Mintoherbúðunum í Winnipeg. Þar veiktist hann og var þá veitt heimfararleyfi. Kvaddur var hann aftur til herþjónustu um haustið, en þótti enn eigi nógu hraustur og var því veitt lausn frá frekari herkvöð. Tveir bræður hans voru í hernum: Sigfús, dó af sárum 19. maí 1918, og Thorleifur, er særðist og kom heim 1918.



## THEODORE THORLEIFSSON.

Fæddur 23. desember 1891 að Garðar, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Gamalíel Þorleifsson frá Hömrum í Eyjafirði og Katrín Tómasdóttir frá Ási á Þelamörk í Eyjafirði, búandi að Garðar, Norður Dakota. Theodore gegndi herkalli 8. maí 1918; gekk í sjóliðið og var skipaður bátsformaður. Var ekki sendur frá Bandaríkjunum og leystur frá herþjónustu 20. febrúar 1919. Stundar landbúnað.



## AXEL THORSTEINSSON.

Fæddur í Reykjavík á Íslandi 5. marz 1895. Foreldrar: Steingrímur Thorsteinsson skáld og Birgitta Guðríður Eiríksdóttir, nú bæði dáin. Axel gekk í herinn 17. júní 1918 og hélt til Evrópu 5 vikum síðar. Var við heræfingar á Englandi um tíma, en á vígvöll var hann kominn mánuði fyrir stríðslok, og var í Mons um það leyti. Var því sendur með herdeild sinni að Rín á eftir Þjóðverjum. Hann kom aftur til Canada í maí 1919. Axel er giftur konu að nafni Jeanne af belgiskum ættum.



## CHESTER O. THORSTEINSSON.

Fæddur 19. janúar 1898 í Lyon County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Þorsteinn Þorsteinsson frá Brimnesi í Fáskrúðsfirði og Guðný Þorkelsdóttir frá Glúmsstöðum í Fljótsdal í Norður-Múlasýslu. Chester gegndi herkalli 23. febrúar 1918 og sigldi til Frakklands 17. ágúst sama ár. Þjónaði þar að hergagnaflutningum, þar til hann var leystur frá herþjónustu 2. júní 1919.



## ELMER STEPHEN THORSTEINSSON.

Fæddur 28. júní 1895 í Lyon County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Þorsteinn Þorsteinsson frá Brimnesi í Fáskrúðsfirði og Guðný Þorkelsdóttir frá Glúmsstöðum í Fljótsdal í Norður-Múlasýslu. Elmer gegndi herkalli 25. júní 1918. Sigldi til Frakklands 10. september sama ár. Tók þátt í Meuse—Argonne orustunni miklu. Særðist ekki. Kom heim aftur 2. júní 1919. Hann stundaði landbúnað áður en hann gekk í herinn.

## ERLENDUR HJÁLMUR OCTAVIUS THORSTEINSSON



Fæddur 9. október 1899 í Lincoln County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Eiríkur Magnússon, Þorsteinssonar frá Heykollsstöðum í Hróarstungu og Guðrún Eiríksdóttir frá Heykollsstöðum. Þau hjón bjuggu á Ormsstöðum í Eiðaþinghá, fóru þaðan til Ameríku 1878. Erlendur var við háskólanám í Minneapolis, er hann gegndi herkalli í febrúar 1918 og gekk í sjóliðið, þar sem hann stundar loftskeyta- og sæsímastörf. Var sendur til Harvardháskólan s til náms í þeim greinum og útskrifaðist þaðan í sept. Var þá skipaður kennari í þeim fræðum, en síðar settur til njósna um skipaferðir ofan sjávar eða neðan. Í marz 1919 var hann skipaður loftskeytastjóri á kafbáti, og loks settur til að reyna nýjar uppfyndingar í sambandi við fræðigrein sína. Leystur frá herþjónustu í ágúst 1919, og stundar nú nám í rafmagnsfræði við háskólann.



## JOHN THORSTEINSSON.

Fæddur 26. desember 1893 í Lyon County, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Þorsteinn Þorsteinsson frá Brimnesi í Fáskrúðsfirði og Guðný Þorkelsdóttir frá Glúmsstöðum í Fljótsdal í Norður-Múlasýslu. John gegndi herkalli 23. febrúar 1918. Sigldi til Frakklands 17. ágúst það ár. Tók ekki þátt í orustum. Kom heim aftur 12. júní 1919. Stundar trésmíðar.



## NJÁLL TH. THORSTEINSSON.

Fæddur í Winnipeg, Manitoba, 19. nóvember árið 1897. Sonur Bernhards H. L. Thorsteinssonar frá Reykjavík á Íslandi og Þóru Bergsteinsdóttur frá Torfastöðum í Fljótshlíð í Rangárvallasýslu. Þau hjón búa í Vancouver, B. C., og hjá þeim var sonur þeirra og vann sem bryti, áður en hann gekk í fluglið Canadahersins í maí 1918. Hann var leystur frá herþjónustu í desember sama ár.



## ÓLAFUR BJARNI THORSTEINSSON.

Fæddur 12. marz 1896. Foreldrar: Vilhjálmur Thorsteinsson og Valgerður Jónsdóttir. Ólafur gegndi herkalli 5. september 1918 og sigldi samdægurs til Frakklands. Var leystur frá herþjónustu 13. janúar 1919. Ólafur vann að landbúnaði að Hallson, Norður Dakota, áður en hann gekk í herinn og stundar enn sömu vinnu.



ÓLAFUR SÓFFONÍAS THORSTEINSSON (Ole Oliver).

Fæddur 8. ágúst 1893 að Pembina, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Þorsteinn Ólafsson, Þorsteinssonar frá Tungu í Grafningi, og Anna Jónasdóttir, ættuð úr Skagafirði. Ólafur gegndi herkalli 27. maí 1918. Tók þátt í orustu við Argonne—Meuse. Var leystur frá herþjónustu 18. maí 1919.



THORSTEINN J. THORSTEINSSON.

Fæddur 18. nóvember 1893 að Miðgrund í Skagafjarðarsýslu. Foreldrar: Jón Helgi Júlíus Thorsteinsson og Albertína Arnþrúður Jónsdóttir, bæði ættuð úr Skagafirði, nú búandi að Geysir P. O., Man. Thorsteinn gekk í herinn seint í maí 1918. Aðrar upplýsingar ekki fáanlegar um hann. Býr með foreldrum sínum í Geysisbygð.



BJARNI THORVALDSSON

Fæddur 3. marz 1895 að Urriðaá í Mýrasýslu á Íslandi. Foreldrar: Jón Þorvaldsson frá Urriðaá og Sólveig Bjarnadóttir frá Arnarstapa í sömu sýslu; Jón dáinn, en Sólveig búandi að Suffren P. O., Man. Bjarni gekk í herinn í júlí 1918. Var ekki sendur úr landi. Býr nú með móður sinni sem fyr.



## ÓLAFUR KRISTINN THORVALDSSON.

Er fæddur að Akra í Norður Dakota 17. apríl 1894. Sonur Stígs kaupmanns að Akra, Þorvaldssonar bónda í Kelduskógum á Berufjarðarströnd, Stígssonar, og Þórunnar, dóttur fyrverandi alþingismanns og Únítaraprests Björns Péturssonar frá Hallfreðarstöðum í Norður-Múlasýslu, og fyrri konu hans Ólavíu Ólafsdóttur prests á Kolfreyjustað. Indriðasonar. Ólafur var kvaddur í Bandaríkjaherinn 28. marz 1918, og var við störf af ýmsu tagi við aðalstöðvar (Headquarters) 137. sveitar 35. deildar fótgönguliðsins, alt fram til stríðsloka.



## SIDNEY T. THORVALDSSON.

Er fæddur að Mountain í Norður Dakota 14. júnímánaðar. Sonur Elisar kaupmanns að Mountain, Þorvaldssonar frá Kelduskógum á Berufjarðarströnd, Stígssonar, og Hallfríðar Sigurbjörnsdóttur, Guðmundssonar, úr Suður-Múlasýslu. Sidney gekk í háskólahersveit Norður Dakota-ríkis í Grand Forks 7. október 1918, en fór aldrei úr landi, því að skamt var þá eftir unz friður var saminn.



## WILMAR PÉTUR THORVALDSSON.

Er fæddur að Akra í Norður Dakota 19. júlí 1892. Sonur Stígs kaupmanns að Akra, Þorvaldssonar bónda í Kelduskógum á Berufjarðarströnd, Stígssonar. Móðir Wilmars en kona Stígs er Þórunn, dóttir fyrverandi alþingismanns og Únítaraprests Björns Péturssonar frá Hallfreðarstöðum í Norður-Múlasýslu og fyrri konu hans Ólavíu Ólafsdóttur prests á Kolfreyjustað, Indriðasonar. Wilmar var kvaddur í Bandaríkjaherinn 1. júlí 1918 og skipaður heræfingakennari í Grand Forks. Lausn fékk hann frá herþjónustu að stríðinu loknu.



## WILMAR T. THORVALDSSON.

Er fæddur að Mountain í Norður Dakota 5. júlí 1895. Sonur Elisar kaupmanns að Mountain, Þorvaldssonar frá Kelduskógum á Berufjarðarströnd, Stígssonar, og Hallfríðar Sigurbjörnsdóttur, Guðmundssonar, úr Suður-Múlasýslu. Wilmar innritaðist við hjúkrunarsveit Bandaríkjahersins 7. október 1918, en var ekki sendur úr landi.



## HERMANN ÁSGEIR THORVARDSSON.

Fæddur í Hörðudal í Dalasýslu 2. desember. Foreldrar: Hallur Þorvarðarson frá Leikskálum í Dalasýslu og Margrét Árnadóttir, ættuð úr Rangárvallasýslu. Hermann gekk í herinn 15. júní 1918. Kom aftur til Canada 9. maí 1919. Hann stundar landbúnað í Bifröstsveit í Manitoba. Er kvæntur Sesselju Sigríði Jóhannesson.




## ÞÓRÐUR ÞÓRÐARSON TÓMASSON.

Fæddur 15. maí 1887 á Rauðafelli undir Eyjafjöllum á Íslandi. Foreldrar: Þórður Tómasson og Guðrún Tómasdóttir, sem bjuggu að Rauðafelli. Þórður gekk í canadiska sjóherinn 15. apríl 1918 og þjónaði á skipinu "Niobe" við austurstrendur Canada, þar til í janúar 1919, að hann var leystur frá herþjónustu. Hann er trésmiður að iðn og stundar þá atvinnu í Winnipeg.



## BJARNI VIGFÚSSON.

Fæddur í Mikley, Man., 8. nóvember 1888. Sonur Vigfúsar Bjarnasonar frá Hlíð í Hrunamannahreppi í Árnessýslu og Guðrúnar Ólafsdóttur frá Hildarseli í sama hreppi, nú búandi að Howardville, Man. Bjarni gekk í herinn 7. maí 1918. Sigldi til Englands 25. júlí það ár, en kom heim aftur 12. september sama ár. Stundar nú landbúnað.



## Flugstjóri VALDIMAR ALFRED VIGFÚSSON.

Fæddur 5. apríl 1895 að Tantallon P. O., Sask. Foreldrar: Narfi Vigfússon og Anna Vigfúsdóttir, bæði ættuð úr Gullbringusýslu á Íslandi. Þau hjón fluttu til Canada árið 1887. Valdimar stundaði nám við Wesley College í Winnipeg, en útskrifaðist frá háskólanum í Saskatoon, Sask. Hann gekk í flugherinn í apríl 1918, og var við flugæfingar í Canada, þegar stríðið endaði. Hann vinnur nú að jarðrækt.



## EGILL VOPNI.

Fæddur 7. marz 1895 í Seattle, Wash., U. S. A. Foreldrar: Hjálmar Arngrímsson frá Mælifelli, og síðar Skógum í Vopnafirði, og Hólmfríður Jónasdóttir, Jónassonar, frá Krossi í Ljósavatnsskarði í Suður-Þingeyjarsýslu. Egill gegndi herkalli 25. maí 1918. Sigldi til Frakklands 5. júlí 1918. Tók þátt í orustunni miklu um Argonneskóginn. Særðist þar 9. október, og lá í sárum, þegar vopnahlé var sett. Leystur frá herþjónustu 4. maí 1919. Egill er húsgagnasmiður og stundar þá iðn í Seattleborg.



## BJÖRGVIN WESTDAL.

Fæddur í Yellow Medicine County, Minnesota, U. S. A., 25. ágúst 1895. Foreldrar: Ásgrímur Guðmundsson frá Felli í Vopnafirði og Guðný Runólfsdóttir frá Snjóholti í Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu. Björgvin gegndi herkalli 26. apríl 1918. Var skipaður í verkfræðingadeild og sigldi með henni til Frakklands 5. júní 1918. Tók þar þátt í orustum við St. Mihiel og Meuse—Argonne. Særðist ekki. Var í för með Bandaríkjamönnum inn á Þýzkaland. Var leystur frá herþjónustu 26. júní 1919. Björn er trésmiður og stundar nú þá iðn.

*DAVÍÐ ALBERT WESTMANN (sjá III).*



## SIGURÐUR FRIÐRIK WESTMAN.

Fæddur í Hamiltonbæ í Norður Dakota, U. S. A., 21. júní 1894. Foreldrar: Salman Westman Jóhannesson, Jónssonar, frá Blámýri í Ögursveit í Ísafjarðarsýslu, og Rósa Vigfúsdóttir, Hallssonar, frá Krossi við Ljósavatn í Suður-Þingeyjarsýslu. Sigurður gekk í herinn 9. maí 1918. Fékk lausn frá herþjónustu 31. janúar 1919. Hann vinnur að prentiðn.



## VIGFÚS FRÍMANN WESTMAN.

Fæddur í Hamiltonbæ í Norður Dakota, U. S. A., 5. ágúst 1892. Foreldrar: Salman Westman Jóhannesson, Jónssonar, frá Blámýri í Ögursveit í Ísafjarðarsýslu, og Rósa Vigfúsdóttir, Hallssonar, frá Krossi við Ljósavatn í Suður- Þingeyjarsýslu. Vigfús gekk í herinn 26. febrúar 1918 og fékk lausn úr honum 8. janúar 1919. Hann er kvæntur Kristbjörgu Markússon og stundar verzlun.



## KARL WILLIAM WILSON.

Fæddur 5. júní 1893. Foreldrar: Sigurður Erlendsson frá Grundarkoti í Laxárdal í Húnavatnssýslu og Metonía Indriðadóttir frá Marbæli í Óslandshlíð í Skagafjarðarsýslu. Karl gekk í herinn í ársbyrjun 1918, og var við heræfingar vestan hafs fram að þeim tíma, er vopnahlé var sett. Hann stundar mest íþróttir. Hann er kvæntur ungfrú Sarah Jones.



## ELÍAS PÉTURSSON WOGEN.

Fæddur 1. ágúst 1892. Sonur Péturs Snorrasonar frá Hákonarstöðum á Jökuldal og Elízabetar Jónsdóttur frá Vogum í Vopnafirði. Elías gekk í 16. herd. 15. janúar 1918 og sigldi mánuði síðar til Englands. Var þar við heræfingar, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 7. júlí 1919. Stundar bændavinnu að Glenboro, Man.



## JÚLÍUS JÓNSSON WOGEN.

Fæddur 12. júlí 1879 að Vogum í Vopnafirði. Foreldrar hans: Jón Jónsson og Katrín Árnadóttir frá Vogum í Vopnafirði. Júlíus gekk í herinn 24. apríl 1918 og sigldi til herstöðvanna mánuði síðar. Hann tók þátt í orustum við Cambrai, Daoi og Mons. Særðist ekki. Fór til Þýzkalands með deild sinni að vopnahlé fengnu og var þar um tíma. Kom aftur til Canada 10. maí 1919. Stundar landbúnað að Glenboro, Man.



EIRÍKUR ÞÓRÐARSON.

Fæddur 23. apríl 1896 í Stíflisdal í Þingvallasveit í Árnessýslu. Sonur Jóns Þórðarsonar og Helgu Eiríksdóttur frá Gjábakka í sömu sveit, nú búandi að Sinclair, Man. Eiríkur gekk í herinn 3. maí 1918. Sigldi til Englands 25. júlí það ár, og var þar, þegar vopnahlé var sett. Kom aftur til Canada 24. júní 1919.



# Hjúkrunarkonur.

## 1915 – 1918.



Ungfrú THORA EMELY LONG.

Fædd að Hólum í Norðfirði, Suður-Múlasýslu, 13. marz 1888. Foreldrar: Jón Matthíasson Long og Pálína Sveinsdóttir, fædd að Hólum í Norðfirði. Ungfrú Thora var lærð hjúkrunarkona og stundaði þá iðn í Humbolt, Sask. Hún gekk í hjúkrunarlið Canadahersins í október 1915. Var skipuð yfirhjúkrunarkona árið 1916 á hermannaspítala í Suður-Wales á Englandi, og síðar skipuð yfirumsjónarkona um 15 mánaða tíma á Rauða Kross spítala í Southsea á Englandi. Hún hlaut sæmdarvottorð frá herstjórninni fyrir mjög mæta þjónustu, um leið og hún fékk heimfararleyfi 30. apríl árið 1919.



## Ungfrú INGA JOHNSON.

Fædd 17. október 1880 að Húsavík, Man. Foreldrar: Jón Sigurjónsson, Jónssonar, frá Einarsstöðum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu og Sigurlaug Gísladóttir frá Starrastöðum í Skagafirði. Ungfrú Johnson var lærð hjúkrunarkona og hafði gegnt vandasömum stöðum um fleiri ára bil á aðal-sjúkrahúsi Winnipegborgar áður en hún gekk í hjúkrunarlið Canadahersins 26. júlí 1916. Hún sigldi til Englands 13. ágúst það ár og var tafarlaust skipuð til þjónustu í nr. 1 spítala Canadahersins á Frakklandi, þar til 28. júlí 1917, að hún var skipuð til yfirumsjónar á nr. 4. "Casualty Clearing" stöð hersins. Þar þjónaði hún, þar til henni var veitt heimfararleyfi 7. apríl 1919. Starfssvið hennar var á Frakklandi og í Belgíu, og svo var starf hennar metið, að hún var sæmd því verðmætasta heiðursmerki, sem herstjórn Breta veitir hjúkrunarkonum. Stjórn Belgíu sæmdi hana einnig þess lands verðmætasta heiðursmerki, er hjúkrunarkonum er þar veitt.



## Ungfrú BJÖRG THORSTEINSSON.

Fædd 30. apríl 1888 á Ísafirði. Foreldrar: Jón Þorsteinsson frá Barmi í Gufudalssveit í Barðastrandarsýslu og Markúsína Kristjánsdóttir frá Borg í Arnarfirði í Ísafjarðarsýslu, nú búandi að Kandahar, Sask. Ungfrú Thorsteinson var lærð hjúkrunarkona og hafði atvinnu við sjúkrahús í Watrous, Sask., áður en hún gekk í hjúkrunarlið brezka hersins í sept. 1916. Sigldi til Englands 7. október það ár og þjónaði árlangt á herspítala í Birmingham og síðar um 18 mánaða tíma í canadiska hjúkrunarliðinu í Bramshott-herbúðunum á Englandi, þar til henni var veitt heimfararleyfi 19. maí 1919. Er nú aðal-eftirlitskona með sjúkraherbergjum hermanna í aðalsjúkrahúsi Winnipegborgar.



## Ungfrú SIGURLÍNA JÚLÍANA S. THOMPSON.

Fædd 16. desember 1892 í Grafton, Norður Dakota, U.S.A. Foreldrar: Sigurður Tómasson frá Álftanesi í Gullbringusýslu og Ólafía Pálína Einarsdóttir frá Kolfreyjustað í Fáskrúðsfirði, nú búandi að Grafton, N. D. Ungfrú Sigurlína lauk fullnaðarprófi í hjúkrunarfræði við Minnesotaháskóla árið 1915. Hún gekk í hjúkrunarlið Bandaríkjahersins 18. desember 1917. Sigldi til Frakklands í júní 1918. Þjónaði þar á ýmsum her-sjúkrahúsum Bandaríkjamanna og síðast á móttökuhúsum þeirra, sem tóku þátt í og særðust í áhlaupaorustum þeirra móti Þjóðverjum við Chateau—Thierry, St. Mihiel og í Argonneskógi, og var síðast send með Bandaríkjahersveitum til Rín á Þýzkalandi, þar sem hún þjónaði, þar til hún fékk heimfararleyfi í júnímánuði 1919.



Húsfrú THORA PAULSON ALBERT.

Fædd í Winnipeg 25. janúar 1889. Foreldrar: W. H. Paulson, þingm. í Saskatchewanfylki, frá Hofi í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu og Jónína Margrét Nikulásdóttir, Jónssonar, úr Seyðisfjarðarkaupstað. Thora var háskólagengin og starfaði við bókhlöðu Saskatchewanfylkis áður en hún gekk í hjúkrunardeild Canadahersins. Hún fór til Englands 19. janúar 1918 og vann að hjúkrun sjúkra og særðra hermanna, þar til hún fékk heimfararleyfi 30. desember 1919. Hún giftist Lieut. W. Alfred Albert 10. janúar 1920. Þau hjón eru til heimilis í Winnipeg.



Ungfrú CECELÍA STEINUNN EYJÓLFSSON.

Fædd 5. febrúar 1888 í Edinburgh, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Stefán Eyjólfsson, Magnússonar, frá Unaósi í Norður-Múlasýslu, og Guðrún Þorláksdóttir, Björnssonar, frá Fornhaga í Eyjafjarðarsýslu, nú búandi að Edinburg. Ungfrú Cecelía hafði stundað bústjórnarvísindi og útskrifast í þeirri grein frá búnaðarskóla Norður Dakota. Hún gekk í hjúkrunarlið Bandaríkjahersins, sem námsmey í hjúkrunarfræði, 22. nóvember 1918 og var skipuð til þjónustu í Grant-herbúðunum, til þess að dvelja þar við nám og æfingar, unz námsskeiðinu lyki, í júní 1921.



Ungfrú SIGRÍÐUR GILBERTSSON.

Fædd 6. desember 1890 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Sturlaugur Guðbrandsson frá Hvítadal í Dalasýslu og Áslaug Guðmundsdóttir frá Brekku í Barðastrandarsýslu. Ungfrú Sigríður var lærð hjúkrunarkona, þegar hún gekk í hjúkrunarlið Rauða Krossins, í Fort Snelling, Minnesota, 16. september 1918, þar sem hún þjónaði, þar til henni var veitt heimfararleyfi 23. ágúst 1919.



Ungfrú SOFFÍA RAGNHEIÐUR GUÐMUNDSDÓTTIR.

Fædd 7. marz 1894 að Geysir P. O., Manitoba. Foreldrar: Guðmundur Guðmundsson, Jónssonar, og Óskar Guðmundsdóttur, sem bjuggu að Torfalæk á Ásum í Húnavatnssýslu, og Margrét Jónsdóttir (hreppstjóra) og Óskar yfirsetukonu Ólafsdóttur, sem bjuggu að Sauðárdalsá í Húnavatnssýslu, og síðar um langt skeið að Geysir P. O. Ungfrú Soffía var lærð hjúkrunarkona og hafði haft æfingu á sjúkrahúsum í St. Boniface og Winnipeg áður en hún gekk í hjúkrunarlið Canadahersins í janúar 1918. Hún fór til Englands í október það ár og þjónaði á herspítala þar, unz hún fékk heimfararleyfi í maímánuði 1919 . Hún stundar sömu iðn síðan hún kom aftur til Canada.



Húsfrú ELLA ALBERTSDÓTTIR RASK.

Fædd 9. apríl 1894 í Minneota, Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Albert Jónsson frá Breiðumýri í Vopnafirði í Norður-Múlasýslu og Ágústa Grímsdóttir frá Krossavík í sömu sveit. Nú búandi í Minneota, Minn. Ella var lærð hjúkrunarkona, þegar hún gekk í hjúkrunarlið Bandaríkjahersins í septemberbyrjun 1918, og var skömmu síðar skipuð til þjónustu á hermannaspítala í Tremont-herbúðunum í Palo Alto í California. Eftir tveggja mánaða starf þar var henni veitt lausn úr herþjónustu í árslok 1918. Hún giftist vorið 1919 herra P. S. Rask. Þau hjón eiga heima í Minneapolisborg í Minnesota.



Ungfrú KRISTJANA ÓLAFSSON.

Fædd 29. október 1881 í Hnappadalssýslu á Íslandi. Foreldrar: Kristján Ólafsson og kona hans. Kristjana var lærð hjúkrunarkona og gekk í hjúkrunarlið Bandaríkjahersins 19. ágúst 1918. Var skipuð til þjónustu á herspítala í Fort Sill herbúðunum í Oklahomaríki, og þaðan send til Frakklands í nóvember 1918. Þar þjónaði hún í herbúðum Bandaríkjahersins um 6 mánaða skeið, var þá send til Coblenz á Þýzkalandi og þjónaði þar í herbúðum Bandaríkjanna um 5 mánaða tíma. Hún var leyst frá þjónustu 9. janúar 1920.



Ungfrú KRISTBJÖRG SAMSON.

Fædd í Cavalier, Norður Dakota, U. S. A. Foreldrar: Jón Samson (stjúpfaðir hennar) Jónasson, Jónssonar alþingismanns, Samsonsonar frá Keldudal í Hegranesi, og Guðbjörg Ólafsdóttir frá Búð í Rangárvallasýslu. Hún var lærð hjúkrunarkona og vann við Almenna sjúkrahúsið í Winnipeg áður en hún gekk í hjúkrunardeild Canadahersins 18. febrúar 1918. Hún fór til Englands 1. júní 1918 og þjónaði þar við einn af herspítölum Canadahersins, þar til henni var veitt heimfararleyfi í júlímánuði 1919. Hún stundar nú hjúkrunarstörf í Winnipeg.



Húsfrú DÓRA TRUEMNER.

Fædd 22. febrúar 1894 í Pembina, Norður Dakota, U. S. A Foreldrar: Björn Frímann Josephson frá Gili í Svartárdal í Húnavatnssýslu og Soffía Halldórsdóttir, Rögnvaldssonar frá Brekku í Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu. Dóra nam hjúkrunarfræði við Almenna sjúkrahúsið í Winnipeg og útskrifaðist þaðan árið 1917. Hún gekk í canadiska hjúkrunarliðið 18. janúar 1918 og þjónaði á Tuxedo herspítalanum í Winnipeg til 1. júní 1918, þegar hún fór til Englands. Hún var skipuð til þjónustu á canadiska herspítalanum nr. 15, Taplow, Buckingham á Englandi, og starfaði þar fram til 14. júní 1919, að hún fékk heimfararleyfi. Heimili hennar er að Richlea, Sask. Hún er gift John Truemner, af þýzk-amerískum ættum, frá Cavalier í Norður Dakota.



Ungfrú HILDA WINNIFRED VOPNI.

Fædd 12. apríl 1897 í Seattleborg í Washingtonríki, U.S.A. Foreldrar: Hjálmar Arngrímsson frá Mælifelli (síðar Skógum) í Norður-Múlasýslu og Hólmfríður Jónasdóttir frá Krossi í Ljósavatnsskarði í Suður-Þingeyjarsýslu. Hilda er háskólalærð og hafði einnig útskrifast í hjúkrunarfræði árið 1916, þá 19 ára gömul. Tók þá strax að stunda hjúkrunarstörf, fyrst í Seattle og síðar í Wichita, Kansas. Var þar skipuð yfirhjúkrunarkona. Þar gekk hún í þjónustu Rauða Kross félagsins og sigldi til Frakklands 1. júlí 1918. Þjónaði þar á herspítala í Limogene og síðar í Beau Desert Boreaux, þar sem voru 30,000 rúm. Eftir nokkra þjónustu þar, og að vopnahlé fengnu, ferðaðist hún til Parísar, og þaðan um austursvið Frakklands. Hún kom aftur til Bandaríkjanna í júnímánuði 1919.

 

# Viðbætir.

 



Chris Paulson



Gordon Goodman (1916)
Bls. 139.



Sig. S. Eiríksson (1917).
Bls. 263.

Myndir þessar komu of seint til þess að þeim yrði komið í rétta tímaröð í bókinni, eru því settar hér. Að öðru leyti vísast til æfiágripanna að framan.



## AUKASKRÁ.

Nöfn, heimilisfang og herdeildarnúmer nokkurra Íslendinga, sem vissa er fyrir að voru í hersveitum sambandsþjóðanna, en engar upplýsingar hafa fengist um. Heimilisstaður er tilfærður eftir hermálaskýrslunum, og getur því eins hafa verið um það leyti heimilisfang nánustu ættmenna, en eigi hermannsins sjálfs. Þá skal og athugað, að þrátt fyrir aukaskrá þessa, er engin vissa fengin fyrir því, að með henni séu allir taldir. Miklu fremur líkur fyrir hinu, að enn vanti marga. Bygðir Íslendinga standa svo dreift um álfuna, að með öllu varð það óvinnandi verk, að ná upplýsingum um alla. Þá er og þess að geta líka, að sökum nafnabreytinga — íslenzku nöfnin víða færð undir enska stafsetningu eða al-enskuð, og skírnarheiti skammstöfuð — varð erfitt að glöggva íslenzku nöfnin frá hinum, og heldur en að leiða að því getur einar, var þeim slept.

A. ABRAHAMSSON, Pipestone, Sask., 100. hersveit.

A. H. ANDERSON, 11. varaliðssveit.

CHRISTIAN ANDERSON. Faðir danskur, en móðirin íslenzk. Detroit Harbor, Wis.

P. ANDERSON, Glenboro, Man.

ROBERT C. ANDERSON, 27. hersveit.

P. ÁRNASON, Ísafold, Man.

PAUL BARNSON.

P. K. B. J. BJARNASON, Árborg, Man.

WALLACE BOWMAN (dáinn úr inflúenzu).

EINAR E. BRANDSSON, Victoria, B. C.

GUÐM. (James) BRANDSSON. 7. hersveit.

J. G. BRECKMAN, 108. hersveit, Lundar, Manitoba.

EINAR CHRISTIANSON.

M. CHRISTIANSON, Gull Lake, Alberta.

CARL A. DALSTED, Blaine, Wash.

J. DANÍELSSON.

T. DAVÍÐSSON, Pipestone, Man.

EDWARD EDSON, Dafoe, Alberta.
SIGURBJÖRN EGGERTSSON.
S. EGILSSON.
E. S. EINARSSON, Winnipeg, Man.
J. S. EINARSSON, Mary Hill, Man.
MAREL THEODORE EINARSSON, Churchbridge, Sask.
EMIL GUNNAR EIRÍKSSON.
O. G. ELÍASSON.
JOHN A. ERLENDSSON.
ARCHIBALD B. EYFORD, Pembina, N. D.
EINAR EYMUNDSSON, 197. hersveit.
A. FREEMAN.
Ungfrú CLARA JÓNSDÓTTIR GILLIES, Winnipeg, Man.
FRED W. GILLIES.
ALFONSE G. M. GOODMAN.
ÓLAFUR GOODMAN, Gimli, Man.
JÓHANN HALL, Wynyard, Sask.
E. HALLDÓRSSON, Íslendingafljót, Man.
JÓN HALLDÓRSSON, High River, Alta.
SIGURÐUR HALLDÓRSSON.
VIKTOR SIGURÐSSON, HANNESSON, Spanish Fork, Utah.
JOE HARGRAVE, 203. hersveit.
STEPHEN HERMANNSSON.
KOLBEINN HOFF, Blaine, Wash.
JÓN A. HÓLM, Salt Lake City, Utah.
PÉTUR NÍELSSON HÓLM, 223. hersveit.
RAFN INGIMUNDARSON, Lundar, Man. 223. hersveit.
SKÚLI J. JACKSON. Í sjóhernum.
INGI JÓHANNSSON.
SVEINN JÓHANNSSON (Halldórsson), Svold, N. D.
VALDIMAR JÓHANNSSON, Árborg, Man. 223. hersveit.
Pte. JOHNSON.
ALBERT BERGÞÓRSSON JOHNSON, Lundar, Man. (Fallinn á Frakklandi.)
BYRON P. JOHNSON, Íslendingafljót, Man.
CARL JOHNSON, Piney, Man.
CHRIS. JOHNSON.
FRIÐRIK JOHNSON, Brandon, Man. 99. hersveit.
HALLDÓR JOHNSON, Reykjavík, Ísland.
J. B. JOHNSON, Lundar, Man.
JÓN PÁLSSON JOHNSON, Wynyard, Sask.
L. JOHNSON, Árnes, Man.
MUNDI JOHNSON, 251. hersveit.
J. K. JOHNSON, 81. hersveit.
J. S. JOHNSON. Fort Garry Horse.
J. V. JOHNSON. Í sjóhernum.
SKAFTI L. JOHNSON, Otto, Man.
SKÚLI JOHNSON, Brandon, Man.
TOM JOHNSON, Selkirk, Man.
V. R. JOHNSON.
L. A. JÓNASSON, Otto, Man.
ELIMAN JÓNSSON.
SAM. JÓNSSON, Winnipeg, Man. 44. hersveit.
F. H. KRISTJÁNSSON, Mozart, Sask
HELGI KRISTJÁNSSON, Lundar, Man. 100. hersveit.
RÖGNV. SVEINSSON KRISTJÁNSSON Wynyard, Sask.
WILLIAM PÁLSSON KÆRNESTED, Narrows, Manitoba.
FRED D. LAXDAL, Cavalier, N. D.
H. F. MAGNÚSSON.
MAGNÚS MAGNÚSSON, frá Ísafirði, nú í New York. Vann á herskipum við England.
B. F. NÍELSSON.
CHARLES ODDSSON, Gimli, Man.
WALTER ODDSSON, Blaine, Wash.
G. A. ÓLAFSSON, Brandon, Man.
INGIMUNDUR ÓLAFSSON, Wild Oak, Man.
JOHN ÓLAFSSON.
H. OLIVER, 78. hersveit.
GUNNAR OLSON, Brandon, Man.
A. PAULSON, Piney, Man.
M. A. SAMÚELSSON.
ELLERT SCHRAM.
EDWARD ÞORSTEINSSON SIGFÚSSON, Wynyard, Sask.
INGI SIGURÐSSON.

T. SIGURÐSSON, Leslie, Sask.
J. A. G. SIGURJÓNSSON, 108. hersveit.
S. SIGVALDASON, 18. varaliðssveit.
J. SIGVALDASON, Winnipeg, Man.
FRED STEPHENSON.
ALLAN STEVENS.
ALEX STEVENSON.
STEVE STEVENSON, 78. hersveit.
ÁRNI SVEINBJÖRNSSON. 108. hersveit.
SHERMAN SVEINSSON, Detroit Harbor, Wis.
Dr. THORDUR SVEINBJÖRNSSON tónskálds SWINBURNE. Í brezka hernum.
ARNOLD SÖDERBERG (fallinn). Móðir hans íslenzk. Detroit Harbor, Wis.
A. SÖLVASON.
PAUL SÖLVASON, Winnipeg, Man. 223. hersveit.
ÁGÚST ÞIÐRIKSSON.
FRANZ THOMAS, Winnipeg, Man.
Ungfrú SIGRÍÐUR HANSDÓTTIR prests THORGRIMSEN, Grand Forks, N. D.
C. THORKELSSON, Eastend, Sask.
BENEDICT THORLÁKSSON, 30. B. C. Horse. Vernon, B. C.
BERGÞÓR F. THORSTEINSSON. Mozart, Sask.
STEINGRÍMUR THORSTEINSSON, Winnipeg Beach, Man.
S. THORSTEINSSON, Stony Hill, Man.
W. P. THORSTEINSSON, 78. hersveit.
EDWARD TORFASON.

III.

# DÁNARSKRÁ

Myndir og æfiágrip þeirra
Íslendinga er létu lífið
í Heimsstyrjöldinni.

# 1914

**Sergeant SIDNEY CUZNER.**

Var fæddur 10. júlí 1890 í Winnipeg, Manitoba. Sonur M. R. Cuzner bartskera í Winnipeg og Friðriku Reykjalín dóttur Halldórs Friðrikssonar Reykjalíns frá Kvennabrekku í Miðdölum og Sigríðar Bjarnadóttur frá Kollafjarðarnesi. Halldór flutti með börnum sínum til Vesturheims 1876. Bjó síðast að Mountain í Norður Dakota. Sidney gekk í 27. hersveitina í ágúst 1914. og með henni fór hann frá Winnipeg áleiðis til Englands og sté á skip 17. maí 1915. Eftir stutta bið þar hélt hann til Frakklands og fór strax í skotgrafir. Í atlögunni miklu, er samherjar gerðu haustið 1918, féll hann, ásamt mörgum fleirum, hinn 18. september, rúmra 28 ára að aldri; var hann þá búinn að vera heilt ár hvíldarlaust í skotgröfunum. Áður en hann gekk í herinn stundaði hann prentiðn; lærði hjá Saults & Pollard (Free Press Job Department). og hjá þeim vann hann þangað til hann fór. Auk foreldra á hann þrjár systur og tvo bræður á lífi, er til heimilis eru í Winnipeg. Hann var hið mesta mannsefni, að þeirra sögn, er þektu hann.



## ÁSTHÝR VALGEIR MAGDAL HERMANNSSON



Var fæddur á Fornastekk við Seyðisfjörð 21. júní 1895. Foreldrar hans voru: Guðjón, sonur Hermanns Jónssonar og Grónu Bjarnadóttur á Þórustöðum á Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu, og Magdalena, dóttir Sigurðar Bjarnasonar og Ingibjargar Pálsdóttur á Grímsstöðum á Seltjarnarnesi í Kjós. Magdal fluttist með foreldrum sínum vestur um haf 1904, er settust fyrst að í Keewatin í Ontario. Vistaðist hann þar hjá prentsmiðjufélagi, og lagði fyrir sig prentiðn; fór því næst til Winnipeg og fullkomnaði sig í þeirri list. Hinn 5. ágúst 1914 gekk hann í canadiska herinn og var fimtugasti og fjórði maður til þess í Canada. Hann innritaðist við hina nafntoguðu 90. hersveit Winnipegborgar (Ninetieth Winnipeg Rifles), er auknefnið hlaut á herstöðvunum "Svörtu djöflarnir litlu" (The Little black Devils). Með sveit þessari fór hann til Frakklands um haustið (þeir sigldu 3 október). Var í öllum orustum, sem hún tók þátt í fram til næsta vors. Í orustunni miklu við Langemarck 28. apríl 1915, er meiri hluti félaga hans féll í, særðist hann hættulega og var færður í sárabúðir, og þaðan á hermannasjúkrahús, og af þeim sárum andaðist hann þar 2. maí. Magdal var fyrsti Íslendingurinn, er féll í stríðinu. Hann var með þeim allra röskustu yngri mönnum, er til Frakklands fóru það ár, og myndarlegustu, jafnt í raun og sjón.

## ÞORSTEINN G. ÓLAFSSON.



Var fæddur í Winnipegborg 6. nóvember 1894. Sonur Guðlaugs trésmiðs Ólafssonar frá Haga í Húnaþingi (flutti vestur 1886) og Áslaugar Hansdóttur frá Þóreyjarnúpi (kom til Ameríku 1887). Þorsteinn innritaðist í 34. riddaraliðssveitina, "Fort Garry Horse", snemma í ágústmánuði 1914, og mun hafa verið með fyrstu frambjóðendum í herinn frá Winnipeg. Með hersveitinni fór hann 30. ágúst til Guelph-herbúða í Ontario, og þaðan seinna til Englands. Stigu þeir á skip 23. október 1915. Þaðan fór hann til orustuvallar á Frakklandi, og var þar svo stöðugt eftir það í ýmsum hersveitum, þangað til hann féll h nn 6. september 1918. Tekið mun hann hafa þátt í flestum orustum, er canadiski herinn átti í frá því stríðið byrjaði og fram til þess tíma. Hann var gæddur miklu þreki bæði til sálar og líkama, og bar aldrei á því í bréfum hans, til foreldra eða ættingja, að hann æðraðist, þótt dvölin lengdist á orustuvöllunum. Samt langaði hann að mega hverfa heim aftur, þó eigi væri nema um stundarsakir. Síðla sumarsins 1918 var honum boðið, að hann mætti kjósa, hvort hann vildi, taka Lieutenants-stöðu í hernum eða hverfa heim aftur þá um haustið. Voru þá orðnar meiri líkur til, að ófriðnum myndi slíta. Kaus hann hið síðartalda, og hefði þá farið heim með október, hefði hann komist lífs úr síðustu orustunni. En það átti eigi að verða, og virtist sannast hið fornkveðna: Ekki má sköpum renna.



## WILLIAM PREECE.

Var fæddur í Winnipeg 8. janúar 1890. Foreldrar hans búa í Winnipeg og var hann til heimilis hjá þeim, en í þjónustu járnvöruverzlunarfélagsins Miller Morse Hardware Co., um það leyti sem hann gekk í herinn. Faðir hans heitir S. Preece, er af enskum ættum og fæddur á Englandi, en móðir hans er Jakobína Guðlaugsdóttir, Grímssonar, frá Breiðuvík undir Jökli. Bjuggu foreldrar Jakobínu við Búðir á Snæfellsnesi. William gekk í herinn 19. desember 1914, og innritaðist við 44. canadisku hersveitina. Með henni fór hann frá Winnipeg áleiðis til Englands 18 október 1915, og á skip 23. sama mánaðar. Frá Englandi fór hann um veturinn til Frakklands. Er til Frakklands kom, var hann færður í canadiska riddaraliðið (Can. Mounted Rifles) og í því var hann eftir það. Hann féll í orustunni við Ypres í Belgíu, er háð var dagana milli þess 2. og 5. júní um sumarið 1916, þar sem hermenn nefndu Musterisskóga (Sanctuary Woods), og er jarðaður í canadiska hermannareitnum þar. Hann var hinn mesti efnismaður.



## SIGURSTEINN HÓLM SIGURÐSSON.

Var fæddur 28. febrúar 1894 á Gimli í Nýja Íslandi. Foreldrar hans voru þau Sigvaldi Sigurðsson, frá Harðbak á Sléttu í Norður-Þingeyjarsýslu og Margrét Árnadóttir frá Setbergi í Borgarfirði austur. Er Sigvaldi síðari maður Margrétar, er áður var gift Valdimar Davíðssyni frá Ferjubakka í Axarfirði í Norður-Þingeyjarsýslu. Bjuggu þau að 139 Ferry Road, St. James við Winnipeg. Sigursteinn var til heimilis hjá foreldrum sínum, er hann innritaðist í Canadaherinn í ágústmánuði 1914. Hann gekk í áttundu hersveit (90 Winnipeg Rifles), er nefnd hefir verið "Svörtu Djöflarnir litlu", og fór með henni til Belgíu í október sama ár (stigu á skip 3. okt.). Hann var í orustunum við Langemarck, Ypres og St. Julien. Í bardaganum við St. Julien 22. apríl 1915 var hann tekinn til fanga og sendur til Þýzkalands og hafður þar í ströngu gæzluvarðhaldi. Hann andaðist í Giessen á Þýzkalandi 20. október 1918, úr spönsku veikinni. Hann var hinn mesti stillingar- og ráðdeildarmaður. Meðal fyrstu Íslendinga er gengu í herinn eftir að ófriðurinn byrjaði.



**Corporal THOMAS JÓNSSON THORDARSON.**

Var fæddur í Þingvallabygð, Sask., 19. maí 1891. Jón faðir hans var fæddur 25. nóvember 1863 að Vestri-Reyni á Akranesi í Borgarfjarðarsýslu, sonur Þórðar Björnssonar vestanpósts og konu hans Guðrúnar Jónsdóttur. Flutti Jón til Ameríku árið 1886 og til Þingvallabygðar, er þá var að byggjast, og þar kvongaðist hann. Kona Jóns, en móðir Tómasar, er Guðfinna (fædd 21. ágúst 1861 að Litla-Ármóti í Flóa), dóttir Tómasar Ingimundarsonar frá Egilsstöðum í Ölvesi og Guðrúnar Eyjólfsdóttur á Snorrastöðum í Laugardal. Var Guðrún móðursystir séra Magnúsar Andréssonar á Gilsbakka. Árið 1894 fluttust þau Jón og Guðfinna með börnum sínum til nýbygðarinnar íslenzku vestan við Manitobavatn, er kend er nú við Langreuth, og hafa búið þar síðan. Með þeim ólzt Thomas sonur þeirra upp og var hjá þeim til heimilis, er hann innritaðist í riddarasveitina "Lord Strathcona Horse" haustið 1914. Með henni fór hann til Englands 3. október, og nokkru síðar til Frakklands. Tók hann þar þátt í þessum orustum: 1915: Hesseims, Diehbach, Simal: 1916: Somme, Peronne, Tevin-Court og Gusen Court: 1917. Bethen Court og Vaten Court, en þar er talið að hann hafi fallið að morgni 27. maí 1917. Var hann þá fyrir nokkru skipaður Corporal. Er svo sagt frá þeim atburði í skýrslu sveitarforingjans: "Snemma morguns 27. maí sendi hersveitin flokk undir forustu Thordarsons, yfir í skotgrafir óvinanna, til þess að hafa þaðan fréttir. Ruddist hann undan mönnum sínum, tók tvo Þjóðverja til fanga, en meðan hann var að afvopna annan þeirra, skaut hinn hann í gegnum iðrin og beið hann þegar bana."



**THORVALDUR (WALTER) THORVALDSSON.**

Var fæddur í Brandonbæ 13. október 1892. Foreldrar hans eru Þorleifur Þorvaldsson, fæddur að Miðhúsum í Gufudalssveit í Barðastrandarsýslu, og Málmfríður Guðlaug Jensdóttir, úr Skutulsfirði við Ísafjarðardjúp. Búa þau hjón í Brandon. Þorvaldur ólst upp með foreldrum sínum í Brandon og vann sem kyndari við gufuvélar á járnbrautarlestum Can. Nor. félagsins um það leyti sem hann gekk í herinn. Hann innritaðist við 12. Drakúnasveit Manitoba 23. ágúst 1914; var með sveit þeirri um tíma í Valcartier-herbúðunum, en fór þaðan með fyrstu liðsendingu frá Canada um haustið, 3. október 1914. Hann var brátt sendur til orustuvallar og tók þátt í orustum við St. Julien, Ypres og Somme. Í orustunni við St. Julien 27. apríl 1916 særðist hann mjög mikið. Er hann var gróinn sára sinna, var honum gefinn kostur á að hverfa heim aftur, en hann neitaði því: hvarf til herstöðvanna aftur og var þá settur sem leyniskytta við herinn. Þeirri stöðu hélt hann, er hann féll 26. september 1916. Mælt hafði sveitarforingi hans með því, að honum væri veitt heiðursmerki fyrir dirfsku og snarræði í orustu, en hann var fallinn, áður en sú viðurkenning var í té látin. Hann var hinn gerfilegasti maður og fullhugi að sama skapi.

# 1915

## EINAR SIGURÐUR ANDERSON.



Var fæddur á Hólshúsum í Húsavík í Borgarfjarðarhreppi í Norður-Múlasýslu 29. júlí 1885. Foreldrar: Jón Árnason (Anderson) frá Gilsárvallahjáleigu í Borgarfirði austur og Ólavía Jónsdóttir, ættuð úr Loðmundarfirði. Systkini Einars voru mörg og eru 6 á lífi: Carl Anderson, fyrrum póstþjónn í Winnipeg; Árni Anderson, lögfræðingur í Winnipeg; Björg, gift canadiskum manni, að nafni Joseph Carson, búsett í Winnipeg. Gunnar Anderson, bóndi við Spalding í Saskatchewanfylki; Gunnlaugur Anderson umferðasali í Winnipeg, og ungfrú María K. Anderson, skólakennari í Vancouverborg í British Columbia. Árið 1886 fluttist Einar með foreldrum sínum vestur um haf og settust þau að í Winnipeg. Með þeim ólst hann upp til fulltíða-aldurs. Skömmu áður en ófriðurinn brauzt út, fluttist Einar vestur í Saskatchewanfylki og nam sér land í íslenzku bygðinni við bæinn Leslie. Þar bjó hann, er hann innritaðist í 53. canadisku herdeildina haustið 1915. Með henni fór hann til Englands um veturinn, 29. marz, og til Frakklands snemma vorsins 1916. Tók hann þar þátt í öllum orustum með canadisku hersveitunum, ofan til 15. dags septembermánaðar um haustið, að hann féll.



## ARNLEIFUR ARASON.

Hann var fæddur 16. júlí 1890 í Þingvallanýlendunni í Saskatchewanfylki. Foreldrar hans voru þau Eggert Arason og Sigurlína Jónsdóttir (nú dáin), bæði ættuð úr Eyjafirði á Íslandi. Býr faðir hans nú í Nýja Íslandi og fluttust þau hjón þangað, er Arnleifur var tveggja ára gamall, og þar ólzt hann upp. Hann gekk í Canadaherinn 18. marz 1915 og innritaðist þá í 108. herdeildina. Var svo sendur með herdeild þeirri frá Winnipeg áleiðis til Englands 12. september 1916 og mun hafa verið með þeim allra fyrstu úr þeirra herdeild að fara til Frakklands. Féll í orustu 13. febrúar 1918. Hafði þá stöðugt tekið þátt í orustum frá því hann fór og til þess tíma. Arnleifur var í röð efnilegustu ungra manna í Nýja Íslandi. Hann er jarðaður í grafreit canadiskra hermanna á Frakklandi. Eftir lifa auk föðursins sex systkini.



## SIGURÐUR ÁRNASON.

Sigurður Árnason var fæddur 12. marz árið 1896 í Selkirk í Manitoba. Foreldrar hans voru þau Árni Hafliðason, ættaður úr Ísafjarðarsýslu, og Guðrún Sigurðardóttir, ættuð úr Barðastrandarsýslu. Eigi getur um heimilisfang þeirra á Íslandi. Hafa þau búið um langan tíma í Selkirkbæ og var sonur þeirra til heimilis hjá þeim og stundaði algenga landbúnaðarvinnu. Haustið 1915 gekk hann í 51. canadisku hersveitina í Edmontonborg í Alberta og fór með henni til Englands, sigldi frá Canada 18. apríl 1916. Skömmu síðar mun hann hafa farið til Frakklands. Var svo skýrt frá því um sumarið snemma, í símfregnum úr herbúðunum, að hann væri særður; og svo nokkru síðar, 13. júní 1916, að hann væri "særður og horfinn" (wounded and missing), en fregn sú síðar leiðrétt, að hann hafi fallið í orustu þann dag. Frekari fregnir hafa eigi fengist af þeim atburði. Efnismaður var hann mikill, er komið hefði í ljós, ef honum hefði unnist aldur til.

## GÍSLI ÁSMUNDSSON.



Var fæddur í Geysisbygð í Nýja Íslandi sunnudaginn 17. júní 1891. Foreldrar hans voru Guðmundur Ásmundsson, ættaður úr Borgarfirði austur (dáinn 1908) og Ragnheiður Jónsdóttir, nafnkends hjúkrunarmanns í Höskuldsstaðaseli í Breiðdal Finnbogasonar. Móðir Ragnheiðar konu Jóns var Hildur Jónasdóttir bónda í Höskuldsstaðaseli og konu hans Ragnheiðar Þorvarðardóttur bónda á Höskuldsstöðum, Gíslasonar. Gísli Ásmundsson fluttist með foreldrum sínum til Selkirk, þegar hann var ársgamall, og ólzt hann þar upp hjá þeim, og var eftir lát föður síns til heimilis hjá móður sinni, þar til hann sem sjálfboði innritaðist í herinn 15. nóvember 1915. Síðustu þrjú ár sín í Selkirk vann hann á vélaverksmiðju. Hann innritaðist í 61. hersveitina og fór með henni (sté á skip) til Englands 23. apríl 1916. En þá var hann færður yfir í 44. sveitina og fór með henni til Frakklands 15. júlí sama ár og strax í skotgrafir. Sunnudaginn 19. nóvember, þegar hermennirnir voru að taka hvíld, féll sprengikúla, sem varð honum að bana. Var atburður sá tilkyntur ættingjum hans nokkru síðar.

## JÓN BENJAMÍNSSON.



Var fæddur í Víðidal á Möðrudalsfjöllum í Norður-Múlasýslu 22. nóvember 1896. Foreldrar hans eru: Benjamín, sonur Jóns Benjamínssonar, er lengst bjó að Hárekssstöðum í Jökuldalsheiði, og Guðrúnar Jónsdóttur úr Borgarfirði austur, og Jóhanna, dóttir Hallgríms Benediktssonar, af norðlenzkum ættum, og Guðnýar Hermannsdóttur, ættaðrar úr Mjóafirði. Ólzt Jón upp með foreldrum sínum í Víðidal, Sænautaseli og á Hárekssstöðum, til vorsins 1905, er þau fluttu alfari til Vesturheims. Settist fjölskyldan að í Álftavatnsbygð í Manitoba og hefir búið þar ávalt síðan. Veturinn 1915 gekk Jón í 108. sveit fótgönguliðs Canada sem óbrotinn liðsmaður. Með þeirri deild lagði hann austur um haf 12. september 1916. Var henni tvístrað eftir að til Englands kom og liðsmönnum hennar bætt inn í aðrar deildir á herstöðvunum, eins og þörf krafði. Jón var í fyrsta hópnum úr deildinni, er sendur var í skotgrafirnar. Það var skömmu fyrir jól 1916. Hinn 9. apríl 1917 tók hann þátt í hinum mannskæða bardaga, sem kendur er við Vimyháls- í Norður-Frakklandi, og féll þar þann sama morgun. Hann er greftraður í grafreit Canadamanna þar um slóðir. Jón var hár og grannur, bjarthærður og bláeygur, drengilegur á svip og fríður sýnum. Hann var yfirlætislaus og háttprúður í dagfari, fastur í lund, hygginn og ósérhlífinn. Æfin varð stutt — og endasleppari en skyldi — rúm 20 ár — en: Ein drykklöng stund, sem hugsjón helgri er vígð, Er meira verð en aldar-æfi mók.



## BJARNI BJARNASON.

Var fæddur á Arnarstapa í Álptanesshreppi í Mýrasýslu í septembermánuði 1880. Foreldrar hans voru þau Bjarni Sigurðsson frá Háhóli í Álftanesshreppi og Margrét Ó. Ólafsdóttir frá Rafnkelsstöðum í Hraunshreppi í Mýrasýslu. Bjuggu þau hjón í 34 ár á Arnarstapa. Sumarið 1901 fluttist Bjarni með foreldrum sínum og systkinum vestur um haf og settist að í Winnipeg. Lagði hann fyrir sig smíðar, einkum veggrimlalagningu. Hann gekk í 144 hersveitina 1. október 1915, og fór með henni frá Canada til Englands 29. maí 1916. Til Frakklands fór hann samsumars, í ágústmánuði, og þá strax í skotgrafir. Hann féll á Frakklandi 6. september 1916, í orustunni við Poitieres, er stóð dagana frá 4. til 7. september. Foreldrar hans eru bæði dáin, en 5 systkini hans eru á lífi hér í landi: Ólafur og Sigurður í Winnipeg, Ásgeir í Selkirk, Sólveig Þórðarson, gift hjá Stony Hill, Man., og Salome Backman, gift við Mozart, Sask. Ein systir, Kristíana, býr á Íslandi. Bjarni var hinn mesti röskleikamaður og vel gefinn.



## GUÐMUNDUR KRISTINN BJARNASON.

Var fæddur á Laugavegi í Reykjavík 28. maí árið 1900. Sonur Þórðar Bjarnasonar frá Vörum í Garði í Útskálasókn á Reykjanesi, og síðari konu hans Vigdísar Eiríksdóttur frá Kötluhóli í Leiru í sömu sveit; eru bræður hennar þeir Auðunn útvegsbóndi í Þjóðbraut í Garði og Magnús skósmiður í Hafnarfirði, en móðir þeirra systkina var Margrét, dóttir Magnúsar bónda á Hofsstöðum. Guðmundur fluttist á unga aldri með systkinum og foreldrum til Vesturheims og settust þau að í Selkirk. Var hann þar til heimilis hjá þeim, er hann innritaðist í 108. hersveitina 14. desember 1915, þá rúmra 15 ára að aldri. Honum er svo lýst, að hann hafi verið einkar vel gefinn, vinsæll og staðfastur í lund, kjarkmikill og ötull. Með herdeildinni fór hann áleiðis til Englands 12. september 1916, en til Frakklands í júlímánuði árið eftir. Þar var hann í skotgröfum þar til hann féll 2. september 1918. Hann stýrði hríðskotabyssu, og var svo sagt, að hann hafi fallið fyrir skoti frá leyni-skyttu Þjóðverja. Hann var rúmra 18 ára, er hann lézt, og hörmuðu félagar hans fráfall hans, því hann var í hvívetna vinsæll.

### SIGURÐUR BJARNASON BERNSTEIN.



Var fæddur á Daðastöðum í Skarðshreppi í Skagafjarðarsýslu 10. október 1874. Var hann hálfbróðir séra Þorkels Bjarnasonar á Reynivöllum í Kjós. Foreldrar hans voru Bjarni á Daðastöðum og síðari kona hans Guðbjörg Sveinsdóttir. Fluttu þau frá Íslandi til Nýja Íslands sumarið 1876, og settust að í Árnessbygð. Bjarni drukknaði í Winnipegvatni nokkrum árum síðar. Sigurður mun hafa alist upp með móður sinni, fyrst í Nýja Íslandi og svo í Winnipeg. Fluttist hann því næst til Dakota og kvongaðist þar. Heitir kona hans Sigríður Andrésdóttir og býr í Calgaryborg. Vann Sigurður þar við járnbraut, er hann með sonum sínum 2 innritaðist í herinn 2. júlí 1915, í 56. herdeildina. Til Frakklands fór hann 23. marz 1916. Tók þátt í síðari orustunni við Ypres. Særðist þar og varð einnig fyrir eiturlofti. Kom aftur til Canada 11. júlí 1917, þá óheill heilsu. Eigi náði hann heilsu aftur, en eftir miklar þjáningar andaðist hann á hermannaspítalanum í Calgary, 1. marz vorið 1922. Sigurður heitinn var hinn mesti myndar og dugnaðarmaður, sem hann átti kyn til.

### PÉTUR BRYNJÓLFSSON úrsmiður.



Var fæddur í Engey við Reykjavík 7. febrúar 1891. Sonur þeirra Brynjólfs óðalsbónda Bjarnasonar (f. á Kjaransstöðum 4. marz 1845) og Þórunnar Jónsdóttur frá Skildinganesi (f. 6. október 1844. d. 28. október 1915). 17 ára fór Pétur úr föðurhúsum til Reykjavíkur og nam þar úrsmíði hjá Magnúsi Benjamínssyni, en árið 1913 til Ameríku og settist að í Winnipeg og stundaði þar iðn sína um tíma, og því næst í Riverton í Nýja Íslandi. Við nóvemberlok 1915 gekk hann í 144 deild Canadahersins; var við heræfingar fram til 18 september 1916, að hann sigldi til Englands. Vann hann þá við byssusmíði í hernum fram eftir vetrinum, unz hann var sendur til Frakklands í skotgrafir. Átti hann þá í orustum eftir það stöðugt, þar til hann féll 27. september 1918. — Pétur var lágur maður vexti, þrekinn vel, fríður sýnum og svipbreinn, þéttur í lund og fastur fyrir, hver sem í hlut átti og lét lítt stjórnast af annara fortölum. En tryggur var hann og vinfastur, listhæfur og hagur til allra verka. Af brennandi áhuga fylgdist hann með sjálfstæðiskröfum Íslands, þó honum auðnaðist eigi að sjá það mál til fullra lykta leitt.



## HRÓLFUR JACOBSSON CRAWFORD.

Var fæddur 13. apríl 1898 að Wild Oak, Man. Hann innritaðist í 63. herdeildina í Edmontonborg 17. september 1915 og sigldi frá Canada 15. apríl 1916. Þann 26. september sama ár særðist hann í orustunni við Somme, og 21. september 1917 særðist hann í annað sinn í orustunni við Ypres. Auk þess tók hann þátt í orustum við Passchendale, Arras Cambrai og Canal du Nord. Til Canada kom hann aftur 29. apríl 1919 og settist að við Athabasca Landing, Alberta, þar sem hann byrjaði bú á eignarjörð sinni. Foreldrar hans, Jacob Crawford og Helga Þorsteinsdóttir, búa að Athabasca Landing, Alberta. Hrólfur andaðist á jóladaginn 1920 inni á hermannaspítala í Calgaryborg, úr afleiðingum þeirra sára, sem hann hlaut í stríðinu, og aldrei greru. Hann var hinn mesti efnismaður.



## ÁRNI VALDIMARSSON DAVIS.

Var fæddur 29. september 1889 á Young St. í Winnipegborg. Faðir hans var Valdimar, sonur Davíðs frá Ferjubakka í Axarfirði í NorðurÞingeyjarsýslu, Jósafatssonar, er bjó í Brjánsnesi við Mývatn á öldinni sem leið (nú í eyði), en móðir er Margrét Árnadóttir frá Setbergi í Borgarfirði í Norður-Múlasýslu. Margrét misti mann sinn fyrir mörgum árum síðan og giftist í annað sinn Sigvalda Sigurðssyni frá Harðbak á Sléttu í Norður-Þingeyjarsýslu. Þau bjuggu að 139 Ferry Road, St. James við Winnipeg, og var Árni til heimilis hjá þeim og stundaði trésmíði. Hann innritaðist við 79. canadisku hersveitina ("Cameron Highlanders" 43 Batt) í febrúar 1915. Fór með henni frá Canada 21. apríl 1916, og yfir til Belgíu. Hann var í orustunum við Festubert, Zillebeck, Neuve Chapelle, St. Eloi og Somme. Hann féll í orustunni við Somme 21. september 1916. Fram að þeim tíma hafði hann aldrei særzt. Hann var dugnaðar- og áhugamaður mikill og sannur drengskaparmaður.

## Lieutenant JÓN EINARSSON.



Var fæddur í Þingvallabygð í Saskatchewan 5. desember 1890. Sonur Jóhannesar Einarssonar bónda við Lögberg, Sask., frá Hvammi í Höfðahverfi í Suður-Þingeyjarsýslu og Guðlaugar Þorsteinsdóttur frá Grýtubakka í sömu sveit. Jón ólzt upp í föðurgarði og lauk barnaskólanámi þar í bygð; fór því næst til Winnipeg og innritaðist við Manitobaháskólann og lauk burtfararprófi þaðan með beztu einkunn vorið 1914. Las hann þvínæst lög hjá lögfræðingafélagi í Yorkton, Sask. Í febrúar 1915 gekk hann í canadiska herinn — 16. sveit riddaraliðsins — en fékk sig þaðan lausan til þess að gangast fyrir stofnun 223. hersveitarinnar, ásamt fleirum. Vann hann svo að liðsöfnun við hersveit þessa, en var þó jafnframt við nám á herforingjaskóla og lauk bæði Lieutenants- og Capteinsprófi. Var hann þá við æfingu með stórskotaliði ríkisins um tíma. Haustið 1916 var áskorun send til allra liðfærra manna að koma til hjálpar stórskotaliði Canadamanna í Frakklandi. Bauð Jón sig fram og fór til Frakklands þá um haustið. Átti hann í mörgum orustum eftir að þangað kom, á Vimy-háls, Passchendale og víðar. Hann féll í orustunni við Passchendale 25. október 1917. Öllum harmdauði, er til hans þektu. Var hann einn hinna gerfilegustu og bezt gefnu yngri manna íslenzkra vestan hafs.

## Corporal JÓNAS FREDERICKSON.



Sonur Magnúsar Friðrikssonar, Magnússonar og Sigríðar Ebenezardóttur, frá Húsabakka í Aðaldal í Þingeyjarsýslu, og Helgu Jörundsdóttur, Jóhannssonar Kröyer og Elínar Kristjánsdóttur, Kristjánssonar frá Sigríðarstöðum. Bjuggu þau Magnús og Helga lengi á Nýpi í Kinn og fluttu þaðan vestur um haf árið 1883. Búa þau nú í Víðir-bygð í Nýja Íslandi. Jónas var fæddur í Austur Selkirk í Manitoba 24. maí 1891. Í föðurgarði var hann og aðstoðaði foreldra sína við landbúnað eftir að þau fluttu til Víðirbygðar 1910, og þar til hann gekk í Canadaherinn 23. nóvember 1915, 61. hersveitina. Frá Winnipeg fór hann 26. marz 1916 og á skip áleiðis til Englands 21. apríl, og skömmu síðar yfir til Frakklands. Hann tók þátt í orustum við Court Celette, Vimy-háls og Somme, en féll í síðasta bardaganum 7. janúar 1917 Eftir því sem kunnugir skýra frá, fanst lík hans eftir orustuna og var veitt greftrun í hermannareitnum við Villers au Bois í d'Artois-héraði, um 10 mílur vegar frá bæjunum Lens, Bethune og Houdain, en nokkru skemra frá Aubigny. Jónas var gildur meðalmaður vexti, stiltur og gætinn, vinsæll og vel gefinn. Hann var sérstaklega verkfróður og verkhygginn og vandur að því, að það væri vel gert, er hann hafði með höndum.



## SIGURÐUR EINAR BJÖRNSSON FRÍMANN.

Er fæddur í Austur-Selkirk 18. nóvember 1897. Foreldrar: Björn Kristinn Frímann, Sigvaldason, Gíslasonar (bróður Björns heitins Gíslasonar á Haugsstöðum í Vopnafirði) og Jóhanna Sigríður Sigurðardóttir frá Hamri í Hörðudal í Dalasýslu, Erlendssonar, og Hólmfríðar Steindórsdóttur frá Hrappsstöðum í Laxárdal í sömu sýslu. Björn faðir Sigurðar misti föður sinn ungur; giftist móðir hans öðru sinni Jakob Frímann, er bjó um skeið í Dakota. Ólzt Björn upp með stjúpa sínum og móður og ber því ættarnafn hans. Sigurður innritaðist í 79. canadisku hersveitina 15. ágúst 1915, og fór með henni áleiðis til Frakklands 18. apríl 1916. Var hann í orustum með henni um sumarið og féll í bardaganum við Ypres 11. ágúst 1916. Sigurður var íþróttamaður góður. Var hann formaður Hockey-íþróttafélagsins í Selkirk 1914, og síðan fyrir samdrættingum (Team) 78. herdeildarinnar í Brandon veturinn 1915. Var hann röskleikamaður og drengur hinn bezti.



## ÓSKAR GOODMAN.

Var fæddur 12. nóvember 1897 á Hólabæ í Langadal í Húnaþingi. Foreldrar hans voru þau Guðmundur Steinsson frá Eyrarlandi í Laxárdal í Húnavatnssýslu og Gróa Jónasdóttir frá Bólstaðarhlíð í sömu sýslu. Óskar var á öðru ári, er móðir hans flutti með hann vestur um haf. Áttu þau mæðgin heima við Pacific Junction í Manitoba. Um miðjan nóvember 1915 gekk Óskar í 78. canadisku hersveitina og var með henni í herbúðunum um veturinn. 20. maí 1916 sté hann á skip og hélt til Frakklands á orustuvöll. Tók þátt í ýmsum orustum þar, frá því með ágústbyrjun og fram á haust, að hann varð fyrir sprengikúlu, er hann beið bana af. Eftir því sem móðurinni hefir verið tilkynt, bar það að hinn 27. október. Óskar var einkastoð móður sinnar og hinn umhyggjusamasti. Hann var fríður sýnum, bjarthærður og bláeygur, svipurinn hreinn, fjörlegur og greindarlegur. Hann var liðlega vaxinn og mannsefni mikið.

## JOHN ALBERT HALL.



Sonur þeirra Benedikts Hall, Hálfdanarsonar, og Sigríðar konu hans í Torontoborg í Ontario. Þau hjón fluttu frá Ólafsdal í Saurbæjarhreppi í Dalasýslu til Toronto sumarið 1878, og hafa búið þar síðan. Voru þau í frændsemi við Torfa búfræðing og skólastjóra í Ólafsdal. John Albert var fæddur 1888 og uppalinn í Torontoborg. Naut þar góðrar mentunar og ástríkis í föðurgarði sem einkasonur. Nokkru áður en ófriðurinn byrjaði, réðist hann í þjónustu Canadiska Kyrrahafsfélagsins, og var stöðvarstjóri félagsins í bænum Fort William. Hann gekk í hríðskotadeild 44. canadisku hersveitarinnar í október 1915. Sigldi til Englands þann 23. s. m., og var í Bramshott herbúðunum um veturinn. Slasaðist hann þar við heræfingar, og þegar hann kom til heilsu aftur, var hann settur Sergeant við hermálastofuna í Lundúnum. Eigi undi hann þeirri stöðu, kvaðst hafa í herinn gengið til að berjast, en eigi til að sitja við bókfærslu. Fékk lausn þaðan, hélt áfram heræfingum sínum í Bramshott og sendi heim foringjamerki sitt til föðursins; fór því næst til Frakklands með 27. herdeildinni í febrúar 1917. Var hann þá stöðugt í skotgröfum það sem eftir var. 25. júlí hóf óvinaherinn megna skothríð með sprengikúlum á framgrafir Canadahersins. Varð John fyrir sprengikúlu og særðist mikið. Hann var fluttur í sárabúðir. Var með rænu og bað að skila kveðju sinni heim, en dó svo skömmu síðar.

## SIGURBJÖRN ÓLAFUR GUNNLAUGUR HELGASON.



Var fæddur að Bæjarstæði við Seyðisfjörð í Norður-Múlasýslu 22. ágúst 1866. Sonur Helga Einarssonar og Kristjönu Olgeirsdóttur, er þar bjuggu. Gunnlaugur fluttist til Ameríku ásamt foreldrum sínum 1884. Árið 1891 gekk hann að eiga ungfrú Oddnýu Sveinsdóttur frá Þorbergsstöðum í Langadal í Húnavatnssýslu. Settust þau að í Winnipeg og stundaði Gunnlaugur búðarstörf og síðar kjötverzlun. Eignuðust þau hjón sex börn, sem öll eru á lífi ásamt móðurinni. Hinn 8. desember 1915 innritaðist Gunnlaugur í herinn, við 101. hersveitina og sigldi með henni til Englands 28. júnímánaðar 1916. Á Englandi var hann þangað til í nóvember 1917, er hann fór til Frakklands og var þar skipaður í 58. herdeildina, og með henni var hann þangað til hann féll 30. marz 1918, í vorbardögunum miklu við Vimyhæðir. Gunnlaugur var maður þrekinn vexti, gildur á velli og hraustmenni hið mesta, og mannkostamaður.



## FRIÐFINNUR KRISTJÓNSSON JÓHANNSSON.

Var fæddur á Ísafirði 1. apríl 1892. Foreldrar hans eru þau Kristjón J. Jóhannsson og Mikkelína Friðfinnsdóttir Kærnested. Hann ólzt upp með foreldrum sínum þar til hann var fullra 17 ára. Flutti þá vestur um haf til móðursystur sinnar, Kristínar Friðfinnsdóttur Kærnested, er býr í Winnipeg. Hjá henni átti hann heima, er hann gekk í 11. canadisku hersveitina á öndverðu ári 1915. Til vígstöðva fór hann frá Canada 23. október 1915. Á jóladaginn 1916 særðist hann, en ekki hættulega, og var kominn aftur til vígvallar heill heilsu og algróinn sára sinna, 3. febrúar 1917. Var hann í orustu og var að binda um sár á þýzkum fanga, er sprengikúla féll niður hjá honum og beið hann þegar bana af. Svo virðist, sem hann hafi heyrt til björgunarliðinu, og hafi verk hans verið, að hirða um þá, er féllu óvígir og koma þeim til sárabúða. Lík hans var tekið og veitt greftran í grafreitnum mikla við Villers-au-Bois. Friðfinnur var hinn myndarlegasti í sjón, íþróttamaður góður og syndur vel.



## JOHN JOHNSON.

Var fæddur 8. marz 1893 á Húsabakka í Hólmi í Skagafjarðarsýslu. Faðir hans var Pétur Jóhannsson, bónda á Húsabakka og konu hans Helgu Pálsdóttur (er síðar kom vestur og andaðist í Manitoba); en móðir Jóhanna Jónsdóttir, Jónssonar, og Guðrúnar Steinsdóttur, er bjuggu á Sauðarkróki, en komu bæði vestur og önduðust í Canada. Þau foreldrar Jóns fluttu til Ameríku rétt fyrir aldamót; áttu um tíma heima í Manitoba, en fluttu svo vestur í Calgary í Albertafylki, og þar andaðist Pétur 10. apríl 1911. Jón naut skólavistar og útskrifaðist frá æðri skóla hér vestra. Árið 1913 fór hann að heiman, nam sér búland í Saskatchewanfylki og var þar, er faðir hans andaðist. Hvarf þá móðir hans heim til Íslands um sumarið; en meðan hún var að heiman, gekk hann í 46. canadisku hersveitina í janúar 1915; var á brott skömmu eftir að hún kom til baka aftur, og gat spurzt fyrir um, hvar hann væri. Fór hann með hersveit þessari til Englands 23. október 1915, og sama ár til Frakklands. Hann tók þátt í orustum við Ypres og Somme og féll um haustið 1916 — talinn horfinn í hermálaskýrslunni. Vita menn ekkert ljósar um það, því það eru síðustu fréttirnar, er móður hans hafa borist af honum.



**ÓLAFUR JOHNSON.**

Var fæddur á Seyðisfirði árið 1887 (?). Foreldrar hans voru þau Jón Oddsson, er lengi var á Seyðisfirði, og Sigurbjörg Metúsalemsdóttir frá Hjálmarsströnd í Loðmundarfirði. Voru þau lengst af húsmenskuhjón á Seyðisfirði. Sumarið 1913 flutti Ólafur til Vesturheims og fór til heimilis til móðurbróður síns Hallgríms bónda Metúsalemssonar að Lundar í Álftavatnsbygð í Manitoba. Þaðan innritaðist hann í 53. canadisku hersveitina í september 1915, og með henni fór hann frá Winnipeg 18. febrúar 1916, en lét í haf 29. marz s.á. Eftir skamma dvöl á Englandi hélt hann til Frakklands til orustuvallar, og tók þátt í orustum fram til þess tíma, að hann féll 12. ágúst um sumarið. Greinilegar upplýsingar um, í hvaða orustum hann var, eða með hvaða hætti hann féll, hafa ekki fengist. Var eigi frá því skýrt að öllum jafnaði framan af stríðsárunum.

**EIÐUR JOHNSON.**



Var fæddur 2. marz 1892 í Nýjabæ á Hólsfjöllum í Norður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar hans voru þau Friðrik Jónsson, nú bóndi að Mozart, Sask., frá Víðirhóli á Fjöllum, Árnasonar, og Þorgerður Erlendsdóttir skálds Gottskálkssonar frá Garði í Kelduhverfi. Hún dó 1. september 1912. Eiður fluttist með foreldrum sínum frá Íslandi til Winnipegborgar sumarið 1893. Þar lauk hann alþýðuskólanámi og var búinn að vera við nám á Wesley College, er hann innritaðist í herinn 17. júní 1915, við 79. hersveitina (Cameron Highlanders). Hann fór af landi burt 4. október um haustið, til Englands. Við febrúarbyrjun 1916 var hann sendur til Frakklands og var þar í skotgröfum til 18. september sama ár. Þá fékk hann skot í hnéð og var fluttur á sjúkrahús á Englandi. Gróinn var hann um jól. Var hann þá settur við verkfræðideild hersins. Vann þar ýmiskonar störf þar til snemma í marz 1918, að hann var aftur sendur til Frakklands. Í októbermánuði særðist hann öðru sinni og mjög hættulega. Var hann þá fluttur á sjúkrahús í Abbeville, og þar lézt hann 19. desember 1918. Eiður var gerfilegur maður og góður drengur, stiltur og fáskiftinn, dulur og ekki fljóttekinn, en traustur og óbrigðull í lundu. Hann var hið mesta mannsefni.



## Sergeant JÓHANNES G. JOHNSTON.

Hann var sonur Þórðar Jóhannessonar Johnston frá Neðra-Hálsi í Kjósarsýslu á Íslandi, og Guðbjargar Guðmundsdóttur frá Káranesskoti í sömu sýslu. Hann var fæddur á Gimli í Manitoba 15. maí 1892. Þaðan fluttist hann með foreldrum sínum til Winnipegosis 1897 og ólzt þar upp til þess er hann var 23 ára að aldri. Hinn 3. ágúst 1915 innritaðist hann í 79. herdeildina, sem þá var í Brandon, Man., og dvaldi þar við heræfingar um sex mánaða tíma, og fór svo til Englands 14. apríl 1916. Þar var hann gerður að undirforingja (Corporal). Á Englandi var hann í 6 mánuði vð að æfa menn til herþjónustu og átti að vera við það starf framvegis, en bauðst til að fara til Frakklands með 43. Cameron Highlanders í október 1916. Á Frakklandi tók hann drengilegan þátt í stríðinu. Skömmu áður en hann féll, hafði hann verið gerður að "liðþjálfa" (Sergeant) fyrir vasklega framgöngu, og var hann að leiða menn sína til atlögu, er hann féll, í hinni skæðu orustu 26. október 1917. Jóhannes var fríður maður sýnum, bjarthærður og góðmannlegur á svip. Hann var með hærri mönnum á vöxt og fagurlega vaxinn, þýður og innilegur í öllum viðræðum, orðvar og gætinn og ávann sér hylli allra, sem hann kyntist.



## STEFÁN JÓNASSON.

Var fæddur 25. október árið 1890 (?), á Hámundarstöðum á Árskógsströnd í Eyjafjarðarsýslu. Foreldrar hans eru þau Ásgeir Tryggvi Jónasson frá Skútustöðum við Mývatn og Margrét Kristjánsdóttir frá Daðastöðum á Reykjaströnd í Skagafjarðarsýslu. Stefán bjó í Selkirk og var kvæntur ungfrú Frances Irene Stevens, og vann við innsetning gufuhitunarvéla í íbúðarhúsum (Steamfitting), er hann gekk í herinn. Hann var hljómleikari og gekk í hljómleikaflokk 108. herdeildarinnar 29. nóvember 1915. Hann fór frá Canada 12. september 1916. Er til Englands kom, var hersveit þessari sundrað og hann skipaður í 43. sveit Cameron Highlanders og með henni sendur í skotgrafir 4. marz 1917. Hann var rétt ár í skotgröfunum og féll 1. marz 1918, í hinu mikla áhlaupi Þjóðverja þá um vorið; varð fyrir sprengikúlu og beið bana af. Stefán var dugnaðarmaður mikill. Ekkja hans er nú gift öðru sinni; heitir maður hennar Mr. Pruden og búa þau í Winnipeg.



### SVEINN JÓNASSON.

Var fæddur 15. apríl 1882 á Björnólfsstöðum í Langadal í Húnavatnssýslu. Foreldrar hans voru Jónas Jónsson og Margrét Jónsdóttir. Móðir hans dó á Íslandi, en Sveinn flutti til Ameríku með föður sínum 1888, og settust þeir að við Akra í Norður Dakota. Fyrir nokkrum árum fluttist Sveinn til Mordenbygðar í Manitoba. Í herinn gekk hann í desember 1915, í 184. sveitina og sigldi með henni frá Canada áleiðis til Englands 31. október 1916. Skömmu síðar var hann sendur til Frakklands. 13. desember 1917 særðist hann lítillega og var á sjúkrahúsi nokkra daga. Strax og hann var gróinn sára sinna, var hann aftur sendur í skotgrafirnar. 30. marz 1919 varð hann fyrir sprengikúlu, sem varð honum að bana. Herprestur sveitar hans skrifar, að hann verið að sækja vistaforða handa félögum sínum. Sveinn var maður hugrakkur, hermannlegur, skyldurækinn og drengur hinn bezti. Hann eftirskilur aldraðan föður á Akra; bróður, er Jón heitir og sem býr með föður sínum; hálfsystur, er Sigríður Hjaltdal heitir og býr í St. James í Manitoba. Áður en Sveinn gekk í herinn, stundaði hann landbúnaðarvinnu og bjó á landi sínu vestur af Morden, Man.



### JAKOB LINDAL.

Var fæddur í grend við Churchbridge í Þingvallabygð í Saskatchewan 22. september 1895. Faðir hans var Jakob Líndal, f. á Björnólfsstöðum í Langadal í Húnaþingi 29. desember 1849, d. í Winnipeg 1920, Hansson, Natanssonar; en móðir Anna Hannesdóttir (löngu dáin), Þorvarðarsonar prests á Breiðabólstað í Vesturhópi. Móðir Önnu var Hólmfríður Jónsdóttir stjörnufræðings, Bjarnasonar í Þórormstungu. Jakob innritaðist í Canadaherinn 1915, við 65. hersveitina. Með henni fór hann frá Canada 18. júní 1916. Tók þátt í öllum orustum, er canadisku hersveitirnar áttu í sumarið 1916, og féll um haustið í nóvember það ár. Hann var prýðilega vel gefinn, sem hann átti kyn til, og var fyrir skömmu byrjaður á námi, er hann gekk í herinn.



## Lieutenant SVEINBJÖRN LOFTSSON, M.M., M.C.

Var fæddur 21. ágúst 1895 í Selkirk í Manitoba, en var til heimilis í Edmontonborg í Albertafylki, þar sem foreldrar hans bjuggu. Faðir hans var Ólafur gullsmiður Loftsson frá Hlíðarenda í Flókadal í Borgarfjarðarsýslu (dáinn 1915), Jónssonar á Hraðastöðum í Mosfellssveit. Móðir Ólafs var Barbara Magnúsdóttir í Hamrakoti í Andakíl, Magnússonar undan Eyjafjöllum. Tóku þau Loftur (d. 1863) og Barbara upp nýbýli í Flókadal og nefndu Hlíðarenda. Kona Ólafs, er býr hjá börnum sínum í Edmonton. Fór samsumars til Frakklands. Tók þátt í orÍvarsdóttur, úr Reykjavík. Systkini Sveinbjarnar, börn Ólafs og Guðrúnar, eru séra Aðalsteinn Magnús, kristniboði í Wu-Chow, Kwang-Tei, Kína; Loftur Páll í Winnipeg; Ólafur Steingrímur háskólastúdent í Edmonton, og Anna, heilbrigðisumsjónarkona við alþýðuskóla Albertafylkis. Sveinbjörn gekk í riddarasveitina alkunnu "Prin cessPatricia" 21. júní 1915; var þá við háskólanám í Edmonton. Fór samsumars til Frakklands. Tók þátt í orustunum við Somme, Sanctuary Woods og Vimyháls 1916. Var sæmdur heiðursmerki (Military Medal) og gerður að deildarforingja, fyrir hreysti og hugprýði í þessum orustum. Hvarf þá til Englands um tíma til frekara hernaðarnáms. Kom aftur til hersveitarinnar 2. nóvember 1917. Var þá gerður njósnarfyrirliði með Lieutenantsnafnbót. Sæmdur "herkrossi" (Military Cross) eftir áhlaupið við Neuville Vitasse. Hann féll í orustunni við Cambrai 28. september 1918, gegnt Tilloy, særður banasári og andaðist daginn eftir. Hann er grafinn við hlið sveitarforingjans, er féll sama dag, í "Ontario hermannareitnum" við Cambrai.



## GÚSTAF I. MAGNÚSSON.

Var fæddur í Manitoba árið 1898. Búa foreldrar hans nú við Winthorst í Saskatchewan. Faðir hans er Ingimar Magnússon, Gíslasonar, Gíslasonar prests í Sauðlauksdal í Barðastrandarsýslu; en móðir, Júlía Ágústa Jóhannesdóttir, Jakobssonar frá Hallormsstað. Kona Jóhannesar var Guðný Jónsdóttir í Hvammi við Fáskrúðsfjörð, Árnasonar. Gústaf var hinn efnilegasti piltur. Hafði þá unnið við bókfærslu hátt á annað ár við útbú Unionbankans, fyrst í Winthorst í eitt ár og síðan í Swift Current um sex mánaða skeið, er hann innritaðist í 68. canadsku hersveitina 20. desember 1915. Með henni fór hann til Englands 28. apríl 1916, og var þar í tvo mánuði. Var þá hersveit hans skipað til Frakklands. Áður en hersveitin fór, bauð sveitarforinginn Gústaf að vera eftir, sökum þess, hve hann væri ungur — rúmra 17 ára — en hann neitaði og kvaðst fara mundu. Er til Frakklands kom, var hann færður yfir í 8. hersveitina ("Little Black Devils" 90 Winnipeg Rifles) og var með henni frá 1. júlí til 26. september, að hann féll (hvarf) í orustunni við Somme. Hefir eigi síðan til hans spurst. Fórust þannig fjölda margir, að eigi fundust lík þeirra eftir orustuna.

## JÓN MAGNÚSSON.



Var fæddur 29. maí 1890 að Gröf í Laugardalshreppi í Árnessýslu. Foreldrar hans eru þau Magnús bóndi Ólafsson við Lundar, Man., ættaður úr Grímsnesi í Árnessýslu, og Eigerður Egilsdóttir. Bjó Jón sonur þeirra við Lundar um það leyti, er hann gekk í herinn. Hann innritaðist við 79. canadisku hersveitina í Brandonbæ 9. nóvember 1915. Með henni fór hann til Englands 21. apríl 1916, og þaðan til Frakklands nokkru síðar. Hann var í orustunni við Ypres í júní 1916 og Somme í september um haustið. Hann særðist í áhlaupi, er bandamönnum var veitt við Courcellette 16. september 1916, og af þeim sárum andaðist hann á herspítalanum 22. við Camiers á Frakklandi, 27. september. Jón var í hríðskotadeild hersveitarinnar og stjórnaði hríðskotabyssu daginn, sem hann særðist. Hann var íþróttamaður góður, einn stofnandi íþróttafélagsins "Grettir" við Lundar. Félagslyndur var hann og tók þátt í ýmiskonar félagsstarfsemi í Lundarbygðinni. Fyrstur varð hann Íslendinga í Álftavatnsbygð til að bjóða sig í herinn, og einnig hinn fyrsti, er féll úr því bygðarlagi.

## WILHELM NORMAN.



Fæddur 5. apríl 1892 í Victoria B. C.. Foreldrar: Steingrímur Norman, ættaður úr Húnavatnssýslu, og Lassaríana Bjarnadóttir, ættuð úr Mýrasýslu á Íslandi, nú búandi í Victoriaborg í British Columbia. Wilhelm gekk í herinn haustið 1915, 67. hersveitina (Western Scots), og fór skömmu síðar, 21. apríl 1916, til vígvallar. Hann sýktist af tæringu í skotgröfum á Frakklandi. Var sendur til Canada í september 1917. Hann andaðist á heilsuhælinu Mountain Sanatorium, í Hamilton, Ontario. Líkið var sent heim til foreldranna og grafið í Victoria B. C. Áður en Wilhelm gekk í herinn, stundaði hann húsasmíðar.



## MAGNÚS JÚNÍUS ÓLAFSSON.

Var fæddur í íslenzku bygðinni við Foam Lake 2. júní 1893. Var hann með fyrstu íslenzkum börnum, er fæddust þar í bygð. Foreldrar hans voru Stefán bóndi Ólafsson, ættaður úr Skeiðahreppi í Árnessýslu, og Guðrún Hinriksdóttir, ættuð af Seltjarnarnesi (systir Magnúsar bónda Hinrikssonar í Churchbridge). Fluttust þau hjón frá Íslandi til Þingvallabygðar, en þaðan árið 1892, ásamt þrem íslenzkum fjölskyldum, til þeirra stöðva, er síðan hefir nefnzt Foam Lake-bygð. Voru það fyrstu tildrög bygðarinnar. Þar andaðist Guðrún, en Stefán býr nú hjá dóttur sinni og manni hennar þar, Jóni Þórðarsyni Vium frá Valshamri í Geiradal. Magnús ólzt upp með foreldrum sínum þar í bygð. 11. des. 1915 gekk hann í 68. canadisku herdeildina og fór frá Canada 21. apríl 1916. Er til Frakklands kom, var hann settur við Princess Patricia hersveitina, er alkunn varð í ófriðnum fyrir hið mikla mannfall, er hún beið ár eftir ár. Virðist sem hún hafi öðrum fremur haft sig í hættu. Í orustum var hann við Vimyháls, Somme og Ypres. Tvívegis sama árið, 1917, var Magnús í hópi þeirra fáu, er uppi stóðu eftir áhlaup, er þá voru gerð. Sendi hann heim ýmsa smágripi til minja úr orustunum. Í eitt skiftið var það mikill og forkunnar fagur tigilhnífur, í annað skiftið sveitarmerkið af húfu hans sjálfs, er skotið hafði verið í tvent. Morguninn 30. október hófst ein skæðasta orusta, er hersveit þessi tók þátt í. Sótti hún fram að hlífðargörðunum. Um hvað gerðist, urðu fáir til frásagna um kvöldið. Í þetta skifti kom Magnús eigi aftur. Var hans leitað meðal særðra og fallinna, en fanst eigi, og hefir eigi síðan til hans spurst. Sprengingar voru ægilegar um daginn og við það týndust margir. Ber sögunum enn mjög á milli um þessa orustu.



## GUNNAR RICHARDSON.

Var fæddur 5. ágúst 1896 á Rafnseyri við Arnarfjörð. Hann var sonur séra Ríkharðar Torfasonar sóknarprests þar og síðar bókhaldara við Landsbankann í Reykjavík, og konu hans Málmfríðar Lúðvíksdóttur, Alexíussonar steinsmiðs. Gunnar fluttist til Vesturheims sumarið 1914, eftir tveggja ára nám við Mentaskólann í Reykjavík, og settist að í Glenborobæ í Argylebygð. Þar stundaði hann algenga sveitavinnu. Hann var vaskleikamaður, mikill vexti og fríður í sjón, og því auðsætt mannsefni gott. Hann innritaðist í herinn árið 1915, til þess að gera nýkominn til landsins, við 78. hersveitina, og fór með henni til Englands 20. maí 1916. Eftir það var hann lengst af á vígstöðvunum. Hann særðist í einni orustunni 1917 töluvert á handlegg og var þá um nokkurn tíma á sjúkrahúsi. Hann féll 21. marz 1918 í bardaganum við St. Emile í grend við Lens. Eftir frásögu hermálaskýrslunnar, stýrði hann fallbyssu. Kom sprengikúla niður, þar sem hann var, sundraði virkisveggnum og beið hann við það bana.



### KONRÁÐ SIGTRYGGSSON.

Var fæddur 17. ágúst 1888 á Hóli í Köldukinn í Suður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar hans voru þau Sigtryggur Hallgrímsson frá Stóru-Völlum í Bárðardal og fyrri kona hans Kristín Ágústa Jónatansdóttir frá Klambraseli í Reykjahverfi, nú bæði dáin. Konráð gekk í Canadaherinn í október 1915 og innritaðist við 78. hersveitina. Frá Canada fór hann 20. maí 1916, dvaldi um hríð á Englandi, en var því næst sendur til orustuvallar á Frakklandi. Í ýmsum orustum var hann sumarið 1916 og særðist tvisvar. Hann féll í grend við Vimy-háls 31. marz 1917. Konráð var efnismaður mikill. Eftir að hann gekk í herinn, ráðstafaði hann þeim eignum, sem hann átti, áður en hann fór að heiman, í því falli, að hann ætti ekki afturkvæmt. Hann var maður einbeittur í lund og stefnufastur.



### AÐALSTEINN JANUS SIGURÐSSON.

Var fæddur í Winnipegborg 27. janúar 1892. Foreldrar hans eru Teitur Sigurðsson, Sigurðssonar, og Húnbjargar Guðmundsdóttur, er lengst bjuggu á Deildará í Múlasveit, fæddur 15. febrúar 1856 að Litla-Nesi í Múlasveit í Barðastrandarsýslu og stundaði þar sjómensku, og Guðrún Þorsteinsdóttir, Kjartanssonar, og Jóhönnu Einarsdóttur, er bjuggu að Haugum í Stafholtstungum, fædd 22. september 1858 í Höll í Þverárhlíð í Mýrasýslu. Aðalsteinn var til heimilis hjá foreldrum sínum við Gimli og stundaði algenga sveitavinnu. Hann gekk í herinn í apríl 1915 og innritaðist við 44. canadisku hersveitina. Með henni sté hann á skip og hélt til Englands 23. október sama ár, en var færður yfir í 5. hersveitina eftir að til Englands kom. Með henni fór hann til Frakklands snemma ársins 1916. Tók þátt í ýmsum orustum þar. Særðist 2. júní 1916; var þá um tíma á sjúkrahúsi, en kom brátt til baka til hersveitar sinnar. Hann féll í orustunni við Somme 26. september 1916. Aðalsteinn var hinn gerfilegasti maður, bæði í raun og sjón.



## GUÐMUNDUR JÓNSSON SIGURÐSSON.

Var fæddur 22. febrúar 1893 á Ölvaldsstöðum í Borgarhreppi í Mýrasýslu. Foreldrar hans eru Jón Sigurðsson, fæddur á Ölvaldsstöðum, og Guðrún Jónsdóttir, fædd í Hamrakoti í Andakílshreppi í Borgarfjarðarsýslu. Búa þau við Bowsman River í Manitoba, og var sonur þeirra til heimilis hjá þeim, er hann gekk í Canadaherinn 25. marz 1915. Hann innritaðist við 184. hersveitina sem Sergeant, og fór með henni til Englands 31. október 1916. Til Frakklands var hann kominn 28. nóvember. Hann tók þátt í ýmsum orustum þann vetur og sumarið eftir, unz hann féll í bardaganum við Cambrai 10. nóvember 1917. Guðmundur var vel gefinn piltur. Fluttust foreldrar hans frá Íslandi sumarið 1897 og settust fyrst að í Brandonbæ. Þar naut Guðmundur skólamentunar og var kominn upp í 3. bekk Brandon mentaskóla (Brandon College), er hann gekk í herinn. Alls voru systkinin 11 og var Guðmundur 5. í röðinni. 9 eru á lífi og heita: Sesselía, býr í Vancouver, ógift; Ingimundur, býr í grend við föður sinn, kvongaður Sigþórn Ketilsdóttur frá Brandon; Jón trésmiður í Brandon, kvongaður Ingiríði Ketilsdóttur frá Brandon; Reimar, ókvæntur, býr í grend við föður sinn; Þórður, skólakennari í Saskatchewanfylki; Sigurrós, hjúkrunarkona í Swan River; Kristrún, Fjalar og Lovísa, eru öll heima hjá foreldrum sínum.



## HJÁLMAR STEPHANÍUS SIGURÐSSON.

Var fæddur 24. maí 1896 á Gimli í Nýja Íslandi. Foreldrar hans voru Sigvaldi Sigurðsson frá Harðbak á Sléttu í Norður-Þingeyjarsýslu, og Margrét Árnadóttir frá Setbergi í Borgarfirði í Norður-Múlasýslu. Er Sigvaldi síðari maður Margrétar, er áður var gift Valdimar Davíðssyni frá Ferjubakka í Öxarfirði, og búa þau hjón að 439 Ferry Road, St. James við Winnipeg. Hjálmar var til heimilis með foreldrum sínum, er hann gekk í Canadaherinn í febrúarmánuði 1915. Hann innritaðist við björgunardeild 79. hersveitarinnar, "Cameron Highlanders", og fór til Englands 21. apríl 1916. Þaðan fór hann skjótt yfir til orustuvallar í Belgíu, og var í orustum við Festubert, Zillebeck, Neuve Chapelle, St. Eloi og Somme. Þrisvar særðist hann og síðast til ólífis í orustunni við Somme 27. september 1916. Hann var hraustur piltur og myndarlegur, þó eigi væri hann nema rúmt tvítugur, er hann féll.

## SIGTRYGGUR VALDIMAR SIGURÐSSON.



Var fæddur á Húsavík í Þingeyjarsýslu í september 1874. Sonur Sigurðar Sveinbjörnssonar frá Landamóti í Köldukinn og Pálínu Pálsdóttur frá Reykjadal í Þingeyjarsýslu. Sigtryggur kom til Canada sumarið 1895 og kvongaðist skömmu síðar Guðrúnu Jósephínu Jónsdóttur frá Akureyri. Þau bjuggu í bænum Glenboro í Manitoba. Sigtryggur gekk í Canadaherinn árið 1915, í 144. hersveitina, "Little Black Devils", og fór með henni til Englands 18. september 1916. Tók þátt í orustum á Frakklandi, þar til hann féll þar á vígvelli sumarið 1917. Hann var myndarmaður hinn mesti.

## SIGÞÓR SIGURBJÖRN KRISTJÁNSSON SIGURÐSSON

Var fæddur á Valþjófsstöðum í Núpasveit í Norður-Þingeyjarsýslu 22. nóvember 1894. Foreldrar: Kristján Sigurðsson Ásmundssonar frá Katastöðum, og Árnína Guðrún Þorláksdóttir, Einarssonar, frá Garði í Þistilfirði. Sigþór fluttist með foreldrum sínum til Ameríku sumarið 1903. Þau settust að í íslenzku bygðinni nokkrar mílur norður af Glenboro og voru þar, þangað til um vorið 1907, að móðir hans dó. Eftir það vann Sigþór fyrir sér hjá ýmsum bændum í Argylebygðinni, þar til hann innritaðist í 144. hersveitina í Winnipeg 15. desember 1915, undir nafninu Thor Sigurðsson frá Leslie, Sask. (því þá var Kristján faðir hans þar vesturfrá). Eftir að hann var búinn að vera 9 mánuði við heræfingar í Winnipeg og í Hughes-herbúðunum, fór hann til Englands með fleirum úr hersveitinni 18. september 1916. Þar var hann enn við æfingar, þar til seint um haustið 1916, að hann fór til Frakklands, og var þar settur í 44. hersveitina og fór fljótlega í skotgrafir. Hann særðist stórkostlega í orustu snemma í apríl um vorið, og andaðist af þeim sárum 11. apríl 1917. Sigþór var fremur smár vexti, en þrekinn. Hann var dulur í skapi og fylginn sér, og tók hverju, sem að höndum bar, æðrulaust. Frá því um fermingu, er hann misti móður sína, var hann að mestu leyti hjá vandalausum. Getur það að einhverju leyti hafa haft áhrif á skapferli hans. Hann var stiltur og gætinn.





## STANLEY SMITH.

Var fæddur í Winnipegborg 15. október 1892. Sonur Richards Samuel Smith: er hann af enskum foreldrum, fæddur í Essex á Englandi, og Sigrúnar Guðmundsdóttur Skúlasonar og Guðríðar Guðmundsdóttur konu hans. Bjuggu þau foreldrar Sigrúnar á Reynivöllum í Skagafirði og fluttu með börn sín til Nýja Íslands 1876. Þaðan til íslenzku bygðarinnar í Dakota 1880 og bjuggu þar eftir það. Er Guðríður enn á lífi, en Guðmundur dáinn fyrir nokkrum árum. Stanley var til heimilis hjá foreldrum sínum í Winnipeg og vann við vatnsleiðslu í bænum. Hann innritaðist í 27. hersveitina (Winnipeg Battalion) í apríl 1915 og fór með henni frá Winnipeg áleiðis til Englands 13. maí og á skip 17. sama mánaðar. Til vígstöðvanna var hann kominn skömmu seinna. Hann átti í mörgum orustum, en kom úr þeim flestum ósærður. Í orustunni miklu nóttina milli 8. og 9. september, við Ligny-St.-Flochel á Frakklandi, særðist hann banasári og andaðist 10. sama mánaðar. Stanley var myndarmaður og prýðilega vel gefinn, sem hann átti kyn til.



## RÚTUR SIGURÐUR SÖLVASON.

Var fæddur 25. febrúar 1890 í Winnipegborg. Faðir hans er Sigurður póstmeistari Sölvason í Westbournebæ í Manitoba, fæddur á Ytri-Löngumýri í Blöndudal í Húnaþingi 7. september 1862, sonur Sölva Sölvasonar og konu hans Sólveigar Stefánsdóttur, er þar bjuggu: en móðir Guðrún, dóttir Péturs Einarssonar frá Felli í Biskupstungum og konu hans Höllu Magnúsdóttur frá Bráðræði við Reykjavík. Rútur gekk í Canadaherinn 26. maí 1915 og innritaðist við 44. hersveitina, og með henni fór hann frá Winnipeg áleiðis til Englands 18. október og sté á skip 23. s. m. Var þar í fimm mánuði, en sendur því næst til Frakklands og skipaður í hríðskotaliðið. Hann tók þátt í orustunni við Musterisskóga gegnt Ypres í Belgíu 2.—5. júní 1916 og féll þar. Eftir því sem hermálaskýrslurnar skýra frá var mannfall þar mikið og margir, er eigi fundust þar eftir orustuna. Var Rútur í tölu þeirra. Hann var hinn röskvasti og myndarlegasti piltur, vel gefinn til lífs og sálar og hinn vinsælasti í sveit félaga sinna.

## JÓN SIGVARÐUR THOMPSON.



Var fæddur í Selkirkbæ í Manitoba 12. júli 1897. Sonur þeirra Sveins aktygjakaupmanns í Selkirk, Tómassonar, Jónssonar, og Ingibjargar Jónsdóttur, er bjuggu að Skarði í Lundareykjadal í Borgarfjarðarsýslu, og Sigurlaugar Steinsdóttur skipstjóra í Vík í Héðinsfirði. Jón var til heimilis hjá foreldrum sínum og var búinn að ljúka undirbúningsnámi til háskólans, er hann innritaðist í Canadaherinn árið 1915, við 108. hersveitina. Með henni fór hann frá Winnipeg 12. september um haustið 1916 og stè á skip 18. sama mánaðar. Hann var um hálfs annars árs tíma aðstoðarmaður deildarlæknisins, Dr. Dunn, en sótti þá um lausn frá því verki og að vera tekinn í aðalherinn. Var honum veitt það og skipaður við "16. canadisk-skozku hersveitina", og með henni sendur á orustuvöll frá Englandi í marz 1917. Með henni var hann þangað til hann féll, og hafði þá verið fulla 18 mánuði í skotgröfum. Þátt tók hann í orustunni við Somme —Lens—Passchendale. Hann féll í orustunni við Cambrai 1. október 1918. Hann var ötull og framgjarn, að hverju sem hann gekk, stiltur og þrekmikill og hinn bezti drengur í hvívetna.

## JÓHANNES STEFÁNSSON THORLÁKSSON.



Var fæddur 26. marz 1888 á Seyðisfirði í Norður-Múlasýslu á Íslandi. Faðir hans, Stefán Þorláksson, var ættaður af Djúpavogi í Suður-Múlasýslu, en móðir, Jóhanna Magnúsdóttir, úr Vestmannaeyjum. Jóhann fluttist til Ameríku með foreldrum sínum sama ár og hann fæddist, og settust þau fyrst að í smábænum Bleufeldville nálægt New York, en komu þaðan eftir tveggja ára dvöl til Canada og settist faðir hans að á landi í Lögbergsnýlendu og dó þar. Móðir hans lifir og býr nú við Churchbridge í Þingvallanýlendu, Sask. Jóhannes stundaði landbúnað og gekk tvo vetur á búnaðarskólann í Winnipeg, en fór í herinn 12. april 1915 og gekk í 44. hersveitina. Hann fór frá Winnipeg 28. maí 1915 og á skip 23. október þá um haustið, en til Frakklands var hann kominn skömmu seinna. Hann fann upp vél til að kasta með sprengikúlum (Bomb-throwing Machine), og stóð til, að hann yrði sendur á yfirforingjaskóla, en féll um það leyti, 2. júlí 1916, við Ypres. Hann var mjög lagvirkur, hvar sem hann tók til hendi, og fyrirmyndarpiltur í allri framkomu. Heiðursmerki var honum veitt af herstjórninni, og var það sent til móðurinnar í desember 1920.

## HÖRÐUR THORSTEINSSON.



Var fæddur 27. marz 1892 á Kolkuósi í Skagafjarðarsýslu. Faðir hans er Tómas I. Thorsteinsson, fæddur að Núpakoti undir Eyjafjöllum í Rangárvallasýslu, sonur Ísleifs bónda Þorsteinssonar í Núpakoti og konu hans Þóru Þorsteinsdóttur, en móðir Harðar er Guðrún, fædd á Upsaströnd í Eyjafjarðarsýslu, dóttir Jóels bónda Jónssonar í Hvammi í Höfðahverfi og Dóróthea Loptsdóttur bónda í Sauðanesi. Tómas og Guðrún fluttu með börn sín til Canada sumarið 1902, og hafa búið lengst af í Winnipeg síðan. Hörður vann hjá kjötsölufélaginu Gibson Gage & Co., er hann innritaðist í herinn 1. nóv. 1915 við 90. hersveitina (90th Winnipeg Rifles), er í ófriðnum hlaut auknefnið "Svörtu djöflarnir litlu". Með henni fór hann til Englands 20. maí 1916 og skömmu síðar yfir til Frakklands. Hann var í orustunum við Somme, Vimyháls og Fresnoy. Særðist í Somme-orustunni, en féll í bardaganum við Fresnoy 28. apríl 1917. Hörður var hinn mesti ákafamaður, ódeigur í hættum og fús til stórræða. Hann var vel að manni, að afli og íþróttum. Þeir bræður, synir Tómasar, voru fjórir og gengu allir í herinn á öndverðum tíma ófriðarins og gátu sér allir orðstír fyrir hrausta framgöngu. Foreldrar Harðar búa nú við Sturgeon Creek fyrir vestan Winnipeg.

## THORSTEINN THORSTEINSSON.



Var fæddur 2. júlí 1896 við White Sand í Saskatchewan. Þá um tíma var þar íslenzk bygð, skamt frá þar sem nú er þorpið Theodore. Foreldrar hans eru Þorsteinn bóndi Thorsteinsson, fæddur í Holtum í Einholtssókn við Hornafjörð í Austur-Skaftafellssýslu, og Anna Jónsdóttir frá Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu. Þau hjón fluttu frá Íslandi til Canada sumarið 1891. Voru um tíma í Þingvallanýlendu, en fluttust til Foam Lake bygðar árið 1898 og hafa búið þar síðan skamt frá bænum Leslie. Þorsteinn sonur þeirra ólzt upp með foreldrum sínum, þar til hann gekk í Canadaherinn, 188. hersveitina, 14. desember 1915. Var hann þá um tíma við heræfingar í Yorktonbæ í Sask. og Hughes-herbúðunum í Manitoba. Hersveit hans var send af stað til Englands 28. september 1916, en 12. október var stigið á skip. Er til Englands kom, var hann færður í 46. hersveitina og með henni sendur til Frakklands 26. desember um veturinn. Hann var í tveim stórorustum og féll í hinni síðari, við Vimy-háls 10. apríl 1917. Hann særðist þá nokkru áður og var þá um þriggja vikna tíma á sjúkrahúsi. Þorsteinn var meira en meðalmaður að vexti, bjartur yfirlitum, bláeygur og hinn gervilegasti að sýn og orku. Fremur var hann fálátur og orðvar, en tryggur í lund. Æfiferill hans var ekki viðburðaríkur: má segja, að hergangan væri fyrsta æfintýrið, enda reyndist það líka stórt. Hann gekk sem sjálfboði í herinn, albúinn að taka því sem verða vildi, sárum eða bana; fór það og að skaplyndi hans. Hann var óádeilinn um annara sakir og lét ekki mikið yfir sér. Hann var hinn samvizkusamasti í öllu og hinn bezti drengur.



**FRANK WILLIAM WALTERSON.**

Var fæddur í Selkirkbæ í Manitoba 10. desember 1896. Sonur Hjartar Walterson, er ættaður er úr Borgarfj.sýslu, og Jónínu Sveinsdóttur, ættaðrar úr Bárðardal í Suður-Þingeyjarsýslu. Frank var til heimilis í Selkirk og var kvæntur Beatrice Cummings. Er hún af enskum ættum. Þau áttu einn son, er Franklin heitir, er tekinn var til fósturs af föðurforeldrunum. Frank gekk í canadiska herinn 13. desember 1915 og innritaðist við 108. hersveitina. Er sveit þessi fór til Englands, var Franklin veikur og fékk því eigi fylgst með henni. Er hann komst til heilsu, var hann settur við riddaraliðs-sveitina "Lord Strathcona Horse". Með henni fór hann áleiðis til Englands 1. april 1917. Var hann bráðlega sendur til Frakklands og skipaður sem hraðboði við herinn (Dispatch Rider). Hann var í ýmsum orustum fram til stríðsloka. Eftir að vopnahlé var sett fylgdist hann með canadiska hernum inn á Þýzkaland. Á bakaleið um vorið 1919, í marzmánuði, veiktist hann af spönsku sýkinni. Andaðist hann úr þeirri veiki á sjúkrahúsi í Bramshott á Englandi.



**ÓLAFUR G. MAGNÚSSON.**

Mynd þessi er sett hér, þó eigi sé í réttri röð. En svo stendur á, að myndin fór í öfugan flokk hjá myndamótaverksmiðjunni og fanst því eigi, er æfiágripið var prentað. Sbr. bls. 181.

# 1916

### GUÐMUNDUR SVEINN ÁRNASON.

Var fæddur 5. apríl 1892 í Árdal í Borgarfjarðarsýslu. Foreldrar hans voru Árni Vigfússon, fyrrum bónda í Lambhaga í Borgarfjarðarsýslu, nú búandi í Hjarðarholti í Bifröstsveit í Nýja Íslandi, og Ingibjörg Elízabet Guðmundsdóttir frá Botnastöðum í Húnaþingi (dáin 9. apríl 1919). Guðmundur vann heima hjá foreldrum sínum áður en hann gekk í herinn. Hann innritaðist í 107. hersveitina 13. marz 1915, og sigldi frá Canada áleiðis til Englands 13. nóvember sama ár; hélt þaðan viðstöðulaust til Frakklands, og var stöðugt í skotgröfum frá því í janúarbyrjun og fram til 9. maí 1917, að hann féll. Guðmundur var hinn myndarlegasti maður í sjón, bjartur á hár, bláeygur, og góðmannlegur, en þó alvörugefinn og einbeittur og hugaður vel. Honum var ógefið um að láta hlut sinn fyrir neinum, en ýfðist þó aldrei við nokkurn að fyrra bragði. Stiltur vel og dró sig aldrei til baka í neinu, er til hins betra leiddi.





## GUÐMUNDUR ÁSGEIRSSON.

Var fæddur á jóladaginn árið 1892 að Rutsholti í Snæfellsnessýslu. Fluttist að Fróðá í sömu sýslu með foreldrum sínum 14 ára gamall og dvaldist þar með þeim í fjögur ár, eða þar til hann flutti til Ameríku árið 1910. Átti hann heima í Winnipeg um nokkur ár, en flutti því næst vestur til Albertafylkis, og þaðan innritaðist hann í 29. canadisku hersveitina í apríl 1916. Til Frakklands fór hann það sama vor og var stöðugt í orustum um sumarið fram að 25. september, að hann féll. Foreldrar Guðmundar eru þau Ásgeir Þórðarson, alþingis- og dannebrogsmanns á Rauðkollsstöðum í Snæfellsnessýslu, og Ólína Guðmundsdóttir söðlasmiðs, Ólafssonar prests að Hjaltabakka í Húnaþingi. Búa þau hjón á Fróðá á Snæfellsnesi. Guðmundur var meðalmaður vexti, greindur vel og örgeðja. Hann var íþróttamaður góður og glaðsinna, og var því jafnan kærkominn í hópi yngri manna.



## DANÍEL JAKOB BERGMANN BENSON.

Var fæddur 3. október 1891 í Park River bæ í Norður Dakota. Foreldrar hans voru þau Áskell Jónsson Bergmann (albróðir séra Friðriks J. Bergmanns) og Guðný Jónsdóttir frá Mýlaugsstöðum í Aðaldal í Suður-Þingeyjarsýslu. Tveggja ára gamall misti Daniel móður sína; var hann þá tekinn til fósturs af þeim hjónum Gísla og Guðbjörgu Benson og ólzt hann upp með þeim þar til hann var 18 ára gamall. Flutti hann þá til Canada og vann á ýmsum stöðum um sex ára bil, unz hann innritaðist í 249. canadisku hersveitina 27. maí 1916. Var hann þá við heræfingar fram til vorsins 1918, að hann fór með hersveit þessari til Frakklands. Átti hann í mörgum orustum þá um sumarið, en særðist þó eigi; varð eitt skifti fyrir eiturlofti, en veiktist eigi að mun. Í áhlaupinu mikla hinn 27. september þá um haustið féll hann, og er jarðaður í hermannagrafreit bandamanna á Frakklandi.



**BJARNI SIGFÚSSON BERGMANN.**

Var fæddur 3. september 1897 að Garðar í Norður Dakota. Foreldrar: Sigfús verzlunarmaður í Wynyard, Sask., sonur Sigfúsar frá Fagraskógi við Eyjafjörð, Jónassonar Bergmanns, og Þórunnar Jónsdóttur frá Laugalandi í Hörgárdal, Halldórssonar, og Anna, dóttir Bjarna frá Garði í Fnjóskadal, Olgeirssonar, og Guðrúnar Ásmundsdóttur, Gíslasonar, frá Þverá, alsystir Einars Alþingismanns í Nesi. Bjarni ólzt upp í foreldrahúsum, að Garðar í Norður Dakota, svo í Mordenbygð, Man., þá í Warrenton í Oregon og síðast, frá árinu 1905, að Wynyard, Sask. Í uppvexti naut hann algengrar skólamentunar, og að henni lokinni vann hann við verzlun föður síns í Wynyard, unz hann innritaðist í 214. sveit Canadahersins 3. marz 1916. En sökum heilsubilunar, er ágerðist mjög í herbúðunum, var hann leystur úr hernum eftir nokkurra mánaða þjónustu. Hann andaðist heima hjá foreldrum sínum að Wynyard 29. marz 1917.



**ERLENDUR BJARNASON.**

Var fæddur á Norður-Reykjum í Mosfellssveit 12. október 1891. Foreldrar hans eru þau Bjarni Bjarnason á Norður-Reykjum í Mosfellssveit og Kristín Erlendsdóttir Snædal, fædd 12. október 1865 í Skálholti í Biskupstungum í Árnessýslu. Erlendur var til heimilis með móður sinni við Reykjavíkurpósthús í Man. um það leyti sem hann gekk í herinn og stundaði aðallega trésmíðar. Við marzbyrjun 1916 innritaðist hann í 223. hersveitina og fór með henni frá Winnipeg áleiðis til Englands 7. apríl 1917. Eigi er getið um, í hvaða orustum hann var eftir að hann kom til Frakklands, en stöðugt var hann í framfylkingu Canadahersins, þangað til hann féll 1. febrúar 1918. Hann var dugnaðarmaður, hagur til allra verka og vel að sér gerr á margan hátt.



## FRIÐBJÖRN BJARNASON.

Hann var fæddur 27. júní 1894 í Kolgerði í Höfðahverfi í Suður-Þingeyjarsýslu. Faðir hans er Kristján Friðbjörnsson, Jónssonar, og Margrétar Jónsdóttur frá Kinn í Þingeyjarsýslu, en móðir hans og kona Kristjáns er Kristjana Sigurðardóttir, Jóhannessonar, og Sigurlaugar Jónsdóttur frá Miðgerði í Laufássókn, einnig í Þingeyarsýslu. Átta ára gamall fluttist hann með foreldrum sínum til Canada 1902, og byrjaði þá á barnaskólanámi, og þrátt fyrir fátækt og örðugleika, hélt hann því áfram, unz hann hafði lokið kennaraprófi innan tvítugsaldurs. Hafði hann þá á hendi skólakenslu í rúmt ár, en gekk því næst í herinn, innritaðist í 226. canadisku hersveitina í febrúar 1916. Með þeirri hersveit fór hann til Englands sama haust og var þar fluttur yfir í 16. varaliðsdeildina og sendur með henni til Frakklands í apríl 1917. Í skotgröfunum var hann frá því og þangað til hann féll 1. marz 1918. Hann var bjartur yfirlitum, meðalmaður að vexti, en fremur skarpholda. Í háttsemi og allri framkomu var hann stiltur og viðmótsþýður; að eðlisfari viljasterkur og framgjarn, iðinn og eftirlátssamur, og meira en í meðallagi að gáfum.



## VALDIMAR BJÖRNSSON.

Var fæddur í Glenboro í Argylebygð 12. nóvember 1896. Foreldrar hans eru Ívar frá Skjaldakoti á Vatnsleysuströnd (f. 21. sept. 1866), Björnsson, Guðnasonar í Austurholti, og Margrétar Ívarsdóttur, systur þeirra Skjaldakotsbræðra, er voru nafnkendir sjómenn við Faxaflóa síðari hluta 19. aldar; og Anna Jónína Valtýsdóttir (f. 1. júní 1868) frá Húsavík í Borgarfirði austur. Átta ára að aldri fluttist hann með foreldrum sínum til Langreuth, Man. Þar innritaðist hann í 184. canadisku hersveitina 29. febrúar 1916 og fór með henni í októbermánuði sama ár yfir til Englands og þaðan skömmu síðar til Frakklands. Eftir sex mánaða veru í skotgröfunum veiktist hann af hitasótt (Trench Fever) og var fluttur til Englands. Í marz 1918 var hann orðinn albata og hélt þá á ný til Frakklands með 188. varaliðssveitinni og fór strax í skotgrafir. Í ágústmánuði særðist hann á höfði og var þá fluttur á sjúkrahús á herstöðvunum, og andaðist þar 13. s. m. Valdimar var hraustmenni mikið, þrjár álnir á hæð og þrekinn eftir aldri. Hann var ljós á hár, bjartur yfirlitum, fjörlegur og hvatur í hreyfingum. Hann var djarfur og framsækinn, vinsæll og í áliti meðal æðri sem lægri. Systkini hans eru: Björn, Sigurður, Halldóra, Margrét og Addie Viola, öll við Langreuth.



## ÞÓRARINN BJÖRNSSON.

Var fæddur í Bakkagerði í Stöðvarfirði í Suður-Múlasýslu 1. maí 1880. Sonur Björns Jónssonar og Lukku Stefánsdóttur, er þar bjuggu. Hann flutti með skyldmenni sín 10 að tölu frá Búðum í Fáskrúðsfirði vorið 1905 til Ameríku og settist að í Winnipeg. Hann vann um tíma við verzlunarstörf í Winnipeg, en setti síðar á stofn skeggrakastofu í bænum og veitti henni forstöðu, þangað til hann innritaðist í Canadaherinn, við 108. hersveitina, 7. febrúar 1916. Með henni fór hann áleiðis til Englands 13. september um haustið og dvaldi þar um veturinn. Vorið 1917 er hann sendur til vígvallar á Frakklandi og særðist þar í áhlaupinu mikla við Hill 70, 15. ágúst um sumarið, og andaðist degi síðar. Eftir skýrslu spítalaprestsins, var hann skotinn í báðar mjaðmir og vinstra handlegg, og því eigi hjálpar auðið eftir að hann kom inn á sjúkrahúsið. Þórarinn var sérstaklega lundþýður maður, friðgjarn og fáskiftinn, tryggur og vinfastur. Hann var meðalmaður vexti, fremur smáleitur, bláeygður og ljósgulur á hár. Hann var hinn bezti drengur og hvarvetna vel metinn á meðal þeirra er honum kyntust.



## ALEXANDER BORGFJÖRÐ.

Var fæddur að Árborg, Man. 5. október 1898. Sonur Guðmundar Magnússonar Borgfjörðs frá Litlu-Brekku í Mýrasýslu, Magnússonar, og Þórunnar Hallgrímsdóttur frá Kalanesi í Gullbringusýslu, Sigurðssonar. Búa þau Guðmundur og Þórunn í grend við Árborg. Alexander gekk í 251. canadisku hersveitina 20. október 1916, þá rétt 18 ára gamall. Vorið 1917 var tvisvar gerður á honum uppskurður, við meinsemd, er gerði vart við sig undir vinstra handlegg hans, og þóttist læknirinn hafa tekið fyrir meinið með seinni uppskurðinum. En það fór á annan veg: meinið tók sig upp að nýju og ágerðist meir og meir. Lagði það hann loks í rúmið í júnímánuði 1918. Lá hann þá réttar 9 vikur og leið miklar þjáningar, er hann bar með frábæru þreki, unz hann andaðist hinn 9. ágúst um sumarið, heima hjá foreldrum sínum. Var honum veitt heimfararleyfi rétt áður en hann lagðist. Alexander var hinn gerfilegasti í sjón og hið mesta mannsefni, og röskur til hvers er vera skyldi. Hann var fríðleiksmaður og drengskaparmaður í hvívetna.



**JÓHANN SOFFONÍAS EINARSSON BORGFJÖRÐ.**

Var fæddur í Lyons County í Minnesota 18. apríl 1894. Foreldrar hans eru Einar Guðmundsson Borgfjörð, ættaður úr Borgarfirði í Norður-Múlasýslu, og Þórstína S. Þorsteinsdóttir snikkara, Vilhjálmssonar frá Hjartarstöðum í Suður-Múlasýslu. Búa þau í grend við Mary Hill P. O., Man. Jóhann innritaðist í herinn, 223. sveit, 7. maí 1916, og fór til Englands með þeirri deild 7. apríl 1917. Var hann þar æfður sem leyniskytta (sniper), og reyndist svo skotviss, að honum var innan lítils tíma boðin staða við skotkenslu. En Jóhann hafnaði því boði og fór til Frakklands í október 1917. Gerðist hann meðlimur hríðskotaliðsins (Machine Gunners) og vann með þeim, þar til hann særðist á höfði í áhlaupi á skotgrafir Þjóðverja 6. nóvember kl. 5 um morguninn. Höfðu þeir félagar tekið tvær skotgrafir, er hann særðist: aðrar tvær tók deild hans í þessu áhlaupi. Hann var meðvitundarlaus í 10 daga og var búist við dauða hans á hverri stundu. En hann raknaði við og var búinn að ná allgóðri heilsu, er hann kom heim í júlímánuði 1918. Veturinn eftir, 13. febrúar, fór hann til Winnipeg til að læra vélfræði, samkvæmt tilboði stjórnarinnar. Var hann við það nám, þar til hann veiktist, 14. marz. Hann dó á King George's sjúkrahúsinu 24. marz. Líkið var sent til Lundar og jarðsett þar. Með sanni má segja, að fallið hafi í valinn hraustmenni, bæði í líkamlegri og andlegri merkingu, ósérhlífinn og ótrauður til hvers þess, sem honum virtist skyldan bjóða.



**STURLAUGUR BJÖRNSSON CRAWFORD.**

Var fæddur í Gautsdal í Geiradal í Barðastrandarsýslu. Sonur Björns Sigurðssonar Crawford frá Kambi í Reykhólasveit og Sigríðar Pétursdóttur frá Fríshóli í Barðastrandarsýslu. Bjuggu þau foreldrar hans í Gautsdal unz þau fluttu til Vesturheims og settust að við Winnipegosisvatn í Manitoba. Sturlaugur stundaði þar fiskiveiðar fram til þess tíma, er hann fór í herinn og innritaðist við 223. hersveitina í marzmánuði 1916. Með henni fór hann af landi burt 7. apríl 1917 áleiðis til Englands, og þaðan með ágústbyrjun til herstöðva á Frakklandi. Eftir það var hann árlangt stöðugt í skotgröfum, í hríðskotaliði bandamanna. Gekk þá á sífeldum ornstum. Særðist hann ekki fyr en í stórorustunni 27. ágúst 1918. Fékk hann þá mörg sár og var fluttur í búðir sárra hermanna á bak við fylkingar (Clearing Station 29. Can. Army) og andaðist þar sama dag. Sturlaugur var röskur maður og vígdjarfur og hinn bezti drengur.

## KRISTJÁN KONRÁÐ DAVÍÐSSON.



Var fæddur við Miltonbæ í Cavalier County í Norður Dakota 15. júní 1899. Foreldrar hans voru Magnús Davíðsson bóndi við Milton (dáinn), ættaður úr Skagafirði, og Ingibjörg (fædd á Gimli í Nýja Íslandi) Gísladóttir frá Húsey í Vallhólmi í Skagafirði, Gíslasonar, Ólafssonar. Móðir Ingibjargar var Ragnheiður Gísladóttir bónda á Skynþúfu í Vallhólmi, Jónssonar bónda að Grófargili í sömu sveit. Kona Jóns þessa, en móðir Gísla, var sögð að vera laundóttir Halldórs umboðsmanns Vídalíns á Reynistað, Bjarnasonar sýslumanns á Þingeyrum, Halldórssonar og Hólmfríðar Pálsdóttur lögmanns Vídalíns. Kristján ólzt upp í Dakotabygðinni þar til hann var 13 ára, að hann misti föður sinn: fór hann þá til ömmubróður síns, Andrésar Gíslasonar við Voga í Siglunessbygð, og var hjá honum eftir það, þar til hann innritaðist í herinn, 223. hersveitina, í marzmánuði 1916. Fór hann þá til Winnipeg og var við heræfingar rúman mánaðartíma, eða þangað til hann veiktist af skæðri lungnabólgu. Var hann þá fluttur inn á sjúkrahús Winnipegbæjar og þar andaðist hann 16. maí. Kristján var vel að manni og talinn mjög efnilegur.

## SIGURÐUR J. EIRÍKSSON.



Var fæddur 23. júní 1893 í Mýrasýslu á Íslandi. Foreldrar hans eru þau Jón Eiríksson og Ingibjörg Þorkelsdóttir, ættuð úr Mýrasýslu, en búa nú í grend við Otto-pósthús í Manitoba. Sigurður gekk í 107. canadisku hersveitina 29. janúar árið 1916. Með hersveit þessari fór hann til Englands 13. september um haustið og þaðan skömmu síðar til Frakklands. Var hann nærri því undantekningarlaust í öllum orustum, er Canadaherinn tók þátt í, frá orustunni við Vimy Ridge 9. apríl 1917, og til þess að hann féll, 28. september 1918, í bardaganum við Cambrai. Sigurður var nýbyrjaður á háskólanámi, er hann gekk í herinn. Var hann góðum námshæfileikum búinn og þótti mannsefni gott. Hann var vaskleikamaður og vel að sér gerr um margt.



## ÁSGEIR FJELDSTED.

Var fæddur að Jörfa í Hnappadalssýslu 27. júní 1885, þar sem foreldrar hans, Þorbergur Fjeldsted frá Hvítárvöllum í Borgarfjarðarsýslu og Helga Guðmundsdóttir frá Hamraendum í Stafholtstungnahreppi, þá bjuggu. Sumarið 1887 fluttist fjölskyldan til Ameríku og settist að um tíma í Winnipeg, en því næst í Mikley. Ári eftir að vestur kom, andaðist Helga móðir Ásgeirs. Snemma byrjaði Ásgeir á verzlunarstörfum og gerðist verzlunarstjóri í bænum Árborg 1910, fyrir Sigurðsson, Thorvaldson verzlunarfélagið. Kvongaðist hann um það leyti og reisti sér þar hús og bjó þar. Heitir kona hans Ingunn dóttir Kristjóns Finnssonar, sem ættaður er úr Snæfellsnessýslu. Eignuðust þau hjón þrjá sonu. Ásgeir var fríður sýnum, dökkur yfirlitum, liðlega vaxinn, ör í skapi og fjölhæfur á marga lund. Hneigðist hugur hans mjög að sönglist og hljómleikum. Í febrúar 1916 gekk hann í 223. hersveitina og var skipaður kapteinn í vistastjóradeild sveitarinnar. Gegndi hann því starfi og var jafnframt við heræfingar fram eftir sumri. 13. ágúst var hann staddur að heimili sínu í Árborg; veiktist hann þá hastarlega, var fluttur samdægurs inn á sjúkrahús Winnipegborgar og þar skorinn upp, en til heilsu komst hann ekki og andaðist þar 30. s. m.. Lík hans var flutt til Árborgar og jarðsett þar. Auk föðursins, sem nú er á níræðisaldri, lifa hann 6 alsystkini og þrjár hálfsystur. Bræður hans eru Guðmundur fyrv. þingm. Gimlisveitar og Jón klæðskeri í Reykjavík.



## PÁLL BERGVIN FRIÐVINSSON.

Var fæddur 22. maí 1895 að Reykjum í Skarðshreppi í Skagafjarðarsýslu. Foreldrar hans eru þau Friðvin Ásgrímsson bóndi á Reykjum og Margrét Sigríður Jóhannesdóttir. Páll kom einn síns liðs frá Íslandi sumarið 1913 og var til heimilis hjá frændfólki sínu, Jóhannesi lækni Pálssyni og móður hans, við Elfros, Sask. um það leyti sem hann gekk í Canadaherinn. Hann innritaðist við 223. hersveitina vorið 1916, upphaflega við hjúkrunardeild sveitarinnar en var síðar skipaður, eftir að til Englands kom, í sveit, er send var til Frakklands til að fylla skörð þeirra fylkinga, er voru á orustuvellinum. Hann var þar í ýmsum orustum, þangað til hann féll í orustunni við Cambrai 28. september 1918. Talinn var hann, af þeim, sem honum kyntust, vel gefinn og bezti drengur í hvívetna.



## BJÖRN GÍSLASON.

Var fæddur á Bakka á Tjörnesi 23. október 1891. Árið 1900 fluttist hann til Ameríku með foreldrum sínum og dvaldi í Argylebygð þar til 1910, að hann flutti með þeim norður að Manitobavatni, þar sem nú heitir Silver Bay. Hann innritaðist í 222. hersveitina 2. febrúar 1916, á Ashern, Man., og var við æfingar í Hughes-herbúðum. Þar til hann fór með herdeildinni til Englands í nóvember sama ár. Litlu eftir jól var hann sendur til Frakklands til 44. hersveitarinnar, er þá var í skotgröfunum. Í maí 1917 særðist hann, en varð græddur og sendur aftur á orustuvöllinn. Hann féll nálægt Lens 22. ágúst 1917 og var jarðsunginn að hermannasið. Björn heitinn var með stærri mönnum á vöxt og hinn karlmannlegasti. Hann var stilltur maður og gætinn, fastur í lund og lét lítið yfir sér, kjarkgóður og ósérhlífinn og hinn bezti drengur. Foreldrar hans eru Jóel Gíslason, ættaður frá Bakka á Tjörnesi í Suður-Þingeyjarsýslu á Íslandi, og Kristbjörg Rósa Guðnadóttir, ættuð frá Laugaseli í Reykjadal í sömu sýslu.



## SIGURÐUR PÁLMASON GÍSLASON.

Var fæddur í Steinholti í Glæsibæjarhreppi í Eyjafjarðarsýslu. Sonur Pálma bónda Gíslasonar, Jónssonar, á Belgsá í Fnjóskadal í Suður-Þingeyjarsýslu, Jónssonar. Móðir Pálma var Kristbjörg Magnúsdóttir frá Jarlsstöðum í Bárðardal. Móðir Sigurðar hét Jónína Sigurðardóttir, ættuð úr Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu, en eigi getur hverra manna hún var, í þeim skýrslum, er fengist hafa. Sigurður gekk í 108. canadisku hersveitina vorið 1916; var þá til heimilis í Winnipeg. Með henni fór hann til Englands 12. september um haustið og til Frakklands þá um veturinn. Hann féll í orustunni á Vimy-hálsi 9. apríl árið 1917.



## THOMAS GOODMAN.

Var fæddur árið 1890 við Muskoka í Ontario, á hinum fornu stöðvum Íslendinga, þar sem fyrst myndaðist íslenzk bygð í Canada. Faðir hans heitir Ágúst (Guðmundsson) Goodman og er fæddur á Akureyri, en móðirin er af canadiskum ættum. Búa þau hjón við Cardwell í Ontario. Synir þeirra eru þrír og gengu allir í herinn 1916, en eigi getur um, í hvaða hersveit þeir bræður voru. Thomas fór frá Canada í marz 1917. Þegar til Englands kom, var hann settur við skógarvinnu. Við vinnu þessa meiddist hann háskalega, en eigi getur um, hvernig það atvikaðist. Lá hann þá á sjúkrahúsi í Glasgow lengi. Virtist um tíma sem væri hann á batavegi, en bati sá varð skammærr. Tók hann lungnabólgu og andaðist síðla á árinu 1918. Hann er jarðaður í Glasgowborg á Skotlandi.



## ÞORSTEINN KRISTINN GOODMAN.

Var fæddur 12. maí 1894 í Nýlendu í Leiru í Gullbringusýslu. Sonur Hreins bónda Hreinssonar, Guðlaugssonar, (f. 11. janúar 1863 á Sperðli í Vestur-Landeyjum í Rangárþingi), og Sigríðar Þórðardóttur frá Hlöðutúni í Stafholtstungum í Mýrasýslu (f. 13. júlí 1858). Árið 1900 fluttist Þorsteinn með foreldrum sínum og systkinum vestur um haf. Námu foreldrar hans land við Piney í Manitoba og ólzt hann þar upp með þeim til þess tíma, að hann gekk í herinn. 29. ágúst 1916 innritaðist hann í 223. hersveitina og fylgdist með henni til Englands 7. apríl 1917, en í september sama ár var hann, með fleirum, sendur til vinnuhersveitar á Frakklandi. Starfaði hann þá að ýmsu í hernum fram til marzmánaðar 1919, að hann veiktist af spönsku sýkinni. Fór hann þá á sjúkrahús, fyrst á Frakklandi og seinna á Englandi. Tæplega ferðafær var hann svo sendur til Canada og kom til Winnipeg 2. júní 1919. Er þangað kom, lagðist hann enn á King Edward sjúkrahúsið og var þar lengst af — að undanteknum 2 vikum, er hann dvaldi heima hjá foreldrunum — þar til hann andaðist 3. ágúst um sumarið. Lík hans var flutt heim og jarðað í grafreit Íslendinga við Piney.

## FRIÐRIK RÓSBJÖRN HALLDÓRSSON.



Var fæddur 6. júlí 1895 við Hallson í Norður Dakota. Faðir hans er Halldór kaupmaður í Wynyard, Sask., Jónathansson frá Húki í Miðfirði í Húnaþingi, Halldórssonar, og konu hans Elínar Magnúsdóttur; fluttu frá Íslandi til Nýja Íslands sumarið 1876 og fjórum árum síðar til Hallson í Norður Dakota, og bjuggu þar lengi; en móðir Cecilía, dóttir Odds Magnússonar og Margrétar Ólafsdóttur frá Haukadal í Dalasýslu, fædd á Giljalandi í sömu sýslu 11. október 1873, fluttist með foreldrum sínum frá Íslandi til íslenzku bygðarinnar í Norður Dakota sumarið 1886. Þau Halldór og Cecelía giftust 6. apríl 1895 og bjuggu nokkur ár við Hallson, en fluttu því næst til Saskatchewanfylkis laust eftir aldamótin og voru með fyrstu landnemunum í Wynyard; nefndi Halldór bæ sinn Sleipni og var þar sett póstafgreiðsla um tíma. Friðrik innritaðist við 108. hersveitina við byrjun ársins 1916 og fór til Englands 12. september sama ár, og féll í hinu mikla áhlaupi við Hill 70 á Frakklandi 15. ágúst 1917. Friðrik var einkar staðfastur piltur, námfús og reglusamur. Byrjaði að hjálpa föður sínum við verzlun hans, þegar hann var 10 ára, í skólafrístundum sínum. Hann útskrifaðist frá verzlunarskóla í Winnipeg; eftir það vann hann sem innheimtumaður fyrir International Harvester félagið, og var í þeirri stöðu, þegar hann innritaðist í herinn.

## GUNNLAUGUR HJÖRLEIFSSON.



Var fæddur í Winnipeg 25. júlí 1894. Sonur Björns bónda Hjörleifssonar við Íslendingafljót í Nýja Íslandi, frá Hallfreðarstöðum í Norður-Múlasýslu, og Guðrúnar Einarsdóttur, sem ættuð er úr Skaftafellssýslu. Fluttust þau hjón til Vesturheims sumarið 1893, dvöldu um tíma í Winnipeg, þar næst um skeið í grend við Gimli, en búa nú á áðurgreindum stað. Gunnlaugur ólzt upp með foreldrum sínum og yfirgaf eigi foreldrahúsin fyr en hann innritaðist í Canadaherinn. Hinn 26. janúar 1916 gekk hann í 108. hersveitina og fór með henni 12. september frá Winnipeg áleiðis til Englands, og í janúar 1917 til Frakklands. Er þangað kom, var hann færður í hina svonefndu skozku Hálendingasveit (Scottish Highlanders) og með henni var hann eftir það, unz hann féll í orustunni miklu í grend við Cambrai 16. ágúst 1918. Fregnir um lát hans bárust foreldrunum skömmu síðar. Hann var maður fremur hár vexti, þrekinn og karlmannlegur; glójarpur á hár, augun grá og bjartur yfirlitum; hægur í viðmóti og eigi orðmargur, en fastur í lund. Hann var fyrsti Íslendingurinn í Fljótsbygð, sem innritaðist í herinn.



## JOSEPH DANÍEL JÓELSSON.

Var fæddur að Baldur í Argylebygð í Manitoba 6. febrúar 1895. Foreldrar hans eru Jóel bóndi Jósephsson og Elízabetar, frá Skörðum í Miðdalahreppi í Dalasýslu, og Steinunn Jónasdóttir og Steinunnar, er bjuggu í Vífilsdal í Hörðudal í sömu sýslu. Jóseph ólzt upp með foreldrum sínum og vann að landbúnaði, er hann gekk í Canadaherinn. Hann innritaðist við 222. hersveitina 7. júní 1916 og fór með henni áleiðis til Englands 1. nóvember sama ár. Til Frakklands fór hann um veturinn. Eigi getur, í hvaða orustum hann tók þátt, né heldur, að hann hafi særst. Eftir orustuna við Passchendale 26. október 1917 gátu herskýrslurnar þess, að hann hefði eigi aftur komið úr bardaganum, og var því talinn fallinn. Urðu þau afdrif allmargra í ófriðnum, að þeir fundust eigi eftir orustu, fyr en þá allnokkru seinna. Var jörð oft svo rótað til, að hinir föllnu huldust moldu og sverði. Jóseph var talinn mjög efnilegur maður, vel gefinn og hinn myndarlegasti í sjón.



## PÁLL JÓHANNESSON.

Var fæddur 13. janúar 1896 við Íslendingafljót í Nýja Íslandi. Foreldrar hans eru Þorfinnur bóndi Jóhannesson við Baldur í Argylebygð, ættaður úr Breiðdal í Suður-Múlasýslu, og Karólína Rannveig Andrésdóttir, ættuð úr Axarfirði í Norður-Þingeyjarsýslu. Með foreldrum sínum fluttist hann til Argylebygðar 1903 og var þar með þeim, þangað til hann gekk í 222. canadisku hersveitina 18. janúar 1916. Til Norðurálfunnar fór hann í nóvember 1916 og var þá skipaður í 46. hersveitina. Hann féll á Frakklandi 5. maí 1917, en fanst eigi fyr en 25. júlí. Fregnin um andlát hans barst foreldrunum 28. maí. Hann var vel gefinn og duglegur, glaðlyndur og dagfarsgóður, og hinn efnilegasti í öllum greinum.



## SIGURBJÖRN JÓHANNESSON.

Var fæddur 18. október 1872 í Pálsseli í Laxárdal í Dalasýslu. Foreldrar hans voru þau Jóhannes bóndi í Pálsseli, Halldórsson, og Sesselía Bjarnadóttir. Eigi getur, hvenær Sigurbjörn fluttist til Vesturheims. Hann var kvæntur og hét kona hans Steinunn (dáin fyrir löngu). Börn áttu þau, Bjarna og Jónassínu, til heimilis í Nýja Íslandi í Manitoba. Sigurbjörn gekk í 223. canadisku hersveitina 15. apríl 1916 og með henni fór hann frá Canada 7. apríl 1917 áleiðis til Englands. Eftir að þangað kom, var hann sendur til herbúða í Belgíu. Var hann þar um sumarið, þangað til hann féll 6. nóvember 1917.

## ÁSGEIR F. JOHNSON.



Var fæddur í Winnipeg 13. október 1895. Faðir hans er Finnur Johnson bóksali í Winnipeg, sonur Jóns bónda á Melum í Hrútafirði, Jónssonar kammerráðs, Jónssonar á Melum, og hafa þeir langfeðgar búið þar mann fram af manni í nærri 300 ár. Kona Jóns á Melum og móðir Finns var Sigurlaug Jónsdóttir bónda Ólafssonar að Helguvatni í Vatnsdal. Kona Finns og móðir Ásgeirs er Guðrún Ásgeirsdóttir, Finnbogasonar, er síðast bjó á Lundum í Stafholtstungum í Mýrasýslu, og seinni konu hans Ragnhildar Ólafsdóttur. Ásgeir gekk í herinn í febrúar 1916 og fór áleiðis til Englands í október það ár. Var með herdeild sinni (78th Batt.) þar til 30. október 1917, að hann féll í orustunni miklu, sem kend er við Passehendale í Belgíu. Varð það á þann hátt, að sprengikúla féll rétt hjá honum og misti hann lífið á svipstundu. Ásgeir er jarðaður að Passehendale, New British Cemetery, 6½ mílu E.N.E. af Ypres í Belgíu, (Plot 13, Row B., Grave 5). Systkini Ásgeirs eru: Anna, gift John P. Duncan, Antler, Sask., og Jón Ragnar, sem nú stundar nám við háskóla Manitobafylkis. Ásgeir var alinn upp hjá foreldrum sínum í Winnipeg og var byrjaður á háskólanámi, er hann gekk í herinn. Svo er honum lýst af manni, er þekti hann vel: "Hann hafði farsælar námsgáfur, iðjusamur og sílesandi. Þýður og viðkvæmur í lund, geðprúður í bezta lagi, orðvar og ástúðlegur í viðmóti. Hann var röskur meðalmaður að hæð, þrekinn, beinvaxinn og bar sig vel. Honum var vel farið í sjón, svipurinn hreinn og góðlegur, en þó djarflegur."



## MAGNÚS JOHNSON.

Var fæddur í febrúar 1886 á Valshamri á Skógaströnd í Snæfellsnessýslu. Foreldrar hans voru Jón hreppstjóri Jónsson, er þar bjó þá og síðar að Narfeyri í sömu sveit (d. 1902), og seinni kona hans Málmfríður Jósephsdóttir, sem er enn á lífi og á heima hjá Guðmundi syni sínum í Stykkishólmi. Jón hreppstjóri var sonur Jóns Jónssonar í Gvendareyjum og Salóme, dóttur Odds Guðbrandssonar frá Þingvöllum og Þuríðar Ormsdóttur, Sigurðssonar í Langey. En Málmfríður er dóttir Jósephs Hjaltalíns á Valshamri, Jónssonar prests, Oddssonar Hjaltalín á Breiðabólsstað. Þegar Magnús gekk í herinn, átti hann heima í Mouse River bygðinni í Norður Dakota og stundaði landbúnaðarvinnu. Hann innritaðist í 214. hersveitina í Moose Jaw, Sask., í nóvember 1916 og fór með henni til Englands í apríl 1916. Þar var hann við æfingar um sumarið og var sendur til Frakklands í september það ár, í 5. hersveitina. Hann særðist snemma í nóvember af kúlubroti, sem hann fékk í höfuðið, en greri svo, að hann varð fær um að fara aftur til hersveitar sinnar í febrúar 1918. Hann var svo á orustusvæðinu frá þeim tíma og til þess er hann særðist aftur 2. september, af kúluskoti í aðra öxlina, og dó af því sári 12. september. Sökum þess, að hermönnum var bannað, að nefna í bréfum sínum staði þá, sem þeir voru á, eða segja frá athöfnum herdeildar sinnar, þá skrifaði Magnús ekkert um það hvar hann barðist; en frézt hefir úr öðrum stað, að 5. herdeildin hafi á þessum tíma (sept. 1917 til sept. 1918) barist á svæðinu hjá og í nánd við Ypres. Mun hann því hafa verið þar, er hann særðist banasárinu, og andast þar, sem áður er sagt.



## PÁLL JOHNSON.

Var fæddur á Mýrum í AusturSkaftafellssýslu um 1890. Foreldrar hans voru séra Jón Guðmundsson (dáinn fyrir mörgum árum síðan) og Guðný Kristjánsdóttir, er bjó á Fáskrúðsfirði, er síðast fréttist. Páll fór frá Íslandi til Winnipeg sumarið 1910, að sögn, og átti þar heima í sex ár. 5. apríl vorið 1916 innritaðist hann við 107. canadisku hersveitina. Var um tíma við heræfingar í Hughes-herbúðum í Manitoba, en fór því næst með hersveit þessari til Englands 13. september 1916. Er þangað kom, var sveit hans sundrað og hann skipaður í 16. skozk-canadisku sveitina. Með henni fór hann til Frakklands og í skotgrafir skömmu fyrir hátíðarnar um veturinn. Hann féll í orustunni á Vimy-hálsi í apríl 1917.

## GUÐNI BJARNI JÓNSSON.



Hann var sonur þeirra Jóns Guðmundssonar og Steinunnar Magnúsdóttur, sem búa í Hnausabygð í Nýja Íslandi. Var hann fæddur þar 19. apríl 1891, og ólzt upp hjá foreldrum sínum. Guðni gekk í 223. hersveitina, hríðskotadeildina, 13. marz 1916 og var við æfingar í þeirri deild þangað til hann lagði af stað frá Winnipeg 7. apríl 1917. Eftir tæplega tveggja ára dvöl á Englandi veiktist hann af liðagigt og lá þar á sjúkrahúsi í fimm vikur. Áður en hann kom þaðan út aftur, var deild hans skift og nokkuð af henni sent til Frakklands; varð hann því viðskila við félaga sína. Hann var við heræfingar á Englandi þangað til í nóvember 1917, þá var hann sendur til Frakklands með 78. hersveitinni. Í þeirri sveit var hann eftir það og oftast í skotgröfunum í næstu 10 mánuði. Þar særðist hann og dó af sárum 3. september 1918. Guðni var hinn mannvænlegasti, þrekmikill og fylginn sér, kappsamur og skyldurækinn, og í hvívetna hinn nýtasti maður. Hann á foreldra og fimm systkini á lífi, er búa við Hnausa.

## Lieutenant HALLGRÍMUR JÓNSSON. M. C.

Var fæddur á Mýri í Bárðardal 19. marz 1885. Sonur Jóns bónda Jónssonar á Mýri, fæddur á Garðsá í Eyjafjarðarsýslu, og Kristjönu Jónsdóttur bónda að Núpi í Bárðardal. Vestur um haf fluttist hann eftir lát móður sinnar sumarið 1900 og var þá um nokkur ár til heimilis hjá móðursystur sinni og manni hennar, Jóhanni Þorgeirssyni verzlunarmanni í Winnipeg. Hann var að upplagi sérlega vel gefinn og námfús. Brauzt hann því í að afla sér æðri mentunar strax eftir hingað komuna. Innritaðist hann við Wesley College í Wpg. 1905, í undirbúningsdeild háskólans. Átti hann við marga örðugleika að stríða, fátækt og ófullkomna undirbúningsmentun, einkum í enskri tungu; en örðugleika þessa yfirsté hann alla, lauk burtfaraprófi vorið 1912 með lofi og hlaut að auk verðlaunapening háskólans fyrir sérstaka kunnáttu í ensku og enskum bókmentum. Náði hann þvínæst stöðu sem yfirkennari við miðskóla í bænum Manitou í Manitoba. Gegndi hann því embætti,er hann innritaðist í 108. hersveitina í janúarmánuði 1916. Til Frakklands fór hann á undan hersveit sinni, í ágúst sama ár. Í október þá um haustið var hann sæmdur heiðursmerki (Military Cross) fyrir hrausta framgöngu í orustu. Vorið 1917 var hann skipaður til yfirumsjónar með hermanna- og vistaflutningum, en þótti starfi sá of kyrlátur og sótti því frá honum um inngöngu í flugliðið, í marz 1918. Fór hann þá til Englands um tíma til þess að fullnuma sig í fluglist. Kvæntist þar í júnímánuði ungfrú Lucille Ritchman, en fór til Frakklands aftur seint í júlí og féll þar í loftorustu 3. september um haustið. Var hann öllum harmdauði, er til hans þektu.





## JÓN GILBERT JÓNSSON.

Var fæddur í Winnipeg 15. september 1898. Faðir hans er Filippus Jónsson, Péturssonar, frá Vettleifsstöðum í Holtum í Rangárvallasýslu, en móðir Þórdís Þorsteinsdóttir, Þorsteinssonar, frá Vatnsenda í Skorradal í Borgarfjarðarsýslu. Gilbert ólzt upp með foreldrum sínum, fyrst í Winnipeg og síðan við Stony Hill í Grunnavatnsbygð. Þangað kom hann 4 ára. Haustið 1913 innritaðist hann við Jóns Bjarnasonar skóla í Winnipeg og stundaði þar nám upp til 29. janúar 1916, að hann innritaðist í 107. canadisku hersveitina. Var hann þá við heræfingar í Winnipeg og síðar í Hughes-herbúðum, þangað til að herdeildin lagði af stað til Englands 13. september 1916. Þegar til Englands kom, var hann talinn of ungur til að sendast á orustuvöll: var því í Whitby-herbúðum fram til 25. febrúar 1917, að hann var sendur til Frakklands. Var hann svo þar, það sem eftir var æfinnar, er skemri reyndist en vonast hefði mátt til. Í orustum var hann um vorið og sumarið, en féll í bardaganum við Hill 70 13. ágúst um sumarið: varð fyrir sprengikúlu og beið samdægurs bana af þeim sárum, er hann þá fékk. Gilbert var hið efnilegasta ungmenni, hafði ágætar námsgáfur, glöggan skilning og gott minni, trúhneigður og samvizkusamur, trúverðugur og stöðuglyndur við hvað sem hann tókst á hendur að gera.



## FRIÐRIK JOSEPHSSON.

Var fæddur 24. október 1895 á Mýrarlóni í Lögmannshlíðarsókn í Eyjafjarðarsýslu. Faðir hans var Jón (f. 9. sept. 1861) Josephsson bónda á Neðri-Dálkstöðum á Svalbarðsströnd, Jósephssonar, sama staðar, en móðir Jóns var Helga Magnúsdóttir, systir Vigdísar móður Kristins skálds Stefánssonar í Winnipeg. Kona Jóns en móðir Friðriks er Guðrún Ísleifsdóttir frá Glerá í Eyjafirði (f. 22. júlí 1874). Bjuggu þau á Mýrarlóni þar til Jón druknaði 4. nóvember 1898. Varð þeim tveggja barna auðið. Brá Guðrún þá búi og flutti til Vesturheims með börn sín tvö, Friðrik og Aðalheiði Ólínu, árið 1902. Var um tíma í Winnipeg, fluttist þvínæst til Argylebygðar og giftist þar Sigvalda B. Guðmundssyni við Baldur. Ólzt Friðrik upp með þeim og var þar til heimilis, þegar hann gekk í 222. canadisku hersveitina 8. janúar 1916. Frá Canada fór hann 1. nóvember 1916 og var kominn til vígstöðva á Frakklandi snemma í janúar 1917. Í orustunni á Vimyhálsi í apríl 1917 særðist hann og var þá um tíma á sjúkrahúsi á Englandi, en var bráðlega sendur til baka aftur. Hann var í orustunni við Amiens í ágúst 1918. En úr bardaganum við Arras 3. september, er hann tók þátt í, kom hann eigi aftur og hefir eigi til hans spurzt síðan. Féll hann þar, þó eigi fyndist hann að lokinni orustunni. Friðrik var hinn efnilegasti maður, hugumstór, hreinskilinn og hjartagóður. Hann var fríður sýnum, karlmannlegur á vöxt og hagur til allra verka.

**Lieutenant MAGNÚS SIGURÐUR KELLY.**



Var fæddur í Selkirk í Manitoba 21. október 1892. Faðir hans var Þorsteinn, sonur Þorkels Guðmundssonar og Hallfríðar, er bjuggu á Unastöðum í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu, og þar var Þorsteinn fæddur; en móðir Guðrún, dóttir Björns Guðmundssonar og fyrstu konu hans Sigríðar Bjarnadóttur, er bjuggu á Kjartansstöðum í Reynistaðarhreppi í Skagafjarðarsýslu. Var Sigríður af hinni alkunnu Sjávarborgarætt. Þau foreldrar Magnúsar bjuggu fyrst í Steinárgerði í Svartárdal í Húnaþingi og síðar á Leifsstöðum. Til Ameríku fluttu þau 1883; bjuggu fyrst í Árnesbygð í Nýja Íslandi, en árið 1891 færðu þau sig til Selkirk og bjuggu þar síðan. Þorsteinn andaðist þar 20. maí 1897. Tók þá Björn sonur þeirra við búi og er móðir hans til heimilis hjá honum. Magnús lauk barnaskólanámi í Selkirk og innritaðist því næst við Manitobaháskólann. Þaðan útskrifaðist hann í sögu og þjóðmegunarfræði vorið 1915. Las því næst lög hjá mági sínum, Buhr lögfræðingi í Morse, Sask. Þar innritaðist hann í 223. canadisku hersveitina 1916. Var þá nýkvongaður stúlku af canadiskum ættum. Til Englands fór hann 7. apríl 1917. Er þangað kom, var hann færður í flugliðið. Var hann fyrsti Íslendingur, er lokið hefir fluglistarnámi. Hann dó af slysi 15. maí 1918, þannig að á flugvél hans rakst brezk flugvél í loftorustu við Þjóðverja. Féllu báðar flugvélarnar til jarðar og biðu þeir bana, er í þeim voru. Magnús var íþróttamaður, hafði unnið 30—40 verðlaunapeninga á allsherjar íþróttamótum áður en hann útskrifaðist úr skóla. Systkini hans: Guðrún Búason (d. 1921), Sigríður Hill, gift kona í Winnipeg, og María, gift Buhr lögfræðingi í Morse, Sask.

**BALDUR KRISTJÁNSSON.**



Var fæddur á Gimli 9. október 1891. Foreldrar hans voru þau Kristján S. Guðmundsson (d. 16. sept. 1918) og Helga J. Þórðardóttir. Bjuggu þau á Ytri-Tungu á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu; fluttu þaðan til Vesturheims árið 1887 og settust að í grend við Gimli í Nýja Íslandi. Börn þeirra, önnur en Baldur, eru: séra Albert Edvard, prestur að Lundar, Man.; Kristiana og María, báðar giftar; Sigtryggur; Hannes verzlunarmaður á Gimli, og Hallfríður. Baldur var íþróttamaður góður og sérlega gefinn fyrir hljómleika. Hann gekk í lúðrasveit 197. canadisku hersveitarinnar 25. maí 1916 og stjórnaði henni um tíma. Setti hann þau skilyrði, er hann gekk í herinn, að eigi yrði honum þröngvað til vopnaburðar, en þegar til Englands kom og sveitinni var sundrað, var lítt um þann samning fengist. Er hann afsagði að stunda skotæfingar, var honum haldið að þeim engu að síður. En við það að kynnast ástandi á Englandi um það leyti, breyttust skoðanir hans að mun, og báru bréf hans það með sér, er hann ritaði ættingjum sínum. Taldi hann þörf að leiða ófriðinn til lykta, er aðeins yrði gert með því, að sem flestir tækju til vopna. Til Englands fór hann 1916 og um veturinn til Frakklands. Er hann hafði verið í skotgröfunum um tíma, átti hann kost á að taka hina fyrri stöðu sína, en hafnaði því boði. Hann féll í orustunni við Amiens—Arras 11. ágúst 1918.



## SKÚLI G. LÍNDAL.

Var fæddur í grend við Churchbridge í Þingvallabygð í Saskatchewanfylki 30. október 1893. Faðir hans var Jacob Líndal (f. á Björnólfsstöðum í Langadal í Húnaþingi 29. des. 1849, dáinn í Winnipeg 1920), Hansson, Natanssonar; en móðir Anna Hannesdóttir (löngu dáin), Þorvarðssonar prests á Breiðabólsstað í Vesturhópi. Móðir Önnu var Hólmfríður Jónsdóttir stjörnufræðings, Bjarnasonar í Þórormstungu. Skúli var í Saskatoon, er hann innritaðist í Canadaherinn. Gekk hann í 196. hersveitina 1916 og fór með henni til Englands 1917. Yfir til Frakklands fór hann bráðlega eftir að yfir um kom. Var hann í orustunni við Passchendale 1917, Amiens og fleiri orustum 1918. Hann féll síðla sumars 1918, nokkru áður en vopnahlé var sett. Skúli var sérlega vel gefinn piltur. Hann byrjaði skólanám í Winnipeg og var kominn í undirbúningsdeild háskólans, er hann fór vestur til Saskatoon; átti faðir hans þá heima við Wynyard. Hélt hann námi áfram eftir að vestur kom við Saskatchewan-háskólann, alt fram til þess, að hann gekk í herinn.

## EINAR STEFÁNSSON LONG.



Var fæddur að Naustahvammi í Norðfirði í Suður-Múlasýslu 22. desember 1891. Foreldrar hans voru þau Stefán Bjarnason í Naustahvammi og Guðbjörg Matthíasdóttir, Matthíassonar, Richardssonar Long, og er ætt sú komin frá Englandi. Tók Einar sér nafn ættarinnar, eftir að hann kom vestur. Þegar hann var 5 ára, var hann tekinn til fósturs af séra Jóni Guðmundssyni á Nesi í Norðfirði. Ólzt hann upp með þeim og kostuðu þau hann til Reykjavíkur til að nema klæðskeraiðn. Sumarið 1909 fór Einar til Vesturheims og vistaðist vestur til Vatnabygða í Saskatchewan. Vann hann þar fyrir sér, en stundaði jafnframt skólanám. Haustið 1911 innritaðist hann við undirbúningsdeild Wesley College í Winnipeg. Skortur á enskukunnáttu tafði fyrir honum námið, en skjótt yfirsté hann þann örðugleika, fátæktin var erfiðust. Hjálpar naut hann að nokkru frá fáeinum mönnum er honum höfðu kynst. Yfir sumarmánuðina síðari árin sem hann var í skóla, vann hann að kirkjulegum málum og flutti prédikanir á ýmsum stöðum í íslenzku bygðarlögunum. Vetrarlangt hélt hann uppi sunnudagsprédikunum hjá Skjaldborgarsöfnuði í Winnipeg. Hann hafði ákveðið að leggja fyrir sig prestskap, er fram liðu stundir. 28. febrúar 1916 innritaðist hann við hjúkrunardeild 203. canadisku hersveitarinnar, fór með henni til Englands, var þar um tíma, en fór því næst til Frakklands með hjúkrunardeild 8. hersveitar. Þar féll hann 9. ágúst 1918, var að binda um sár eins félaga síns, er hann fékk kúluskot, sem veitti honum bana. Einar var prýðis vel gefinn og þótti ræðumaður góður. Hann var grannvaxinn, hárið glóbjart, augun blá og svipurinn allur góðmannlegur.



### GUÐMUNDUR Ó. MAGNÚSSON.

Var fæddur í Winnipeg 11. október 1891. Faðir hans er Ólafur, sonur Magnúsar bónda Jónssonar á Tandrastöðum í Norðfirði í Suður-Múlasýslu og Guðrúnar Ólafsdóttur, en móðir Björg, dóttir Guðmundar bónda Magnússonar í Fannardal í Norðfirði og Sigurbjargar Sigfúsdóttur. Búa foreldrar hans við Lundar í Álftavatnsbygð. Guðmundur ólzt upp með foreldrum sínum og var við nám við búnaðarháskóla Manitoba um það leyti sem hann gekk í herinn. Hann innritaðist við 223. canadisku hersveitina 23. maí 1916 og fór með henni til Englands 7. apríl 1917. Til Frakklands fór hann samsumars og féll í orustunni við Arras 20. júní 1918. Guðmundi er þannig lýst, að hann var hár vexti, en grannur og liðlegur á velli. Hárið bjart, augun ljós, ennið mikið og svipurinn hreinn og drengilegur. Hann var fríðleiksmaður og bar svipur hans allur vott um ríkt gáfnafar. Hann var mjög námfús og hafði ásett sér, að afla sér fræðslu og þekkingar, ef aldur hefði unnist til.



### JOSEPH NICKLIN.

Var fæddur 29. nóvember 1894 í íslenzku bygðinni í Norður Dakota. Hann var til heimilis í íslenzku bygðinni við Morden, er hann gekk í herinn, og stundaði þar algenga sveitavinnu. Foreldrar hans eru þau Andrew Nicklin, skozkur að ætt, og Vilhelmína Jónatansdóttir, Jónatanssonar frá Miðhópi í Húnavatnssýslu, er búa í Mordenbygð. Börn þeirra Andrew og Vilhelmínu eru 11 að tölu og var Joseph þeirra elztur. Hann gekk í 184. canadisku hersveitina 28. marz 1916 og fór frá Canada áleiðis til orustuvallar 1. nóvember 1916. Hvað snemma hann fór til Frakklands, hafa eigi fengist upplýsingar um, en þangað var hann kominn síðla vetrar 1917. Hann var í orustunni við Vimy-háls 9. apríl 1917 og féll þar.



## SVEINN HJALTALÍN ODDSSON.

Var fæddur í Reykjavík 30. september 1899. Sonur Gunnars Oddssonar frá Hvammi í Kjós og Sezelíu Sveinsdóttur frá Breiðumýrarholti í Flóa í Árnessýslu. Fluttust þau vestur um haf sumarið 1900 og settust að í grend við Árborg í Nýja Íslandi: er Gunnar löngu dáinn (1911), en móðir Sveins og systkini eiga heima við Árborg, og þaðan fór Sveinn í Canadaherinn, 223. hersveitina, 27. apríl 1916. Með henni fór hann frá Winnipeg 7. apríl 1917 áleiðis til Englands. Til Frakklands fór hann í desembermánuði um veturinn og var svo stöðugt í skotgröfum eftir það, þangað til hann féll í orustu 8. ágúst 1918. Sveinn var myndarpiltur hinn mesti og vaskleikamaður orðinn, þótt eigi væri hann nema tæplega tvítugur.



## WILLIAM HENRY O'DELL.

Var fæddur nálægt Cavalier í Norður Dakota 6. nóvember 1890. Áður en hann gekk í herinn átti hann heima að Glenboro í Manitoba, þar sem hann stundaði landbúnað. Foreldrar hans eru þau Phil. O'Dell, af írskum ættum, fæddur í New York-ríki í Bandaríkjunum, og Ingiríður Ólafsdóttir frá Eystrahóli í Fljótum í Skagafjarðarsýslu. Er móðir hans nú til heimilis í grend við Baldur, Man. Henry innritaðist í 222. hersveitina að Baldur 21. febrúar 1916 og fór frá Canada 1. nóvember sama ár. Hann tók þátt í orustunum við Vimy-háls, Hill 70 og Passchendale, þar sem hann féll 26. október 1917.

### ÓLI GUÐNASON OLASON.



Var fæddur 2. ágúst 1881 á Gíslastöðum á Völlum í Suður-Múlasýslu. Foreldrar hans voru þau Guðni Ólason og Margrét Þórðardóttir, sem þar bjuggu í nokkur ár. Þegar Óli var 5 ára gamall fluttust foreldrar hans til Ameríku og settust að við Akra í Norður Dakota og bjuggu þar yfir 20 ár. Var Óli þá tekinn til fósturs af Einari Jónssyni á Stórasandfelli, fósturbróðir Margrétar móður hans, og þar ólzt hann upp þar til hann var 25 ára gamall. Gekk hann þá að eiga Ólöfu Jónsdóttur frá Arnkelsgerði á Völlum og fluttist árið eftir ásamt konu sinni til Ameríku og staðnæmdist í Winnipeg. Var þar þangað til hann innritaðist í herinn og vann lengst af tímanum við útkeyrslu. Hann innritaðist við 108. canadisku hersveitina 18. janúar 1916 og lagði af stað austur 12. september það sama ár. Skifti um sveit, þegar hann kom til Englands og var þá skipaður í 16. hersveitina. Með henni var hann eftir það sem óbreyttur liðsmaður og tók þátt í öllum orustum með henni fram til síðari hluta sumars 1917. Hann féll í orustu 16. ágúst 1917, 1½ mílu N. N. W. af Lens á Frakklandi. Óli var hraustleikamaður og þolinn í öllum mannraunum, sem hann átti kyn til, og drengur hinn bezti.

### PÉTUR ALEXANDER OLSON.



Var fæddur 21. ágúst 1883 á Gimli í Nýja Íslandi. Foreldrar hans, er þangað fluttu snemma á tíð, voru þau Gottskálk Sigfússon Olson (löngu dáinn) og Hólmfríður Jónasdóttir, bæði ættuð úr Skagafirði. Pétur var kvæntur maður og heitir kona hans Jónína Hrólfsdóttir; þau eignuðust þrjú börn. Býr ekkjan með börnum sínum á Gimli. Pétur gekk í 108. hersveitina 27. marz 1916 og fór með henni um haustið, 12. september, til Englands. Veturinn eftir, hinn 20. febrúar, var hann færður yfir í 16. canadisku hersveitina og með henni fór hann til Frakklands. Tók hann þátt í ýmsum orustum með hersveit þessari vorið og sumarið 1917, unz hann særðist 8. nóvember um haustið. Var hann þá um nokkurn tíma á sjúkrahúsi. Í janúar 1918 var hann aftur kominn til orustuvallar og var þar fram til byrjunar ágústmánaðar, að hann fékk 10 daga hvíld og fór aftur til Englands. Til Frakklands kom hann aftur þann 11. sama mánaðar og féll fimm dögum síðar í orustunni við Amiens—Arras, 16. ágúst 1918. Pétur var stór maður vexti, dökkur yfirlitum og hinn karlmannlegasti, röskur að verki og orkumikill. Góðlyndur og hjálpfús eftir því sem ástæður leyfðu, einkum við þá, er minni voru máttar.



## SVEINBJÖRN PÁLSSON.

Var fæddur 15. apríl 1883 í Mjóafirði í Suður-Múlasýslu. Sonur Páls Jóhannessonar og Þórlaugar Einarsdóttur, frá Mjóafirði á Íslandi. Þau hjón fluttu til Canada árið 1883 og hafa síðan búið í grend við Íslendingafljót í Manitoba. Sveinbjörn innritaðist í 16. canadisku hersveitina í aprílmánuði 1916 og fór með henni áleiðis til Frakklands þá um haustið. Hann særðist mikið í orustu á Frakklandi í aprílmánuði 1917, og var þá fluttur til Englands og dvaldi þar á sjúkrahúsi hartnær árlangt, en var þá aftur sendur til herstöðva. Hann særðist í annað sinn í orustu í ágúst 1918. Tók þó þátt í bardaganum við Somme í septemberlok 1918, en í þeirri orustu hvarf hann og hefir lík hans eigi fundist og ekkert til hans spurst. Sveinbjörn var kvæntur ungfrú Guðrúnu Ísleifsdóttur, Sigurgeirssonar, frá Barkarstöðum í Fljótshlíð í Rangárvallasýslu og bjuggu þau við Árborg í Nýja Íslandi. Sveinbjörn var þrekmaður mikill og dugnaðarmaður.



## SIGURJÓN PAULSON.

Var fæddur í Winnipeg 18. maí 1891. Móðir hans er Sigríður Þórðardóttir, Tómassonar, frá Rauðafelli undir Eyjafjöllum. En faðir hans er Sigfús Pálsson, Sigfússonar, og Guðrúnar Árnadóttur, frá Gilsárvallahjáleigu (nú Grund) í Borgarfirði austur. Sigurjón ólst upp með foreldrum sínum í Winnipeg til fullorðinsára. Hann var útskrifaður af undirbúningsdeild háskólans og byrjaður á laganámi, er hann innritaðist í Canadaherinn, 197. hersveitina, 22. febrúar 1916. Með henni lagði hann af stað til Englands 18. janúar 1917, dvaldi þar í tvo mánuði, en hélt því næst áfram til vígstöðvanna. Í skotgröfunum var hann svo jafnan eftir það, þar til vopnahlé var sett. Til Englands kom hann aftur 25. febrúar 1919. Þar beið hann þess, að hann fengi far heim aftur. En meðan á því stóð, veiktist hann, 27. apríl, og var fluttur á sjúkrahús. Skrifaði hann þaðan móður sinni og kvaðst mundi verða albata bráðlega og halda þá heim á leið. En batinn drógst, sjúkdómurinn ágerðist og hinn 24. maí andaðist hann, og var jarðaður þar fyrir handan hafið. Sigurjón var einkar efnilegur piltur, fríður sýnum og glaðlyndur. Naut því mikilla vinsælda í hópi æskumanna. Hann var viðkvæmur og brjóstgóður, og kom það jafnan í ljós í umgengni við alla, jafnt eldri sem yngri.



## MAGNÚS PÉTURSSON.

Hann var fæddur í Borgarholti í Miklaholtshreppi í Snæfellssýslu árið 1895. Flu ti til Ameriku 1913 og settist að í Winnipeg. Stundaði hann málaraiðn um það leyti er hann gekk í herinn. Foreldrar hans eru þau Pétur Þórðarson frá Rauðkollsstöðum í Eyjahreppi í Snæfellsnessýslu og Þóra Þórarinsdóttir frá Melkoti við Reykjavík, systir séra Bjarna Þórarinssonar, nú í Reykjavík. Magnús gekk í 144. hersveitina og innritaðist við hana vorið 1916. Með henni fór hann til Englands samsumars og um haustið yfir til Frakklands. Var hann eftir það jafnan á orustuvelli, þar til hann féll í marzmánuði vorið 1917. Magnús var listhæfur og greindur vel. Hann var hinn röskasti að hverju sem hann gekk, framsækinn og fylginn sér og ótrauður, góðhjartaður og drenglyndur, og mátti það í mörgu merkja, þótt ungur væri.

## ARCHIBALD JÓN POLSON.



Var fæddur í Winnipeg 25. nóvember 1895. Faðir hans er Ágúst G. Polson, sonur Gunnars Pálssonar og Jóhönnu Ingjaldsdóttur frá Austurgörðum í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu; en móðir hans er Elízabet, dóttir Gísla Eiríkssonar og Elizabetar Jónsdóttur frá Krithóli í Skagafirði. Archibald ólzt upp hjá foreldrum sínum fyrstu 6 árin í Winnipeg og síðan á Gimli. Stundaði þar alþýðuskólanám og var kominn upp í miðskólann, þegar hann hætti og fór að vinna. Hann gegndi ýmsum störfum, en vann þó mest við verzlun. Hann innritaðist í 108. hersveitina 16. febrúar 1916 og steig á skipsfjöl áleiðis til orustuvallar 18. sept. sama ár. Á orustuvellinum á Frakklandi, oftast eða altaf við Vimy-háls, var hann frá því í febrúar og þangað til í apríl 1917. Í smábæ þar, er nefnist Neuville St. Vaast, varð hann 5. apríl fyrir sprengikúlu, er tók af honum hægri handlegginn og særði hann þess utan mörgum og stórum sárum. Þrem dögum síðar, á páskadag, var hann kominn á spítala á Frakklandi, og eftir þrjár vikur þar, var hann sendur til Englands. Á Englandi var hann svo það stutta, sem eftir var æfinnar, lengst af á sjúkrahúsi í Stepping Hill, en síðast í Ramsgate. Sár hans virtust vera algerlega gróin, en þá tók sig upp blóðeitrun, sem leiddi hann til bana 1. sept. 1917, á 22. aldursári. Archibald var vel gefinn. Námsgáfur hafði hann góðar. Hann var vingjarnlegur í viðmóti og hjartagóður við þá, sem bágt áttu. Hann var frændrækinn og frábærlega ástúðlegur ættingjum sínum.



## JÓN GUNNAR RÖGNVALDSSON.

Var fæddur 7. febrúar 1895 að Miðhúsum í Óslandshlíð í Skagafjarðarsýslu. Sonur Rögnvaldar Jónssonar og Steinunnar Jónsdóttur frá Hlíðarenda í sömu sveit. Jón fluttist vestur um haf rétt fyrir stríðsbyrjun og settist að í Winnipeg. Hann gekk í 108. hersveitina canadisku 6. marz 1916 og fór með henni frá Winnipeg 12. september um haustið áleiðis til Englands. Sumarið eftir var hann sendur til Frakklands og tók þátt í ýmsum orustum. Hann særðist allhættulega í orustunni við Hill 70 og varð ennfremur fyrir eiturgasi: var þá um tíma á sjúkrahúsum, og er hann komst til heilsu var hann ekki talinn vígfær og því sendur heim aftur til Canada í marz 1918. Eftir að heim kom var hann undir læknishendi um nokkurn tíma. Tók þá tilboði Canadastjórnar og festi sér land norður í fylkinu og byrjaði þar á jarðyrkju. En óheill var hann fyrir brjósti eftir eiturloftið, og svo tóku meiðsli hans sig aftur upp, er hann fór að reyna á sig. Hvarf hann því inn til Winnipeg aftur haustið 1920 og gekk undir uppskurð. Eftir það náði hann aldrei heilsu, lá alllengi á Almenna sjúkrahúsinu og andaðist þar eftir miklar þjáningar 11. september 1921. Jón var í hærra meðallagi, grannvaxinn og prúður í framkomu, bjartur á hár, bláeygur og viðmótsþýður og hinn bezti drengur.



## EARL STANLEY SHORTT.

Var fæddur í Cardwellbæ í Ontario 21. desember 1894. Faðir hans, Richard Shortt, er fæddur í Arthurbæ í Ontario og er af canadiskum ættum, en móðir Earls og kona Richards heitir Aðalbjörg Einarsdóttir, bónda á Hóli í Kinn í Ljósavatnshreppi í S.-Þingeyjarsýslu, fluttist frá Íslandi sumarið 1878. Búa þau hjón í Cardwell. Stanley gekk í herinn í marzmánuði árið 1916, innritaðist við 122. hersveitina. Með henni fór hann til Englands í apríl 1917. Er þangað kom, var herdeild þessi að mestu leyti send í skógar- og vegavinnu á Frakklandi, en Stanley vildi eigi taka þeirri vinnu, var því færður yfir í hríðskotadeild 116. hersveitar og með henni sendur til Frakklands. Tók hann þar þátt í ýmsum orustum: helztar voru þær við Lens, Merricourt, Loos og Amiens. Í hinni síðastnefndu féll hann hinn 11. ágúst 1918. Stanley var vaskleikamaður, hraustur og þrekmikill og hinn bezti drengur. Til heimilis var hann hjá foreldrum sínum í Cardwell áður en hann gekk í herinn. Stundaði hann aðallega skógarvinnu, því viðartekja er þar mikil og hefir verið frá því fyrsta, að Íslendingar settust þar að 1873.



**MAGNÚS SIGURÐSSON.**

Var fæddur á Víðivöllum við Árnes í Nýja Íslandi árið 1892. Faðir hans er Stefán (bóndi á Víðivöllum við Árnes), fæddur á Víðivöllum í Blöndubhlíð í Skagafjarðarsýslu, sonur Sigurðar járnsmiðs Sigurðssonar, Hrólfssonar, og Ingibjargar Magnúsdóttur (hlaupa-Magnúsar), en móðir Guðrún Magnúsdóttir, Þorkelssonar, á Grímsstöðum við Reykjavík. Magnús var með föður sínum þar til hann innritaðist í Canadaherinn 8. marz 1916, 223. hersveitina. Með henni fór hann til Englands 7. apríl 1917 og þaðan til Frakklands. Var hann í ýmsum orustum það sumar, unz hann féll um haustið, 13. nóvember 1917, í orustunni við Passchendale-hæðir í Belgíu. Magnús var kvæntur Guttormínu Kristínu Brynjólfsdóttur Anderson og býr hún í Winnipeg. Magnús var hinn mesti hraustleikamaður, sem hann átti kyn til, og bezti drengur.

**HENRY GEORGE SIVERZ, M. M. & Bar, etc.**



Var fæddur í Victoriaborg, B. C., 15. nóvember 1893. Faðir hans er Kristján Sivertz, sonur Sigurðar Sigurðssonar á Grænhóli á Barðaströnd, og Bjargar Jónsdóttur, Einarssonar, er lengi bjó í Mýratungu í Reykhólasveit; en móðir Elínborg, dóttir Samúels frá Grafarkoti á Vatnsnesi í Húnaþingi, Björnssonar á Syðrivöllum, og Grónu konu hans Jónsdóttur prests á Söndum í Dýrafirði. Kristján og Elínborg giftust í Victoria 1892, hafa búið þar síðan og eignast 6 syni. Var Henry elztur. Skólanám stundaði hann fyrst í Victoria og tók inntökupróf í mentaskóla rúmt 12 ára gamall, lauk því næst háskólanámi og las lögfræði tveggja ára tíma við McGill háskólann í Montreal; en varð að þeim tíma liðnum að taka sér hvíld frá námi sökum heilsubrests. 3. júlí 1916 innritaðist Henry ásamt 2 bræðrum sínum í 103. canadisku hersveitina og fór með henni þann 15. s. m. áleiðis til Englands, en til Frakklands viku fyrir jól um veturinn. Var hann í orustunum við Vimy-háls, Lens og Passchendale árið 1917, og við Amiens, Arras og Canal du Nord 1918. Hann féll í bardaganum við Cambrai 29. september 1918. Fram að þeim tíma hafði hann aldrei særst. Tvisvar var honum veitt heiðursmerki fyrir framúrskarandi dugnað og hugrekki, "Military Medal & Bar" og "Second Bar"; í síðara skiftið fyrir að taka einn til fanga 34 manna sveit þýzkra hermanna. "Eg hefi aldrei þekt hugrakkari mann," sagði sveitarforingi hans um hann að honum látnum.



## JÚLÍUS VALTÝR STEFÁNSSON.

Var fæddur 31. júlí 1896 við Gimli í Nýja Íslandi. Foreldrar hans eru þau Stefán bóndi Eiríksson á Nýjabæ við Gimli (frá Djúpadal í Akrahreppi í Skagafjarðarsýslu, Eiríkssonar, og Lilju Guðnadóttur), og Pálína Guðbjörg kona hans, dóttir Stefáns frá Þverá í Blönduhlíð, Jónassonar, og Guðbjargar Tómasdóttur frá Nautabúi í sömu sýslu. Júlíus var til heimilis hjá foreldrum sínum, er hann gekk í herinn 22. marz 1916. Hann innritaðist við 108. hersveitina og fór með henni frá Winnipeg 12. september áleiðis til Englands. Hvenær hann var sendur til herstöðvanna er óljóst, en þangað var hann kominn snemma ársins 1917. Var hann þar í skotgröfum eftir það, þangað til hann féll í orustunni við Vimy-háls 9. apríl 1917. Bræður Júlíusar eru þeir Stefán bóndi Eldjárnsson við Gimli (hálfbróðir) og Valdimar lögregluþjónn og fógetafulltrúi á Gimli. Júlíus var mesti myndarpiltur, vel greindur, sem hann átti kyn til í báðar ættir. Hann var við skólanám síðustu árin áður en hann gekk í herinn. Foreldrar hans fluttust að heiman og til Gimli sumarið 1888, og hafa búið þar síðan.



## ÓSKAR STEPHENSON.

Var fæddur á Litla-Ási á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu 23. júlí 1898. Foreldrar hans eru þau Stefán Jóhannsson frá Litla-Ási á Vatnsnesi og Sólveig Ólafsdóttir frá Kirkjuvogshöfnum í Gullbringusýslu. Fluttu þau vestur árið 1900 og settust að í Argylebygð, og hafa lengst af búið í bænum Glenboro. Þar innrituðust þeir feðgar báðir í herinn, í sömu hersveitina og sama dag. Óskar gekk í 226. hersveitina 23. marz 1916, þá 17 ára gamall, en var færður nokkru síðar yfir í 223. hersveitina, er flestir Íslendingar heyrðu til. Með henni fór hann frá Winnipeg 7. apríl 1917. Um miðjan nóvember um haustið var hann sendur til vígstöðvanna á Frakklandi, og var eftir það í skotgröfum, þangað til hann féll 10. ágúst 1918. Hann var gerfilegur piltur í sjón, fallega vaxinn og fríður sýnum, fagureygður, bjartur á hár og ennið hátt og mikið. Hann var hið efnilegasta ungmenni. Ætt hans má rekja til þeirra Stephensens landshöfðingja og Stefáns amtmanns Þórarinssonar.

## SIGURÐUR LÁRUSSON SÖLVASON.



Var fæddur í Winnipegborg 13. nóvember 1893. Sonur Lárusar Sölvasonar og Lilju Einarsdóttur, og eru þau ættuð af Skagaströnd í Húnavatnssýslu. Býr Lárus við Víðir í Nýja Íslandi og var Sigurður sonur hans þar hjá honum, en Lilja við Mary Hill í Álftavatnsbygð. Sigurður gekk í Canadaherinn 6. júní 1916 og innritaðist við 223. hersveitina. Var hann með henni þar til að hann veiktist og gekk undir holskurð á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, í marz 1917. Var eigi talinn ferðafær, er sveit þessi var send af landi burt (7. apríl) og því leystur frá herþjónustu. Í október 1917 gekk Sigurður í herinn að nýju (1st Depot Battalion) og fór frá Canada 3. apríl 1918. Snemma sumars var hann kominn yfir til Frakklands og í skotgrafir. Hann féll í orustunni við Cambrai 27. september 1918. Sigurður var talinn hraustur maður og kappgjarn og hinn nýtasti drengur.

## JÓSEPH HÖSKULDUR THOMPSON.



Var fæddur í bænum Cartwright í Manitoba 30. apríl 1896. Hann var einkabarn foreldra sinna. Faðir hans er (Þorsteinn) Joseph (Jósephson) Thompson (f. 1860) járnbrautarumsjónarmaður Canada Kyrrahafs félagsins í bænum Mather í Manitoba, sonur Jósephs Helgasonar og Sigríðar Einarsdóttur, er síðast bjuggu í Sveinatungu í Mýrasýslu, fluttist til Vesturheims með móður sinni og systkinum 1876. Kona hans og móðir Jósephs var Helga Jóhannsdóttir frá Haugi í Miðfirði í Húnaþingi (f. 1873, d. 1920), Ásmundssonar frá Skeggjastöðum í Miðfirði, Bjarnasonar frá Bjargi í sömu sveit; móðir Helgu var Guðrún Gunnlaugsdóttir, Hinrikssonar, er bjó á Ósi í Húnaþingi. Til Vesturheims fluttist Helga sumarið 1889. Fjórtán ára gamall lauk Jóseph barnaskólanámi og tók þá strax stöðu hjá "The Bank of Hamilton" og vann sem gjaldkeri og bókhaldari við útbú félagsins í Mather, Brandon, Treherne og Carberry. Í febrúar 1916 bauð hann sig í herinn og var innritaður í 100. hersveitina (100th Winnipeg Grenadiers). Hann var þá í Carberry. Um haustið, 14. september, var deildin send til Englands. Þegar þangað kom, var hann færður yfir í 78. varadeildina (78th Reserve Battalion) og 30. nóvember er hann sendur til Frakklands. Á jóladaginn er hann sendur á vígvöllinn og þar er hann fram að þeim degi, að hann féll í orustunni við Vimy Ridge 9. apríl 1917. Hann var fríður sýnum, bjartur á hár og hörund, gildvaxinn og ramur að afli, þýður í lund og viðkvæmur, samvizkusamur og skyldurækinn og mannsefni gott.



## JÓN THORARINSSON.

Var fæddur 1. febrúar 1889 í Kjalvík í Nýja Íslandi. Faðir hans var Þórarinn Jónsson frá Hóli í Sæmundarhlíð í Skagafjarðarsýslu, albróðir Magnúsar fræðimanns frá Fjalli; en móðir Sigríður Þórleifsdóttir, Jónssonar, og Sigríðar Þorbergsdóttur frá Reykjum á Reykjaströnd í sömu sýslu. Settust þau hjón að í Víðinessbygð, er þau komu frá Íslandi. Þórarinn drukknaði í Winnipegvatni árið 1891. Fluttist þá Sigríður ekkja hans þaðan með son þeirra ungan. Giftist hún nokkru seinna Friðreki Friðrikssyni og búa þau í hinni svonefndu Lögbergsnýlendu norður af Þingvallabygð í Sask. Jón ólzt upp með móður sinni og stjúpföður. Naut hann allgóðrar mentunar, stundaði nám í fjóra vetur við Wesley-skólann í Winnipeg, og var kominn upp í 3. bekk háskólans, er hann hætti námi. Vann hann þá við landbúnað með foreldrum sínum eftir það og þangað til hann gekk í herinn. Hann innritaðist við 144. hersveitina í janúar 1916. Var við heræfingar fram í október um haustið, að hann fór til Englands. Til Frakklands fór hann snemma vetrarins og féll þar um vorið, 6. maí 1917. Jón var vel greindur og myndarpiltur í hvívetna. Hann var si-kátur og skemtinn og því mjög vinsæll meðal eldri sem yngri.

## STEPHEN HELGI THORSON.

Var fæddur 29. apríl 1892 í Winnipegborg. Sonur Stephens Thorsonar lögregludómara að Gimli, Man., og Sigríðar Þórarinsdóttur. Stephen eldri er sonur þeirra hjóna Þórðar Jónssonar og Helgu Jónsdóttur á Bryggju í Biskupstungum, en foreldrar Sigríðar voru þau Þórarinn Þórarinsson og Guðríður Jónsdóttir hjón í Áskoti í sömu sveit. Þau Stephen og Sigríður fluttu til Reykjavíkur sumarið 1881, og stundaði Stephen þar steinsmíði. Sumarið 1887 fluttu þau af landi burt og settust að í Winnipeg og bjuggu þar upp til haustsins 1913, að þau fluttu að Gimli og reistu sér þar hús, en sumarið 1922 fluttu þau vestur á Kyrrahafsströnd. Haustið 1913 var Stephen kosinn bæjarstjóri á Gimli, en 1915 skipaður lögregludómari þar. Þau hjón eru sérstaklega vel gefin og hefir Stephen komið mikið við félagsmál Íslendinga í Winnipeg. Sonur þeirra, Stephen yngri, ólzt upp með þeim og naut algengrar skólamentunar í Winnipeg. Vorið 1916, í marzmánuði, innritaðist hann við 53. hersveitina canadisku, var þá í þjónustu póststjórnarinnar, og með hersveitinni fór hann til Englands að mánuði liðnum. Skamma viðdvöl hafði hann þar, en hélt rakleiðis á orustuvöll. Hann var í orustunum við Ypres og Somme sumarið 1916, en særðist í hvorugri þeirri orustu. Hann féll í bardaganum við Coreillate 16. september 1916. Stephen Helgi var einkar vel gefinn piltur, bráðskýr og örgerður í lund, kappsamur og fylginn sér. Hann var meðal maður vexti, fremur grannur og dökkur á brún og brá. Var hinn bezti drengur. Auk foreldranna eru þrír bræður hans á lífi: Jón, í þjónustu póststjórnarinnar við póstflutninga með járnbrautum; Jóseph Þórarinn lögfræðingur, forseti lögfræðideildar Manitobaháskólans, og Carl dráttlistarmaður. Eru þeir bræður allir búsettir í Winnipeg.



## SIGFÚS E. THORLEIFSSON.



Var fæddur á Hóli í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu 29. maí 1893. Foreldrar hans eru þau Einar Thorleifsson frá Hrjót á Fljótsdalshéraði, Arnfinnssonar, og Guðrún Sigfúsdóttir frá Njarðvík austur, Sigurðssonar, Jónssonar prests á Eiðum í Suður-Múlasýslu. Með foreldrum sínum fluttist Sigfús til Vesturheims og ólzt upp hjá þeim að Stony Hill, Manitoba. Naut þar alþýðuskólamentunar; var auk þess við nám í Selkirk um 9 mánaða tíma, er hann var á fimtánda ári. Eftir það var hann lengst af heima. Hann gekk í canadiska herinn 22. febrúar 1916 og innritaðist við 108. hersveitina. Með henni fór hann frá Winnipeg 12. september um haustið áleiðis til Englands, en þaðan um veturinn til Frakklands. Í gegnum bardagann við Vimy-háls 9. apríl 1917 komst hann ósærður, en 28. s. m. særðist hann mörgum og stórum sárum og var sendur á sjúkrahús í Frakklandi og mátti dvelja þar fram til 20. maí. Þá var honum komið til Englands. Var þar tekinn af honum annar fóturinn og útvortis sárin að mestu grædd. Fékk hann þá heimfararleyfi og kom heim í febrúar 1918. En sár hans höfðust illa við, og varð hann því að fara inn á Almenna sjúkrahúsið í Winnipeg, og þar andaðist hann 19. maí 1918. Sigfús var vel gefinn og bar veikindin með stakri hugprýði. Hann var í öllu efnismaður mesti.

## ÓSKAR FRANKLIN THORSTEINSSON.



Var fæddur á Gimli 11. nóvember 1891. Foreldrar hans eru Guðni Thorsteinsson póstmeistari og verzlunarmaður, ættaður úr Rangárþingi, og Vilborg Árnadóttir frá Brunnastöðum á Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu. Þau fluttu frá Íslandi til Gimli 1885. Hefir faðir hans átt stóran þátt í sveitamálum þar; var fremstur meðal þeirra, er fengu sveitina löggilta, var lengi í sveitarstjórn og skólastjórn á Gimli og einn af fyrstu kennurum bygðarinnar. Átta ára gamall fluttist Franklin með móður sinni til Selkirk. Dvöldu þau þar í 5 ár og lauk hann þar alþýðuskólanámi. Fluttust þau þá til Winnipeg og vistaðist hann hjá Northern Crown bankanum. Meðan hann var í Winnipeg, heyrði hann til íslenzka íþróttafélaginu "Fálkanum" og þótti þar með hinum beztu í leikfimi. Um það leyti sem stríðið byrjaði, var hann sendur til Swift Current, Sask., að útbúi bankans, og átti hann þar heima, er hann innritaðist í Canadaherinn. Hann gekk í 209. Saskatchewan hersveitina 1. marz 1916 og fór með henni til Englands það sama haust, 9. október. Í febrúar 1917 er hann sendur til Frakklands og þá færður yfir í 10. hersveitina, og með henni var hann, er hann andaðist 13. marz 1918, af eiturlofti, er hann varð fyrir 2 dögum áður. Franklin var hinn efnilegasti piltur og sérlega vinsæll í sveit yngri manna.



**THORVALDUR J. THORVALDSSON.**

Var fæddur 27. maí 1896 á Urriðaá í Álftanesshreppi í Mýrasýslu. Foreldrar hans voru þau Jón Þorvaldsson frá Urriðaá og Sólveig Bjarnadóttir frá Arnarstapa í sömu sýslu. Ársgamall fluttist hann með foreldrum sínum til Vesturheims og ólzt þar upp og naut alþýðumentunar, þar til faðir hans dó 2. júní 1907. Varð hann þá að hætta skólanámi og fara að vinna til að hjálpa móður sinni og systkinum. Hann innritaðist í herinn 1. marz 1916, ásamt bróður sínum Helga Thorvaldssyni. Gekk í 181. hersveitina og fór með henni til Englands 12. apríl 1917, en á skip hinn 18. s. m. Er til Frakklands kom voru þeir báðir settir við 16. hersveitina. Tók Thorvaldur þátt í öllum orustum með þeirri sveit eftir að hann kom þangað og fram til þess, að hann særðist, 6. ágúst 1918. Var hann þá fluttur á sjúkrahús og þar andaðist hann 16. s. m. Hann var hið bezta mannsefni, lundgóður og hvers manns hugljúfi, er honum kyntist.



**GUÐMANN HJALTI ÖGMUNDSSON**

Var fæddur í grend við Churchbridge í Þingvallabygð í Saskatchewan 18. júlí 1890. Ögmundur faðir hans var sonur Ögmundar Arnbjarnarsonar og Sezelíu Guðmundsdóttur, er bjuggu á Hrafnkelsstöðum í Hrunamannahreppi í Árnessýslu. Kona hans, móðir Hjalta, var Þorbjörg dóttir Gísla Þórðarsonar og Kristínar Guðmundsdóttur (systur Sezelíu), er bjuggu í Unnarholtskoti í sömu sveit. Bjuggu þau Ögmundur og Þorbjörg, foreldrar Hjalta, um allmörg ár í Þingvallabygð, en fluttu því næst til Winnipeg og áttu heima að 593 Victor St. Þau eru nú bæði dáin. Hjalti innritaðist í canadiska herinn 5. janúar 1916 og gekk í stórskotaliðið (3rd D. A. C.). Til Englands fór hann 5. marz um vorið, en til Frakklands 13. júlí um sumarið. Hann var í orustunni við Ypres í Belgíu, Kemmel-hæð, Somme, Arras og Vimy-háls. Hann féll í orustu 8. júní 1917. Hjalti var hinn mesti hagleiksmaður, stundaði blikksmíðar í Winnipegbæ áður en hann gekk í herinn. Hann var stiltur í geði, æðru- og yfirlætislaus og hugrór, hverju sem var að mæta.

# 1917

### GUÐSTEINN TÓMASSON BORGFJÖRÐ.

Var fæddur 13. desember 1896 á Kárastöðum í Borgarhreppi í Mýrasýslu. Foreldrar hans eru Tómas Jónsson Borgfjörð frá Grof í sama hreppi og Sezelía Björnsdóttir frá Reynivöllum í Kjós. Tveggja ára fluttist hann vestur um haf með foreldrum sínum. Þau dvöldu vetrarlangt í Winnipeg, en fluttust síðan til Seattle, Wash., og þar hafa þau búið síðan. Sex ára gamall fór Guðsteinn í fóstur til Þorbjargar Oddsdóttur Green í Clellan Bay, Wash, og var þar til heimilis unz hann innritaðist í herinn. Þorbjörg er ættuð úr Borgarfjarðarsýslu og gift sænskum manni, Green að nafni. Guðsteinn var mjög hneigður til náms og naut því góðrar mentunar. Hann útskrifaðist með bezta vitnisburði frá Clellan Bay High School; byrjaði síðan á námi við Pullman College, Wash. Þar hafði hann verið einn vetur, er ríkið krafðist hans í herþjónustu. Hann innritaðist í herinn haustið 1917 (Co. B., 162nd U. S. Infantry), og um nýár var hann kominn áleiðis til Frakklands. Þar var hann um veturinn við heræfingar og við eitthvert sérstakt nám, sem hann aldrei skýrði frá, hvað væri. Svipleg var því fréttin, að hann hefði látist af slysi (druknað) 30. júní 1918. Hann var jarðsettur 4. júlí 1918 — hátíðisdag þjóðar sinnar. Að honum var mannskaði mikill, því hann var bezta mannsefni og alstaðar vel kyntur.





**Ungfrú CHRISTINE FREDERICKSON.**

Fædd 9. júlí 1896 á Hamri í Hegranesi í Skagafjarðarsýslu. Foreldrar: Friðrik Friðriksson, úr Skagafjarðarsýslu, og Guðlaug Pétursdóttir frá Miklahóli í Viðvíkursveit í sömu sýslu, og búa þau nú að Glenboro, Manitoba. Ungfrú Frederickson nam hjúkrunarfræði við Strathcona sjúkrahúsið í Albertafylki og tók fullnaðarpróf þaðan með beztu einkunn 16. marz 1916. Að því loknu dvaldi hún með foreldrum sínum í Manitoba til 1. nóvember 1917. Tók hún þá aftur stöðu við Strathcona-spítalann og innritaðist í hjúkrunardeild hersins (Canadian Army Medical Corp). Var henni þá fengið að annast um sjúka hermenn. Spánska sýkin svonefnda geisaði þá um landið og varð mannskæð mjög. Voru hermenn þeir, er sýktust af veiki þessari einangraðir við spítalann og ungfrú Frederickson fengin til að hirða um þá. Var það eigi hættulaust, sem raun bar vitni um. Við þetta starf sitt, er hún rækti með stökustu alúð, tók hún veiki þessa sjálf hinn 24. október 1918 og andaðist úr henni hinn 28. sama mánaðar.



**BERTEL LINCOLN GILLIS.**

Fæddur 10. október 1895 í Duluth í Minnesota, U. S. A. Foreldrar: Jóhannes Gíslason, Gíslasonar, frá Márstöðum í Húnaþingi, og Valgerður Stefánsdóttir, Björnssonar, frá Kambi í Barðastrandarsýslu, nú búandi að Garðar, Norður Dakota. Bertel innritaðist í herinn 15. desember 1917 og gekk í fluglið Bandaríkjanna. Var hann við flugæfingar á ýmsum stöðum, en seinast í Fort Worth í Texas. Hann sýktist í herbúðunum af brjósthimnubólgu og var því leystur úr herþjónustu. Hann var meira og minna veikur í tvö ár og andaðist svo að lokum úr sjúkdómi þessum 18. nóvember 1920, á hermannasjúkrahúsinu í Fort Bayard, New Mexico. Lík hans var flutt heim og jarðað að Garðar, Norður Dakota. Hann var yngstur 9 barna foreldra sinna, og eru foreldrar hans og systkini öll á lífi.



**Sergeant CHARLES GÍSLASON.**

Var fæddur 25. september 1889 á Washington-eyju í Wisconsinríki í Bandaríkjunum. Sonur Jóns Gíslasonar frá Rangárvöllum (flutti vestur 1872) og Ágústu Einarsdóttur, úr Reykjavík. Rekur Jón verzlun á Washington-eyju. Charles gekk í Bandaríkjaherinn í júní 1917 og var skipaður Sergeant við 128. hersveitina. Hann sigldi frá New York til Frakklands í febrúar 1918. Var í orustum hjá Chateau-Thierry og í Argonneskógum. Hann var sæmdur herkrossi Frakka (Croix de Guerre) fyrir framúrskarandi hugrekki og ósérhlífni í orustu. Fylgdu heiðursmerkinu þessi orð frá Petain hershöfðingja: “Er mönnum sínum fyrirmynd að hreysti og ósérhlífni, og alkunnur orðinn fyrir áhlaup á framvígi óvinanna.” Charles féll í orustunni við Argonneskóga 6. október 1918. Var barist þar í návígi í skóginum og fylkingar dreifðar. Þótti að honum hin mesta eftirsjá, því hann var orðlagður vaskleikamaður.



**GUÐNI HELGI GOODMAN.**

Var fæddur á Ísafirði við Ísafjarðardjúp 12. febrúar 1891. Foreldrar: Guðmundur Guðmundsson, ættaður úr Önundarfirði í Ísafjarðarsýslu, og seinni kona hans Kristín Rósinkarsdóttir frá Bakka í Hnífsdal. Helgi fluttist í bernsku með foreldrum sínum vestur um haf, fyrst til Argyle, Man., síðan til Vancouver, en þaðan árið 1904 til Markerville, Alberta. Dvaldi þar með móður sinni þangað til hún giftist öðru sinni, Jóni Kristjánssyni bónda frá Barrons, Alta. Þá fluttist Helgi til Calgary og tók að vinna við ölgerð. Stundaði þá atvinnu jafnan síðan, þangað til hann gekk í herþjónustu seint á árinu 1917. Snemma í febrúarmánuði 1918 fór hann austur til Englands, en til vígstöðva Frakklands í ágústmánuði sama ár. Þar féll hann í orustu 2. september 1918. Helgi Goodman var staðfastur í ráði og stiltur, reglusamur og æðru- og umtölulaus. Móðir hans er dáin fyrir nokkrum árum, og bræður hans dánir eða horfnir.



## SIGURÐUR (SAM) GOODMAN.

Var fæddur 7. ágúst 1891 í Victoriaborg í fylkinu British Columbia. Foreldrar hans eru þau Goodman, er síðast bjó í Katadal á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu, og Guðrún Árnadóttir frá Sigríðarstöðum í Vesturhópi í sömu sýslu, og fluttu þau vestur um haf árið 1887. Hafa þau búið lengst af í Victoria. Sigurður sonur þeirra var að heiman farinn og stundaði landbúnað í Albertafylki um það leyti sem hann gekk í herinn, 50. hersveitina, haustið 1917. Frá Canada fór hann til Englands í febrúar 1918 og þaðan eftir skamma dvöl til Frakklands. Hann tók þátt í ýmsum orustum um sumarið og féll við Honcourt 2. september 1918. Hann var sagður röskleika- og dugnaðarmaður mikill.



## KONRÁÐ GUÐSTEINN HALLDÓRSSON.

Var fæddur 21. marz 1897 við Brú í Argylebygð í Manitoba. Sonur hjónanna Jóns Halldórssonar bónda við Sinclair í Pipestonebygð í Manitoba, frá Hrauntúni í Þingvallasveit í Árnessýslu, og Guðrúnar Sigríðar Kaprasíusdóttur frá Reykjavík. Fluttu þau hjón til Argylebygðar frá Íslandi og bjuggu þar um nokkur ár, en 1899 þangað, sem þau eru nú. Þar ólzt Konráð sonur þeirra upp með þeim, var yngstur 8 systkina, og eru nú eftir aðeins 3 á lífi. Konráð réðist snemma í vinnu, fyrst við járnvöruverzlun, en því næst lærði hann blikksmíði. Vorið 1916 fór hann til Brockbæjar í Sask. og vann þar að þeirri iðn fram í febrúar 1917, að hann gekk í 243 canadisku hersveitina. Með henni fór hann til Englands sama ár, en í ágúst til Frakklands og í skotgrafir gegnt bænum Passchendale. Þar særðist hann í orustu 10. nóvember um haustið og dó af þeim sárum næsta dag. Konráð var ljósjarpur á hár, bláeygður og fríður sýnum. Hann var vinsæll af jafnöldrum sínum, enda hinn bezti drengur í orði og verki.

### Capt. JÓHANN (JAMES) JÓHANNSSON.



Var fæddur í Skagafirði (í Hegranesinu?) 1876 eða þar um bil. Foreldrar hans voru þau Jóhann, sonur Jóhanns Þorvaldssonar frá Litlu-Gröf og síðar í Holtsmúla, og Ingibjargar Helgadóttur í Pottagerði í sömu sýslu, og Rósbjörg Guðmundsdóttir frá Vatnskoti í Hegranesi. Fluttu þau hjón frá Íslandi til Dakotabygðar sumarið 1883 og settust að í Pembina. Um það leyti höfðu Bandaríkin þar setulið (í Fort Pembina). Var það flutt þaðan löngu seinna. Mun Jóhann yngri hafa gengið þar í fastaherinn, er hann hafði aldur til. Nokkru seinna er hann í setuliðinu á Philipseyjunum. Árið 1914 er hann í hersveit Bandaríkjanna á Honolulu á Hawaii-eyjunum, og þá kapteinn. Vorið 1917 var hann sendur heim og skipaður kennari við heræfingar í Lewis-herbúðunum á Kyrrahafsströndinni (stjórnaði hann æfingum 23. deildar hríðskotaliðsins). Þar andaðist hann af blóðuppgangi 18. júní 1919. Jóhann var gildur maður á velli og hinn myndarlegasti. Ýmiskonar heiðursmerki hafði hann hlotið fyrir starfsemi í hernum. Hann var hraustmenni til burða og harðgerr, og greindarmaður.

### SIGURBJARNI MAGNÚSSON.



Var fæddur í Gesthúsum á Álftanesi í Gullbringusýslu 4. marz 1893. Sonur Magnúsar Magnússonar frá Bjarnastöðum á Álftanesi og Ingibjargar Bjarnadóttur frá Gesthúsum, er síðar giftist G. Grímssyni og býr nú við Burnt Lake í Alberta. Ólzt Sigurbjarni upp með foreldrum sínum á Seyðisfirði. Þar misti hann föður sinn; flutti þá til Ísafjarðar ásamt móður sinni og dvaldi þar, þangað til árið 1913, að hann flutti af landi burt til San Diego, California. Þar stundaði hann mest sjó, þar til 1917, að hann sótti um inntöku í sjólið Bandaríkjanna, en var synjað fyrir þá sök, að hann hafði ekki dvalið full fimm ár í ríkinu og öðlast borgararétt. Gekk hann þá í landherinn og innritaðist í "Co. B., 316 Engineers". Fór austur um haf til Frakklands í ágústmánuði 1918 með 91. herdeildinni. Sú deild fór í bardaga nærri Forest de Hesse í Argonneskógum. Þar særðist hann af sprengikúlu í hægra kné, í áhlaupi nálægt Tronsol. Hann var fluttur á Rauðakross sjúkrahús í Fleury Sur Aise. Var þá tekinn af honum hægri fóturinn, en blóðeitrun hljóp í sárið, sem dró hann til dauða fjórum dögum seinna, þann 3. október 1918. Hann var greftraður í nánd við sjúkrahúsið. En andlátsfregn hans og síðasta kveðja var send móður hans til Canada.



**METHUSALEM JÓNSSON MATHEWS.**

Var fæddur að Brú á Jökuldal í Norður-Múlasýslu 23. desember 1885. Sonur Jóns Methúsalemssonar frá Möðrudal á Fjöllum og Stefaníu Stefánsdóttur fra Stakkahlíð í Loðmundarfirði. Fluttist vestur um haf með foreldrum sínum árið 1887. Ólzt upp með þeim í Álftavatnsbygð og síðar í Siglunessbygð. Stundaði fiskiveiðar og landbúnað. Eftir að faðir hans lézt árið 1915, tók hann við búsforráðum með móður sinni, þar til hann fór í herinn, 223. hersveitina, í marz 1917. Var hann kominn á vígvöll fyrir jól sama ár og var þar, þangað til hann féll 24. ágúst 1918 í bardaganum við Amiens. Metúsalem var meðalmaður á hæð og svaraði sér vel, snar og fjörugur í hreyfingum og fylginn sér, og dugnaðarmaður til vinnu. Hann hafði góða greind og var hreinn og ómyrkur í máli, gleðimaður og öruggur til allra framkvæmda. Reiðubúinn til að hjálpa, hvenær sem einhver átti í vök að verjast, og aflaði það honum vinsælda.



Sergeant **TRYGGVI SOFFONÍASSON.**

Var fæddur 4. febrúar 1893 á Gimli í Manitoba. Vann á þakspónaverkstæði í Blaine, Wash., áður en hann gekk í herinn. Foreldrar: Sveinbjörn Soffoníasson, fæddur á Grund, en alinn upp á Bakka í Vallnahreppi í Eyjafjarðarsýslu, Jónssonar, og Snjólaug Runólfsdóttir frá Hreiðarsstöðum í Vallnahreppi í sömu sýslu, Ísakssonar frá Skjaldarvík. Tryggvi var kvaddur í Bandaríkjaherinn 18. september 1917 og veitt Sergeants-staða. Sigldi til Frakklands 5. júlí 1918. Tók þátt í orustunni miklu í Argonneskógum. Hann féll 9. október 1918 í bardaganum við Hólinn "225", nálægt bænum Gesnes á Frakklandi. Foreldrar hans og systkini eiga heima í bænum Blaine.

## ÞORBERGUR EIRÍKUR THORBERGSSON.



Var fæddur 21. maí 1901 á Bakka á Tjörnesi í Suður-Þingeyjarsýslu. Sonur Andrésar Þorbergssonar frá Syðri-Tungu á Tjörnesi og Aðalbjargar Pálínu Guðmundsdóttur frá Húsavík við Skjálfanda í sömu sýslu. Fluttust þau til Vesturheims sumarið 1912 og eru nú búsett við Íslendingafljót í Nýja Íslandi. Þorbergur var til heimilis í Argylebygð, er hann gekk í herinn, og vann þar við járnbrautina. Hann innritaðist við 223. hersveitina 1. marz 1917 og fór með henni rúmum mánuði seinna frá Winnipeg til Englands. Á Englandi dvaldi hann stutt, en var sendur bráðlega til Frakklands. Hann var á orustuvellinum á annað ár og tók þátt í ýmsum orustum; var í bardögum við Passchendale, Amiens og Arras. Hann féll í orustunni við Arras 10. október 1918. Honum var sá vitnisburður borinn, að hann hefði verið sérlega ósérhlífinn og ógjarn á að teljast undan því, sem krafist var. Var hann ætíð með þeim fyrstu til að bjóða sig fram, er til einhverra mannrauna kom og leitað var til sjálfboða til þeirra hluta. Hann var tæpt hálfs nítjánda árs, er hann féll, og var þá orðinn hinn röskasti maður til allra verka.

# 1918



## SOFFONÍAS GUÐMUNDUR ÁRMANN.

Var fæddur 29. maí í Graftonbæ í Norður Dakota. Foreldrar hans voru þau Guðjón Jónsson Ármann, Vigfússonar frá Iðu á Skeiðum í Árnessýslu, og Sigríður Jónsdóttir frá Kóreksstaðagerði í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu. Soffonías stundaði nám við háskóla Norður Dakota-ríkis í Grand Forks og var útskrifaður þaðan vorið 1917, þá aðeins 19 ára gamall. Hann var til heimilis hjá foreldrum sínum í Grafton, er hann var kallaður í Bandaríkjaherinn 9. október 1918. Fór hann þá til Grand Forks og var þar við heræfingar með háskólahersveitinni, er hann heyrði til. Að tæpri viku liðinni, eftir að hann kom þangað, veiktist hann af spönsku veikinni, er þá gekk um land alt, og andaðist hinn 27. október, rúmt tvítugur að aldri. Lík hans var flutt til Grafton og jarðsungið hinn 29. s.m., af séra H. E. Helsem, presti hins norska lúterska safnaðar þar. Soffonías var hinn mannvænlegasti maður, sérstaklega vel gefinn og einkar námfús. Var hann álitinn hið mesta mannsefni af öllum, er hann þektu.

### ÓLAFUR ÁRNASON.



Var fæddur jóladaginn árið 1886, að Geitafelli í Reykjahverfi í Suður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar hans: Ingjaldur Árnason, Jónssonar, og Sigríðar Sigurðardóttur, er bjuggu að Skörðum í Reykjahverfi, og María Guðrún Oddsdóttir, Þórðarsonar, og Guðrúnar Snorradóttur, á Langavatni í sömu sveit. Oddur faðir Maríu var ættaður úr Skagafirði og var móðir hans, María Oddsdóttir, systir séra Gunnlaugs Oddsens, dómkirkjuprests í Rvík. En Guðrún kona Odds var af hinni svonefndu Fornhagaætt í Hörgárdal; var Snorri faðir hennar Guðmundsson og albróðir Vatnsenda Rósu. Ungur að aldri fluttist Ólafur vestur um haf með foreldrum sínum. Var hann til heimilis hjá þeim í Lyons County í Minnesota, þar sem þau hafa búið í rúm 20 ár., er hann innritaðist í Bandaríkjaherinn 18. júní 1918. Stundaði hann þá húsasmíðar. Hugvits- og hagleiksmaður var hann mikill. Af eigin ramleik leysti hann af hendi fullnaðarpróf í vélfræði, án allrar tilsagnar. Í hernum var hann skipaður kennari í þessari fræðigrein við heræfingaskóla háskólapilta í Minneapolis, en las þar jafnframt rafmagnsfræði. Var hann því næst nokkra mánuði við heræfingar í Shelbyherbúðunum í Missisippi og Mills á Long Island, unz hann sigldi til Frakklands 6. október. Þar var hann settur við hergagnaflutning, en veiktist skömmu síðar af mislingum, er snerust upp í lungnabólgu, og úr henni andaðist hann 9. nóvember í Coetquidam-herbúðunum í Moribeau, og er þar grafinn.

### SIGURJÓN AUSTFJÖRÐ.



Var fæddur nálægt póstafgreiðslustaðnum Akra í íslenzku bygðinni í Norður Dakota 24. september 1897. Faðir hans er Halldór Austfjörð, sonur Jóns Árnasonar frá Ekkjufellsseli og Sigríðar Björnsdóttur frá Hofi í Fellum í Norður-Múlasýslu, en móðir hans, kona Halldórs Austfjörðs, er Margrét Einarsdóttir, Eiríkssonar, frá Þorgrímsstöðum í Breiðdal og Helgu Marteinsdóttur frá Skriðustekk í Breiðdal í Suður-Múlasýslu. Sigurjón heitinn var hinn mesti myndarpiltur og góðum gáfum gæddur og hafði lokið miðskólanámi, er hann innritaðist í herinn 12. júní 1918. Alist hafði hann upp hjá foreldrum sínum, fyrst í Dakota og síðar við Mozart, Sask., þar sem þau hafa búið nú um nokkur ár. Sigurjón var innritaður við "15 Reserve Battalion" og sigldi áleiðis til Englands 1. ágúst 1918. Var hann þar næst við heræfingar á Englandi, þar til hann veiktist úr spönsku veikinni, er þá geisaði um herbúðirnar, og andaðist úr þeirri veiki á hermannaspítalanum í Bramshott 3. október. Auk foreldranna lifa hann 7 systkini, er öll eiga heima við Mozart, Sask.



### MAGNÚS H. BJÖRNSSON.

Var fæddur 11. október 1893 við Eyford í íslenzku bygðinni í Norður Dakota. Hann var elzti sonur þeirra hjóna Hannesar Björnssonar frá Syðra-Mælifelli í Skagafirði, Jónssonar, Þorsteinssonar á Hofi í Hjaltadal, og Önnu Jóhannesdóttur frá Hóli í sömu sýslu. Magnús var kvaddur í Bandaríkjaherinn 22. júlí 1918 og fór hann þá til Custer-herbúða í Michigan. Þar var hann við heræfingar fram á haust, eða þar til hann veiktist af spönsku sýkinni. Úr henni andaðist hann 5. sama mánaðar. Líkið var flutt heim og jarðsungið að Mountain. Magnús var gildur meðalmaður að vexti, hraustur og karlmannlegur og greindur vel. Hann var síglaður og þægilegur ur í umgengni, tryggur og brjóstgóður og hagur til allra verka.



### SIGURBJÖRN DAVÍÐSSON.

Var fæddur 30. maí 1897 í grend við Milton í Cavalier County, Norður Dakota. Hann var sonur Magnúsar Davíðssonar frá Reynhólum í Miðfirði í Húnaþingi, Jónssonar, og Þórdísar Guðmundsdóttur. Bjuggu þau Davíð og Þórdís, föðurforeldrar Sigurbjörns, um langt skeið í Garðarbygð, en eru nú bæði dáin. Móðir Sigurbjörns, fyrrikona Magnúsar, var Sigurbjörg Bjarnadóttir, Jónssonar, og Guðbjargar Magnúsdóttur, er fluttu til Vesturheims 1874 frá Garði í Hegranesi í Skagafirði. Sigurbjörn var kvaddur í Bandaríkjaherinn 4. september 1918 og fór til Grant-herbúða í Illinoisríki. Hann sýktist þar af spönsku veikinni og andaðist þar í herbúðunum þann 8. október. Sigurbjörn var góðum námshæfileikum búinn. Hneigðist hugur hans að hljómlist. Hafði hann þá nýlega lokið tveggja ára fjarvistarnámi við hljómleikaskóla í Chicago, er hann var kvaddur í herþjónustu. En lengra vanst honum eigi aldur til að komast.



## GUNNAR JÓHANN EINARSSON.

Var fæddur að Garðar í Norður Dakota 22. júlí 1895. Faðir hans er Stefán bóndi við Bantry í Norður Dakota, Stefánsson bónda á Eiðsstöðum i Svínavatnshreppi í Húnaþingi, Einarssonar, Skaftasonar á Helgavatni; en móðir Gunnars og kona Stefáns er Elizabet, dóttir Geirhjartar Kristjánssonar og Guðfinnu Jónsdóttur af Flateyjardal í Suður-Þingeyjarsýslu. Gunnar var kvaddur í Bandaríkjaherinn 4. marz 1918 og gekk í hríðskotadeild 59. hersveitarinnar. Úr landi fór hann 2. maí áleiðis til Frakklands. Tók hann þátt í orustum með Bandaríkjahersveitum þá um sumarið og hélt með hernum inn á Þýzkaland um haustið, eftir að vopnahléð var sett. Vorið 1919 veiktist hann af lungnabólgu og andaðist í Ernzt á Þýzkalandi 6. maí. Hann var ágætlega hagur til smíða og atgerfismaður um margt. Verðlaun tók hann við heræfingaskóla fyrir að setja saman vélbyssu blindandi, og þótti það vel af hendi leyst.



## GUÐLAUGUR ERLENDSSON.

Var fæddur 5. nóvember 1889 í Sviðholti á Álftanesi í Gullbringusýslu. Voru foreldrar hans Guðjón bóndi Erlendsson við Reykjavík, Manitoba, frá Skálholti í Biskupstungum (dáinn) og Valgerður Jóhanna Jónsdóttir frá Skipholti í Árnessýslu. Guðlaugur var kvaddur í Canadaherinn 3. júlí 1918. Var við heræfingar í Manitoba um sumarið, en var færður austur til Montreal um haustið. Þar veiktist hann af spönsku sýkinni og andaðist 4. október og var jarðaður þar. Móðir hans og sex systkini eru á lífi og búa í grend við Reykjavíkurpósthús. Honum er svo lýst, að hann hafi eigi aðeins verið íslenzkur að ætt, heldur og íslenzkur í anda og víðlesinn og Íslendingasögunum hafi hann verið vel kunnur og muni þær hafa verið hans uppáhaldsbækur.



**ÞORKELL SVEINN EYRÍKSSON.**

Var fæddur í Cavalierbæ í Norður Dakota fyrsta sumardag 1894, hinn 19. apríl. Foreldrar hans eru þau Sigurjón fógetafulltrúi í Wynyard, Eyríksson og Halldóru Sigurðardóttur frá Gilhaga í Goðdalasókn í Skagafirði, og Kristrún, dóttir Þorkels frá Gili á Jökuldal, Bessasonar, og Þorbjargar frá Hafrafelli í Fellum í Norður-Múlasýslu, Sveinsdóttur. Var Sveinn á Hafrafelli bróðir Jóns föður Þorbjargar móður Jóns ritstjóra Ólafssonar. Þau Þorkell og Þorbjörg fluttu vestur um haf sumarið 1876 og var þá Kristrún dóttir þeirra á unga aldri. Sigurjón og Kristrún bjuggu fyrst um allmörg ár í Dakota. Vorið 1907 fluttu þau til Wynyardbæjar í Sask. og hafa átt þar heima síðan. Með þeim ólzt Þorkell sonur þeirra upp og fór aldrei úr föðurgarði, fyr en hann var kvaddur í herþjónustu 8. jan. 1918. En stutta dvöl átti hann í herbúðum, veiktist af lungnabólgu, fékk heimfararleyfi seint í marzmánuði og var svo heima um sumarið. 12. október fór hann öðru sinni til herbúðanna, en sýktist eftir að þangað kom af spönsku veikinni. Sótti faðir hans hann þá og flutti heim, en bata varð eigi auðið og andaðist hann heima hinn 21. s. m. Hann var efnismaður hinn mesti, mikill vexti og hraustmenni, geðljúfur og jafnlyndur og vildi eigi öðru en góðu skifta við alla.



**ARNGRÍMUR EINARSSON GRANDY.**

Var fæddur 15. maí 1895 að Garðar í Norður Dakota. Hann var hveitikaupmaður í Wynyard, Saskatchewan, áður en hann gekk í herinn. Foreldrar hans eru Einar Einarsson Grandy frá Björgum í Norður-Þingeyjarsýslu, nú bóndi við Wynyard, Sask., og Katrín Sigurðardóttir frá Miðfjarðarnesi í Norður-Múlasýslu (dáin 1920). Arngrímur gekk í 46. canadisku hersveitina í marzmánuði 1918 og sigldi til vígvallar 2. apríl sama ár. Hann tók þátt í ýmsum orustum um sumarið, og féll í orustunni við Cambrai 27. september um haustið. Arngrímur var hinn mesti myndarmaður í sjón og hæfileikamaður í hvívetna.

## RALPH E. HALLDÓRSSON.



Var fæddur í Long Pine, Brown County í Nebraska-ríki árið 1888. Sonur Jóns Halldórssonar, úr Mývatnssveit, er var með fyrstu landnemum íslenzkum í Nebraska, Gamalíelssonar frá Haganesi við Mývatn. Kona Gamalíels var Helga Einarsdóttir prests á Arnarvatni, Jónassonar frá Vogum, bróður séra Þórarins í Múla. Móðir Jóns Halldórssonar var Arnfríður Tómasdóttir bónda á Kálfaströnd og Guðrúnar Jónsdóttur, Halldórssonar frá Mýri í Bárðardal, systur Sigurðar bónda á Gautlöndum föður Jóns alþingismanns. Kona Jóns en móðir Ralphs, var Þórvör Sveinsdóttir frá Syðrafjalli í Aðaldal, Jónssonar, og Sophíu Skúladóttur prests, Tómassonar í Múla. Þau Jón og Þórvör giftust í bænum Firth í Nebraska í desember 1875. Eignuðust 9 börn og eru nú aðeins 4 á lífi: Sveinn, járnvörukaupmaður í Bassett, Neb.; Tómas, Páll og Sophía í Chicago; en foreldrarnir bæði dáin. Ralph var útskrifaður frá ríkisháskólanum í Nebraska, og vann við ljósmyndasmíði hjá nafnkendu félagi, Moralle-Hool, í borginni Syracuse í New York ríki, er hann var meðeigandi í. Hann var kvaddur í Bandaríkjaherinn 27. júlí 1918 og sigldi til Frakklands frá Dix-herbúðum í New Jersey ríki 30. ágúst. Skömmu eftir að til Frakklands kom sýktist hann af spönsku veikinni og andaðist þar á sjúkrahúsi (Camp Hospital 33) 18. september. Í bréfi til föður hans skýrði yfirmaður sjúkrahússins svo frá: "12. september var sonur yðar fluttur inn á sjúkrastofu þessa, þá þjáður af lungnabólgu, og þó hann virtist berjast sem hetja á móti hinum skæða óvini, með sterkri lífsþrá, þá varð hann samt herfang þessa ægilega óvinar, er slökti lífsneistan síðasta og eftirskildi brosandi unglingsandlit."

## HANNES HANNESSON.



Var fæddur 9. september 1889 í Spanish Fork, Utah. Sonur Sigurðar Hannessonar frá Hvoli í Ölvesi í Árnessýslu (dáinn 1910) og Sigríðar Gísladóttur frá Kröggólfsstöðum í sömu sveit, Eyjólfssonar. Er Sigríður gift öðru sinni og heitir maður hennar E. C. Christianson; þau búa í Spanish Fork. Hannes var kvaddur í Bandaríkjaherinn 26. júní 1918, og tók þátt í orustum með honum síðari hluta sumarsins. Í orustunni í Garonne-skógi særðist hann á vinstri hendi og var fluttur í sárra-búðir og þaðan á sjúkrahús. Tók hann þar spönsku veikina og andaðist úr henni 14. október 1918.



## ELIS HELGASON.

Var fæddur að Garðar, Norður Dakota, 26. janúar 1895. Sonur Árna Hallgrímssonar, Helgasonar, frá Kristnesi í Eyjafirði, og Elízabetar Sigfúsdóttur Bergmanns frá Fagraskógi í Arnarnesshreppi í Eyjafjarðarsýslu. Búa foreldrarnir við Norður Stjörnu (North Star) í Manitoba. Elis gekk í canadiska herinn 5. janúar 1918, í 8. hersveit. Með henni fór hann frá Halifax áleiðis til Frakklands 14. apríl sama ár. Hann tók þátt í orustum við Bourbon-skóga, og síðar, 27.—29. september í bardaganum við Cambrai. Eftir þá orustu var hann sagður horfinn (Missing), en nokkru seinna fallinn. Hefir foreldrunum eigi verið greinilegar frá þessu skýrt síðar. Elis var þrekmaður mikill og vel gefinn, fjölhæfur og staðfastur í fyrirætlunum. Hann var gildur meðalmaður vexti, ljós á hár, ennið hátt og bunguvaxið, augun blá og svipurinn greindarlegur. Hann var hneigður til náms og sérlega bókgefinn.



## PÉTUR HOFFMANN.

Var fæddur 26. febrúar 1897 í Kötluholti í Innranesshreppi í Snæfellsnessýslu. Foreldrar: Jón Hoffmann (dáinn) og Solveig Grímólfsdóttir yfirsetukona. Þau hjón fluttu til Canada árið 1900 og reistu bú að Hecla P. O. Man. Pétur var kvaddur í herinn 8. maí 1918, föður sínum mjög nauðugt, og var um tíma við heræfingar í Winnipeg. Innritaði hann sig svo í canadiska sjóherinn og vann á herskipum við austurstrendur landsins, þar til í marz 1919, að hann sýktist af brjóstveiki, er snerist upp í lungnatæringu, sem leiddi hann til bana. Fór hann fyrst á Kentville Sanatorium í Austur-Canada og var þar fram í júlí, en var svo sendur á Ninette tæringarhælið í Manitoba og þar andaðist hann 17. febrúar 1920. Lík hans var flutt til Mikleyjar og jarðað þar. Pétur var umsýslumaður mikill, hár vexti og þrekinn að sama skapi, rammur að afli og hinn karlmannlegasti, yfirbragðið góðlegt, en bar þó vott um festu og ríka geðsmuni. Hann var bjartur yfirlitum og ljóseygur, dulur í skapi og eigi orðmargur, vinfastur og frændrækinn í bezta lagi.



**ARNGRÍMUR JÓHANN MAGNÚSSON JOHNSON.**

Var fæddur í Winnipeg 12. júlí 1893. Sonur Magnúsar bónda við Íslendingafljót, frá Stóra-Steinsvaði í Hjaltastaðarþinghá, Hjörleifssonar bónda á Hrollaugsstöðum, Jónssonar, og Bjargar Jóhannesdóttur á Hrollaugsstöðum, Jónssonar. Móðir Arngríms kona Magnúsar er Guðný Halldórsdóttir, Jónssonar, bónda á Hauksstöðum á Jökuldal, Halldórssonar. Sex ára gamall fór Arngrímur í fóstur til Arngríms Jónssonar bónda í Minneota, Minn., og konu hans Jóhönnu Jónsdóttur. Mannaðist hann vel, nam þar verzlunarfræði við Mankato Commercial College og auk þess trésmíðar, er hann stundaði síðast. Hann var kvaddur í Bandaríkjaherinn og innritaðist við hann 11. ágúst 1918. Fór frá Bandaríkjunum til Frakklands 25. september um haustið. Í orustum átti hann í Argonneskógum og féll þar rétt fyrir stríðslok, 5. nóvember 1918. Eftir skilríkjum að dæma til ættingja hans, er hann jarðaður í hermannareit Bandaríkjanna á stöðvum þessum 13. sama mánaðar.



**ANDRÉS TÓMAS STEFÁNSSON JOHNSON.**

Var fæddur í grend við Minneota í Minnesota 2. október 1889. Faðir hans er Stefán Þorsteinsson, Jónssonar, frá Melum í Fljótsdal í Norður-Múlasýslu, er býr nú í Fargo í Norður Dakota, bróðursonur frú Önnu, konu Andrésar læknis Kjerúlf. Kona Stefáns var Anna Tómasdóttir, Péturssonar prests á Valþjófsstað. Tómas var ársgamall, er hann misti móður sína; var hann þá tekinn í fóstur og alinn upp af þeim hjónum Jóseph Jónssyni frá Haugsstöðum í Vopnafirði og konu hans Stefaníu Sigurðardóttur, systur Sigurbjörns bónda Hofteig í Minnesota. Vorið 1913 brugðu fósturforeldrar hans búi og fengu Tómasi það í hendur, en fluttu sjálf til Minneotabæjar. Stundaði hann það eftir það, þangað til hann var kvaddur í Bandaríkjaherinn 27. febrúar 1918. Um sex vikur var hann við heræfingar í Dodge-herbúðum í Iowa; var því næst með fleirum sendur til Frakklands. Einhvern lítinn tíma var hann þar við æfingar, en er kominn í orustuvöll í júlí. Tók hann þátt í ýmsum orustum um sumarið, unz hann féll í bardaganum í Argonne-skógum 21. október. Eftir orustuna fanst lík hans og var greftrað í hermannareit Bandaríkjanna hjá bænum St. Juvin. Hann var dugnaðar- og atorkumaður mikill.



## BJARNI KJARTANSSON.

Var fæddur 1. janúar 1897 að Vattarnesi við Fáskrúðsfjörð. Foreldrar hans voru þau Kjartan Sturluson á Vattarnesi og Konráðína Bjarnadóttir, Oddssonar söðlasmiðs, á Kollaleiru við Reyðarfjörð. Er Bjarni var vikugamall andaðist faðir hans. Flyzt þá móðirin vestur um haf með tveim sonum sínum, Sigurði og Bjarna, en hinn þriðja, Úlfar, skildi hún eftir heima. Var hún um tíma í Winnipeg, en hvarf því næst heim aftur, en syni sína Sigurð og Bjarna, skildi hún eftir hjá systrum sínum Valgerði og Önnu Oddsson í Winnipeg. Er Bjarni var þriggja ára fór hann í fóstur til þeirra hjóna Einars Mýrdals að Garðar í Norður Dakota og konu hans Önnu Sveinsdóttur frá Tunguhóli í Fáskrúðsfirði, — hún og Kjartan faðir Bjarna voru systkinabörn. Hjá þeim ólzt Bjarni upp og stundaði landbúnaðarvinnu. Hann var kvaddur í Bandaríkjaherinn 7. janúar 1918 og sendur í Jefferson-herbúðir í St. Louis-borg í Missouri. Þar sýktist hann af skarlatssótt, er brátt snerist upp í lungnabólgu, og úr henni andaðist hann 17. febrúar 1918. Lík hans var flutt til Garðar og þar greftrað 27. s. m. Bjarni var hinn efnilegasti piltur, lífsglaður og þýður í viðmóti. Hann var gildur meðalmaður vexti, bjartur yfirlitum, svipurinn hreinn og bar vott um góðfýsi og drengskap.



## SIGURÐUR ÁRNI SCHEVING.

Var fæddur við Carlisle suðvestur af Pembina í Norður Dakota 18. júlí 1889. Sonur Árna Þorkelssonar Scheving frá Stóra-Sandfelli í Suður-Múlasýslu og Margrétar Eyjólfsdóttur, Kristjánssonar, frá Breiðavaði í Eiðaþinghá. Sigurður var útskrifaður frá ríkisháskólanum í Grand Forks og hafði lesið þar lög í tvö ár. Hann gekk í Bandaríkjaherinn 1914 meðan á uppreisninni í Mexico stóð. Var hann þar syðra um tíma. Að því loknu hvarf hann heim aftur, kvæntist og gekk að eiga ungfrú Björgu Anderson. Vorið 1918 gekk hann á ný í Bandaríkjaherinn og var settur heræfingakennari við háskólann í Grand Forks. Við það starf var hann um sumarið, en í október um haustið tók hann spönsku veikina og andaðist úr henni 20. sama mánaðar. Sigurður var hæfileikamaður og lundprúður og hið mesta góðmenni. Hann var vinsæll og vinfús, hugljúfur í viðkynningu og sannur drengskaparmaður.



**SIGURJÓN BENEDIKT SIGFÚSSON.**

Var fæddur að Mountain í Norður Dakota 31. marz 1893. Sonur Sigurjóns Sigfússonar frá Syðra-Krossanesi við Eyjafjörð, Jónssonar, og Sigríðar Sólrúnar Jónsdóttur frá Stóra-Núpi í Miðfirði í Húnavatnssýslu. Hann ólzt upp í heimahögum þangað til hann var kvaddur í Bandaríkjaherinn sumarið 1918. Hann var í Custer-herbúðum og heyrði til 40. sveit stórskotaliðsins. Hinn 8. október um haustið tók hann spönsku veikina og úr henni andaðist hann þann 12. s. m. þar í herbúðunum. Líkið var flutt til Mountain og jarðað þar. Sigurjón var hinn mesti röskleikamaður, kraftamaður og hraustmenni, hagur bæði á tré og járn, og hafði talsvert fengist við vélagerð og aðrar smíðar. Hann var stiltur og vingjarnlegur í framkomu og greiðvikinn og tryggur vinur vina.



**HARALDUR SIGURÐSSON.**

Var fæddur 26. ágúst 1890 á Sauðárkróki í Skagafjarðarsýslu. Sonur Sigurðar Jónssonar frá Miðgrund í Blönduhlíð og Súsönnu Sveinsdóttur frá Hólakoti á Reykjaströnd í sömu sýslu. Haraldur var til heimilis í Fargobæ í Norður Dakota og stundaði þar algenga bæjarvinnu, er hann var kvaddur í Bandaríkjaherinn 22. júlí 1918. Hann var um tíma við heræfingar, en heilsa hans bilaði, svo að hann var ekki sendur til orustuvallarins. Hann var leystur frá herþjónustu 23. maí 1919. Hann andaðist á sjúkrahúsi Bandaríkjahersins í Clevelandborg í Ohioríki 10. okt um haustið. Haraldur var kvongaður og áttu þau hjón einn son barna, er Mervin heitir. Býr ekkja hans í Wisconsinríki og er sonur þeirra hjá henni. Móðir Haraldar er einnig á lífi, gift Stefáni bónda Oliver við Graminia í Alberta.



## CHRISTMANN SWANSON.

Var fæddur 17. febrúar 1889 við Glenborobæ í Manitoba. Foreldrar hans voru Torfi Sveinsson, ættaður úr Dalasýslu, nafnkendur hraustleikamaður á sinni tíð, og seinni kona hans Guðrún Jónsdóttir, ættuð úr Miðdölum í sömu sýslu. Torfi andaðist fyrir mörgum árum, en Guðrún lifir enn og á heima í Glenboro. Christmann ólzt upp í fæðingarbæ sínum, og eftir að hann eltizt, vann hann við algenga sveitavinnu. Hann var kvaddur í Canadaherinn 5. janúar 1918 og var við heræfingar um tíma í Brandon, en sendur til Englands 12. febrúar. Eftir stutta viðdvöl á Englandi, fór hann til Frakklands, skipaður í 127. herdeildina. Hann var í orustunum við Amiens, Arras og Cambrai. Í bardaganum norður af Cambrai, 1. október 1918, særðist hann af sprengikúlubroti, er hann fékk í höfuðið, og dó samstundis. Christmann var maður í stærra lagi, hraustlegur og vel vaxinn. Hann var stillingarmaður, hafði farsælar gáfur og var frábærlega samvizkusamur. Hann var tryggur vinum sínum og átti enga óvini. Móður sinni góður sonur og lét sér ant um, að henni liði sem bezt. Tvö alsystkini og fimm hálfsystkini á hann á lífi og eru tvö búsett á Íslandi.



## DAVÍÐ ALBERT WESTMANN.

Sonur þeirra Bjarna kaupmanns Westmanns í Churchbridge, Sask., Davíðssonar frá Þorvaldsstöðum í Staðarhreppi í Húnavatnssýslu, Bjarnasonar, og Ingibjargar Guðmundsdóttur prests að Arnarbæli í Árnessýslu, Johnsens. Hann var fæddur að Churchbridge árið 1893 og var einkasonur foreldra sinna. Hann var kvaddur í herinn snemma ársins 1918 og innritaðist við 15. canadisku varaliðssveitina. Til Englands fór hann 18. marz um vorið og var þar við heræfingar þangað til í júlímánuði. Var hann þá settur þar til náms við "Signal"-skóla, er tilsögn veitir í því, að færa fregnir með táknum og veifum. Var hann fullnuma við skólann um það bil sem vopnahléð var sett. Dvaldi hann svo á Englandi þann vetur. En vorið eftir veiktist hann af hinni skæðu spönsku veiki, er þá gekk í herbúðunum, og lézt úr veiki þeirri á Ripon-spítala í Jórvíkurhéraði á Englandi 15. maí 1919. Davíð var hinn mesti efnispiltur.

# Friðurinn.

Eftir *séra Guttorm Guttormsson.*

## I. Augnamið samherja. — Friðartillögur Wilsons.

Kærumálin urðu nokkuð margvísleg og flókin, þau er fram voru borin, ýmist á þessa hlið eða hina, í styrjöldinni; en í raun og veru var þó deilan aðeins um eitt efni bæði fyrst og síðast. Þrætueplið var sjálfur hernaðarandinn prússneski. Sá ófögnuður hafði raskað friði Norðurálfunnar í heilan mannsaldur og betur til; hafði eignast hámæltann og svæsinn talsmann, þar sem Vilhjálmur keisari var; hafði brotist út og magnast í vígbúnaði svo ægilegum, að öðrum ríkjum stóð hinn mesti stuggur af. Þau sáu þann kost vænstan, að hervæðast og bindast trygðum til varnar.

Auðvitað hefir hernaðardýrkunin jafnan átt sér talsmenn hjá flestum þjóðum; og sá ójöfnuður, að máttug ríki ásælist lönd og héröð í kringum sig, slái á þau eign sinni eftir vild og láti þau ganga hrossakaupum að íbúum þeirra fornspurðum, hann hefir verið í för með heimsmenningunni eins og ramaukin ættarfylgja og spilt friði þjóðanna hvað eftir annað frá fyrstu tíð alt fram á þenna dag. Þessir hlutir voru engin uppfundning eða séreign Þjóðverja. En hér er sökin, sem varla verður þvegin af herjörlunum prússnesku. Einmitt um þær mundir, þegar friðarstefnan var að komast á góðan rekspöl víða með kristnum þjóðum og var jafnvel orðin vænleg um góðan árangur — hefði hún fengið að njóta sín — þá óx ofmetnaður þýzkra leiðtoga um allan helming. Hernaðarstefnunni var skipað í öndvegi, lofsungið í orði, þjónað í verki sem mest mátti; hún var tignuð eins og arfgengt ágæti Þjóðverja, er gæfi þeim rétt til ásælni og yfirráða. Hún komst í þann algleyming, er ógnaði grannaþjóðunum meir og meir, blés að ófriðarkolum um alla Norðurálfu og hratt af stað þeirri stórkostlegustu vígbúnaðarsamkepni, sem sögur fara af.

Af þessu leiddi svo aðvitað það, að Norðurálfuveldin voru komin í tvennar herbúðir löngu fyrir ófriðinn. Annars vegar voru "Miðveldin" svonefndu, með Þjóðverja í broddi fylkingar, en á móti voru "Samherjar" eða "Bandaþjóðirnar", það er að segja Frakkar, Rússar, Englendingar og aðrar smærri þjóðir. Þverúðin jókst með ári hverju, og sló að lokum í blóðuga styrjöld, þegar Þjóðverjar höfnuðu sáttagerð fyrir hönd Austurríkismanna í deilu þeirra við Serba út af morði Ferdinands ríkiserfingja. Deila sú var ekki nema tilefnið. Þar á bakvið lá vígbúinn ofmetnaður Þjóðverja, sem Bandaþjóðirnar vildu nú ekki þola lengur yfir höfði sér. Hugðust þær nú að gera út um það, í eitt skifti fyrir öll, hvort slíkur ófrelsisandi og vígahugur ætti framvegis að hafa yfirráð yfir heimsmenningunni, eða sigrast að fullu. Fyrir þá sök voru Samherjar ófáanlegir til að leggja niður vopnin, fyr en hervaldið prússneska væri með öllu brotið á bak aftur.

En jafnvel þótt aðalaugnamiðið væri nú þetta, sem nú var lýst, þá urðu sigurvonirnar því háfleygari, sem ófriðurinn stóð lengur yfir. Eftir því sem hríðin versnaði og fleiri og fleiri þjóðir lentu í henni, en fórnfæringarnar urðu æ meiri og átakanlegri, eftir því fór sú tilfinning að láta meir og meir á sér bera, bæði hjá háum og lágum, að sigurinn mætti með engu móti mistakast — að eitthvað stærra og dýrmætara, heldur en kollvörpun þýzka hervaldsins, yrði að koma fyrir manndauðann allan og hörmungarnar. Fyrir lítið kæmi slíkar brennifórnir, fanst mönnum, nema himinborin blessunaröld, með nýum himni og nýrri jörð, risi eins og fuglinn Fönix upp úr öskunni.

Hugsun þessi heillaði hjörtu almennings í

öllum löndum Samherja, sem von var. Hún tók á sig ýmsar myndir. Það þótti ekki lengur nægilegt að sigra herjarlana þýzku; hernaðarandinn þurfti að sigrast hjá öllum þjóðum, stríð og styrjaldir að leggjast niður; heimsmálin þurftu að komast í annað og friðvænlegra horf, losast við leynibrall alt og ásælni og sérhvað annað, sem áður hafði raskað heimsfriðinum; smáþjóðirnar áttu að njóta réttar og sjálfstæðis óhultar; almúginn, sem svo mikið hafði lagt í sölurnar, bæði í ófriðarlöndunum og víðar, átti að öðlast betri kjör, en félagsleg rangindi öll og stéttarígur að falla niður; kristnar hugsjónir áttu framvegis að ráða lögum og lofum á sviði þjóðmálanna. Í einu orði sagt, hrikaleikurinn, sem yfir stóð, átti að verða "stríð til að enda öll stríð", úrslitabarátta milli hernaðarandans og friðarstefnunnar.

Í þessum fögru myndum birtust sigurvonirnar í ræðu og riti hjá flestum leiðtogum Bandaþjóðanna. Blöð og tímarit voru full af líkum spádómum, en stjórnmálamennirnir lofuðu þessari eftirvæntu gullöld friðarins, hver í kapp við annan. Allir vildu leggja þar orð í belg, að því er virtist, en þó fór von bráðar um hugarstefnu þessa eins og flestar aðrar, að hún þurfti að eignast einhvern sérstakan talsmann eða merkisbera, sem öðrum fremur væri betur til þess fallinn, ekki aðeins að beita sér fyrir málinu, heldur jafnvel í eigin persónu að verða nokkurskonar sýnilegt merki hugsjónanna, sem til grundvallar lágu. Maður sá, er fyrir valinu varð, var Wilson Bandaríkjaforseti.

Sú tilhneiging er almenn og virðist eiga sér djúpar rætur, að vilja sífelt finna tákn eða persónugerfing stefnu hverrar í einhverjum vissum manni. Svo hafði farið þegar í byrjun stríðs, að allra augu voru fest á Vilhjálmi Þýzkalandskeisara. Mönnum fanst eins og þar stæði sjálfur vígahugur Þjóðverja holdi klæddur, svo herskálegur þótti maðurinn, bæði í orðbragði, sjón og allri reynd. Og fáir munu neita því, að Vilhjálmur hefir verið mæta vel til frægðar þessarar fallinn um ýmsa hluti. En alveg eins og sá maður var í einu hljóði kjörinn merkisberi vígstefnunnar, og varð að sýnilegu tákni hennar í augum almennings, svo fór í gagnstæðri grein um Wilson forseta, þegar fram í sótti; hann gat sér þann orðstír um allan hinn mentaða heim, svo að segja — að minsta kosti meðal almennings — að honum væri öllum mönnum betur trúandi fyrir friðarmerkinu. Það kom eins og af sjálfu sér. Wilson þótti frábærlega vel að þeim heiðri kominn, bæði vegna kenningar sinnar og framkomu, en ekki síður fyrir þá sök, að afstaða Bandaríkjanna við ófriðinn var nokkuð með sérstöku móti.

Í ófriðarbyrjun voru Bandaríkin eðlilega hlutlaus. Deiluefnið kom þeim lítið við, eða svo fanst öllum meginþorra þjóðarinnar. Það var auðséð þegar frá upphafi, að Wilson langaði til að eiga einhvern góðan og mikilvægan hlut í sáttagerðinni. Hann bauðst til að bera friðarboð á milli þjóðanna, sem lent hafði saman, en því boði var ekki sint. Og síðar meir, þegar Þjóðverjar tóku að veita Bandaríkjamönnum ýmsan ójöfnuð og smán, sem ilt var að þola — þegar landar Wilsons höfðu tugum saman týnt lífi, fyrst á farþegaskipinu Lúsitaníu og síðan á ýmsum kaupförum öðrum, sem þýzku kafbátarnir söktu fyrirvaralaust, þvert ofan í alþjóðalög — þá sýndi Wilson af sér svo fáheyrða stillingu og þolinmæði, að ýmsum leiðandi Ameríku mönnum þótti nóg um, og kölluðu heigulskap.

Eina list kunnu herjarlarnir flestum mönnum betur; þeir höfðu sérlega gott lag á að afla sér óvina. Ekki hættu þeir við fyr en þeir voru búnir að koma Wilson og þjóð hans út í ófriðinn á móti sér. Jafnvel sá friðsemdarmaður gat ekki þolað mátið lengur, þegar Þjóðverjar með kafbátahernaði sínum skoruðu Bandaríkin á hólm, ef svo mætti að orði kveða. Þetta gerðist snemma á árinu 1917. Varla þarf að orðlengja það hér, hve rösklega var til víga gengið af hálfu Bandaríkjamanna, þegar til þess kom; en hitt kemur meir við þessa sögu, að Wilson forseti, staddur mitt í rimmunni, þegar hún var sem allra skæðust og tvísýnust, gerði sér far um að hafa orð fyrir samherjum sínum um friðarmálin; leitaðist við að lýsa svo hugsjónum þeim, sem barist skyldi fyrir, að-

rétthugsandi menn með öllum þjóðum gætu fallist á orð hans og fylkt sér undir það friðarmerki.

Og honum tókst það mæta vel. Bæði var það, að Bandaríkin voru laus við gamlar erjur og þjóðaríg Norðurálfunnar og gerðu ekkert tilkall til sigurlauna, hvorki í löndum né lausum aurum; en auk þess var forsetinn alkunnur að hógværð og friðarást, spakur að viti og orðhagur. Bar því meginþorri manna sérlega mikið traust til hans um lönd öll, og flestir urðu hrifnir af fegurð og háfleygi kenningarinnar, sem hann flutti.

Áhrif Wilsons náðu ekki aðeins til Bandaþjóðanna, heldur bárust orð hans smátt og smátt til eyrna lýðsins í óvinalöndunum líka. Samherjar tóku það ráð til að flýta fyrir friði, að þeir prentuðu kafla úr ræðum Wilsons á þýzku og stráðu pésunum úr loftförum yfir borgir og herbúðir óvinanna. Var það gert í því augnamiði, að almenningur í þeim löndum gæti fengið réttari hugmynd um friðarkröfur óvina sinna og orðið því fúsari til að gefast upp. Ráðið hreif að einhverju leyti, eins og sjá mátti meðal annars á því, að herjarlarnir brugðust reiðir við, og hótuðu hefndum, ef þessu væri haldið áfram. En þegar Miðveldin fóru í síðustu vandræðunum að biðja sér griða, þá var það jafnan tilskilið, að meginatriðin á stefnuskrá Wilsons væru höfð að heimildum í sáttagerðinni.

Friðarstefnu sína birti Wilson í ræðum, er hann flutti við ýms tækifæri, einkum eftir að Bandaríkin voru komin í ófriðinn. Meginatriðin er að finna í tveim eða þrem ræðuköflum, og verður þá fyrst að telja "fjórtán punktana" nafnfrægu, því að greinir þær vöktu mikla eftirtekt þegar í stað, og umræður, sem enn í dag eru varla til lykta leiddar. "Punktarnir fjórtán" hlutu langmesta frægð af öllu því, sem lagt var til friðarmálsins áður en vígum linti; og hafa þeir orðið fyrir afar misjöfnum dómum, bæði sjálft innhaldið og ekki síður hitt, hverja útreið þeir hafi fengið á friðarþinginu. Um þá hluti verður ekki dæmt með sanngirni, nema litið sé á það, hvernig á stóð, þegar Wilson birti þessar fjórtán greinir.

Nokkrum sinnum, á meðan Miðveldin báru hærra hlut á vígvöllunum, höfðu stjórnir þeirra þreifað fyrir sér um friðarhorfurnar, ofur varlega þó og varla nokkurntíma með beinu tilboði. Oftast var það gert á þann hátt, að ráðherra einhver eða stjórnarformaður, eða sjálfur kanslarinn, stundum í Berlín, en oftar þó í Vínarborg, flutti hjartnæma ræðu um það, hve ófriðurinn væri skelfilegur og hve fús Miðveldin væru til sátta. Þeir forðuðust jafnan eins og heitan eldinn að nefna kröfur sínar eða bjóða nokkur ákveðin friðarboð, en töluðu fremur um fulltrúafundi til að ræða málið. Þetta var eðlilegt, þar sem þeir ætluðu sér auðvitað að hafa sem allra mest upp úr sigurvinningum sínum, og vildu því ekki spilla fyrir sér í byrjun með því að sýna, hvað undir bjó. Það duldist þó engum, að þeir ætluðu sér æði mikið fyrir snúð sinn. Venjulegast voru þeir að búa sig undir harða sókn einhversstaðar, um leið og þeir töluðu fagurt um sættirnar, og stundum spilti keisarinn fyrir tilraunum undirmanna sinna, með því að flytja í sömu svifum einhverja af sínum digurmannlegu ræðum um "sverðið góða", um "sigursældirnar", um "veglegan" eða "sterkan" frið og annað þvíumlíkt. Öllum friðarbendingum Miðveldanna svöruðu Samherjar á svipaðan hátt — með opinberum ræðum einhverra málsmetandi manna. Bentu þeir þá jafnan á vígahug og gorgeir Þjóðverja, og töldu ógerning að semja frið, fyr en sá andi, með hervaldinu, sem hann hafði skapað, væri hvorttveggja sigrað að fullu. Að ganga til friðarstefnu á meðan Prússar hrósuðu sigri — sagði Lloyd George, forsætisráðherra Englendinga — væri eins og að smeygja hálsinum í snöru óvinar síns og semja svo við hann um lífgjöfina.

Aðrar raddir fóru þó að heyrast frá Miðveldunum, þegar fram í sótti. Fólkið var orðið dauð-uppgefið á styrjöldinni; vildi fyrir hvern mun komast að einhverjum sættum, ef ekki með sigri, þá sigurlaust. Tilfinning þessa túlkuðu Sósíalistar í ræðu og

riti — eða nokkur hluti þess flokks. Þeir vildu láta leggja niður vopnin og semja frið, án sigurs, og kröfulaust á báðar hliðar.

Tillaga þessi fékk góðan byr meðal gerbreytingamanna í öllum löndum, og þá ekki sízt á Þýzkalandi sjálfu, þegar að krepti. Þó kom það flestum mönnum á óvart, þegar Ríkisdagurinn (sambandsþing Þjóðverja), samþykti, 19. júlí 1917, skorinorða friðartillögu, er mælti með skjótum sáttum, "án fébóta og án innlimunar". Með öðrum orðum, að hertekin héröð yrðu laus látin, en sakir allar og skaðabótakröfur félli niður. Ekki skal um það dæmt hér, hvernig samþykt þessi hafi verið tilkomin, hvort hún hafi verið í einlægni gerð eða ekki. Ríkisdagurinn réði ekki gerðum stjórnarinnar hvort sem var. En svo mikið er víst, að slíkur friður gat ekki komið til mála, á meðan leiðtogarnir öðruhvoru megin gerðu sér nokkra von um sigur. Samherjar vildu ekki taka í mál að láta hereydd lönd, eins og Norður-Frakkland og Belgíu, bíða tjónið alt og skemdirnar bótalaust; en tillagan um frið "án innlimunar" var nokkuð óákveðin, og ekki fullnægjandi, nema héröð, sem hernumin höfðu verið í fyrri styrjöldum og síðan innlimuð, eins og Elsass-Lothringen eða Pólland, væru nú látin laus aftur.

Svo litu Samherjar á málið. En að þýzkir herjarlar voru ekki gengnir í endurnýjungu lífdaganna, það sýndi meðferð þeirra á Rússum nokkru síðar. Snemma á árinu 1917 hafði orðið stjórnarbylting í Rússlandi, eins og kunnugt er. Þar voru dylgjur miklar með flokkum og leiðtogum fram á haust, og alt í óvissu, hverjir verða myndu að lokum ofan á. Byltingaflokkurinn, Bolshevikar svonefndir, notuðu sér friðarþrá fólksins; þeir gerðu einkunnarorðin: "engin innlimun og engar fébætur", að meginatriðum stefnu sinnar; hétu alþýðunni skjótum friði, ef sinn flokkur fengi völdin. Í nóvembermánuði veltu þeir Kerensky-stjórninni frá völdum og tóku sjálfir taumana.

Þjóðverjar fóru þegar að ræða frið við Bolshevika, sem vildu fyrir hvern mun komast að sættum við Miðveldin, til þess að hafa því meira bolmagn heima fyrir. Tóku því rússnesku leiðtogarnir, Lenin og Trotzky, sáttaboðinu feginsamlega, en kváðust þó ekki mundu ganga að neinum afarkostum fyrir hönd þjóðar sinnar. Var svo samið um vopnahlé 5. desember; en fulltrúar beggja málsaðila komu saman litlu síðar í Brest-Litovsk, litlum bæ á landamærum Póllands. Þjóðverjar birtu kröfur sínar þegar í fundarbyrjun, og voru þær í stuttu máli þessar: Skyldi Þýzkaland hafa umráð yfir hveitimarkaði Rússa í fimtán ár, en hveitið var aðal-útflutningsvara þeirrar þjóðar, eins og kunnugt er. Þar á ofan heimtuðu Þjóðverjar tollfrían aðgang að mörkuðum Rússlands með allar sínar vörur. Þetta tvent þýddi auðvitað það, að Þýzkaland fengi full yfirráð yfir verzlun Rússa og iðnaði. Þar á ofan kváðust Þjóðverjar mundu halda löndum þeim, sem þeir höfðu unnið af Rússum í stríðinu. Það voru héruðin Kúrland, Estónía, Lívónía og rússneski hlutinn af Póllandi. Svæði þetta, sem Þjóðverjar vildu innlima, nam hundrað og tuttugu þúsund fermílum og taldi tuttugu og fimm miljónir íbúa, eða betur til. Það var að ummáli fullur fjórði partur af Rússaveldi í Norðurálfu, eða fullur þriðjungur að fólkstölu. Svona mikils mat þýzka stjórnin samþykt ríkisdagsins um réttlátan frið "án innlimunar eða fébóta". Og allir gátu séð, þegar Bolshevikar birtu heiminum kröfur þessar, á hverju Samherjar mættu eiga von, ef Miðveldin fengju sigur á Frakklandi og Ítalíu.

Trotzky og Lenin mölduðu auðvitað í móinn lengi vel. Sögðust þeir aldrei skrifa undir aðra eins kosti; en þeir voru komnir með "hálsinn í snöruna", búnir að spilla fyrir sér vörninni, og gátu ekki veitt Þjóðverjum viðnám. Eftir all-langt stapp sá Lenin sér þann kost vænstan, að ganga að kröfum Þjóðverja.

Meðan á þessu stóð, tóku Þjóðverjar að flytja hersveitir sínar austan að vestur á Frakkland, drógu þangað ógrynni af alskonar herbúnaði og bjuggu sig undir harða sókn á því svæði. Notuðu sér auðvitað bilun Rússa. Samtímis mátti hlera friðarboð úr þeirri átt, óbein að vísu og ekki sem skil-

merkilegust, en miklu aðgengilegri en áður. Þeir virtust vera til með að láta Elsass og Lothringen laus við Frakka, "ef íbúarnir vildu". Usla þann, er þeir höfðu gert á Frakklandi og Belgíu, skyldi bæta með fé því, er kæmi fyrir þýzku nýlendurnar í Afríku. Buðust þeir einnig til að ráðstafa hernumdum héröðum á austursviðinu með rýmilegum kjörum.

Markmiðið var auðsjáanlegt. Þjóðverjar hótuðu harðri atlögu að vestan, en von þeirra um nokkurn úrslitasigur þeim megin var ekki sem öruggust. Kusu þeir því heldur að bjóða Samherjum nokkurnveginn sæmileg kjör, en ná sér aftur niðri á Rússum, sem nú voru berskjaldaðir. Með þessu móti gátu þeir fært út kvíarnar mikillega, aukið bæði lönd sín og verzlunarmagn. En tillögur þessar fengu næsta lítinn byr meðal Samherja. Jafnvel Sósíalistar og aðrir talsmenn verkalýðsins, sem áður höfðu verið ákafir flytjendur friðarmálsins, vildu nú ekki líta við öðrum eins sáttaboðum, eftir að herjarlarnir voru búnir að sýna, með aðförum sínum í Brest-Litovsk, hvað undir bjó.

Lloyd George svaraði friðarbendingum þessum í ræðu, sem hann flutti á þingi enskra verkamanna í fyrstu viku janúar 1918. Ítrekaði hann friðarkröfur Samherja og tók sérstaklega fram, að til lítils væri að semja við Þjóðverja fyr en stjórnarfar þeirra væri orðið frjálslegra — komið úr greipum keisarans og herjarlanna. en í hendur þjóðarinnar sjálfrar. Þetta var hverju orði sannara. Ofmetnaðurinn og ófrelsið höfðu haldist í hendur í Þýzkalandi. Þjóðin réði engu. Ráðherrar báru ábyrgð fyrir keisara, en ekki fyrir ríkisdeginum, en keisarinn fullur af vígadrambi og rígbundinn við herskapinn. Að síðustu var jafnvel komið svo, að hvorki ríkisdagur né stjórnardeildir né jafnvel sjálfur keisarinn höfðu nokkur veruleg völd. Herforingjarnir réðu lögum og lofum í landinu, sögðu stjórninni fyrir verkum, bæði um hernaðinn og friðarmálin. Friðurinn gat aldrei orðið tryggur á meðan þýzka þjóðin bjó við annað eins stjórnarfar.

Þegar hér var komið sögunni, var orðið nauðsynlegt að Wilson forseti legði fram ákveðnar tillögur, frá sjónarmiði sinnar þjóðar, í friðarmálinu. Hugsjónunum hafði hann lýst áður mjög fagurlega, og sett fram ýmsar meginreglur. Ein þeirra var fólgin í orðinu "sjálfsákvörðun" — sú kenning, að sérhver lýður hefði fullan rétt á að velja um yfirráðin, er hann vildi lifa undir. Orðið reyndist vængjað; það flaug um heim allan og hafði ósegjanlega mikil áhrif, bæði í sögu friðarmálanna og jafnframt á ýmsa viðburði aðra. — En nú þurfti Wilson að lýsa afstöðu sinni við málið, eins og það lá fyrir, ræða einstök atriði þess frá praktisku sjónarmiði. Hallaðist hann að tillögum Sósíalista um bótalausan frið? Eða vildi hann nú sinna bendingum Þjóðverja og semja frið við Miðveldin á kostnað Rússlands og Balkanríkjanna? Eða var hann samþykkur kröfum Samherja? Þetta var afarmikilvægt mál, eins og á stóð. Þjóðverjar fengu hálfu meira bolmagn á vígsvæðum Frakklands, þegar Rússar biluðu; nú voru þeir að búa sig undir harða sókn, og það var lítt hugsanlegt, að Samherjar gætu varist, hvað þá sigrað, nema Bandaríkin veittu þeim lið af alefli. Þeir gátu því varla risið öndverðir á móti friðarstefnu Wilsons, hver sem hún væri.

Óefað hefir Wilson gert sér fulla grein fyrir vanda þeim hinum sérstaka og mikilvæga, sem honum var nú á höndum í máli þessu. Enda lét hann ekki standa á sér. Hann ávarpaði báðar deildir congressins í þinghúsinu í Washington 8. janúar 1918; gerði hann þar nýja og skilmerkilega grein fyrir friðarstefnu sinni, liðaði málið sundur í atriði þau, er síðan eru fræg orðin og nefnd hafa verið "punktarnir fjórtán". Áttu greinir þær að vera mergurinn málsins í sáttatillögum Bandaríkjanna. "Punktarnir eru að efni til á þessa leið:

1. Opinberir friðarsáttmálar og til þeirra stofnað opinberlega; skal þeim á engan veg haggað eftir á með leynilegu samkomulagi nokkurra þjóða, heldur skulu heimsmálin ætíð rædd og afgreidd berlega, fyrir allra augum.

2. Al-frjáls og óhindruð sigling um heims-

höfin, hvort heldur er á friðartímum eða ófriðar, nema í landhelgi sé, eða sjóvegum einhverjum sé lokað með alþjóða ráði til að framfylgja algildum sáttmálum.

3. Afnám á verzlunarhöftum öllum, eftir því sem unt er, og lögleiðing jafnréttis í viðskiftahögum allra þeirra þjóða, er aðhyllast friðarsáttmálan og koma sér saman um að halda honum uppi.

4. Fullnægjandi tryggingar gefnar og teknar fyrir takmörkun á vígbúnaði allra þjóða, alt niður að því lægsta marki, sem samrýmst getur óhultleik heima fyrir í landi hverju.

5. Frjálsleg, sanngjörn og algerlega óhlutdræg afgreiðing á nýlendukröfum þjóðanna, stranglega bundin þeirri meginreglu, að í úrskurði allra slíkra mála um yfirráðin, þá skuli hagsmunum íbúanna jafnmikill gaumur gefinn og réttmætum kröfum stjórnar þeirrar, er tilkallið gerir.

6. Lausn allra rússneskra héraða úr hershöndum, og sú lúkning á öllum málum Rússa, að þeim megi auðnast, með góðri og frjálslyndri aðstoð hinna heimsþjóðanna, að ráða óhindraðir fram úr einkamálum sínum og velja sér það stjórnarfar og þá stjórnmálastefnu, sem þeim bezt líkar, en jafnframt séu þeir velkomnir í samfélag með öðrum frjálsum þjóðum og eigi heimting á hverskonar hjálp, sem þeir þarfnist og æski sjálfir eftir.

7. Allur heimurinn mun kannast við það, að Belgía verði að losast úr hershöndum og öðlast fulla viðreisn, án nokkurrar tilraunar til að skerða fullveldi það, sem henni ber, eins og hverri frjálsri þjóð annari.

8. Öll héröð Frakka skyldu laus látin og hereyddum landshlutum viðreisn veitt; en ranglætið, sem Frakkar urðu fyrir af hendi Prússa árið 1871, í sambandi við Elsass-Lothringen, og raskað hefir heimsfriðnum í nærfelt fimtíu ár, skyldi leiðrétt, svo að friðurinn verði trygður af nýju, til góðs fyrir alla.

9. Lagfæra skyldi landamörk Ítalíu, og setja þau þar sem þjóðir skilur, eftir glöggum ummerkjum.

10. Þjóðflokkum Austurríkis og Ungverjalands vildum vér unna varðveitingar og viðreisnar á stöðu þeirra meðal þjóðanna, og skyldi því veita þeim fullan kost á sjálfstæðisþroska þjóðlegum.

11. Rúmenía, Serbía og Svartfjallaland skyldu losuð undan útlendu hervaldi og viðreisn veita hernumdum héröðum þeirra þjóða; Serbíu skyldi veita frjálsan aðgang að sjó; afstaða Balkanríkjanna hvers við annað ákveðin á vingjarnlegan hátt, eftir sannsögulegum ummerkjum þjóðernis eða lýðhollustu, en alþjóðatrygðir veittar fyrir því, að Balkanríkin haldi landeignum sínum óskertum og sjálfstæðinu líka, bæði um þjóðmegun og stjórnarfar.

12. Tyrkjaveldi því, sem nú er, skyldi ráðstafað á þann hátt, að tyrkneski hlutinn fái vissu fyrir öruggu sjálfstæði, en aðrir þjóðflokkar skýlausa trygging fyrir óhultu lífi og óáreittum sjálfstæðisþroska. En Hellusund skyldi opnað um aldur og æfi til frjálsrar umferðar skipum og kaupskap allra þjóða.

13. Stofnað skyldi sjálfstætt Pólverjaríki, umlykjandi öll þau héröð, sem áreiðanlega eru bygð af Pólverjum; skyldi það hafa frjálsan og öruggan aðgang að sjó, en landeignir þess og sjálfstæði skyldi tryggja með alþjóða-sáttmálum.

14. Mynda skal almennan félagsskap með þjóðunum, bundinn ákveðnum sáttmálum með því augnamiði, að gefa sameiginlega trygging fyrir óskertum landeignum og pólitísku sjálfstæði allra ríkja, hvort heldur eru stór eða smá.

Auðséð er, að þrent vakti fyrir Wilson forseta, þegar hann samdi greinir þessar. Hann leggur mesta áherzlu á umbætur þær, sem stuðlað geti að almennum friði. Um það efni hljóða fyrstu fimm liðirnir, og sá fjórtándi. Flestum kröfum Samherja vill hann veita lið, en fara þó fremur vægilega í þær sakir. Notar orðið "skyldi" (should), en ekki "skal" eða "verður" (must), þegar ræðir um kröfur Frakka eða endurreisn Pólverjaríkis eða ráðstöfun á Tyrkjalöndum eða Balkanmálunum. Og þar í liggur þriðja atriðið. Hann vill veita Miðveldunum sæmileg friðarkjör og allmikið svifrúm til samn-

inga. Ekki er beinlínis farið fram á sundurliðun Austurríkis eða Tyrkjaveldis, heldur aðeins lagt til, að undirsátar þeirra ríkja öðlist meira sjálfsforræði. Þjóðverjum er synjað um leyfi til að kúga Rússa í verzlunarsökum, en jafnframt er lagt bann við að samskonar kúgun verði beitt við Miðveldin. Svipað þessu má segja um önnur mál, sem um ræðir í "punktunum". Wilson vildi því sjáanlega veita Miðveldunum kost á rýmilegri sáttargerð, þegar þau voru að búa sig undir nýtt blóðbað á vestursvæðinu. Og enginn vafi er á því, að hefði tilboðinu verði sint á þeim tíma, þá hefðu samningar tekist á þessum grundvelli — því að Bandaríkin máttu sín mikils um friðarmálið, eins og sakir stóðu. Og þá hefðu Miðveldin borið miklu ríflegri hlut frá borði, heldur en raun varð á að síðustu, auk þess sem komist hefði verið hjá öllum hernaði síðasta ársins, með manndauðanum og eignatjóninu, sem þar kom í aðra hönd.

Í löndum Samherja fengu tillögur Wilsons þegar ágætan byr hjá flokkum þeim og leiðtogum, er næst stóðu alþýðunni. Stjórnendurnir veittu þeim líka samþykki sitt, en fremur dræmt þó. Hefðu þeir víst kosið harðari kröfur á hendur Miðveldanna; og engin þeirra myndi hafa farið jafn ákveðnum orðum um liðsinnið við Rússa. Bretum fanst höggvið býsna nærri sjóvarnarstefnu sinni í liðnum um frjálsa sigling á ófriðartímum. Sumir leiðtogar Frakka höfðu nokkurn ýmugust á hugsjónastefnu Wilsons. "Hann talar eins og Jesús Kristur," er haft eftir Clemenceau stjórnarformanni. Og þegar fregnin kom um "punktana", á sami maður að hafa sagt: "Er nú Wilson búinn að gefa okkur fjórtán boðorð? Drottinn sjálfur hafði þau ekki nema tíu!" — Þó var greinunum gefið jákvæði í þingum og stjórnarsölum beggja ríkjanna.

En útreiðin varð öll önnur, á þessum tíma, hjá stjórnendum Þýzkalands. Þeir brugðust reiðir við; hótuðu jafnvel því, að ef ekki væri hætt að strá flugritum Samherja yfir þýzka jörð — þar áttu þeir sérstaklega við þessa síðustu ræðu Wilsons — þá skyldi hver sá flugstjóri "skotinn í kurl", sem handsamaður yrði og uppvís að slíku athæfi. Sjálfir höfðu þó Þjóðverjar óspart notað flugritasendingar, bæði á Ítalíu og víðar — en það kemur ekki við þessa sögu. En hitt varð auðséð, að þeir vildu síður sleppa friðarkenningu Wilsons í heilu lagi við alþýðuna.

Tillögurnar fjórtán voru þó opinberlega teknar til umræðu, bæði í Berlín og Vínarborg. Czernin greifi svaraði fyrir hönd Austurríkis. Ræða hans var mild og friðvænleg. Hann sagði, að stefna Wilsons kæmi svo nærri sjónarmiði Austurríkis, að vel mætti leita um sættir á þeim grundvelli. En Hertling, ríkiskanslari Þýzkalands, hafði orð fyrir sinni stjórn, og söng við annan tón. Fyrstu fjóra "punktana" sagðist hann geta undirskrifað "vandræðalaust", en meira ekki. Ræðan var þrungin gorgeir og sigurdrambi, og auðséð, að Þjóðverjar þóttust eiga allskosti við óvini sína. Þeir voru enn að hugsa um sigurlaun og þóttust geta haldið vinningum sínum í Rússlandi. Var tilboði Wilsons þar með hafnað af Miðveldunum að því sinni, því að Austurríkismenn urðu auðvitað að lúta Þjóðverjum.

Gekk svo friðarmálið þann veg, sem Þjóðverjar vildu. 18. febrúar sendu þeir lið sitt, það er eftir stóð að austan inn á Rússland, þess erindis að kúga Rússa til friðar. Það var létt verk. Þeir komu í opna skjöldu Bolshevikum hvarvetna, því að föng voru engin til varnar. Bolshevikar sáu þann kost vænstan, að þiggja grið af Þjóðverjum. Gengust þeir undir friðarkröfurnar, sem nú voru talsvert harðari en í fyrstu, og staðfestu friðinn með undirskriftum sínum í Brest-Litovsk 3. marz. Fáum dögum síðar varð Rúmenía að semja frið við Miðveldin, svipaðan þeim, sem Rússar höfðu hlotið. En Þjóðverjar bjuggu sig nú af alefli undir sóknina fyrirhuguðu vestur á Frakklandi, því að nú þurfti að tryggja þýfið, sem þegar var fengið, eða bæta við. Áhlaupin hófust í marz ofanverðum og héldust uppi til maíloka viðstöðulítið, með hermdarverkum afskaplegum og manndrápi. Kúgunarfriður Rússa og Rúmena, og síðan hrikaleikurinn vestur á Frakklandi — það voru svörin, sem

herjarlarnir gáfu við friðartillögum Wilsons. Þó vildu þeir í óförum sínum haustið eftir byggja friðarkjör sín á sömu greinunum, eins og ekkert hefði í skorist.

Auðséð var, að Wilson þóttist hafa rétt til að endurskoða tillögur sínar, eftir að "fjórtán punktunum" var hafnað. Að minsta kosti tvisvar um sumarið birti hann nýjar greinir, fjórar í hvort skifti, sem áttu að vera meginreglur í sáttargerðinni. Voru það sömu grundvallaratriðin og áður, aðeins tekin fram í styttra máli, og með almennum orðum. En "reglur" þær náðu aldrei sömu frægð eins og "punktarnir". Þeir vöktu, eins og áður var sagt, meiri eftirtekt og náðu meiri hylli en nokkuð annað, sem lagt var til friðarmálanna á meðan stríðið stóð yfir.

Eins er enn ógetið um friðarkenning Wilsons. Um aðal-markmið stríðsins kom honum vel saman við stjórnendur hinna Bandaþjóðanna. Hervaldið prússneska þurfti að sigrast, hvað sem öllu öðru leið, og hverfa úr sögunni. Þetta liggur til grundvallar í "punktunum", eins og sjá má á fjórðu greininni sérstaklega. Og meginatriði þetta tók hann fram við ýms tækifæri, meðal annara í ræðu þeirri, er hann hélt 4. júlí 1918. Þar fórust honum svo orð, að eitt aðal-augnamið Samherja væri: "Kollvörpun hvers þess einveldis, er gæti eitt sér, með leynd og eftir eigin vild sinni raskað friði heimsins — eða ef því verði ekki kollvarpað um sinn, þá sé það gert svo orkulaust, að engan saki." —

Hér hefir þá verið skýrt frá friðarmálunum, eins og þau horfðu við á öndverðu ári 1918. Hernaðarsaga þessa missiris verður ekki rakin hér. En næst er að segja frá atvikunum helztu, sem leiddu friðinn í garð.

## II. Ófarir og friðarboð Miðveldanna.

Í byrjun ágústmánaðar, árið 1918 hafði orrahríðin geysað rétt fjögur ár, og var þá enn ekki farið að rofa svo til í lofti neinstaðar, að almenningur manna, í löndum Samherja að minsta kosti, gæti gert sér nokkra von um sigur eða frið fyrir áramótin. Að vísu var þýzka sóknin ógurlega vestur á Frakklandi stöðvuð fyrir tveim mánuðum, ósigur Austurríkismanna við ána Piave suður á Ítalíu orðinn sex vikna gamall, og Þjóðverjar rétt fyrir fáum dögum búnir að kollvarpa sigurvonum sínum í nýju áhlaupi vestur við Marne, þegar þeir biðu ósigur fyrir Frökkum og Bandaríkjamönnum í orustunni, sem kend er við Chateau-Thierry. Miðveldin áttu í vök að verjast á öllum vígsvæðum í ágústbyrjun; en alt um það þorðu fáir að vonast eftir skjótum úrslitum, því að áhlaupa-hernaður af hálfu Samherja hafði oftast að undanförnu gefið lítið í aðra hönd nema valkestina.

Árangurinn varð þó meiri að þessu sinni en áður. Sigurinn við Chateau-Thierry reyndist fyrirboði nýrra sigurvinninga, sem voru hver öðrum stórkostlegri. Samherjar ruddust áfram í hverri atrennu svo mílum skifti, einkum að vestan, tóku fallbyssur hundruðum saman, en fanga í tugum þúsunda. Mönnum veitti erfitt heima fyrir, að átta sig á slíkum fregnum; þær líktust miklu fremur kynjasögum en bláköldum sannleika, eftir allar hörmungarnar, sem á undan höfðu gengið. Og viðsjárvert var að gera sér of háar vonir, því að ekkert virtist líklegra, ef dæma skyldi eftir dýrt keyptri reynslu fyrri ára, en að Miðveldin myndu koma herflokkum sínum fyrir í nýjum skotgröfum eftir undanhaldið og verjast enn í langan tíma.

En í miðjan september fór að koma fram í dagsljósið ýmislegt fleira, sem til heilla horfði fyrir samherja. Það tók að vitnast á ýmsum ummerkjum, að Miðveldin voru komin á heljarþröm, og einkum að Austurríki lá við að liðast í sundur eins og flaki fyrir ósjóum. Eitthvert fyrsta táknið, þótt undarlegt megi virðast, kom á daginn austur í Síberíu. Þar var fjölmennur flokkur herfanga frá Austurríki, sem Rússar höfðu tekið snemma í ófriðnum og sent austur þangað til geymslu. Þeir voru Zecho-Slóvakar að þjóðerni, en sá þjóðflokkur byggir Bæheim, Móravíu og þann hluta Slesíu, sem liggur undir Austurríki. Þjóð sú er slavnesk að uppruna; hafði hún lengi þolað yfirráð Austurríkis, en aldrei glatað þjóðerni sínu eða tungu, né sætt sig við ófrelsið.

Zechó-Slóvakar þessir austur í Síberíu tóku til sinna ráða, þegar Bolshevikar kom-

ust til valda á Rússlandi. Þeir fylktu liði gegn Bolshevikum og sýndu af sér dæmafáan ötulleik og ráðkænsku. Höfðu þeir á áliðnu sumri náð undir sig mestallri járnbrautinni, sem liggur yfir þvera Síberíu frá Úralfjöllum austur að Vladivostok. Þeir lýstu yfir sjálfstæði þjóðar sinnar og tjáðu sig andvíga Miðveldunum; en Samherjar veittu Zechó-Slóvökum viðurkenningu sem frjálsri bandaþjóð sinni, í öndverðum september. Vínarstjórnin brást reið við og lýsti því yfir, að þetta tiltæki Samherja væri brot á alþjóðalögum; en Zechó-Slóvakar sjálfir, þar heima í Austurríki, lögðust undir höfuð að afþakka frelsisgjöfina. Gátu því allir séð, að samfarir voru ekki sem beztar með fylkjum og þjóðflokkum þar í landi.

Ekki leið heldur á löngu áður en miðveldin fóru að þreifa fyrir sér um frið. Austurríkismenn riðu á vaðið 14. september með tilboð um sáttafund. Boðið sendu þeir páfanum í Róm og öllum stjórnum Samherja. Lögðu til, að erindrekar frá ófriðarþjóðunum kæmu saman á fund til að ræða um sáttakröfur sínar í "trúnaði", án þess að nokkuð væri fastmælum bundið, en í von um að umræðurnar leiddu svo til fullra sátta. Auðséð þótti, hvar fiskur lægi undir steini. Nokkrum sinnum áður höfðu stjórnmálamenn Miðveldanna látið á sér heyra, að þeir væru reiðubúnir að semja frið; en venjulegast höfðu þeir áréttað slíkar bendingarar með því að búa sig undir nýja sókn á vígvöllunum. Þjóðverjar vildu ná "sterkum" friði, eins og keisarinn komst að orði, og kusu því helzt að ræða um sættirnar, þegar þeir höfðu sverðið reitt til höggs og bjuggust við ótta sem allra mestum í herbúðum óvina sinna. Svo höfðu þeir farið að ráði sínu á meðan hagur þeirra stóð í blóma. En nú var öldin önnur. Herflokkar þeirra þokuðust nú aftur á bak á öllum vígsvæðum. Samherjar höfðu heitið undirsátum Miðveldanna, svo sem Zechó-Slóvökum, Júgó-Slövum og Pólverjum, fullu frelsi. Austurrríki hlaut að liðast í sundur, en Þýzkaland að færa saman kvíarnar, nema stjórnir þeirra ríkja kæmust að einhverjum samningum áður en þeim yrði nauðugur einn kostur, að taka friðarkröfum Samherja skilyrðislaust. Vildu með öðrum orðum slá niður taflinu til að forðast máti.

Wilson Bandaríkjaforseti varð fyrir svörum af hálfu Samherja og svaraði fremur snúðugt; sagði, sem satt var, að hann væri þegar búinn að lýsa friðarkröfum sínum, berlega og hispurslaust, og gæti því sín stjórn aldrei tekið þátt í leynistefnu til að ræða mál, sem hún áður væri búin að gera jafn-opinbert. Aðrir stjórnendur Samherja tóku í sama strenginn og létu sér vel líka. Svar Wilsons var í raun og veru tilkynning um það, að Samherjar vildu ekki gefa neinn afslátt á friðarkostunum, sem þeir höfðu að bjóða. Þeir voru þegar búnir, einkum Wilson forseti, að gera kröfurnar svo mildar og sanngjarnar sem frekast mátti, og ekki var trútt um, að sumum leiðtogunum fyndist jafnvel Wilson ganga helzt til langt í vægðaráttina, svo sem áður var sagt. En um það höfðu þeir komið sér saman, að ekki skyldi hætt að berjast fyr en sigur væri fenginn og Miðveldin reiðubúin til að játast undir meginatriðin í friðarkröfum óvina sinna, skilyrðislaust.

Annað friðarboð sendu Þjóðverjar Belgíu 15. september, eða degi síðar en tilboðið áðurnefnda kom frá Austurríki, en Belgíumenn afsögðu að skerast úr leik eða semja um sættirnar einir sér við Þjóðverja.

Undirtektir þessar komu sér mjög illa fyrir leiðtogana þýzku. Þeir höfðu auðvitað hugsað sér að gera þann enda á ófriðnum, að þeir gætu sjálfir sett friðarskilyrðin. og þau ekki sem vægust. Til þess var leikurinn ger í fyrstu. En nú var svo komið, að þeim var jafnvel synjað um alla tilslökun á friðarkröfum óvinanna. Og rétt í þessum svifum fóru herflokkar þeirra hverja hrakförina á fætur annari. Samherjar náðu Makedóníu úr höndum Búlgara, hröktu Tyrki burt úr Gyðingalandi, en stöktu Þjóðverjum á flótta hvað eftir annað á Frakklandi, bæði í grend við Rheims, í Argonneskógi og víðar. Auðséð var á öllum ummerkjum, að sambandsríki Þjóðverja voru að þrotum komin; enda var þess ekki langt

að bíða, að bandalag Miðveldanna færi út um þúfur.

Búlgarar urðu fyrstir til að gefast upp. Þeir höfðu verið hraktir út úr Makedóníu, sem fyr var sagt, og í síðustu viku september brast meginflóttinn í liði þeirra. Auk þess var þjóðin al-uppgefin heima fyrir og heimtaði frið, en Þjóðverjar gátu engan liðsauka sent, því að þeir áttu nóg með sjálfa sig. Búlgarar sáu því þann kostinn vænstan, að senda fulltrúa með friðarbón til D'Esperey hershöfðingja, þess er stjórnaði liði Samherja austur þar. Setti hann Búlgörum stranga kosti um vopnahlé, en þeir áttu ekki á öðru völ og skrifuðu undir skilmálana 29. september. Daginn eftir gekk svo vopnahléð í gildi og Búlgarar þar með gengnir af hólminum fyrir fult og alt. Þeir undirgengust að kalla heim leifar þær af herflokkum sínum, sem enn voru í Serbíu og á Grikklandi; uppleysa her sinn mestallan, gefa Samherjum umráð öll yfir vopnabirgðum, virkjum og herstöðvum, yfir járnbrautum, þjóðvegum og flutningatækjum öllum, og sérstaklega yfir ánni Danube. Máttu Samherjar senda lið sitt óhindrað yfir landið, hvert sem þeir vildu. Í einu orði sagt, Búlgarar lögðu niður vopnin algerlega og skilyrðislaust, og skuldbundu sig til að halda sáttmálann þar til almennur friður yrði saminn; en á hinn bóginn var ekkert tilskilið um stjórnarfar eða landamæri Búlgaríu, því að alt slíkt átti auðvitað að koma til úrskurðar á friðarþinginu. — Nokkrum dögum síðar lagði svo Ferdinand, konungur Búlgara, niður völd, en sonur hans tók við ríki. Ferdinand hafði otað þjóð sinni út í ófriðinn Þjóðverja megin, þvert ofan í tillögur sumra ráðgjafanna.

Þýzku blöðin reyndu að gera sem allra minst úr hnekki þeim, sem Miðveldin biðu við þessar ófarir Búlgara; kendu þau ýmsu um, svo sem fjárkröggum þjóðarinnar og innbyrðis erjum leiðtoganna, og létu sér fátt um finnast í orði kveðnu. En þó varð það von bráðar ljóst, að atburðir þessir höfðu haft djúp og heilsusamleg áhrif á herjarlana þýzku. Þeir gerðu nú nýjar tilraunir til að bjarga sjálfum sér frá samskonar útreið. Hertling ríkiskanslari, sem reynst hafði leiksoppur hervaldsins, og fyrir þær sakir áunnið sér óvinsældir í hópi friðarvina heimafyrir, en megnan óþokka meðal Samherja, var látinn segja af sér; en Maximilian prins frá Baden var gerður að eftirmanni hans. Maximilian var auðvitað aðalsmaður í húð og hár og íhaldssamur undirniðri; en hann var liðlegur maður og gætinn og minni vinur hervaldsins en margir aðrir. Hafði hann fyrstur allra málsmetandi stjórnenda þar á Þýzkalandi kveðið upp úr með þá skoðun, að Þjóðverjar gætu aldrei unnið sigur eða getið sér tryggan og farsælan frið með vopnum einum.

Með vali þessa manns vildi keisarinn þóknast bæði leiðtogum Samherja, og ekki síður frjálslyndum mönnum og friðarvinum heimafyrir. Samtímis gaf hann þeirri stjórnarbót jáyrði sitt, að ráðuneytið skyldi framvegis bera ábyrgð fyrir ríkisdeginum (sambandsþinginu þýzka) en ekki fyrir keisara. En þessa breyting í áttina til lýðstjórnar hafði hann aldrei viljað taka í mál áður.

Ráðið kom þó ekki að tilætluðum notum. Allir vissu, að Maximilian var til þess alófær, að vinna bug á hervaldinu. Auk þess var von Payer áfram undirkanslari, en í honum áttu herjarlarnir hvert bein, að því er virtist, og svo hafði einveldið prússneska stundum heitið umbótum áður, þegar hætta var á ferðum, en gleymt svo loforðum sínum eftirá. Samherjar lögðu því lítið upp úr kanslaraskiftunum eða stjórnarbótinni, nema að því leyti, er hvorttveggja sýndi, hvernig keisarastjórninni lá lífið á að geta samið frið, áður en hún biði algeran ósigur á vígvöllunum og yrði svo rekin frá völdum.

Maximilian tók við embætti 3. október, og þegar daginn eftir lét hann nýtt friðarboð útgefið. Orðsendingin var stíluð til Wilsons forseta, en honum falið að koma boðunum til samherja sinna. Þýzka stjórnin bauð öllum ófriðarþjóðunum að senda fulltrúa á sáttastefnu; kvaðst hún fús til að leggja friðarkröfur Wilsons, þær er hann hafði sett fram í boðskap sínum til congressins 8. janúar og við önnur tækifæri síðar, einkum í ræðu þeirri, er hann flutti 27.

september, "til grundvallar fyrir umræðum" um sáttagerðina. Ennfremur mæltist hún til, að þegar í stað yrði samið um vopnahlé.

Orðsendingu þessari fylgdi Maximilian eftir með ræðu, sem hann flutti í ríkisdeginum 5. október. Lýsti hann þar stjórnarbótinni fyrnefndu með mörgum fögrum orðum, benti á það, að hér eftir hvíldi alt stjórnarfar Þýzkalands á þjóðviljanum, en ekki á einræði keisarans eins og að undanförnu. Ennfremur gaf hann ádrátt um, að Belgíu skyldi gefið fult frelsi og einhverjar skaðabætur borgaðar, eftir samningum.

Boðskapur þessi var að vísu fjarlægur og gagn-ólíkur fyrri friðarkröfum Þjóðverja. Réttum sex mánuðum áður höfðu leiðtogar þeirra talað digurmannlega um að heimta af óvinum sínum landspildur miklar og fébætur. En jafnvel þótt nú kvæði nokkuð við annan tón, þá var þó rostinn ekki lægður að fullu. Keisarinn þurfti að ræða málið frá sinni hlið, sjálfum sér til dýrðar. Lýsti hann því yfir, að hann "hefði enn einu sinni ásett sér að bjóða óvinunum frið", en það vildi hann gera öllum kunnugt, "að hann útrétti ekki hönd sína eftir öðrum friði en þeim, er sér og þjóð sinni væri sæmd í". Þetta fanst mörgum full-borginmannlegt, eins og sakir stóðu.

Sjálfsagt hafa Þjóðverjar ímyndað sér, að Bandaríkjaþjóðin stæði með hálfum huga í ófriðnum, og myndi því fegin taka hverri átyllu, sem byðist, til sáttagerðar. En þeim varð ekki kápan úr því klæðinu. Blöðin hvöttu Wilson til að láta ekki undan, heldur krefjast þess eins, að Þjóðverjar gæfust upp. Sama gerðu leiðandi menn í congressinu. En Frakkar og Englendingar töldu orðsendingu Maximilians blekking eina, og tilraun til að spilla samkomulagi meðal bandaþjóðanna.

Wilson var ekki ánægður með orðsendinguna. Í stað þess að svara, þá sendi hann Þjóðverjum fyrirspurn um það, hvort þeir væru reiðubúnir að ganga að skilyrðum þeim, er hann hafði áður sett og þeir höfðu nefnt í sáttaboðinu. Honum þótti það ekki nógu ákveðið loforð, að meginatriði þess skyldu "lögð til grundvallar fyrir umræðum", eins og Maximilian hafði komist að orði. Ekki kvaðst hann heldur geta fengið af sér að mæla fram með vopnahlé við bandamenn sína á meðan þýzki herinn sæti á löndum þeirra.

Fyrirspurn þessari svaraði þýzka stjórnin 12. október. Þjóðverjar "játuðust undir friðarkostina, sem teknir voru fram í ræðu Wilson 8. janúar, og í öðrum síðari ræðum hans, "á grundvelli varanlegs friðar og réttlætis". Þeir voru ennfremur til þess albúnir", að verða við bending hans um að láta af hendi hernumin lönd. Nýtt ráðuneyti, sem valið hafði verið "á ráðstefnu og eftir samkomulagi við mikinn meirihluta ríkisdagsins", stóð nú fyrir málum þýzku þjóðarinnar, sagði skeytið, og sama meirihlutann hafði kanslarinn að bakhjalli. Orð hans voru því töluð í nafni lýðsins, ekki síður en stjórnarinnar.

Keisarastjórnin var orðin ofur mjúkmál og tillátssöm í viðureigninni við Wilson, eins og skeyti þetta ber með sér. Annað stóð heldur varla til. En á vígvöllum bar þó næsta lítið á slíkum ávöxtum iðrunarinnar, þó í óefni væri komið. Herflokkarinr frömdu allskonar hermdarverk á undanhaldinu; það voru engin agaleysis-óknytti, engin skrílspjöll, heldur alráðin og fyrirskipuð ósvinna, unnin af stökustu vandvirkni og í fullri hlýðni við hervöldin, eins og Þjóðverjum var lagið. Þeir spiltu eignum Frakka sem mest þeir máttu, lögðu í eyði akurlönd og víngarða, hjuggu niður aldintré; brendu bæi til kaldra kola; ónýttu námur með sprengingum og vatni, vörpuðu sprengikúlum niður á sjúkrahús, þó skýrt væru mörkuð; héldu áfram kafbátahernaðinum alræmda með sömu grimd og áður. 3. október skemdu þeir kolanámurnar í grend við Lens svo illilega, að kolatekjan verður þar víst aldrei söm og áður var; fimta dag sama mánaðar lögðu þeir eld í borgina Donai á Norður-Frakklandi og mörg þorp í grend við Cambrai, en sú borg var brend til ösku fjórum dögum síðar. Og tíunda október, rétt tveim dögum áður en svarið var sent til Wilsons forseta, sökti þýzkur kafbátur póstskipinu Leicester, er var á leið með fjölda farþega

frá Dýflinni og austur til Holyhead. Týndu þar lífi hátt á fimta hundrað manns. Það er alkunnugt, að þýzkir herforingjar töldu sér heimilt að beita fúlmenskunni, þegar kúga skyldi sigraða lýði til auðsveipni; en hvaða hag þeir sáu sér í öðru eins atferli, þegar ósigurinn færðist yfir á sjálfa þá og stjórn þeirra var sem ákafast að biðja sér griða — það er gáta, sem seint verður ráðin að öllum líkindum.

Ekki var Wilson allskostar ánægður með skeytið frá Berlín. Hann svaraði 14. október á þá leið, að viðvíkjandi skilyrðum fyrir vopnahlé eða tilhögun á brottflutningi þýzka liðsins úr Frakklandi, þá yrði farið algerlega eftir ráðum herstjórnarinnar, en sú ein tilhögun yrði tekin í mál, er trygt gæti Samherjum unninn sigur og alger yfirráð á vígsvæðinu. En ekki væri til neins að tala um vopnahlé, á meðan Þjóðverjar færu sínu fram um grimdina, ránskapinn og spellvirkin. Til þess að koma í veg fyrir allan misskilning, kvaðst Wilson verða að ryfja upp eitt atriði sérstakt í friðartillögum sínum, þeim er þýzka stjórnin hefði nú í orði kveðnu gengið að. Voru það orð hans í ræðunni 4. júlí, þau er áður var vitnað til, um "kollvörpun hverrar einvaldsstjórnar, er gæti af eigin ramleik, með leynd og eftir vild sinni raskað heimsfriðnum". Kvað hann keisarastjórnina þýzku vera þess eðlis, sem þar væri lýst, en þjóðin gæti breytt því stjórnarfari, ef hún vildi flýta fyrir sáttum.

Á meðan þessu fór fram, höfðu stjórnendur Austurríkis verið að leitast við, eins og í dauðastundar-iðrun, að bæta stjórnarfarið í löndum sínum. Karl keisari lýsti því yfir 18. október, að ýmsum fylkjum og þjóðflokkum þess veldis yrði nú gefið meira sjálfsforræði en áður; þó var enginn ádráttur gefinn um endurreisn Póllands. En ítalska hlutanum umhverfis Triest suður við Adríaflóa skyldi ráðstafað á sérstakan hátt "eftir óskum íbúanna". Yfirbótin var góðra gjalda verð í sjálfu sér, en hún kom of seint. Í janúar gat Austurríki varist sundurliðun með þessu móti — hefðu Miðveldin á þeim tíma gengið að friðartillögum Wilsons. En nú var svo komið, að fylkin sjálf höfðu sagt sig úr lögum við Vínarstjórnina. Zechó-Slóvakar urðu fyrstir. Sama daginn og boðskapur Karls keisara var út gefinn, sendu þeir Wilson forseta tilkynning um það, að þeir væru með öllu sjálfstæðir og lausir við Austurríki og búnir að mynda lýðveldisstjórn útaf fyrir sig. Samskonar yfirlýsing kom frá Ungverjum. Þeir tjáðu sig í "vinsamlegu sambandi" við Austurríki, en lausa undan öllum yfirráðum keisarans eða stjórnarinnar í Vín. Í öðrum fylkjum bryddi á breytingum í sömu átt, en herinn, er samsettur var af öllum þessum þjóðflokkum, var kominn í það horf, að honum var ekki treystandi lengur.

Með þessa atburði fyrir augum svaraði Wilson forseti 18. október skeyti því, er komið hafði frá Vínarborg 12 dögum áður. Höfðu Austurríkismenn beðið um friðargerð í samræmi við "punktana fjórtán". Wilson gaf það svar, að ekki væri hægt að afturkalla þá stórviðburði, sem gerst hefðu síðan 8. janúar. Austurríki gæti því ekki vænst eftir sáttagerð þeirri, sem þá var boðin. Samherjar væru þegar búnir að viðurkenna sjálfstæði Zechó-Slóvaka, til dæmis. Héðan af yrðu þjóðflokkar tvíveldisins — Austurríkis og Ungverjalands — látnir ráða sjálfir örlögum sínum um stjórnarfar og lýðskyldu.

Þenna sama dag, 19. október, héldu þýzkir leiðtogar fund með sér í Berlín, til að íhuga, hverju svara skyldi síðasta skeyti Wilsons. Ludendorff herforingi, sá er umráð hafði haft yfir hermálum öllum á Þýzkalandi síðan á miðjum vetri eða lengur, var kallaður á fundinn til að lýsa horfunum og leggja til um úrræði. Sagði hann sínar farir eigi sléttar, eins og geta má nærri. Strandlengjan öll í Belgíu var komin í hendur Samherja; Þjóðverjar hrökluðust við illan leik austur á bóginn frá Cambrai og víðar á Frakklandi, en sumstaðar lá við sjálft, að stórar deildir þýzka hersins yrðu kvíaðar inni, svo illa gekk undanhaldið. Samherjar hlutu að verða komnir inn á Þýzkaland með her sinn eftir fáar vikur, nema vopnahlé fengist áður. Þjóðverjar gátu ekki rönd við reist. Mannkrafturinn var þrotinn, hernað-

arúthaldið alt í niðurníðslu og engin föng á að taka það upp, sem glataðist eða gekk úr sér. Átján þúsund fallbyssum, eða réttum þriðjung birgða sinna í þeim vopnum, töpuðu þeir í hendur óvina sinna á Frakklandi frá miðjum júlí til októberloka. Ýmsar herdeildir þýzkar, sem upphaflega höfðu nálægt sjö þúsund manns, höfðu nú ekki þúsund vopnfærum mönnum á að skipa. Í herdeildirnar allar vantaði hálfa miljón manna eða vel það; en í varaliði höfðu þeir ekki nema þrjú hundruð og fimtíu þúsund manns, en mikill hluti þess liðs voru unglingar fyrir innan tvítugt. Þýzkir herforingjar höfðu lengi verið örlátir á mannafla sinn, þegar þeir veittu sókn, en nú var sá auður uppgenginn, og sigursældin um leið. Heimafyrir var ástandið engu glæsilegra. Hallærisverð á nauðsynjum öllum og bjargræðisskortur áþreifanlegur undir veturinn.

Með þetta og annað eins til frásagnar hlaut nú Ludendorff að gera reikningsskap ráðsmensku sinnar þar á fundinum í Berlín. Hörmungarástand þetta var honum að kenna flestum öðrum fremur, því að hann hafði verið alt að því einvaldur á Þýzkalandi síðustu mánuðina. Frægð Ludendorffs hófst með sigrinum mikla yfir Rússum í Austur-Prússlandi haustið 1914. Hindenburg hafði þar yfirstjórn liðsins, en Ludendorff var æðsti ráðunautur hans og hægri hönd svo að segja. Samvinnu þessari héldu þeir síðan áfram og gátu sér mikla sigurfrægð á austursviðinu, unnu þar glæsileg afreksverk, á meðan hernaðurinn gekk í endalausu þófi yfir á Frakklandi. Þjóðverjar fengu nærri því takmarkalausa tröllatrú á tvístirni þessu, og fólu þeim að lokum æðsta valdið yfir öllum hernaði ríkisins. Hindenburg var eldri þeirra tveggja og vinsælli, en smám saman fóru menn að fá það álit á Ludendorff, að hans megin væri herkænskan og vitið. "Ludendorff er með því!" — það voru orð, sem sættu þjóðina við ýmislegt það, sem glæfralegast var í ráðum herjarlanna. Þótti þá öllu óhætt, ef ráðið kæmi frá honum, eða hefði samþykki hans. Ludendorff var prússneskur herjarl í húð og hár, óvæginn og kaldráður. Mælti eindregið með kafbátahernaðinum; taldi rétt og viturlegt að varpa sprengikúlum úr loftförum niður á varnarlausar borgir; gekst fyrir því, að fólkið væri flutt þúsundum saman úr Belgíu og Norður-Frakklandi til Þýzkalands og hnept þar í þrældóm. Gerræði hverju treystu Þjóðverjar eins og nýju neti — einkum leiðtogarnir — ef ráðið kom frá þeim fóstbræðrum. Fór svo að lokum, að þeir urðu nærri því einvaldir í stjórnmálunum líka. Kúgunarkjörin, sem Rússum voru boðin í Brest-Litovsk, voru þeirra ráð. En eftir það bar þeim á milli, svo að leiðir skildust. Hindenburg vildi tryggja sigurinn að austan sem allra bezt og hafa herafla mikinn þeim megin, en láta sér nægja að verjast á vestursvæðinu, þar til Samherjar myndu þreytast, og taka sáttum á kostnað Rússlands og Balkanríkjanna. En Ludendorff þóttist nú eiga alls kostar við óvini sína, þegar Rússar væru nú úr sögunni, og lagði til, að sókn mikil væri hafin vestur á Frakklandi. Hann hafði sitt mál fram, en Hindenburg dró sig í hlé, þegar ráðum hans var ekki tekið; hélt að sönnu herstjóranafninu, en lét Ludendorff einráðan um hernaðinn að öllu leyti. Ludendorff rak nú herinn af nýju út í ógurlegan ásóknarhernað, eyddi bæði herföngum og mannslífum óspart, í þeirri von, að hann gæti unnið skjótan sigur. Hann sætti þjóðina við þessar nýju hörmungar með því loforði, að sóknin skyldi neyða samherja til að leggja niður vopn. "Friðarsóknin", var þessi síðasta senna kölluð alment á Þýzkalandi. Hríðin var ægileg og mannskæð, en voðalegust þó fyrir Þjóðverja sjálfa, eins og nú var ljóslega komið á daginn í októberlok. Þeir höfðu keypt sér smán og ósigur með öllu blóðbaðinu síðan í janúar, þá er þeir höfnuðu friðartillögum Wilsons en kusu vígastefnu Ludendorffs. Ekki aðeins hafði sóknin farið út um þúfur, heldur fór nú undanhaldið í ólestri, þó hvergi væri gefið eftir af góðmensku. Frægðarsól Ludendorffs var gengin til viðar. Hann gat enga von gefið, þar á fundinum í Berlín, um örugga vörn af hálfu sinna manna eftir hrakfarirnar, og lá því ekki annað fyrir en að

taka kröfum Wilsons hinum síðustu, þótt strangar væru.

Næsta dag barst sú fregn frá Berlín, að Ludendorff hefði látið af herstjórninni. Kom þá Hindenburg fram á sjónarsviðið aftur, valdi sér annan ráðunaut, Gröner nokkurn, og stýrði liðinu það sem eftir var ófriðarins. En Ludendorff settist í helgan stein, eða öllu heldur vanhelgan, og situr þar enn. Fær hann líklegast aldrei viðreisn í áliti þjóðar sinnar, en orðstír sínum meðal annara þjóða var hann búinn að glata löngu áður en hann sagði af sér. Svo fer þeim, sem dýrka máttinn yfir alla hluti fram og treysta harðneskjunni.

Litlu síðar fékk svo Wilson svarið frá þýzku stjórninni. Hún var auðmjúk í orðum, þóttist verða við öllum kröfum hans; kvaðst aldrei hafa skipað fyrir um hryðjuverk, en lofaði því, að hér eftir skyldu kafbátarnir aldrei sökkva farþegaskipum. Þýzkaland hefði nú fulla þingræðisstjórn, er bæri ábyrgð fyrir þjóðinni. Herinn vildu þeir draga burt úr löndum nábúa sinna, en lögðu til, að herfræðinganefnd úr liði beggja málsaðila sæi um burtförina. En í vopnahlénu skyldu hlutföllin halda sér, þau sömu og nú, um liðstyrk allan og herföng. — Þetta síðasta atriði var rúsínan í svarinu. Þjóðverjar vildu komast burt af Frakklandi með lið sitt óskert, það er eftir var, og komast að einhverjum samningum um friðinn, þótt ekki væri nema að nafninu til. Með því einu móti gátu leiðtogarnir dulið hin verstu axarsköft sín fyrir þjóðinni og tollað í valdasessinum. Annars voru dagar þeirra taldir.

Wilson gaf það svar 23. október, að enn hefði Þýzkalandskeisari full völd, og sami hópurinn stæði þar enn fyrir málum, eða ekki væri annað sjáanlegt. Væri því enn við einveldið að eiga og herstjórnina, þá vildi hann ekki semja við þann flokk, heldur heimta það, að hann gæfist upp. Þetta var síðasta skeytið frá Wilson til þýzku stjórnarinnar. Eftir þetta sneri hann máli sínu til Samherja, og mæltist til, að Þjóðverjum yrði veitt vopnahlé með því móti, að þeir gæfust algerlega upp, en Foch hershöfðingi og ráðunautar hans voru látnir segja að öllu leyti fyrir um skilyrðin.

Við þetta féllust þýzku leiðtogunum hendur í samningsleitinni. Þeir voru nú á milli tveggja elda, gátu ekki veitt viðnám á vígsvæðunum og ekki samið um frið; en heima fyrir óx vantraustið og óánægjan meðal fólksins. Það var því ekki lengur neitt vafamál, að herjarlastjórnin átti skamt eftir.

### III. Ófarir Miðveldanna.

Nú er að segja frá vopnaviðskiftum austur í Makedóníu. Búlgarar voru sigraðir, sem fyr var sagt, og fengu þá Samherjar opna leið yfir land þeirra áleiðis til Miklagarðs. 30 október sátu þeir um borgina Adrianopel á Tyrklandi. Alt útlit var fyrir, að sú borg yrði tekin innan fárra daga. Tyrkir fengu nú enga liðveizlu framar hjá Þjóðverjum, og sáu sér ekki annað fært en að biðja um frið. Gáfust því upp um mánaðamótin, svo að segja skilyrðislaust; máttu gefa Samherjum full yfirráð yfir virkjum öllum við tyrknesku sundin alla leið inn að Svartahafi, og láta lausa fangana, er þeir höfðu tekið, án þess að fá sína aftur, fyr en friður væri saminn. Undir kröfur þessar skrifuðu erindrekar tyrknesku stjórnarinnar 31. október, og þar með var allri vörn lokið af þeirra hálfu.

Það flýtti mjög mikið fyrir úrslitum ófriðarins, þegar Tyrkir gáfust upp. Samherjar höfðu nú frjálsar hendur að austan og öll ráð í sinni hendi. En lýðnum félst hugur heima í miðveldunum. Fólkið var búið að fá megna ótrú á leiðtogum sínum og bjóst nú til að taka völdin úr höndum þeirra. Leikurinn byrjaði, eins og eðlilegt var, í veldi Karls keisara. Þar hófu hermenn uppreisn í Vín og Búdapest, höfuðborgum Austurríkis og Ungverjalands, 30. október. Lýðurinn tók þeim atburði feginsamlega. Ekki voru það óbreyttir liðsmenn einir, sem hér áttu hlut að máli. Liðsforingjarnir rifu merki keisaraveldisins af húfum sínum og fylgdust með. Þjóðþingið í Búdapest var í vitorði með uppreisnarmönnum þar. Fangelsi borgarinnar voru opnuð og lausn veitt öllum mönnum, sem þar sátu inni fyrir pólitískar

sakir. Samsærismenn lýstu bæði löndin lýðveldi.

Tvíveldið austurríska var nú með öllu liðað í sundur. Zechó-Slóvakar voru þegar búnir að öðlast viðurkenningu sem sjálfstæð þjóð. Bæheimingar fóru að þeirra dæmi, fengu setulið Austurríkis, sem þar var haft, í lið með sér, lýstu sjálfstæði sínu og mynduðu sérstakt lýðveldi með 12 miljónum íbúa. Leiðtogarnir kváðust mundu fylgja Samherjum að málum. Þetta gerðist rétt fyrir mánaðamótin. En snemma í október höfðu Króatar, slavneskur þjóðflokkur í suðurhluta Ungverjalands, sagt sig úr lögum við Ungverja, eftir þúsund ára samband við þá þjóð, en gengið í félag um nýja ríkismyndun með frændþjóðum sínum þar í nágrenninu, Serbum og Svartfellingum. Ríki það er síðan kallað Júgó-Slavía.

Eftir atburði þessa var það auðvitað óhugsandi, að hermenn tvíveldisins suður á Ítalíu héldu áfram að berjast fyrir ríki, sem ekki var til. Þetta sá herstjórn Austurríkis, sem enn hékk við völd að nafninu til. Fór hún því fram á vopnahlé við Ítali 31. október. Sama dag var stjórnarformaður Ungverja, Tirza greifi, myrtur. Hann hafði verið stjórnmálagarpur mikill, brögðóttur og ósvífinn afturhaldsmaður og mikils metinn á ráðstefnum æðstu manna í Miðveldunum. Sagt er, að hann hafi drjúgan blásið að ófriðarkolum á Balkanskaga; hafi lagt á ráðin með herjörlum Þýzkalands í júlí 1914 um frammistöðu Miðveldanna í vígsmálinu eftir Ferdinand prins. Kröfurnar alræmdu, sem Austurríkismenn fluttu á hendur Serbum í því máli, kváðu hafa verið hans verk að mestu leyti. En kröfur þær og tilsvörin, sem stjórnendur þeirra ríkja veittu, þegar leitað var um samkomulag, urðu tilefni til ófriðarins, eins og kunnugt er.

Fráfall greifans var eins og sýnileg mynd af afdrifum ríkis þess og stefnu, er hann veitti fylgi sitt. Stjórnir tvíveldisins höfðu um langan tíma verið ágangsmenn og illir nábúar, eins og þjóðaglundroðinn, sem þeir réðu yfir, bar með sér. Habsborgarættin gamla, keisaraættin í ríki þessu, hafði völd yfir Ítölum Króötum, Serbum, Pólverjum, Zechó-Slóvökum, Bæheimingum og þjóðbrotum enn fleiri, auk Ungverja og þýzka lýðsins í Austurríki. En Babels-hrófatildur þetta nægði þó ekki stjórnendunum. Lengi höfðu þeir róið að því öllum árum, að undirlagi Þýzkalands, að auka veldi sitt austur á bóginn með því að ná yfirráðum, beinum eða óbeinum, yfir Balkanskaga. Röskuðu þeir friði allrar Norðurálfunnar með þeirri ásælni. En nú höfðu þeir sjálfa sig fyrir hitt. Ríkinu var steypt undan þeim. Þegnar Karls keisara búnir að mynda sjálfstæð lýðveldi, og Sósíalistar höfðu þar víða yfirráð. Rauði fáninn blakti á stöng yfir þinghúsinu í Vínarborg.

Keisarinn hafði nú engum á að skipa. Ósigurinn var alger. Vopnahlésskilmálarnir, er Austurríkismenn undirskrifuðu 4. nóvember, staðfestu þau úrslit fyrir fult og alt. Austurríki varð að hætta öllum hernaði bæði á sjó og landi, draga lið sitt burt úr hernumdum héröðum og jafnvel vestan af Frakklandi, og uppleysa mestallan herinn; láta af hendi helming af hergögnum öllum; sleppa hendi af ítölsku fylkjunum við Adríaflóa; veita Samherjum umráð yfir virkjum öllum í landinu og frjálsa umferð yfir járnbrautir og skipgeng vötn, hvert sem þeir vildu halda liði sínu. Gátu þeir því umkringt Þýzkaland og einangrað eftir vild sinni. Þýzkum hersveitum var skipað að hafa sig burt úr Austurríki á hálfsmánaðarfresti, ellegar komast í hervörzlur. Allir herfangar, sem Austurríkismenn höfðu náð í stríðinu, skyldu tafarlaust látnir lausir, án gagnskifta. Mikið hafði nú breyzt um hagi Austurríkismanna síðan sumarið 1914, þegar þeir með kröfunum alræmdu ætluðu sér að ná þrælatökum á Serbíu, og létu Þjóðverja koma sér til að kjósa heldur allsherjarstyrjöld en að leggja málið í gerð, þótt stórveldin hin, einkum England, legðu hart að þeim að taka sættum. Og nú höfðu þeir fengið þau leikslok, er þeir völdu sér. Sjaldan hefir svo hnarreist veldi fengið aðra eins auðmýking á jafnstuttum tíma.

Nú stóð Þýzkaland eitt uppi í ófriðnum, og umkringt á alla vegu. Það var fokið í flest skjól fyrir Þjóðverjum. Ofan á hrak-

föllin í hernaðinum og bjargræðisskortinn og óánægju þjóðarinnar bættist óreiða mikil í fjármálum landsins, þegar leið á október. Bankar hrundu hver um annan þveran, bréfpeningar ríkisins urðu einkis virði, svo að bæir og sveitir máttu gefa út seðla á eigin býti til bráðabirgðar. Stjórnin var að þrotum komin, bæði að fé og fylgi. Jafnvel íhaldsmenn og gamlir herjarla-sinnar þóttust nú illa gabbaðir, þegar sigurdýrðin hjaðnaði niður, og þeir létu fjandskap sinn ekki liggja í þagnargildi.

Beiðni Þjóðverja um vopnahlé hafði Wilson borið undir sameiginlegt hermálaráðuneyti Bandaþjóðanna, svo sem áður var að vikið. Nefndin hafði fund í Versailles á Frakklandi og íhugaði málið rækilega. Var þar samþykt að heimta skilyrðislausa uppgjöf, eða því sem næst, af Þjóðverjum; skyldi setja þeim svo stranga kosti um vopnahlé, að þeir gætu ekki byrjað á vígum aftur. Í friðargerðinni skyldi farið eftir "fjórtán punktunum", að því tilskildu að Þjóðverjar yrðu látnir greiða bætur fyrir skemdirnar og kaupskipatjónið, er þeir voru valdir að; en liðinn um frjálsa sigling skyldi friðarþingið hafa til meðferðar og frekari skýringar. Viðbótin um bætur fyrir skemdir gat naumast verið Þjóðverjum mikið tilhlökkunarefni. Styrjöldin hatramleg í sjálfu sér, og þar við bættist, að herstjórnin þýzka skifti eignum annara þjóða óspart, hvar sem leikurinn færðist yfir, og hvort sem skemdirnar gáfu nokkurn stundarhag í ófriðnum eða ekki. Og kafbátahernaðurinn, sem hafinn var í trássi við alþjóðalög, olli gífurlegu tjóni. Auðsætt var, að tjónið myndi nema mörgum biljónum dollara, og að Þýzkaland gæti aldrei risið undir allri þeirri skuld. En hitt þótti sjálfsagt, að þeir greiddu svo miklar bætur, sem fjárhagur þeirra frekast leyfði.

Kosti þessa tjáði Wilson þýzku stjórninni 5. nóvember. — Myndi nú keisarinn og garpar hans, sem til skams tíma höfðu boðið byrginn mestöllum heiminum, auðmýkja sig undir önnur eins friðarboð? Þeim var ekki annað fært. Næsta dag voru sendimenn komnir af stað frá herstjórnarsetri Þjóðverja í bænum Spa í Belgíu, áleiðis til Fochs hershöfðingja, í þeim erindum að biðja hann um vopnahlé að hermannasið. Formaður nefndar þeirrar var Mathias Erzberger, leiðtogi kaþólska flokksins í ríkisdeginum.

Frakkar höfðu bifreiðir á takteinum við herbúðir sínar, þegar sendimennirnir komu, og var þegar ekið með nefndina yfir eyddar merkur og bæjarrústir áleiðis til Senlis, þar sem Ferdinand Foch, yfirhershöfðingi Bandaþjóðanna, hafði um þessar mundir aðsetur sitt. Senlis var gamall og merkur smábær í jaðrinum á Compiégne-skógi tuttugu mílur norðaustur frá París. Í septembermánuði 1914 höfðu Þjóðverjar líflátið bæjarstjórann þar og aðra málsmetandi menn, eins og þeirra var siður, þegar þeir vildu skjóta landslýðnum skelk í bringu. — Að kvöldi dags 8. nóvember, fjórum árum eftir þann atburð, var ekið með Erzberger og félaga hans í gegnum rústir þessa bæjar, inn í skóginn upp að járnbrautarlest, sem þar stóð. Voru það híbýli Fochs hershöfðingja. Nefndarmönnum var tekið með kaldri kurteisi, aðbúðin góð, en fátt um vinakveðjur. Næsta dag voru þeim afhentir vopnahléskostirnir.

Nú var röðin komin að Þjóðverjum með að taka á auðmýktinni. Nefndarmenn urðu hnugnir í bragði, þegar þeir lásu skjalið; báðu þeir Foch að vægja til í ýmsu. Hann aftók það ekki, en ófáanlegur var hann til að láta hætta sókninni fyr en formlegir skilmálar væru staðfestir og undirritaðir. Sendi þá Erzberger mann með skjalið til herstjórnarinnar í Spa og beiddist ráða. Hindenburg bauð honum að leitast við af fremsta megni að fá mildað úr kröfunum, en skrifa þó undir að síðustu, jafnvel þótt engu yrði um þokað.

Í þessum umsvifum bárust þær fregnir frá Berlínarborg, að uppreisnir væru komnar á ískyggilegan rekspöl víða um landið; keisari búinn að ráða við sig að leggja niður völd, en Sósíalistar í ríkisdeginum hefðu tekið við stjórnartaumunum til bráðabirgða og gert Friedrich Ebert, leiðtoga sinn einn, fyrrum aktygjasmið, að ríkiskanslara. Um-

boð sitt hafði þó þýzka sendinefndin óhaggað, því að Hindenburg stjórnaði hernum áfram, en nýja stjórnin í Berlín vildi auðvitað ná friði sem allra fyrst. Skrifuðu þeir Erzberger undir vopnahlésskilyrðin 11. nóvember, með mótmælum þó, en Foch hafði hliðrað til í fáeinum atriðum. Sama dag flýði Vilhjálmur keisari burt frá Spa með lítilli sæmd norður í Holland. Krónprinsinn tók sama ráðið til að forða sér rétt á eftir. Þar með var veldi Þýzkalands, ægilegasta herveldið, sem risið hefir á síðari öldum, að fullu brotið á bak aftur og búið að játa ósigur sinn fyrir öllum heimi. Skal nú greint frá helztu skilmálum vopnahlésins.

Vígum skyldi linna samdægurs. Á hálfsmánaðar fresti áttu Þjóðverjar að hafa dregið allan her sinn burt úr Frakklandi, Belgíu, Elsass-Lothringen og Luxemburg, og skilað aftur öllum hernumdum íbúum þeirra landa. Skyldu þeir láta af hendi átta þúsund fallbyssur stórar og smáar, tuttugu og fimm þúsund skotvélar, seytján hundruð loftför, fimm þúsund mótorvagna og hundrað og fimtíu þúsund kerrur eða hestvagna, alt í góðu lagi. Lið sitt alt gengust þeir undir að draga burt úr eigin löndum sínum fyrir vestan Rín og austur yfir fljótið, tuttugu mílur eða lengra, en Samherjar skyldu hafa setulið í þýzkum héröðum vestan fljótsins og við þrjár helztu brýrnar, þar til friður væri saminn. Hétu Samherjar að láta landslýðinn óáreittan í sveitum þessum og spilla þar engu. Sáttmálarnir, sem Þjóðverjar höfðu þröngvað upp á Rússa og Rúmena veturinn áður, skyldu ónýttir og þýzkir hermenn kallaðir burt úr þeim löndum. Ennfremur undirgengust Þjóðverjar að borga fyrir skemdir allar, er þeir voru valdir að, bæði á landi og sjó, skila aftur gulli því, er þeir höfðu tekið af Rússum og Rúmenum, flytja skip sín og hergögn burt úr höfnum Svartahafs; selja fram allan kafbátaútveg sinn, en afvopna meginflotann og fá Samherjum hann til geymslu. Herfangar Samherja skyldu lausir látnir þegar í stað án gagnskifta; Samherjar fengu frjálsan aðgang að höfnum Evstrasalts, en Þjóðverjum var bönnuð öll sigling þar til friður væri saminn. — Samherjar höfðu góð orð um, að útvega Þjóðverjum vistir, til að forða landinu frá hungursneyð.

Strangir voru kostir þessir óefað í ýmsum greinum, enda kvörtuðu Þjóðverjar sáran. Líktu þeir kjörum sínum við örlög Karþagóborgar, sem sagt er að Rómverjar hafi rifið niður til grunna og síðan plægt yfir rústirnar. Samlíkingin nær auðvitað engri átt, enda var hvorki hefnd né gereyðing augnamiðið. Samherjar vildu tryggja sigurinn, sem þegar var unninn; tryggja það, að svo miklu leyti sem hægt var, að Þjóðverjar héldu orð sín um bætur fyrir rupl og skemdir og gætu ekki hafið styrjöld eða óspektir að nýju fyrirvaralaust. — En hitt er víst, að Þjóðverjar gátu ekki betur sýnt, hve gersamlega þeir voru sigraðir, heldur en með því að skrifa undir aðra eins kosti; enda sagði Foch hershöfðingi síðar, að alt það, sem hann hefði frekast hugsað sér að ná af Þjóðverjum með því að halda stríðinu áfram, hefðu þeir látið laust af sjálfsdáðum, þegar þeir gáfust upp.

Þýzkur almúgi varð auðvitað guðsfeginn friðnum, þó harðir þættu skilmálarnir. En óánægjan kom niður á stjórnendum landsins, eins og maklegt var; þeim var velt úr sessi mjög snarlega um leið og vopnahléð gekk í gildi. En á meðal Bandaþjóðanna bar lítið á skuggum tilverunnar daginn þann, þegar fregnin flaug yfir um frið og sigur og flótta keisarans. Samdægurs voru þau fagnaðartíðindi komin út í afdal hvern svo að segja, þar sem símar náðu til, og var þá engu líkara heldur en að gleðin hefði verið stífluð inni í hálft fimta ár og flóðlokunum væri nú alt í einu hleypt frá. Hún brauzt fram óstöðvandi, alvöld, óviðráðanleg, eins og í meginflóði, sem alt og alla hreif með sér. Til Ameríku barst fregnin þrem dögum of snemma — 8. nóvember — og hleypti þar öllu í uppnám. Klukkum var hringt og gufublástrar kváðu við, hvar sem til náðist. Fólkið hafði litla sinnu á verkum sínum þann dag. Í borgunum tæmdust verkstæði og skrifstofur; gamlir og ungir af öllum stéttum fyltu strætin fram á nótt, þyrpingin var víða svo þétt, að sporvagnar

stöðvuðust. En lítið var um saman tekin ráð til viðhafnar; mannfjöldinn streymdi ýmist í þessa átt eða hina, með háværum, spriklandi fagnaðarlátum, og sinti því engu, þó fregnin væri borin til baka. Þvílíkt hafði aldrei sést áður. En ærslin voru öll í góðu; skemdir ekki teljandi. Fáum datt í hug að gera sér mikla rellu út af gabbinu, því að Þjóðverjar voru vitanlega í þann veginn að gefast upp hvort sem var. Þegar svo þjóðin sannfrétti þrem dögum síðar, að vopnahléð væri gengið í gildi, var tekið aftur til óspiltra mála. Fagnaðarlætin voru ekki alveg eins gáskafull og ófyrirhugsuð, ef til vill, eins og í fyrra skiftið, en viðhafnarbragur þeim mun meiri.

Mikið var um dýrðir í öðrum löndum. Jafnvel frá borginni Lima, suður í Perú, sem engan þátt hafði tekið í styrjöldinni, hafði lýðurinn gert sér svipaðann sprengidag, með óstöðvandi ærslum og háreysti, eins og í New York. Á Englandi og Frakklandi var gleðin ósegjanlega mikil, en þó með öðrum blæ; bar þar næsta lítið á verulegum gáska — þrautirnar höfðu verið of tilfinnanlegar til þess — en lýðurinn var gagntekinn af feginleik engu að síður. Stræti Lundúnaborgar voru troðfull af fólki, þvert yfir. mílutugum saman. Klukkunni miklu, "Big Ben" í Westminster, var hringt í fyrsta skifti síðan snemma í stríðinu. Strætin voru lýst um kvöldið, en borgin hafði áður um langan tíma verið koldimm hverja nótt, til varnar við loftförum Þjóðverja. Hátíðarhaldið var glæsilegast í Parísarborg. Það stóð yfir marga daga. Borgin var prýdd í skyndi með fánum og öðru skrúði; uppljómuð að næturlagi; troðfull af hermönnum og öðrum aðkomulýð. Þar agaði saman einkennisbúningum flestra Bandaþjóðanna; þjóðsöngvar þeirra gullu við hvað eftir annað, en sigurhróp og háværar kveðjur þess á milli. Um helztu strætin gat ekki gangandi maður farið þversfótar dögum saman, svo mikil var þröngin. Ýmsir hópar skipuðu sér í skrúðgöngu, en mannfjöldinn svelgdi þær allar upp. Borðsalirnir frægu voru troðfullir frá morgni til kvölds dag eftir dag. Keisarafeðgar Þýzkalands og gæðingar þeirra fengu sinn hlut ósvikinn í hátíðarhaldi þessu, bæði í París og annarsstaðar; var þeim óspart og með fullum rómi vísað niður á við. — Fögnuðurinn var hávær og óstöðvandi, en léttleikann vantaði; þar voru sárindi fólgin í, eins og þegar maður losast úr heljargreipum alt í einu, eftir ósegjanlegar þrautir.

Samherjar fylgdu sigrinum eftir mjög skjótlega. Á tveggja vikna fresti lágu skip þeirra sum við akkeri undan Miklagarði, en önnur voru komin alla leið inn í Svartahaf. Höfðu þeir tekið við Belgíu, Elsass-Lothringen og Luxemburg úr höndum Þjóðverja, heimt aftur hálfa-aðra miljón hertekinna manna, komið setuliði fyrir í löndum Prússa við Rínarfljót, fengið í sínar hendur meginflotann þýzka og komið honum í brezkar hervörzlur í Skapaflóa norður í Orkneyjum. Franska liðinu var tekið með virktum í Elsass-Lothringen. Þýzk merki voru rifin af verzlunarhúsum í mesta snatri, en frönsk sett í staðinn. Franska töluð alstaðar. Hermenn Þjóðverja þar um slóðir voru nú hræddir við landslýðinn og báðu franska herinn um vernd á meðan þeir kæmust á brott með föggur sínar. Áður höfðu þó Þjóðverjar haldið því fram statt og stöðugt, að fólkið væri alþýzkt í héröðum þessum.

Nú verður að skýra nokkuð nánar frá því, sem gerðist á Þýzkalandi um og eftir síðustu hrakningana. Þjóðin var orðin dauðþreytt á vígaferlum og harðrétti; búin að fá megna ótrú á leiðtogum sínum, einkum keisara og gæðingum hans. Lýðstjórnarstefnan fékk nú byr undir báða vængi, sérstaklega fyrir þá sök, hve tregir Samherjar voru til að semja frið við keisarastjórnina. Þurftu því leiðtogarnir að bæta úr skák fyrir sjálfum sér og þjóðinni á einhvern hátt. En þar var við raman reip að draga. Gallharðir íhaldsseggir þóttust enn geta náð "sterkum" friði; voru þeir ófáanlegir til þess lengi vel, að þoka til um hársbreidd. Á þeirra bandi var keisarinn, og eins Hertling ríkiskanslari. Þóttust þeir keisarasinnar enn hafa mátt til að halda öllu í járngreipum heima fyrir; töldu sér fært að bera frá borði að minsta kosti hálfan hlut í ófriðarlok. Hékk því Hertling í embætti fram á haust, en keisari

tók enga stjórnarbót í mál, hvað þá að leggja niður völdin.

Styrkur íhaldsmanna lá aðallega í því, að enginn vissi nema herstjórnin, hve afar-illa var komið ófriðarmálunum. Ludendorff hafði lengi tamið sér þá list í hernaðarskýrslum sínum, að skýra hrakfarir allar á ýmsa vegu sér í vil, breiða yfir það, sem ískyggilegast var, og grípa jafnvel í viðlögum til beinna ósanninda. Keisarinn sjálfur hafði látið blekkjast, hvað þá þeir, sem fjær stóðu formenskunni. Þó segja meðhaldsmenn Ludendorffs, að hann hafi séð fram á örlög þjóðar sinnar í ágústbyrjun; hafi hann þá þegar viljað biðja um vopnahlé og slaka til við lýðveldissinna. En þá þorði enginn að skýra keisara frá ástandinu, eins og það var.

Loksins var Albert Ballin, skipaeigandinn alkunni, fenginn til þess verks. Ballin var einarður maður og sjálfstæður, einn af þeim fáu leiðandi mönnum á Þýzkalandi, er verið höfðu andvígir ófriðnum frá byrjun. Hafði hann alvarlega varað landa sína við glæfraráðum herjarlanna, en jafnan borið lægra hlut. Svo fór enn, þegar hann leitaðist við að koma Vilhjálmi í kynni við sannleikann. Keisari var ósveigjanlegur. Þá var Hintze flotaforingi gerður út í þeim erindum, að tala um fyrir honum, en alt fór á sömu leið. Tók þá Ludendorff það ráð, segir sagan, að láta ríkisdaginn vita, hvers vænta mætti. Sannleikanum sló niður á þann virðulega hóp eins og eldingu; svo megn hafði fávizkan verið áður og sjálfstraust þjóðarinnar, jafnvel á meðal leiðtoganna. Óx nú stjórnarandstæðingum fiskur um hrygg við þessar fréttir; gamlir íhaldsmenn snerust á móti keisaranum einn eftir annan, svo sem fyr var sagt; og fóru svo leikar, að í septemberlok sagði Hertling af sér, en Maximilian prins frá Baden, einn af hinum frjálslyndari aðalsmönnum Þýzkalands, tók við kanslaraembætti. Hliðruðu þá keisarasinnar til við þjóðarviljann, ekki með lagabreytingum eða formlegri stjórnarbót, heldur með lauslegu samkomulagi við flokka þrjá í ríkisdeginum, er í samlögum áttu þar meirihlutann — Sósíalista, kaþólska flokkinn og svo kallaði Framsóknarmenn. Maximilian prins, nýi kanslarinn, og ráðunautar hans áttu völd sín undir samsteypunni; flokkarnir skiftu með sér embættum, og fengu nú Sósíalistar í fyrsta skifti að gegna mikilvægum stöðum í ríkisráðinu. Þetta kölluðu keisarasinnar mikla eftirgjöf. Þeir ætluðu Maximilian það sérstaka hlutverk, að gylla betrunina sem allra bezt fyrir vinum og óvinum, og sérstaklega fyrir Wilson forseta, til að útvega Þjóðverjum vægan ósigur.

En ráðið hreif ekki. Stjórnarbótin fann enga náð í augum Wilsons, en almúginn á Þýzkalandi lét sér fátt um finnast, því að allir gátu séð, að þingræðistildur þetta var alt í lausu lofti. Keisari eignaðist fleiri og fleiri óvini, jafnvel meðal íhaldsmanna, og heimtuðu þeir fullum hálsi, að hann legði niður völd. En Vilhjálmur sat við sinn keip og fáeinir íhalds-sinnar harðsoðnir, er hann helzt lagði lag sitt við. Vildu þeir herrar með engu móti gefast upp, hvorki fyrir Samherjum né fyrir frjálslyndari flokkunum heima hjá sér, nema barist væri til síðustu þrautar. Sagan segir, að þeir hafi nú tekið saman ráð sín um að senda flotann út úr höfnum í annað sinn, í einhverri örvita-von um að geta sigrað eða lamað sjóher Englendinga.

En hér fór sem oftar, að ofmetnaðurinn kollsigldi sig. Liðsmenn og hásetar í flotaliðinu komust á snoðir um fyrirætlun þessa, og þá var leikurinn búinn. Þeir aftóku með öllu að etja við brezka flotann úti á rúmsjó; kváðust ekki kæra sig um að sigla beint út í opinn dauðann ófyrirsynju. Hlauzt af þessu uppreisn í þýzka flotanum 3. nóvember; liðsforingjar allmargir voru drepnir; rauði fáninn, merki Bolshevika, var dreginn á stöng í staðinn fyrir keisaramerkið þýzka; eftir fáeina daga höfðu samkundur verkafólks og liðsmanna, í líking við **sovietin** rússnesku, verið stofnaðar í öllum flotahöfnum Þýzkalands. Breiddist nú byltingin út yfir landið eins og eldur í sinu; læsti sig í stórborgirnar, einkum Berlín; en ástandið var þó ískyggilegast í Rínarfylkjunum, því að þar átti fólkið von á herflokkum Samherja þá og þegar og vildi flest til vinna að losast við heimsóknina. Uppreisnarmenn

bjuggust nú til að taka völdin úr höndum stjórnarinnar algerlega.

Ekki verður þó annað sagt en að uppreisnin færi skaplega fram allvíðast. Blóðsúthellingar voru varla teljandi eftir fyrstu skorpuna. Hermenn þeir, er fyrir byltingunni stóðu, virtust hvergi nærri svo svæsnir gerbreytingamenn, eins og andlegir frændur þeirra, Bolshevikarnir á Rússlandi, höfðu reynst áður. Héldu þeir sínum mönnum nokkurnveginn í skefjum. Þó töldu gætnir menn tvísýnt, hvað úr yrði, nema ríkisdagurinn héldi völdum og leiddi breytingarnar í garð á lögformlegan hátt. Urðu þá Sósíalistar í ríkisdeginum, og flokksbræður þeirra utan þings, nokkurskonar milliliður milli valdstjórnar og uppreisnarmanna í umsvifum þessum. Tóku þeir að sér að stýra þjóðinni út úr vandanum, og sneru sér til Maximilians kanslara 7. nóvember með þá kröfu, að keisarinn legði niður völdin tafarlaust.

En Vilhjálmur keisari var kominn vestur til vígstöðva. Hann hafði jafnan þver-neitað að segja af sér og "selja þjóðina í hendur byltingamönnum og erlendum óvinum", eins og hann komst að orði. Nú þyrfti "sterka hönd" til að halda í taumana, fanst honum, og vildi því með engu móti sleppa völdunum úr hendi sér. Hafði hann því farið vestur til herstjórnarstöðvanna í Spa, til að tryggja sér fylgi hersins, því þar þóttist hann eiga öruggan bakhjall, ef illa færi. En hörmulega brugðust þær vonir, þegar Philip Scheidemann, talsmaður Sósíalista úr ráðuneytinu, kom á fund hans vestur til Spa, 8. nóvember, með þau skilaboð frá Maximilian, að keisari væri beðinn að leggja niður völd. Kallaði Vilhjálmur þegar á sinn fund Hindenburg og Gröner og aðra forkólfa hersins, og beiddist ráða, en þeir sögðu honum alt hið sannasta um horfurnar og það meðal annars, að allur herinn, nema fáeinir undirforingjar og hersveitir tvær frá Prússlandi, væri orðinn andvígur keisara og ófáanlegur til að bera vopn á uppreisnarmennina; væri því sá einn kostur vænstur, að verða við kröfunni. Keisari varð hinn reiðasti og aftók með öllu að láta undan. Átti hann háværar umræður við Hindenburg út af þessu, en símaði þess á milli til gæðinga sinna í Berlín. Mun hann ekki hafa fengið sem glæsilegastar fregnir þaðan. Loksins, eftir mikið stapp, léti keisari tilleiðast, 9. nóvember, og lýsti því yfir, að hann hefði "ráðið við sig" að leggja niður völdin. En ekki sagði Vilhjálmur neitt um ríkiserfðirnar; og eftir stundarkorn bætti hann þeirri athugasemd við, að hann gæfi frá sér keisaratign aðeins, en ekki konungdóm yfir Prússlandi. Fékk hann það svar um hæl frá stjórnarstöðvum í Berlín, að varnaglinn væri sleginn of seint; tilkynningin væri þegar út gefin, að hann hefði afráðið að segja ríkinu lausu fyrir fult og alt.

Að kvöldi sama dags, 9. nóvember, flýði keisarinn burt frá Spa, með föruneyti því, er hann trúði bezt fyrir sér. Voru þeir fimtíu saman í tíu bifreiðum, alvopnaðir, og hröðuðu ferðum sem mest þeir máttu norður í Holland, því að keisarinn var hræddur um líf sitt fyrir hernum. Og varúðin var víst ekki um skör fram. Sagt er að þúsund þýzkir hermenn hafi veitt þessum lánardrotni sínum eftirför norður að landamærunum, og sjálfsagt ekki með það í hug, að árna honum að skilnaði langra lífdaga.

Norður í Holland komst þó Vilhjálmur slysalaust. Fór hann huldu höfði yfir landamærin og beiddist verndar eins og réttur og sléttur flóttamaður, þegar það vitnaðist, hver hann var. Enginn var hann þar aufúsugestur, hvorki landslýðnum eða stjórninni. Þó varð eitthvað af honum að gera. Eftir bref nokkurt var það ráð tekið, að fara með keisara og föruneyti hans eins og hvert annað rekald úr ófriðnum; afvopna hópinn allan og leyfa honum landvist undir ströngum verði. Kastali var Vilhjálmi fenginn til íbúðar, gamall og ekki reisulegur, í Amerongen á Norður-Hollandi, milli Arnheim og Utrecht. Á ferðalaginu norður þangað var honum tekið með óhljóðum alstaðar, þar sem hann þektist, svo illa var hann þokkaður af landsfólkinu; og varla verður annað sagt en að þessi flótti keisarans hafi verið allsneypulegur, ekki sízt þar sem annar eins garpur átti hlut að máli. Í Amerongen-

kastala hefir Vilhjálmur setið síðan og haft lítið um sig.

Þá er að segja frá syni keisara, krónprinsinum. Í nokkra daga fréttist ekkert til hans. Flaug það fyrir, að hann hefði verið myrtur. En brátt kom hann fram í grend við Maastricht á Hollandi. Hafði hann flúið úr Spa við tólfta mann, með mikinn farangur og alvæpni. Þeir félagar höfðu þrjá bíla til ferðarinnar og fóru mikinn, og lögðu lykkju á leið sína, til að komast undan hermönnunum. Svo geist fóru þeir, að hollenzkir verðir gátu ekki stöðvað bílana við landamærin. Mátti því stjórnin veita Friðrik Vilhjálmi sömu kjör og föður hans. Samistaðurinn, sem hann hlaut, var prestsetur lítilfjörlegt í sjómannaþorpi á eyjunni Wieringen, í Suðursjó fyrir Hollandi norðanverðu. Fremur var óvistlegt í þessum nýju heimkynnum krónprinsins, og lítill höfðingjabragur á manninum, þegar hann settist þar að. En hann hafði sloppið lífs úr greipum þýzku hermannanna, og mátti því vera þakklátur.

Vilhjálmur keisari þrjózkaðist við í allra lengstu lög að gefa frá sér völdin, svo sem sýnt var áður. Úr Belgíu flýði hann án þess að efna loforð sitt um afsögnina. Það var ekki fyr en 28. nóvember, að hann afsalaði sér skriflega öllu tilkalli til ríkis á Þýzkalandi, og þá aðeins fyrir sjálfan sig, en ekki fyrir ættina. Samskonar yfirlýsingu undirskrifaði krónprinsinn þrem dögum síðar.

Aðrir þjóðhöfðingjar í Miðveldunum fóru flestir sömu leiðina. 12. nóvember lagði Karl Austurríkiskeisari niður völd. Karl var ungur maður, góðgjarn, fremur vel látinn, en ekkert ofurmenni; hann kom til ríkis í miðri styrjöldinni, reyndi á ýmsan hátt að stilla til friðar, en fékk engu áorkað. Ekki flýði hann land eins og keisarafeðgarnir þýzku, heldur sat á búgarði sínum nálægt Vín yfir veturinn. Afdrif hans hin síðustu koma ekki við þessa sögu. — Á sama tíma fuku höfðingjar þýzku fylkjanna úr valdasessi hver eftir annan, bæði konungar, furstar og hertogar; sögðu sumir af sér, en aðrir voru reknir frá. Þetta stórjarlahrun þótti varla í frásögur færandi, svo dauf er aðalsmannadýrðin á vorri tíð.

Stjórnmálamenn í Berlín tóku til óspiltra mála 9. nóvember, þegar afsagnar-loforðið kom frá keisara. Fóru þeir að öllu eins og hann væri þegar kominn frá. Maximilian lagði niður embætti, en tvær greinir Sósíalista, "óháði flokkurinn og meirihlutinn", náðu samkomulagi með sér og mynduðu bráðabirgðastjórn, með söðlasmiðinn Ebert að ríkiskanslara. En þá var enn eitt brotið eftir, "extremistar" svonefndir, eða svæsnir gerbyltingamenn. Karl Liebknecht var foringi þeirra, nafnkunnur ræðumaður, sem lengi hafði verið fleinn í holdi keisarastjórnarinnar. Flokkur þessi aðhyltist kenningar Bolshevika; hann stóð utan samsteypunnar og gat orðið hættulegur nýju stjórninni, því að samkundur verkafólks og liðsmanna, sem hrundið höfðu byltingunni af stað og stökt keisara úr landi, voru sem nærri má geta, tregar til að sleppa nýfengnum völdum úr hendi sér aftur. Hættan var, að gerræðisflokkur Liebknechts næði þessum þýzku **sovietum** á sitt band og umturnaði svo öllu þjóðfélaginu með róstum og hryðjuverkum, eins og farið hafði á Rússlandi.

Nýja stjórnin átti því ekki sjö dagana sæla. Neyðin afskapleg í landinu; verzlunardauði, atvinnuleysi og hungur framundan; gremja mikil meðal fólksins út af óförunum, og óhugur undir niðri gagnvart leiðtogunum; ríkinu lá við að fara í mola; í Bavaríu, Rínarfylkjum og öðrum héröðum voru öflugir flokkar, sem heimtuðu sundurliðun; en heim í allan þenna glundroða komu nú hermennirnir í tugum og hundruðum þúsunda. Sá mikli sægur gat orðið hættulegur, ef ekki tækist nógu fljótt að sjá honum farborða í friðsælum atvinnuvegum heima fyrir.

Tvent var það þó, sem bætti allmikið úr skák. Landslýðurinn var ekki í neinum vígahug yfirleitt. Hann var búinn að fá sig fullsaddann á stórræðum og langt fram yfir það. Í annan stað fékk Ebert-stjórnin öflugan bakhjall, þar sem Hindenburg yfirhershöfðingi var; hafði hann víst verið fremur lítill vinur keisara. Hann kvaðst mundi stjórna liðinu, þar til fylkingarnar væru leystar upp, til að forða landinu frá róstum og óskapnaði, en láta svo af herstjórn, þegar það væri

búið. Hindenburg var sá eini af hinum fyrri stjórnendum, sem ekki flýði land eða dró sig í hlé í byltingunni. Liðið alt og alþýðan bar djúpa virðingu fyrir honum.

Í umsvifum þessum valt á ýmsu, sem ekki verður talið hér. Ríkisdagurinn varð sjálfdauður, og erfði því Ebert einn með ráðunautum sínum valdið alt eftir keisarastjórnina, svo bilað sem það var. Sundrungaröflin færðust í aukana, þau er toguðust á við stjórnina um yfirráðin. Þó tókst Ebert eftir þóf nokkurt að semja pólitískan frið við **sovietin**, og varð sú sætt óefað til að bjarga ríkinu frá innbyrðis ófriði. Skyldu yfirráðin vera í höndum sovietanna, en Eberts-menn hafa framkvæmdavaldið, þangað til efnt yrði til kosninga.

Nú vildu gerræðismenn láta til skarar skríða. Eggjuðu þeir fólkið á nýja bylting að dæmi Bolshevika; höfðu liðssafnað allmikinn í Berlín og víðar; mestan styrk fengu þeir meðal sjóliðsmanna, sem heim voru komnir. Flokki þessum var gefið nafnið **Spartakistar,** eftir Spartakusi, skilmingamanni grískum, er í fornöld leiddi strokuþræla og öreigalýð út í uppreisn móti Rómverjum. Viðbúnaði þessum stýrði Liebknecht sá, er áður var nefndur, og Rósa nokkur Luxemburg.

Uppreisnina hófu Spartakistar í Berlín á aðfangadag jóla. Varð brátt róstusamt um alla borgina, því að stjórnin tók röggsamlega á móti. Hlauzt af þessu manntjón allmikið og skemdir; leikurinn færðist út, og mátti litlu muna um örlög stjórnarinnar Ekki var hún talin örugg í sessi aftur fyr en 10. janúar, þegar Hindenburg hafði tekið að sér að skakka leikinn og unnið sigur á uppreisnarmönnum í Berlín. Viku síðar voru þau handsömuð, Liebknecht og Rosa Luxemburg og mistu bæði lífið. En rósturnar gusu upp aftur öðru hvoru á ýmsum stöðvum fram eftir vetrinum.

Til kosninga var gengið í janúar, og báru lýðveldis-sinnar stórkostlegan sigur úr býtum yfir einveldismönnum og "extremistum". Þegar svo þingið kom saman í febrúar, var lýðveldið lögleitt og Ebert kosinn forseti. Ekki má gleyma því, þegar lagður er dómur á þýzku þjóðina, að hún réð fram úr málum sínum með ótrúlegri gætni og stillingu í þrauta tíðinni eftir vopnahléð. Þó var ástandið að öllu leyti slæmt og ískyggilegt í Miðveldunum báðum. Lýðurinn beið með óþreyju eftir fullum friði.

## IV. Friðarþingið í París.

Aldrei hafa víst nokkrir stjórnmálamenn haft örðugri úrlausnarefni við að fást, heldur en þau, er í ófriðarlokin lágu fyrir leiðtogum Bandaþjóðanna . Varla er ofsögum sagt, að heimurinn allur hafi legið í lamasessi eftir aðganginn; og ekki sízt þau ríkin eðlilega, sem harðast komu niður. Þjóðverjar voru óvígir; Austurríki sundrað; ægileg umbrot og óskapnaður um gervalt Rússaveldi; Balkanríkin engu betur komin, eða Tyrkland. Harðæri mikið í landi víðast hvar um flæmi þetta, og verri neyð fyrir höndum, nema hjálpin kæmi fljótt. Los á allri mannfélagsskipun; landamerki horfin, eða í óvissu; en óhugur, sem enginn vissi. hvað úr gæti orðið, áþreifanlegur hvarvetna meðal alþýðunnar.

Með Samherjum var ástandið auðvitað sýnu betra· en þó hvergi nærri glæsilegt. Þar var líka hart í ári, byltingahugur mikill og framtíðin í óvissu. Sigurvegarar jafnt og sigraðir höfðu hlaðið á sig byrði á byrði ofan, þar til gömul og rambyggileg stjórnarskipun svignaði undir þunganum — eða kollvarpaðist með öllu, eins og á Rússlandi. Eigi aðeins voru útlátin gífurleg, bæði í fé og mannafla, heldur var áreynslan· sem af styrjöldinni hlauzt, í svo risavöxnum stíl og svo umfangsmikil, vinnuharkan svo nærgöngul kröftum og þoli þjóðanna, sem framast var hægt að hugsa sér. Stjórnirnar höfðu tekið sér einhverskonar umráð yfir framleiðslu mestallri, yfir vinnulaunum· vöruverði og ágóða, yfir samgöngum og vöruflutningum, og jafnvel yfir matarhæfi fólksins, húsnæði, eldivið og klæðnaði· til þess að safna kröftum sem allra rækilegast í ófriðarátökin. Flest, sem að iðju laut, var í beinni eða óbeinni herþjónustu. Strangar

skorður voru settar mörgum iðnaðargreinum og verzlunar, en öðrum var með öllu rótað um og hróflað upp aftur í nýjum myndum, eftir því sem bráðþörfin skipaði fyrir. Og nú, þegar stríðinu var lokið, hrundi þetta hrófatildur eðlilega niður af sjálfu sér, eða hékk í lausu lofti. Afstaða þjóðanna hverrar við aðra var auðvitað margvíslega úr lagi gengin, og greiðum viðskiftum lítil viðreisnar von, nema heimsmálin kæmust nokkurn veginn í viðunanlegt horf áður. Ekki voru það aðeins ófriðarþjóðirnar, sem svona var komið fyrir; hlutlausu ríkin fóru þar ekki varhluta, einkum í Norðurálfunni; þau drógu að sjálfsögðu dám af grannaþjóðum sínum.

Í þessu svartnætti óreiðunnar festu margir augun á einni vonarstjörnu — friðarþinginu, sem nú var í undirbúningi. Átakanleg er sú tröllatrú, sem öldin þessi hin efagjarna hefir á löggjafarþingum og ráðstefnum og flestu, sem þar að lýtur. Með fundasamþyktum vill hún helzt alla hluti lagfæra. Og svo fór hér. Mikill þorri manna um heim allan virtist gera sér einhverja óljósa von um það, að þegar stjórnvitringar Bandaþjóðanna kæmu saman á friðarstefnu, og ekki sízt ef Wilson forseti yrði þar leiðtogi, þá myndi þeim herrum bráðlega takast, með ráðstöfunum og reglugerðum og lagastaf, að leiða farsæla heimsskipun fram úr óskapnaðinum öllum og eyðingunni.

Ekki aðeins áttu menn þessir að leggja á ráðin um það, hvernig koma skyldi heiminum í samt lag aftur, hve erfitt sem það verk hlaut að vera út af fyrir sig. Til miklu meira var ætlast. Hugsjóna-háfleygið var geysi-mikið í ófriðarlokin, eins og áður var sagt. Þjóðirnar, að minsta kosti Samherja megin og í hlutlausu löndunum allvíða, vonuðust eftir nýjum og betra heimi, þar sem friðurinn yrði tryggur og réttlætið í öndvegi; og þessa gullöld átti friðarþingið að leiða í garð. Sú tilætlun þótti eðlileg og sjálfsögð á ófriðarárunum. Það sýna blaðagreinir margar frá þeim tímum. Sama hugsunin gægist í gegn um orðalagið á fjórtán greinum Wilsons. Jafnvel í sögu friðarstefnunnar sjálfrar gerir hún vart við sig á ýmsan hátt. Þingið átti að skrifa um Norðurálfu þvera; ráðstafa héruðum í Afríku og Asíu; aga Miðveldin mátulega strangt; ákveða fébætur fyrir spellivirkin; útkljá merkjaþrætur gamlar og nýjar, og önnur vandræðamál; finna ráð til viðréttingar fjárhag og viðskiftum ófriðarþjóðanna; stilla til friðar, þar sem þess þyrfti við, í sambandi við ríkjaskiftunina; tryggja sjálfstæði smáríkja og pólitískt og trúarlegt frelsi minna hlutans í ýmsum löndum; efla hag verkalýðsins með samþyktum þar að lútandi, og — það sem ekki varðaði minstu — semja ráðagjörð eða tilskipun um allsherjar samtök til tryggingar heimsfriðnum, beinlínis eða óbeinlínis; en margir umbótapostular og ættjarðarvinir úr ýmsum löndum vildu gefa henni miklu stærra verksvið og margbrotnara, og þyktust við, þegar tillögum þeirra var ekki sint. Svo sterk var trúin á orku þess mannfundar. Má því óefað með fullum sanni sjá það, að aldrei hafi vandamál svo margvísleg og ram-flókin hlaðist á nokkra stjórnmálamenn, eins og þessi, sem erindisrekar Samherja voru kvaddir til að þreyta við, þegar þingið kæmi saman.

Áfram gat þó skilað með allan þungann, áleiðis til nýrrar og betri veraldar, hefði byrinn staðið einungis úr þeirri átt, en það var öðru nær. Almanna-hugurinn var einmitt ömurlega tvídrægur í friðarmálinu víðast hvar og sjálfum sér ósamþykkur — sem reyndar var við að búast, því að ófriði fylgja jafnan einhverjar þær óskaplegustu mótsagnir, sem til eru. Gott og ilt fer þá í algleyming.

Í Bandaríkjunum, til dæmis, virtist þjóðin vera hjartanlega samþykk friðarstefnu Wilsons, að meginmáli til, í það minsta. Mikið hafði verið skrafað og skeggrætt um ófriðarmálið, um þessa nýju heimsskipun, sem allir þráðu út af lífinu. Ekkert mál gat verið brýnna, eins og þá stóðu sakir; og framgjarnir menn um allan heim höfðu augastað á Wilson, sem aðal-talsmanni þeirrar hugsjónar. Það var alkunnugt. Einnig lá það í augum uppi, að aldrei yrði þetta fagra friðarmál annað en loftkastalar einir, fyr en

þjóðirnar tæki meiri og betri þátt, hver með annari, í velferðamálum heimsins. Á tímamótum þessum fóru fram almennar kosningar til ríkisþings — það var í nóvember byrjun, rétt fyrir vopnahléð — og kjósendurnir, sem voru fráhverfir stjórninni út af ýmsum heimasökum, sintu ekki beiðni Wilsons um þjóðarfylgi eindregið í friðarmálinu, en veittu meiri hluta Republikum, andstæðingaflokki forsetans. Varla hafði þó þjóðin alt í einu snúist á móti honum í heimsmálunum. En hún leit á það, sem nær lá, og lét friðarþarfirnar liggja á milli hluta. Það var alt og sumt. Átakanleg voru úrslitin engu að síður. Wilson fékk ekki það skýlausa umboð, sem hann hefði þurft, frá þjóð sinni, og stóð fyrir bragðið miklu ver að vígi á friðarþinginu í París.

Á Englandi var líka gengið til kosninga rétt fyrir áramótin. Að einu leyti fór þar á annan veg en í Bandaríkjunum. Friðarmálið komst í öndvegi. Háðu þar hildina Liberalar Asquiths og verkamannaflokkurinn á móti samsteypunni, sem Lloyd George veitti forstöðu. Samsteypu-menn hétu því, að ef þeir fengi völdin áfram, þá skyldi ríkt gengið eftir hegningu keisarans og annara herjarla, og skaðabóta krafist svo hárra, sem Þjóðverjar gæti frekast af hendi látið. Hinir vildu fara vægar í sakirnar. En Lloyd George varð ofan á með miklum meiri hluta. Og í öðrum ríkjum fór mjög á sömu leið. Stjórnmálamenn Frakklands og Ítalíu höfðu nægilegan bakhjall í almennings-álitinu, hvorir hjá sinni þjóð, þótt kröfuharðir væri, sem síðar mun sýnt.

Alt var þetta auðvitað ofur eðlilegt. Bandaríkin hafa verið fáskiftin um heimsmál alla sína tíð. Þjóðin var ekki öðru vön. Og Samherjar höfðu lagt í sölurnar ósegjanlega mikið í ófriðnum. Þei mvar reyndar vorkun, þótt þeir hefði tilhneiging til að reka harma sinna og taka bætur svo ríflegar, sem unt var. Ekki má heldur kenna hræsni um hugsjónaflugið alt og faguryrðin, þótt andstæðurnar færi líka í algleyming — ekki fremur en það er óeinlægni, þegar "af sama munni framgengur blessun og bölvun" í órum drukkins manns. Styrjaldir og vígaferli eru sterkasta áfengið, sem til er. Bezt er því að vera spar á dómhörkuna. En taka verður ástæður þessar með í reikninginn, ef dæma skal rétt um Parísar-þingið og allan gang friðarmálsins.

Málatilbúnað allmikinn og annað umstang höfðu Samherjar með höndum eftir vopnahléð, eins og eðlilegt var, áður til stefnu væri gengið. Nóvembermánuður gekk mestallur í það, að koma brýnustu skilyrðum vopnahlésins í framkvæmd og tryggja sigurinn. Sendu sigurvegararnir gæzlulið inn í Rínarhéruðin, heimtu aftur hálfa aðra miljón herfanga, er í haldi höfðu verið á Þýskalandi, tóku við flotanum þýzka og settu í hervörzlur. Frakkar og Belgíumenn fengu nú lönd sín aftur, þau er Þjóðverjar höfðu haldið fyrir þeim fram í ófriðarlokin. Þar með komst Elsas-Lótringen undir frakkneska stjórn á ný, og var heldur en ekki fögnuður með íbúum þeirra héraða, þegar liðsveitir Fochs tóku þar við löggæzlunni. Lauk svo þeim þættinum í rangindasögu Prússaveldis.

Um mánaðamótin byrjuðu heimsóknir og fundarhöld leiðtoganna. George Bretakonungur brá sér til Parísar 28. nóvember, sat þar veizlu fjölmenna og glæsilega, og sæmdi Foch marskálk heiðursmerki. Þrem dögum síðar var mannfagnaður mikill í Lundúnum, með herflokkasýningum og alls konar viðhöfn. Voru þar saman komnir stjórnarformenn, hershöfðingjar og annað stórmenni ríkjanna þriggja, Bretlands, Frakklands og Ítalíu. Tilgangurinn var, jafnframt veizluhaldinu, að tala sig saman um friðarmálin. "Fjórtán punktar" Wilsons, sem stjórnir þessar höfðu samþykt að meginmáli til, voru frumdrættir einir, texti sáttmálanna væntanlegu, og ekkert meira. Útleggingin var eftir. Og um hana gat orðið skoðanamunur á ýmsa vegu; enda þótti sumum leiðtogunum, sem hér komu saman, stefna Wilsons nokkuð draumkend. Má því nærri geta, hvað á góma hefir borið á samtalsfundum þessum.

En það er af Wilson að segja, að hann hafði áður haft við orð að sækja friðarþingið og túlka þar sína stefnu með eigin munni. Ekki skal það fullyrt, að undirbún-

ingsfundir Samherja hafi styrkt hann í þeirri fyrirætlan, en 2. desember- daginn eftir hátíðarhaldið í Lundúnum, flutti forsetinn ræðu fyrir congressinum og skýrði frá því, að hann hefði ráðið við sig að sigla til Norðurálfu og taka sjálfur þátt í friðargerðinni. Tveim dögum síðar lét svo Wilson í haf frá New York, með gufuskipinu George Washington, eign Bandaríkjastjórnar. Með honum fóru fjórir fulltrúar- er hann hafði valið til að mæta með sér á þinginu fyrir hönd þjóðar sinnar — Lansing ríkisritari og þrír menn aðrir. Ekki þóttu ráðunautar hans vera stjörnur af fyrstu stærð. En auk þeirra hafði forsetinn með í förinni heila sveit af sérfræðingum, í sögu, hagfræði, alþjóðalögum, landafræði, þjóðfræði- nýlendumálum og öllum þeim fræðigreinum, er til álita gætu komið í sambandi við friðarmálin. Áttu þeir að gefa honum allar þær upplýsingar, er hann þyrfti við. Heilan farm af bókum og skjölum höfðu menn þessir með sér, og er sagt, að Wilson hafi miklu oftar ráðfært sig við sérfræðingana, heldur en við félaga sína í fulltrúanefndinni.

Sigling Wilsons mæltist misjafnlega fyrir. Enginn forseti hafi áður í embættistíð sinni farið af landi burt. Svo þóttu starfsmálin brýn heimafyrir. Einkum var það fundið honum til foráttu, að hann hafði ekki .áðfært sig við þing eða þjóð um burtförina — en senatið, eða efri málstofa congressins, hefir eftir stjórnarskránni þátttökurétt í utanríkismálum. En meðhaldsmenn forsetans bentu á það, að hann væri af öllum heimi skoðaður sem sjálfkjörinn forvígismaður hugsjónastefnunnar í friðarmálunum, auk þess sem undirstöðurnar, sem friðurinn átti að byggjast á, væru frá hans hendi. Gæti hann því með engu móti setið eftir af þingförinni.

Það er álitamál enn í dag, hvort ekki hefði verið betra fyrir Wilson að sitja heima, gæta vel að fylgi sinnar eigin þjóðar, trúa öðrum fyrir málarekstrinum í París og leggja þar fátt til annað en kjarngóðar meginsetningar við og við. Óvíst er, hvort friðarsagan hefði orðið önnur og farsælli með þessu móti, en sjálfur hefði Wilson varðveitt betur vinsældir sínar, bæði heimafyrir og erlendis, og lagt minna í sölurnar að öllu leyti.

Fremur varð fátt um kveðjur með Wilson og Republikum í senatinu, sem nú áttu þar meirihluta í vændum upp úr kosningunum, eins og áður var sagt. Þeir átöldu forsetann harðlega fyrir það, að hann hefði ekki haft senatið með í ráðum um heimsmálin, né valið málsmetandi menn úr meirihlutanum í fulltrúanefndina. Kváðust þeir eiga heimting á hvorutveggja — bæði lögheimild, og eins, eftir kosningarnar, sérstakt og ákveðið umboð frá þjóðinni . Hvort kröfur þeirra hafa verið réttmætar, eftir lögum og stjórnarvenjum landsins, skal hér látið ósagt. En hitt er víst, að slík samvinna gat með engu móti tekist, eins og sakir stóðu. Það kom brátt í ljós. Daginn áður en Wilson sigldi, bar Knox senator, fyrrum ríkisritari, fram tillögu til þingsályktunar, er fór fram á það, að friðarstefnan skyldi fresta stofnun alþjóða bandalags, þangað til búið væri að semja frið við Miðveldin.

Þetta var í raun og veru tilkynning til Norðurálfu-þjóðanna um það, að ýmsir forkólfar meirihlutans í senatinu væru ósamþykkir forseta um meginatriðið í tillögum hans; því að þjóðabandalagið átti einmitt að vera máttarstoðin í allri friðarbyggingunni, eftir hugmyndum Wilsons. En Knox, Johnson, Lodge og fleiri leiðtogar Republika litu hornauga til þeirrar hugsjónar; töldu það draumsjón eina, og hana varhugaverða mjög, eða jafnvel hættulega. Hér gat því engin miðlun átt sér stað. Wilson hefði eins vel mátt gefa með öllu frá sér málareksturinn, eins og að láta undan Knox og þeim félögum í þessu atriði.

Theodore Roosevelt, fyrrum forseti og átrúnaðargoð margra Republika, hafði nokkrum dögum áður tekið í þenna sama streng mjög óþyrmilega. Han nlét blöðin birta þá yfirlýsingu, að Wilson hefði nú ekki lengur neina heimild til að flytja boðskap sinn í nafni þjóðarinnar; hún hefði hafnað honum og öllum hans "punktum" — og svo framvegis. Með berari orðum gat maðurinn varla heitið Samherjum fylgi sínu og síns flokks, ef þeir vildu hafna Wilson og "punkt-

unum fjórtán" og gera friðarkjörin svo hörð sem þá lysti. Nærri má geta, hvort orðsendingar þessar hafi gert vægðarstefnunni léttara fyrir. En Roosevelt mælti þar feigum munni, því dauðinn tók við honum litlu síðar. Hann var jarðaður tíu dögum áður en friðarþingið var sett. En deilan óx og magnaðist, milli Wilsons og senatoranna.

Þeir Wilson tóku höfn í Brest á Frakklandi 13. desember og fengu viðtökur ágætar, eins og nærri má geta. Svo var um alt ferðalag forsetans, er hann á næstu vikum heimsótti borgir ýmsar og stórmenni Frakklands, Bretlands og Ítalíu. Sjaldan hefir víst ókrýndur maður verið sæmdur öðrum eins viðhafnar-kveðjum þar í Norðurálfu. En mest var þó vert um viðtökur alþýðunnar. Eftirvæntingin var mikil alstaðar, en hrifningin varð enn meiri, þegar Wilson var kom inn. Ræður þær, sem hann flutti á ferðalagi þessu, voru háfleygar og hjartnæmar. Fólkið réði sér ekki. Það var eins og nýr Móses væri þar kominn, spámaður og löggjafi nýrrar veraldar. Ítalir nefndu eftir honum götur í borgum sínum; franskir alþýðumenn tárfeldu, þegar þeir sáu hann. Mannfjöldinn í brezkum borgum hlustaði hugfanginn á ræður hans og hrópaði: **"We are with you!"** Jafnvel Þjóðverjar buðu honum heim — en það boð gat hann auðvitað ekki þegið, eins og sakir stóðu. Svo mikil var þá lotningin fyrir honum þar í landi, segja ýmsir alþýðuleiðtogar Þjóðverja, að hefði Wilson á þeim tíma dæmt þjóðinni stranga refsingu, þá hefði hún tekið dóminum umyrðalaust.

Í þessu andrúmslofti vonar og hrifningar komu erindrekar Bandaþjóðanna saman á friðarþingið, sem hófst í Parísarborg 18. janúar 1919. Hópur þessi, með sérfræðingasveitunum og öðru föruneyti, var afar fjölmennur út af fyrir sig, því að tuttugu og sjö ríki, stór og smá, tóku þátt í friðargerðinni Samherja megin, auk nýlendanna brezku. En það var þó ekki nema lítill hluti mannfjöldans, sem úr öllum áttum hafði safnast til Parísar. Borgin var ekki höfuðstaður Frakklands um þær mundir. Hún var höfuðból og miðstöð allrar veraldar. Hún átti með öllum rétti lýsinguna, sem Postulasagan gefur Jerúsalem á hvítasunnuhátíðinni miklu — nema hvað þjóðalisti Parísar yrði sjálfsagt helmingi lengri, ef talið væri. Öllum upphugsanlegum þjóðbúningum, hörundslitum og tungumálum agaði þar saman, því að sendinefndir eða flóttamenn hópuðust þangað frá ríkjum, héröðum, trúflokkum eða þjóðabrotum í öllum álfum heims. Og allir höfðu sín sérstöku mál að flytja, sínar sérstöku kröfur eða tillögur viðvíkjandi þessari nýju heimsskipun, sem í vændum var.

Þjóðirnar tuttugu og sjö, er að þingi sátu, voru allar á einn eður annan hátt komnar í óvinatölu Miðveldanna. Sumar, eins og Kína, höfðu sagt Þjóðverjum stríð á hendur, en lítið sem ekki gengið að vígum. Aðrar voru brot úr föllnu ríkjunum; þær áttu frelsi sitt og viðreisn undir vinfengi Bandaþjóðanna.

Miðveldin höfðu enga erindreka á þinginu, fyr en Samherjar voru búnir að koma sér saman um kostina, sem þeir ætluðu að bjóða. Og Bolshevika vantaði. Bæði var það, að stjórn þeirra var ekki komin á svo fastan fót, að henni bæri viðurkenning, eftir alþjóða venjum; og svo voru þeir félagar gerræðismenn, eins og kunnugt er, og svarnir óvinir stjórnarfarsins í öðrum löndum. Þó var reynt að skjóta á fundi óformlegum með byltingamönnum þessum. En það tókst ekki, því að Bolshevikar höfnuðu megin-kröfum Samherja þegar í stað og vildu hvorki kalla saman þjóðkjörið þing né taka að sér ríkisskuldirnar rússnesku.

Áður var París á undan friðarþinginu líkt við Jerúsalem á fornri hvítasunnu. Ekki skýrðist þó ættarmót þeirra tveggja stórviðburða, þegar þingið var sett, í klukkusalnum í utanríkishöll Frakkastjórnar, á Quai d'Orsai í París, 18. janúar. Alt fór þar að sönnu hátíðlega fram — nema að guði var gleymt, að því er virtist. Þar var ekkert bænarorð borið fram í þingbyrjun, eða nokkuð þess háttar. Að minsta kosti geta heimildir ekki um slíkt. Satt er það, að guðrækninnar gætti sjaldan mikið í samninga-bralli Norðurálfu-veldanna, enda mátti þekkja þann skort á ávöxtunum. En hér

átti ný og betri öld að renna upp, í meira samræmi við guðs og samvizkunnar lög, heldur en sú gamla var. Á svo mikilvægri stund var gleymskan tilfinnanleg í meira lagi. Annað gleymdist þó ekki; það var syndir Þjóðverja, gamlar og nýjar. Dagurinn 18. janúar var afmælisdagur kúgunarsáttmálans, sem Þjóðverjar neyddu Frakka til að skrifa undir í Versölum árið 1871. Á það efni mintist forseti Frakka, Raymond Poincaré, í ræðu sinni, er hann setti friðarþingið. Með þetta fyrir augum höfðu Frakkar auðsjáanlega valið þingsetningardaginn.

Í þessu tvennu sem nú var bent á, speglast ófullkomleikarnir á friðarstefnunni allri og sáttmálunum, sem þar voru samdir. Þótt ekki sé tekinn gildur nema tíundi hlutinn af aðfinslum þeim, sem hlaðið hefir verið á Versala-friðinn síðari, þá verður því ekki neitað, að þar kennir helzt til mikillar löngunar til að lækka rostann í Þjóðverjum, en hins virðist varla nógu vel gætt, að allir hlutaðeigendur þurftu að auðmýkja sig fyrir guði.

Var svo þegar eftir þingsetninguna tekið til óspiltra mála, því að ærin voru verkefnin, eins og áður var sagt. Allra mikilvægustu málin voru þæfð í tíu manna nefnd, er í voru fulltrúar frá veldunum fimm, Bandaríkjunum, Bretlandi, Frakklandi, Ítalíu og Japan — tveir frá hverju. Eiginlega náðu þó engin af aðalmálunum fram að ganga, nema fjórir af þessum tíu kæmu sér saman, því að þeir voru forkólfar fremstu þjóðanna. Voru þeir kallaðir stórmennin fjögur eða fjögra manna ráðið. Má þar fyrstan nefna Wilson Bandaríkjaforseta. Annar var hinn mikli Hólmgöngu-Bersi Frakka, öldungurinn Clemenceau, stjórnarformaður þar í landi. Hann var ættjarðarvinur í frekasta lagi, fylginn sér og orðhvass nokkuð, jafnskæður í pólitísku þrefi sem einvígum. Þá var Lloyd George, formaður Bretastjórnar, einhver hinn allra sniðugasti stjórnmálagarpur vorrar kynslóðar, glöggur og fljótheppinn í hugsun og hárjárn á ræðupalli. Umbótamaður hinn mesti var Lloyd George og hugsjónaríkur, en gleymdi þó sjaldan veraldarvizkunni. Sá fjórði var forsætisráðherrann ítalski, Signor Orlando, stjórnkænskumaður mikill. Þetta voru mennirnir, sem áttu að "reformera" heiminn — yrði því nauðsynjaverki áfram hrundið á annað borð þar á friðarþinginu.

Fullmikið á fjóra menn lagt í sannleika, eins og ástatt var, og ekki sízt með allan þann sæg af sendinefndum og sjálfkjörnum ráðunautum, sem hrópuðu sífelt eftir áheyrn og lögðu sitt hver til málanna. Þó var hitt erfiðara, að leiðtogarnir fjórir litu ekki á friðinn alveg frá sama sjónarmiði. Hugsjónastefnu Wilsons var áður lýst. Hann var allur þar. Friðsemin hafði áunnið honum endurkosning árið 1916. Í allra síðustu lög, og mjög nauðugur, hafði hann gengið til víga. Og svo var Bandaríkjaþjóðin ólömuð, þrátt fyrir átök mikil í ófriðinum, og æskti nú engra launa fyrir sjálfa sig eða hlunninda, nema þess eins, að geta orðið að liði. En hinir allir, Clemenceau, Lloyd George og Orlando, höfðu náð æðstu völdum á mikilli hættutíð, hver í sínu landi, þegar safna þurfti öllum lífs og sálar kröftum til varnar ósigri. Völdin voru í þeirra höndum, af því að þeir höfðu reynst öðrum fremur ótrauðir í hernaðinum. Og glímuskjálftinn var víst ekki runninn af þeim með öllu, þegar til þings kom. Auk þess voru þjóðirnar þeirra mjög aðfram komnar af sárum og þreytu. Eðlilega vildu þeir allir, hver fyrir hönd síns ríkis, hafa svo mikið upp úr sigrinum, sem réttmætt væri.

Ekki svo, að hugsjónunum væri hafnað. Allir voru þeim hlyntir að meginmáli. Allir vildu góðan frið, tryggan, réttlátan frið. En auk þess vildu Ítalir ofurlitla viðbót við ítölsku héröðin í Austurríki. Þeir vildu ná í Dalmatíu-ströndina, suður með Adríaflóa austanverðum og eyjar með, hvorttveggja bygt slavnesku fólki að mestu — og þar með umráð yfir flóanum og eignarrétt algeran á hafnarbænum Fiume, einu höfninni, sem veitt gat nábúum þeirra, Júgó-Slövum, greiðan aðgang að sjó. Og Bretar vildu ítök og nýlendueignir sem þeirra menn höfðu unnið af Þjóðverjum í ýmsum löndum; þar á meðal Mesopotamíu, Gyðingaland og þýzkar nýlendur í Afríku. Líka vildu Frakkar nýlend-

ur og ítök, og skaðabætur vel mældar, og yfirráð bein eða óbein yfir þýzkum löndum alla leið að Rín, og hervarnir sterkar við fljótið og annað það, er þeir töldu nauðsynlegt til að halda Þjóðverjum í skefjum og láta þá efna sættirnar. Svipaðar voru kröfur Japana. Snemma í ófriðnum tóku þeir af Þjóðverjum skagann Shantung í Norður-Kína, gegnt Kóreu. Vildu þeir nú með engu móti sleppa þeim feng úr hendi sér aftur. Auk þess höfðu Japanir augastað á eyjum Þjóðverja nokkrum í Kyrrahafi.

Smærri kröfum og gagnkröfum verður að sleppa hér, sem mýmargar voru, frá þjóðum, flokkum og ríkjabrotum, og sóttar þrásinnis af afarmiklu kappi. Í mótsetningu við þann málarekstur var hegðun tveggja þjóðanna í Norður-Ameríku. Canada og Bandaríkin höfðu sent til Frakklands yfir tvær miljónir hermanna og eytt biljónum dala í herkostnað. Canada sérstaklega borið hita og þunga dagsins frá byrjun og komið hart niður. En hvorug þjóðin krafðist þó nokkurs að sigurlaunum, nema ef telja skyldi lítilfjörlegar bætur fyrir tjón á privateignum. Það var nýstárleg sjón.

Og fulltrúarnir frá Bandaríkjunum hittu sjálfa sig fyrir, því að þeirra þjóð var miklu betur treyst en hinum stórveldunum — auk alþýðuhylli þeirrar, sem Wilson sjálfur naut. Sóttu því smáríkin sífelt til forsetans með kærumál sín og gerðu honum ónæði mikið. Af öllum þingheimi, segja kunnugir, lagði enginn maður eins hart á sig, eins og Wilson forseti. Stundum tók hann þátt í tveim nefndafundum samtímis.

Nú var þrautin að sniðla þenna myrkvið allan, milda úr kappsmálum og fá kröfum betur í hóf stilt og samrýma úrskurðina "fjórtán punktum" Wilsons og öðru viðurkendu friðarmáli. Um þetta var baráttan háð af hugsjónamönnum, með Wilson í broddi fylkingar. Á því voru margir erfiðleikar. Í alþjóðamálum er samningalistin gömul og þaulæfð. Þar er vel haldið á háspilum. Og hæsta tromfið á sáttastefnum er venjulega "stríðskortið" (War map); með öðrum orðum: mátturinn. Aðalstyrkur eða veikleiki málsaðila á slíkum þingum verður, þegar öllu er á botninn hvolft, afstaða herflokkanna. Hverri þjóð finst hún mega halda því, sem hún hefir, eðlilega, eða fá eitthvað í staðinn. Svo fór í París. Hver átti til dæmis að snúa fallbyssukjöftunum á Frakka og reka þá vestur frá Rín; eða flæma Breta burtu úr Gyðingalandi; eða hrifsa Shantung úr höndum Japana og gefa skagann Kínverjum? Í slíkum efnum varð auðvitað litlu um þokað, nema stjórnirnar, sem hlut áttu að máli, slökuðu sjálfar til. — Og svo var fleiru slegið út. Ítalir og Japanir sýndu heimildir fyrir sínum kröfum. Það voru leynisamningar, gerðir á neyðartímum stríðsins og undirritaðir af fulltrúum Samherja. Undirskrift sína vildu hvorki Frakkar né Englendingar vanvirða, en Wilson var ekki við þau mál riðinn, og þverneitaði að taka máldaga þessa nokkuð til greina, enda voru "fjórtán punktarnir" þar á móti. En þá höfðu Japanir annað tromf. Þeir þóttust afskiftir í innflytjendalögum Bandaríkja, og á annan hátt illa leiknir þar í landi. Kröfðust bótar á "órétti" þessum og hertu á kærunni, hvenær sem út leit fyrir, að eitthvað yrði hróflað við Shantung-málinu. En hönd Wilsons var málstaðurinn, greinarnar fjórtán, sem hinir höfðu játast undir, og svo almenningsálitið og vinsældirnar, sem hvorttveggja er stopult í þessum synduga heimi. Var því við raman reip að draga.

Af leiðtogunum þremur mun Lloyd George hafa staðið Wilson næstur að ýmsu leyti. Aftur var Clemenceau erfiðastur. Það var mikilvægt, sem á milli bar. Þungamiðjan í tillögum Wilsons var allsherjar bandalag, til að vernda smáríki, milda úr deilum milli þjóða, sporna við ágangi og tryggja friðinn á allan hátt. Á þeirri stoð skyldi sáttagerðin hvíla, og síðan friðurinn. En Frakkar vildu herða sem mest á sigurtökunum, sér til verndar. Fyrir þá sök vildu þeir ná í Rínarlöndin; vörninni varð hvergi betur við komið heldur en við ána. Auðvitað var þeim vorkunn í þessu; þeir fengu harðasta útreið í stríðinu og áttu mest í hættunni, ef Þjóðverjar kæmust í vígamóð aftur. En stefnur þessar gátu ekki farið samsíða; önnurhvor hugmyndin varð að víkja úr öndvegi. Cle-

menceau varð allreiður stundum, þegar þeir leiddu saman hesta sína, Wilson og hann. Sagt er, að hann hafi stundum brugðið Wilson um vináttu við Þjóðverja, haft við orð að leggja niður embætti, og jafnvel rokið burt af fundi, þegar í harðast fór.

Málarekstur þessi fór að mestu fram í nefndum, sem ekki leyfðu blaðamönnum á fundi sína. Launung þeirri var illa tekið af blöðunum, og talin brot á móti fyrsta lið Wilsons-greinanna. En það var hótfyndni. Mikilvægar samþyktir voru birtar smám saman, eftir því sem áfram þokaði málunum. Í einu hljóði samþykti friðarþingið 25. janúar, að stofnað skyldi bandalag alþjóða, eins og lagt var til í "punktunum fjórtán". Var nefnd kosin til að semja reglugerð fyrir samtökum þessum. Mæltist það vel fyrir og þótti nú Wilson hafa unnið sinn fyrsta sigur. Fimm dögum síðar var auglýst, hvað gera skyldi við nýlendueignir óvinanna. Áttu þær að skiftast með ýmsum ríkjum, ekki til eignar, heldur í umboði Þjóðabandalagsins, er hafa skyldi æðstu umráð yfir nýlendunum. Margir sögðu að hér hefðu Bretar og Frakkar leikið á Wilson; umboðið væri lítilsvert, því enginn vissi, hvort Þjóðabandalagið yrði svo máttugt, að það gæti nokkru verulegu ráðið um slíkar sakir. Þetta væri hjúpuð innlimun og ekkert annað. Óánægjan var þó farin að sefast allmikið, þegar Wilson birti, 14. febrúar, frumvarp til reglugerðar fyrir Þjóðabandalaginu. Þeim tíðindum var vel fagnað af hugsjónamönnum alstaðar. Nú var óskabarnið í fæðingunni. Fundið var að einstökum atriðum, en í heild sinni fékk hugmyndin almanna-lof. En auðvitað að "undan teknum amtmanninum". Senatorarnir í Washington hötuðust við þessa þjóðabandalags-hreyfingu, með öllum hennar verkum og athæfi, eins og sjálfan myrkrahöfðingjann. Þeir fordæmdu umboðshugmyndina, af því að þar var verkefni fyrir Bandalagið.

Um þessar mundir þurfti Wilson að bregða sér vestur um haf, til að sinna stjórnarstörfum ýmsum, sem biðu hans í Washington. Sigldi hann frá Frakklandi 15. febrúar, hafði með sér þjóðabandalags-frumvarpið, símaði mótstöðumönnum sínum í senatinu, þeim Lodge, Johnson, Borah og öðrum, bauð þeim til miðdegisverðar með sér og viðtals um frumvarpið, þegar hann kæmi heim, og mæltist til þess, að aðfinslur væru látnar bíða, þangað til eftir samtalsfundinn. Þáðu þeir allir boðið, nema Borah; hann vildi ekki brjóta brauð með forsetanum. En ekki fékst vopnahléð. Frumvarpið sætti snörpum árásum í congressinum á meðan Wilson var á heimleið. 26. febrúar var hann kominn til Washington. Sátu þeir Lodge að heimboði hjá honum um kvöldið, en hann ræddi við þá um frumvarpið og bað um aðfinslur eða bendingar. Mótstöðumenn hans tóku dræmt í málið; Lodge, foringi Republika í senatinu, varðist allra frétta. Hann vildi hvorki koma með útásetningar né stinga upp á nokkurri breytingu. Aðrir voru þó tilleiðanlegri. Þeir fundu það helzt að reglugerðinni, að Monroe-kenningin svo kallaða væri ekki nefnd þar á nafn — en það er sú kenning Bandaríkjastjórnar, að engin útlend þjóð megi ásælast lönd eða auka völd sín í Vesturálfu. Líka bentu þeir á það, að heimamál yrðu ekki undanþegin afskiftum Bandalagsins, eftir frumvarpinu; ekkert væri sagt um úrgöngurétt — og annað því um líkt. Hét Wilson því, að bendingar þessar skyldu teknar til greina.

Leiðandi Republikar utan þings, svo sem William Taft, fyrrum forseti, og Elihu Root, fyrrum ríkisritari, voru líka beðnir um álit sitt, og stungu þeir upp á ýmsum breytingum, er síðar komust í reglugerðina.

Hvernig myndi nú semjast með senatorunum og forseta? Um það var mikið talað beggja megin hafs um þær mundir. Í Bandaríkjunum gilda engir samningar við aðrar þjóðir, fyr en senatið hefir með tveim þriðju atkvæða veitt þeim staðfesting. Gæti nú Wilson ekki trygt sér slíkan atkvæðamun í Washington, þá leit helzt út fyrir að gengi hans yrði skammlíft í París, og þá um leið var harðneskjunni sigurinn vís. Fyrir því biðu menn óþreyjufullir átekta. Lodge réðist á Wilsons-frumvarpið í allskörulegri þingræðu 28. febrúar, og mælti fastlega með "bindandi og fjötrandi friðarkjörum" fyrir

óvinina. Eins og til áréttingar orðum sínum, lagði hann svo fram í opnu þingi 4. marz, rétt áður en Wilson sigldi til Parísar aftur, skrifleg mótmæli gegn frumvarpinu, með ályktun þess efnis, að bandalagsmálinu ætti að fresta, þangað til eftir að friður væri saminn. Með öðrum orðum, að sú hugmynd væri algerlega skilin frá sáttagerðinni. Undir skjalið voru rituð nöfn 37 senatora, en það voru fimm yfir þriðjung atkvæða í þeirri deild congressins.

Óefað hafa þessir 37 fremur verið að hugsa um einangrun og sjálfstæði þjóðar sinnar, heldur en hitt, að friðurinn gæti orðið sem hörkulegastur. En hvað sem um það var, þá féll frækornið í frjóan jarðveg yfir í París, eins og nærri má geta. Þeir Clemenceau áttu nú alls kosti við Wilson, að því er þeim fanst, voru þeir allfljótir að ryfta samþyktum þeim, sem gerðar höfðu verið, setja sín ráð í staðinn og útvega sér fylgi annara leiðtoga. Þjóðabandalagshugmyndin var lögð til síðu. Átti nú að semja bráðabirgðar-frið og láta kné fylgja kviði; nýlendum og jafnvel alþýzkum héröðum skyldi skift eins og herfangi; Þjóðverjar gerðir að þrælalýð, en friðurinn trygður með samtökum og sterku hervaldi. Vildu þeir einnig senda her inn í Rússland og hrinda Bolshevikum af stóli. Í einu orði sagt: Fallbyssukjaftar áttu að segja fyrir um friðinn og ráða lögum og lofum allar leiðir frá Rín og austur að Vladivostok og suður að Persaflóa. En Bandaríkjunum var ætlað að borga brúsann. Þegar Wilson kom til Parísar, 14. marz, voru jafnvel sumir af hinum frjálshugaðri fulltrúum Englendinga djúpt soknir niður í ráðabrugg þetta, og flestir töldu þeirri stefnunni vísan sigur.

En Wilson lét sig ekki. Hann gaf sér réttan sólarhring til að átta sig á allri ráðagerðinni. Svo lét hann blöðin flytja þá yfirlýsingu, að samþyktin stæði, sú er gerð var 25. janúar, um að Þjóðabandalagið skyldi vera ósvikinn þáttur í friðargerðinni. Þar með byrjaði þófið á ný. Ekki tjáði að ganga í berhögg við forsetann opinberlega og svifta því burt, sem samþykt hafði verið. Létu hinir undan í þessu meginatriði, og fremur dræmt. En það voru alls engin leikslok. Nú þurfti Wilson að berjast fyrir breytingum á frumvarpinu, til að geðjast mótstöðumönnum sínum heimafyrir. Þegar hann nefndi Monroe-regluna, var eins og komið væri við hjartað í Norðurálfumönnum og Japönum. Aldrei höfðu þeir samþykt þá kenningu áður, og nú mótmæltu þeir allir harðlega. Hófst þar löng og bitur orrahríð.

Wilson mátti til að fá kenning þessa með berum orðum undanþegna dómsvaldi Þjóðabandalagsins; annars átti reglugerðin engrar vægðar að vænta í senatinu. Þetta vissu hinir, og notuðu nú tækifærið; létu mótmælin dynja óspart og beittu sínum hörðustu kröfum á oddinn. Frakkar heimtuðu Rínardalinn, Ítalir Fiume og strendur Dalmatíu, Japanir fullan eignarrétt á Shantung og algert jafnrétti sinnar þjóðar mönnum við annað innflutt fólk í Bandaríkjunum. Liðu svo þrjár vikur frá komu Wilsons, að ekkert rak eða gekk. Maðurinn var á sjötugs aldri og ekki sterkur að heilsu. Hann varð hastarlega veikur í aprílbyrjun, en rétti við aftur að nokkru þann 7. þess mánaðar og mætti þá enn einu sinni félögum sínum í fjögra manna ráðinu, ákveðinn í því að láta til skarar skríða í eitt skifti fyrri öll. Bauð hann þeim tvo kosti: annaðhvort skyldi hann fara eða vera. Ekki dytti sér í hug, sagði hann, að bera í bætifláka fyrir þýzka hervaldið eða meina Samherjum allra skaðabóta; en friðurinn yrði að byggjast á réttlæti fyrst og fremst, og einhverri viðleitni í vægðar-áttina; tillögum sínum, þeim er áður hafði verið fallist á, yrði að vera einhver gaumur gefinn, ella færi hann þegar heim með alt sitt, og léti hin veldin ein um sættirnar. Sama dag símaði Wilson eftir gufuskipinu **George Washington**, sem þá lá á Brooklyn-höfn. Skipið var haft til að flytja forsetann og föruneyti hans yfir hafið.

Bendingin hreif. Lloyd George varð fyrstur til að ganga í lið með Wilson, og fengu þeir í samlögum áunnið það, að Clemenceau lét af Rínarkröfunni. En báðir hétu þeir að leggja fram og styðja, hvor í sínu þjóðþingi, frumvarp til sáttmálagerðar um að veita Frökkum hjálp, ef þeir yrðu fyr-

ir frumhlaupi af hálfu Þjóðverja. En Wilson fékk undanþágu Monroe-reglunnar með skýrum orðum viðurkenda í setningum Þjóðabandalagsins.

Þrætumálið mesta var þar með til lykta leitt, og náðust nú hvað af hverju samþyktir í öðrum málum, sem erfiðleikum höfðu valdið. En seinlega gekk að milda úr kröfum Ítala og Japana. Wilson mælti fastlega fram með rétti Júgó-Slava til hafnar í Fiume, en Orlando vildi með engu móti gefa bæinn eftir. Tók þá Wilson það ráð, að hann setti fram sína skoðun opinberlega og skírskotaði til ítölsku þjóðarinnar. En eftirgjöfin varð engin hjá Ítölum. Lenti þar víða í æsingum út af málinu. Wilson var úthrópaður; hatrið á honum varð sýnu meira en dálætið hafði verið áður. Sýnir það bezt, hvort kröfufrekjan í París hefir verið leiðtogunum einum að kenna. Stóð svo deilan óútkljáð um langan tíma. En það er af Japönum að segja, að þeir fengu Shantung til umráða um óákveðinn tíma, en gáfu munnlegt loforð um, að skaganum skyldi síðar meir skilað í hendur Kínverjum. — Ekki er nema sanngjarnt að geta þess, að Japanir hafa nú efnt það heit sitt.

Friðarstefnan rak smiðshöggið á reglugerð eða "sáttmála" Þjóðabandalagsins 28. apríl. Skal nú þeim smíðisgrip lýst í fáum orðum.

Átti Bandalagið, með fyrirskipuðum aðferðum og skuldbindingum, að efla frið og samvinnu meðal þjóðanna.

Fyrstu félagslimir áttu að vera þjóðirnar tuttugu og sjö, er Samherja megin tóku þátt í friðargerðinni. Þar að auki nýlendurnar brezku og Indland.. Ennfremur var helztu ríkjum, er hlutlaus höfðu verið, gefinn kostur á að játast undir sáttmálann og verða með í Þjóðabandalaginu frá byrjun.

Síðar máttu aðrar þjóðir bætast við, ef þingið leyfði með tveim þriðju atkvæða, en áður urðu þær að tryggja efndir á heitum sínum og skuldbindingum og hlíta fyrirskipunum Þjóðabandalagsins um takmörkun á vígbúnaði. Þetta var sérstaklega meint til Miðveldanna. Þau áttu fyrst að efna sættirnar, eða sýna þar góðan lit á, áður en þeim væri leyft að vera með. — Úrganga var leyfð, með árs fyrirvara, að skyldum uppfyltum.

Þjóðabandalagið skyldi vinna að málum sínum í þingi, ráði og skrifstofudeild. Í þinginu máttu allar bandalagsþjóðirnar hafa fulltrúa, sína þrjá hver, eða færri. En í ráðinu skyldu sitja fulltrúar frá fimm stærstu veldum Samherja; svo og frá öðrum ríkjum fjórum, er til þess væru kjörin af þinginu — einn fulltrúi frá hverju ríki. Smám saman mátti svo gefa fleiri þjóðum fulltrúarétt þar, með samkomulagi ráðs og þings. Hver önnur þjóð í Bandalaginu mátti senda erindreka á fundi ráðsins, hvenær sem einhver þau mál, er hana varðaði sérstaklega, væru tekin þar fyrir.

Bæði þingið og ráðið máttu fást við öll mál í verkahring Bandalagsins, og sérhvað annað, er til friðar horfði. Þingið átti að mæta "á tilteknum tímum", en ráðið ekki sjaldnar en árlega. Samkomustaður skyldi vera höfuðból Bandalagsins í Geneva í Svisslandi — þar hafði skrifstofudeildin aðsetur — eða hvar annarsstaðar, sem um semdist. Engin þjóð hafði nema eitt atkvæði, hvorki í ráði né þingi. Í öllu verulegu skyldu samþyktir og ákvarðanir því aðeins gilda, að gerðar væru í einu hljóði.

Skyldi Þjóðabandalagið gangast fyrir takmörkun vígbúnaðar; hafa eftirlit með smíði og sölu hergagna; varðveita sjálfstæði og landeignir allra meðlima sinna gegn árásum utan að; skera úr þrætum milli þjóða; sjá um stofnun alþjóða-réttar; hafa með höndum úthlutun umboðs yfir nýlendueignum Miðveldanna, og líta eftir, að löndum þeim væri vel stjórnað, samkvæmt meginreglum, sem fyrirskipaðar væru.

Sérhverja styrjöld og ófriðarbliku, hvort heldur væri innan eða utan vébanda sinna, skyldi Þjóðabandalagið láta sig miklu varða, og taka jafnan í slíkum tilfellum ákvarðanir þær, er hentugastar þættu til eflingar friðnum.

Bandalags-þjóðirnar undirgengust að skírskota til ráðsins, eða til gerðardóms, hverju því þrætumáli, sem þær ekki gætu jafnað sín á milli. Skyldu þær ekki taka til

vopna í þrjá mánuði, eftir að úrskurður væri gefinn, og alls ekki ráðast á þann málsaðila, sem héldi slíka sætt. Brot gegn ákvæðum þessum varðaði þungum refsingum, einangrun og jafnvel brottrekstri úr Þjóðabandalaginu.

Monroe-reglan var hér undan þegin, og eins þau mál, er eftir sérstökum samningum heyrðu þegar undir gerðardóma.

Ennfremur undirgengust meðlimirnir að efla hag verkafólks í löndum sínum og gera samtök með sér félagsleg í þeim tilgangi. Og margt fleira, sem til heilla horfði, var innbundið í verkahring Þjóðabandalagsins.

Friðarþingið samþykti sáttmála þenna í einu hljóði. Hér voru þá margar hinar fegurstu vonir mannkynsins komnar í ákveðnar tilskipanir, og var því verkinu vel fagnað af hugsjónamönnum að sjálfsögðu. En í bráðina kom þó athyglin annarsstaðar niður, því að þenna sama dag, 28. apríl, komu fulltrúar þýzku stjórnarinnar til Versala-konungssetursins gamla og víðfræga fyrir suðvestan París — til þess að taka þar á móti friðarkostum Samherja. Í Versölum höfðu Prússar 48 árum áður fagnað sigri yfir Frökkum og krýnt konung sinn til keisara yfir öllu Þýzkalandi. Áttu þeir nú að sæta sínum örlagadómi í sama stað. Frakkar voru hugulsamir á þess konar töðugjöld.

Opinn þingfundur var haldinn í Versölum 7. maí. Áttu Þjóðverjar að veita samningauppkastinu formlega móttöku við það tækifæri. Ekki var gert þar ráð fyrir umræðum, en athugasemdir máttu þýzku fulltrúarnir leggja fram skriflegar á tveggja vikna fresti. Framsögumaður þeirra, greifinn Brockdorff-Rantzau, notaði þó tækifærið til að mótmæla friðarkostunum, afsaka hernaðinn þjóðverska og flytja sakargifti á móti. Maðurinn var fremur orðhvass, og sat á meðan hann flutti ræðuna, eins og í óvirðingarskyni við þingheim, en þykkjukurr heyrðist víða í salnum. Atvikið spáði varla góðu um sættirnar.

Skal nú stuttlega skýrt frá friðarkostunum. Skyldu Þjóðverjar láta af hendi alt að fimtungi landa sinna í Norðurálfu. Það voru héröð á útjöðrum að vestan, norðan og austan, er Prússar höfðu áður innlimað og útlendar þjóðir bygðu enn að miklu leyti. Frakkar fengu Elsass-Lothringen. Svo og um ráð í fimtán ár yfir kolanámuhéraði þar norður og austur af, við ána Saar. Að þeim tíma liðnum áttu íbúarnir að velja sjálfir um lýðskyldu; en námurnar fengu Frakkar til æfinlegrar eignar. Smáa landspildu fékk Belgía norðan við Luxemburg. Að norðan átti hertogadæmið Slésvík, sem Prússar tóku af Dönum 1864, að velja um dönsk eða þýzk yfirráð. Mest varð þó tapið að austan. Þar fengu Pólverjar lönd sín aftur alla leið vestur að Pommern og mjóa spildu norður að Eystrasalti; en Þjóðverjar héldu þó miklum hluta Austur-Prússlands. Landeign þeirra að austan var með þessu skorin í tvent. Þjóðabandalagið tók að sér umráð yfir bænum Danzig við Eystrasalt, rétt austur af pólska oddanum, til þess að Pólverjar gætu haft þar not af höfninni. Nokkur hluti Slesíu og Autur-Prússlands áttu síðar að velja um lýðskyldu. — Með því móti fékk Þýzkaland Slesíu mestalla, þegar atkvæði voru greidd, en Pólverjar náðu þeim hluta, þar sem flestar voru námurnar. Norður-Slésvík gekk undir Danmörku aftur. Þjóðverjar munu hafa mist um 39,000 fermílur í alt, þegar búið var.

Herlið áttu Þjóðverjar að færa niður í rúmar hundrað þúsundir, úr tíu miljónum, sem þeir höfðu undir vopnum eða í herþjónustu, meðan ófriðurinn stóð sem hæst. Herskylda var stranglega bönnuð. Hergagnasmíði takmörkuð á við liðsfækkunina. Aðkaup og útflutningar þeirrar vöru hvorttveggja bannað. Flugher máttu þeir engan hafa, né kafbáta, og ekki nema lítilfjörlegan flota. Skyldu Samherjar hafa nefndir búsettar í Þýzkalandi, til að sjá um, að ákvæðum þessum væri hlýtt. Hervaldið mikla þar með svo rækilega lamað, að Þjóðverja skorti afl í hernaði, jafnvel við smærri ríkin í kringum sig.

Nýlendueignum öllum og ítökum í Shantung og víðar skyldu Þjóðverjar afsala sér, eftir ráðstöfunum þeim, sem áður var lýst. Auk þess áttu þeir að bæta eftir megni fyrir eignatjónið alt og skemdirnar, sem þeir

höfðu valdið í ófriðnum. Í skaðabætur var þeim boðið að gjalda 5 bil. dollara í gulli, skipum og ýmiskonar vöru innan tveggja ára, og gefa út gullgild veðskuldabréf fyrir nálega tuttugu og fimm biljónum, til frekari lúkningar á þeirri skyldukvöð. Sérstök nefnd átti síðar að ákveða, hve mikið þeim bæri að gjalda í alt, og með hvaða skilmálum.

Eftir ákvæðum samningsins játuðu Þjóðverjar sekt þýzku keisarastjórnarinnar í sambandi við upptök stríðsins; samþyktu, að keisarinn væri heimtaður af Hollendingum og sök hans prófuð fyrir sérstökum dómstóli, og undirgengust að afhenda Samherjum, til málsrannsóknar, alla þá menn úr liði sínu, er sakaðir voru um grimdarverk eða brot á herlögum.

Til margs fleira voru Þjóðverjar skyldaðir, svo sem að viðurkenna sjálfstæði nýrra ríkja; brjóta niður hervirki; gefa Samherjum sömu verzlunarkjör í landi sínu, eins og áður höfðu við gengist; bæta skipatjón af völdum kafbáta, smálest fyrir smálest; heimila öðrum þjóðum brautir sínar og skipgeng fljót til umferðar; kannast við ógilding á Brest-Litovsk sáttmálanum, og samþykkja reglugerð Þjóðabandalagsins, án þess þó að fá þar inngöngu, fyr en einhverntíma síðar með leyfi Samherja.

Áköf og hávær voru mótmæli Þjóðverja gegn friðarkostum þessum, eins og nærri má geta. Blöðin urðu hamstola. Leiðtogar keptu hver við annan um stóryrðin. Beindu Þjóðverjar sérstaklega kærumáli sínu til Ameríkumanna, sögðust vera kúgaðir, sviknir, ræntir rétti þeim, er sér bæri, samkvæmt fjórtán greinum Wilsons. Afarkostirnir, sem sjálfir þeir höfðu áður ætlað að bjóða Samherjum, virtust nú vera gleymdir í geðshræringunni.

Mathias Erzberger, formaður vopnahlésnefndarinnar þýzku, kallaði friðarkostina "djöfulsins verk" og "dauðadóm". Sjálfur hafði þó Erzberger, árið 1914, talað um að innlima Belgíu og strendur Frakklands alla leið til Boulogne, og þar að auki námuhéröð og nýlendur; og viljað láta heimta fébætur svo ríflegar, að herkostnaður yrði goldinn og þjóðskuldin greidd úr þeim sjóði, og bæklaðir hermenn launaðir með afganginum!. Kanslarinn, Philip Scheidemann, flutti langan reiðilestur í ríkisdeginum út af sama texta. Scheidemann hafði steinþagað árinu áður, þegar herjarlarnir settu snarvölinn á Rússa, með sáttmálanum sæla í Brest-Litovsk. Þetta var eitthvert hið mesta ólán Þýzkalands. Leiðtogarnir, sem nú töluðu fyrir þjóðina, voru áður búnir að spilla málstað sínum með hrokanum og harðneskjunni, margir hverjir, svo að ásökunar-óp þessara sömu manna létu nú fremur illa í eyrum. Árið 1915 hafði til dæmis gríðarmikill hópur af andlegum stórlöxum, og þar á meðal um 352 háskóla-prófessorar, skorað á þýzka kanslarann að sjá um, að Frakkland yrði "lamað hlífðarlaust, bæði að völdum og fjárhag", og lagt að honum, að "krefjast þungra fébóta miskunnarlaust". Það var því lítil furða, þótt allur þorri fólksins í Bandaríkjunum og öðrum löndum Samherja daufheyrðist fremur við réttarkröfum þessum og neyðarópi. Satt er það, að hrifningin var fremur lítil út af friðarkostunum, yfirleitt. Þeir þóttu "strangir, en ekki óréttlátir", og við það sat. Þjóðverjar fengu fá liðsyrði, nema hjá gerbyltingamönnum, eða þeim, sem þýzksinnaðir höfðu verið áður.

Þýzka stjórnin sendi friðarþinginu langdregið svar og ítarlegt, með kröfum, gagnkærum, breytingartillögum og öðru varnarmáli. En lítið fékk hún á unnið, annað en það, að Clemenceau svaraði fyrir hönd Samherja, og studdi sakargiftir þeirra með skýrum rökum. Þó var á endanum slakað til í ýmsum greinum, en ekki stórlega. Þjóðverjum var leyft að hafa undir vopnum 200,000 manns, þangað til óeirða-hættan væri um garð gengin þar í landi. Einnig var það gefið eftir, að nefndirnar yrðu tvær í skaðabótamálinu, önnur þýzk, en hin frá Samherjum. Aftur var Þjóðverjum synjað um frekari málaleitanir; en þeir sáu þann kost vænstan að taka sættinni. Bræðingsstjórn var mynduð í þeim tilgangi, og lét hún það uppskátt 22. júní, að fulltrúar yrðu sendir vestur í Versali til þess að rita undir. Daginn áður söktu þýzkir sjóliðsmenn herskipum Þjóðverja vestur í Skapaflóa. Fengu

þeir heilmikið lof á Þýzkalandi fyrir tiltækið. Friðarsamningarnir voru svo undirritaðir í Versölum 28. júní. Athöfnin fór fram í Speglasalnum víðfræga í konungshöllinni, því að í þeim sal voru Frakkar auðmýktir 1871. Þenna sama dag, 28. júní, var Francis Ferdinand ríkiserfingi myrtur í Serajevo. Mátti nú segja, að með undirskrift Þjóðverja væri ófriðurinn, sem hlotist hafði af því verki, loksins til lykta leiddur, því að Þýzkaland hafði staðið fyrir málum í öllum þeim heljarleik, Miðvelda megin, frá upphafi. Enda var nú búið að leggja niður meginreglur fyrir friðarkjörum allra ríkjanna. Friðurinn því þráfaldlega kendur við Versali, þar sem Þjóðverjar undirrituðu sáttmálann. Aðalverki friðarstefnunnar var því lokið. Wilson sigldi heimleiðis 29. júní, daginn eftir athöfnina.

Skal nú stuttlega skýrt frá því, hvernig hinum ríkjunum reiddi af. Rússar koma lítið við sögu friðarþingsins. Boshevikar höfðu þar enga fulltrúa, sem fyr var sagt, enda litlir kærleikar með þeim og Samherjum. Megin-veldin fimm, sem sátu friðarþingið, komu sér saman um að veita viðurkenningu og liðveizlu hverjum þeim uppreisnarforingja rússneskum, sem líklegur væri til að vinna bug á Bolshevikum og undirgengist að kalla saman þjóðkjörið þing og hlíta fyrirskipunum Bandalagsins um landamæri og annað fleira. Styrktu þeir svo Kolchak flotaforingja, Kósakkann Denikin og víst aðra fleiri, sem herjuðu á Sovietstjórnina. Flestum kemur nú saman um, að þetta hafi verið misráðið, því að Rússar tortrygðu þessa hjálp frá útlöndum. Bolshevikar sögðust nú verja þjóð sína gegn árásum annara ríkja; fengu þeir meiri styrk fyrir bragðið heima hjá sér og unnu að lokum algerðan sigur yfir öllum þessum óvinum.

Fulltrúar Austurríkis komu 14. maí til St. Germain, sem er þorp umhverfis gamalt virki við Signu-fljót, fyrir vestan París. Þar áttu þeir að taka við friðarkostum og annast sættirnar fyrir hönd þjóðar sinnar. Tvíveldið var alt liðað sundur, svo sem fyr er sagt, og vandinn mikill, að skipa þar ríkjum og landamærum, svo að til heilla væri. Karl Renner hét formaður nefndarinnar. Hann flutti mál sitt eindregið, en þó með miklu meiri prúðmensku heldur en Brockendorff-Rantzau hafði áður gert. Gekk svo á ýmsum málaleitunum fram í september. Þann 11. þess mánaðar skrifaði Renner undir sáttmálann. Friðarkjör sín hlutu Ungverjar nokkru síðar, í samningum, sem kendir eru við Trianon. Bæði ríkin voru nú lýðveldi. Þau voru auðvitað aðskilin. Og Austurríki fékk ekki að sameinast Þýzkalandi; þó var gefin von um, að samdrátturinn gæti fengið samþykki Bandaþjóðanna síðar meir, ef bæði ríkin héldu sættirnar vel. Mikillega rýrnaði vegur tvíveldisins gamla, þegar sættin var upp sögð. Ungverjaland gekk saman um tvo þriðju, Austurríki um nálega þrjá fjórðu, að flatarmáli, og helmingurinn af landi því, sem Austurríkismenn eiga eftir, eru fjöll og öræfi. Úr norðurhlutanum var myndað nýtt lýðveldi, Zecho-Slóvakía, en sumt af þeim héröðum gekk til Póllands. Rúmenía fékk væna sneið að austan. Ítalía fékk vestlægari suður-héröðin, en austurhlutinn bættist við Júgó-Slavíu, konungsríki nýtt, sem Serbar, Króatar, Svartfellingar og önnur fleiri frændþjóða-brot fengu steypt upp úr landeignum sínum á Balkanskaganum vestanverðum, að loknu stríði. Ekki var skiftingin óeðlileg í sjálfu sér. Þar var að mestu farið eftir þjóðerni íbúanna í hverju héraði; gömlum þjóðum gefið frelsi sitt aftur. En slæma útreið fékk Austurríki sérstaklega, því verður ekki neitað. Af því veldi var nú ekki annað eftir en lítið hérað fjöllótt, sem hvergi náði til sjávar, slitið úr gömlum tengslum á alla vegu; og borgin Vín, með tveim miljónum íbúa, þar innilukt — einangruð. — Reynt var að ráða nokkra bót á þessu, með því að heimila Austurríkismönnum, og eins Zecho-Slóvökum fyrir norðan þá, frjálsan aðgang að sjó með afurðir sínar yfir lönd Júgó-Slava. En ástandið í þeim hluta Norðurálfu batnar líklega aldrei til mikilla muna, fyr en ríkjaslitur þessi binda með sér verzlunarsamtök einhverskonar, því að ekkert þeirra má við einangruninni. Samherjar voru slíku samkomulagi meðmæltir; en ríkin réðu þeim sökum

sjálf, og sambúðin er enn ekki komin í það horf, að því er virðist, sem æskilegt hefði verið. — Önnur ákvæði hlaut Austurríki svipuð og Þýzkaland. Inntekning í Þjóðabandalagið ekki leyfð í bráðina. Herinn skyldi takmarkaður; fésektir átti skaðabótanefndin að ákveða síðar, eftir gjaldþoli ríkisins. Fyrirmæli þessi líktust bitru háði fremur en alvöruorðum, eins og sakir stóðu.

Af bandaþjóðum Þýzkalands munu Búlgarar hafa orðið fyrir einna minstu skakkafalli. Að sjálfsögðu þurftu þeir að minka herinn og láta af hendi vígasnekkjur fáeinar, sem þeir áttu. Var þeim einnig skipað að borga Serbíu kolabirgðir, sem þeir höfðu tekið þaðan, og gjalda á 30 árum 450 milljónir dollara í skaðabætur. Og héraðið Dobrudja, sem þeir ætluðu sér í sigurlaun, hefði öðruvísi farið, lenti hjá Rúmenum. En lítið eitt mistu þeir af löndum sínum. Júgó-Slavar fengu litlar sneiðir að vestan, en Grikkir Vestur-Þrakíu, strandlengju Búlgara við Grikklandshaf. Wilson hafði barist fyrir því, að Búlgarar fengju hafnarhlunnindi einhver við flóann, og var þeim að lokum veitt loforð um frjálsan flutning afurða sinna yfir lönd Grikkja niður að sjó.

Um Tyrki fór öðruvísi. Þeir voru, eins og allir vita, lítt hæfir til yfirdrotnunar yfir öðrum þjóðflokkum. Stjórnarfar þeirra hafði leitt af sér sífeld vandræði og tíðar óeirðir í Austur-Evrópu. Tökin, sem þeir höfðu á sundunum milli Svartahafs og Grikklandsflóa, voru mörgum hvimleið. Þráðu því flestir siðaðir menn, að þessi grein lastanna yrði nú burt sniðin eitt skifti fyrir öll. En það var hægara sagt en gert, því að landshættir voru margbrotnir og þjóðablendingur mikill í löndum Tyrkja. Eftir langt málastapp rituðu þó Tyrkir undir rækilegan landhreinsunar-sáttmála í þorpinu Sevres, miðja vega milli Parísar og Versala, 10. ágúst 1920. Héldu þeir engum löndum eftir nema meirihluta Litlu-Asíu. Grikkland átti að fá Austur-Þrakíu, borgina Smyrna á vesturströnd Litlu-Asíu og landspildu litla með. Armeníu var gefið frelsi, svo og strandlengjunni arabísku austan við Rauðahaf. Bretar slógu "vernd" sinni á Egyptaland, og tóku að sér Gyðingaland og Mesopotamíu í umboði Þjóðabandalagsins. Samskonar umboð fengu Frakkar yfir Sýrlandi. Eitt hvað var þó lauslegt við sáttmálann þegar í stað; landamæri flest óákveðin. Bretar og Frakkar voru ekki sem bezt á eitt sáttir um friðarkjörin. Tyrkir sár-óánægðir, ekki aðeins út af landamissinum, heldur og yfir öðrum skilyrðum, sem þeir töldu bæði ófrjálsleg og niðrandi. Sögðust ekki fá að hreyfa hönd eða fót, jafnvel í verzlunarsökum, nema með leyfi Samherja. Og kæran var ekki með öllu ástæðulaus.

Deilan út af Fiume, milli Ítala og Júgó-Slava, varð bæði löng og bitur. Þar í gegn var leiðin til sjávar hentugust, bæði fyrir norðurhluta Júgó-Slavíu, og eins norðan úr Austurríki og héröðunum þar norður af. Wilson veitti Júgó-Slövum í málinu, en Ítalir voru þungir fyrir. Loksins, þegar bilbugur fanst á stjórninni, tók skáldið og æfintýramaðurinn ítalski, Gabriele D'Annunzio, upp á því, að hann safnaði liði á eigin ábyrgð og bjóst til að verja Júgó-Slövum borgina, eða hverjum öðrum, er taka vildi þann feng frá Ítalíu. Sat hann þar lengi með lið sitt. Það var ekki fyr en í nóvember árið 1920, að sættir tókust, og varð það að samkomulagi, sem Wilson hafði áður lagt til, að borgin var gerð að frjálsu smáríki undir vernd alþjóða. Júgó-Slavar fengu þar rétt til hafnar; en Ítalir höfðu eftir flotastöðvar nægar í Adríahafi.

Hér hefir þá verið skýrt frá megindráttum í friðargerðinni. Varla verður því neitað, að gullaldarbragur varð miklu minni á öllum gerðum Parísar-þingsins, heldur en margir höfðu búist við. Og mikil hafa vonbrigðin orðið í viðburðarásinni síðan. Wilson beið ósigur með friðarstefnu sína, þegar heim kom. Lodge og þeir félagar fengust ekki til að samþykkja sáttmála Þjóðabandalagsins óbreyttan. Fjórtán varnagla vildu þeir reka í reglugerðina á ýmsum stöðum, en Wilson gat ekki fallist á þær umbætur, enda náði ekki friðarsamningurinn staðfestingu senatsins — hvorki með breytingum þessum, né með öðrum vægari, sem Wilson gat fallist á, né breytingalaus. Hvernig

sem málinu var undið við, og hvað sem reynt var til miðlunar, þá fengust aldrei tveir þriðju atkvæða með nokkurri tillögunni. Í september tókst Wilon ferð á hendur um vesturríkin, til að tryggja sér fylgi þjóðarinnar, með ræðuhöldum; en hann veiktist í þeirri för, og hefir ekki náð sér síðan. Friðarsamningurinn náði aldrei staðfestingu né sáttmáli Þjóðabandalagsins, og ekki heldur varnar-samningurinn, sem Wilson hét Frökkum að leggja fyrir senatið. Bandaríkin því einangruð í heimsmálunum síðan..

Skaðabótakrafan á hendur Þjóðverjum hefir valdið miklu þrefi síðan. Málið er alt í óreiðu. Fésektin, sem þeim var dæmd, skiftir tugum biljóna, þótt búið sé víst tvívegis að endurskoða málið, og krafan hafi verið lækkuð og skilmálunum víxlað til á ýmsan hátt. Frakkar ganga hart eftir, enda var skaðinn ákaflegur, sem þeir urðu fyrir. En Þjóðverjar fara undan í flæmingi og hafa lítið sem ekkert borgað. Bera þeir það fyrir, að krafan sé svo gífurleg, að þeir muni aldrei geta risið undir skuldinni. Sama segja margir hagfróðir menn meðal Samherja, einkum á Englandi. Alt í óvissu um endalyktirnar. — Austurríki er nú með öllu hjálparlaust fjárhagslega, svo að Samherjar urðu að taka þar við stjórn, eftir beiðni landsmanna sjálfra. Tyrkir og Grikkir komust í hár saman út af Sevres-samningunum; sú sáttagerð er nú uppleyst, og ófriðlegt austur þar í meira lagi. Viðsjár víða með ríkjum. Nábúakritur miklu meiri en áður. Sagt er, að varla séu nú nokkursstaðar landamerki í Norðurálfu, sem ekki sé deilt um. Þjóðir margar gjaldþrota. Drungi yfir öllu viðskiftalífi. Stéttarígur mikill átti sér stað fyrstu tvö árin eftir styrjöldina; auðmenn og vinnulýður keptust um að ná undirtökunum. Verkföllin afarmörg á þeim árum, og biturleikinn ákaflegur. — Í einu orði sagt: vargöldin stendur enn yfir.

Hvar liggur sökin? Það er handhægt að skella skuldinni á Parísar-þingið, friðarsamningana, og jafnvel á Wilson forseta. Satt er það, að friðargerðin var ófullkomin í mörgum greinum. Ekki var hún þó eintóm samanhangandi keðja af sviknum loforðum, eins og sumir halda fram. Að undanteknum tveimur atriðum fer sættin, að meginmáli til, hvergi í berhögg við fjórtán greinar Wilsons. Og þessi tvö atriði — liðurinn um frjálsa sigling, og sá um skaðabæturnar — voru með skýrum orðum undanskilin, þegar Bretar og Frakkar sömdu um vopnahléð við Þjóðverja. Þar voru því engin svik. En hitt er þó hverju orði sannara, að samningarnir í heild sinni hafa ekki komið að því gagni, sem vonast var eftir. Það sýna meðal annars landamerkjaþræturnar. Í Norðurálfu er ákaflega erfitt að skifta löndum eftir þjóðerni, glundroðinn svo mikill á hverjum landamærum. Þar við bætist, að hver þjóð út af fyrir sig vildi fá merkin sett þar, sem bezt var að koma vörnum við í ófriði. — Þar sjá menn hugarástandið, sem náð hefir að setja sitt ættarmót á allan friðinn. Og engin furða, þótt stirðleikar séu enn miklir milli ríkja og þjóða í þessum hluta heimsins.

Svo er strangleikinn. Samningarnir líta út eins og refsidómar. Auðvitað unnu herjarlarnir til hegningar, og ekki verður því neitað heldur, að þjóðin þýzka var altof leiðitöm, og að hún lét vígstefnuna ráða, þangað til öll sigurvon var úti. Betrunin var altof svipuð því, sem kalla mætti, að iðrast eftir dauðann. Þetta skal alt játað. En þó hefði mátt gefa nýju lýðstjórninni betra færi á að losast undan bölvunararfi gamla hervaldsins, heldur en gert var. Gefa stærri og fleiri loforð um ívilnanir, til dæmis bundnar við það, að sættin væri haldin; veita þjóðunum, sem undir urðu, eitthvert hugþekkara framtíðar-útsýni, heldur en hegningarþrælkun margra kynslóða. Mennirnir hafa aldrei kunnað að hegna. Þeir hafa jafnan hitt sjálfa sig fyrir, þegar þeir ætluðu að reka réttar síns rækilega. Og glæpurinn, sem framinn var sumarið 1914, var svo hræðilegur, að þjóðirnar geta aldrei látið koma þar næga hegning fyrir. Kunna það ekki. Sé miðað við verknaðinn, þá kemst þar engin refsing að, nógu stór, að því er virðist, svo að hún þá ekki stofni öllum heiminum í voða, og hitti bæði sekan og

saklausan. "Mín er hefndin, eg mun endurgjalda," segir sá, sem einn kann að setja réttlátan dóm, og um leið heillavænlegan, fyrir slíkar misgerðir. Sá sannleikur hefði mátt ráða meiru um friðarskilyrðin, heldur en raun varð á.

En við hverju var að búast? Styrjöld er varla heppilegur tími til að betra heiminn. Hún getur verið hentug á sína vísu, til skurðlækningar. En græðslan, þroskunin, sönn framför og uppbygging, heyrir til friðaröldinni. Gamalt máltæki segir, að blóðnæturnar séu hverjum bráðastar. Þær voru ekki liðnar, þegar Parísar-þingið samdi friðinn. Ódæðin voru í fersku minni, undirnar opnar; fyrir því varð útkoman öll önnur en margir bjuggust við. Það er herfileg mótsögn, að ætla sér að láta endurminningarnar um misgerðirnar verða eins og grundvallaratriðið í sættinni. Hvernig á að semja góðan og traustan frið með því móti? En einmitt sú minning var rituð feitum stöfum á flest eða öll samningaskjölin í París.

En hvað um Wilson? Hann gerði auðvitað ýmiskonar glappaskot. Sérstaklega hefði hann átt að tryggja sér fylgi meirihlutans í senatinu, áður en hann sigldi til Norðurálfu. Samvinna var að vísu al-ómöguleg með honum og þeim senatorum, er öflugastir voru, í þjóðabandalags-málinu; en hugmyndin átti sér í fyrstu svo marga vini þar, að nægur meirihluti hefði staðið með Wilson og staðfest gerðir hans, ef samkomulags hefði verið leitað fyrirfram. Að öðru leyti verður ekki annað sagt, en að Wilson hafi barist vel og hraustlega fyrir sinni stefnu, sérstaklega í París. Strangur þykir friðurinn, sem þar var saminn, en harðneskjulegri hefði hann orðið, eins og áður er sýnt, hefði Wilson látið undan. Margt af því, sem gott er og heillavænlegt í þeim samningum, er beinlínis honum að þakka.

En einu megum vér ekki gleyma. Hverki einstakir menn né fulltrúaþing né stjórnir, gátu lagt heiminum það lið, sem þurfti. Og svo er enn. Þar dugar ekkert nema eindreginn og staðfastur vilji heilla þjóða. Engar samþyktir duga eða ráðstafanir, út af fyrir sig. Þjóðabandalagið er annaðhvort mikil umbót eða leikfang, al-ónýtt og einkis vert, alt eftir því sem þjóðirnar, almenningur í löndum þeim, er hlut eiga að máli, vilja vera láta. Sama má segja um öll friðarmálin. Vilji þjóðirnar eitthvað verulegt á sig leggja fyrir friðinn þótt ekki væri nema helmingur á við það, sem þær áður lögðu í sölurnar til að vinna sigurinn, þá er heiminum borgið. Annars ekki.

Margt hefir ömurlega mistekist, en eitt tókst þó mætavel á endanum. Hervaldið þýzka var brotið á bak aftur. Víga-andinn, með allri sinn slægð og hörku, með öllum þeim morðvélum, sem hægt var upp að hugsa, varð þó að lokum sigraður, þegar frelsishugur og réttlætistilfinning þjóðanna, fólksins, reis upp á móti honum. Sigurinn sýndi það og sannaði, að enn hefir ekki fundist neitt það afl mannlegt, er sterkara er en samvizkan, þótt hún virðist oft og tíðum ömurlega óratvís og sein á sér. — En þenna aðal-ávinning eigum vér ekki friðarþinginu að þakka, heldur mönnum þeim, sem börðust og dóu í skotgröfunum.



# Eftirmáli.

Þrátt fyrir sérstakan formála framan við bók þessa, finst nefnd þeirra kvenna, er stendur fyrir útgáfunni ekki illa við eiga, að bæta hér við örfáum orðum.

Árum saman höfum vér nú unnið að þessari bók, en því verki mundi enn ólokið, ef vér hefðum ekki notið mikilla og mikilsverðar hjálpar. Viljum vér nú að loknu starfi leyfa oss að þakka innilega öllum þeim mörgu körlum og konum, sem veitt hafa oss stuðning í þessu verki, oft með mikilli fyrirhöfn, góðvild og samúð. Alt þetta vildum vér lengi muna, en gleyma öllum andróðri, sem vér því miður höfum mætt einstaka sinnum. Í formálanum er greinilega skýrt frá hvernig bók þessi er til orðin og hverjir hafa aðallega að henni unnið. En höfundur formálans, séra Rögnvaldur Pétursson, sem þar er að litlu, eða engu getið, er einmitt sá, er manna mest, hefir fyrir oss unnið að þessu verki. Munum vér ekki hér skýra frá því nákvæmar, en oss er ánægja, að kannast við hans mikklu hjálp, og þakka hana kærlega.

Jóns Sigurðssonar félagið hóf það starf, sem hér er nú endað, með þeirri hugsun og von, að því yrði alment vel tekið meðal Vestur-Íslendinga, sú von hefir verið styrkur vor allan þann tíma, sem vér höfum að þessu unnið. Ef oss hefir auðnast að gera bók þessa svo úr garði, að hún vinni sér vinsældir og eigi þær skilið, þá er starf vort vel borgað, og vér æskjum ekki frekari launa.

Winnipeg, í marz 1923.

**Útgáfunefndin.**

# Efnisyfirlit.

